# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

---

# ÍSLENZKT FORNBRÈFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA

BRÈF OG GJÖRNÍNGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

## ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.

---

GEFIÐ ÚT

AF

## HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

FYRSTA BINDI

**834—1264.**

---

**KAUPMANNAHÖFN.**

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

1857—76.

# Formáli.

Skrár, brèf og skjöl eru, eins og allir vita, hinn vissasti og áreiðanlegasti grundvöllr sögunnar í hverju landi sem er. Sögurit eða annálar eru vottar á aðra hönd, eða þó stundum fjær, en brèfin eru vottar frá fyrstu hendi, eða frá hendi sjálfra þeirra, sem ritað hafa. Vèr sjánm og, að söguritarar á Íslandi hafa snemma tekið brèfin til sönnunar sínu máli. Í sögum biskupanna, t. d. Guðmundar Arasonar á Hólum og Árna Þorlákssonar í Skálholti, í Sturlúnga sögu og víðar finnum vèr, að söguritarar hafa hagnýtt sèr brèfin og byggt á þeim sögu sína. Það leggr sig þessvegna sjálft, vegna þess að forn brèf og allskonar ritaðar skrár og skjöl eru ekki einúngis mjög merkileg, heldr og opt á hinn bóginn undirorpin eyðileggíngu og hastarlegu tjóni, ef þeim verður ekki bjargað í tíma, að hin mesta nauðsyn er að halda þeim við og gæta þeirra sem bezt verðr auðið og mögulegt er, en það verðr með engu betr en með því, að koma þeim á prent.

Efni í íslenzkt Fornbrèfasafn af skrám og skjölum, sem tæki yfir hið eldra tímabil, allt til 1600, þó ekki væri meira, er býsna mikið, og meira en margr skyldi trúa; því þó fjarska mart sè týnt, þá er þó svo mikið eptir, að það væri sá fjársjóðr fyrir sögu lands vors, sem seint mundi tæmdr verða. Og eigi síðr finnum vèr þar lifandi mynd málsins í ritum um lángan aldr, en þetta er því merkilegra, sem nágrannaþjóðir vorar hafa annaðhvort ritað mest af skjölum sínum og brèfum, eins og bækrnar, á útlendu máli, Latínu, eða með eptirstælíngu Latínumáls; en forfeðr vorir á Íslandi mynduðu sèr bók-

mál og rithátt jafnskjótt og þeir tóku að semja bækr, og færðu þetta bókmál út smásaman frá kvæðum, lögum og ættfræði til helgra þýðínga og síðan til sagnarita, rímrita og stjörnufræði og margs annars fróðleiks. Það má ráða af hinum elztu ritum hjá oss, að menn hafa samið rithátt sinn að dæmum enskra manna, og fundið til breytíngar þær sem þurfti[1]; má og sjá merki þess, að þegar á tólftu öld hefir bókfræðislegr lærdómr og mentun verið komin að tiltölu á hátt stig á voru landi, sem oss þykir mega ráða af því, að um fyrra hluta tólftu aldar voru tveir af biskupunum í Noregi Íslendíngar, og voru þar þó ekki nema fjórir biskupar alls[2]. Þetta mundi varla hafa átt sèr stað, ef Íslendíngar hefði ekki haft meira álit á sèr fyrir lærdóm og bókfræði heldr en Noregsmenn, og það hjá Noregsmönnum sjálfum. Á ritum Þjóðreks múnks í Noregi og Saxa klerks í Danmörku má sjá, að Íslendíngar hafa um þessar mundir haft mikið orð á sèr fyrir sagnafróðleik og bókmentir. Á tólftu og þrettándu öld má finna ekki allfá rök til, að samband og samskipti hafa verið mikil með þjóðlegri bókfræði Íslendínga og Noregsmanna, en þegar fram í sókti tók að skilja leiðir, og Norðmenn að komast meira og meira á brautir Suðrmanna, og enda draga Íslendínga með sèr, þegar kom að riddara sögum, helgra manna sögum og þesskonar fræðum. En brèf og skrár hèldu sèr eigi að síðr, að mestu leyti með ummerkjum, og það svo, að á fimtándu og sextándu öld, þegar Þýðverska streymdi sem óðast inn á Dani og Danskan inn á Noreg, og kaffærði svo þjóðerni Norðmanna, að þeir skildu ekki framar sín hin fornu rit og urðu að fara að snúa þeim á Dönsku, þá sömdu menn á Íslandi brèf sín og aðrar skrár, dóma, máldaga og sèrhvað eina, ekki að nefna sögur og kvæði, á sínu máli eptir fornum sið, með þeim einum breytíngum, sem tíminn leiddi með sèr. En á sextándu öld komu hinar prentuðu bækr

[1]) Ritgjörð frá tólftu öld „Um stafrofið" skýrir frá þessu greinilega; hún er prentuð með Snorra-Eddu (SE. II, 10—12).

[2]) Ísl. fornbrèfas. I, 205.

og þær allar á Íslenzku hjá oss, sem hèldu málinu föstu mestöllu og auðguðu það að sumu leyti, en í Noregi komu flestar bækrnar frá Danmörku og á Dönsku. Og þetta sýndist vera byggt á eðli málsins sjálfs, eins og þá var komið, því það var ómaksminna, að fá bækrnar prentaðar á Dönsku frá Danmörk eða Þýzkalandi, þegar bókmálið var orðið hið sama og í Danmörku. Þessvegna var ekki prentsmiðja stofnuð í Noregi fyr en rúmum hundrað árum síðar en í Danmörku, þar sem á Íslandi var prentsmiðja sett ekki meira en fjörutíu árum síðar, og þó bækr væri prentaðar í Danmörk eða Þýzkalandi á fyrstu árunum, voru þær þó prentaðar á Íslenzku eigi að síðr.

Efni í íslenzkt fornbrèfasafn er harla mikið, og verðr ekki til fullnustu saman tínt öðar en smásaman fellr; en þó er aðal-uppspretta sú, sem mesta má telja og auðugasta, einkum fyrir hina eldri tíma og fram undir lok seytjándu aldar, Safn Árna Magnússonar í bókhlöðu háskólans í Kaupmannahöfn. Þar er til fjöldi frumritaðra íslenzkra brèfa, og þó enn fleiri í afskriptum, sem Árni hefir flestum safnað, eða látið safna, og borið saman með mikilli nákvæmni. Þar með eru margar fornar bækur á skinni, sem eru á forn lög, bæði kirkjulög og veraldleg lög, og þarmeð stór söfn af rèttarbótum, biskupa statútum og allskonar öðrum skrám, harðla merkilegum og þýðíngarmiklum í sögu landsins. Frá síðari tímum finnst þar fjöldi af brèfabókum og brèfasöfnum, rituðum í bækr, og eru mörg þau brèf skrifuð eptir týndum frumritum, eða þau eru sjálf frumbrèfa ígildi. Í söfnum þeim, sem eru í bókhlöðu háskólans, og tengd við Árna Magnússonar safn, svosem er viðlagssafnið (*Additamenta*), handrit Magnúsar Stephensens úr Viðey, handrit eptir Stephán Eiríksson, Krieger stiptamtmann o. fl., eru ekki allfá handrit sömu tegundar, þó ekki sè forn, og eru merkileg að því leyti, að þau hafa sumt, sem ekki finnst annarstaðar, og sumt gott til samanburðar, sumt jafnvel ókunnugt annarstaðar frá. — Í bókhlöðu konúngs hinni miklu, og í söfnum þeim, sem þartil heyra, er stórmikið efni að finna. Þar er helzt „hið forna konúnglega safn", eða safn þeirra hand-

rita, sem voru komin í bókhlöðuna fyrir 1780; þar næst „hið nýja konúnglega safn", sem hefir að stofni handritasafn Suhms, hins merka sagnafræðíngs og ritsafnara, og annað fleira, sem þar hefir við bætzt; enn fremr safn Otto Thotts greifa, nafnfrægt á sínum tíma að stærð og fjölfræði, og enn önnur smásöfn, svosem Uldalls o. fl. Öll þessi handritasöfn í bókhlöðu konúngs hafa að geyma íslenzk handrit, eða slík handrit, sem hafa skjöl eða skrár viðvíkjandi Íslandi eða skýríngar um þesskonar skrár. Auk þess er þar og mikið af lausum skjölum, sem heyra íslenzku fornbrèfasafni til. — Af hinum eiginlegu skjalasöfnum stjórnarinnar má geta ymsra, fyrst og fremst er þar ríkisskjala söfnin, og má telja þar einkum til hinna fornu tíma leyndarskjalasafnið, sem hefir ekki fátt af skrám og skjölum, er Ísland snerta; þá er hið forna kansellíis skjalasafn og rentukammersins, og nú skjalasafn hins íslenzka stjórnarráðs, sem vonanda er að dragi til sín smásaman skjöl þau, er Ísland snerta, ekki einúngis þau, sem hin íslenzka stjórnardeild hefir geymd, heldur og einnig öll þau, sem geymd hafa verið í skjalasöfnum stjórnarráðanna.

Á Íslandi er svo mikið efni til fornbrèfasafns, að fullyrða má að það komist næst því, sem nýlega var talið í Danmörku, og meira að segja, að sá er munrinn, að í Danmörku veit maðr hèrumbil hvað til er, en á Íslandi veit það enginn. Efnið er tvennskonar, annað er það, sem geymt er í bókhlöðu landsins eða stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, og í skjalasöfnum embættismanna, einkum biskupsins, en annað er það, sem geymt er í söfnum einstakra manna. Safnið í stiptsbókhlöðunni er mest megnis það, sem Hannes biskup átti fyrst og þeir lángfeðgar, sira Jón Halldórsson í Hítardal og Finnr biskup, en eptir Hannes fèkk það Steingrímr biskup, og jók það enn nokkuð. Eptir lát hans var það keypt handa stiptsbókhlöðunni, eptir úrskurði Kristjáns konúngs áttunda; má telja það með velgjörníngum hans við Ísland, að þetta safn hèlzt saman, því hefði það dreifzt og farið forgörðum, hefði það verið bókmentum vorum til mikils skaða, og ekki sízt forn-

brèfasafninu, því þar eru einhver hin merkustu og sjaldgæfustu handrit af brèfasöfnum, sem nú eru til; en velgjörníngr Kristjáns konúngs varð oss að tvöföldu láni með því, að hinn ágæti fróðleiksmaðr Páll stúdent Pálsson lagði svo mikla alúð og rækt við safn þetta, bæði landsins vegna og hins fyrra eiganda, að hann hefir með óþreytanlegum áhuga og þolgæði gengið það í gegn blað fyrir blað og bundið það allt og sett í lag, svo það er nú orðið öllum aðgengilegt. — Annað er það safn á Íslandi, sem er í fremstu röð í þessari grein, og það er skjalasafn biskupsdæmisins. Þar eru geymd hin fornu frumrituðu brèf frá Skálholti og Hólum, þau sem enn eru til, þar að auki afskriptir brèfa í stórum bókum, nokkrar frumritaðar brèfabækr biskupanna, og visitazíubækr, máldagabækr kirknanna, sumar í frumriti (rekaskrá Hólastaðar, Sigurðar registr) en sumar í afskriptum. Þar mun og nú vera geymdr Reykholts máldagi, sem er að nokkrum hluta hin elzta frumrituð skrá, sem menn vita nú til vera á Íslandi, eða á íslenzka túngu rituð.

Enn má telja skjalasafn stiptamtmannanna, og máske fleiri af skjalasöfnum embættismanna, ekki að nefna handritasöfn einstakra manna, sem án efa munu hafa meira eða minna af skrám og brèfum. Þess má og geta, að á stöku stöðum fylgja forn brèf kirkjum og einstökum jörðum, og hittast rètt sem að hendíngu. Með Íslands söfnum má og telja handritasafn Bókmentafèlagsins, bæði í Reykjavík og í Kaupmannahöfn. Þar eru ekki allfáar brèfabækr og dómabækr, og yms önnur handrit, sem geta komið fornbrèfasafninu til nota.

Í útlendum söfnum handrita og skjala hittast ekki óvíða íslenzk rit, sem eiga inní fornbrèfasafn vort. Slík handrit eru að finna í Kristjaníu í Noregi, í Stokkhólmi og Uppsölum í Svíþjóð, í Lundúnum, Oxford og Edínaborg á Stóra Bretlandi, og víðar ef til vill; enn fremr í Parísarborg, í Vatikansafninu í Rómaborg, sem er skjalasafn páfanna, í ymsum stöðum á Norður-Þýzkalandi, í München í safni Konráðs Maurers og víðar, sem ekki verður hæglega talið. Sumt kemr smásaman í ljós í prentuðum

brèfasöfnum ymsra landa eða borga, og verðr með því móti á vegi fyrir oss, en af sumu fáum vèr að frètta af hendíngu og sumu ekki.

Auk þess, sem getið er um einstök brèf og söfn af þeim, þá eru einnig til önnur, sem eru nokkuð öðruvísi löguð, en þó samkynja að sumu leyti. Það eru máldagar biskupanna, sem eru að einu leytinu einstök brèf fyrir hverja kirkju, útgefin af biskupinum við vígslu kirkjunnar eða við skoðun hennar, en að öðru leytinu eru máldagar hvers biskups, svosem bók sèrílagi, eins og visitatiu-bækr biskupanna á síðari tímum, sem eru einskonar framhald máldaganna. Þó mart sè nú tapað af þessum máldögum, þá höfum vèr þó ekki allfáa einstaka máldaga, jafnvel frá hinum elztu tímum, sem koma í ljós í fyrsta bindi fornbrèfasafnsins, en síðan verða máldagasöfnin stærri og heillegri, og kann vera að þá yrði rèttara að skilja máldagana frá fornbrèfasafninu og láta prenta þá sèrílagi, einsog herra yfirdómari Jón Pètursson hefir byrjað á með Auðunnar máldaga í „Tímariti" sínu, en til útgáfu máldaganna þarf miklar rannsóknir og samanburð, ef hún ætti að verða áreiðanleg og nokkurnveginn fullkomin, eins og ráða má af þeim einstökum máldögum, sem koma í ljós í þessu bindi. Máldagasöfn þau, sem helzt eru í heild og gæti verið rèttara að gefa út sèrílagi, byrja fyrst eptir tíma Árna biskups Helgasonar, því af hinum fyrri er of mikið týnt til þess, að af þeim geti orðið mynduð nein heild. Það eru þessir máldagar úr Skálholts biskupsdæmi: Jóns Halldórssonar, sem árfæra mætti til 1325; Jóns Índriðasonar 1340; Jóns Sigurðarsonar, 1343; Gyrðs Ívarssonar 1350; Oddgeirs Þorsteinssonar frá 1370, eptir Hítardalsbók; Michaels frá 1384; Vilchins frá 1397; Sveins hins spaka, Pètrssonar, frá 1466; Stephåns Jónssonar frá 1490; Ögmundar Pálssonar frá 1525; Marteins Einarssonar frá 1553; Gísla Jónssonar frá 1575, og Odds biskups Einarssonar frá hèrumbil 1600. — En úr Hóla biskupsdæmi eru þessir: Auðunnar biskups rauða, Þorbergssonar, 1318; Jóns biskups skalla Eiríkssonar, 1360; Pètrs biskups Nikulássonar 1395; Jóns Vilhjálmssonar í brèfabók hans 1430; Ólafs Rögnvaldssonar 1460; Sigurðar Jónssonar biskups

Arasonar, officialis á Grenjaðarstað, sem hefir látið gjöra Sigurðar registr (1551). það mundi verða hægra til yfirlits, að taka saman í heild máldaga sèrhvers biskups.

Af brèfabókum, sem eru til í heild sinni og ætti ef til vill helzt að verða prentaðar sèrstaklega, eru þessar helztar að telja, að því er vèr vitum til: brefabók Jóns biskups Vilhjálmssonar á Hólum (1430—1440), og brèfabók Gizurar biskups Einarssonar í Skálholti (1540—1547). Úr brèfabók Ögmundar biskups má tína mart saman eptir afskriptum, sem Árni Magnússon hefir látið gjöra eptir frumritinu, og nú eru í safni hans og í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík. Brèfabók Ólafs biskups Rögnvaldssonar, Gottskálks biskups Nikulássonar, Jóns biskups Arasonar og Ólafs Hjaltasonar hafa verið til á tímum Guðbrands biskups, því hann hefir haft þær fyrir sèr, þegar hann ritaði bæklíngana til varnar fyrir afa sinn, Jón lögmann Sigmundarson; nú fyrir laungu er þeirra hvergi getið, og er hætt við þær sè undir lok liðnar. Af brèfabókum Guðbrands biskups má tína saman nokkuð, helzt í skjalasafni biskupsins og í Árna Magnússonar safni, en stórlega mikið og mestan þorra hlýtr að vanta. — Skylt þessu er safn af prestastefnu bókum, eða Synodus-ályktunum, sem eru til enn frá sextándu öld að mun. það er auðsætt á því, sem hèr er sagt, að mjög mikil þörf væri á að sèrhver, sem á kost á að sjá eða hafa handa á milli gömul handrit, legði alúð á að skygnast eptir með hinni mestu athygli, hvort ekkert fyndist af slíkum skjölum, blöðum eða bǫka brotum, svo það yrði frelsað frá tjóni ef auðið væri. Menn fást svo opt um það, að handrit og skjöl hafi verið flutt út úr landiuu og farizt með því móti, en gá ekki að því, sem þó er víst, að enn fleira hefir týnzt og tapazt í landinu sjálfu, og fjöldi íslenzkra handrita hefir einmitt frelsazt með því, að þau hafa komizt til annara landa. þar með vil eg þó enganveginn sagt hafa, að vèr eigum að bjarga ritum vorum fornum eða nýjum með því, að koma þeim út úr landinu. Miklu framar þyrfti að sjá við þesskonar tjóni í tíma, með því að velja hið bezta ráð, og hið bezta ráð til þess er að koma brèfunum á prent. Eg

leyfi mèr að ítreka það, sem eg sagði á ársfundi Bókmentafèlagsins 12. April 1856, og prentað er í „Skýrslum og reikníngum" fèlagsins fyrir það ár. Þar segir svo: „Þetta safn (Fornbrèfasafnið) gæti orðið mjög merkilegt og nytsamt í margan máta, ef landar vorir vildi styrkja til þess, bæði með því að gánga í fèlagið, og með því, að segja til skjala þeirra sem þeir þekkja, og senda annaðhvort til láns eða gjafar fèlaginu brèfabækr og máldagasöfn og þessháttar; með því móti mætti enn frelsa frá eyðileggíngu mörg brèf og skjöl, sem líklega verða annars að engu gagni. Þessu mætti vel við koma, ef menn vildi skrifa upp hver í sínu lagi, eða láta uppskrifa, yfirlit yfir hvað þeir eiga, eða og skjölin sjálf, og sendi síðan yfirlitið og frumritin fèlaginu, en hèldi afskriptum sínum eptir". Þessi tilmæli hafa að vísu borið nokkurn ávözt, sem kemr Fornbrèfasafninu í góðar þarfir, en þó er mikilla muna vant til þess, að það hafi hrifið að fullu.

Þegar fyrir liggr að safna fornbrèfum undir prentun, eru tveir vegir fyrir hendi. Annar er sá, að búa undir safnið að fullu og öllu áðr en prentað er; annar er sá, að taka holt og bolt, og láta prenta jafnóðum hvað fyrir verðr, einúngis að þess sè gætt, að halda tímaröðinni innan hvers bindis. Hvor vegrinn, sem tekinn er, hefir sína kosti og sína annmarka. Veli maðr þann veginn, að safna fyrst öllu, eða sem mestu, þá er sá vegrinn lengri til undirbúníngs, en hann er fullkomnari. Fari maðr hinn veginn, þá er hann fljótfarnari í bráð, en þá verðr ekki annað en hálfverk eða minna hvað gjört er, og verðr sá, sem ætlar að hafa safnsins not, að lesa sèr sjálfr til það sem þarf. Hèr hefir verið farið nokkurskonar meðalveg. Maðr hefir leitazt við, að fullgjöra safnið sem mest að mögulegt væri, áðr en farið væri að prenta og svo jafnframt. Til þess hafa verið rannsökuð öll þau söfn, sem fyrir hendi voru og að varð komizt, svo prentuð sem óprentuð, og búið til eptir þeim registr yfir öll þau brèf og skrár, sem fyrir hendi voru og umtalsmál var að taka í safn þetta. Hvert skjal er sett sèr á blað eptir tímaröð, með þeim athugasemdum, sem þurfa þykir. Þetta er gjört fyrir allt tímabilið, en þó einkum ná-

kvæmlegast fram til loka fjórtándu aldar, til ársins 1400, og þó mart af því, einkum fram til 1300, með skýríngum og samburði, sem nauðsynlegt er vegna þess, að margar skrár frá þrettándu öldinni eru í brèfabókum, og í blönduðum handritum, en finnast ekki í frumritum. Með þessari aðferð hyggjum vèr þó, að flest af skrám þeim, sem eru eldri en 1300, muni koma fram í svo hreinni mynd, sem þær er nú að fá, og að skýríngar þær, sem þeim fylgja, muni bæði sanna þetta og svo gjöra sjálfar skrárnar aðgengilegar og ljósar fyrir lesendum, þó þeir sè ekki lærðir eða kunnugir þesskonar ritum. Skýríngar þessar munu verða nauðsynlegar þartil þrettánda öld er á enda, en úr því munu þær að mestu leyti geta orðið felldar úr, svo að nægja megi að prentuð verði brèfin einúngis, eptir frumritunum eða þeim hinum beztu afskriptum sem fást kunna.

Safn þetta sjálft ber það með sèr, eptir hverju sèrhver einstök skrá eða brèf er prentað, og virðist ekki þörf að skýra nákvæmlegar frá því, en gjört er á hverjum stað, þar sem þau handrit eru nefnd í fyrsta sinn, sem hagnýtt eru. Þó er hèr sett framanvið yfirlit brèfanna, eða röð og efni þeirra, og sömuleiðis yfirlit yfir handrit þau, sem hafa verið hagnýtt við þetta fyrsta bindi Fornbrèfasafnsins; handritunum er raðað eptir töluröð, og er hægt að finna hver þessi handrit eru, sem hèr eru hagnýtt, og hvar þeirra er getið í bókinni. Það má ætla, að flestir muni vera samdóma um, að registr sè í mesta máta nauðsynlegt við slíka bók sem þessa, og til þess hefir verið varið mikilli fyrirhöfn, að gjöra það sem fyllst og greinilegast. Með því að fella saman í eitt registr nafna (manna og staða) og hluta var það tilgángrinn, að gjöra registrið sem einfaldast, svo að ekki þyrfti að leita nema á einum stað að því, sem í bókinni væri; en vera kann, að röðinni sè ekki allstaðar jafnt fylgt; þó er vonanda, að það valdi engri töluverðri villu.

Margar af skrám þeim, sem hèr koma fyrir sjónir, eru vandsènar að því leyti, að þær vantar ártal og dagsetníngar, og kann þá að virðast nokkuð óvíst, hvort rètt sè ályktað um tímann, sem þær eru heimfærðar til. Um það efni hefir verið

mjög nákvæmlega rannsakað, og eg ítreka mitt innilegt þakklæti fyrir þá aðstoð á ymsan veg, sem meistari Guðbrandr Vigfússon í Oxford hefir látið mèr í tè við þessar rannsóknir, eins og við undirbúníng safns þessa yfirhöfuð að tala meðan við vorum saman. Bæði hann og herra Eiríkr Magnússon og ymsir fleiri hafa sýnt mèr þar að auki þá góðvild, að senda afskriptir fornbrèfa, og votta eg þeim innilegar þakkir fyrir, en eigi síðr þeim, sem hafa annaðhvort með gjöfum sínum til Bókmentafèlagsins eða með öðru móti orðið til að auka og bæta safn þetta.

Eg hafði í fyrstu von um, að stjórnin mundi styrkja útgáfu þessa fornbrèfasafns til fullnustu, en svo hátt hefi eg þó ekki getað komizt. Eg hefi fengið um nokkur ár 400 rd. árlega, en þurfti og beiddi um 800; seinast urðu ymsar orsakir til þess, að þeir 400 rd. voru dregnir af. Eigi að síðr má eg þakka þenna styrk, því án hans hefði eg ekki getað unnið að verki þessu eins og eg þó hefi gjört, og hinu íslenzka Bókmentafèlagi á eg að þakka, að það hefir borið allan prentkostnaðinn. Hefði fèlagið haft meiri styrk landa vorra, og með því meiri efni, hefði það getað lagt meira til, og komið þar með meira verki áleiðis. En eigi að síðr má eg maklega þakka það sem af er, því ísinn er brotinn, og hægra viðfángs að halda áfram eptir því sem byrjað er og undir búið. Nú hefir þar að auki hið íslenzka stjórnarráð veitt fèlaginu 1000 krónur fyrir þetta ár til styrks af því fè, sem alþíng veitti í sumar er var til vísindalegra fyrirtækja, og með þessu móti hefi eg von um að safn þetta fái heppilegan framgáng.

Kaupmannahöfn 30. Marts 1876.

*Jón Sigurðsson,*
forseti Bókmentafèlagsdeildarinnar
í Kaupmannahöfn.

## Röð og efni brèfanna.

bls.

---

## Viðbætir.

# HANDRIT,

sem hagnýtt eru við **íslenzkt Fornbréfasafn**

I. Bindi.

---

## Bókhlaða háskólans í Kaupmannahöfn.

ÁRNA MAGNÚSSONAR SAFN:

Fol. Nr. 1 e β. (skinnb. 1300—1350), 503, 504.

— - 22 b. (papp. Advers. Hvitfeld.), 225.

— - 122 a. (skinnb. c. 1330: Sturlúnga), 324, 329, 332, 336, 339, 362, 539.

— - 259. }
— - 260. } papp. Vilchins máld. hönd sira Jóns Erlendss., 280, 319.

— - 263. papp. máldagabók, rituð 1598, 168, 250, 253—254, 256—257, 267, 269, 270, 275, 276, 280, 319, 392, 395, 396, 404—411, 413, 465, 489, 495—497, 506, 511.

— - 302. skinnb. 1280—1300. Borgarþings (Skíðuþings) lög, 647, 648, 649—650.

— - 304. skinnb. c. 1300. Gulaþingslög, 648.

— - 305. skinnb. c. 1300. Borgarþings lög, 647—648.

— - 307. skinnb. c. 1350. Gulaþings lög, 648.

— - 309. (skinnb. 1325). Eiðsifjalög, 557, 569, 648, 649.

— - 322. (skinnblað, eldra en 1350): 554, 555.

— - 334. (skinnb. c. 1275 [1271—1273?]: Staðarhólsbók af Grágás), 71, 72, 86—88, 308, 309, 312, 373—377, 379—383, 389, 391, 414, 415, 724.

— - 335 papp. afskr. af 334, 73.

— - 336. sömul. hönd Ásgeirs Jónssonar, 73.

— - 337. sömul. sama hönd, 73.

— - 340. sömul. hönd Jóns Magnússonar, 88.

— - 343. (skinnb. c. 1330), 563.

— - 344. (skinnb. c. 1350), 433, 437.

— - 345. (skinnb. c. 1570), 535, 651, 658.

— - 346. (skinnb. c. 1315—1330): Staðarfellsbók, 71, 72, 99—100, 563.

— - 347. (skinnb. c. 1370: Belgsdalsbók), 71, 72, 117—120, 235, 308, 311, 314, 316, 318, 382.

— - 350. skinnb. 1363: Skarðsbók, codex Scardensis, 433, 444—446, 559, 572, 651, 653—654.

## Bókhlaða konúngsins í Kaupmannahöfn:

GAMLE KGL. SAML.

NYE KGL. SAML.

Folio. Nr. 1265. papp., 624—625.
— - 1392. papp., 76.
Qvart. Nr. 1642. skinnb.: codex Tunsbergensis, 559.
— - 1924. skinnb. c. 1540, 651.
Oktav. Nr. 341. papp. 1656, 668, 715—716.

THOTTS SAFN Í KONÚNGS BÓKHLÖÐUNNI.

Folio. Nr. 657—658. papp.: Renners Brimakronika, 1, 16, 40.
Qvart. Nr. 2099. skinnb. c. 1581, 652, 668, 706—709.
— - 2100. skinnb. c. 1580, 668, 704—706.
— - 2101. skinnb. c. 1490, 668, 685—686.
— - 2114. papp., Tíundastatútan á Latínu, 83.
Oktav. Nr. 596. skinnb. c. 1580, 560.

## Hið konúnglega Leyndarskjalasafn
(*Geheime-Archiv*) í Kaupmannahöfn.

Brèf Marinus II. páfa, frumrit, 47—48.
Brèf Celestinus III. páfa, frumrit, 292.
Langebeks Diplomatarium, 207, 214, 225, 292, 296, 298, 598.

## Safn greifa Holsteins á Hleðruborg.

Skinnb. c. 1570 í 4to., 668, 697—699.
Skinnb. 1581 (1681?) í Fol., 697—699.

## Stiptsbókasafnið á Íslandi.

Handr. D. 12. 4to. papp. (Hann. Finnss. 68, rit. 1601). 167—169, 172, 178, 217, 249, 250, 251, 253, 255, 256, 264, 265—272, 274—278, 303, 354—355, 369, 371, 372, 392, 394—396, 401, 403, 409—411, 413, 416—422, 464—466, 469, 471, 592, 593, 595—597.
— D. 16. 4to. papp., brèfabók frá sira Jóni Halldórssyni í Hítardal, 491.

## Skjalasafn biskupsdæmisins á Íslandi.

Reykjaholts kirkju máldagi. frumrit, 279—280, 348—351, 466—480.
Frumbrèf frá Skálholti. Fasc. III, 15: 535.

## Bókhlaða Svía konúngs í Stokkhólmi.



## Bókhlaða háskólans í Uppsölum.



## Ýmisleg handrit.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

**1.** **15. Mai 834.** Aachen.

Hlöðver keisari, son Karlamagnúsar keisara, setr erkibiskupsstól í Hamborg, og leggr þar til góz og rèttindi.

Um brèf þetta hefir verið mikill ágreiníngr, þareð frumritið verðr ekki fundið, og halda margir það falsað. Afskriptum þess má skipta í þrjá aðalflokka, sem eg kalla hèr *A*, *B* og *C*. Er *A* talið grunsamast, en það er hèr tekið fyrst af því það snertir Ísland. *B* er haldið af flestum ótortryggilegast, en *C* er samsetníngr úr báðum, er þess því hèr að eins getið.

A.

Afskript af Brimakroniku, sem nær til 1583, eptir Johann Renner, í handritasafni Thotts í konúngsins mikla bókasafni í Kaupmannahöfn, Nr. 657—658 í Fol., rituð að sögn höfundarins eptir frumbrèfinu í Brimum, með gullnu innsigli (I. B. Thott. 657, bls. 25—31).

Prentað fyrst í: Arild Huitfeldts Danmarckis Rigis Krönnicke. Kh. 1603. 4to. I, 41—45 (ný útg. Kh. 1652. Fol. I, 22—24), og eptir því í: Pontanus Rerum Danicarum Historia. Amstelod. 1631. Fol., bls. 97—98, og í Pontoppidans Annales Ecclesiæ Danicæ Diplomatici. Copenh. 1741. 4to. I, 34—37.

Á Þýzkalaudi fyrst prentað í: Scriptores rerum Germanicarum, Septentrionalium &c., ed. Erpold. Lindenbrog. Francof. 1609. Fol. bls. 143—145 (ný útg. Jo. Alberti Fabricii. Hamb. 1706. Fol. bls. 125—126); og eptir Lindenbrog í mörgum bók-

um, svo sem í: Lambecii Origines Hamburgenses Lib. I. Hamb. 1652. 4to. bls. 121—127 (útg. Fabricii með Lindenbrog 1706. bls. 35—36). — Joh. Phil. à Vorburg. Historiarum vol. XI. Frankf. 1660. Fol. bls. 241—242. — Mag. Adam Hist. Eccles. ed. Mader. Helmstad. 1670. 4to. Append. bls. 179—184. — Paulini Theatrum illustrium virorum Corbeiæ Saxonicæ. Jenæ 1686. 4to. bls. 14—17. — Wilh. Ernst Tenzel. Vindiciæ pro Herm. Conringii censura diplomatis fictitii coenobii Lindaviensis. Append. bls. 25. — Arnkiel. Cimbrische Heyden-Bekehrung. Hamb. 1702. 4to. IV, 130—132 (útlegg. á þýzku sst. bls. 126—130). — Spegel. Skriftelige Bewis hörande til Swenska Kyrckiohistorien. Upsal. 1716. 4to. bls. 4—7. — Lünig. Teutsches Reichs-Archiv. Vol. XVI. Leipzig 1716. Fol. Anhang zu denen Erzstiftern. Bremen. bls. 67. — Goldast. Memoranda vetera Holsatica í Westphalens Monumenta inedita rerum Germanicarum. Lips. 1739. Fol. I, 885—892. — Upphaf og endir brèfsins í: Herm. Conring. Censura Diplomatis, quod Ludovico imperatori fert acceptum coenob. Lindaviens. (2. útg. 1723. 4. bls. 15—16). — Ágrip úr brèfinu í: J. Messenius. Scondia illustrata. Stockh. 1703. Fol. Tom. IX, bls. 6 (eptir Hvitfeldt); — Mabillon. Annales Ordinis S. Benedicti. Paris 1704. Fol. II, 565; — G. Schütze. Die Geschichte von Hamburg. Hamb. 1775. 4to. I, 116—120; — Grönlands historiske Mindesmærker III, 66—68. (Khavn 1838—1845. 8vo).

Önnur afskript, eptir fornri brèfabók frá Bamberg („Udalrici Babenbergensis") frá 1125, er prentuð í: Eccard. Corpus historicum medii ævi. Lipsiæ 1723. Fol. Tom. II, Nr. CXVIII. col. 105—108.

Þriðja afskript, eptir Vicelins bók, sem rituð er á tímabilinu frá 1070 til 1122[1]; þar eru á sögur Willehads, Anskars og Rimberts, og aptanvið þær sögur er brèf þetta og tvo önnur; úr þessari afskript er tekinn orðamunr í Lappenbergs Hamburgisches Urkundenbuch. Hamb. 1842. 4to. Nr. VIII. bls. 10—14.

Brèfs þessa er þar að auki getið í mörgum bókum, sumstaðar með tilvísan um, hvar það finnist prentað, t. a. m. í Georgisch, Regesta chronologico-diplomatica. Leipzig 1740. Fol. I, 90; — Hem-

1) Vicelinsbók hefir verið í Paderborn, og síðan í Abdinghof; sýnishorn af letrgjörð þeirrar bókar er í Pertz Monum. hist. German. Tom II, Tab. VIII ad pag. 777.

pels Niedersächs. Urkunden-Verzeichniss. Hannov. u. Leipzig 1785—86. Tom. I—III. Fol. — Raumers Regesta Historiæ Brandenburgensis. Berlin 1836. 4to. I, Nr. 77, bls. 20. — Regesta Diplomatica Historiæ Danicæ. Havn. 1847. 4to. I, 1—2.

Hèr er afskript þessi prentuð eptir Lindenbrog (*L*) og orðamunr tilfærðr eptir Renner (*R*), Hvitfeldt (*H*), Eccard (*U*), og Vicelins bók (*V*).

---

In nomine Domini[1] Dei et Saluatoris nostri Iesv Christi. Hludovvicus diuina [fauente et[2] propitiante[3] clementia Imperator Augustus.

Si specialibus cuiusque fidelium nostrorum[4] necessitatibus prospectius[5] subueniendum esse, Imperialis[6] auctoritas monstrat, quanto magis ad debitam generalitatis prouidentiam æquum [dignumque pertinet[7], vt[8] Ecclesiæ Catholicæ atque Apostolicæ, quam Christus pretioso sanguine[9] redemit, eamque nobis tuendam regendamque[10] commisit[11], piam ac sollicitam in cunctis oportet[12] gerere curam, et vt in eius profectu[13], vel exaltatione congruam exhibeamus diligentiam, nouis ad eius [necessitatem vel vtilitatem[14] atque dignitatem pertinentibus rebus, noua imo necessaria et vtilia prouideamus constituta[15]. Idcirco sanctæ Dei Ecclesiæ filiis præsentibus[16] et futuris certum esse volumus, qualiter diuina ordinante gratia nostris in diebus, Aquilonaribus in partibus, [in gentibus videlicet Danorum[17], [Suecorum, Norweon, Farriæ[18], Gronlandon, Hallingalandon, Islandon, Scre-

1) *sl. H; eptir því sem stendr í sýnishorni Renners af frumritinu virðist svo, sem hèr hafi verið ritað* eterni.

2) *frá [ sl. V.* 3) *frá [ sl. U;* divino favore et prop. clem., *H.*

4) nostris, *H.* 5) prospectus, *R;* perspectis, *U;* prospectiue, *H.*

6) temporalis, *H.* 7) *frá [* est, dignumque, *U.*

8) et, *b. v. R, H.* 9) suo, *b. v. U;* suo pret. sangv., *H.*

10) regendam tuendamque, *H.* 11) dedit, *R.*

12) nos oporteat, *U.* 13) *U, H;* prospectu, *L, R.*

14) *frá [* utilit. vel nec., *U.* 15) instituta, *U, H.*

16) scilicet, *b. v. U, H.*

17) *frá [* scilicet in gentibus, videlicet Dan., *H; Pontan:* aquil. in partibus scilicet, ingentibus, Danorum *o. s. frv.*

18) *þannig leiðrètt, eptir því sem annars er venjulegt í þeim brèfum sem telja nöfn þessi; L og aðrir sem fylgja honum hafa:* terræ Gronl., *og mun það vera ritvilla eða prentvilla.*

deuindon[1], et omnium Septentrionalium [et Orientalium[2] Nationum magnum cælestis gratia[3] prædicationis siue adquisitionis patefecit ostium[4]. Ita vt multitudo hinc inde ad fidem Christi conuersa, mysteria cælestia, Ecclesiasticaque subsidia desiderabiliter expeteret. Vnde Domino Deo nostro laudes immensas persoluentes extollimus, qui nostris temporibus et studiis sanctam ecclesiam, sponsam videlicet suam, [in locis[5] ignotis [sinit dilatari[6] atque proficere[7]. Quamobrem vna cum sacerdotibus cæterisque Imperii nostri fidelibus hanc Deo dignam cernentes causam valde necessariam, atque futuræ Ecclesiæ dignitati[8] proficuam, dignum duximus, vt locum aptum nostris in finibus euidentius eligeremus, vbi sedem Archiepiscopalem, per hoc nostræ auctoritatis præceptum statueremus, vnde omnes illæ barbaræ nationes æternæ vitæ pabulum facilius [vberiusque capere valerent, et sitientes salutis gratiam[9] præ manibus vel oculis haberent,

---

1) *frá [* Gronlandan, Islandan, *U;* Sueonum, Norvagorum, Farriæ, Gronlandorum, Helsinglandorum, Islandorum, Scrikfindorum, *H;* Sueonum, Noruueorum, Farne, Gronlondan, Islondan, Scridevindan, *V.*

2) *frá [ sl. U.*    3) gratiæ, *H.*

4) *í sögu hins heilaga Rimberts erkibiskups, sem rituð er á tíma eptirrennara hans, Aðalgeirs erkibiskups* (888—909), *standa nokkur orð, sem eru áþekk því sem stendr í bréfi þessu, og eru þannig:* Cap. I. Cum Imperator Hludowicus regni Francorum monarchiam teneret, . . . . subintravit etiam memoria, qualiter serenissimus pater suus Karolus, cognomento magnus, gentem Saxonum eotenus infidelem ad fidem Christi converterit, et usque adhuc ordinatis per ipsam provinciam sufficienti numero episcopis et sedibus eorum provide distributis, extremam ad plagam aquilonarem ejusdem provinciæ partem ad hoc reservaverit, ut ibidem archiepiscopalis construeretur sedes, unde prædicatio verbi Dei finitimis fieret populis, Sueonum, Danorum, Norweorum, Farriae, Gronlandan, Islandan, Scridivindan, Slavorum, nec non omnium septentrionalium et orientalium nacionum, quocunque modo nominatarum, qui paganicis adhuc erroribus involvuntur. Pertz. Monumenta Germaniæ, II, 764—765. — *þetta er eptir Vicelins bók og fleirum handritum þýzkum, en aðrir hafa haldið að þessi orð væri sett inn síðar og fölsuð, og segjast hafa fundið þetta öðruvísi orðað í handritum á Frakklandi.* Henschen og Bolland. Acta Sanctorum. Febr. I, 559—560, *sbr.* Langebeks Scriptores Rerum Danicarum. Hafn. 1773. Fol. II, 126. *sbr.* I, 451. *athgr.* z.

5) *frá [* locis in, *R, U.*    6) *frá [* scivit delitari, *R.*

7) profiteri, *H;* prospicere, *V.*  8) dignitate, *R.*  9) *frá [ fellt úr í R.*

insuper et magnorum progenitorum nostrorum[1] sacra lucraudi studia nostris in diebus nunquam deficerent. Progenitor etenim[2] noster gloriosæ memoriæ Karvlvs omnem Saxoniam Ecclesiasticæ religioni subdidit, iugumque Christi adusque[3] terminos Danorum atque Slauorum corda ferocia ferro[4] perdomans[5] docuit, vbi[6] inter has vtrasque gentes Danorum siue Winedorum[7] vltimam Saxonię partem sitam[8] et[9] diuersis periculis, temporalibus videlicet et spiritualibus[10], interiacentem perspiciens[11], [Pontificalem ibidem sedem fieri[12] decreuit [trans Albiam[13]. Vnde postquam terram Transalbianorum[14] laxata captiuitate, quam ob multam perfidiam [in ipsis[15] Christianitatis initiis patratam per septenuium [passi sunt[16], ne locus ille a barbaris inuaderetur Ekeberto[17] Comiti restituere præceperat, non iam vicinis Episcopis[18] committere voluit. Sed ne quisquam eorum hanc sibi deinceps parochiam vindicaret, ex[19] remotis Galliæ partibus quendam Episcopum Amalarium[20] nomine direxit[21], qui primitiuam Ecclesiam ibidem consecraret. Sed et eidem Ecclesiæ sacras reliquias ac plura Ecclesiastica munera pia largitate specialiter destinare curauit. Postmodum vero captiuis optatam ad patriam[22] vndique confluentibus, eandem parochiam cuidam presbytero Heride[23] nomine specialiter commendauit, quem vniuersæ Transalbianorum[24] Ecclesiæ, ne ad ritum relaberetur[25] gentilium, vel quia [lucrandis adhuc gentibus[26] locus ille[27] videbatur[28] aptissimus, disposuerat consecrari

---

1) *sl. U, V.* 2) enim, *H.* 3) usque ad, *V.* 4) *sl. V.*
5) ferre, *b. v. U.* 6) unde, *U.*
7) Danorum gentes uidelicet siue Slauorum, *V.* 8) suam, *V; sl. U.*
9) in, *H.* 10) spiritalibus, *V.* 11) prospiciens, *U.*
12) *frá* [ ibid. sed. fieri pont., *U.* 13) *frá* [ Transalbiam, *H.*
14) Transalbinorum, *H;* Nordalbingorum, *U.* 15) *frá* [ *sl. U.*
16) *frá* [ passa est, *H.*
17) N., *U (greinir ekki nafnið);* Exeleberto, *R;* Ereberto, *Pontan.*
18) locum illum, *b. v. U,* og *Lünig.* 19) et è, *H.*
20) N., *U;* Anscharium, *H.* 21) dixit, *U.* 22) parochiam, *H.*
23) Heridag, *Lün.;* Heridæ, *R;* nomine N., *U;* Herodach, *H;* Heridach, *V.*
24) Transalbinorum, *Lün., H;* Nordalbingorum, *U.*
25) relaberentur, *H.* 26) gentilibus, *H.*
27) *frá* [ loc. il. lucr. adh. gent., *U.* 28) reddebatur, *H.*

Archiepiscopum[1], vt ipsi[2] occasione vel auctoritate summa in ipsis terminis gentium, sedulitate prædicandi sancta multiplicaretur Ecclesia dum vicinorum ipsius nouitatis Episcoporum multa latitudinis cura non sufficiebat discurrere per omnia. Delegauit etiam[3] eidem presbytero qūandam cellam[4] Rodenach[5] vocatam, quatenus eidem loco periculis circumdato fieret supplementum. Sed quia consecrationem iam dicti viri, velox ex hac luce transitus pij genitoris nostri[6] fieri prohibuit. Ego autem, quem diuina clementia in sedem regni eius asciuerat, cum in multis Regni[7] negotiis insisterem, hoc quoque prædictum patris mei studium, velut Regni in finibus[8] minus caute adtenderem[9], prædictam[10] parochiam vicinis Episcopis interim commendaui. Nunc autem tam[11] propter [supra scripta[12] Ecclesiastica lucra in gentibus demonstrata, quam et propter votum pij genitoris nostri, ne [quid eius[13] imperfectum[14] remaneat, statuimus vna cum consensu Ecclesiastico præfata vltima in regione Saxonica trans Albiam, in loco nuncupato Hammaburg[15], cum vniuersa Transalbianorum[16] Ecclesia, proprij vigoris constituere sedem Archiepiscopalem[17], cui et[18] primum præesse, atque solenniter consecrari per manus Drogonis[19] Metensis, et summæ[20] sanctæ Palatinæ dignitatis[21] præsulis Ansgarium[22] fecimus Archiepiscopum, adstantibus Archiepiscopis Ebbone[22] Remensi, [Hetti[22] Treuerensi, et Otgaro[22] Moguntiensi[23], cum plurimis aliis generali in conuentu totius Imperij nostri præsulibus congregatis: [assistentibus quoque specialiter et[24] consentientibus atque consecrantibus Helingando[25] siue Willerico Episcopis, à quibus iam[26] dictæ parochiæ partes, à nobis et à patre nostro sibi olim commendatas recepimus[27]. Cui videlicet Ansgario [tam nostra[28], quam [sanctæ

1) episcopum, *U, H.* 2) ipsa, *U, H.* 3) et, *U.* 4) ecclesiam, *H.*
5) N., *U;* Rodnach, *H.* 6) in diebus ejus, *b. v. U;* nostris, *H.*
7) disponendis, *b. v. U.* 8) peractum, *b. v. U.*
9) suadentibus quibusdam jam dictam cellam ad N. monasterium contuli, *b. v. U.* 10) vero, *b. v. U.* 11) *sl. H.* 12) dicta, *H; frá* [ subscripta, *U.*
13) studii, *b. v. U.* 14) *frá* [ ejus studium infectum, *H.* 15) Hammaburch, *V.*
16) Transalbinorum, *Lün., H;* Nordalbingorum, *U.* 17) *sl. V.* 18) ut, *H.*
19) Dragonis, *Lün.;* N., *U.* 20) summi, *H.* 21) *sl. H.* 22) N., *U.*
23) *frá* [ Hattone Treuirensis, Ottigario Moguntinensis, *H.* 24) ac, *H.*
25) Helling., *Lün.;* Helingaudo, *H.* 26) tam, *H.* 27) *frá* [ *sl. U.*
28) *þannig H;* nostro, *L;* *frá* [: quia præfatis in gentibus hæc nostris in

Romanę Ecclesię[1] auctoritate hanc Deo dignam in[2] præfatis[3] gentibus commisimus legationem ac proprij vigoris ascribere decreuimus dignitatem[4]. [Et quia casus præteritorum cautos nos facit in futurum[5], ne quisquam Episcoporum[6] aliquam sibi trans Albiam[7], vel alicubi in prædicta[8] parochia vindicet potestatem, certo limite circumscriptum esse volumus, videlicet ab Albia[9] flumine deorsum vsque ad mare Oceanum, et sursum per omnem Slauorum prouinciam vsque ad mare quod Orientale vocant, et per omnes prædictas nationes Septentrionis. Omnes quoque paludes, infra siue iuxta Albiam positas, cultas et incultas, infra terminos eiusdem parochiæ ponimus; vt Transalbiani se et sua ab incursu paganorum, qui sæpe timendus est, securius in hiis locis occultare queant[10]. Et vt hæc noua constructio periculosis in his[11] locis cæpta, subsistere[12] valeat[13], quandam cellam Turholt[14] vocatam tam huic nouę constructioni[15][, quam[16] Archiepiscopi successorumque suorum in gentibus legationi[17] perenniter[18] seruituram[19] ad nostram nostręque sobolis perpetuam mercedem diuinæ offerimus[20] Maiestati[21]. Res itaque[22] præfatæ sedis, et [iam dicti[23]

---

diebus Deo dignissima in convocatione gentilium vel redemtione captivorum monstrata sunt lucra, tam nostra, *U.*

1) *frá* [ sancta Romana, *H.* 2) *sl. H.*

3) *sl. U.* 4) *sl. H.* 5) futura, *H.* 6) episcopum, *H.*

7) Transalbiam, *H.* 8) *sl. H.* 9) Albio, *H.*

10) *frá* [ *sl. U.* 11) *sl. U, H.* 12) suscipere, *V.*

13) valeret, nec prævalente barbarorum sævicia deperiret, *U.*

14) N., *U;* Thurholt, *V.* 15) *sl. H.* 16) ejusdem, *b. v. H.*

17) *frá* [ *sl. U.* 18) permittere, *H.*

19) quam suæ successorumque suorum in gentibus legationi, *b. v. U.*

20) obtulimus, *U.*

21) Homines quoque, qui ejusdem cellæ beneficia habere videntur, ab omni expedicione vel milicia siue qualibet occupatione absolvimus, ut idem venerabilis Archiepiscopus ad hanc Deo dignam peragendam in provisis temporibus legationem nullum in hoc paciatur detrimentum. Dona vero, quæ ex eadem cella nostris patribus et nobis dari solebant, in convocationem paganorum vel redemptionem captivorum sive ejusdem sedis supplementum multimodis periculis circumdatæ vel ibidem Deo militantium solacium, ob amorem sancti Salvatoris ejusque intemeratæ genetricis Mariæ ac beati Sixti confessoris, perpetuo jure retinenda delegamus, *b. v. U.*

22) quoque, *U.* 23) *frá* [ præscripti, *U.*

monasterij sub plenissima defensione, et immunitatis tuitione volumus vt consistant[, vt liceat venerabili Archiepiscopo prędicto[1] suisque successoribus ac omni clero sub eorundem[2] regimine constituto, quiete in Dei seruitio degere[3], et pro nobis proleque nostra atque statu totius Imperij[4] diuinam misericordiam exorare. Et vt hæc autoritas sui vigoris perpetuam obtineat firmitatem, manu propria subter eam firmauimus, et sigilli[5] nostri impressione signare[6] iussimus.

[Signum Hlode [monogram] vvici piissimi Jmperatoris[7].

Hirminmarus[8] Notarius ad vicem Theodonis[9] recognoui[10].

Data Idus Maij, Anno XXI. Imperij Domini[11] Hlodevvici piissimi Augusti, Indictione XII[12].

Actum Aquisgrani in[13] Palatio Regio, in Dei nomine feliciter, Amen. [Anno Domini[14] Iesu Christi, D. CCCXXXIV[15].

*R.* og *L* hafa innsigli aptan við brèfið, krínglótt, tvíhliðað. Framaná: mannsmynd í heilu líki niðr fyrir mitti, í kyrtli og feld yfir, knýttan á öxlinni hægri, kórónu á höfði; hendr báðar upprèttar, með hauk á hægri hendi en knött með krossi ofaná í vinstri hendi. Aptaná: borg með þremr turnum, einum breiðum, í miðið, og tveimr mjófum, til beggja hliða.

---

## B.

Þessi afskript er allstaðar ættfærð til brèfabóka, en hvergi til frumrits. — Prentuð fyrst í: Philippus Cæsar. Triapostolatus

---

1) *frá* [ ac tueantur, ita ut nullus Judex publicus aut alia quælibet publica potestate prædita persona de eorum rebus quicquam requirere aut exigere præsumat. Sed liceat prædicto Archiepiscopo, *U.*

2) eorum, *U.* 3) *þannig U, H;* gerere, *L.* 4) nostri, *b. v. U, H.*

5) annuli, *U.* 6) signari, *H.* 7) *frá [ sl. H.*

8) Hincmarus, *Lün.;* Hirnimarus, *H.*

9) Theodorus, *R;* Theodori, *H.* 10) recognovit, *H; frá [ sl. U.*

11) Romani, *H.* 12) XV, *H.* 13) *sl. U, H.* 14) nostri, *b. v. H.*

15) *Renn. sleppir* D. *framanaf og hefir* CCCXXXIII; *frá [ sl. U.*

septentrionis. Cöln 1642. 8vo. bls. 173, eptir fornri skinnbók frá Hamborg, er seinna hefir verið í Bonn[1]. Bók Cæsars er prentuð upp aptr í Jo. Alb. Fabricii Memoriæ Hamburgenses. Tom. II. Hamb. 1710. 8vo, þar er upphaf bréfs þessa á bls. 767, og vísað til, að hann prenti ekki bréfið allt, þareð það sè betra í Lindenbrogs og fleiri ritum. — Bolland og Henschen. Acta Sanctorum. Februar. Tom. I. Antwerp. 1658. Fol. bls. 404—406 (eptir Cæsars bók). — P. Lambecii Origines Hamburgenses Lib. II. Hamb. 1661. 4to. Chronologia et Auctarium ad Libr. I. bls. 354—361, með orðamun eptir Lindenbrogs útgáfu (ný útgáfa af Lambecii Rerum Hamburgensium Liber II. með Chronologia et auctario af Jo. Alb. Fabr. Hamb. 1706. Fol. bls. 105—107). — Mabillon. Acta Sanctorum Ordinis S. Benedicti. Sec. IV. P. II. Paris 1680. Fol. bls. 121—123. (Venet. 1738. Fol. bls. 122—124). — Lünig. Teutsche Reichs-Archiv. Vol. XV. Spicilegium ecclesiasticum. Leipzig 1716. Fol. I, 114—115 (kemr í öllu saman við Mabillon). — Staphorst. Historia ecclesiæ Hamburgensis diplomatica. Hamb. 1723. 4to. I, 26—29. — Goldasti Memoranda vetera Holsat. í Westphalen. Monumenta inedita rerum Germanicarum. Lips. 1739. Fol. I, 885—892 (eptir Henschen í Acta Sanctorum). — Mart. Bouquet. Rerum Gallicarum et Francicarum Scriptores. Paris. 1749. Fol. VI, 593—594 (eptir Mabillon og með orðamun eptir Baluzius). — M. à Celse. Apparatus ad Historiam Sueo-Gothicam (Celses Bullarium). Holm. 1782. 4to. bls. 8—10. — Liljegren. Diplomatarium Suecanum. Stockh. 1829. 4to. I, 3 (mest eptir Staphorst). — J. Asmussen. Kritische Untersuchungen über den Umfang der Hamburger Diöcese o. s. frv. í Archiv für Staats- und Kirchengeschichte der Herzogthümer Schleswig, Holstein, Lauenburg o. s. frv. Kiel 1833. 8vo. I, 132—141 (með orðamun eptir helztu útgáfunum). — J. M. Lappenberg. Hamburgisches Urkundenbuch. Hamb. 1842. 4to. I, Nr. VIII, bls. 10—

1) Lappenb. Hamburg. Urkundenb. bls. 132, í athgr. — Bók þessi er þó að líkindum ekki eldri en hérumbil 1072, því þar eru aptanvið sögu Rimberts talin nöfn biskupa þeirra sem Aðalbert erkibiskup hefir vígt, og er það kallað af sumum útgefendum órèttilega „subscriptiones episcoporum" (Fabric. Memor. Hamburg. II, 763; cfr. Langeb. scriptt. Rerr. Dann. III, 244—251). Þar er talinn fyrstr „Slepn. episcopus Scalternoldensis" (= Isleph episcopus Scalaholtensis).

14 (með orðamun eptir Vicelins bók, Eccard og Lindenbrog)[1]. — Codex Pomeraniæ Diplomaticus útg. af Hasselbach, Kosegarten og von Medem. Greifswald. 1843—51. 4to. I, Nr. 2, bls. 5—9.

Hèr er þessi afskript brèfsins prentuð eptir útgáfu Lappenbergs í Hamburg. Urkundenb., og þareð svo lítr út, sem hann hafi að mestu fylgt Cæsars útgáfu, nema þar sem honum hefir fundizt annað rèttara, er hèr settr sá orðamunr sem hann tilfærir eptir Cæsar (*Cæs.*).

---

In nomine domini Dei et salvatoris nostri Jesu Christi Hludouuicus[2], divina [fauente et[3] propitiante clementia imperator augustus.

Si specialibus cujusque fidelium nostrorum necessitatibus perspectis subueniendum esse imperialis auctoritas monstrat, quanto magis ad debitam generalitatis prouidentiam equum dignumque pertinet, ut et ecclesię catholicę atque apostolicę, quam Christus suo precioso sanguine redemit, eamque nobis tuendam regendamque commisit, piam ac sollicitam in cunctis oportet[4] gerere curam, et vt in eius prouectu uel exaltatione congruam exhibeamus[5] diligentiam nouis ad eius necessitatem uel vtilitatem atque dignitatem pertinentibus rebus, noua imo necessaria et vtilia prouideamus constituta. Idcirco sanctę Dei ecclesiae filiis, presentibus scilicet et futuris, certum esse uolumus, qualiter diuina ordinante gratia, nostris in diebus, aquilonaribus[6] in partibus, in gente uidelicet Danorum siue Sueonum, magnum cęlestis gratia predicationis siue adquisitionis patefecit ostium, ita ut multitudo hinc inde ad fidem Christi conuersa, misteria cęlestia ecclesiasticaque subsidia desiderabiliter expeteret. Vnde domino Deo nostro laudes inmensas persoluentes extollimus, qui nostris temporibus et studiis, sanctam ecclesiam, sponsam uidelicet suam, locis in ignotis sinit dilatari atque proficere. Quamobrem una cum

---

1) Lappenberg getr um, að frumbrèfið og afskript af því eigi að vera i Stade, Caps. CXVII, Nr. 19 og 30, en hafi ekki fundizt á þeim stað, þegar hann var þar.

2) Ludovvicus, *Cæs.* 3) *frá [ sl. Cæs.*

4) oporteat, *Cæs.* 5) adhibeamus, *Cæs.* 6) aquilonalibus, *Cæs.*

sacerdotibus ceterisque imperii nostri fidelibus, hanc Deo dignam cernentes causam ualde necessariam atque futurę ecclesię dignitati proficuam, dignum duximus, ut locum aptum nostris in finibus euidentius eligeremus, ubi sedem episcopalem per hoc nostrę auctoritatis preceptum statueremus, unde omnes ille barbarae nationes eternę vitę pabulum facilius uberiusque capere ualerent et sicientes salutis gratiam[1] pre manibus vel oculis haberent[2]: insuper et magnorum progenitorum nostrorum[3] sacra lucrandi studia nostris in diebus numquam deficerent.

Genitor etenim noster gloriosę memorię Karolus omnem Saxoniam ecclesiasticę religioni subdidit, iugumque Christi ad usque[4] terminos Danorum atque Slauorum, corda ferocia ferro perdomans, ferre[5] docuit. Vbi inter has utrasque gentes Danorum[6] siue Winedorum[7] ultimam Saxonię partem sitam et diuersis periculis, temporalibus uidelicet ac[8] spiritualibus, interiacentem prospiciens, pontificalem ibidem sedem fieri decreuit trans Albiam. Vnde postquam terram[9], Nordalbingorum laxata captiuitate, quam ob multam perfidiam in ipsis christianitatis initiis patratam per septennium passi sunt, ne locus ille a barbaris inuaderetur, Ecberto comiti restituere preceperat, non iam uicinis episcopis locum illum committere uoluit, sed ne quisquam eorum hanc sibi deinceps parrochiam uindicaret, ex remotis Gallię partibus quendam episcopum, Amalarium nomine direxit, qui primitiuam ecclesiam ibidem consecraret. Sed et eidem ecclesiae sacras reliquias ac plura ecclesiastica munera pia largitate specialiter destinare curavit. Postmodum uero captiuis optatam ad patriam undique confluentibus, eandem parrochiam cuidam presbitero Heridac nomine specialiter commendauit, quem universę Nordalbingorum ecclesiae, videlicet ne ad ritum relaberentur gentium, uel quia locus ille lucrandis adhuc gentibus uidebatur aptissimus, disposverat consecrari episcopum, ut ipsa occasione uel auctoritate summa in ipsis terminis gentium, sedulitate predicandi sancta multiplicaretur ecclesia, dum uici-

---

1) gratia, *Cæs.* 2) incessanter, *b. v. Cæs.* 3) *sl. Cæs.*
4) ad, *b. v. Cæs.* 5) *sl. Cæs.* 6) videlicet, *b. v. Cæs.*
7) Wandalorum, *Cæs.* 8) et, *Cæs.* 9) terra, *Cæs.*

sa secr vm þat .VI. Ꝏorkom er giallda scal. þurfa maðr sa er til handa er scipt. hann er aðile at sǫc þeirre bæðe søkiande oc seliande. Sa er annarr aðile er til sócnar er tekinn i hreppenom oc tiund skipte til handa honom. Sǫc þeirre scal stefna at lǫgheimile þess er sóttr er. oc qveðia til bua .V. a þingi. þa er næster bva stefno stǫðom.

15. þeim manne er rétt at stefna heima at sín er tiund scipti til handa þurfa manne .Vta. dag vico er .IIII. vicor ero af sumre ef eigi er aðr fram comit. Rétt er at hann tace þann dag við vaðmálom til handa þurfa manne ef hinn vill þa hafa golldit. Era hann þa scylldr at taca við i ǫðro fe nema hann vile. Ef eigi komr þann dag fram. oc scal sa maðr er til sócnar er tekinn ganga ut í tún at sin eþa sa maðr er hann selr sǫc oc nefna vatta. at þvi at hann er bvinn at taca við tiund þeirre er hinn scylde giallda oc nefna hann oc qveþa á hve micit feet er. oc hann sér engi þann er giallde hallde vpp fur hann. hann scal nefna vatta. i annat sinn. At þvi vette scal hann qveþa at [ek] stefne honom oc nefna hann. vm þat at hann heldr tiund fur honom. oc nemna þurfa manninn. oc tel ec hann sekian vm þat VI. Ꝏorkom. oc giallda fiorþungenn tuennom giolldom sva sem buar virða. þann luta er ogolldinn er. ef sumr er goldinn. stefne ec til giallda oc til utgongo vm fe þat oc qveþa á hvar hann stefnir til þings. oc stefna logstefno. hann scal qveþia til bva .v. a þingi. þaðan fra er hann stefnde.

vm byscops tiund[1].

16[2]. Annan fiorðung tiundar scal hafa byscop. en[3] þat fe scal vera i vaðmálom eða i varar feldom eða i lamba gærom eða i gulle eða i brendo silfre. þar er byscop ferr um fiorðung þa scal hann segia til at kirkio sócnom i hrepp hveriom hverr við þeim fiorðunge scal taca tiundar er hann scal hafa. þar er meltr eindage a fe þvi er menn sculo byscope

---

1) fyrirsögnin með rauðum stöfum. Upphafsstafr rauðr og grænn.

2) við þessa grein sbr. Kristinrètt Þorláks ok Ketils í Biskupa þætti í útgáfu Thorkelins cap. XIV (bls. 64), og í útg. Vilhjálms Finsens cap. 5 (bls. 19—20); einnig Kristinrètt Árna biskups cap. XV, bls. 96 (Thorkel.).

3) .f. = sed ɔ: en, *skinnb.*

gialda. enn Vta. dag viko er IIII. vicur ero af sumre at lǫgheim[i]le þess mannz er byscop bauð vm. Rétt er þótt fyrr se goldit. Ef þa kømr eigi fram. þa scal sa er søkiande er réttr ganga út i tún at sín oc nefna vatta at þvi at hann er buenn við fe þvi at taca er hinn scyllde gialda oc nefna hann. oc qveþa á hve micit feet er. oc hann ser eigi þann mann er gialld inne af hendi. Honom er þar rétt at stemna sva vm þenna fiorðung. tiundar sem um hinn er fyrr var um tínt. Þat er honom oc rétt at stefna siðarr vm þat fe at lǫgheim[i]le þess er gialda scal. Þess a hann oc cost at segia byscopi til oc lata hann heimta sva sem hann vill.

vm kirkna tiund[1].

17. Nv[2] ero eptir. II. fiorðungar þat er hálf tíund hvers mannz. Þat scal leggia til kirkna oc til presta reiðo sva til huerrar kirkio sem byscop scipar tiundom til oc reiða þeim manne i hǫnd er kirk[i]o þa varðveiter. er tiundenne er til scipt. Hann scal caupa at preste tíþer sva sem hann ma við comaz. oc fá þa lute aðra til kirkio þurptar er hafa þarf sem fe þat vinnz til. Sva sculo menn gialda tiund af ǫllom bǫiom i heraðe til kircna. sem byscop hefer boðit. hvereger sem á bólstǫðom bva.

18. Bǫande sa er a kirkio bø þeim býr er tiuNdenni er til scip[t]. hann er réttr heimtande oc søkiande oc seliande þeirrar sacar ef hann vill. En ef hann vill eigi. þa er réttr aðile þeirrar sacar lærðr maðr sa er kirkionne þiónar, sá er til kirkio þurptar vill feet hafa.

19. Fiorþung[3] tiundar þann er til presta reiðo scal leggia. hann scal gialda i vaðmálom eða i varar felldom. eða i lamba gærom eða i gulle eða i brenndo silfri.

20. En þann lut tíundar er til kirkio þurptar scal leggia. þann scal giallda i vaxe. eða i viðe. eða i reykelse eða i tíor[o].

---

1) fyrirsögnin með rauðu letri; upphafsstafrinn grænn og rauðr.

2) við greinirnar 17—21 sbr. Kristinrètt Þorláks ok Ketils í Kirkna þætti, i útgáfu Thorkelins cap. IX (bls. 44—46) og í útg. Vilhjálms Finsens cap. 4 (bls. 14—15).

3) við 19—21. grein sbr. Kristinrètt Árna biskups cap. XV., bls. 98—100 (Thorkel.).

eða i lereptom nyiom þeim er hæf se til kirkio bunaðar sva sem getr at caupa með vaðmálom i þvi heraðe. Rétt er þótt vaðmál ein se gollden.

21. Þat fe scal goldit et siðarsta enn Vta. dag vico er .IIII. vicur ero af sumre. EN ef eigi kømr þa fram. þa scal sá er heimtande er stemna þann dag i tvne a kirkio bø þeim er tiund á til at hverfa oc søkia sva sem vm aðra tiund. Hann scal stefna sinni stefno vm hvárn fiorðunginn oc láta [varða] VI. merkr i hváRum tueggia stað halldit. Costr er oc at stefna einni stefno vm báþa fiorðunga oc fylgia þa eín alog þviat einn er aðile at báþom.

22. Rett er at stefna heiman til várþinga vm tiundar mál ef þeir ero samþinga oc søkia þar i dom ef hinn er þar er sóttr [er]. Þa[1] er rétt vm byscops fiorðung at søkia þott sa se eigi þar er sóttr er. Ef lyst er a þingi. þa scal qveþia til heimilis bva .V. þess er sóttr er.

vm tiundir[2].

23. Ef[3] maðr hever omaga eyre at varðveita þann er hann[4] hefer voxto af. oc scal hann þann luta vaxtarens tiunda er undir hann berr. sem þat fe er hann átte aðr.

24. Jslenzcer menn aller sculo tíunda fe sitt. EN vm utlenda menn ef þeir coma ut hingat oc erat þeim scyllt at tiunda her fe sitt. aðr þeir hafa her verit. III. vetr samfast. nema þeir gøre bv fyrr. EN þat vár sculo þeir gera tiund er þeir gera bv oc þau missere epter. EN ef órer landar fara heþan oc eigo fe epter. oc scal maðr giallda tiund af er at varðveita hefer feet. en vm þat fe er hann hever a brot með ser oc erat hann scylldr at giallda her tiund af þvi þott hann se allengi a brot. EN ef hann kømr ut hengat þa scal hann giallda her tiund af þvi fe er hann hever ut með ser en næsta vetr epter er hann hever ut comit aþr vm sumaret þott hann[5] se i gørðom

1) *þannig skinnb.; rèttara mun vera:* þo.

2) fyrirsögn með rauðum stöfum; upphafsstafrinn rauðr.

3) við 23.-25. gr. sbr. Kristinr. Árna biskups 15. kap. bls. 90-92 (Thorkel.).

4) *þannig eptir hinum; skinnb. hefir* b' [= buandi?].

5) *þannig hafa sex af handritunum, tvö sleppa orðunum:* þott hann se i görðum austr, *en eitt (F) hefir* þat *í staðinn fyrir* hann (þott þat — þ. e. fè manns — se i görðum erlendis); *þetta virðist og rèttara,*

astr. Ef maðr kømr ut hengat oc hever vaxit fe hans eða þorrit eða hann hever eigi eiða fyrr at unnit. oc er hann scylldr at vinna cið at fe sino ef menn vilia beiða hann.

25. Ef hiu eigo fe saman oc scal karl maðr vinna eið fur fe þeirra beggia. Ef karl maðr oc kona eigo fe saman þott þa se eigi hiona oc scal karl maðr vinna þar eið. Ef karlar eigo fe saman oc er rétt þótt annarr vinne þar eið. Ef þeir metaz við ok vill hvárge vinna oc er sǫc við hvarn tueggia. Sa scal eið vinna fur fe hvert er lǫgraþande er fiarens.

26. Ef vǫxto berr under mann af þess mannz fé er erlendis er oc scal hann þat fe sva tiunda sem [vǫxt berr[1] under hann af omaga cyre.

27. þar scal maðr tiund giallda i þeim hrep sem hann a lǫgheim[i]le þa misseri hvargi er fe er.

28. Rett er at sættaz a tiundar mál meþan eigi er stefnt vm. þo er rétt at sǽttaz á þott stefnt se vm oc scal eigi meíra niþr falla alaganna en hælmingrinn. Ef maðr tecr minne sát[t] en .III. Merkr[2] oc varðar honom .III. Marka secþ oc a sa soc er vill.

29. Ef tiund gelldz eigi heima i heraðe enda er eigi stefnt vm. þa er rétt at lysa et næsta sumar epter a alþingi at lǫgbergi. Jnnan hreps menn eigo at lysa fǫsto dag oc þvatt dag vm tiundar mál oc þeir menn er af þeim taca. ef hreps menn hafa eigi lýst fur hælgena. þa er rett epter helgina hveriom at lysa er vill til þes er domar fara ut. Sa er lysa vill vm tiund hann scal ganga til lǫgbergs oc nefna ser vatta. at þvi vette. scal hann qveþa at [ek] lyse sǫc a hendr honom. oc N°.[3] vm þat at hann hafe halldit þeim fiorðunge tiundar oc

---

*og staðfestist einnig við Kristinrétt Árna biskups á samsvaranda stað, þar sem stendr:* þott hann eigi garða eðr eignir utanlands (*sum handritin hafa þar:* i Noregi). *Í latínskri útleggíngu tiundar-statútunnar, frá 1741, sem nú er í Thotts handritum í hinu mikla bókasafni konúngs Nr. 2114. 4to., er þessu snúið þannig:* „quanquam consistant (bona ejus) in prædiis exoticis". — *þar á móti hefir Halldór Einarsson lagt svo út:* endskjöndt han selv (om Vinteren) har været udenlands i Garderige (Hald. Ein. om Værdie Beregn. o. s. frv. *bls.* 77).

[1]) *frá [ þannig A; er ef til vill misritað fyrir:* voxto bæri.

[2]) *skammstafað í A, og má eins lesa:* .III. marka.

[3]) *á að lesa:* nefna hann.

qveþa a hverr sa er. tel ec hann sekian vm þat VI. Mørkom. oc gialda þann luta er ogolldinn er tuennom giolldom sem bvar virða oc qveða á hvar hann lyser til doms. lyse ec loglysingo.

30. Þar er maðr lyser vm tiundar mál. þar scal hann qveþia til bva .V. a þingi. þess er sottr er. EN þar er maðr stefner heiman vm tiundar mál. Þar scal hann qveþia til .V. bua a þingi. þa er næster ero stefno staðnom. Engi er hrvðni[n]g[1] til vm þa bva nema at leiðar lengð.

31. Eigi scal spell meta a tiundar málom ef rett er hofðot sǫken.

32. Ef maðr tecr gagnsǫc upp í gegn tiundar mále. oc a eigi at meta þa sǫc nema hon se fiorbavgs sǫc eða meíre meta scal ef tiundar sǫc er.

33. Þuiat eins er rett at lysa a þingi oc søkia et sama sumar vm tiundar mál ef sa er a þingi er sóttr er. Þo er rétt at søkia vm byscops fiorðung þott sa se eigi a þingi er sóttr [er].

34. Eigi scal tiundar sǫc fyrnaz helldr EN annur [fe sǫc eða[2] fiarheimting ef hann gelldr eigi en fyrsto missere þa er hann átte at gialda þa scal stefna at lǫg heim[i]le þess er sottr er eþa lysa a þingi.

35. Þar er maðr stefner heima at sín þa .IIII. vicur ero af sumre. vm tiundar mál. oc a domr at døma at giallda i þeim stað enom sama XIIII. nottom epter vapna tac. innstøðann oc VI. Mørkr alaga oc scal þeim døma .III. Mørkr er søcer. eN aðrar .III. sculo fylgia þeim fiorðungi tiundar sem vm er stefnt.

36. EN ef stefnt er at lǫgheim[i]le þess er sottr er. oc scal þar þa døma at giallda innstøða oc alog .XIIII. nottom epter vapna tac[3].

37. EN [ef lyst[4] er a þingi vm tivndar mal. oc a domr[5]

---

1) *n* vantar án efa í orðið af því þetta er komið frá öðru handriti, sem hefir haft eina stafsmynd fyrir *ng*.

2) frá [ virðist vera komið inn af ritvillu; sbr. *B* § 37.

3) tac *uppyfir línunni með sömu hendi.*

4) frá [ tvískrifað í skinnb.

5) dǫr ( = dömr) *misskrifað í skb.*

at døma innstøða oc alǫg at lǫg heim[i]le þess er sottr er .xiiii. nottom epter vapna tac.

38. En vm fevíte ǫll þau er her fylgia oc utlegðer. þar scal døma vi. alna aura.

39[1]. Of alla tiund þa er minne er sciptingar tiund. at hon scal hverfa með þurfa [manna] tiund a haust nema byscopar vile einkom til kirkna leggia láta.

vm tiunda mál[2].

40. Byscop[3] scal raða til hverrar kirkio scal leggia tiund af hveriom bø oc scal þat halldaz meþan enn same byscop ræðr fur. þat scal rett ef byscop leyfer at þar se kirkia gør er eigi er aðr at hann leggi til þeirrar kirk[i]o tiund af þeim bø þótt hann liggi til annarrar kirkio aðr. Heim[i]lt a byscop at taca tiund fur[4] kirkiom þótt hann hafe til lagðar ef þær ero verr varðveittar en mælt er. Nv hever byscop ecki vm røtt oc lætr vera sem aðr var oc er honom rétt þar er hann vill at scipta á annan veg oc scipta eigi optarr en vm sinn.

41. Huerr maðr scal eiða vinna at fe sino oc er scylldr til þess þa er hann er xvi. vetra gamall. Enda sculo aller eið vinna a hveriom iii. vetrom. Grið menn sculo eið vinna fur boanda eða siálf elðis menn. Fyrer þeim boanda er rétt at þeir vin[n]e eið er þeim monnom þycker þat fullt er til ero tecner at sia eiða at monnom i hrep hveriom. Ero boendr scylder at segia til tiundar þeirra a samqvamo.

42. þar[5] scal maðr giallda vár tiund sem scipt er a haust tiund hans. en ef þat er hvergi þa scal þar giallda sem hann er Marteins Messo vistfastr[6].

---

1) það er líklegt, að greinirnar 39—42 sè nýmæli, en hafi ekki í upphafi verið í statútunni.

2) fyrirsögn með rauðu letri; upphafsstafrinn ekki stór, ritaðr með bleki.

3) við þessa grein sbr. Kristinrètt Árna biskups cap. xv., bls. 98 (Thorkel.).

4) *þannig eptir skinnbókinni, sem ritar* f^ω *; en vera kann að þetta sè ritvilla í staðinn fyrir* fra (f^w), *sem hin handritin sum hafa.*

5) við þessa grein sbr. Kristinr. Árna biskups cap. xv., bls. 92—94 (Thorkel.).

6) eptir þetta fylgja í skinnbókinni átta smágreinir og er hver um sig með fyrirsögn með rauðu letri, og flestar með upphafsstöfum gulum og

B.

Eptir skinnbókinni Nr. 334 í Fol. í safni Árna Magnússonar. Bók þessi er í arkarbroti að stærð, ágætlega rituð, með tveimr dálkum á blaðsíðu, fyrirsögnum með rauðu letri og máluðum upphafsstöfum rauðum, grænum og bláum; 37 línur á blaðsíðu. þar er fyrstr Dómakapítuli, sem alkunnr er úr Jónsbók (Mannhelgi cap. XVII) og úr öðrum fornum lögbókum; þarnæst er Kristinrèttr hinn forni, fyrirsagnarlaus (bls. 2—17 í skinnbókinni), og er hann prentaðr í útgáfu Thorkelins (Havn. 1776. 8vo) mest eptir þessari bók. Eptir þessi orð: „Sua setto þeir þorlakr byscop oc Ketill byscop at raði Autzorar erkibyscops oc Sæmundar oc margra kennimanna annarra cristinna laga þátt sem nu var tínt oc upsagt" byrjar nýr kapítuli með nokkuð stærri upphafsstaf en vant er fyrir kapítulum í þessari bók, en fyrirsögn er engin. það er sú afskript af Tíundarstatútunni, sem hèr er prentuð og kölluð *B* (bls. 17—22 í skinnbókinni). Af því aðgreiníngin er svo lítil, þá hefir Thorkelin látið tíundarlögin vera kapítula úr Kristinrètti; en það er auðsætt á þeim niðrlagsorðum, sem nú þegar voru til færð, og eru samkvæm *A*, að þar hefir Kristinrèttr verið á enda, og að þó tíundarlögin sè hèr látin fylgja honum, en ekki aðskilin, einsog í *A*, þá muni þó ekki hafa verið svo til ætlað af þeim er ritaði, sem þau væri einn þáttr úr Kristinrèttinum. þó er hèr skotið inn nokkrum greinum úr Kristinrètti í tíundarlögin, og mun það helzt hafa villt menn síðar. Eptir tíundarlögin er nær því heil blaðsíða auð, en þar eptir kemr Grágás (bls. 23—183 í skinnbókinni), einnig fyrirsagnarlaust, og er hún mest prentuð eptir þessu handriti í hinni stóru útgáfu Árna Magnússonar nefndarinnar (I.-II. B. 4to. Havn. 1829); þar með fylgir sýnishorn af letrgjörð bókarinnar, og líkist prýðilega. Eptir Grágás kemr Járnsíða fyrirsagnarlaus (bls. 184—215 í skinnbókinni) og vantar þó nokkuð í. það er eina aðal-handritið sem menn vita nú til vera af lögbók þessari, og eru öll önnur handrit þar af komin; er Járnsíða gefin út eptir þessari bók af Árna Magnússonar nefndinni (Hafn. 1847. 4to),

---

rauðum. Greinir þessar eru allar prentaðar í sömu röð og hèr í útgáfu Vilhjálms Finsens af Grágás, § 261—268, bls. 215—218, þar er og vísað til hvar þær finnist í Kristinrètti hinum forna, þorláks og Ketils, í útgáfu Thorkelins eptir skinnbókinni 334 Fol. í safni Árna Magnússonar (sem hèr er kölluð *B*).

með ágætu sýnishorni af skinnbókinni, og í Norges gamle Love af Keyser og Munch er hún prentuð sem viðbætir við hin eldri Frostaþíngslög og kölluð Hákonarbók (Norg. gl. Love. I, 259—300. Christiania 1846. 4to). Þar sem Járnsíða endar hefir verið eptir rúmr hálfr dálkr og öll seinasta blaðsíða bókarinnar óritað; er þar síðan ritað á ýmislegt, og þar á meðal nokkur eigendanöfn, sem þegar skal getið verða.

Um aldr bókar þessarar er það glöggvast að segja, að þar sem hún hefir afskript af Járnsíðu þá er auðsætt að hún getr ekki verið eldri en 1271, þegar lögbók þessi kom út til Íslands; en þarhjá mun hún heldr ekki vera miklu ýngri, heldr er líklegast að hún sè rituð á þeim árum milli 1271 og 1280, áðr en Jónsbók var lögtekin. Það er ekki líklegt, að menn hefði tekið fyrir sig að láta rita svo ágætt og vandað handrit af Kristinrètti, Grágás og Járnsíðu, eptir að öll þessi lög voru úr gildi gengin, og Kristinrèttr Árna biskups og Jónsbók komin í staðinn, nema svo að eins, að þessi hin nýjari lög hefði þá verið látin fylgja með, því í hinum ýngri afskriptum fylgjast Kristinrèttirnir optast að. Í helgidaga talinu í Kristinrètti eru hèr taldar báðar Þorláksmessur, en með Magnúsmessu er talin Luciemessa, sem er á sama dag, og mun það vera vottr þess, að báðar helgarnar hafa verið haldnar, þó ekki væri þá enn Magnúsmessa lögboðin. Í formálanum fyrir útgáfu Árna Magnússonar nefndarinnar af Grágás er handriti þessu lýst að nokkru, og er þess þar getið (Schegels ritg. bls. LXI, athgr. **) að menn hafi ætlað það vera ritað seint á 14du öld, en það hygg eg vera fjarri vegi. Thorkelin hefir einnig farið nokkrum orðum um bók þessa í formálanum fyrir Kristinrètti hinum forna, sem getið hefir verið, og telr hann hana munu vera ekki ýngri en frá fyrra hluta fjórtándu aldar (form. bls. XI-XIII); er það einkum vegna þess þar er talin Magnúsmessa, að hann ætlar bókina ekki geta verið fyr ritaða en eptir 1326, en það er sýnt hèr áðr, að messan gat verið haldin áðr en hún væri lögleidd, og þannig sett í Kristinrètt hjá bókariturum, þó ekki væri hún í lög tekin á Íslandi.

Um sögu bókarinnar er það fyrst kunnugt, sem ráða má af því sem ritað er aptan við tíundarlögin (sjá athugagr. seinast við þessa afskript), að hún hafi verið í Húnavatns sýslu á 14du öld, líklegast hjá Auðkýlíngum. Á seinasta blaðinu stendr með hendi frá 16. öld: „þessa bock gaf hvsfrv Holmfriðvr erlindzdottir j sinne

testamentvm philippvs rvnvlfssyni" og þar fyrir neðan þetta: „Eñ hann gaf hana Pali vigfvs syne logmanni Svnnan og avstan œ jslandi : gvd giefi honvm oc ollvm til lvckv bæði fyrir lijf og sœl". Á 16du öld hefir því bók þessi verið í eign húsfrú Hólmfríðar Erlendsdóttur í Stóradal undir Eyjafjöllum, en fyrri maðr hennar var Einar sonr Eyjólfs lögmanns Einarssonar, sem var einn með í Píníngsdómi 1490, og er talinn ættaðr norðan úr Húnavatns sýslu. Hólmfríðr var skörúngr mikill á sinni tíð og við mart brugðin, en þó merkiskona. Eptir hana hefir fengið bókina Philippus Runólfsson, merkisbóndi einn, hann var með í Bessastaða samþykt 1555. Páll lögmaðr Vigfússon, sem Philippus gaf bókina, andaðist 1570, og erfðu hann systur hans; er þá óvíst hvernig um bók þessa hefir farið, en líklegt er hún hafi þá farið vestr, og ef til vill komizt í eigu Staðarhóls-Páls, því þegar Árni Magnússon vissi fyrst til þá átti hana Bjarni sýslumaðr á Skarði, Pètrsson, sonarson Staðarhóls-Páls, en eptir Bjarna sýslumann fèkk hana Pètr sonr hans, hann fèkk hana sira Páli Ketilssyni frá Hvammi, fóstbróður Árna, og sira Páll gaf Árna bókina. Árni kallar hana Staðarhólsbók (blað með A. M. 340. Fol.). Afskriptir eptir bók þessari eru í handritasafni Árna Magnússonar Nr. 340 í Fol. með hendi Jóns Magnússonar bróður hans; Nr. 122 í 4to (að frátekinni Járnsíðu); Nr. 119 í 4to (Járnsíða ein), og þar að auki yms handrit, allúng, sem munu eiga til hennar kyn sitt að rekja.

Tíundarlög Gizurar biskups eru prentuð eptir bók þessari í útgáfu Thorkelins af Kristinrètti hinum forna, þó með ymsum tilbreytíngum eptir konúngsbók (*A*), og Skálholtsbók hinni fornu (*D*); og eru talin þar XXXVI.—XLIII. kap. í Kristinrètti, þar heyra og til seinni hluti af XLIX kapítula og þaðan af L. og LI. kap., svo sem nákvæmar verðr skýrt hèr frá í athugagreinum.

---

1. Þat er melt í logum várom. At menn sculo tiunda fe sitt aller lǫg tiund a landi her.

Þat er lǫg tiund at sa maðr scal gefa .VI. alna eyre a tveim missarom. er hann a .X. tigo fiar .VI. alna ǫra.

Sa maðr er hann á .X.[1] .VI. alna ǫra fur utan fæt sin

1) máð í skb.

hversdags bvning sculld lœsa. Sa scal gefa óln vaðmals eða vllar reyfe þat er .VI. gere hespo eða lambs gæro.

En sa er a .XX. ꝋra . sa scal .II. alner[1].

En sa er halft hundrað ꝋra á sa scal .IIII.ar alner.

En sa er .VIII. tigo á . sa scal .V. alner.

En sa er a .X. tigo sa scal .VI. alner.

2. Þat fe þarf eigi til tiundar at telia er aðr er til guðs þacka gefit. hvárt sem þat er til kirkna lagit eða brua eða til salo scipa. hvart sem þat er i londum eða lœsum ꝋrum.

Prestar[2] þurfo eigi at tiunda þat fe er þeir eigo i bókum ok messo klæðum. ok þat allt er þeir þurfo til Guðs þionusto. Tiunda sculo þeir annat fe.

3. Bus afleifar þarf maðr eigi at tiunda vm vár ef hann helldr búe sino. en ef hann bregðr bue sino. eða selr hann or bue þat scal hann tiunda.

4. Ef maðr a goðorð . ok þarf eigi þat til tiundar at telia. velldi er þat en eigi fe.

5. Bondr aller sculo tiund gera þeir er þingfarar kꝋpe eigo at gegna af fe sino sculd leoso. eigi scal omogum fe telia[3] þoat hann eigi fram at føra. En þoat hann eigi minna fe . ef hann a .X. ꝋra scvldlœsa . oc scal hann þa tiund gera af . hvart hann er bonde eða griðmaðr. nema hann eigi omaga þa . er hann scyli af verkom sinum fram føra.

6. Rett er at þurfa menn þeir aller þiggi tíund er eigi sculo giallda tiund konur sem karlar[4].

7. Samqvamor[5] sculo menn eiga um hœst i hrepp hueriom. eigi fyrr en .IIII.ar vicur lifa sumars. oc scipta tiundum. oc scal scipt tiundum drottins dag enn fyrsta i vetri. Fimm

---

1) *vantar i, líklega af vangá ritarans:* En sá er á XL aura, sá skal iij álnir.

2) upphafsstafr blár, rauðr og gulr, en ekki mjög stór; eyða fyrir stuttri fyrirsögn, og hefir þar þó aldrei neitt ritað verið.

3) ætla, *yfir línunni með smáu letri, en sömu hendi, og orðið í línunni þó eigi dregið út.*

4) þar sem hèr vantar § 7, eptir skiptíngunni í konúngsbókinni *(A)*, þá kann það vera af vangá ritarans.

5) *upphafsstafr rauðr, blár og gulr, en ekki stór; eyða ætluð fyrir litilli fyrirsögn, en hefir þó aldrei rituð verið. Í útgáfu Thorkelins byrjar hèr* XXXVII cap., *með fyrirsögn:* um hreppascil ok eið at fe (*sbr. D*).

menn scal til taka i hrepp hueriom at scipta tiundum oc matgiofum oc sia eiða at monnom. þa er bezt þickia til fallner. hvárt sem þeir ero griþ menn eða bøndr. oc søkia menn um laga afbrigð.

8. Huerr maðr scal eið vinna at fe sino oc er scylldr þess þa er hann er .XVI. vetra gamall. Enda sculo aller eið vinna a hueriom .III. vetrum. Grið menn sculo eið vinna fur boanda eða sialfelþis menn. Fyrer þeim bonda er rétt at þeir vinne eiðinn. er þeim monnum þycki þat fullt er til ero tekner at sia eiða at monnum i hrepp huerium. Oc ero bøndr scyllder at segia til tiundar þeirra a samquamum.

9. Þar[1] scal maðr giallda vár tíund. sem scipt er hǫ́st tiund hans. En ef þat er huergi. þa scal þar giallda. sem hann er vist fastr Marteins Messo.

10. Skylldr[2] er hverr maðr til þeirrar samqvamo at fara er hann a tiund at gera. eða fa annan mann fur sic þann er lǫgscilum hallde upp fur hann oc handsol se at þiggiande. Ef hann kømr eigi firer miðian dag oc engi maðr af hans hende. þa verðr hann utlagr um þat .III. Morkom. oc scal hann þa tiund giallda sem scipt verðr a hond honom. Þar scal telia fe manna hue mikit fe huerr á. scal virða lond oc lǫsa ǫra. virða til .VI. alna ǫra. oc scal þat fe virða er at lǫgfardǫgum er sculldlǫst.

11. Sialfr scal hverr maðr uirða sitt fe oc telia. eN þa er hann hefer talit fe sitt oc uirt. þa scal hann taca boc i hond ser eða cross oc nefna uatta. J þat vetti. At ec uinn lǫgeið at bok oc segi ec þat Guðe at ec a sua fe sem ec hefi nu talit eða minna. EN ef hann vill eigi eið vinna þa er hann er beiddr. þa verðr hann sekr vm þat .XII. Morkom. þa er hann beiddr er hann er beðinn. Hans tala scal standa a fe sialfs. oc scal hann af þvi gera tiund nema hann sveri til fiorðungi minna en se. Ef hann suerr til fiorðungi minna. þa er hann sekr um þat .XII. Morkom. oc scal hann sva micla

1) upphafsstafr rauðr og gulr, en í minna lagi; lítil eyða fyrir stuttri fyrirsögn, sem þó hefir aldrei ritað verið.

2) upphafsstafr grænn, en með minnsta móti; eyða fyrir stuttri fyrirsögn, er þó hefir aldrei ritað verið.

tiund giallda sem samquamo menn vilia telia oc scipta a hond honom. eiðlaust.

12. þa er maðr hefer eið svarðan. oc scal hann sva tiund af gera sem hann hefer til suarit nema fe hans vaxe eða þuerri tiotigom. Ef fe hans þuerr .x. tigum þaðan fra er hann hefir suarit til. oc er honom rétt at fara til samquamo. oc telia fe sítt. oc vinna eið at. oc gera þar tiund af ef hann suerr til. Nu vex fe hans .x. tigum eða meira. þa er honom rett at fara til samquamo. oc segia til þess ok gera þar tiund af. Nu hyggia reps menn at meira hafe vaxit fe hans en hann segi eða hann vili ecki fra segia. þoat fe hans hafe vaxit .x. tigum eða meira. þa eigo samquamo menn at gera honom orð at hann comi til samquamo eða vinne eið at fe sino i annat sinn. Ef hann vill eigi eið vinna i annat sinn þa er samquamo menn vilia. þa verðr hann sekr um þat .XII. Ɱorkom. Oc er þat eiðfall. oc scal hann sva micla tiund gialda sem samquamo menn telia. oc þeim giallda sem þeir raða á at queða.

13. þar er manne verðr eiðfall oc eigo repps menn soc þá. hverr þeirra er furst vill. Sǫk þeirre scal stefna at lǫgheimili þess er sóttr er. oc telia hann sekian vm .XII. Ɱorcom. Oc qveðia til .v. heimilis bua hans a þingi. Ef qviðr berr a hann eiðfallit. oc scal domr dœma .VI. Ɱerkr þeim er sótti en aðrar .VI. sculo fylgia annarri tiund.

### þurfa Ɱanna tivnd[1].

14. Hreps menn þeir er til ero tekner sculo scipta huers mannz tiund. i fiora staði nema minni se en eyris tiund. enda er þo rétt at hon huerfe i einn stað. Fiorðung einn tiundar scal gefa þurfa monnum. innan reps monnum þeim er til omaga biargar þurfo at hafa a þeim missarum. oc scipta með þeim. gefa þeim meira er meire er þǫrf.

15. Eigi a tiund at gefa or hrep nema samquamo menn verðe a þat sátter. oc þicki utan hreps monnum meire þǫrf.

16. þat fe er gefa scal þurfa monnum. þat scal vera i

1) *Fyrirsögnin með rauðu letri; upphafsstafr rauðr, gulr ok blár.* — *Í útgáfu Thorkelins byrjar hèr:* XXXVIII. cap. um tiundar halld ok gialld, *og er sú fyrirsögn tekin úr Skálholtsbók hinni eldri, sem hèr er kölluð* D.

vaðmálum eða i varar felldum. i ullo eða gærom. eða mat. eða kyk fe ǫllo ǫðro en rossum. þat scal golldit vera þeim monnum er við sculo taka oc fram comit at Marteins Messo. Ef þa er eigi fram komit. oc verðr þat tiundar halld. oc verðr sa sekr vm þat .VI. Morkom er giallda á. þurfa maðr sa er scipt er til handa. hann er aþile at sǫk þeirre bæði søkiande oc seliande. Sa er annarr aþile er til socnar er tekinn i hreppinum oc tiund scipti til handa honom. Sǫk þeirre scal stefna at lǫgheimili þess er sottr er oc qveðia til bua .V. a þingi. þa er næster ero stefno staðnum.

17. þeim manne er rétt at stefna heima at sin. er tiund scipti til handa þurfa monnum enn .Vta dag viko er .IIIIar vikur ero af sumre. ef eigi er aðr fram komit. Rétt er at hann take þann dag við vaðmalom til handa þurfa monnum ef hinn vill þa golldit hafa. eigi er hann scylldr at taka i ǫðro fe nema hann vile. Ef eigi kømr þann dag fram. oc scal sa maðr er til socnar er tekinn ganga ut i tún at sin. eða sa maðr er hann selr sǫc. oc nefna vatta. at þvi at hann er buinn at taca við tiund þeirre er hann scylldi giallda. oc nefna hanu oc qveða á hue mikit feit er. oc hann ser engi þann er giallda haldi upp fur hann. Hann scal nefna vatta i annat sinn. J þat vetti. scal hann qveða. At ec stefni N°. um þat er hann helldr tiund fur .N°. oc tel ec hann sekian um þat VI. Morkom. oc giallda fiorðunginn tvennom giolldum sva sem buar virða þann luta er golldinn er. ef sumr er golldinn. stefni ec til giallda oc til utgongo vm fe þat. oc qveða a hvar hann stefnir til þings. oc stefni ec logstefno. Hann scal qveðia til .V. bua a þingi þaðan fra er hann stefnde.

18. Annan[1] fiorðuug tiundar scal hafa byscop. þat scal vera i vaðmalum eða i varar felldum i lamba gærom eða i gulli eða i brendo silfri. þa er byscop ferr um fiorðung. hann scal segia til at kirkio sócnum i hrep hueriom. huerr við þeim fiorðungi tiundar scal taca er hann scal hafa. þar er meltr eindagi a fe þvi er menn sculo byscopi giallda. enn .Vta dag viko er .IIII. vikor ero af sumre. at lǫgheimili

1) *upphafsstafr blár, gulr og rauðr; eyða fyrir litilli fyrirsögn, og sèst þó ekki votta fyrir að hún hafi nokkurn tíma rituð verið. Í útgáfu Thorkelins byrjar hèr:* XXXIX. cap. um byscups tíund. oc eindaga.

þess mannz er byscop byðr um at taka við fe þvi. Rett er þott fyrr se golldit. Ef þa kømr eigi fram. þa scal sa er réttr er søkiande ganga ut i tún at sín oc nefna vatta. At þvi vetti. at hann er búinn við fe þvi at taca er hann scylldi giallda oc nefna hann oc qveða a hue mikit feit er. oc hann ser engi þann mann. er gialld þat inne af hendi. honom er rétt at stefna sva vm þenna fiorðung tiundar sem[1] um hinn er fyrr var um tint. þat er honom oc rétt at stefna siðarr um þat fe at lǫgheimili þess mannz er giallda scal. þess a hann oc cost at segia byscopi til oc láta hann heimta sva sem hann vill.

19. Nv[2] ero epter tveir fiorðungar tiundar. þat er half tiund huers mannz. þat scal leggiaz til kirkna oc presta reiðu. Sua til huerrar kirk[i]o sem byscop vill oc hann scipter tiundum til. oc reiða þeim manne i hǫnd er kirkio varðveiter. þa er tiundum er til scipt. hann scal kaupa at presti tiþer sva sem hann ma viðr comaz oc þa lute er til kirk[i]o þurptar þarf at hafa sem fe þat vinnz til. Sua sculo menn giallda tiund af ǫllum bøiom i heraðe til kirkna sem byscop hefer boðit hueriger sem a bolstǫþum bua.

20. Boande sa er a kirkio bð þeim býr er tiundinne er til scipt. hann er réttr heimtande oc søkiande oc seliande þeirrar sakar ef hann vill. En ef hann vill eigi þa er réttr aþile þeirrar sakar. lærðr maðr sa er kirkio þionar. sa er til kirkio þurpta vill hafa feit.

21. Fior[ðung] tiundar þann er til presta reiðo scal leggia. þann scal giallda i vaðmálum eða i varar felldum eða i lamba gærum eða i gulli eða í brendo silfri.

22. En þann fiorðung tiundar er til kirkio þurpta scal leggia. þann scal giallda i vaxi eða i viði eða i reykelsi eða i tioro. eða i lereptum nyiom þeim er hǽf se til kirkio bunaðar sva sem getr at kaupa með vaðmalum i þvi heraðe. [Rett er þott uaðmal ein se golldin.

23. þat fe scal golldit it siðarsta hinn .v^ta^ dag viko er .IIII. vikor ero af svmri. En ef eigi komr þa fram. þa scal

1) yfir línunni í skb. með sömu hendi.

2) *upphafsstafr rauðr, gulr og blár; eyða fyrir stuttri fyrirsögn sem þó hefir aldrei þar rituð verið. I útgáfu Thorkelins stendr hèr:* XL. cap. um kirkio tiund.

sa er heimtandinn er stefna þann dag um i tuni a kirkio bænum þeim er tiundin a til a[t] huerfa[1]. ok søkia þar sem vm aðra tiund. hann scal[2] stefna sinne stefno um huarn fiorðunginn. oc lata varða .VI. Merkr i huarumtveggia stað halldit. Kostr er oc at stefna einni stefno um baða fiorðungana. oc fylgia þa ein álǫg þuiat einn er aðile at báðum.

24. Rett[3] er at stefna heiman til varþinga um tiundar mál. þar er menn ero samþinga. oc rétt er at lysa a várþingi i þingbrecko um tiundar mál ef þeir ero samðinga. oc søkia þar i dom ef hinn er þar er sottr er. Þa[4] er rett nm byscops fiorðung at søkia. þótt sa se eigi a þingi er sóttr er. Ef lyst er a þingi. þa scal qveðia til heimilis bua .v. þess er sottr er.

25. Ef[5] maðr hefir omaga eyre at varðveita þann er hann tekr vǫxto af. oc scal þann luta vaxtarens tiunda er under hann berr. sem þat fe er hann átte aðr.

26. Jslendzker menn[6] aller sculo tiunda fe sitt. en um utlenda menn ef þeir coma ut hingat oc erat þeim scylldt at tiunda her fe sitt aðr þeir hafa her verit .III. vetr samfast nema þeir gøre bu fyrr. En þat vár sculo þeir gora tiund er þeir gera bú oc þa missare epter. En ef várir landar fara heðan ok eigo þeir fe epter. oc scal sa maðr giallda tiund af er varðveiter þat fe. En um þat fe sem hann hefer a brot með ser. oc erat honom her scyllt at giallda tiund af þvi. þott hann se allengi a brot. En ef hann kømr ut hingat. þa scal hann giallda tiund af þvi fe er hann hefer ut með ser. en næsta vetr epter er hann kømr ut um sumarit aðr. þott hann se i gørðum erlendis. Ef maðr kømr ut hingat ok hefer vaxit fe hans eða þorrit eða hann hefer eigi eiða fyrr at unnit. oc er hann scylldr at vinna eið at fe sino. ef menn vilia beiða hann.

---

1) frá [ sýnist vera ritað í skinnb. með annari hendi.

2) st, *skinnb.*

3) *í útgáfu Thorkelins byrjar hèr:* XLI. cap. um varþinga stefnu á tíundar hallde.

4) *þannig í skb.; líklega rèttara:* þó.

5) *upphafsstafr grænn, gulr og rauðr; eyða fyrir stuttri fyrirsögn, sem þó hefir aldrei rituð verið. Í útgáfu Thorkelins byrjar hèr:* XLII. cap. um omagatiund. islendskra kaupmanna. oc um eiðvinning.

6) yfir línunni með sömu hendi.

um eiðvinning[1].

27. Ef hiu eigo fe saman. oc scal karlmaðr eið vinna fur [fe þeirra[2] beggia. Ef karlmaðr ok kona eigo fe saman þott þau sésk eigi hiona. oc scal karlmaðr vinna þar eið. Ef karlar eigo fe saman. oc er rétt þott annarr vinne þar eið. Ef þeir metaz við oc vill [hvarge] vinna eið. oc er soc við hvarntveggia. Sa scal eið vinna fur fe huert er lǫgraðandi er fiarens.

28. Ef vǫxto berr under mann af þess mannz fe er erlendis er. oc scal hann þat fe sva tiunda sem vǫxto bæri under hann af omaga eyre.

29. Þar scal maðr tiund giallda i þeim repp sem hann a lǫgheimili þau misseri hvargi sem fe er.

30. Rétt er at sættaz a tiundar mál meþan eigi er stefnt um. þo er rétt at sættaz á þott stefnt se um. oc scal eigi meira niðr falla [alaganna] en helmingrinn. Ef maðr tekr minne satt en .III. Merkr. [ok veʀ honum .III. Marka] secð. oc a sa sǫc er vill.

31. En sæmo ero viðrlæg um tiund. huegi lengi er tiund er halldit.

32. Ef tiund gelldz eigi heima i heraðe enda er eigi stefnt um. þa er rétt at lysa et næsta sumar epter a alþingi at lǫgbergi. Jnnan reps menn eigo at lysa þvattdag ok fǫsto dag. um tiundar mál oc þeir menn er af þeim taka saker. Ef hreps menn hafa eigi lyst fur helgina. þa er rétt hueriom at lýsa eptir helgina ef vill til unz domar fara út.

Sa[3] er lysa vill um tiundar mál. hann scal ganga til lǫgbergs oc nefna ser vatta þar. J þat vetti. scal hann queða. at ec lysi sǫc a hendr. Nº um þat at hann hafi haldit þeim fiorðungi tiundar. oc qveða a hverr sa er. tel ec hann sekian um þat .VI. Morkom. oc giallda þann luta sem ogolldinn er tuennom giolldum. sem buar virða. oc qveða á. hvar hann lyser til doms. oc lysi ec lǫglysingo.

---

1) *með rauðu letri og sömu hendi (ritað: eiðvīng). — upphafsstafrinn rauðr, og dregið í gult og blátt.*

2) frá [ máð, og einsog skafið út í skinnbókinni.

3) upphafsstafr blár, og dregið i gult og rautt, en í minna lagi að stærð; eyða fyrir stuttri fyrirsögn, sem þó aldrei hefir ritað verið.

33. Þar er maðr lyser um tiundar mál. oc scal hann þar qveðia til .v. bua a þingi[1] þa er næster ero stefno staðnom. Engi er ruðning til um bua. þa nema at leiðar lengð.

34. Eigi scal meta spell a tiundar malum ef rétt er hǫfðot sǫkin.

35. Ef maðr tekr gagn sok upp í gegn tiundar male. oc a eigi at meta þa sǫc. nema hon se fior bavgs sǫc. eða meiri. meta scal ef tiundar sǫc er.

36. Þuiat eins er rétt at lysa a þingi oc søkia. et sama sumar vm tiundar mal. ef sa er a þingi er sottr er.

37. Eigi scal tiundar sǫc fyrnaz helldr en onnor fiar heimting ef hann gelldr eigi hin fursto missere. þa er hann atti at giallda. þa scal stefna at lǫgheimili þess er sottr er eða lysa á þingi.

38. Þa[2] er maðr stefner heima at sin þa er .IIII. vikor ero af sumre um tiundar mál. oc a domr at døma at giallda i þeim stað enum sama. XIIII. nottum epter vapna tak innstøða. oc VI. Merkr. alaga oc scal þeim døma .III. Merkr er søker en aðrar .III. sculo fylgia þeim fiorðungi tiundar sem um er stefnt.

39. En ef stefnt er at lǫgheimili þess er sottr er. oc scal þar þa døma at giallda innstøða oc a lǫg .XIIII. nottum epter vápna tak.

40. En ef lyst er a þingi um tiundar mál. oc a domr at døma innstøða oc alǫg. at lǫgheimili þess er sottr er XIIII. nottum epter vapna tak.

41. En um viti ǫll þau er her fylgia oc utlegðer. þar scal døma VI. alna aura[3].

---

1) þess er sóttr er. En þar er maðr stefnir heiman um tíundar mál þar skal hann kveðia til v. búa á þingi, *b. v. A, og mun því líklega vera sleppt af vangá ritarans hèr í skinnbókinni.*

2) *í útgáfu Thorkelins byrjar hèr:* XLIII. cap. um tíundarsókn.

3) *hèr eptir fylgja í skinnbókinni sex kapítular (skinnb. bls. 20b—21a), hver um sig með upphafsstöfum og eyðu fyrir stuttum fyrirsögnum, sem þó hafa aldrei ritaðar verið; þessir kapítular eru:* 1) Ef finz af liki *o. s. frv.* (*Thorkel. cap.* XLVI); — 2) þar er menn leggia fe til kirkio *o. s. frv.* (*Thorkel. cap.* XLVII. um kirkiugjafir *og* máldaga); — 3) Eigi skal maðr bera vápn í kirkio *o. s. frv.* (*Thorkel. cap.* XLVIII); — 4) þa eina menn scal at kirkio grafa *o. s. frv.* (*Thorkel. sst.*), — 5) Eindagi er a

42. Avll[1] tiund su er minne er en sciptingar tiund. þa scal hon huerfa með þurfa manna tiund a haust nema byscop vili hana einkum til kirkna lata leggia.

43. Byscop scal raða til hverrar kirkio. tiund scal leggia af hueriom bø. oc scal þat halldaz meþan hinn sami byscop ræðr fur[2]. þat scal rétt ef byscop [leyfir] at þar se kirkia gør er eigi er aðr. oc hann leggi til þeirrar kirkio tiund af þeim bø. þott hon liggi aðr til annarrar kirkio. Heimilt a byscop at taka tiundir fra kirkiom þott hann hafe aðr til lagðar. ef þær ero verr varðveittar en melt er. Nu hefir byscop ecki um rétt. oc lætr vera sem aðr var. oc er honom rétt þa er hann vill at scipta a annan veg. oc scipta eigi optarr en um sinn.

44. þar[3] er maðr a at giallda tiund ena meiri af fe sino. þa scal hann virða fe sitt allt til .VI. alna aura. ok giallda iam friþa aura. af. sem þeir er virðir vóro. En þat ero VI. alna aurar. kyr oc ær at þinglagi þvi sem þar er i þvi heraðe. þat er laugeyrir VI. alnar vaðmáls. eða varar felldir nýir sva at þeir se eigi verr virðir en vara. Eyrir gullz fur .CCC. alna.

---

tíðakaupi presta *o. s. frv.* (*Thorkel. cap.* XLIX); — *og* 6) Ef menn vinna fleira en þat sem lofat er á þeim dogum xv. *o. s. frv.* (*Thorkel. sst.*). — *þessum kapítulum hlýtr að vera skotið inn, því þeir eiga ekkert skylt við tíundarlögin, og eru þeir því felldir hèr úr. Thorkelin setr svo saman í sinni útgáfu, að hann fellir þessa sex kapítula úr á þessum stað, og tekr saman það sem er á undan og eptir og setr í 43. cap., síðan hefir hann 44. og 45. cap. nýmæli Magnús biskups Gizurarsonar og um misseristal, eptir konúngsbók* (sbr. Finsens Grágás bls. 36—37). — *þar eptir fylgir það sem hèr er skotið inní, og er það talið cap. 46—49.*

1) upphafsstafr rauðr, og dregið í gult, stafrinn sjálfr í minna lagi; eyða fyrir stuttri fyrirsögn, sem þó hefir aldrei rituð verið (sbr. Thorkel. cap. XLIII, bls. 162). — Mjög virðist það líklegt, að þessi grein og allar eptirfarandi (§ 42—47) sè nýmæli, og heyri ekki til statútunnar upphaflega.

2) stoli, *á spázíu í skinnb. með nokkru ýngri hendi, hinni sömu sem ritað hefir það sem stendr við niðurlag tíundarlaganna í þessari bók (sjá bls. 99 í athgr.), og ætla eg þá hönd vera frá 14du öld.*

3) í útgáfu Thorkelins er þessi klausa síðari hluti í 49. cap. (bls. 172). Við þessa klausu sbr. Grágás i Festa þætti eptir skinnbókinni í Árna Magnússonar safni (konúngsbókin hefir ekki þenna kafla); *sjá* útg. Árna Magn. nefndarinnar cap. 55, I, 379; Fins. útg. cap. 144, bls. 30—31.

Mork vegin brennz silfrs er iofn við eyri gullz. Melracka scinn .VI. oc lamba gæror .VI. þat er huartueggia logeyrir.

45. J[1] þat vetti. at ec em buinn at taka við tiund þeirre. oc qveþa a huer tiund er. oc N. scylldi giallda, oc queða a hue mikil er. Ec se hann eigi her cominn i lǫgeindaga stað. oc engi þann mann er gialldi þui halldi up fur hann. hefi ec her. N. logsianda til með mer at sia gialld ef boðit veri. Nef[n]i ec mer þessa vatta. J þat vetti. at ec stefni. N. um þat er hann helldr. N°. tiund fur mer. ec tel hann eiga at verða sekian fur þat .VI. Morkom. oc giallda tvennom giolldum þann luta tiundar er ogolldinn er sua sem buar virða. stefni ec til giallda oc til utgǫngo um fe þat allt saman alag oc innstøða. stefni ec honom til þings. *vsque*[2]. oc stefni ec lǫgstefno. stefni ec i lǫgeindaga stað réttum.

Fimm bua scal qveðia a þingi þaðan fra er hann stefndi.

46. Sva[3] er melt i logum at maðr scal þar gialda alla tiund sina sem hann er i vist um haustit. þa er scipt er tiundum. EN ef þar er engi samqvama i þeim repp sem hann er vist fastr til þess at scipta tiundum manna. þa scal þar giallda sem hann er vist fastr um Marteins Messo. oc scal sa maðr iafnan giallda tiund af féno. sem lǫgraðandi er fiarens.

47. Ef[4] maðr hefir omaga eyri at varðveita þann er hann tekr voxto af. oc scal hann þat fe allt tiunda er undir honom er. sem þat er hann átti[5] áðr[6].

---

1) *lítill upphafsstafr, ritaðr með bleki, en eyða látin eptir fyrir nokkurri fyrirsögn, sem þó hefir aldrei ritað verið; í útgáfu Thorkelins* L. cap. Her segir um sakir oc fjarsokn. oc tiundarhölld fyrri manna.

2) þetta orð kemr opt í skinnbókinni (t. d. í Grágás), og þýðir: að nokkru sè úr sleppt, sem ritarinn ætlast til að fyllt sè eptir öðru; líklega hefir hann vitað til annars handrits, sem hefir haft í stefnunni það sem hèr er fellt úr, og hefir hann ætlazt til að fylla skyldi eptir því.

3) upphafsstafr blár, og dregið í gult og rautt, ekki stór; eyða fyrir stuttri fyrirsögn, sem þó aldrei hefir ritað verið; í útg. Thorkelins er þetta niðrlag 50. cap.

4) upphafsstafr rauðr, og dregið í grænt og gult, nokkuð stór; eyða fyrir stuttri fyrirsögn, er þó hefir aldrei ritað verið.

5) sbr. *A.* § 23, og hèr § 25.

6) *hèr er skilin eptir mestöll blaðsíðan auð í skinnbókinni (30 lína*

## C.

Eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar Nr. 346 í Fol. — þessi skinnbók er í nokkuð aflaungu fjögra blaða broti, með ágætlega settu og ekki mjög bundnu letri. Þar eru 31 og 32 línur á blaðsíðu og ritað í heilum línum en ekki í dálkum; er skipt í kapítula með rauðu letri í fyrirsögnum og upphafsstöfum rauðum eða grænum. Í bók þessari eru nú alls 85 blöð, og er þar á: 1) brot úr Járnsíðu, sem er konúngseiðr, lendra manna og bænda, og hefir þessi bók verið ein af þeim, sem hefir haft upphaf Járnsíðu sem inngáng til Kristinrèttar Árna biskups, og munu slík handrit vera upp komin á árunum 1271—1280. Hèr fylgir þá einnig: 2) Kristinrèttr Árna biskups, og er þar upphafsstafr ekki stærri en við kapítula skipti, en með allnýrri hendi er hèr rituð kapítulatala á spáziu, og eru hèr taldir 34 kapítular í þessum Kristinrètti. 3) Kristinrèttr hinn forni eða Þorláks og Ketils, með stórum upphafsstaf, og fyrirsögn: „her hefr kristinna laga þatt enn forna". Kapítulatala er sett á spáziu með sömu hendi og áðr. Í enda á 10. kap. eptir þeirri skiptíngu sem hèr er (sbr. Thorkel. útg. cap. 35; Fins. Grágás cap. 17) stendr: „Sua setto þeir ketill byskop oc thorlakr. byskop. at raðe øzurar erkibyskops. oc sêmundar. prestz. oc margra annarra kenne manna"; er því auðsætt, að hèr hefir endað Kristinrètt, eptir þess manns ætlan sem ritaði; en þar

---

*rúm á fyrra dálki, og allr síðari dálkrinn, sem er reglaðr niðr í 37 línur). Á næstu blaðsíðu (23) byrjar Arfa þáttr í Grágás, með sömu hendi. Á fremra dálkinum, rètt fyrir neðan þar sem tíundarlögin hætta, eru ritaðar fyrst fjórar, og svo með litlu millibili aptr tvær línur, með nokkuð krókóttri hendi, er lítr út til að vera frá fjórtándu öld, þetta:*

Ragnilldr a j minum garðe. h[alft]. x. hundrat j gripum | [. . ij. tiger h. [hundraða?] ok h. [halfa?] Mork — *á spáziu með sömu hendi útundan línunni, en ekki vísað inni]*. | j karnsa. ccc. ok .xx. j skaga paurtum. xiii. hundrut. | ok .xiiij. aura. fiogur kugilldi. xx. hundrut voru | at benedikt brêðr sinum .ccc. j gripum. |

Eirikr niall. halfan .v. tug hvndraða. eru þat allt | vara nema .x. kugilldi.

*Þó ekki verði með vissu sagt, hvernig á þessari áritun standi, þá er þó auðsætt að hún er úr Húnavatns sýslu, því hún nefnir jarðir þar; má þaraf ráða, að bókin hafi verið í Húnavatns sýslu nálægt miðri 14. öld eða fyrri, hvort sem Benedikt þessi sem nefndr er kynni vera Benedikt Kolbeinsson, eða ekki.*

eptir fylgja: 4) Tíundarlögin, þau sem hèr eru prentuð (skinnb. bls. 42—47); er þeim hèr að eins skipt í 3 kapítula, sem hin umgetna síðari hönd hefir talið cap. XI—XIII í Kristinrètti. Við enda tíundarlaganna hefir hèrumbil hálf blaðsíða verið auð, en á næstu blaðsíðu byrjar: 5) Jónsbók, og nær hún yfir bls. 48—160 í skinnbókinni. 6) Rèttarbót Eiríks konúngs um erindi Þorláks lögmanns [1294], og er sleppt dagsetníng; 7) Rèttarbót Hákonar konúngs um konúngsmenn þá sem brotlegir verða á Íslandi o. s. frv. [23. Juni 1305], og er sleppt upphafi og niðrlagi; 8) Rèttarbót Hákonar konúngs um stefnur til Noregs o. s. frv. 14. Juni 1314; 9) síðast er kapítuli um byggíng á konúngsjörðum, sem skipað er í rèttarbót Eiríks konúngs (1294 § 50) að skuli vera í lögbók. — Þá er ein blaðsíða auð, og hefir bók þessi líklega aldrei lengri verið; en á skinnblaði þar aptanvið eru tvö ræðuform, annað til að sitja hèraðsþíng, en annað til að segja því upp; einnig form til að nefna menn til Öxarár þíngs; er það með nafni Eiríks Torfasonar, konúngs-umboðsmanns milli Hvítár og Hitarár, og má þar af ráða að hann hafi bókina átt. Þessi Eiríkr var sonr Torfa í Klofa, Jónssonar, Ólafssonar, Loptssonar hins ríka, og mun hafa verið sýslumaðr í Mýra sýslu á fyrra hluta sextándu aldar; bjó hann í Klofa eptir föður sinn, en Þorsteinn bróðir hans bjó í Hjörsey á Mýrum. Á árunum 1528—1544 er Eiríks Torfasonar getið við ymsa gjörnínga. Eptir hann finnst ekki hver bókina muni hafa átt, fyr en Björn Jónsson á Staðarfelli, og frá honum er hún kominn til Árna Magnússonar 1685, er hún síðan kölluð Staðarfellsbók („codex Stadarfellensis", Thorkelin). Eptir ritshætti og handarlagi að dæma, mun hún varla vera ýngri en hèrumbil frá 1330.

---

1. Þat[1] er mêlt i løgum uarum at allir menn skulo tiunda fe sitt allt a lande her løgtíund.

Þat er løgtíund at sa maðr skal gefa VI. alna eyre. er hann áá. tivtøgo feár. VI. alna aura.

Sa maðr er hann áá .X. VI. alna aura fyri vtan fa̋t sín.

---

1) fyrirsögn hefir verið með rauðu letri, nær því heil lína, en er nú skafið út. Upphafsstafr sem í stærra lagi fyrir kapitula, grænn og rauðr; á spázíu er sett með miklu nýjari hendi (frá 17. öld) „cap. XI.", svosem í Kristinrètti Þorláks og Ketils.

hvers dags buníng. skulldlaust. sa skal gefa alin vaðmals eða ullar reyfe þat er .vi. gere hespu eða lambs gêru.

En sa er áá .xx. aura. scal .ii. alnir.

En sa er áá .xl. skal .iij. alnir.

sa er halft .c. áá. skal iiij. alnir gefa.

En sa er áá. atta tøgo skal .v. alnir.

En sa er a tivtøgo skal .vi. alnir.

2. Þat fe þarf eigi til tiundar at uírða. er aðr er til guðs þacka lagt. hvart sem þat er lagit til kírkna eða til brua. eða til salu skipa. huart sem þat er i laundom eða lausom ǫrum. Prestar þurfo eigi at tiunda þat fe. er þeir eígo i bokum eða messo klêðum. ok þat allt fe er þeir hafa til Guðs þionostu. tiunda skulo þeir annat fe.

3. Búss afleifar þarf eigi at tiunda of vár ef hann helldr bue síno. En ef hann bregðr buí. þa skal hann tiunda.

4. Ef maðr áá Goðorð. ok þarf hann eigi þat til tíundar at teléa. vellde er þat eñ eigi fe.

5. Bêndr allír skulo tiund gǿra. þeir er þingfarar kaupe eigu at gegna af fe sinu skulldlauso. eigi skal umøgum fe ètla þott eigi fram at fêra. En þott hann eigi minna fe. eñ hann gegne þingfarar kaupe. ef hann áá .x. aura skulldlausa. ok skal hann þa tiund af gøra. huart sem hann er bonde eða griðmaðr. nema hann eige þa umaga. er hann skyle a uerkum sínum fram fêra.

6. Rett er at þeir allír þigge tiund. er eigi skulo giallda.

7. Jafnt skulo konur giallda tíund sem karlar.

8a. Samquamur skulo menn eíga of haust í repp huerí-um. eigi fyrr en .iiij. uikur lifa sumars. ok skipta tiundum. Skípt skal tiundum drottins dag enn fyrsta i uetre. fím menn skal til taka í Repp hverium at skipta tíundum ok matgiøfum ok seá eiða at monnum. þa er bazt þickía til falldnir. huart sem þat ero bêndr eða griðmenn. ok skulo þeir sǫkia menn of laga afbrigð.

8b. Skylldr er huerr maðr til þeirrar samquamo at koma er hann áá tiund at gera. eða senda annan mann fyri síc. þann er løgskílum hallde upp fyri hann ok hand søl se at þiggiande. ef hann kemr eigi sealfr. fyri miðean dag. ok enge maðr af hans hende. þa uerðr hann sekr um þat .iij. Mork-om. ok skal hann þa tíund giallda. sem skípt verðr a hendr

honum. þar skal fe manna telea. hue mikit er. ok skal uirþa lønd ok lausa aura. til VI. alna aura. þat fe er at fardøgum var skulld laust.

9. sealfr skal huerr virþa fe sitt. ok telea ok þa er hann hefír talít fe sítt. ok virt þa skal hann taka boc i hønd ser. eða cross. ok nefna uatta. at þuí uětte. skal hann qveða. at ec uínn eið at boc. ok sege ek þat Guðe. at ec áá sua fe; sem ec hefe nu talit. eða minna. EN ef hann uill eigi eið uínna. þa er hann er beiddr. þa uerðr hann sekr um þat .xij. merkum. þa er hann beiddr er hann er beðinn. hans tala skal standa áá fe seálfs. ok skal hann af þui góra tíund nema hann suere til fíorðunge minna eñ se. Ef hann sverr til fiorðunge minna eñ se þa verðr hann sekr um þat .xij. merkum[1]. ok skal hann sva micla tíund gíallda sem samquamo menn telea ok skípta a hønd honum eiðlaust.

10. þar er maðr hefir eið svarðan. ok skal hann sva tiund af gøra. sem hann hefir til suarít. nema fe hans þverre eða vaxe tívtøgum þaðan fra er hann sor tíl. ok er honum rett at fara til samquamo ok telea fe sitt. ok uinna eið[2] ok gøra sua tiund af sem hann suerr til.

Nu ef fe hans uex tivtøgum eða meíra. þa er honum rett at fara til samquamo. ok segia til þess ok gøra tiund af. Nu ef repps menn hyggia at fe hans hafe meíra vaxit. eN hann sege eða uile hann eigi fra segía. þott fe hans hafe vaxet tivtøgum .VI. alna aura eða meíra. þa eigo samquamo menn at gøra honum orð. at hann kome til samquamo ok uinne eið at fe síno i annat sínn. Ef hann uill eigi uinna eið. þa er samquamo menn uiléa. þa verðr hann sekr um þat .xij. merkum. ok er þat eiðfall. ok skal hann sua micla tíund greiða sem samquamo menn telea. ok þeim gíallda sem þeir raða áá at queða.

11. þar er manne verðr eiðfall ok eígo repps menn søc þa. huerr þeirra er uill. Søk þeirre skal stefna at løgheimile þess er sottr er. ok telea hann sekian .xij. mørkum. ok queðea

---

1) þa er hann er beiddr, *b. v. skinnb., og er því bætt við óvart úr því sem á undan er komið, síðan er dregið undir það strik með öðru bleki, til merkis um að það skuli ekki vera lesið.*

2) at, *b. v. í skinnb. og skafið út aptr, svo þar er eyða.*

til heímilis bua hans .v. a þinge. ef quiðr berr á hann eiðfallít. ok skal domr dêma .vi. merkr. þeim er sotte. eN aðrar sex skulo fylgía annarre tiund.

12. Reps menn þeir er til ero tecnír. skulo skípta huers mannz tiund í fiora staðe. nema eyris tiund se eða minne. þa er þo rett at hon huerfe i einn stað.

vm tiunda skipti[1].

FíorþunG eínn tiundar skal gefa þurfa monnum. innan repps. ok skípta þeim meíra til handa er meire er þørf.

13. Eige áá tíund or repp at gefa nema samkuamu menn uerðe áá þat sattír. ok þícki þeim utan repps monnum meire þorf.

14. þat fe er gefa skal þurfa monnum. þat skal uera í vaðmalum eða i vararfelldum. eða i vllu eða gérum eða i mat eða i knikfe øllo oðro eñ rossum. þat skal golldít þeim er við skulo taka ok fram komit at marteins Messo. Ef þa er eigi fram komít. ok uerðr þat tíundarhalld ok verðr sa sekr vm þat .vi. merkum er giallda skyllde. þurfa maðr sa er til handa er skípt tiundinne. hann er aðile at søc þeirre. bêðe sǿkiande ok seleande. Sa er annarr aðile. er til [soknar] er tekinn i reppínum. ok tiund skípte til handa þurfa mannínum. Søk þeirre skal stefna heíman at løgheimili þess er sottr er. ok queðea til bva .v. a þinge. þa er nêstir ero stefnu staðnum.

15. þeim er rett at stefna heima at sin. er tíund skipte til handa þurfa mannenum. hínn fimta dag uikv. er fíorar uikur ero af sumri. Ef eigi er aðr fram komín. Rett er at hann taki þann dag uið vaðmalum til handa þurfa mannenum ef hinn víll golldít hafa. Eigi er hann skylldr at taka þa i øðro fe nema hann uile. Ef eigi kemr þann dag fram. ok skal sa maðr er til socnar er tekinn. ganga ut i tun at sín eða sa maðr er hann selr sokína. ok nefna at þui uatta. at hann er buenn at taka við tiund þeirre. er hinn skyllde giallda. ok nefna hann ok queða áá. hue mikit er feít. ok hann ser eigi þann mann er giallde hallde upp fire hann. EN hann skal nefna uatta i annat sinn. at þuí uétte skal hann segia at

[1]) fyrirsögn í skb. með rauðu letri; upphafsstafr rauðr og svart dregið í.

ek stefne honum. ok nefna hann. of þat er hann helldr fire honum ok nefna þúrfa manninn. ok tel ec hann sekian of þat .VI. Mörkum. ok giallda fiorðunginn tuennum giolldum. Sva sem buar virþa. þann luta er vgolldinn ér. ef sumr er golldínn. stefne ek til gíallda. ok til utgø[n]go of fe þat. ok queða áá hvar hann stefnír til þíngs. ok stefne ek løgstefnu. hann skal nefna til bua .V. á þinge þaðan fra er hann stefnde.

vm byskups tiund hversv giallda skal[1].

16. Annan fíorðung tiundar skal hafa byskup. Þat fe skal vera i vaðmalum eða i varar felldum. eða i lamba gørum. eða i Gulle. eða i brendu silfri. þa er byskup ferr yfir fiorðung. hann skal segia til at kirkív i repp hverium huerr við þeim fiorðunge tiundar skal taka er hann skal hafa. þar er mêlltr eindage a þuí fe er menn eígo byskupi at giallda. hinn .V. dag uíku er fiorar uikur ero af sumre. at løgheimili þess mannz er byskup bauð um at taka við fe þuí. Rett er þott fyrr se golldít. En ef þa kemr eigi fram. þa skal sa er rettr er sêkiande ganga ut i tun at sín. ok nefna uatta at þuí at hann er buenn at taka við fe þui. er hinn skyllde giallda. ok nefna hann ok queða áá hue mikit feít er. ok hann ser eigi þann mann er giallde hallde upp fire hann. ok rett er at stefna sva of þenna fíorðung tiundar sem um hinn er fyrr var tínd. Þat er honum ok rett at stefna siðarr of þat fe at løgheimile þess er sottr er. Þess a hann ok kost [at segia] byskupi. ok lata hann heímta sem hann uill.

vm kirkiutiund[2].

17. Nv ero eptir tuér fiorðungar. þat er half tiund huers mannz. þat fe skal legía til kírkív. Sua til hverrar kírkíu sem byskup skiptir til. ok reiða þeim í hønd er kirkív þa uarðueitir. er tiundenne er til[3] skipt hann skal kaupa at preste tíþer. Sva sem hann ma við komaz. ok aðra lute til kirkív þurftar. sem feít uinnz til. Sva skulo menn giallda tíund af øllum

1) fyrirsögnin með rauðu letri; upphafsstafr grænn og rauðr.
2) fyrirsögn með rauðu letri; upphafsstafrinn grænn og rauðr.
3) er *b. v. skb., og dregið í strik, að það skuli ekki lesa.*

béíum til kírkna sem byskup hefír skipat hverigir sem a bolstøðum bua.

18. Bonde. sa er [a] kirkívbê þeim byr. er tiundinne er til skipt. hann er rettr heímtande. ok seleande sakar þeirrar. ef hann uíll. En ef hann uíll eigi. þa er rettr aðile sakar þeirrar. sa er kirkíunne þíonar. Sa er til kirkiu þurftar uíll feít hafa.

19. Fiorðung annan tíundar er tiþír skal með kaupa. hann skal giallda í uaðmalum. eða i varar felldum. eða i lamba gêrum. i gulle. eða brendu silfri.

20. En annan fiorðung tíundar. skal giallda í uaxe eða i uiðe. eða tiøro. eða í reykelse eða lereptum enskum. þeim er hêf se til kirkív bunings. sua sem getr at kaupa með uaðmalum i heraðe þui. Rett er þott vaðmal eín se golldín.

21. þat fe skal golldít it seínsta. hinn fimta dag uíkv. er .iiij. uikur ero af sumre. En ef eigi kemr þa fram. þa skal sa er heimtande er. stefna þann dag um i tune a kirkív bênum. þeim er tíundín a til at hverfa. ok sêkía sva sem um aðra tíund hann skal stefna sinne stefnu um huarn fiorðung ok lata varða .vi. merkr. i hvarum tueggia stað halldit. Rett er at stefna einne stefnu of baða fiorðungana ok fylgía þa eín aløgin. þui at eínn er aðíle at baðum.

22. Rett [er] at stefna heiman til varþinga. of tiundar mal. þar er menn ero samþínga. ok sêkia þar i dom. ef hinn er þar er sottr er[1]. Ef lyst er a þínge of tíund. þa skal queðea heímilís bua .v. þess er sottr er.

23. Ef umaga[-]eyre hefir maðr at uarðueita. þann er hann tekr uøxtu af. ok skal hann þann luta vaxtarens tíunda er undír hann berr sua sem þat fe er hann atte aðr.

24. Jslenzkír menn skulo allir tiunda fe sítt. En utlendir menn ero eigi skylldir at tiunda her sítt fe. aðr þeir hafa her uerit .iij. uetr. nema þeir gøre bu fyrr. þat vár skulo þeir gøra tíund. er þeir gøra bu ok þau missere epter. En ef varir landar fara heðan. ok eigu þeir fe epter. ok skal sa maðr giallda tíund af er varðueiter þat fe. En of þat fe er

---

1) *hèr hefir skrifari skinnbókarinnar án efa hlaupið yfir þetta:* „þó er rètt um biskups fjórðúng at sækja þótt sá sè eigi þar er sóttr er", *sbr. þó* § 33.

hann hefir brøt með ser. ok er honum eigi skyllt at giallda her tíund af þui þótt hann se all lenge a brøt. eñ ef hann kemr ut híngat skal hann þa gíallda tíund af þui fe er hann hefír ut haft með ser. Enn nésta uetr er hann kom ut aðr um sumarít. Ef maðr kemr ut híngat. ok hefir fe hans uaxít. eða hann hefir eigi fyrr eíð at unnít. hann er skylldr at uinna eíð at fe sínu. Ef menn biðea hann.

25. Ef híu eigu fe saman. ok skal karlmaðr uinna eið fire fe þeirra beggia. Ef karlmaðr ok kona eigu fe saman. þott þav se eigi híuna. ok skal karlmaðr uinna eið. Ef karlar eigo fe saman. ok er rett þott annarr uínne þar eið at. Ef þeir metaz við. ok uíll huarge uinna eið. ok er søk uið huarntueggía. Sa maðr skal eið uinna fire fe huert sem løgraðande er fiarens.

26. En ef uøxto berr undir mann. af fe þess mannz er ørlendis er. ok skal hann þat fe tíunda sva sem vaxto bére undír hann af umaga eyre.

27. Þar skal maðr tiund gera. í þeím repp sem hann áá løgheímile í þau missere. hvarge er fe hans er.

28. Rett er at sêttaz a tíundar mál meðan eigi er stefnt vm. þo er rett at sêttaz áá. þott stefnt se vm. ok skal eigi meira niðr falla alaganna eN halft. Ef maðr tekr mínne satt eN .iij. Merkr. ok varðar honum þat .iij. marka sect. oc áá sa søc er uíll.

29. Ef tiund gelldz eigi heima i heraðe. enda er eigi stefnt vm. þa er rett at lysa ít nêsta sumar epter áá alþinge. Jnnan repps menn eígu at lysa fausto dag ok þvatt dag um tiundar mal ok þeir menn er af þeim taka. Ef repps menn hafa eigi fíre helgína lyst. þa er rett epter helgína. hverium at lysa er uíll. unnz domar fara ut. Sa er lysa uíll. hann skal ganga til løgbergís. ok nefna uatta at þui uétte skal hann queða. at ec lyse søc a hendr honum. ok nefna hann vm þat at hann hafe halldít þeim fiorðunge tiundar. ok queða áá huerr sa ér. tel ec hann sekían vm þat .vi. merkum. ok giallda þann luta tuennum gíolldum er vgolldinn ér. sem buar uírða. ok queða áá. huar hann lysír til doms. lyse ek løglysíngu.

30. Þar er maðr lysír um tíund. hann skal queðea til heímilís bua .v. þess er sottr ér. En þar er maðr stefnír heíma um tíund. hann skal kueðea .v. bua áá þinge. þa er

nêster ero stefnu staðnum. Enge er ruðning of þa búa. nema leíðar lengð.

31. Eigi skal spell meta a tíundar malum. ef rett er høfðut søkín.

32. Ef maðr tekr gagnsøc i gøgn tiundar male. ok áá eigi at meta þa søc nema hon se fiørbaugs søk eða meíre. meta skal ef tíundar søc er.

33. þui at eíns skal lysa a þínge. ok sekía et sama sumar of tíund ef sa er a þinge er sottr. er. Rett er at sêkía of byskups fiorðung. þott sa se eigi a þinge er sottr er.

34. Eigi skal tiundar søc fyrnaz[1]. helldr eɴ ønnur fear heímtínɢ. Ef maðr gelldr eigi tiund en fyrsto missere þa er hann atte at giallda. þa skal stefna at løgheimíle. þess er sottr er. eða lysa a þinge.

35. þar er maðr stefnír heiman at sín enn fimta dag uiku. er fiorar vikur ero af sumri. of tíund. ok a domr at dêma at giallda i þeim stað enum sama innstêðv ok vi. merkr alaga. þeim skal dêma .iij. merkr er sêkir. eɴ aðrar .iij. skulo fylgía þeim fiorðunge tiundar er stefnt var vm.

36. Eɴ ef stefnt er at løgheimili þess er sottr er. ok skal þar þa dêma. ok giallda innstêðu ok aløg. fíortan nóttum eptir vapna tak.

37. Eɴ ef lyst er a þinge. of tíund ok a domr at dêma. at giallda innstêðu ok aløg. at løgheimili þess er sottr er. fíortan nottum eptir uapna tac.

38. Eɴ of uitne[2] øll þau er her fylgía ok utlegðír. þa skal dêma vi. alna aura.

39. þar skulo menn giallda tiund alla. er í uist ero um haustít. þa er skipt er tiundum. Eɴ ef eigi er samquama átt í þeim repp. at þuí. þa skal hann þar giallda tiund. er hann er uist fastr marteíns Messo. ok skal sa maðr auallt gíallda tíund af fenu. er løgraðande er fíarens.

40. Ef maðr helldr bue sínu. ok skal tiunda matar afganɢ. ef meire er. eɴ uêtt hafe híuna hvert. ok sua heyía afgang. ef fornare ero eɴ uetrgømul[3].

---

1) *í skb. ritað:* fyrnat.

2) *þannig skb., en þó nokkuð ógreinilega, á að vera* vitte (víte = fèvíti).

3) hèr hefir ekki meira ritað verið, og er nær því hálf blaðsiða auð í

## D.

þessi afskript tíundarlaganna er eptir skinnbókinni Nr. 351. Fol. í safni Árna Magnússonar. þessi skinnbók er í stóru fjögra blaða broti, rituð í tveimr dálkum, og eru 30 línur á blaðsíðunni. Höndin er ágætlega sett og ritgjörð vönduð að öllu, með rauðu letri í fyrirsögnum og upphafsstöfum rauðum, grænum, gulum eða bláum; þar sem mest er haft við, eru dregnar myndir í upphafsstafina. Á þessari bók er: 1) Jónsbók, og er hún merkileg að því, að hèr er sleppt úr bókinni konúngserfðum, eða þeim kafla, sem í útgáfum Jónsbókar er talinn 3.—11. kapítuli í Kristindómsbálki; — 2) rèttarbætr nokkrar, og er ýngst þeirra rèttarbót Hákonar konúngs 14. Juni 1314; — 3) Kristinrèttr Árna biskups, og þar með nokkrar biskupa og erkibiskupa statútur; — 4) Kristinrèttr hinn forni eðr þorláks og Ketils. Eptir því sem hèr hagar til kapítula skiptíngu, þá er hann í 26 kapítulum, og seint í 26. kap. eru niðurlagsorðin: „sva settu þeir Ketill byskop ok þorlakr byskop. at ráði ôzarrar erkibyskup[s]. ok Sæmundar. ok margra kenni manna annarra kristinna laga þatt sem nu war vpp sagt". þar eptir kemr í sama kapítula greinin „um líksöng" (Thorkel. útg. cap. XLVI; Grágás útg. Vilh. Finsens § 262); síðan fylgir „um vapnaburð í kirkiu", og er það hèr 27. kap. (sbr. Thorkel. cap. XLVIII, Finsen § 263 og 266). þar næst koma: 5) Tíundarlögin, þau er hèr fylgja (bls. 214—220 í skinnbókinni), og eru þau talin sem kapítular í Kristinrètti (28—35); — 6) Statútur erkibiskupa og biskupa allmargar, og er seinust þeirra statúta Gyrðs Ívarssonar Skálholts biskups um heytoll, 1359; — 7) þareptir kemr Sættargjörð Magnús konúngs og Jóns erkibiskups, og rèttarbætr og konúngabrèf ekki allfá, en seinast þeirra er brèf Magnús konúngs Eiríkssonar um okr og tíundir 1353; — 8) seinast í bókinni eru reglur um Lögboðníng, stefnur o. s. frv., en á seinustu blað-

---

skinnbókinni, en á næstu blaðsíðu byrjar Jónsbók Magnús konúngs lagabætis; en á þeim hluta blaðsíðunnar, sem auðr er, hefir Árni Magnússon ritað framhald það sem stendr i skinnbókinni frá Belgsdal (A.Magn. 347. Fol.) og tvær klausur aðrar úr kristinrètti, sem koma næst eptir i sömu bók, er það um eindaga á tíðakaupi presta, og um sektir fyrir vinnu á hinum meiri helgidögum (sbr. Thorkelins útgáfu af Kristinrètti þorláks og Ketils cap. XLIX, bls. 170—172). — Eptir því sem fyr var getið ætti greinirnar 39 og 40 í *C* að vera nýmæli (sbr. bls. 85 athgr. 1 og bls. 97. athgr. 1).

síðu er nær því heill dálkr auðr; er því sýnilegt að bókin hefir þar verið á enda, og er alls 266 blaðsíður.

Um aldr handrits þessa er auðsætt, að það getr ekki eldra verið en 1359; aptr á móti er það svo vandað að öllu og merkilegt, að það hlýtr að vera ritað nálægt þessum tíma, og set eg það því til hèrumbil 1360. Árni Magnússon kallar bók þessa Skálholtsbók hina eldri og betri (A. Magn. 435. 4to. bls. 131). Innan á fremra spjaldið er límdr seðill, og hefir Árni ritað þar á: „kom frá Ormi Daðasyni 1721". Þetta þýðir ekki, að bókin sè komin úr eigu Orms, heldr úr láni frá honum, og get eg þess af því, að þetta hefir stundum villt menn. Ormr Daðason var mikill skiptavinr Árna Magnússonar; hann bjó í Fagradal innra, og var sýslumaðr yfir Stranda sýslu († 1744).

Eptir þessari bók hefir Árni Magnússon skrifað upp Kristinrètt hinn forna og Tíundarlögin, og snúið hvorutveggja á latínu; það handrit er nú í safni hans Nr. 352. Fol.

Ágrip úr Tíundarlögunum, eptir því sem þau eru í þessari bók, er prentað í Finn. Joh. Hist. Eccl. I, 120—121, og ýmsar nýjar pappírs-afskriptir eiga einnig til þessarar bókar kyn sitt að rekja; Thorkelin hefir einnig mest fylgt þessari bók, næst eptir Staðarhólsbókina (Nr. 334, sjá *B* hèr að framan) í útgáfu sinni af Kristinrètti hinum forna og Tíundarlögunum.

---

vm tíundargerð[1].

1. Þat er mælt j lǫgum at menn skulu tíunda fe sitt allir a landi her lǫgtíund. þat er lǫgtíund at sa maðr skal gefa .VI. álna eyri er hann a tiutugu fiár .VI. alna aura.

Sa maðr er hann a tiu .VI. alna aura fyri vtan fǫt sín huers dags buning skulldlaust. hann skal gefa alin vaðmals. eða vllar Reyfi þat er .VI. geri hespu. eða lambs gæru.

En sa er hann a .XX. aura skal gefa tuær alnir.

En sa er hann a .XL. aura. skal gefa .iij. alnir.

Sa er LX. aura a hann skal gefa .iiij. alnir.

En sa er .LXXX. aura a hann skal gefa .V. alnir.

Sa er tíutigi aura a hann skal gefa .VI. alnir.

---

1) fyrirsögnin með rauðu letri; upphafsstafr grænn, dregið í rautt, ekki stærri en fyrir hverjum kapitula.

2. þat fe þarf æigi til tíundar at telia er aðr er til guðs þacka lagit. huart þat er lagit til kirkna. eða brua. eða til sꝍlu skipa. huart þat er j lǫndum. eða j lausum aurum.

Prestar þurfo æigi at tíunda þat fe er þeir eigu j bokum eða Messoklæðum ok þat allt er þeir hafa til guðs þionostu. tiunda skulu þeir annat fe.

3. Bwss afleifar þarf maðr æigi at tíunda of vꝍr ef hann helldr bui sínu. En ef hann bregðr bui. eða selr hann or bui þat skal hann tíunda.

4. Ef maðr ꝍ goðorð ok þarf hann þat æigi til tíundar at telia. velldi er þat en æigi fe.

5. Bændr allir skulu tíund gera þeir er þingfarar kaupi eigo at gegna af fe síno skulldlausu. æigi skal omǫgum fee ætla þott hann æigi fram at færa. En þott hanu æigi minna fe en þingfarar kaupi ꝍ at gegna. ef hann ꝍ .x. aura skulldlausa. ok skal hann þa tíund af gera huart hann er bondi eða griðmaðr. nema hann æigi þa omaga er hann skuli ꝍ werkum sínum fram færa.

6. Rétt er at þeir allir þiggi tíund er æigi skulu giallda.

7. iafnt skulu konur giallda tíund sem karlar.

vm hreppa skil ok eið at fe.

8 a. Samkuamur skulu menn eiga of haust j hrepp huerium æigi fyrr en .iiij. vikur lifa sumars. ok skipta tíundum. skipt skal tíundum drottins dag hinn fursta j vetri. fimm menn skal til taka j hrepp huerium at skipta tíundum ok matgiǫfum. ok sia eiða at monnum þa er bezst þickia til fallnir huart þeir eru bændr. eða griðmenn. ok skulu þeir sækia menn of laga afbrigð.

8 b. Skylldr er huerr maðr til þeirrar samkuamu at fara er hann ꝍ tíund at gera. eða senda annan mann fyri sik. þann er logskilum halldi vpp fyri hann ok handsǫl se at þiggiandi. Ef hann kemr æigi sialfr fyri miðian dag. ok eíngi maðr af hans hen̄di. þa werðr hann sekr vm þat .iij. Morkum. ok skal hann þa tíund giallda sem skipt werðr ꝍ hǫnd honum. þar skal telia fe manna hue mikit se. ok skal virða lǫnd ok lausa aura til .vi. ꝍlna aura. þat fe er at fardǫgum war skulldlaust.

9. Sialfr skal huerr virða sitt fe ok telia. en þa hann

hefir talit fe sitt ok wirðt. þa skal hann taka bok j hônd sér eða kross ok nefna vátta at þui vétti skal hann kueða at ek vinn eið at bók ok segi ek þat guði at ek œ sua fe sem nu hefir ek talit eða minna. En ef hann vill æigi eið vinna þa hann er beiddr. þa werðr hann sekr of þat .xij. morkum. þa er hann beiddr er hann er beðinn. hans tala skal standa œ fe sialfs ok skal hann af þui gera tíund nema hann sueri til fiorðungi minna en se. Ef hann suerr til fiorðungi minna en se. þa werðr hann sekr of þat .xij. Morkum. ok skal hann sva mikla tíund giallda sem samkuamu menn telia ok skipta œ hônd honum eiðlaust.

10. þar er maðr hefir eið suarðan. ok skal hann sua tíund af gera sem hann hefir til suarit nema fe hans þuerre eða vaxi tíu tugum þaðan fra er hann sór til. Ef fe hans þuerr tíu tugum þaðan fra er hann sór til. ok er honum Rétt at fara til samkuamu ok telia fe sitt ok vinna eið at. ok gera sva tíund af sem hann suerr til. Nu ef fe hans vex tíu tugum eða meira. þa er honum Rétt at fara til samkuamu ok segia til þess. ok gera þar tíund af. Nu ef reps menn hyggia at fe hans hafi meira vaxit en hann segir. eða vili hann ecki fra segia þott fe hans hafi vaxit tíu tugum eða meira. þa eigu samkuamu menn at gera orð honum. at hann komi til samkuamu ok vinni eið at fe sínu i[1] annat sinn. Ef hann vill æigi vinna eiðinn þa er samkuamu menn vilia. þa werðr hann sekr of þat .xij. Morkum. ok er þat eiðfall. ok skal hann sva mikla tiund giallda sem samkuamu menn telia ok þeim giallda er þeir Rœða at at kueða.

11. þar er manni werðr eiðfall. ok eigu hreps menn sôk þa huerr þeirra er vill. Sok þeirre skal stefna at lôgheimili þess er sottr er ok telia hann sekian vm .xij. Merkr. ok kueðia til heimilisbua hans .v. œ þingi. Ef kuiðr berr œ hann eiðfallit ok skal dómr dæma .vj. Merkr. þeim er sotti. en aðrar .vj. skulu fylgia annarre tíund.

vm tíundar halld ok gialld[2].

12. Hreps menn þeir er til eru teknir skulu skipta huers manz tíund j fiora staði. nema eyris tíund se eða minni þa

[1]) *leiðrétt*; z (ok), *skinnb.*

[2]) fyrirsögnin með rauðu letri; upphafsstafrinn grænn og dregið í rautt.

er Rétt at hon huerfi j einn stað. fiorðung einn tíundar skal gefa þurfa monnum innan hreps ok skipta þeim meira er meiri er þǫrf.

13. Eigi ꝏ tíund or hrepp at gefa nema samkuamu menn werði ꝏ þat sattir ok þicki þeim vtan hreps monnum meiri þǫrf.

14. Þat fe er gefa skal þurfa monnum. þat skal wera j vaðmꝏlum ok j wararfelldum. eða j vllu eða j gærum j mat eða kuikfe ollu ǒðru en hrossum. Þat skal golldit þeim er wið skulu taka ok fram komit at Marteins Messo. Ef þa er æigi fram komit ok werðr þat tiundar halld. ok werðr sa sekr of þat .vj. Morkum er giallda skylldi. þurfa maðr' sa er til handa er skipt tiund. hann er aðili at sǫk þeirre. bæði sækiandi ok seliandi. Sa er annarr aðili er til soknar er tekinn j hreppinum ok tíund skipti til handa þurfa monnum. Sok þeirre skal stefna heiman at heimili þess er sottr er ok kueðia til bua .v. ꝏ þingi þa er næstir eru stefnu staðnum.

15. Þeim er Rétt at stefna heima at sín er tíund skipti til handa þurfa monnum hinn .v. dag viku er .iiij. vikur eru af sumri ef æigi er aðr fram komit. Rett er at hann taki þann dag wið vaðmalum til handa þurfa monnum ef hinn vill þa golldit hafa. æigi er hann þa skylldr at taka j oðru fe nema hann vili. Ef æigi kemr þann dag fram ok skal sa maðr er til soknar er tekinn ganga wt j twn at sín. eða sa maðr er hann selr soknina ok nefna at þui vatta at hann er buinn at taka wið tíund þeirre er hinn skylldi giallda ok nefna hann ok kueða ꝏ hue mikit feit er ok hann séR æigi þann er gialldi halldi vpp fyri hann. En hann skal nefna vátta j annat sinn at þui vetti skal hann kueða at ek stefni honum ok nefna hinn of þat er hann helldr tíund fyri honum ok nefna þurfa manninn ok tel ek hann sekian of þat .vj. Morkum ok giallda fiorðunginn tuennum giǫlldum sua sem buar wirða þann luta er ogolldinn er. ef sumr er golldinn. Stefni ek til giallda ok til wtgǫngu of fe þat. ok kueða ꝏ huar hann stefnir til þings. ok stefni ek lǫgstefnu. hann skal kueðia til bua .v. ꝏ þingi þaðan fra er hann stefndi.

vm byskops tívnd ok eindaga n[efnu][1].

16. Annan fiorðung tiundar skal byskop hafa. þat fe skal

1) fyrirsögnin með rauðu letri; upphafsstafr rauðr ok dregið blátt i.

wera j vaðmalum eða j wararfelldum. eða j lamba gærum j gulli eða j brendu silfri. þar er byskop ferr vm fiorðung. hann skal segia til at kirkiu soknum j hrepp huerium. huerr wið þeim fiorðungi tíundar skal taka er hann skal hafa. þar er mælltr eindagi a fe þui er menn skulu byskopi giallda hinn .v. dag viku er .iiij. vikur eru af sumri. at logheimili þess manz er byskop bauð vm at taka wið fe þui. Rett er þott fyrr se golldit. En ef þa kemr æigi fram. þa skal sa er Réttr sækiandi er ganga wt j tun at sín ok nefna vátta at þui at hann er buinn at taka wið fe þui er hinn skylldi giallda. ok nefna hann ok kueða a hue mikit feit er. ok hann seR æigi þann mann er gialld þat gialldi. honum er Rétt þat at stefna sua of þenna fiðrðung tíundar sem of hinn er fyR war vm tínt. þat er honum ok Rétt at stefna siðaR of þat fe at lôgheimili þess er sottr er. þess a hann ok kost at segia byskopi til. ok lata hann heimta sem hann vill.

vm kirkiu tivnd.

17. Nv eru eptir tueir fiorðungar þat er half tiund huers mannz. þat fe skal leggia til kirkna. sua til huerrar sem byskop skiptir til. ok reiða þeim manni j hond er kirk[iu] þa warðueitir er tíundum er til skipt. Han[n] skal kaupa tiðir at presti sua sem hann ma wið komaz. ok aðra luti til kirk[iu] þurftar sua sem feit vinnr[1] til. Sua skulu menn giallda tíund of ollum bæium sem byskop skiptir til kirkna huerir sem a bolstoðum bua.

18. Bondi sa er a kirk[iu]bæ þeim byR er tíundinni er til skipt. hann er Réttr heimtandi ok seliandi sakar þeirrar ef hann vill. En ef hann vill æigi. þa er Rettr aðile sakar þeirrar lærðr maðr sa er kirk[iu] þionar. ok til kirk[iu] þurftar vill feit hafa.

19. Fiorðung annan tiundar er tiðir skal með kaupa. þann skal gjallda j vaðmalum. eða i vararfelldum. j lambagærum. eða j gulli ok brendu sylfri.

20. En annan fiorðung tiundar skal giallda j vaxi. eða viði. eða j Reykelsi. eða j tiðru. eða j léreptum enskum þeim er hæf se til kirkiu bunings sua sem getr at kaupa með vaðmalum j þui heraði. Rétt er þott vaðmal ein se golldin.

---

1) *þannig; á líklega að vera:* vinnz.

21. þat fe skal golldit hit seinsta hinn fimta dag viku er .iiij. vikur eru af sumri. En ef æigi kemr þa fram. þa skal sa er heimtandi er stefna þann dag vm j twni œ kirk[iu] bænum þeim er tíundin œ til at huerfa. ok sækia sua sem vm aðra tíund. hann skal stefna sinni stefnu of huarn fiorðunginn. ok láta warða .vi. Merkr j huarum tueggia stað halldit. Rétt er at stefna einni stefnu of baða fiorðungana. ok fylgia þa ein alǫgin. þuiat einn er aðili at baðum.

22. Rétt er at stefna heiman til vœrþinga of tíundar mœl ef þeir eru samþinga. ok sækia þar j dóm. ef hinn er þar er sottr er. þo er rétt of byskops fiorðung at sækia. þott hinn se æigi þar er sottr er. Ef lyst er œ þingi of tíund þa skal kueðia heimilisbua fimm þess er sott[r] er.

vm vtlendzka menn[1].

23. Ef maðr hefir omaga eyri at warðueita þann er hann tekr vǫxtu af. ok skal hann þann luta vaxtarins tíunda er vndir hann berr. sua sem þat fe er hann atti[2] aðr.

24. Jslendzkir menn allir skulu tíunda fe sitt. en wtlendir eru æigi skylldir at tiunda her fe sitt. aðr þeir hafa her werit .iij. vetr nema þeir geri bw fyrr. þat vœr skulu þeir gera tiund er þeir gera bw ok þau misseri eptir. En ef vœrir landar fara heðan ok eigu þeir fe eptir ok skal sa maðr giallda [tiund] af er warðueitir þat fe. En of þat fe er hinn hefir œ brott með sér. ok er honum æigi skyllt at giallda her tíund af þui. þott hann se alleíngi œ brott. En ef hann kemr wt híngat. þa skal hann giallda tiund af þui fe er hann hafði wt með ser hinn næsta vetr eptir er hann kom wt aðr vm sumarit[3]. Ef maðr kemr wt híngat ok hefir fe hans vaxit. eða hann hefir æigi eiða vnnit fyrr at. ok er hann skylldr at vinna eið at fe sinu ef menn beiða hann.

25. Ef hiu eigu fe saman ok skal karl maðr vinna eið fyri fe þeirra beggia. Ef karlmaðr ok kona eigu fe saman

---

1) fyrirsögn með rauðu letri; upphafsstafr rauðr, og dregið í grænt.

2) tvískrifað i skinnbókinni.

3) þott hann se, *b. v. skinnb., og skilr síðan eptir hálfrar línu eyðu; þar hefir án efa átt að standa:* [þott hann se] í görðum austr, *eða því um líkt; síðan hefir verið dregið svart í orðin* þott hann se.

þott þau sé æigi hiona. ok skal karl maðr vinna þar eið. Ef karlar eigu fe saman ok er Rétt þott annaR vinni þar eið. Ef þeir metaz wið ok vill huargi vinna eiðinn ok er sök wið huarntueggia. Sa skal eið vinna fyri fe huert er lögraðandi er fiarins.

26. Ef vöxtu berr vndir mann af fe þess manz er orlendis er. ok skal hann þat fe sua tíunda [sem þa] er vöxt beR vndir hann af omaga eyri.

27. þar skal maðr tíund gera j þeim Repp sem hann ꝏ logheimili þa misseri huar sem fe hans er.

28. Rett er at sættaz ꝏ tiundar mꝏl meðan æigi er stefnt vm. þo er Rétt at sættaz þott stefnt se vm. ok skal æigi meira niðr falla alaganna en hálft. Ef maðr tekr minni sátt en .iij. Merkr. ok warðar honum þat þriggia Marka sekt. ok ꝏ sa sök er vill.

29. Ef tíund gelldz æigi heima j heraði. enda er æigi stefnt vm. þa er Rétt at lysa hít næsta sumar eptir ꝏ alþingi at lögbergi. Jnnan hreps menn eigu at lysa föstu dag ok þuatt dag of tíundar mál ok þeir menn er af þeim taka. Ef hreps menn hafa æigi lyst fyri helgina. þa er Rétt[1] eptir helgina huerium er vill at lysa vnz domar fara wt. Sa er lysa vill hann skal ganga til lögbergs ok nefna vátta. at þui vétti skal hann kueða. at ek lysi sök ꝏ hönd honum ok nefna hann of þat at hann hafi halldit þeim fiorðungi tíundar. ok kueða ꝏ huerr sa er. tel ek hann sekian of þat .VI. Morkum. ok giallda þann luta er ogolldinn er tuennum giölldum sem buar wirða ok kueða ꝏ huar hann lysir til doms. lysi ek löglysíngu.

30. þar er maðr lysir vm tíund. hann skal kueða til heimilis bua .V. þess er sottr er. En þar er maðr stefnir heiman of tíund. hann skal kueða[2] .V. bua ꝏ þingi þa er næstir eru stefnu staðnum. Eingi er Ruðníng vm þa bua. nema at leiðar leingd.

31. Eigi skal spell meta ꝏ tíundar mꝏlum ef Rétt er höfðut sökin.

32. Ef maðr tekr gagn sök j gegn tíundar mꝏli. ok ꝏ

1) at lysa *b. v. skinnb., og er líklega ritvilla.*

2) þannig skinnb. með fullum stöfum.

æigi at meta þa sök nema hon se fiörbaugs sök eða meiri. meta skal ef tíundar sok er.

33. þui at eins er rétt at lysa a þingi ok sækia hít sama sumar of tíund. ef sa er a þingi er sóttr er. Rett er at sækia of byskops fiorðnng þott sa se æigi a þingi er sóttr er.

34. Eigi skal tíundar sök fyrnaz helldr en fiar heimting onnur. Ef hann gelldr æigi tiund hin furstu misseri. þa er hann atti at giallda. þa skal stefna at lögheimili þess er sottr er. eða lysa a þingi.

35. þar er maðr stefnir heima at sín hinn .v. dagh viku er .iiij. vikur eru af sumri of tiund. ok a domr at dæma at giallda j þeim stað hinum sama jnnstæðu. ok .vi. Merkr alaga. þeim skal dæma .iij. Merkr er sækir. en aðrar þriar skulu fylgia þeim fiorðungi tíundar er stefnt war vm.

36. En ef stefnt er at lögheimili þess er sottr er. ok skal þar þa dæma at giallda innstæðu ok alög .xiiij. nottum eptir vápna tak.

37. En ef lyst er þingi of tiund. ok a dómr at dæma innstæðu ok [alög] at lögheimili þess er sottr er .xiiij. náttum eptir vapna tak.

38. En of viti öll þau er her fylgia ok wtlegðir þar skal dæma .vi. alna aura.

39[1]. þar skal maðr giallda tíund alla. er hann er j vist of haustit er skipt er tíundum. En ef æigi er þar samkuama átt j þeim hrepp at þui. þa skal hann þar giallda er hann er vistfastr Marteins Messo. Ok skal sa maðr avallt giallda tíund af fenu er lögraðandi er fiarins.

40. Ef maðr helldr bui sinu ok skal tíunda matar afgang ef meiri er en vétt hafi hiona huert. ok sua heyia afgang. ef fornari eru en vetrgömul.

Hier seger vm saker ok fiar soknir ok tiundarhölld fyrri manna[2].

41. Nefni ek j þat vetti. at ek er buinn at taka wið tíund þeirre er N°. a at giallda ok kueða a hue mikit fe er. ok se ek æigi þann er þui giallldi halldi vpp fyri hann. Ek nefni j

1) greinirnar 39—42 eru líklega nýmæli.

2) fyrirsögnin með rauðu letri; upphafsstafr rauðr, og dregið í blátt.

þat vetti at ek stefni .N°. vm þat at hann helldr tíund fyri .N°. ok tel ek hann sekian vm þat .VI. mörkum. ok giallda tuennum giölldum fiorðunginn sem buar virða. eða þann luta tíundar sem ogolldinn er. stefni ek til giallda ok wtgöngu vm fe þat. stefni ek til þings þess.

vm sakar giptir þeirra ok löglysing[1].

42. Nefni ek j þat vetti at ek lysi sök a hendr .N°. at hann hafi halldit þeim fiorðungi tiundar er hann a at giallda. tel ek hann sekian of þat .VI. mörkum. ok giallda þann luta er ogolldinn er tuennum giolldum sem buar wirða. lysi ek till doms. lysi ek löglysing ok skal kueðia til heimilis bua .V. þess er sottr er[2].

---

## E.

Eptir skinnbókinni Nr. 347. Fol. í safni Árna Magnússonar. Þessi skinnbók er í stóru fjögra blaði broti, eða litlu arkar broti, rituð í tveim dálkum á blaðsíðu, með skýrri og góðri settletrs hendi, meðallagi bundinni, og standa 32 línur á blaðsíðunni. Skipt er í kapítula, og eru upphafsstafir með ymsum litum, rauðir eða grænir, eða bláir, og fyrirsagnir með rauðu letri, en við bálkaskipti lögbókar, og þar sem nýir kaflar hyrja, eru dregnar myndir í stafina með ymsum litum og með mikilli viðhöfn. Bók þessi hefir verið harðla vönduð á sinni tíð, en hefir ekki hlotið góða meðferð, og er því blökk mjög og sumstaðar nokkuð sködduð, en þó allvíðast læsileg. Eptir ritshætti og handarlagi að dæma mun skinnbók þessi vera rituð hèrumbil 1370. Þó er þetta einúngis fyrri kafli

1) fyrirsögnin með rauðu letri og upphafsstafrinn rauðr, minni en á öðrum stöðum. Þessi kapituli er seinastr (LI. cap.) í útgáfu Thorkelins.

2) *hèr er í stærra lagi aðgreiníngar merki í skinnbókinni, og fylgir þar á eptir þessi grein, er ekki heyrir til tíundarlaganna, þó hún sè látin fylgja þeim í útgáfu Thorkelins:*

Giörtæki varðar .iij. [merkr]. Ran. ok stuldr skogáng. Meiðing fiár ef .v. aura skaði er varðar fiörbaugs garð. kwgilldis skaði skogáng. Vaðauerk varðar ecki ef bætt er innan fiortan natta sem buar virða.

*þar eptir koma biskupa og erkibiskupa statútur í skinnbókinni.*

bókarinnar, en síðari hluti hennar (bls. 169—195) er með ýngri hendi, sem Norðmenn hafa ætlað vera frá miðri 15. öld, en kynni þó vera frá lokum fjórtándu aldar eða þarumbil.

Á hinum eldra kafla bókarinnar, sem hèr er helzt um að ræða, er 1) Kristinrèttr Árna biskups, og vantar þó framanaf, svo brotið byrjar í 26. kapítula; röð kapítulanna er nokkuð frábrugðin því sem er í útgáfu Thorkelins, því þar er ekki þessarar bókar getið, og mun hann ekki hafa nýtt hana við þenna Kristinrèttinn, þareð hún var brot eitt. Við enda Kristinrèttarins er auðr þriðjúngr dálks; en á næstu blaðsíðu þar á eptir (bls. 8—15 í skinnbókinni) er 2) yfirlit yfir alla kapítulaskipan í Kristinrètti og Jónsbók o. s. frv., og sýnir það hvað upphaflega hefir verið ritað á bókinni; það er og merkilegt við yfirlit þetta, að tala stendr með hinni fornu hendi við hvern kapítula, og eru allar þær tölur indverskar eða serkneskar (arabiskar), sem sumir kalla, en ekki rómverskar, sem tíðast var svo snemma á öld, jafnvel þó til sè nokkrar fornar ritgjörðir íslenzkar, frá upphafi fjórtándu aldar, eptir Hauk lögmann Erlendsson og fleiri, um hina indversku talnafræði. — Eptir yfirlitið hefir hálfr dálkr verið auðr, en þá byrjar á næsta dálki: 3) Jónsbók (bls. 15—128 í skinnb.) og eru þar ekki rèttarbætr settar í bókina, en það er einkennilegt, að bókinni fylgir einskonar eptirmáli, sem er jafnframt formáli til rèttarbóta þeirra, er lögbók skyldu fylgja, og er sá eptirmáli talinn hèr 25. kap. í þjófabálki. 4) Rèttarbót Eiríks konúngs um erindi Þorláks lögmanns [15. Juli 1294], en engar fleiri rèttarbætr fylgja hèr lögbók; kynni því vera, að Jónsbók væri rituð hèr eptir bók frá hèrumbil 1300. 5) Kristinrèttr hinn gamli (bls. 132—152 í skinnb.) og er honum skipt hèr í 23 kapítula. Í niðrlagi 23. kap. stendr: „Sua settu þeir Ketill byskop ok Þorlakr byskop at ráði auzurar ærchibyskops ok sæmundar ok margra kenni manna annarra kristins doms balk sem nu var tint ok upp sagt"; og lýsa þessi orð því enn sem fyr, að þar er Kristinrèttr þeirra Þorláks biskups og Ketils á enda. Þar næst fylgja: 6) Tíundarlögin, sem hèr eru prentuð, og byrjar fyrirsögn þeirra með rauðu letri neðst á bls. 152 í skinnbókinni, rètt þar sem Kristinrèttr endar, en Tíundarlögin sjálf eru rituð á bls. 153-158. Þau eru hèr í því einkennileg, að í þessu eina handriti þeirra, af þeim sem nú eru kunnug á skinnbókum, er lítill formáli fyrir þeim, sem segir hvenær þau sè lögtekin, og það annað, að formáli þessi er ritaðr sem kapítuli sèrílagi, en þó ekki talinn sem kapí-

tuli sèr í handritinu, heldr er kapítulatölunni fram haldið þar sem sjálf Tíundarlögin byrja, og eru þau þaðan af talin sem 24—32. kap. í Kristinrèttinum. Þar á eptir fylgja margar greinir, sem taldar eru kap. 33—67 í Kristinrètti (bls. 158—168 í skinnb.); er þar fyrst „vm tiðakaup presta" (Thorkel. cap. XLIX, bls. 170) og sumt annað þar á eptir, sem ekki er prentað í útgáfu Thorkelins. Það sem hèr er talið kap. 38—63 er prentað eptir þessari bók aptast í útgáfu Vilhjálms Finsens af Grágás, bls. 235—252, og er þar seinast „vm boðfóstur" (Þorláks biskups). Úr þessum kafla er hèr einúngis tekinn sá kapítuli sem segir fyrir um hina meiri tíund (cap. 44. í skinnb.), og munu þessar greinir þó ekki hafa verið í Tíundarlögunum frá upphafi. Þar sem þessi kafli endar hefir verið auðr nærfellt þriðjúngr dálks, og endar þar hin forna hönd, svo að vera má að bókin hafi í fyrstu ekki verið stærri.

Hinn síðari hluti bókarinnar, svo sem hún er nú (bls. 169-196) hefir inni að halda ýmislegt úr fornum kirkjulögum; er þar fyrst um prestastefnur (sbr. Norges gamle Love III, 307), og þar eptir nokkrar erkibiskupa statútur; er þeirra elzt Jóns erkibiskups frá 1280, þar næst Eilífs erkibiskups frá 1320 og Páls erkibiskups frá hèrumbil 1340; hún er ýngst af þeim sem hèr eru, en þó ekki seinust í röðinni.

Um sögu skinnbókar þessarar má finna nokkur rök af nöfnum þeim, sem rituð eru hèr og hvar á spázíur. Á 25. bls. stendr: „Steinunn Jonsdottir ꝍ bokina hver hana tekur þa brennur hun ꝍ backi þeim"; á bls. 131: „Þessa bok a Steinunn Jons Dotter ok er allvel thil komin"; á bls. 134: „Þessa Bok a Loptur Arnason anno 1644. 7. Aprilis"; og á bls. 136: „Arne Loptsson a þessa bok (hver) hana tekur þa . . . . .". — Af þessu ræð eg, að Steinunn Jónsdóttir frá Svalbarði hafi átt bókina á 16. öld, en hún var, sem kunnugt er, dóttir Jóns Magnússonar á Svalbarði og kona Bjarnar prests, sonar Jóns biskups Arasonar; sonr þeirra var Bjarni á Brjámslæk; dóttir Bjarna var Þórunn, sem átti Loptr Árnason í Sælíngsdalstúngu, Loptssonar, prests í Víðidalstúngu, Pètrssonar, Loptssonar, Ormssonar, Loptssonar hins ríka. Þessi Loptr Árnason hefir þá átt bókina 1644, ok Árni prestr í Alviðru sonr hans eptir hann, faðir Jóns biskups í Skálholti. Frá Árna presti hefir eignazt bók þessa Jón prestr bróðir hans í Saurbæjar þíngum í Dölum (1657—1710); hann bjó í Belgsdal, og frá honum segir Árni Magnússon að bókin sè komin til sín hèrumbil 1685

eða 1686 (AMagn. Nr. 435. 4to. bls. 144). Síðan er hún kölluð Belgsdals bók („codex Belgsdalensis" Thorkelin).

Frá þessari bók eru komnar allmargar afskriptir af Tíundarlögunum, sem hittast í lagasöfnum og einstökum afskriptum manna á meðal á Íslandi. Thorkelin hefir hagnýtt hana að nokkru leyti í útgáfu sinni af Kristinrètti hinum forna.

---

Her segir vm tiundargerðir at logum[1].

þa er liðit var fra hingatburð vars | herra iesu christi ᴍ. xc. ok vj. vetr | a sextanda ari byskopsdoms virðuligs herr|a Gizu[r]ar skalaholtz byskops var þesse tiu|ndar gerð logtekin. jfer allt. jsland bæði| af lærðum monnum ok leikfolki sem| her fylgir.

Hversu menn skulo tiunda fe sitt[2].

1. þat er mællt j logum at menn skulo tiunda fe sitt allir her a landi logtiund.

þat er logtiund at sa maðr skal gefa sex alna æyri a tuæim misseru[m] er hann a tiutigu fear sex alna a'ra.

Sa maðr er hann a tiu sex alna aura fyri vtan fot sin hvers daghs buning skulld laust sa skal gefa alin vaðmals eða vllar reyfi. þat er .vj. geri hæspu eða lambs gǫru.

En sa er a .xx. aura sa skal .ij. alnar.

En sa er a .xl. sa skal þriar alnar.

En sa er a halft hunddrat sa skal fiorar alnar.

En sa er a ʟxxx aura sa skal fim alnar.

En sa er [a] tiutigi aura. sa skal sex alnar.

2. þat fe þarf eigi til tiundar at tælia. er aðr er til guðs þakka lagit. huart sem þat er til kirkna lagit eða til brua eða til salu skipa huart sem þat fe er j londum eða lausum aurum. Prestar þurfu eigi at tiunda þat fe er þeir eigu j bokum ok j messu klæðum ok þat allt er þeir hafa til guðs þionostu. tiunda skulo þeir annat fe.

1) þessi fyrirsögn stendr með rauðu letri í skinnbókinni bls. 152 neðst á síðara dálki, en upphafsstafrinn með rauðu efst á næstu bls. — Í yfirliti yfir efni bókarinnar, sem er ritað með sjálfri fornu hendinni (bls. 8—15), er þessi fyrsta grein ekki talin sem kapítuli sèrílagi.

2) fyrirsögn með rauðu letri, og talan (24) hjá, með indversku tölu-letri, til merkis um að þetta eigi að vera 24. kap. í Kristinrètti. Upphafsstafrinn er grænn, á stærð einsog fyrir kapítulum annarstaðar í bókinni.

3. Búss afleifar þarf maðr eigi at tiunda vm var. ef hann hælldr bui sinu. En ef hann bregðr bui eða selr hann or bui þa skal hann þat tiunda.

4. Goðorð þarf eigi til tiundar at tælia. vælldi er þat en eigi fe.

5. Eigi skal vmögum fe ætla þo at hann æigi fram at føra.

6. Rett er at þeir þurfa menn allir þiggi tiundir er eigi skulo giallda.

vm samkuamur[1].

7. Samkuamu skulo menn æiga vm haust j repp hverium eigi fyrr en fiorar vikur lifa sumars ok skipta tiundum. Skipt skal tiundum drottins dagh hinn fyrsta j vetri. fim menn skal til taka j repp hverium at skipta tiunðum ok matgiǫfum ok sia æiða at monnum þa er bezt þikkia til fallnir huart sem þeir erv griðmenn eða bøndr ok søkja menn vm laga afbrigð.

8. Hverr maðr er skylldr at vinna æið at fe sinu. þa er hann er. xvj vetra gamall. Ænda skulo allir eið vinna a hverium þrim vætrvm. Griðmenn skulo æið vinna fyri bonda æða sialfældis menn. fyri þeim bonda er rett at þeir vinni æiðinn er þeim monnum þikkir þat fullt sem til eru teknir at sia æiða at maunnum j repp hverjum. Eru bøndr skylldir at segia til tiundar þeirra a samkuamu.

9. Þar skal maðr giallda vartiund sem skipt er hausttiund hans. En ef þat er hvergi þa skal giallda þar sem hann er vistfastr marteins messu.

vm eiða at fe sinu[2].

10. Skylldr er hverr maðr til þeirrar samkuamu at fara er hann a [tiund] at gera eða fa annan mann fyri sik þann er logskilum halldi vpp fyri hann. ok handsaul se at þiggiandi. Ef hann kemr eigi sjalfr fyri miðian dagh ok engi af hans hændi þa verðr hann vm þat sekr þrim morkum ok skal hann þa tiund giallda sem skipt verðr a hændr honum. þar skal tælia fe manna huersu mikit fe hverr a. skal virða lond ok lausa

[1]) fyrirsögn með rauðu, og kapítulatala við (25), með sömu hendi; upphafsstafrinn rauðr, að stærð sem við kapitulaskipti.

[2]) fyrirsögn með rauðu letri, en mjög máð (sbr. yfirlitið i skinnbókinni bls. 14); kapítulatalan (26) stendr á spázíu með hinni fornu hendi. Upphafsstafrinn dreginn upp með rauðu.

aura til sex alna aura ok skal þat fe virða er at logfardôgum var skulldlaust.

11. Sialfr skal hverr virða fe sitt. ok tælia. En þa er hann hefir talit fe sitt ok virt þa skal hann taka bok j hond ser eða kross ok nefna vatta j þat vætti skal hann kvæða at ek vinn æið at bok logæið ok segi ek þat guði at ek a sua fe sem nu hefi ek talit æða minna. En ef hann vill eigi eið vinna þa er hann er beiddr þa verðr hann sækr vm þat þrim morkum en þa er hann bæiddr er hann er bæðinn. Hans tala skal stand[a] sialfs. ok skal af þui gera tiund nema hann sværi til fiorðungi minna en se. En ef hann sverr til fiorðungi minna en se þa verðr hann sækr vm þat .XII. morkum ok skal hann sua mikla tiund giallda sem samkuamu menn tælia ok skipta a hond honum æiðlaust.

12. Þar er maðr hefir eið suarðan. ok skal hann sua tiund af gera sem hann hefir til suarit nema fe hans þuerri eða vaxi tíutigum þaðan j fra er hann hefir suarit ok er honum rett at fara til samkuamu ok telia fe sitt ok vinna æið at ok gera þar tíund af er hann suerr til.

Nu vex fe hans tíutigum eða mæira þa er honum rett at fara til samkuamu ok segia til þess ok gera þar tíund af. Nu hyggia Repps menn at meira hafi væxit fe hans en hann seger eða uili hann ekki fra segia þo at fe hans hafi vaxit tiutigum eða meira. þa eigu samkuamo menn at gera honum orð at hann komi til samkvamu ok vinni æið at fe sino j annat sinn. Ef hann vill eigi vinna eiðinn j annat sinn þar er samkuamu menn vilia. þa verðr hann sekr vm þat tolf morkum ok er þat æiðfall ok skal hann sua mikla tiund giallda sem samkuamu menn telia ok þeim giallda sem þeir raða a at kveða.

13. Þat er ef manni verðr æiðfall ok eigo hrepps menn sok þa. hverr þeirra er fyrst vill. Sok þeirri skal stefna at logheimili þess er sottr er. ok telia hann sækian vm þat tolf morkum ok kueðia til heimilis bva hans fimm a þingi. Ef kviðr berr a hann æiðfallit ok skal domr dôma sex merkr þeim er sotti. en aðrar sex skulo fylgia annarri tiund.

vm tiundar skipti a haust[1].

14. Repps menn þeir sem til erv teknir skulu skipta

1) fyrirsögn með rauðu letri, og þar hjá á spázíu forn kapítulatala (27); upphafsstafrinn grænn.

hvers mannz tíund j fiora staði nema minni se en eyriss tiund. en þa er þo rett at hon hverfi j æinn stað.

fiorðung einn tiundar skal gefa þurfamonnum jnnan hrepps monnum þeim sem til vmaga biargar þurfu at hafa a þeim misserum ok skipta með þeim. gefa þeim meira er meiri er þörf.

15. eigi a tiund or repp at gefa [nema] samkuamu menn verði a þat sattir. ok þikki vtan hrepps monnum meiri þorf.

16. þat fe er gefa skal þurfa monnum. þat skal vera j vaðmalum eða varar fęlldum j vllu eða j giǫrum. mat eða kuikfe ollv oðrv en rossum. þat skal golldit vera þeim monnum er við skulo taka ok fram komit at marteins messu. Ef þa er eigi fram komit ok verðr sa sækr vm þat .vj. morkum er giallda skylldi. þurfa maðr sa er til bonda[1] var skipt. hann er aðili at sök þeirri. bæði sækiandi ok sæliandi. Sa er annar aðili er til soknar er tekinn j reppinum. ok tiund skipti til handa honum. Sok þeirri skal stefna at logheimili þess sem sottr er. ok kuæðia til bua fim a þingi. þa er næstir eru stefnu staðinum.

17. þeim manni er rett at stefna heima at [sin] er tiund skipti til handa honum. hinn fimta dagh viku er fiorar vikur eru af sumri. ef eigi er aðr fram komit. Rett er at hann taki þann dag við vaðmalum til handa þurfa monnum ef hinn vill þa hafa golldit. eigi er hann þa skylldr ạt taka j oðru fe nema hann vili. Ef eigi kemr þann dag fram þa skal sa maðr er til soknar er tekinn ganga vt j tun at sin eða sa maðr er hann sælr sok ok nefna vatta at þui at hann er buinn at taka við tiund þeirri er hinn skylldi giallda ok nefna hann ok kuæða a hversu mikit feit er ok hann sær engan þann er gialldi halldi vpp fyri hann. Hann skal nefna vatta j annat sinn at þui vætti skal hann kvæða at ek stefni honum ok nefna hinn vm þat er hann hælldr tiund fyri honum ok nefna þurfamanninn ok tæl ek hann sekian vm þat sex mörkum. ok giallda fiorðunginn tuennom giolldum sua sem buar virða þann luta er vgolldinn er. ef sumr er vgolldinn. stefni ek til giallda ok til vtgöngo vm fe þat ok kveða ꝏ hvar hann stefnir til þings ok stefni ek lögstefnu. Hann skal kueðia til fimm bua a þingi þaðan fra er hann stefndi.

[1]) *þannig skinnb.; á að vera:* handa.

vm byskops tiund hverso sǫkia skal[1].

18. Annan fiorðung tiundar skal hafa byskop. þat fe skal vera j vaðmalum eða j varafelldum eða j lamba giǫrum j gulli. eða j brendu silfri. þar er byskop ferr. vm fiorðung skal hann segia til [at] kirkiu soknum j hrepp hverium hverr við þeim fiorðungi skal taka er hann skal hafa. þar er mælltr æindaghi a fe þui er menn skulo byskopi giallda hinn fimta dagh viku er fiorar vikur eru af sumri. at logheimili þess mannz er byskop bauð vm at taka við fe þvi. Rett er þo at fyrr se golldit[2]. Ef þa kemr eigi fram þa skal sa er rettr er sǫkiandi ganga vt j tun[3] at sin ok nefna vatta at þui at hann er buinn við at taka fe þui er hinn skylldi giallda ok nefna hann ok kuæða a hversu mikit feit er ok hann ser eigi þann mann er þat gialld jnni af hendi. Honum er þar rett at stefna sua vm þenna fiorðung tiundar sem vm hinn er fyrr var vm tínt. þat er honum ok rett at stefna siðarr vm þat fe at logheimili þess er gjallda skal. þess a̋ hann ok kost at segia byskopi til ok lata hann heimta sua sem hann vill.

hverso sækia[4] skal vm kirkiu tiund ok presta[5].

19. Nu eru eptir tueir fiorðungar þat er half tiund hvers mannz þat skal leggia til kirkna ok til presta ræiða. sua til hverrar kirkiu sem byskop skiptir tiundum til ok ræiða þeim manni j hond er kirkiu þa varðveitir er tiundinni er til skipt. Hann skal kaupa at presti tiðir sua sem hann ma við komaz ok þa hluti aðra til kirkiu þurftar er hafa þarf. sem fe þat vinnz til. Sua sculo menn giallda tiund af ollum bǫum j heraði til kirkna sem byskop hefir boðit hverigir sem œ bolstoðum bua.

20. Bondi sa[6] ær a kirkiu bǿ þeim byr er tiundum er

1) fyrirsögn með rauðu letri, og þar hjá á spázíu forn kapitulatala (28). Upphafsstafrinn rauðr.

2) *stafirnir* go *tvíritaðir í skinnbókinni, sitt sinn á hvorjum dálki.*

3) *stafrinn* t *tvíritaðr í skinnb., sitt sinn í hvorri línu.*

4) *stafirnir* kia *tvíritaðir í skinnb. í sömu línu.*

5) fyrirsögnin með rauðu letri, og út á spázíu kapitulatalan (29); upphafsstafrinn grænn. *Í yfirliti bókarinnar (bls. 14) stendr:* prestz, *þar sem hèr er:* presta.

6) er, *b. v. skinnb. (ritvilla).*

ok eigv þeir fe eptir. þa skal sa maðr giallda tivnd af er þat fe varðveitir. En vm þat fe er [hann] hefir brott með ser þa er honvm eigi skyllt at giallda her tivnd af þo at hann se leingi ꜳ brott. En ef hann kemr vt þa skal hann giallda tivnd af þvi fe er hann hefir vt með ser. hinn næsta vetr eptir er hann hefir vt komit aðr vm svmarit. þo at hann se j [storfvm herlendiss[1]. Ef maðr kemr vt híngat ok hefir vaxit fe hans eða þorrit ok hann hafi [eigi] eiða fyrr at vnnit þa er hann skylldr at vinna eið at fe sínv ef menn vilia heiða hann.

27. Ef hion eigv fe saman þa skal karlmaðr vinna eið firir fe beggia þeirra. Ef karlmaðr ok kona[2] eigv fe saman. þꜳ skal karlmaðr vinna þar eið at. Ef karlar eigv fe saman. þar er rett þoat annarr vinni þar eið. En ef þeir metaz við ok vill hvargi sveria. þa er sok við hvorntveggia. Sa skal eið vinna er lograðandi er fiarins.

28. Ef voxtu berr vndir mann af þess mannz fe er herlendis er. þa skal hann þat fe sva tivnda. sem voxtv berr vndir hann af omaga eyri.

29. Þar skal maðr tivnd giallda j þeim repp sem hann ꜳ logheimili þav missari hvar sem fe hans er.

30. Rett er at sættaz ꜳ tivndar mal meðan eigi er stefnt vm. þa er rett at sættaz ꜳ þo at stefnt se vm ok skal eigi meira niðr falla alaganna en helmíngrinn. Ef maðr tekr minni sok en .iij. Marka þa varðar hann þat iij Morkvm ok ꜳ sa sok er vill.

31. Ef tivnd gelldz eigi heima j heraði enda er eigi stefnt vm. þa er rett at lysa hit næsta svmar eptir ꜳ alþíngi at logbergi. Jnnan repps menn eigv at lysa fǫstv dag ok þvatt dag vm tivndar mal ok þeir menn er af þeim taka. Ef reps menn hafa eigi lyst firir helgina. þa er rett eptir helgina hverivm at lysa sem vill vnnz domar fara vt. Sa er lysa vill vm tivndar mal. hann skal ganga til lǫgbergs ok nefna ser vatta at þvi vætti skal hann segia at ek lysi sok ꜳ hendr honvm. ok nefna hann. vm þat at hann hafi[3] halldit þeim fiorðvngi tivndar ok segia hverr sꜳ er tel ek hann[4]........

1) *frá [ þannig; það er líklegt, að í handriti því, sem skinnbók þessi hefir verið ritað eptir, muni hafa staðið:* „görðum erlendis".

2) konv, *skb.* 3) tvískrifað í skinnbókinni.

4) hèr endar þetta brot, og er eitt blað autt þar fyrir aptan, sem sýnist að vera skafið allt letr af.

## H.

Þessi afskript Tíundarlaganna er tekin eptir handriti á skinni, sem er í safni Árna Magnússonar Nr. 50. 8vo. Þetta handrit er lítið kver í tólf blaða brots stærð, og er nú alls 49 blöð, ritað með skýrri og laglegri hendi, meðallagi þèttri og eigi mjög bundinni, á að gizka um miðja fimtándu öld (hèrumbil 1450). Hèr er ritað í heilum línum, en eigi í dálkum, og eru ýmist 19 eða 20 línur á blaðsíðu; skipt er í kapítula, og eru fyrirsagnir með rauðu letri og upphafsstafir rauðir eða bláir, en eigi mjög vandaðir.

Þetta handrit er ekki heilt, og hefir verið brot eitt þegar það kom í eigu Árna Magnússonar, euda veit maðr ekki hvaðan það sè til hans komið. Nú er á þessari bók: 1, Kristinrèttr hinn forni (bls. 1—49), er hann hèr heill, og stendr þetta í niðrlagi: „Sua settv þeir ketill biskup ok þorlakr biskup at rade ozorar erkibiskups ok semundar ok margra kenne manna annarra kristinna laga þat sem nv var tínt". — 2, Tíundarlög Gizurar biskups (bls. 49—56), er hèr fylgja; þar sem þau byrja er eyða fyrir fyrirsögunni, en upphafsstafr sem í stærra lagi fyrir kapítulum; alls er þeim skipt í þrjá kapítula, og er eyða fyrir hverjum þar sem fyrirsagnir ætti að vera. Tíundarlögin enda hèr með því niðrlagi, sem líklegt er að hafi verið að fornu, svo sem að framan er getið (bls. 85 athgr. 1 og víðar), en af því þar endar kver í skinnbókinni verðr ekki með vissu sagt hvort hèr hafi meira verið. — 3, Kristinrèttr Árna biskups er á 21 blaði, sem nú er inní miðri bók, og vantar bæði upphaf og endir. Það er einkennilegt, að brot þetta byrjar í öðrum kapítula af Kristindómsbálki Járnsíðu (útg. Árna Magnúss. nefndarinnar. Hafn. 1847. 4to. bls. 12) með þessum orðum: „[he]ilaga trv ok hans heilakt laugmal goðum monnum til verndar ok Riettinda en vandum monnum til Refsinga ok hreinsanar"; er hèr heilt það sem eptir er af Kristindómsbálki í Járnsíðu, og endar einsog þar (bls. 18 í útg. nefndarinnar), en þá byrjar Kristinrèttr Árna, með rauðum upphafsstaf, sem í stærra lagi fyrir kapítulum, og þessari fyrirsögn með rauðu letri: „at ala skal bavrn". Af þessari tilhögun er svo að sjá, sem þetta handrit hafi verið eitt af þeim, er hafa haft Kristindómsbálk úr Járnsíðu sem inngáng til Kristinrèttar Árna biskups, líkt og hin ágæta Staðarfellsbók (sbr. bls. 99 hèr fyrir framan). Kapítula skiptíngin í handriti þessu er mjög hin sama sem í útgáfu Thorkelins, en

hèr er á tveim stöðum týnt úr bókinni: fyrst tvö blöð úr miðju kveri, það sem stendr í 16—18. kap. (bls. 108—132) í útgáfunni, og þarnæst allt aptanaf, frá því sem 25. kapítuli byrjar í útgáfunni (bls. 156). Þar hefir Árni Magnússon ritað neðst á spázíu: „desunt permulta", og hefir þá þetta verið týnt þegar á hans tíð.

Um sögu handrits þessa er oss nú ekkert kunnugt, en á næsta blaðinu hinu aptasta í Kristinrètti Árna biskups er þetta ritað neðst á spázíu með hendi fra 17. öld snemma eða nálægt 1600, og er síðan skafið út, svo það er nú illa læsilegt: „þessa bok a eg Gunnlaugur Gislason[1] en einginn Annar": en hver þessi Gunnlaugr hefir verið, vitum vèr nú ekki.

Þegar Grímr Thorkelin gaf út Kristinrètt Árna biskups, hefir hann getið handrits þessa, en ekki notað það að neinu ráði; hann getr þess að eins, að það fylgi einhverju hinu elzta og merkilegasta handriti af Kristinrèttinum sem hann hefir haft handa á milli (Thork. í formálanum bls. XX—XXI).

---

1. Þat er melt j logum her a landi at menn skulo tiunda fe sitt logtivnd.

Þat er logtiund at sa madr skal gefa VI. alna eyre a tveim misserum er hann a tiutige fiar VI alna avra.

Sa madr er a tiu sex alna aura firir utan huers dags bunning skulldlaust ok skal gefa avln vadmals eda ullar reyfe þat er VI geri hespv.

en sa er a XX avra sa skal ij alner
en sa er a lx[2] sa skal iij alner
en sa er a xl[3] sa skal iiij alner
en sa er a attatigo sa skal V alner
en sa er tiutigo a sa skal VI alnir.

2. Þat fe þarf eigi til tiundar at telia er adr er til guds þacka lagit hvart þat er til kirkna lagit eda til brua hvart sem þat er j londvm eda lausvm aurum.

Prestar þurfo eigi at tiunda þat fe er þeir eiga i bokum eda messo klædum ok þat er þeir hafa til guds þionostv tiunda skulo þeir þat fe annat ef[4] þeir eiga.

---

1) *heldr en:* Ormsson.

2-3) hèr er misskrifað á víxl í skinnbókinni tölurnar xl og lx.

4) *rètt:* er.

3. Buss af leifar þarf maðr eigi at tiunda of uœr ef madr helldr bui sinv En ef hann bregdr bui sinv eda selr hann or bui þa skal hann þat tiunda of uar.

4. Godord þarf eigi at tiunda þat er uellde en eigi fe

5. Eigi skal omaugum fe ætla þott hann eigi fram at fęra.

6. riett er at þeir þigge allir tiund er eigi giallda:

7. Samkuamur skulo menn eiga of haust j hreppum hueri-um eigi fyrr en iiij^ar vikur ero til uetrar ok skipta tiundum; skipt skal tiundum drottins dag fysta j uetri: Fim menn skal til taka i hrepp huerium at skipta tiundum ok matgiofum eda sia eida at monnum þa er bazt þikia til fallnir huart sem þeir [eru] gridmenn eda bændr ok sækia menn of laga af brigd.

8. hverr madr er skylldr at uinna eid at fe sinv þa er hann er XVI vetra gamall Enda skulo allir eid uinna a hueri-um iij vetrvm. Gridmenn skulo eid uinna firir bonda eda sialf elldis menn firir þeim bonda er riett at uinna eida er þeim monnum þiki þat fullt er til ero teknir at sia eida at monnum i hrepp huerium. Ero bændr skylldir at segia til tiundar þeirra a samkuamv.

9. þar skal huerr madr giallda tiund sem skipt er haust-[t]iund hans En ef þat er huerge þa skal hann þar tivnd giallda sem hann er vist fastr Marteins messo;

10. Skylldr er huerr madr til þeirrar samkuamv at fara er [hann] a tivnd at gera. eda fa annann mann firir sik þann er logskilvm halldi vpp firir hann ok handsal se at þiggiande Ef hann kemr eigi sialfr firir midean dag ok einge madr af hans hende þa verdur hann sekr of þat iij Morkum ok skal hann þa tiund giall[da][1] .........

18. .... [byskup ba]ud um at taka uid fe þui. Riett er at fyrr se golldit. ef þa kemr eigi fram þa skal sa er riettr er sekiande ganga ut j tun at sín ok nefna uatta at hann er buenn uid fe þui at taka er hann er skylldr at giallda ok nefna hann ok queda a hue mikit feit er ok hann sier eigi þann mann er gialld þat inne af hende. Honum er þar riett at stefna sua of þenna fiordung tiundar sem of hinn er fyr

1) hèr vantar í skinnbókina, og munu tvö blöð vera týnd innan úr kveri.

uar tínt þat er honum riett ok at stefna sidar of þat fe at logheimile þess er giallda skal þa a hann ok kost at segia byskupi ok lata hann heimta sem hann vill.

19. Nv[1] ero eptir ij fiordungar þat er half tiund huers manz þat skal leggia til kirkna ok til presta reido sua til huerrar kirkiu sem byskup skiptir tivndvm til ok reida þeim[2] manni i hond er kirkiu þa uardueitir er tiundinne er til skipt hann skal kaupa at preste tidir sua sem hann ma uid komaz ok þa hlute adra er til kirkiu þurftar þarf at hafa sem fe þat uiðr[3] til. Sua skulo menn giallda tiund af ollum beivm i herade til kirkna sem byskup hefir bodit hverigir er a bustad bua.

20. Bonde sa er a kirkiu bæ byr ok tiund er til skipt hann er riettr heimtande ok sekiande ok seliandi þeirrar sakar ef hann uill. en ef hann vill eigi þa er riettur adile þeirrar sakar lærdr madr sa er kirkiu þionar Sa er til kirkiu þurftar vill hafa feit:

21. fiordung tiundar þann sem til presta reido þarf at hafa þat skal giallda j uadmalum eda uarar felldum eda lamba gærum gulle eda brendu silfri

22. en þann fiordung tiundar er til kirkiu þurftar skal leggia þann skal giallda j uaxe eda uide. reykelse eda tioro. eda lereptum nyum: þeim er hæf se til kirkiu bunings suo sem geingr at kaupa med uadmalum j heradi þui. Riett er þo uadmal ein se golldin

23. þat fe skal golldit id sidazta sinn enn v$^{a}$ dag viko er iiij uikor ero af sumri En ef eigi kemr þa fram þa skal sa er heimtandinn er stefna þann dag i tune at[4] a kirkio bænvm þeim er tiundin a til at huerfa ok sækia sua sem um adra tiund. Hann skal stefna sinni stefnv of huern fiordunginn ok lata uarda. ui. merkr j huarum tueggia stad halldit. Kostr er at stefna einni stefnv of bada fiordu[n]gana ok fylgia þa ein a laugin þuiat einn er adile at badvm.

1) upphafsstafr rauðr og grænn; hálf lína auð fyrir framan, en engin fyrirsögn hefir þar rituð verið.

2) tvískrifað í skinnbókinni. 3) *þannig skinnb.* = vinnz.

4) líklega ofskrifað óvart í skinnbókinni.

24. Riett[1] er at stefna heiman til varþings of tivndar mal ef þeir ero samþinga ok sækia þar i dom ef hinn er þar er sottr er. þo er riett byskups fiordung at sækia þo sa se eigi þar er sottr er. Ef lyst er a þingum þa skal qvedia til heimilis bua .v. a þinge þess er sott[r] er.

25. Ef madr hefir omaga eyri at uardueita þann er hann tekr uoxtu af ok skal þat fe allt sva tivnda er undir hann berr sem hann ætti adr.

26. Jslensker menn allir skulo tiunda fe sitt en utlenzkum monnum ef þeir koma ut higat er eigi skyllt at tivnda her fe sitt adr þeir hafa her verit iij vetr sam fast nema þeir gere bv fyrr. En þat var skulo þeir gera tivnd er þeir gera bv ok þau missere eptir. En ef uarir landar fara hedan [ok] eigo fe eptir ok skal sa maðr giallda tivnd af er þat fe uardueitir en af þui fe er hann hefir brott med sier er hann eigi skylldr at tiunda her þott hann se leingi a brott. En ef hann kemr vt hingat þa skal hann giallda tiund af þui fe er hann hefir ut med sier En næsta uetr epter er hann hefir ut faret adr of sumaret þott hann se i gorðvm herlendis. Ef madr kemr ut hingat ok hefir uaxit fe hans eda þorrit eda hefir hann eigi eida at unnit ok er [hann] skylldr at uinna eid at fe sinu ef menn uilia beida hann.

27. Ef hiu eigo fe saman ok skal karlmaðr uinna eið firir fe þeirra beggia. Ef karlmadr ok kona eigo fe saman ok ero eigi hion ok skal karlmadr uinna þar eid firir. Ef karlar eigo fe saman ok er riett at annar vinne eid at. Ef þeir metaz uid ok uill huarge uinna eid ok er sok uid huarntueggia; sa skal eid uinna firir fe huert er logradande er fiar.

28. Ef uoxtv berr under mann af þess manz fe er af lande er farinn ok skal hann þat fe tiunda sem uoxtv bere undir hann af omaga eyri.

29. þar skal madr tiund giallda j þeim hrepp sem hann a logheimili þau missere huerge er [fe] er.

30. Riett er at sættaz a tiundar mal medan eigi er stefnt um þo er riett at sættaz þott stefnt se um ok skal eigi meira nidr falla alaganna en helmingrinn. Ef madr tekr minne sætt

---

[1]) upphafsstafr blár, og dregið í rautt; hálfrar línu eyða fyrir fyrirsögn, sem þó hefir aldrei þar rituð verið.

en iij merkur ok uardar honum þriggia marka sekt ok a sa sok er vill.

31. [Ef tiund] gellz eigi heima j herade eda se eigi stefnt um þa er riett at lysa id næsta svmar eptir a alþinge at logberge. Jnnan hreps menn eigo at lysa fostv dag ok þuatt dag of tiundar mal ok þeir menn er af þeim taka. Ef innan hreps menn hafa lyst firir helgi þa er riett efter helgina huerium er uill at lysa unz domar fara ut: sa er lysa uill um tiundar mal hann skal ganga til logbergs ok nefna VI[1] uatta at þui vætte skal [hann] qvedia at ek lyse sok a hendr honum ok nefna hann of þat at hann hafe halldet þeim fiordunge tivndar ok qveda a hverr sa er tel ek hann sekann of þat VI morkum ok giallda þann hluta er ogolldinn er tuennum giolldum sem buar uirda ok queda a huar hann lysir til doms ok lysi loglysingo.

32. þar er madr lysir of tiundar mal ok skal quedia til heimilis bua V a þinge þess er sottr er Ef madr stefnir heiman of tivndar mal þa skal hann qvedia .V. a þinge þa er nester ero stefnv stadnvm einge er rudning um þa bua nema at leidar leingd.

33. Eigi skal spell meta a tiundar malum ef riett er hofdut sokin

34. ef madr tekr gagnsakir vpp i gegn tiundar mali ok a þa sok eigi at meta nema hon se fiorbaugs sok eda meire meta skal ef tivndar sok er:

35. þuiat eins er riett at lysa a þinge id sama svmar vm tiundar mal ef sa er a þinge er[2] sottr er þo er riett at sekia of byskup[s] fiordung þott sa se eigi a þinge er sottr er.

36. Eigi skal tiundar sok fyrnaz helldr en onvr fiarheimting ef madr gelldr eigi in fyrsto missere þa er hann a at giallda: þa skal stefna at logheimili þess er sottr er eda lysa a þinge;

37. þar er madr stefnir heim[a] at sín þa er iiij uikor ero af svmri of tiundar mal ok a domr at dæma ok giallda i þeim stad xiiij[an] nattum epter uapna tak instædur VI merkr a laga ok skal þeim dæma iij Merkr er sækir en adrar iij skulo fylgia þeim fiordunge tiundar sem stefnt er um.

---

1) *þannig skb.* (*rángt lesið:* VI = sex, *úr*: sèr). 2) tvískrifað í skinnbókinni.

38. En ef stefnt er at logheimile þess er sottur er ok skal þar dæma at giallda instædu ok alog xiiij nattum eptir uapna tak.

39. En ef lyst er a þinge of tiundar mal ok a domr at dæma innstædu ok a lög at logheimile þess er sottr er fiortan nattum efter uapna tak

40. En of uíte oll ok utlægdir er her fylgia þa skal dæma VI alna avra[1]; —

---

# I.

Afskript þessi eða ágrip er tekið eptir skinnbókinni Nr. 148 í 4to í safni Árna Magnússonar. Sú bók er í litlu fjögra blaða broti, rituð með vel skýru og meðallagi stóru letri, ekki mjög bundnu, á að gizka um 1480 eða þó jafnvel heldr seinna. Þar er ekki ritað í dálkum, heldr í heilum línum, og eru fyrirsagnir með rauðu letri og upphafsstafir rauðir eða grænir. Alls eru í bókinni 136 blöð eða 272 blaðsíður, og eru 26 línur á blaðsíðunni. Fyrsta blaðsíðan hefir verið auð, og eru þar á síðan rituð eigenda nöfn bókarinnar, sem síðar mun getið verða; en á annari blaðsíðu byrjar málið á bókinni, og er þar: 1, Jónsbók (bls. 2—206) með rèttarbótum í, eins og venjulegt er í hinum ýngri handritum lögbókarinnar. 2, Safn af margskonar fornum skjölum og skrám (bls. 206—220 í skinnbókinni): þar er fyrst alþíngis samþykkt um melrakkaveiðar, þar næst greinir úr rèttarbót Hákonar konúngs 2. Mai 1313, og úr hinni svonefndu Herjólfs rèttarbót, sem báðar eru norrænar og hvorug ætluð Íslandi; ágrip úr rèttarbót Magnús konúngs um óbótamál, sem er einnig norræn, en þó prentuð aptanvið Jónsbók (Nr. XI, bls. 468—469); rèttarbætr Vilhjálms kardínála um helgidaga vinnu, sem og eru teknar í Kristinrètt Arna biskups. — Þá eru forsagnir nokkrar eða *formulæ*, alls tíu að tölu, ein um lögboðníng ómaga og hinar um fjárheimtu mál (bls. 207—210

---

[1] hèr er ekki skinnbókin lengri, og er eyða sem svarar fyrir tveimr orðum í línunni neðst á blaðsíðu; verðr því ekki sèð með vissu, hvort lögin hafi aldrei lengri verið á þessari bók, eða að týnt sè aptan af og hafi hèr byrjað nýr kapituli. Svo stendr einnig á, að hèr hefir endað kver í bókinni, en ýmist sex eða átta blöð hafa verið í hverju kveri.

í skinnb.). Þarnæst eru þessar skrár (bls. 210—213 í skinnb.): *a)* um hver mál sækja skuli fyrir biskupi, og hver fyrir konúngi; *b)* um kirkna frið og kvenna frið, og um grið; *c)* um það, hver mál ei má appellera; *d)* um að mál dæmist fyrir rèttum dómara; *e)* um eiðatökur. — Eptir þetta kemr aptr kafli af rèttarbótum, þó með ymsum skrám innanum; flestar af rèttarbótum þessum eru norrænar, eða brot af sumum, og eru þær prentaðar í fornlaga safni Norðmanna (Norges gamle Love III, 8. 17. 59. 101. 138) þó ekki sè þetta handrit þar haft við samanburðinn; sumar af þeim eru og prentaðar aptan við Jónsbók. Þær sem Ísland snerta eru: *a)* rèttarbót Eiríks konúngs 15. Juli 1294 (einúngis 5 greinir í tveim stöðum); *b)* rèttarbót Hákonar konúngs 14. Juni 1314 (3 greinir einúngis); báðar þessar rèttarbætr eru settar inn í Jónsbók hèr og hvar. Þar er og *c)* hinn gamli sáttmáli milli Íslendínga og Noregs konúngs, með eiðstaf. — Í þessum kafla er skrá ein: Um þýðíng eiðsins (bls. 214—215) og: Um skuldheimtur (bls. 215). — 3, Statúta Jóns biskups í Skálholti 1345 um frillur presta o. s. frv. (bls. 221—227 í skinnbókinni); tvær blaðsíður þar á eptir hafa í upphafi verið auðar, en síðan er ritað þar registr yfir Mannhelgi Jónsbókar, með hendi frá 16. eða 17. öld, og á síðari blaðsíðuna eigenda nöfn og ýmisleg markleysa. — 4, Kristinrèttr Árna biskups (bls. 230—262 í skinnb.); hann endar hèr á XXXII. kap. eptir útgáfu Thorkelins, en vantar í hann eitt blað (eptir bls. 260). Eptir Kristinrèttinn fylgir: Um sextán banns sakir (bls. 262—264 í skb.) og: Um okr ok hegníng fyrir þat (bls. 264—266 í skinnb., sbr. Thorkel. XXXIV kapít.). — Þar eptir fylgir: 5, Statúta Eilífs erkibiskups frá 1320, bls 266—267 í skinnb,; hún er prentuð í Norges gamle Love III, 246—248, og er þar lengri en hèr, en ekki er þessa handrits þar getið. — 6, Tíundarlög Gizurar biskups, þau sem hèr eru prentuð (bls. 267—270 í skinnb.). — 7, Statúta Magnús biskups Gizurarsonar 1224 (bls. 270—271 í skb.), og er sleppt síðara hlutanum. — Seinast er: 8, Statúta Árna biskups Þorlákssonar, frá hèrumbil 1270, sem samþykkir boð Magnús biskups í Statútunni næst á undan (bls. 271—272 í skinnbókinni); er þessi statúta einnig styttri hèr en hún er vön að vera annarstaðar.

Allt það sem nú er kunnugt um sögu handrits þessa bendir til, að það hafi átt heima í Rángárvalla sýslu. Árni Magnússon

hefir ritað á seðil framan í bókinni yfirlit þetta yfir hana og skýrslu um eigendr:

„Jonsbok.
Rettar bætur fäeinar.
Formulæ quædam juridicæ.
Rettarbætur fleire.
Statutum Jons biskups 1345.
Kristinnrettur (Arna biskups).
Statuta Magnuss ok Arna biskupa.

Þessa bok hefi eg feingeð af Eirike Gislasyne (prestz að Krosse i landeyum og hafðe faðer hans ätt hana (Sr. Gisle Eiriksson). er in 4to." — Á annan seðil hefir Árni ritað þetta:

„Þessa bök feck eg fyrst til läns af sera Joni Torfasyne[1], eñ hann hafði feingeð hana til läns af Sigurðe Gislasyne (prestz forðum að Krosse i Landeyum). — Eirikr Gislason eignaði sier bokina, ok selldi mier so hana siðan. Er hun so nu min."

Þetta staðfestist við nöfn eigenda, sem á bókinni eru rituð hèr og hvar. Þetta er ritað á fremstu blaðsíðu: „Huius libri legis verus justus legitimusque possessor Gudleyva Jonæ vxor mea est. Qvod testatur subscripta mea manus. Cruce[2] 1679. 2. Maji. Gijslavs Eirici manu propria. In manibus Domini sorsque salusque mea". Þessi Gísli Eiríksson var prestr að Krossi í Landeyjum 1681—1695, og þar var faðir hans Eiríkr pr. Þorsteinsson á undan honum frá 1635 og til 1681[3]. Gísli hefir nokkur ár verið hjá föður sínum sem fulltíða maðr, áðr hann fèkk brauðið; það sèst á því, að í bókinni er límt brèf nokkurt frá Jóni biskupi Vigfússyni (síðar biskupi á Hólum), ritað á Stóra-Hofi 23. Septembr. 1674, þar sem hann biðr Gísla fyrir að hafa umsjón yfir fjörum sínum í Landeyjum, Fitjafjöru eystri ok hálfri Naustfjöru, og um skipti á því sem þar reki. — Eptir Sira Gísla hafa synir hans eignazt bók þessa, Sigurðr og Eiríkr; þeir hafa báðir ritað nöfn sín á fyrstu blaðsíðu: fyrst er þar ritað: „Sigurdus Gijslauius manu propria" og þar neðan undir aptr: „Bokarinnar eigande er Eirekur

1) þ. e. Jón pr. Torfason á Breiðabólstað í Fljótshlíð (1708—1716).

2) þ. e. „at Krossi" (í Landeyjum).

3) Hannes biskup (í prestatali) og Espólín (Árb. VII, 81) telja hann andaðan 1674, en Steingrímr biskup Jónsson segir, að hann hafi andazt 1681, og þá telr hann sira Gísla.

Gislason með riettu. Eirikur Gijslason. e. h."; á bls. 132 stendr aptr nafn Sigurðar, en loksins hefir Eiríki hlotnazt bókin fullkomlega, eptir því sem ritað er bls. 229: „þessa logbok á Eirikur Gislason með riettu og er vel að komenn til merkis under skrifað nafn. Anno 1697 þann 7. Febr. Sigurður Gijslason m. e. h." — Af Eiríki hefir Árni Magnússon keypt bókina, svo sem áðr var sagt. — Á nokkrum öðrum stöðum finnast nöfn frá ymsum tímum, en þó engin mjög forn, sem ekki verða með vissu heimfærð til kunnugra manna. þessi nöfn eru: „Jon Jonsson" (bls. 33. 180. 229), sem gæti verið Jón, faðir Guðleifar, konu sira Gísla á Krossi; „Andres" eða „Andres Jonsson" (bls. 180. 229. 244), sem gæti verið bróðir Guðleifar, eða föðurbróðir; „Eiríkr Erlendsson", sem hefir átt bókina einhverntíma („þessa logbok a Eijrijkvr Ellendsson með riettv en eingin anar". bls. 179. mjög illa skrifað og fyrstu þrjú orðin skafin út seinna); enn fremr koma fyrir nöfnin: „Sygmu(ndr)", bls. 153; „Einar", bls. 240, og „Syguallde Einarson" bls. 244, og er af þeim nöfnum að ráða, sem þau gæti verið austan af Síðu, úr ætt Gizurar biskups Einarssonar, og að bókin gæti verið austan úr Skaptafells sýslu í fyrstu.

þess má enn framar geta, að á bls. 178 er rituð með sömu hendi og nafn Eiríks Erlendssonar (á bls. 179) þessi staka:

Blesse drottijn berijn a þvi linge
hardt og leinge harpan min singe,

þ. e.: Blessi drottinn berin á því lýngi!
hart og lengi harpan mín sýngi!

þetta er óefað viðkvæði frá vikivaka kvæði, en ekki er það kvæði meðal þeirra sem nú eru kunnug.

---

Vm tiundar giord einn capitule. Gud kome til. Amen[1].

1. þath er mællt. at menn skvlv tivnda fie sitt. aller hier ꝍ lande laugtivnd.

Sꝍ madr er ꝍ .x. vj. alna avra firir vtan huersdags bvning sinn skulldlavst. þa skal gefa alín vadmals. eda vllar ʀeyfi. þat er .vj. giore hespv. eda lambs giæru.

1) þessi fyrirsögn er í skinnbókinni rituð með rauðu letri; upphafsstafrinn er rauðr.

Eñ sa er ꜵ .xx. aura. sa skal gefa. tuær alnar.
Eñ sa er ꜵ .xl. aura. skal gefa .iij. alnar.
Eñ sa er ꜵ .lx. aura. skal greida .iiij. alnar.
Sa er ꜵ atta tigv. skal greida fimm alnar.
Sa eʀ ꜵ tiutige. skal greida .vj. alnar.

2. þat fee þarf eigi til tivndar at telia er ꜵdr er til gudz þacka gefit. huort sem þat er til kirkna eda brva. eda til sælu skipat[1]. hvort þat fie eʀ j laundum eda lausum aurum.

Prestar eiga eigi at tiunda þat fie er þeir eigu j bokvm eda messv klædvm. ok þat allt er þeir hafa til gvdz þionvstv. Tivnda skulu þeir annat fie.

3. Bvvs afleifar þarf madr eigi at tivnda vm vor ef hann helldr bvi sinv.

4. Ef madr ꜵ godord ok þarf hann eigi þat til tivndar at telia. þviat þat er velldi eñ eigi fee.

5. Bændvr aller skulv tivnd giora. þeir er þingfarar kaupi eigv at gegna af fie sínv skulldlavsv. eigi skal omavgvm fie ætla. þo at hann eigi fram̄ at færa.

6. Rett er at þeir þiggi aller tiund er eigi giora.

7 a. Samkuomur skvlv menn eiga vm havst j hrepp hverivm. eigi fyrr eñ fiorar vikur erv til vetrar. og skipta tiundvm. Skipt skal tiundvm fysta drottins dag j vetri. Fimm menn skal til taka j hrepp huerivm at skipta tiundvm og matgiofvm. og sia eida at monnvm. þa er bezt þikia til fallnir. huort sem þat erv gridmenn eda bændr. og sækia menn vm laga afbrigde.

7 b. Skylldr er huer madr til þeirrar samkuomu at fara er hann ꜵ tivnd at giora. eda fꜵ annann mann firir sig þann er laugskilum halldi vpp firir hann. og handsaul sie at þiggiande. Ef hann kemur eigi sialfur firir miðiañ dag og eingi madr af hans hendi. þa verdr hann sekur vm þat .iij. morkvm. og skal þa tivud giallda sem skipt er ꜵ hendr honum.

8. þar skal huer madr giallda vor tiund sem skipt er havst tivnd. Eñ ef þat er huergi. þa skal hann þar giallda sem hann er vistfastur marteins messo.

9. þar skal telia fie manna. huersv mikit huer ꜵ. skal uirda laund ok lausa aura. til .vj. alna aura. og skal þat fie virda er at fardaugvm var skulldlavst.

---

[1]) *á að vera:* skipa.

10. Sialfur skal hver telia fie sitt og virda. Eñ þa er hann hefuer talit fee sitt. þa skal hanń taka bok j haund sier eda kross. ok nefna at þui votta at eg vinn eid at bok laugeid og seigi eg þat gudi at eg ꝍ svo fie sem nu hefver eg talit eda minna. Eñ ef hann vill eigi eid uinna þa er hann er beiddr. þa verdr hann sekur .iij.[1] morkum[2]........

17..... þa skal sa er ʀettur er sækiandi ganga vt j tvn at syn edr sa er hann selur j havnd og nefna uitne at þui at hann er bvinn til vidr tavku at taka uid tivnd. þeirre er hann skylldi giallda. og nefna hann og kueda ꝍ huersv mikit feit var og hann siae aunguañ þann er gialldi halldi vpp firir hann skal hann nefna votta at þvi. at hann er bvinn at þui vætti[3]. Skal hann segia at eg stefni þier og nefna hann þurfamanninn tel eg þig sekañ vm þat .iij. morkum suo sem buar virda þann hluta er ogolldinn er. stefni eg þier til giallda og til utgaungu vm fie þat. og kueda ꝍ huar hann stefnir til þings. og stefni eg laga stefnv. skal hann kuedia til bua .v. ꝍ þinge þadañ fra er hann stefndi.

18. Annann fiordung tiundar skal hafa byskup. þat fie skal vera j vadmalvm. eda varar felldum. j lamba giærvm j gulle eda brendu silfri. þar er byskup fer vm fiordung. hann skal seigia til ꝍ kirkiu soknum j hrepp hverium huer vid þeim fiordvngi skal taka er hann skal hafua. þar er mælltur eindagi ꝍ fie þui er menn skulv byskupi giallda. hinn fimta dag vikv er fiorar vikur erv af sumri. at lavgheimile þess manz er byskup baud vm at taka vid fie þui. Rett er þo fyrr sie golldit. Ef þa kemvr eigi fram̄. þa skal sa er ʀettur er sækiande ganga vt j tvun at syn og tueir vottar og seigia þat at hann er buinn at taka vid fie þui er hann skylldi giallda og kueda ꝍ huersu mikit feeit er og hann sier eigi þann mann er gialldit inne af hendi. honum eʀ þat ʀett at stefna suo vm þenna fiordung tivndar. sem vm hinn er fyrr var vpp tint. þat er ʀett at stefna sidar vm þat fie at laugheimile

---

1) *rèttara:* xij mörkum.

2) hèr er hlaupið yfir í § 17 í skinnbókinni, án þess nokkur eyða sè; er auðsætt, að þar hefir vantað blað í kver það sem bókin er ritað eptir, en ritarinn hefir ekki gætt að því.

3) hèr eru klaususkipti raung, og afbakað hjá ritara skinnbókarinnar.

þess er giallda skylldi. þess ꝏ hann og kost at seigia byskupi til og lata hann heimta sitt ef hann vill.

19. Nu eru eptir tueir fiordungar. þat er half tiund huers manz. þat skal leggia til kirkiv og til presta ʀeidv. suo til huerrar kirkiu sem byskup skiptir tiund til. ok reida þeim manne j havnd er kirkiu þa vardveiter er tivnd eʀ til skipvt. hann skal kavpa tider at presti suo sem bann mꝏ vid komazt. og þa blvti adra er til kirkiv þurfta þarf at hafva. suo sem þat fie vinzt til. Suo skulu bændr tivnd giallda af aullum bæium j hierade til kirkiv sem byskup hefir bodit. huerir sem ꝏ bolstaudum bua.

20. Bondi sa er ꝏ kirkiv bæ byr þeim er tiund er til skipt hann eʀ ʀettur heimtandi og sækiandi þeirrar sakar ef hann vill. Eñ ef hann vill eigi. þa er ʀettur adile þeirrar sakar. lærdur madr sa er kirkiv þionar. og til kirkiu þurftar vill hafva.

21. Fiordung tiundar þat skal til presta ʀeidv leggia. þat skal giallda j vadmálum. eda j varar felldum j lamba giærvm. gulle og brendu silfri.

22. Eñ þat fie sem til [kirkiu] þurfta þarf at leggia. þat skal giallda j vaxe og vide j reykelsi og tiorv. og j lereptum nyivm. þeim er hæf sie til kirkiv bvnings. sem getur at kavpa med vadmalum j þui hierade. Rett er þott vadmꝏl ein sie golldin.

23. þat fie skal golldit vera hit sidazta hinn fimta dag vikv. þa er fiorar vikur eru af sumri. Eñ ef þa kemr eigi fram̄. þa skal heimtandinn stefna vm þann dagh j tvne ꝏ kirkiv bæ þeim er tivnd ꝏ til at hverfa. ok sækia sem adra tivnd. hann skal stefna sinne stefnv vm huern fiordung. og lata varda .vj. merkr j huorntveggia stad vm halldit. Kostur er at stefna vm bada fiordunga. og fylgia þa ein ꝏlavgin. þuiat einn er adile at bꝏdvm.

24. Rett er at stefna heiman til vorþinga og[1] tivndar mꝏl. þar er menn ero samþinga. og er ʀett at lysa ꝏ vorþinge j þingbreckv vm tivndar mꝏl. ef þeir erv samþinga og sækia þar j dom ef sa er þar er sottur er. þa er og rett vm

1) *rètt.* of.

byskupa fiordung at sækia þott sa sie eigi þar. Ef lyst er a þinge. þa skal kuedia til heimilis bua. fimm a þinge þess er sottur er[1].

## 23. [um 1100]. á alþingi.

Alþíngis samþykkt um fjárlag manna á meðal á Íslandi að alþíngis máli.

Það var forn rèttr konúnga á Norðrlöndum og goðanna á Íslandi, að leggja lag á alla þá aura og varníng, sem gekk manna á meðal í kaupum, sölum og greiðslum öllum. Þegar kaupskip kom til hafnar í hèraði, reið goði til skips með sína menn, og samdi við kaupmenn um ákveðið verðlag á allri vöru, innlendri og útlendri, og lagði lögboð á, sem stóð meðan kaupstefna hèlzt í það sinn. Þar með eignaði goði sèr forkaupsrètt á vöru kaupmanna. Auralag í viðskiptum manna á meðal í hèruðum var einnig ákveðið, og gjörðu goðarnir það ýmist á vorþíngum hver í sínu hèraði, ýmist sameiginlega á alþíngi. Rèttrinn til að leggja lag á varníng manna fylgði síðan lengi sýslumanna valdinu, og forkaupsrètt munu þeir einnig opt hafa eignað sèr, en konúngi hefir optar en einusinni verið dæmdr á Íslandi forkaupsrèttr á varníngi.

Margar skrár hljóta að hafa verið til á Íslandi um þessi mál, en nú eru þær flestar undir lok liðnar. Sumt er þó það enn til, sem sýnir hvernig í þessu efni hefir breytt verið. Það er þá fyrst, að Grágás segir fyrir í Festa þætti (Fins. útg. II, 72, kap. 167; AM. nefnd. útg. II, 403) hversu leggja skuli lag á útlendan varníng, og þó talin sè þar að eins takmörk í Austfirðínga fjórðúngi og Sunnlendínga, mun sama regla eflaust hafa gilt um allt land. Útaf þessu eru síðan sprottnar hinar svonefndu „Kaupsetníngar", sem hafa verið tíðkaðar allt fram til þess að konúngr sjálfr fór að setja föst kauplög (taxta); fáeinar af þessum Kaupsetníngum eru til enn. Annarskonar auralag finnst og mjög snemma, og það er um gjaldaura landsmanna á milli, verkakaup o. s. frv.; til þessa finnast rök í Grágás (í Þíngskapa þætti kap. 78, — Fins. I, 129; AM. kap. 56, I, 147 sbr. Kaupabálk kap. 54, I, 466), og þaðan eru sprottin hin svonefndu Búalög.

1) hèr hafa Tíundarlögin aldrei lengri rituð verið í skinnbókinni, en þar fylgir eptir, með sömu hendi, svo sem fyr var getið: 1, Boð Magnús biskups (Gizurarsonar) [1224]; og 2, Boð Árna biskups (Þorlákssonar), er staðfestir þau boðorð er standa í skipan Magnús biskups [1270]. Aptanvið þessa skrá er hèrumbil fjögra lína eyða, og endar þar skinnbókin (bls. 272).

Um skrá þá sem hèr fylgir þarf einkum að sanna tvennt: fyrst að það sè skrá sèrílagi, en ekki kapítuli úr Grágás, þarnæst, hversu gömul skrá þessi sè. Fyrir því, að þetta sè skrá sèrílagi, mætti telja þau rök, að auralag er í sjálfu sèr svo breytilegs eðlis, að harðla ólíklegt er að nokkur vili setja það í lögbók, nema á þann hátt, sem forðum hefir tíðkazt á Íslandi, að safna og láta fylgja lögbók slík nýmæli og allsháttar lagaskrár og samþykktir, eða stundum setja það í bókina sjálfa. Þessi rök eru þó ekki eins sterk, þegar um forna öld er að ræða, einsog nú á tímum, því allt það sem vèr höfum nú eptir af hinum fornu fjárlagsskrám sýnir, að lag á öllum aurum hefir haldizt jafnvel ótrúlega fast og stöðugt, enda sjáum vèr og þess merki enn í dag á Íslandi í mörgum hlutum, svosem afgjöldum jarða og ymsu öðru, að „gamalt lag" heldst við, hversu sem daglega breytist verðlag margra hluta. Þar sem Jónsbók hefir í Kaupabálki lag á ymsum aurum, þá ætla eg þó ekki að þar á verði neitt byggt, því það mun varla efamál, að meira hluta af 5. kap. í Kaupabálki, og einkum öllum 6. kap. Kaupabálks, sè skotið inn í Jónsbók seinna, og sè það einúngis vorþingis samþykt úr einhverju hèraði, svosem þar einmitt er til orðs tekið í bókinni (Jónsb. Kaupab. 6. kap. í upphafi). En upphafsorðin í skrá þessari („að alþíngis máli") eru ljós vottr þess, að hún sè sèrstök skrá, og að hún sè alþíngissamþykkt, því annars mundi ekki vera svo að orði kveðið sem hèr er. Enn framar er í þættinum um fjárleigur (Fins. kap. 221, II, 141; AM. Kaupabálk. 3. kap., I, 391) mælt fyrir um lögaura á þann hátt, sem menn geta vænzt eptir í lögbók, og ekki ítarlegar; yrði hèr þá tekið upp aptr sumt af því, ef þetta ætti að vera úr bókinni sjálfri, og er það ótrúlegt, að svo hafi verið ítrekað hið sama í bókinni.

Fyrirkomulagið í hinni fornu skinnbók, þar sem skrá þessi finnst, vottar einnig bæði um að hún sè sèrstök, og um aldr hennar. Konúngsbókin ein af Grágás (en ekki Staðarhólsbókin Árna Magnússonar) hefir þessa skrá (Gamle kongelige Saml. Nr. 1157 Fol., sjá lýsíng hennar hèr að framan Nr. 22. A., bls. 73—76), og þar er hún með smáþáttum aptast í bókinni, er og aðgæzlu verð sú röð, sem smáþættir þessir eru í, svo sem greinilega má sjá í útgáfu Vilhjálms Finsens af konúngsbókinni. Fyrst er þar lítil grein „um silfrgáng" (Fins. kap. 245, bls. 192; AM. Kaupab. kap. LXXXIV, I, 500), sem telst vera frá þeim tíma er kristni kom á Ísland; þessi grein er bersýnilega hvorki nein lagagrein, og ekki heldr nein skrá eða skjal, heldr einskonar skrásetníng eða sagnagrein, þesskonar sem opt finnast ritaðar í fornum bókum, en harðla gömul, svo sem hún byggist á frásögnum frá upphafi elleftu aldar (hèrumbil ár 1000). Eptir þá grein kemr sú skrá „um fjárlag manna", sem hèr fylgir eptir, og eru hèr áðr leidd að því rök, að þetta sè alþíngissamþykkt sèrílagi. — Þar eptir kemr „frá rètt Noregs konúngs

á Íslandi" (sjá hèr að framan Nr. 16, bls. 54); þar næst „Um rètt Íslendínga í Noregi" (sjá að framan Nr. 21, bls. 64); þar næst koma 6 greinir, ýmislegs efnis[1], og þar eptir Tíundarlög Gizurar biskups (hèr að framan Nr. 22, bls. 70). Allt það sem vèr nú getum ályktað af bendir til þess, að hèr sè í skinnbókinni safnað sundrlausum greinum, og að þessar allar greinir sè frá elleftu öld, eða ekki ýngri en ár 1100. Eptir röðinni sjálfri ætti að sýnast svo, sem þessi skrá væri eldri en 1083, eða það ár sem eg hefi heimfært vottorð Gizurar biskups til, um rètt Íslendínga í Noregi, en hæpið er að byggja svo mikið á röðinni einni saman, og þykir mèr vissara að byggja á því, að hèr kemr fram sama auraverð, sama álnamál og sömu varníngstegundir einsog í Tíundarlögum Gizurar biskups og í Grágás sjálfri bregðr fyrir. Þar á móti er auðsætt á skrám þeim, er síðar munu verða prentaðar í safni þessu, og að öðru leyti eru áþekkar þessari, að þó þær sè frá þeirri öld sem Grágás var lög, þá eru þær þó miklu ýngri en þessi.

Skrá þessi er á konúngsbókinni, sem áðr var nefnd (Gl. Kgl. Saml. Nr. 1157. Fol., bls. 174—175), og er hèr prentuð eptir henni, en áðr er hún prentuð svo sem kapítuli í Grágás í útgáfu Vilhjálms Finsens af hinni sömu skinnbók, kap. 246, II, 192—195, og í útgáfu Árna Magnússonar nefndarinnar af Grágás sem kap. LXXXV. í Kaupabálki; I, 500—505.

---

vm fiárlag manna[2].

Þat er fiarlag at alþingis male at .VI. alner vaðmáls gilldz nytt oc onotit [scolo vera i eyre[3]

vararfelldr fvr II. aura sa er fiorgoRa[4] þvmal alna er langr. eN. II. breiðr XIII. roGvar vm þveran fell. Nv ero fellder betri þat er virðingarfæ.

Melracka belger VI. fvr eyre.

Lamba gæror VI. fvr eyre.

Gelldinga klippingar VI. fvr eyri.

Katbælger af fressom gomlom. II. fvr eyre.

af sumrungom III. fvr eyre.

---

1) þessar greinir eru bæði sèrstakar hèr, og þar með flestar settar inn í ymsa þætti í Grágás sjálfri í báðum aðalbókunum (sjá athugagreinir Finsens).

2) fyrirsögn með rauðu letri; upphafsstafr grænn, ekki stór.

3) frá [ tvískrifað í skinnbókinni.

4) *rètt.* fiogorra.

Morendz[1] vaðmáls v. alner fvr eyre.

Eyrer gullz þess er stendz ellding fvr LX[2].

Morc brendz silfrs fvr. LX[2].

Jarnketill nýr oc oelldr oc vegi hálfa vett oc liggi i VIII. scíolor fvr XV. aura.

Stælltr le eggelningr oc vegi XVIII. aura heill oc stálsorfenn. þeir scolo III. fvr .II. aura.

Vett blastr iarns fvr .v. aura.

Vett fello iárns fyrer VI. aura.

þat er katla máls sciola er tré er sett i løgg oc tecr aðrom megin a þrøm XII. þumlunga meðal manne i nagls rótom.

þetta er enn fíarlag.

at kýr þrevetr eða ellre .x. vetra eða yngri kalbær ok miolk hyrnð oc lasta[3] lavs. eigi verre en meðal nat heraðræk at fardøgom oc mólke[4] kalfs mála sv er giald geng.

þriu nat vetr gamol við ku.

ij. tvevetr við kú.

kyr gelld miolc oc qviga II. vetr kálb bær leigo[5] verre eN kyr.

Øxi. IIII. vetra gamall fvr ku. gelldr eða graðr.

Gelld kýr oc øxi þrevetr III.[6] luter kugildis.

Øxi .v. vetra gamall. þriþiungr annars[7] kúgilldis.

Øxi .VI. vetra gamall fvr .II. lute annars[7] kugildis.

Øxi .VII. vetra gamall fvr .II. kyr. oc sva þott ellre se.

Arðr øxi gamall a vár þat er met fe.

VI. ær við kú. II. tué vetrar oc IIII. gamlar. oc ale lømb sin oc orotnar loðnar oc lembðar.

Ær VIII. alsgelldar III. vetrar oc ellre við kú.

VIII. gelldingar við kv. II. vetrir.

VIII. lambgymbrar oc ale lømb sin.

VI. geldingar III. vetrir við kv.

---

1) *á spázíu, sem sýnist vera ritað með hendi þormóðar Torfasonar:* sortað, *og á það líklega að vera útskýring yfir* morendz.

2) þ. e. hálft hundrað sex álna aura. 3) lasta *tvítekið í skinnbókinni.*

4) *þannig skinnbókin;* = mjólki.

5) = tveim aurum, *eða* tólf álnum, *því kúgildis leiga var tólf álnir.*

6) ij., *í fjárlaginu í Jónsbók Kaupab.* VI. *kap., og mun réttara.*

7) an^7s, *eins og væri* anners, *skinnb.*

IIII^a vetra. geldingr oc annarr .II. vetr fvr ær .II.
Rutr .II. vetr agildr.
XII. vetr gamlir sæþer við kv.
Allt þetta fe gillt oc i ullo.
Rutr .III. vetr oc ellri oc forosto gelldingr þat er met fe.
Geitr VI. með kiðom [við kv]· oc sva faret sem ám.
en̄ VIII. gelldar við kv. þrævetrar eða ellre.
VIII. hæðnor við kv́. oc ale kið sin.
VIII. II. vetrir hafrar við kv.
oc IIII. kiarn hafrar.
oc IIII. algeldir.
eN VI. þrevetrir við kv. halfir hvárs alsgelldir oc kiringar.
IIII^a vetra. gamall hafr oc annarr II. vetr. fvr geitr .II.
Tvevetr hafr við geít.
Ef hafrar ero ellre eN nv ero talþer oc er þat metfe.

II. vetrgamlir geitsæðir við geít. hálfir hǫðnor eða alsgelldingar en hálfir kiarn hafrar eða graþhafrar.

Hross ero oc lægð.

Hestr .IIII. vetra gamall eða ellre. oc X. vetra oc yngri heill oc lasta lǽss við kv́.

MeR IIII. vetra oc ellre oc X. vetra oc yngri gelld heil oc lasta læs. fiorðungi verri eN en[1] kyr.

Hestr III. vetr iafn við mere.

MeR III. vetr II. lutir kugilldis.

Tuæ hross tvévetr. hestr oc meR við kv́.

Þriv vetr gomol hross við kv́. oc er eitt hestr.

Ef maðr gelldr mer hross vetr gamallt fvr þriþiung kugildis. þa skal fylgia eyrer.

Þetta scolo vera meðal hross oc eigi verre.

Stoðhestr oc se verðe betri fvr sacer vigs. oc gelldr hestr oc se verðe betri fvr reiðar sacer. oc fylmeR i stóðe þat er metfe.

Sýr II. vetr eþa ellre oc IX. griser með við kv́.

Breitt lerept III. alner fvr .II^a ǽra.

Ensct lerept tuielnt II. alner fvr eyri.

Tuær merkr vax fvr eyre.

Scruð klæðe ný scoren eða oscoren.

Hafnar vaðmál ny oc onoten.

---

1) eN, líklega ofskrifað í skinnbókinni.

Hafnar fellder nyir.
Katta scinn
oc lamba scinn ny.
Flatsmiðe nýtt
oc voro smiðe.
Teint iárn
Eirkatlar nýir.
Þat er allt metfe.

Allt metfe þat er gialda scal scolo þeir taca til er giolld eignz við sinn mann hvarr logmetanda oc lǫgsianda. En ef þeir verða eigi asátter. þa scolo þeir luta oc meta við eið sa er hlytr.

Þriar vétter gamalla sauða ullar við kú.

Þriar vetter miolvægs matar við kv.

[vett] Vetrgamalla sauða ullar eða auldungs húð [þriþiungr kvgilldis] oc bǿta eyre hvárt.

.ii. kýr húþer við. ǫlldungs húþ.

Rett er oc ef snǫggvar ær ero golldnar. at láta fylgia vett ullar xx. ám.

---

## 24. [um 1100].

Skrá um gjöf Tanna og Hallfríðar til sælubús á Bakka (Ferjubakka í Borgarfirði).

Enginn hefir enn, það eg veit, tekið eptir eða getið um, að á Íslandi hafi verið í fornöld almenn gistíngahús; hèr er ein skrá, sem sýnir að svo hafi verið, og fleiri munu fylgja eptir.

Þessi skrá er tekin eptir fornri máldagabók, sem hefir verið talin Nr. 68 í 4to í handritasafni Hannesar biskups Finnssonar, en nú er komin í stiptsbókhlöðuna í Reykjavík með handritum Steingríms biskups, og kölluð þar D 12. Þetta handrit hefir sira Magnús Grímsson á Mosfelli uppgötvað, og sent mèr skýrslu um það 26. April 1854, síðan hefir hann skrifað það upp fyrir mig, og þegar eg sá hversu fornt og ágætt það var, þá hefi eg fengið það að láni fyrir góðfúslega aðstoð bókavarðar stiptsbókhlöðunnar, stúdents Jóns Árnasonar, og velvild forstöðumannanna.

Máldagabók þessi er í fjögra blaða broti, rituð með skýru hálfsettu letri, nokkuð misjöfnu og meðallagi bundnu, og mórauðu bleki. Bókin hefir áðr verið innbundin, en nú er hún komin í blöð, og eru blöðin fremst og aptast svo maukfúin, að þau loða varla eða ekki saman, og úr sumum eru fallin stór stykki, svo nú er ekki læsilegt nema hèr og hvar úr þeim. Miðbik

bókarinnar er heilt, en þó mjög farið að fúna og feyskjast. Bókin virðist hafa upphaflega verið 149 blöð, auk registrs, sem er 4 blöð, og þar með liggja nú 16 blöð að auki með sömu hendi eða samtíða, og eru þar á máldagar margra kirkna í Skálholts stipti frá 1553 (Marteins biskups Einarssonar), og ýmisleg önnur brèf frá 16. öld, viðvíkjandi kirkjum og kirkna eignum í stiptinu frá því í tíð Ögmundar biskups og til þess í tíð Odds biskups Einarssonar, um 1600.

Máldagar þeir, sem á bókinni eru, eru ritaðir eptir ymsum máldagaskjölum í Skálholti, sumum mjög fornum, en sumum miklu nýjari, og er vandhæfi á að segja með fullri vissu, hversu gamalt sumt muni vera. Stafsetníngin er einnig úr lagi færð, og bregðr þó fyrir hèr og hvar fornum ritshætti frumritanna. Á blaðsíðu aptast, neðan undir þar sem registr bókarinnar hættir, er þetta ritað, með sömu hendi og bókin: „Allt það sem hier er fyrjr skrifað j þessare Bök hefeg biarne marteins son Skrifað eptir gomlum maldaga kuerum og maldaga Blǫðum liettum og goðum. j Skalhollte anno 1601 vm skamdeige". Á miða einum, sem í bókinni liggr, hefir Steingrímr biskup ritað, að handrit þetta muni vera hið sama sem máldagabókin 263 í Fol. í Árna Magnússonar safni; svo er og, að þær hafa mart hið sama báðar, og báðar eru ritaðar í tíð Odds biskups, en þessi hefir mart sem hin hefir ekki, og það einmitt fjölda hinna elztu máldaga, svo hún er eitt hið merkasta máldagahandrit sem eg veit nú til vera, síðan frumritin eru undir lok liðin, sem líklega hefir orðið í brunanum mikla í tíð Odds biskups. Bjarni Marteinsson, sá sem ritað hefir bókina, er líklega sá hinn sami, sem á öndverðri 17. öld var prestr á Eyðum, og hefir hann að líkindum verið þaðan að austan, af ætt Hákalla-Bjarna Marteinssonar á Ketilstöðum.

Jón prestr Halldórsson í Hitardal segir í Æfisögum Skálholts biskupa, þar sem hann talar um Jón biskup Sigurðarson: „Í þessari visitazíu [1343] held eg Jón biskup Sigurðsson hafi saman tekið máldaga nokkurra kirkna fyrir austan, sem eg hefi sèð á gömlum blöðum skrifaða (þó ei vel) í Skálholti anno 1601 eptir gömlum máldögum. Byrjast þeir á Hofi í Álptafirði að austan, og svo híngað eptir, og þá kemr híngað að þykkvabæjar klaustrs máldaga, stendr útþrykkilega í honum ártalið 1343. Á sömu blöðum voru ogsvo máldagar Marie kirkju að Rauðalæk í Öræfum og Marie kirkju á Breiðamörk, hverjar kirkjur elds-uppkoman í Hnappafellsjökli aftók, og allt Litlahèraðið, sjö árum síðar eða anno 1350". Þessa getr og Finnr biskup Jónsson (Hist. Eccl. Island. II, 100 athgr. b) hèrumbil með sömu orðum. Það er auðsætt, að þessi orð eiga hèr við máldagabókina, því hún byrjar einmitt á Hofi í Álptafirði, og heldr áfram suðr eptir, þar er og ártal í Þykkvabæjar máldaga, sem sýnir að hann muni vera sá hinn sami, sem hèr er í þessari bók, en ártalið er rángt lesið, og á að vera 1340, en ekki

1343, verðr því máldagi þessi ekki Jóns biskups Sigurðarsonar, heldr Jóns biskups Eindriðasonar (1339—1341)[1]; þó er ekki líklegt, að hann eigi alla máldagana að austan, því hann fór 1340 um nokkurn hluta Vestfjarða, og mun því varla hafa enzt til á sama ári að láta rita svo marga máldaga eystra. Eptir því sem ráða er af orðum sira Jóns Halldórssonar, virðist svo, sem bók þessi hafi verið í Skálbolti lengi frameptir, og þó í blöðum og lítill gaumr gefinn, en svo lítr út, sem Hannes biskup hafi talið hana sína eign, en ekki Skálbolts kirkju, enda eru nú saurblöð með bókinni, sem eru með hendi sira Jóns Halldórssonar í Hitardal, og benda til þess að bókin kunni á hans tímum að hafa komizt í eigu þeirra lángfeðga.

Skrá sú, sem hèr fylgir, er á 63. blaði bókarinnar, byrjar hún þar efst á blaðinu, og er engin fyrirsögn, en máldagi kirkjunnar „undir Hrauni' (Staðarbrauni), frá tíð Þorláks biskups Runólfssonar, er næstr á undan og endar neðst á fyrirfarandi blaðsíðu; er því í fljótu áliti sem þessi skrá eigi þar aptanvið, en það er þó ekki svo, því þessi er sèrstök, enda er og millibilið svo skilmerkilegt, þegar að er gáð, að um það getr ekki verið vafi. Stafsetníngin í bókinni er frá tímum ritarans, og er henni því ekki haldið hèr, nema þar sem vottar fyrir hún muni vera eptir frumriti hans.

Þess má enn geta, að Tanni og Hallfríðr, sem hèr eru nefnd, munu án efa vera hin sömu og nefnd eru í máldaga kirkjunnar undir Hrauni (Nr. 26), og er því Bakki án efa jörð í nánd við Hraun, en hvort Hraun og Bakki sè í Dýrafirði eða ekki, er vafasamara (sjá Nr. 26). Að minni ætlan er Bakki sá, sem hèr er nefndr, sú sama jörð sem nú er kölluð Ferjubakki, í Borgarfirði vestan Hvítá.

---

Tanne ok Hallfriþr þau logþu helming Bakka lands til sælu bus þess er þar er. at raþi Gizorar biskops. ok at lofe erfingia. Þar fylgia kyr tiù ok .VI. tiger a. ok bætr[2] nyr. Tanna forraþ skal a staþ þeim meþan hann lifir. En þa biskops þess er j Skala hollti er. En sa maþr er þar byr skal ala menn alla þa er hann hyggr til goþs at alner se.

---

1) Þar stendr i upphafi Þykkvabæjar klaustrs máldaga: „Staður j þyckva Bæ atte Suo morg Sængar klæði. Anno dñi. M°. CCC°. XL°. iij Bæðir ok XX, XXX hæginda IX abreiðzl". o. s. frv. — Sèst hèr hvorttveggja, að rángt er að lesa ártalið 1343, og svo einnig hvernig það er til komið, að það er lesið rángt á þenna hátt.

2) Þannig handritið (= bætr?); það mun án efa vera bátr til flutninga eða sæluskip.

## 25. [fyrir og um 1100.] Reichenau.

NAFNASKRÁ íslenzkra suðrgaungumanna, úr klaustrinu í Eynni auðgu í Rínarhólmum.

Í fornsögum vorum eru margar frásagnir ritaðar um Rómferðir eða suðrgaungur íslenzkra manna, bæði karla og kvenna; það mun og óefað, að til hafi verið ferðasögur sumra þessara, svosem getið er bókar þeirrar er Gizur Hallsson lögsögumaðr samdi um ferðir sínar og kallaði „Utanfarar blómstr" (*Flos peregrinationis*[1]); og til er enn lýsíng á Rómavegum og á Jórsalavegum eptir fyrirsögn Nikolás ábóta o. fl.[2]

Á einni fagri ey í Rínarhólmum, nálægt þar sem Rín fellr úr Boðnar-sjó, var þegar á tímum Karlamagnúsar keisara stofnað klaustr eitt, sem var eignað hinum helga Blasius biskupi[3] og var mjög nafnfrægt fram á öldum. Það hèt í Ey (*Au* eða *Augia* = *Insula*), og af því þar var bæði hið fegrsta aðsetr, og aðsókn og auðsæld nóg, þá var það síðan kallað Eyin auðga (*Augia dives*, á þýðverska túngu *Reichenau*). Klaustr þetta varð snemma nafnfrægt fyrir prýði og fegrð staðarins, og sóktu þángað pálmarar (pílagrímar) af ymsum löndum, sem gengu suðr til Róms og áttu leið suðr eða norðr um Þjóðverjaland. Klaustrið í Ey komst þar með í bræðralag (*confraternitatem*) við klaustr og kirkjur í ymsum löndum, og við ymsa menn af öllum stèttum, sem gistu þar, eða heimsóktu klaustrið og nutu þar beina eða hjúkrunar. Bræðrnir tóku þá upp að rita í bók nöfn klaustra þeirra og kirkna, sem voru í bræðralagi við klaustrið í Ey, og það er svo að sjá, sem nöfn suðrgaungumanna hafi verið rituð í hina sömu bók. Þessi bók var svo gömul, að þar eru rituð nöfn þeirra manna sem lifðu á öndverðri níundu öld (815 og 820), og voru þeir þá á lífi þegar nöfn þeirra voru rituð í bókina. Þessu var síðan fram haldið, að vísu um alla níundu og tíundu og elleftu öld, og er þessi bók kölluð „*Necrologium Augiense*", þ. e. Ártíðaskráin frá Ey. 1791 var ritað registr yfir handrit þau sem klaustrið átti, og var bók þessi þá 173 bls. í arkarbroti, en vantaði mörg blöð í; var hún talin Nr. 118 í handritasafninu. Eptir að stiptið Constanz (Costnitz), þar sem Eyin auðga liggr undir, var orðið sameinað stórhertogadæminu Baden (eptir 1803), voru handritin öll tekin frá klaustrinu og flutt til höfuðstaðarins Karlsróar (*Carlsruhe*),

1) Sturlúnga saga 3, 50.

2) Werlauff. Symbolæ að geographiam medii ævi, ex monumentis Islandicis. Haun. 1821. 4to. — Rafn. Antiquités Russes et Orientales II, 394—415. — Suhm. Historie af Danmark v, 44 athgr.

3) hinn helgi Blasius biskup var mjög tignaðr víða á Íslandi. Honum voru helgaðar margar kirkjur; saga hans er til enn; hann var og fyrir miklum áheitum.

en þá vantaði þetta handrit, og var ekki til annað en afskript af því. Mone, nafnfrægr fornfræðíngr á Þýzkalandi, varð fyrstr til að taka eptir, að fjöldi nafna bæði karla og kvenna af Norðrlöndum hafa verið rituð á þessari bók. Alls segir hann þar muni vera hèrumbil 40,000 nafna, þar á meðal hèrumbil 400 af Norðrlöndum. Þar eru talin með nöfnum 56 klaustr, sem hafa verið í bræðralagi við klaustrið í Ey. Þar að auki má finna 40 önnur klaustr, sem einnig eru talin til bræðralags, og að síðustu koma nöfn pálmara af Norðrlöndum, verðr það þó einúngis ráðið af nöfnunum sjálfum, því löndin eru ekki nefnd, nema Ísland eitt (*Hislant terra*).

Hinn mikli franski fornfræðíngr Mabillon hefir fyrstr getið bókar þessarar svo menn viti, en Mone lèt fyrstr prenta hin norrænu nöfn í tímariti nokkru: Anzeiger für Kunde des deutschen Mittelalters IV, 97—99 (Karlsruhe 1835. 4to.). Þar eptir skýrði Jakob Grimm frá nöfnum þessum á fundi hins norræna fornfræðafèlags 16. Septbr. 1844, og er það prentað í ritasafni fèlagsins: „Om oldnordiske Egennavne i en i Reichenau skreven Necrolog fra det 9de og 10de Aarhundrede. af Jacob Grimm". Antiqvarisk Tidsskrift 1843—1845. 8vo. bls. 67—75.

Hèr tek eg að eins þau nöfnin, sem berlega eru heimfærð til Íslands í bókinni, jafnvel þó mörg sè þar önnur nöfn, sem mest hafa verið tíðkuð á Íslandi, en varla finnast á Norðrlöndum annarstaðar. Má það og virðast harðla líklegt, að yms íslenzk nöfn kunni að vera rituð saman við önnur nöfn af danskri túngu, og jafnvel aptr stöku nöfn þaðan með hinum íslenzku. Það er auðsætt, að nöfnin hafa verið rituð af þeim, sem ekki var kunnugt vort mál, og hefi eg sett við hvert nafn það sem eg ætla það rèttrætt vera á vora túngu. Alls eru nöfn þessi 39 að tölu, og sýna þau, að ekki hefir allfátt af Íslendíngum verið á ferð um þessar mundir í Suðrlöndum; lágu þó miklu víðar leiðir um til Rómaborgar en um Eyna auðgu, og í sögum vorum er hennar ekki getið. Nöfnin stóðu í bókinni á 168. bls., beggja megin á spázíu.

Ekki verðr nú með neinni vissu sagt, hvort þeir menn sem hèr eru nefndir sè nokkrir hinir sömu, sem vèr þekkjum frá sögunum, eða öðrum fornritum; þó vil eg geta þess, að nafnið Steini er eptirtektar vert, því sá maðr gæti verið úr Steina ættinni, og jafnvel sá sami Steini prestr Þorvarðarson, sem gaf Stafholts kirkju eignir sínar (sjá Nr. 28 hèr fyrir aptan). Væri þetta hans nafn, mundi það að líkindum vera ritað nálægt 1100.

---

Hislant terra.

| | |
|---|---|
| keiloc. [Kjallak — Kjallakr]. | uuigedies. [Vigdís]. |
| curmaker. [Kormakr]. | mar. [Már]. |
| arnur. [Arnórr]. | williburga. [Vilborg]. |

vvimunder. [Vemundr].
zurarin. [þórarinn].
gulzenna. [Kolþerna].
gudemunder. [Guðmundr].
zurrider. [þórríðr].
zurder. [þórðr].
stenruder. [Steinröðr].
gunnor. [Gunnarr].
osâ. [Ása].
tiure. [Tjörvi].
trugiles. [þorgils].
trugis. [þorgeirs — þorgeirr].
ketil. [Ketil — Ketill].
darri. [Darri].
alf. [Álf — Álfr].
dola. [Dalla].
hemming. [Hemíng — Hemíngr].
zorth. [þórð — þórðr].
esa. [Æsa].
sporri. [Snorri?].[1]
thola. [þorlaug? — eða = Dola — Dalla?].[2]
folkis. [Falgeirs — Falgeirr; — Fálki?].
sorli. [Sörli].
gude. [Gauti? — Guð[n]i?].[3]
thorkil. [þorkel — þorkell].
zure. [þóri — þórir].
zuri. [þórríðr? — þóri — þórir?].
asegut. [Ásgaut — Ásgautr].
steini. [Steini].
tuole. [þorlaug eða þorleif?].[4]
aslath. [Áslák — Áslákr].
estret. [Ástríð — Ástríðr?; — Ástráð — Ástráðr?].

---

## 26. [um 1120]. undir Hrauni.

Máldagabréf Tanna og Hallfríðar um gjafir til kirkjunnar undir Hrauni (Staðarhrauni).

Eptir hinni fornu máldagabók frá Skálholti, Nr. 68 eða D 12 í 4to í handritasafni Steingríms biskups í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík bl. 62b (lýsíng þess handrits sjá Nr. 24 hèr á undan).

1) þetta nafn kynni og vera misritað fyrir: sporn — esporn — Ásbjörn. Væri Snorra nafn rètt lesið, þá gæti þetta nafn ekki verið ritað fyr en á síðara hluta elleftu aldar, því Snorri goði († 1030) var fyrstr maðr með því nafni.

2) þetta nafn kemr opt fram í hinum norrænu nöfnum: tula — tola — tole — thola.

3) lesa mætti og saman þetta nafn með hinu næsta á undan: „Sörli goði". — Nafnið kemr opt fram í hinum norrænu: guota (þrisvar) — guda (einnig þrisvar) — goti; er því líkast til það sè = Gauti.

4) þetta nafn er og ritað í hinum norrænu nöfnum: tuole — tu°la — tuola; kynni vera það væri sama nafn og: tula — tola — tole — thola hèr fyrir framan.

Nafn staðarins „undir Hrauni" getr verið vafa undirorpið. Sira Jón Halldórsson segir í æfi Gizurar biskups Ísleifssonar: „gáfu þau Tanni og Hallfríðr með ráði Gizurar biskups til kirkjunnar undir Hrauni (í Dýrafirði) það land hálft með öllum landsnytjum", og segir að því sè til sönnunar „gamall máldagi Hrauns kirkju". Finnr biskup segir (Hist. Eccl. Isl. I, 270 athgr. *a*): „Exstant tabulæ perantiquæ, dicentes: Tannum qvendam et Hallfridam dimidium fundi Hraunensis in tractu Dirafiord, templo isthic sito donasse, svasu ac consilio Gissuri Episcopi". Það er auðsætt, að máldagi sá, sem þeir feðgar hafa haft fyrir sèr, er einmitt þessi, eptir Skálholtsbókinni (D 12), og hafa þeir haldið máldagabrèf þetta, og skrána hèr fyrir framan um sælubúið á Bakka (Nr. 24), eitt brèf, en ekki tvö. „Undir Hrauni" hafa þeir haldið vera Hraun í Keldudal í Dýrafirði, og Bakki (Nr. 24) yrði líklegast eptir því að vera Bakki í Dýrafirði. Þessi ætlan þeirra styðst mjög við það, að í hinni fornu máldagabókinni stendr þessi máldagi og skráin um Bakka (Nr. 26 og 24 þar aptan við, með litilli aðgreiníng og fyrirsagnarlaust, svosem áðr var getið) rètt á undan Álptamýri í Arnarfirði, og á eptir Haga á Barðaströnd, það er: saman við kirkjur á Vestfjörðum.

Samt sem áðr held eg óefað, að máldagi þessi sè um Staðarhraun sem nú er kallað, en ekki um Hraun í Keldudal, og skal eg greina rök fyrir því. Í því skyni get eg fyrst og fremst tilfært nafnið sjálft, því fornir máldagar nefna optast „undir Hrauni" eða „staðr undir Hrauni" þar sem nú er kallað Staðarhraun (Wilchins máld. o. fl.; Árna bisk. Saga kap. 40), en „í Hrauni" eða „at Hrauni" þar sem nefnt er Hraun í Keldudal (Wilch. máld.). — Þar næst má geta þess, að Hraun í Keldudal liggr ekki svo í þjóðbraut, að þar mundi þykja nauðsyn að gefa til gistíngar mönnum, en Staðarhraun er aptr á móti við þjóðbraut, þegar farið er miðhèraðs um Borgarfjörð og Mýrar. Þó er það einkum aðgæzlu vert, að í máldögum Hrauns kirkju í Keldudal finnst engin líkíng við þenna máldaga, en í máldaga Staðarhrauns hinum elzta, sem hèr er settr um 1185, er talið sumt hið sama og hèr er meðal eigna kirkjunnar, og þar er skipað að maðr skuli hafa forræði staðarins „úr kyni Tanna Torfasonar". Sá Tanni ætla eg sè hinn sami sem hèr er nefndr, og enn framar þykir mèr óefað, að þessi Tanni sè enn hinn sami og talin er ætt til í Landnámabók (II, 4; Ísl. sög. I [1843], 75) frá Þorgilsi-knappa, er nam Knappadal, og er Tanni sá talinn fjórði maðr frá Rúti Herjólfssyni á Kambsnesi, hálfbróður Höskuldar Dala-Kollssonar; lætr það nærri, að Tanni hafi verið fullroskinn maðr um 1120, og líklega búið undir Hrauni, eða sem vèr nú köllum: á Staðarhrauni. Landnámabók telr einnig greinilega ætt frá Eiríki í Keldudal (II, 27) en í þeirri ætt er enginn talinn með Tanna nafni. — Þó að máldagi þessi sè meðal Vestfjarðamáldaga í hinni fornu bók, þá

sannar það ekki annað, en að sá, sem máldagana ritaði 1601, hafi fundið þessa tvo á einni skrá, og kunni að hafa haldið þetta Hraun vera í Keldudal, af því það Hraun var kunnugast, en nafnið „Staðarhraun" hefir þá verið orðið svo tíðkanlegt, að margr maðr hefir ekki vitað, að það hafi verið nokkurntíma kallað „undir Hrauni".

Þá er að geta þess, hver Bakki það muni vera sem Tanni og Hallfríðr gáfu helmíng lands til sælubús. Það er líklegt að sú jörð hafi verið í þjóðbraut, og ekki mjög lángt frá þar sem Tanni og Hallfríðr bjuggu. Bakki í Dýrafirði er hvorki svo nærri sjó, nè svo í þjóðbraut, að þar gæti þótt hentugt að hafa sælubú eða sæluskip. En í nánd við Staðarhraun er helzt að gizka á tvo bæi: annar er Álptárbakki á Mýrum, niðr við Álptá, og ekki mjög í þjóðbraut, en annar er Ferjubakki, sem hefir frá alda öðli verið ferjustaðr yfir Hvítá í Borgarfirði, og liggr beint í þjóðbraut fyrir þeim sem fara vestr um hèruð hið neðra, yfir Skarðsheiði hina vestri, og vestr að Staðarhrauni, Hitardal, Kolbeinstöðum, Stað á Ölduhrygg o. s. frv., en allir þessir staðir voru aðsetr höfðíngja eða höfuðklerka fram eptir öldum. Það er því ætlan mín, að Ferjubakki við Hvítá sè sá Bakki sem hèr er nefndr; hefir þar þá verið snemma sett sælubú. Síðan var þar kirkja, og er talið í Gísla máldaga (1578) að hún eigi allt heimaland. Þar eptir var Ferjubakki lengi lènsjörð presta í Borgarþíngum, en ekki tíunduð nema fátækum, og ferja ekki óleigis (jarðabók Árna Magnússonar). Nú hefir henni verið nýlega skipt fyrir Borg á Mýrum, og er hún nú öll bændaeign.

---

Vndir Raune.

Þau tanne ok hallfriþr hafa gefit til kirkiu vnder raune land þat halft meþ ollom lands nytiom. kyr sextan. ok .x. oxn fiogura vetra ok sextige gelldinga gamalla. hesta .iij. .ij. hundroþ fiogora alna aura. j busgagne. kirkiu fylgir silfr kalekr. kirkiu tiolld. klukur v.

þar scal vera prestr vist fastr ok diakn ok omagi qvengilldr. En ef eigi fæst diakn til. þa scal omagi karll gilldr j staþ hans. þa verþa .ij. omagarnir. Sa maþr er þar byr scal ala um nott hvern mann. þeirra er hann hyggr til goþs at alinn se.

Þau tanne og hallfriþr mæla forraþs biskops j Skal[a]hollti a þat. hverr varþveita scal bu þetta ok hallda kostnaþi vpp þeim er her er tindr. Thorlakr biskop vill at tiunder gialldest þangat af þeim bæium .xiiij. er hann qvaþ a. þa er hann var þar a þeim bæ.

---

27. **27. Mai 1133. i Róm.**

Innocentius páfi hinn annar staðfestir hið andlega vald Hamborgar erkibiskupa yfir Norðrlöndum.

Eptir margar tilraunir vann Eiríkr eygóði Danakonúngr það á, að Danmörk varð laus við andleg yfirráð erkibiskupa í Hamborg (eða Brimaborg). það brèf Paschalis páfa hins annars, sem skipar fyrir um erkibiskupsdæmið í Lundi á Skáni, og líklega hefir lagt þángað undir alla biskupa á Norðrlöndum, hefir ekki orðið fundið, en allt bendir til að það hafi verið út gefið 1103, eða snemma á árinu 1104. þá var Álfrekr (Alberich) kardínáli sendr til Danmerkr, og þá var Özur (Azerus, e. Ascerus) biskup í Lundi settr erkibiskup. Hann vígði fjóra biskupa Íslendínga[1], og hann er talinn frumkvöðull að því, að saminn var hinn forni Kristinrèttr á Íslandi (1123). — En erkibiskupar í Hamborg lètu ekki sitt eptir liggia, sem vonlegt var, til að fá breytt ákvörðun Paschalis páfa og náð aptr öllum Norðrlöndum undir sín yfirráð. Um það heppnaðist Aðalbirni (Adelberoni) erkibiskupi að fá brèf Innocentius páfa, sem hèr eptir fylgir.

Frumrit brèfs þessa hefir verið í Brimaborg, og er talið í brèfaregistrum í Stade (Stöðuborg) Caps. I, Nr. 11 og 12 (Lappenb.), en óvíst hvort það sè enn til, og er það allstaðar prentað eptir brèfabókum.

Eptir brèfabók frá Hamborg er það prentað fyrst í: Scriptores rerr. Germann. &c. ed. Erpold. Lindenbrog. Francof. 1609. Fol. bls. 172, á meðal brèfanna sem heyra til: Privilegia archiecclesiæ Hammaburgensis. (Ný útg. Joh. Alb. Fabric. Hamb. 1706. Fol. meðal Priv. archieccl. Hammab. Nr. XXXVIII, bls. 150). — Goldasti. Collectio constitutionum imperialium. (Francof. 1643. Fol.), Tom. II, bls. 48—49. — Örnhjelm. Historia Sveonum Gothorumque ecclesiastica. Stockh. 1689. 4to. Libr. IV. Cap. 1., bls. 390—391. — Lünig. Teutsches Reichsarch., Leipzig. 1716. Fol. Tom. XVI. Spicil. Eccles. Anhang. Nr. LII, bls. 96—97.

Eptir annari fornri brèfabók frá Hamborg, sem síðan var í Bonn, er það prentað í: Phil. Cæsar. Triapostolatus Septentr. Colon. 1642. 8vo. bls. 197. (í Fabricii Memoriæ Hamburgenses. II, 776—780). — Labbei & Cossarti Sacrosancta Concilia. Tom. X (1073—1097). Paris 1671. Fol. 953—954. — Acta Conciliorum (ed. Hardouin). Paris 1714. Fol. Tom. VI. P. II. (1086—1215), 1160—1161. — Concilia ed. Coleti. Venet. 1730. Fol.

---

[1]) Jón Ögmundarson að Hólum 5. sunnud. eptir páska eða 29. April 1106. þorlák Runólfsson að Skálholti 2. sunnud. eptir páska eða 28. April 1118. Ketil þorsteinsson að Hólum 1. sunnud. í föstu eða 12. Febr. 1122. Magnús Einarsson að Skálholti 21. sunnud. eptir trinitatis eða 28. Okt. 1134.

XII, 1416—1417. — Mansi. Sacrorum Conciliorum nova et amplissima collectio. Venet. 1776. Fol. XXI (1119—1166)., 399.

Eptir samburði við aðalútgáfurnar, og einni brèfabók í Hamborg, er brèf þetta gefið út í Staphorst. Hist. Eccl. Hamburg. I. 1, bls. 532—533, og eptir honum í: Pontoppidan. Annales Eccl. Dan. Diplomat. I, 355, og í: Liljegren Diplomat. Svecanum I, Nr. 29, bls. 46—47. — Kafli úr brèfinu er prentaðr í Grönl. hist. Mindesm. III, 77—79; sbr. Regesta dipl. Hist. Dan. I, 35.

Seinast er það gefið út af Lappenberg í: Hamburg. Urkundenbuch I, Nr. CXLIV, bls. 132—133, eptir brèfabókinni frá Hannover.

Þetta páfabrèf er eitt af þeim, sem hefir þótt líkindi til að væri falsbrèf, sett saman af erkibiskupunum í Hamborg eða fyrir þeirra tilhlutun (Neumann de primatu Lundensi. Havn. 1799. 8vo. bls. 59—60; Münter Kirchengeschichte v. Dänem. &c. Leipzig 1823. 8vo. I, 2, 88; Michels. & Asmussens Archiv. Kiel 1833. 8vo. I, 235-236); hefir það einkum þessvegna verið grunsamt, að frumrit þess hefir ekki komið fram, er það því sett í flokk með hinum fornu Hamborgarbrèfum, sem hèr eru áðr prentuð, og sem ekki hafa fundizt frumrit af. En hvort heldr er, þá er það víst, að þetta brèf og þau önnur áminníngarbrèf, sem bækr segja að Innocentius páfi hafi ritað til Nikolaus Dana konúngs og Özurar erkibiskups, um hlýðni við Hamborgar erkibiskup, hefir engin sèrleg áhrif haft, að minnsta kosti hefir Özur erkibiskup vígt Magnús biskup Einarsson árið eptir, einsog ekkert hefði í skorizt.

Um ártal á brèfinu er nokkur vafi, þareð sumar afskriptirnar telja það á þriðja, en sumar á fjórða ári Innocentii páfa. En á því virðist enginn efi, að „fjórða ár" sè hið rètta, þareð Innocentius kom til páfalegs sætis 10. Marts 1130; verðr því Mai 1133 á hans fjórða ári. Löðr (Lotharius) keisari er hèr nefndr konúngr; hann var kórónaðr til keisara 6. Juli 1133.

Hèr er páfabrèf þetta prentað eptir útgáfu Lappenbergs, með stöku orðamun eptir Lindenbrog (L.) og Cæsar (C.).

---

Innocentius episcopus, seruus seruorum Dei, uenerabili[1] Adalberoni, Hammenburgensi[2] archiepiscopo, eiusque successoribus [canonice promouendis[3] salutem et apostolicam benedictionem. Ad hoc in beati Petri cathedra, disponente Domino, constituti esse conspicimur[4], quatinus singulis ecclesiis

1) fratri, *b. v. L.* 2) Hammab., *alstaðar, L.*

3) *þannig L.;* promoventibus, *Lappenb.; frá [ sleppir C.*

4) conspicimus, *L.*

et ecclesiasticis personis suam conseruemus iustitiam, et qualiter, tam temporaliter, quam spiritualiter, earum status integer perseueret, salubriter providere curemus. Dignum etenim et rationabile est, ut sicut sacrosancta Dei ecclesia unitatis ac fidei perpetua mater existit, ita nimirum eius[1] priuilegia custodiantur illesa, et nullis molestiis, nullisque[2] oppressionibus prauorum hominum fatigetur. Sæpe vtique venerabilis [frater noster[3] Adalbero, Hammenburgensis archiepiscopus, in presentia predecessorum nostrorum felicis memoriae, Calixti & Honorii ac nostra qvestus es, Ascerum Lundensem et alios episcopos Daciae, tibi debitam, sicut metropolitano suo, quemadmodum in antiquis priuilegiis Gregorii, Sergii, Leonis, [Benedicti, Nicolai et[4] Adriani Romanorum pontificum, continetur, obedientiam denegare. Frequenter autem et a predictis predecessoribus nostris Calixto et Honorio, atque a nobis eis mandatum est, ut aut ad tuam et Hammenburgensis ecclesiae redirent obedienciam, aut si quam super hoc iustam se habere confiderent racionem, ad sedem apostolicam uenirent ostendere preparati[5]: ipsi uero apostolicis contempnentes obedire mandatis, nec uenerunt, nec responsales miserunt. Quia igitur nemo lucrum debet de sua contumacia optinere, ex deliberato fratrum nostrorum episcoporum et cardinalium consilio, tam Lundensem, quam alios episcopos Daciae tibi restituimus. Ad formam itaque priuilegiorum Gregorii, Sergii, Leonis, Benedicti, Nicolai et Adriani, episcopatus Daciae, Swediae, Norueiae[6], Farriae, Gronlondiae[7], Halsingalandiae[8], Islandiae, Scridivindiae[9], et Slauorum, karissimi filii nostri, Lotharii regis, precibus inclinati, tibi et per te Hammaburgensi ecclesiae, suae videlicet metropoli, presenti[10] scripti pagina confirmamus. Si qua igitur in futurum ecclesiastica secularisue persona hanc nostrae constitutionis paginam sciens contra eam temere uenire tentauerit, secundo tertiove commonita, si non satisfactione congrua[11] emendauerit, potestatis honorisque sui

1) *bætir við L.* 2) nullis, *L.* 3) *frá [ sl. L.*
4) *sl. L; frá [* Nicolai, Benedicti, *C.* 5) parati, *L.*
6) Norwegiæ, *L;* Norvveigiæ, *C.* 7) Gronlandiæ, *L.*
8) *þann. L;* Helsingaldiæ, *C, Lappenb.* 9) Scridevindiæ, *C.*
10) præsentis, *L, C.* 11) commoda, *L.*

dignitate careat, reamque se diuino iudicio existere de perpetrata iniquitate cognoscat, et a sacratissimo corpore et sanguine dei et domini redemptoris nostri Jesu christi aliena fiat, atque in extremo examine districtae ultioni subiaceat. Cunctis autem hæc statuta[1] servantibus sit pax domini nostri Jesu Christi, quatinus et hic fructum bonae actionis percipiant et apud districtum iudicem premia eternae pacis inueniant. Amen.

Datum Romae apud montem Auentinum, per manum Almerici, sanctae Romanae ecclesiae diaconi cardinalis et cancellarii, VI. kalendas Junii. Indictione XI. Incarnationis dominicae anno MCXXXIII, pontificatus vero domni Innocentii papae II. anno IIII.[2]

---

## 28. [um 1140]. [í Stafaholti].

MÁLDAGI Stafaholts kirkju í Borgarfirði, er Steini prestr þorvarðsson setti.

Eptir máldagabókinni úr Skálholti, í safni Steingríms biskups, D 12. 4to. bl. 66 (sbr. Nr. 24 hèr á undan).

Um Steina prest þorvarðsson í Stafaholti vitum vèr nú harðla lítið með vissu. það vitum vèr, að hann hefir verið af hinni svonefndu Steina ætt, og er það líklega sama ættin og móðurætt þorláks biskups (Halla Steinadóttir, Steinasonar, þórðarsonar, Steinasonar hins hvíta. Íslend. s. I, 361). Hvort Steini prestr hafi farið utan vitum vèr ekki með vissu, en að tímanum til gæti hann verið sá Steini, sem stendr í nafnaskránni frá Reichenau (Nr. 25). Hann var á lífi 1143, það sjáum vèr á prestatali Ara prests hins fróða (Nr. 29 hèr næst á eptir). Hann var auðmaðr mikill, það sýnir máldagi þessi. Um andlát Steina prests vitum vèr eigi, en auðsætt er, að hann hefir verið fyrir laungu andaðr þegar þorlákr biskup átti deilur við Eyjólf Stafhylting, er hèraðsmenn höfðu sett á staðinn án biskups ráði (þorláks s. hin ýngri, kap. 20, Bisk. s. I, 285). þar af má og ráða, að Eyjólfr hafi verið nákominn frændi Steina prests, en þó ekki sonr hans, því hann er kallaðr þorgeirsson (Sturl. 2, 34). Sagan segir svo: at „biskupi þótti Eyjólfr rángliga halda staðinn í Stafaholti, þó at hèraðsmenn hefði hann þar niðr settan utan biskups ráð, þar sem Steini prestr hafði ekki staðinn gefit í erfðir, utan skilit tvâ kvennómaga úr sinni ætt æfinliga á stað-

---

1) nostra, *b. v. L.* 2) III, *L.*

inn" (Þorláks s. sst.). Eyjólfr var mikill auðmaðr og stórbokki, en varð að lyktum snauðr, og komst þá Stafaholt undir stjórn Snorra Sturlusonar og þeirra Sturlúnga. Um þann tíma bjó Ólafr Þórðarson hvítaskáld um hríð í Stafaholti.

Máldagi þessi, eins og hann er í Skálholtsbókinni (D 12), er án efa ekki ritaðr eptir hinum upphaflega máldaga Steina prests, heldr eptir þeim máldaga sem seinasta greinin hefir verið í, og eg ætla verið hafa Michaels biskups (1385—1388), en sá máldagi hefir aptr án efa verið tekinn eptir sjálfu frumritinu, og hnýtt aptanvið grein um þær eignir, sem kirkjan hafði eignazt frá því hinn forni máldagi var gjörðr. Þetta staðfestist af samburði máldaganna frá Stafaholti, er oflángt yrði hèr að telja; en að viðbætir máldagans sè Michaels biskups dreg eg einkum af því, að í Biskupa-annálum Jóns prests Egilssonar er sagt, að á hans dögum hafi Stafaholt verið gefið Skálholti til beneficium með flestum sínum eignum, og laxakerið í Norðrá[1]. Þetta kemr að efninu til einmitt saman við hinn forna máldaga, sem hèr er. Nú er það alkunnugt, og þarf engrar sönnunar við, að Stafholt var orðið kirkjueign æfilaungu fyrir daga Michaels biskups, svo að Jón Egilsson fer þar öldúngis villt; en hann hefir líklega þekkt og haft handa á milli í Skálholti máldaga Michaels biskups, og því hefir hann ályktað svo, þegar hann fann þenna máldaga þar í bókinni, að hann væri stofnaðr á þeim tíma, og Stafaholt þá fyrst orðið staðr (*beneficium*).

---

Stafs hollt.

Þesse er maldage j stafs hollti. eptir þvi sem Steini[2] prestr Þorvarþs son setti. Hann gaf til kirkiu allt heima land ok kyr. xx. c asauðar. sextige gelldra sauða agilldra. vi. tige vetr gamalla sauða. x. kugillde j gelldum nautum. v. hesta. xv. hundruð j hus bunaðe j busgagne ok innan veggiar. þrir hlutir lax veiðar j þvera[3]. ker veiðe j norðr a vndir forsi[4]. land a Svarf holi ok Biarga stein. hof staðe. lax hollt. Skoga land

---

1) Biskupa-Annálar Jóns Egilssonar, Safn til sögu Ísl. I, 33.

2) *þannig leiðrètt; bókin hefir* Steinn, *og svo hafa hinir ýngri máldagar, en nafnaskráin frá 1143 (Nr. 29 hèr á eptir) og* Þorláks saga hin ýngri kap. 20 *sýnir, að* Steini *er rètt nafnið, og svo er síðar nefnt í máldaga þessum sjálfum.*

3) eptir Stafholts máldaga í Wilchinsbók átti Ferjubakki fjórðúnginn í þessari veiði.

4) þetta er án efa „laxakerið í Norðrá", sem Jón pr. Egilsson nefnir.

hit vestra. Engi nes a strondum norðr [ok] reki með. [afrett j] vestr ardal enum eystra megin ok middals mule allr. Biarnar dalr allr fyrir ofan mæli fells gil. selfor j þverardal upp fra kvium. hris ey a hreiþu vatne. oll ey su er þverar þing er j[1]. þræley suðr fra bildz homrom[2].

ok her með þessum mal daga skolo vera .iij. prestar ok messu diakn[3]. sa er lese j otto song. en ef prestr a j hiarðar hollt. þa skolo .ij. prestar j staf[a]hollt. þvi at þat er þangat vndir. ok her vm fram skolo vera omagar .ij. kvenngilldir af steina ætt. sva gamlir at þeir megi vinna ser sialfir.

[4]Kirkia j staf[a]hollti a afreit[5] j hroþr biargar dal a bac jafna skarði. skoga voll[6] j skarþs tungu. þat er vær kollum kirkiu hollt. ok kirkiu tiundir af .iiij. bæium ok .xx.[7] j hiarðar hollt[i] ok j skarði[8] [ok] j ęskio hollti skal vera heima tiund. en or galltar hollti skal giallda j staf[a] hollt .vi. aura voru a hueriu ari. z cet.[9]

---

## 29. 1143.

Skrá Ara prests hins fróða, Þorgilssonar, um nöfn nokkurra presta kynborinna íslenzkra.

Handrit eitt íslenzkt í bókasafni konúngs (Gamle kgl. Samling Nr. 1812. 4to) er ekki ásjálegt að ytra áliti, en mjög merkilegt að efni til og aldri. Það er brot úr skinnbók, og ef til vill fleirum en einni, sem er fest inn í selskinn með skóþvengja spottum. Blöðin eru að stærð sem stærsta 8 blaða brot, en þó nokkuð misjöfn, því þau eru mjög misgömul. Eptir

---

1) *þ. e.* Stafholtsey, *sem nú er kölluð. Árni Magnússon hefir ritað þetta á miða í Stafholts máldögum:* „Ey su er þverár þing stendr j — það mun vera Ey fyrir ofan þingnes. hun er stafhollz kirkiu iörð og fylger enn nu stafholltz tungum. þvi äen rann til forna mest öll fyrir sunnan hana". *þetta stendr óbreytt enn í dag.*

2) *leiðr.;* bild z homrom, *D 12.* 3) ok, *b. v. D 12.*

4) þetta sem eptir fylgir sýnist vera viðbætir, og ýngra, líklega úr máldögum Michaels biskups (1385—1388). 5) *þ. e.* afrètt.

6) *hinir síðari máldagar hafa* skogar hollt.

7) *hinir síðari máldagar hafa:* xiiij ok xx. 8) *þ. e.* Svignaskarði.

9) hèr er látin auð rúmlega hálf blaðsíða í máldagabókinni (D 12).

því sem handrit þetta er nú samsett er það alls 36 blöð (bls. 1—72), og þar að auki þrír blaðstúfar fremst, og einn aptast, sem ekki hafa verið taldir með. þessi blöð eru nú í fimm kverum, eða heptum: fyrsta kver eru 3 blaðstúfar fremst og 7 blöð heil; annað og þriðja kver eru 8 blöð hvort; fjórða kver 10 blöð heil og fimta kver 3 blöð og blaðstúfr einn aptast. Blöð þessi eru ekki öll rituð á sama tíma, heldr eru þau með mörgum höndum og mikill aldrsmunr á.

Elzta höndin virðist vera ekki ýngri en frá því hèrumbil 1200 eða skömmu þar eptir; hún er á öllu fjörða kverinu og fremsta blaði af hinu fimta (bls. 47—68, 11 blöð). Með þessari hönd er ritað: 1) Orðasafn nokkurt á latínu með íslenzkum þýðíngum fyrir ofan hvert orð; þetta orðasafn er ritað á bls. 47 í sex dálkum, hèrumbil 20 orð í dálki, og á helmíng síðara dálks á bls. 68 (11 línur og svosem 3 orð í hverri línu). — 2) Um tímatal og tímareikníng, forn ritgjörð og merkileg, og er upphaf hennar þetta: „Guþ scop alla scepno seɴ eɴ synde hana a VI. dogom" o. s. frv. (sbr. Rímbegla ed. Stephanus Bjornonis Isl. Havn. 1780. 4to. kap. XIII—XV, bls. 78—90); þessi ritgjörð er á bls. 48—50 í skinnbókinni, og er þar ritað í tveim dálkum, og 32—37 línur á dálki. Seinast í kafla þessum, þar sem Rímbegla endar XV. kap., er sagan um Þorstein surt og hversu hann fann sumarauka, mjög lík því sem Ari prestr hinn fróði segir frá í Íslendíngabók kap. 4. (Ísl. s. 1. B. 1843. bls. 6—8, sbr. 367—368. Sagan er prentuð þar eptir þessu handriti á bls. 385, og nákvæmt sýnishorn er aptan við bindið Nr. iiij). Þar vantar aptan af, óvíst hversu mikið. — 3) Um rímtal og sólmerki m. fl., sömuleiðis forn og merkileg ritgjörð, og er þetta upphaf: „Goþ bauþ moysi uin sinom i lǫgmale at gaumgefa tuɴgl tal", o: s. frv. (sbr. Rímb. kap. I—XIII, bls. 4—78 og kap. XVI—XVII, bls. 90—114). Þar er og í Stjörnu-Odda tal. Þessi ritgjörð byrjar á bls. 51, og endar neðst á fyrra dálki á bls. 68, svo að ekkert vantar aptan við. Hún er rituð í tveimr dálkum sumstaðar, en sumstaðar í heilum línum, 27—42 línur á blaðsíðu. Báðar þessar rímtalsritgjörðir eru svo merkilegar í alla staði, að nauðsyn væri að prenta þær í heilu lagi, ásamt með öðrum mörgum og merkilegum íslenzkum ritgjörðum um rímtal og tímareikníng, sem til eru í handritum, og ekki eru til neinnar hlítar útgefnar í Rímbeglu. — 4) Aptanvið þessa ritgjörð er lítil klausa á latínu um þýðíng og mismun orðanna: vesper, vespere, vesperum og vespera (bls. 68, efri hluti síðara dálks); sýnir það, að lærðr maðr hefir ritað þenna kafla bókarinnar. — Saman við seinasta blaðið (bls. 67—68) er áfastr blaðstúfr sá, sem nú er aptastr í handritinu, en þar er enginn bókstafr sýnilegr, og verðr því ekki sèð hvað þar hefir ritað verið.

Önnur höndin, sem næst er að aldri, virðist vera hèrumbil frá 1250. Með þessari hönd eru rituð blöð þau sem nú eru

bls. 9—12 (og eru þar áfastir við annar og þriði blaðstúfr fremst í bókinni, sem enginn stafr sèst á nú), einnig bls. 69—72; það eru alls 4 blöð. Á þessum kafla er ritað: 1) Nöfn nokkurra presta kynborinna íslenzkra, bls. 9, og er það skrá sú sem hèr fylgir eptir. — 2) Veraldar krínglan, með landanöfnum, rituðum hèrumbil á þann hátt, sem menn munu hafa ímyndað sèr afstöðu landanna (bls. 10--11; sýnishorn skinnbókarinnar í Rafns Antiqu. Russes et Orient. II, Nr. iiij í fylgiskjölunum). — 3) Áttakrínglа, sem sýnir einnig mánaða röðina, með árstíðum og sólmerkjahríng, sömuleiðis heimsálfurnar (bls. 12). — 4) Calendarium, og er nú týnt úr því allt nema tveir fyrstu mánuðirnir, Januar og Februar (bls. 69—70). Það er með messudögum öllum, lagað eptir rómverskum sið, svo sem klerkar tíðkuðu, og út frá ritaðar ártíðir ymsra manna, og má ráða af því aldr hinnar fornu handar. Nöfn þau, er vèr þekkjum nú með vissu, eru: 1. Januar. Hacon rex h. d. (Hákon konúngr harmdauði, = Hákon Sverrisson † 1204); 4. Februar. Tvmi S. s. (Tumi Sighvatsson † 1222); 20. Februar. Styrmir p. cañ. (Styrmir prestr kanoki = Styrmir prestr hinn fróði † 1245); 21. Februar. Leggr p. cañ. (Leggr prestr kanoki † 1238); 22. Februar. Guðmundr grís († 1210)[1]. Með annari hendi eru síðan rituð önnur nöfn andaðra merkismanna fram á 14. öld. — Slíkar ártíðaskrár eru mjög merkilegar, og eru til ekki allfáar slíkar íslenzkar, sem nauðsyn er á að safna og fá prentaðar. — 5) Ritlíngr um tímatal, sólargáng, mánaðatal íslenzkt, túnglgáng o. fl. (bls. 71—72, 29 línur á blaðsíðu). Á aptari blaðsíðunni er ritað á efstu spázíu „bocarbot", með hinni fornu hendi, og því hafa sumir kallað ritlíng þenna með því nafni: „Bókarbót", og geta þess margir þeir er ritað hafa um íslenzkt tímatal. — Blað það, sem þetta er ritað á, er nú einstakt, en ef vèr ímyndum oss, að í Calendarium vanti 5 blöð, og 1 blað við „Bókarbót", þá hafa að minnsta kosti 10 blöð verið rituð með þessari hendi.

Hin þriðja hönd er frá 14. öld, og eru rituð með henni þau blöðin, sem nú eru bls. 1—8 (og þar með blaðstúfrinn hinn fremsti í bókinni, því þar er sýnileg sama hönd á línustúfum þeim er eptir eru), sömuleiðis bls. 13—25; það eru alls 10½ blað. Á þessum kafla eru rituð: 1) hin alkunnu latínsku rímvers: *Cisio. Janus* o. s. frv. og fleiri rímvers á latínu, bls. 1—2. — 2) Stjörnu-Odda tal, bls. 3. — 3) Uppdrættir níu himinteikna með útskýríngum á latínu, bls. 5—7. — 4) Heimspekin (*Philosophia*) og hennar greinir, í uppdrætti einsog ættartafla, með skýríng á latínu, bls. 8. — 5) Merkjahríngr með plánetunum, bls. 13. — 6) Nokkur af himinteiknunum: *Cen-*

---

1) Þrjú hin seinustu nöfnin sýnast vera rituð með öðru bleki, ef ekki með annari hendi, en þó samtíða.

*taurus*, *Orion*, *Canis*, *Cetus*, uppdregnar myndir með skýríngum á latínu, bls. 14, og er líklegt þar vanti mikið aptanaf. — 7) Um embolismus[1] og um stjörnur o. s. frv., með þessu upphafi: „Sva segir Jon gvllmvðr i glosan yfir matheo" o. s. frv.; þar með eru fimm uppdrættir, til að sýna gáng sólar, jarðar og himintúngla, bls. 15—25.

Hin fjórða hönd, sem virðist vera hèrumbil samtíða hinni þriðju, er á bls. 26—46, það eru 10½ blað; vera kann og, að þessi kafli sè ritaðr með tveimr höndum samtíða. Þar er ritað: 1) ritgjörð um algorismus, eðr reikníng með indverskum (arabiskum) tölum, bls. 26—32. Þessi ritgjörð er hin sama og er í bók Hauks lögmanns Erlendssonar (Hauksbók, Nr. 544 í 4to í safni Árna Magnússonar), og er gefin út af Prof. P. A. Munch i Annaler for nord. Oldkyndighed 1848, bls. 353—375. — 2) Um *asses* hjá Rómverjum, og skiptíng á *as*, bls. 32—33; þar hafa fylgt myndir með í þeirri bók sem ritarinn hefir haft fyrir sèr, og er þeim sleppt. — 3) Um mynd jarðarinnar: „með þui at iarðar mynd er bollut" o. s. frv., bls. 33—39. — 4) Um vegalengdir: *stadium* o. fl., um sólargáng, o. s. frv., með töflu aptanvið, bls. 39—42. — 5) Um rím og tímatal, túnglsgáng, aldir o. fl., og er þess getið, að þetta, eða sumt af því, sè ritað „at tolv biarna p̄s (prests) ens tolvisa", bls. 43—46.

Af þessari lýsíngu handritsins má sjá, að það er leifar einar af skinnbók einni eða fleirum, sem hafa verið festar saman síðan, og það ef til vill ekki fyr en á 17. öld. Lýsíngar skinnbókar þessarar eru til á prenti í bók Jóns Eiríkssonar „Udsigt over den gamle Manuscript-Samling i det store kongelige Bibliothek. Kh. 1786. 8vo. bls. 45—46; Íslend. sögur I. B. (1843). Form. bls. XXXV—XXXVI og í Rafns Ant. Russ. I., Introd. bls. XXIV og II, 390.

Um sögu handritsins vitum vèr nú það eina, sem það ber með sèr sjálft, að innan á kápunni að framan stendr: „Bók Hakonar Ormssonar. Anno". (engin tala); þar fyrir neðan er ritað með hendi Brynjólfs biskups Sveinssonar „Calendar. membr. Islandicum", og á fyrstu heilu blaðsíðu bókarinnar neðanmáls með sömu hendi: „calendarium Islandicum ἀκέφαλον". Hákon Ormsson var ráðsmaðr í Skálholti, og mikill vinr Brynjólfs biskups, síðan varð hann landþíngisskrifari og sýslumaðr í Rángárvalla sýslu og andaðist 13. Decbr. 1656 á Bessastöðum, því hann hafði þá höfuðsmanns umboð í stað Thómasar Nikulássonar, sem var stefndr utan. Faðir hans var Ormr Vigfússon í Eyjum í Kjós, sem og var ráðsmaðr í Skálholti á öndverðum dögum Brynjólfs biskups, og varð 99 ára gamall († 1675); Vigfús Jónsson á Kalastöðum, faðir hans, var bróðurson Alexíus ábóta, sem var seinastr í Viðey. Eg skal láta ósagt, hvort handrit þetta skyldi

---

[1]) Embolismus er það kallað í fornu rími, sem túngl vantar til að fylgja mánuðum á sumum árum.

þarfyrir eiga ætt sína að rekja til Viðeyjar klaustrs, en hitt ætla eg víst, að Brynjólfr biskup hafi fengið það hjá Hákoni Ormssyni, eðr og eptir hann, og sent það til bókasafns Friðreks konúngs hinn þriðja, annaðhvort með skinnbókinni af Grágás 1656, eða nálægt þeim tíma, og hefir það síðan verið í bókasafni konúngsins.

Að því leyti er Prestanöfnunum viðvíkr sèrílagi, þá eru þau, eins og áðr var getið, rituð á bls. 9, með hönd þeirri sem eg hefi hèr heimfært til 1250. Skráin er rituð svo, að blaðsíðunni er sem skipt í tvo dálka, og er fyrri dálkrinn alsettr, en á síðara dálk eru ritaðar 6 línur einar, sem eru hèrumbil fimti partr dálksins, en hitt hefir verið autt eptir skilið, og eru þar laungu síðar (hèrumbil 1480) rituð á nöfn 7 biskupa, þeirra er verið hafa í Skálholti og á Hólum um árabilið 1440 til 1480; þar er og nafn Steinmóðar ábóta í Viðey († 1481), og styrkir það nokkuð þá getgátu, að handritið kunni að vera úr Viðeyjar klaustri, að hann einn er nefndr, en engir fleiri ábótar; enn fremr eru þar taldir 20 prestar. Þessi nafnaskrá hin ýngri mun verða tilfærð, þegar þar að kemr, og skýrt frá því er menn vita nú um nöfn þau sem þar eru á. Hin forna nafnaskráin er prentuð aptan við Íslendínga sögur I. B. (1843), bls. 384, og þar fylgir nákvæmt sýnishorn skinnbókarinnar (Nr. iij og iiij aptanvið bindið). Finnr Magnússon hefir getið til, að prestanöfn þessi hafi verið skrásett (á alþíngi) á ráðstefnu biskupanna beggja, Ketils Þorsteinssonar og Magnús Einarssonar og Vilmundar ábóta Þórólfssonar á Þíngeyrum, um það, hver af prestum mundi bezt fallinn til að verða kosinn til aðstoðar Katli biskupi, eða til biskups á Hólum eptir hann, því Ketill biskup var þá nær sjötugr að aldri. Þessi getgáta er og í marga staði sennileg, en þó er ekki allfátt sem veikir hana, því bæði er það, að þar eru taldir þeir menn sumir, sem munu hafa verið mjög til aldrs komnir, og ekki líklegir til að vera í biskups kjörum, svosem Finnr lögsögumaðr Hallsson; aðrir eru aptr mjög úngir, svosem Oddr Gizurarson, Páll Sölvason, Ormr Koðránsson og Runólfr son Ketils biskups. Þar að auki er ólíklegt, að svo væri til orðs tekið sem hèr er í niðrlagi nafnaskrár þessarar, ef hún hefði verið samin á alþíngi í því skyni, að eptir henni skyldi kjósa biskupsefni; það er og ekki heldr samkvæmt því, sem tíðkanlegt var um slíkan kosníng, því vèr finnum þá ávallt þrjá eina til nefnda, er í kjörum voru. Virðist mèr því hitt líklegra, að prestanöfn þessi sè rituð af einstökum manni, í einhverju fróðleiks skyni, annaðhvort til þess að safna ættum þeirra, eða til að skrásetja hverir þá voru helztir uppi höfðíngjar og jafnframt lærðir menn, því hèr sannast það sem sagt er frá í Kristnisögu (13. kap., Bisk. s. I, 29), að í tíð Gizurar biskups tókst sá siðr, að virðíngamenn voru flestir lærðir og vígðir til presta. Að öðru leyti er það eptirtektar vert, að hèr eru taldir tíu menn úr hverjum fjórðúngi, og er varla líklegt að svo sè orðið af hendíngu einni.

Skrá þessi lýsir því sjálf, að hún sè komin frá Ara presti hinum fróða, og þó orðatiltækið sè svo, að Ari hafi ekki ritað það sjálfr, einsog það er hèr, þá er það efalaust komið af því, að skráin er rituð eptir öðru handriti, einsog hún er hèr í bókinni. Í því handriti, sem ritað hefir verið eptir, mætti hafa verið svo orðað í niðrlaginu: „sva sagþi magnus byscop mer er sialfr var við andlat hans", og er það öldúngis samkvæmt því, sem vèr finnum opt í sögum, að þeir sem hafa síðar ritað upp sögurnar hafa vikið við slíkum orðatiltækjum. Eg ætla því efalaust, að ritarinn, sem hefir verið uppi á öndverðri 13. öld, hafi vitað, eða talið víst, að Ari væri höfundr skrár þessarar, og það er því markverðara, sem vèr finnum einnig meðal elztu ritgjörðanna í bókarbrotinu Nr. 1812 frásögn Ara um sumaraukann, svo að þarmeð vaxa líkindi fyrir því, að frá honum geti einnig verið komnar ritgjörðirnar um rímtal, og ef til vill veraldarkrínglan og áttakrínglan, sem eru á þessari sömu bók. Þá verðr það og skiljanlegt, að Ari telr ekki sjálfan sig í prestatali þessu, þó hann væri bæði prestr og hèraðshöfðíngi, nema ef því væri svo varið, að hann hefði þá látið af hendi prestskap og goðorð, og teli því son sinn en ekki sjálfan sig.

Þar sem tilgreint er, að þessir allir, sem taldir eru, sè kynbornir íslenzkir menn, þá virðist það benda til, að prestar hafi þá verið á Íslandi ekki allfáir útlendir, eða af útlendum ættum, og vèr finnum einnig önnur rök til að svo hafi verið, bæði í sögu Jóns biskups Ögmundarsonar og víðar annarstaðar.

---

þessi ero nǫfn nacvera presta cynborinna islenzcra.

Fiðr avstr lǫgsogo maðr hallz son.
Hiallti arnsteins son.
Þorarin þorvarþs son.
Pall biarna son.
Oddr gizorar son.
Teitr cara son.
Marcus marþar son.
Þorvarðr ioans son.
Biarnheþin sigvrþar son.
Helgi starcaþar son.

Ǫgmvndr svðr þorkels son.
loftr sęmvndar son.
Eyiolfr sęmvndar son.
Hallr teiz son.

Sceggi fencels son.
Svarthofþi anrbiarnar[1] son.
Asgeirr gvðmvndar son.
Scafti þorarins son.
þorðr scvla son.
Pall sælvason.

Ormr vestr[2] koðrans son.
Einarr scvla son.
Steini þorvarþs son.
þorðr þorvallz son.
þorgils ara son.
Brandr þorkels son.
Rvnolfr dalcs son.
Gvðmvndr dalcs son.
Oddi þorgils son.
Jngimvndr einars son.

Biarni norðr conals son.
Bersi hallvarðs son.
þorgeirr gvðmvndar son.
Brandr vlfheþins son.
Kløingr þorsteins son.
Ketill gvðmvndar son.
Gvðmvndr cnvts son.
Joan þorvarðs son.
Biorn gils son.
Rvnolfr ketils son byscops.

Presta nǫfn þessi voro ritoð þa er þeir lifþv aller á dögvm þeirra. ketils oc magnvs byscopa islendinga oc vilmvndar abóta at þingeyrvm. M. C. XLIII. vetrvm eptir bvrð cristz at alþyþv tali. En ketill hola byscop andaþiz. II. vetrvm siþar i scalaholltj fostodag i solar setr. þa er var octabas apostolorvm petri et pauli[3]. Sva sagþi magnvs byscop ara froþa er sialfr var við andlat hans.

---

1) ritvilla f. „Arnbjarnarson". 2) fyrir ofan línuna yfir nafninu.
3) Pètrs messa og Páls er 29. Juni; *Octava*, eða áttundi dagrinn eptir,

Á nafnaskrá þessari eru taldir alls 40 prestar íslenzkir, hinir helztu af þeim sem þá voru uppi. Að vísu veit eg, að margir eru svo kunnugir sögum vorum, og svo fróðir í sögu lands vors, að þeir kannast við allmörg af nöfnum þessum, en þó þykir mèr líklegt, að ymsir kunni þeir að vera, sem ekki eru svo kunnugir, og mun eg þeim til nokkurrar leiðbeiníngar bæta hèr við tilvísan til nokkurra helztu staða í sögum og annálum, þar sem þeirra manna er getið; hefi eg þó ekki fundið þá alla, og ekki heldr tínt til um hvern einn allt hvað eg hefi fundið, af því að þarmeð hefði orðið miklu meira mál en hèr er rúm til. En eg tel nöfnin í sömu röð og í skránni stendr, og segir þá fyrst af

Austfirðíngum: þeirra fyrstr er talinn Finnr Hallsson lögsögumaðr; hann var af gömlum landnámsættum, kominn af Ásrauði á Ketilstöðum á Völlum og Herjólfi í Breiðdölum; móðurætt hans var frá Eyvindi, fóstra Steinunnar gömlu, frændkonu Íngólfs landnámamanns. Faðir hans var systurson Kolskeggs hins fróða (Landn. IV, 3 og V, 14). Finnr bjó á Hofi (í Vopnafirði) í Austfjörðum (Sturl. 1, 14, og er þar í útgáfunni ráugt: „Halls lögsögumanns" fyrir „Finns Hallssonar"); hann var lögsögumaðr 1139—1145 og andaðist það ár (ísl. Ann.; Húngrv. kap. 16). Sonr Finns lögsögumanns hefir heitið Hallr, og búið í Austfjörðum. Hann átti Valgerði, dóttur Þorgils Oddasonar á Staðarhóli. — Hjalti Arnsteinsson hefir að líkindum verið af ætt Arnsteins goða í Leirhöfn (Landn. III, 20). — Oddr Gizurarson andaðist 1180 (ísl. Ann.; Sturl. 1, 121); dótturson hans var Jón Sigmundarson hinn síðari, faðir Orms Svínfellíngs og Brands biskups á Hólum, en launsonr Jóns var Þórarinn, faðir Þorvarðar Þórarinssonar, er var einn mestr virðíngamaðr þegar konúngsöldin hófst. Jón Sigmundarson bjó á Valþjófsstað, og þar mun einnig Oddr prestr hafa búið, en 1202 fluttist Jón að Svínafelli, og þá keypti Teitr sonr Odds Gizurarsonar Valþjófstað; hann átti Helgu, dóttur Þorvarðar Þorgeirssonar, bræðúngu Guðmundar biskups (Sturl. 2, 4; 3, 18). — Markús Marðarson mun vera sá, sem veginn var á alþíngi 1149 (ísl. Ann.). — Bjarnhèðinn Sigurðarson var í Kirkjubæ á Síðu; hann var kominn frá Hafnar-Ormi (Landn. I, 17). Bjarnhèðinn var merkr kennimaðr, og hjá honum var Þor-

var haldinn heilagr í pápiskri öld, eptir allar hinar stærstu messur, og var þessi ein af þeim. Octava eptir þenna messudag verðr 6. Juli.

lákr biskup hinn helgi nokkur ár, áðr hann varð ábóti í þykkvabæ (þorl. s. hins helga, kap. 7, Bisk. s. I, 95—96, 268—270); hann mun vera sá er setti kristbú á Keldugnúpi, það er enn stendr, og andaðist 1173 (ísl. Ann.). — Helgi Starkaðarson hefir án efa verið Freysgyðlíngr, af ætt Brennu-Flosa.

Um Sunnlendínga þá er hèr eru taldir vitum vèr, að Loptr Sæmundarson var sonr Sæmundar prests hins fróða í Odda, og átti þóru, dóttur Magnús konúngs berfætta; þeirra son var Jón Loptsson, er mestr höfðíngi var á Íslandi á sinni tíð, og er þaðan kominn mikill ættbálkr, sem rekja má til vorra tíma. — Eyjólfr Sæmundarson var bróðir Lopts; hann bjó lengi í Odda, og var hinn mesti klerkr. Hjá honum lærði þorlákr biskup hinn helgi og margir fleiri (þorl. s. kap. 3, Bisk. s. I, 90—91, 265). Hann andaðist 1158 (Ísl. Ann.). — Hallr Teitsson, Ísleifs sonar biskups, bjó í Haukadal í Biskupstúngum; hans er getið með höfðíngjum þegar Gizur biskup andaðist, föðurbróðir hans (1118); hans er og getið við þíngdeildir Hafliða Márssonar og þorgils Oddasonar (1121), og fylgði hann stórmannlega Hafliða mági sínum. Hann var kosinn til biskups að Skálholti eptir Magnús Einarsson (1149), og fór hann utan til vígslu, og andaðist í Trekt *(Utrecht)* ári síðar (1150) á útferð sinni til Íslands. Hallr var svo vel menntr maðr í túngumálum, að „hann mælti allstaðar þeirra máli, sem hann væri allstaðar þar barnfæddr, sem þá kom hann" (Húngrv. kap. 16, Bisk. s. I, 80; sbr. ísl. Ann.). — Skapti þórarinsson var á Mosfelli í Mosfellssveit. Móðir hans hèt Æsa, dóttir Fiska-Finns, og er það einn af kynþáttum Sturlúnga (Ísl. s. I, 353). Hans er getið á alþíngi 1121, þegar þeir sættust Hafliði og þorgils, og þegar Hafliði kvað upp gjöld á hendr þorgilsi, áttatíu hundraða, eru þau orð höfð eptir Skapta: „dýr mundi Hafliði allr, ef svo skyldi hver limr" (Sturl. 1, 27). Skapti var á Mosfelli þegar grafin voru upp bein Egils Skallagrímssonar, og reyndi hann hausskel Egils og þótti hörð vera (Egils s. kap. LXXXIX). — þórðr Skúlason, af ætt Mýramanna að lángfeðgatali, mun hafa verið í Görðum á Akranesi. Faðir hans ætla eg hafi verið Skúli Egilsson, sem talinn er með höfðíngjum í Vestfirðínga fjórðúngi 1118, þegar Gizur biskup andaðist (Ísl. s. I, 329; Kristnis. kap. 14). þórðr átti Valgerði, dóttur Markús lögsögumanns, Skeggjasonar; þeirra son Böðvar, faðir Guðnýjar, er Hvamms-Sturla átti. — Páll Sölvason bjó í Reykjaholti, mikill klerkr

og auðmaðr mikill, og er hans víða getið; hann átti Reykhyltínga goðorð (Sturl. 2, 37). Hann var kominn frá Grími hinum háleyska (Landn. I, 21), og hafa þeir allir lángfeðgar búið í Borgarfirði, og flestir í Reykjadal. Páll prestr var einn af þremr í biskupskjörum 1174, þegar Þorlákr hinn helgi varð kosinn (Þorl. s. kap. 9, Bisk. s. I, 98; kap. 10, Bisk. s. I, 272). Þar eptir átti hann í Deildartúngu málum við Sturlu í Hvammi (1178), og þá stakk Þorbjörg Bjarnadóttir húsfreyja hans Sturlu með knífi, og ætlaði að reka úr honum augað, því hún var „grimmúðig í skapi" (Sturl. 2, 34—38), en Jón Loptsson setti þau mál niðr. Þorbjörg andaðist 1181, en Páll prestr 1185 (ísl. Ann.). —

Um Vestfirðínga þá sem hèr eru taldir er það að segja, að Ormr Koðránsson hefir verið Gilsbekkíngr, sonr Koðráns Ormssonar, Hermundarsonar, Illuga sonar hins svarta; hann mun efalaust hafa búið á lángfeðga eign sinni Gilsbakka eptir frænda sinn Styrmi Hreinsson, Hermundarsonar. Gilsbekkínga kyn er, einsog kunnugt er, komið frá Hrómundi, bróður Gríms hins háleyska (Landn. II, 2). Af þeirri ætt var Gunnlaugr ormstúnga, sem barðist við Skáld-Rafn um Helgu hina fögru; hann hefir verið lángafa bróðir þessa Orms prests. Ormr prestr Koðránsson andaðist 1179 (ísl. Ann.). Bróðir hans var Hermundr í Kalmanstúngu, sem kemr og við sögur († 1197, ísl. Ann.; — Grönl. hist. Mindesm. II, 674—675; sbr. Ættartölu Gilsbekkínga eptir Sveinb. Egilsson, við Scr. hist. Island. X, Tab. III.) — Einarr Skúlason er efalaust skáldið, bróðir Þórðar prests Skúlasonar, sem talinn er hèr áðr í Sunnlendínga fjórðúngi. Hann er eptir aldri fæddr hèrumbil 1095. Á tvítugs aldri hefir hann farið til Noregs, var hann með Sigurði konúngi Jórsalafara, og síðan með Haraldi gilla, og orti kvæði um þá. Þá hefir hann farið út til Íslands og verið þar að minnsta kosti 10 ár (1135—1145), en þó ekki á Breiðabólstað í Vestrhópi, heldr í Vestfirðínga fjórðúngi, og án efa á Borg á Mýrum. Síðan fór hann til Noregs aptr, og komst í mikla kærleika við Eystein konúng Haraldsson og varð stallari hans. Fyrir tilstilli konúngs orkti hann Váttardrápu eða Geisla, um Ólaf konúng helga, og flutti það kvæði í Kristskirkju í Niðarósi um sumarið 1152, voru þar viðstaddir konúngarnir þrír, Nikolaus kardínáli, Jón Birgisson, sem þá var vígðr fyrsti erkibiskup til Niðaróss, og fjöldi annars stórmennis. Einarr prestr orti tvö kvæði um Eystein konúng. Hann orti einnig kvæði um Sörkvi Karlsson (Kolsson)

Svíakonúng og Jón jarl son hans; mun hann því hafa verið í Svíþjóð um það sama skeið sem hann orti Geisla. Þá fór hann og til Danmerkr, og orti kvæði um Svein konúng Svíðanda, en fèkk engin laun fyrir, og kvað því illa vísu um konúng og Rípa-Úlf, fèhirði hans, þá er enn er til. Þá mun hann hafa farið aptr til Noregs og verið þar um hríð, þartil Eysteinn konúngr dó (1157), eða jafnvel til 1160, því á þeim árum hefir hann ort Elfarvísur um Gregorius Dagsson og kvæði um Eindriða únga (Skáldatal). Frá þeim tíma er hans ekki getið, og mun hann þá hafa farið út til Íslands, og þar hafa kvæði hans verið í höndum þeirra frænda hans í Borgarfirði, því Snorri og Ólafr hvítaskáld hafa haft þau öll og margar sögur aðrar frá honum. Skúli Thorlacius rektor hefir ritað æfisögu Einars prests, og er hún á dönsku og latínu prentuð í stóru útgáfunni af Snorra III, 481—494; sbr. Gunnlaugs s. Ormst. Hafn. 1775. 4to, bls. 15—17; Rafn. Antiqu. Russes. I, 477—480. — Steini Þorvarðsson er sá hinn sami sem hefir sett Stafaholts kirkju máldaga (Nr. 28 hèr á undan), og hefir hann búið í Stafaholti. — Þórðr Þorvaldsson í Vatnsfirði er talinn með höfðíngjum 1118 (Landn. í Viðbæti Skarðsárbókar, Ísl. s. I, 329; Kristni s. kap. 14, Bisk. s. I, 31). Ætt hans er talin í Sturlúnga s. 2, 6, og var hann bæði ættstór og frændmargr. Hans er getið við veizluna á Reykjahólum 1119, og er hann þá talinn á efra aldri og sköllóttr, en hraustr maðr og þó ekki vel heill (Sturl. 1, 13). Bróðir hans Hermundr Þorvaldsson var einn í Jórsalaferð með Sigurði Noregskonúngi Jórsalafara (1107—1111; Sturl. 1, 10). Þórðr átti Sigríði, dóttur Hafliða Márssonar á Breiðabólstað í Vestrhópi, og Rannveigar Teitsdóttur, Ísleifssonar biskups. Frá Þórði eru komnir Vatnsfirðíngar, er það merkileg ætt, harðsnúnir menn og grimmir, en þrekmiklir í skapi. Synir hans voru Páll og Snorri. Páll var allra manna vænstr og gerviligastr, hann nam burt (1174) Hallgerði Runólfsdóttur frá Helgafelli, konu Ólafs prests Sölvasonar, bróður Páls prests í Reykjaholti, sem áðr var nefndr, og það þó ekki henni nauðugt, en hún er talin „kvenna vænst og merkilegust, og mestr skörúngr að öllu" (Sturl. 2, 33). Jón Loptsson í Odda skipaði því máli, og hefir hann ætlað að koma á skilnaði Hallgerðar við Ólaf prest, svo hún næði saman við Pál, en þá drukknaði Páll og varð ekki af þeim ráðahag. Snorri var „lítill maðr og vænn, forvitri, skörúngr mikill". Hans son var Þorvaldr, sem lèt drepa Rafn á Eyri í Arnarfirði

(Rafnseyri); hann átti þórdísi dóttur Snorra Sturlusonar, og er sá einn ættliðr sem nú verðr rakinn frá Snorra til vorra tíma. — þorgils Arason er án efa sonr Ara prests hins fróða þorgilssonar. Hann mun hafa búið á Stað á Ölduhrygg og haft Jöklamanna goðorð. Dóttir hans var Hallfríðr, sem átti Magnús prest Pálsson Sölvasonar frá Reykjaholti. þau bjuggu á Helgafelli 1181 og þar um bil (Sturl. 2, 38). Síðan fóru þau í Reykjaholt, og eptir þau tók Snorri Sturluson við þeim stað (um 1207). þorgils prestr Arason andaðist 1170 (ísl. Ann.). — Brandr þorkelsson ætla eg hafi verið í Dölum, líklega frændi Guðmundar prests Brandssonar í Hjarðarholti í Laxárdal, sem var merkr maðr og í biskupskjörum með Klængi, hversu sem á því stendr að sá Guðmundr prestr er ekki talinn hèr († 1151). Brandr faðir Guðmundar var Gíslason (Landn. II, 27). — Runólfr Dálksson var bróðurson Ketils þorsteinssonar, sem var biskup á Hólum, og var Runólfr því Möðruvellíngr að ætt (Runólfr — Dálkr — þorsteinn — Eyjólfr halti — Guðmundr ríki), en hann hlýtr að hafa verið lengstum fyrir vestan, líklega á Helgafelli, þareð hann er talinn þar í þessari skrá 1143. Dóttir hans var Hallgerðr, sem Páll í Vatnsfirði nam frá Helgafelli, svo sem áðr var getið. Runólfr prestr var á lífi 1174, þegar dóttir hans var numin, og hefir hann þá verið aldraðr maðr, því hann var þá „á vist" með dótturmanni sínum Ólafi presti Sölvasyni að Helgafelli, og er hann nefndr þá „göfugr kennimaðr". — Guðmundr Dálksson hefir að öllum líkindum verið bróðir Runólfs prests, en ekki vitum vèr um hann meira. — Oddi þorgilsson var sonr þorgils Oddasonar að Staðarhóli í Saurbæ, hann var í æsku að fóstri í Odda, hjá Sæmundi presti hinum fróða, og „varð hann því fróðr" (Sturl. 2, 8 og er þar rakin ættin, sbr. Landn. II, 20 og 22 eptir Melabók). Hann bjó fyrst á Skarði, en 1150 gaf þorgils upp goðorð sitt og búið á Staðarhóli í hendr þeim bræðrum Odda presti og Einari, og rèðst sjálfr norðr að þíngeyrum, líklega í klaustr. Um vetrinn eptir (1150—51) var sótt mikil, þá andaðist Oddi prestr og „þótti það mikill mannskaði, því hann var vitr maðr og manna snjallastr í máli" (Sturl. 2, 13). Hann lèt engin börn eptir sig. það sama vor (1151) andaðist faðir hans þorgils Oddason (Sturl. sst., sbr. Ísl. Ann.). — Íngimundr Einarsson var af Reyknesínga ætt hinni fornu, son Einars Arasonar, þorgilssonar, Arasonar, Márssonar. Hann var fræðimaðr mikill og skáld gott, og að mörgu

hinn mesti mætismaðr, ör af fè og hið mesta stórmenni í skapi, og er það talin kynfylgja Reyknesínga (Sturl. 1, 6. 13). Hann er talinn með virðíngamönnum þeim, sem voru vígðir til presta á dögum Gizurar biskups, en hann gaf Þorgils Oddasyni frænda sínum Reyknesínga goðorð (Sturl. 1, 6. 13). 1119 um sumarið hèlt hann veizlu þá á Reykjahólum, sem sagt er frá í Sturlúngu (1, 13), og var vanr að hafa hvert sumar Ólafsgildi um Ólafsmessu skeið (29. Juli), stóð veizla sú í viku, og voru þar framdir margskonar leikir, bæði danzleikr, glímur og sagnaskemtan og flutt kvæði; hann hafði og kornyrkju á Reykjahólum og voru þar aldrei ófrjófir akrar (Sturl. 1, 13). 1120 var hann á alþíngi, þegar frændi hans Þorgils Oddason særði Hafliða Másson, og var hann annar þeirra sem sendr var til að kynna um áverkana (Sturl. 1, 18); árið eptir var hann og í flokki Þorgils, og orti vísu í þíngreið (Sturl. 1, 20). Hann andaðist sama ár og Þorgeirr Hallason (Guðmundar biskups s. kap. 7, Bisk. s. I, 418) og verðr það 1170 eptir Guðmundar sögu, en 1169 eptir Annálum.

Af Norðlendíngum er Þorgeirr Guðmundarson án efa sonr Guðmundar Þorgeirssonar, sem var lögsögumaðr 1123—1135. — Brandr Úlfhèðinsson af Víðimýri í Skagafirði, líklega sonr Úlfhèðins lögsögumanns, er dó 1116, en bróðir Rafns lögsögumanns, er dó 1139; hans er getið 1150, og var hann viðriðinn hin fyrstu mál sem Sturla í Hvammi átti í; hann andaðist 1158 (ísl. Ann.). — Klængr Þorsteinsson er sá sami, sem síðan varð biskup í Skálholti. Ætt hans er talin í biskupa ættum (Ísl. s. I. [1843], 361) og saga um hann er í Húngrvöku kap. 16—20 (Bisk. s. I, 80—86). Hann var lærisveinn Jóns biskups hins helga (Jóns bisk. saga kap. 13. 14, Bisk. s. I, 165. 168) og varð biskup í Skálholti eptir að Hallr Teitsson biskupsefni var dauðr (1152), en hann andaðist 1176. Klængr biskup var lögvitr maðr, og var tekinn til gjörðar í kappsmálum höfðíngja (Sturl. 2, 24); hann var og skáld gott. Jóra dóttir hans var gipt Þorvaldi Gizurarsyni í Hruna (Sturl. 3, 6). — Ketill Guðmundarson er talinn einn af þeim virðíngamönnum nyrðra, sem lètu vígjast til presta á dögum Gizurar biskups (Kristnis. kap. 13; Bisk. s. I, 29). Hann andaðist 1158. — Jón Þorvarðarson er og einn af þeim sem vígðr var á dögum Gizurar biskups, en hann andaðist 1150. — Björn Gilsson er annarhvorr bræðranna: sá sem varð biskup að Hólum eptir Ketil Þorsteinsson 1147 († 20. Oktbr. 1162), eða sá

sem varð ábóti að Múnkaþverá 1162 og andaðist 1181 (ísl. Ann.); þó er líklegra, að sá sè talinn hèr sem biskup varð; hann var einn af lærisveinum Jóns biskups helga (Jóns s. kap. 14; Bisk. s. I, 168). — Runólfr Ketilsson biskups var merkr maðr og skáld, er til enn vísa, er hann orti um kirkjusmíð Klængs biskups í Skálaholti (Húngrv. kap. 17; Bisk. s. I, 82). Að hans fyrirsögn mætti vera að kvæðið Leiðarvísan væri ort, og er hann þar kallaðr göfigr prestr og mjög fróðr (örfróðr?). Hann átti Valgerði þorbrandsdóttur frá Ölfusvatni (Landn. II, 8) og andaðist 1186 (ísl. Ann.).

Ketill biskup þorsteinsson á Hólum er fæddr 1074; hann var af ætt Möðruvellínga, sonarsonr Eyjólfs halta, Guðmundar sonar hins ríka. 1121 var hann á alþíngi og sagði hann þá Hafliða Márssyni sögu þá úr æfi sinni, sem mest vann Hafliða til að sættast við þorgils Oddason, og fyrir það varð Ketill kosinn biskup að Hólum eptir Jón hinn helga Ögmundarson (Sturl. 1, 25—26). Hann var með þorláki biskupi Runólfssyni at setja Kristinrètt hinn forna (1123), og honum sýndi Ari prestr hinn fróði Íslendíngabók sína, áðr hann lyki við hana. Hann var biskup 23 ár (1122—1145). 1145 fór hann til alþíngis um sumarið, og var hann þá vel sjötugr. þá var hann boðinn heim í Skálaholt til kirkjudagsveizlu, og varð hann bráðkvaddr við laug í Laugarási föstudags kvöldið 6. Juli (Húngrv. kap. 14; Bisk. s. I, 78). Hann átti Gróu, dóttur Gizurar biskups; hún lifði eptir hann og fór í Skálaholt og var þar nunna, og andaðist á dögum Klængs biskups (Húngrv. kap. 9).

Magnús biskup Einarsson í Skálholti er fæddr 1098; hann var sonarson Magnús þorsteinssonar, Síðu-Hallssonar. Magnús afi hans bar fyrstr það nafn á Íslandi, því Magnús konúngr góði gaf þorsteini Síðu-Hallssyni nafn sitt á banadægri. Ætt Magnús biskups er rakin í Biskupaættum (Ísl. s. I, 360). Magnús var kosinn til biskups eptir þorlák Runólfsson 1133, og fór utan það sumar; þá var konúngr í Noregi Haraldr gilli, og er sagt frá gjöfum hans og drottníngar við Magnús biskup (Fornm. s. VII, 197—198). Um biskupsdóm Magnús biskups er sagt í Húngrvöku kap. 13—16 (Bisk. s. I, 75—79) og frá hinum hryggilega viðburð, þegar hann brann inni í Hitardal 30. Septbr. 1148 og með honum 8 prestar og 64 menn aðrir. þá hafði hann verið biskup fjórtán vetr, og var fimtugr að aldri.

Vilmundr þórólfsson ábóti á þíngeyrum var upp fæddr undir hendi Jóns biskups hins helga, Ögmundarsonar (Jóns saga,

kap. 14; Bisk. s. I, 168). Kirkja og bær að þíngeyrum var stofnað í uppbafi á öndverðum dögum Jóns biskups með áheiti vegna hallæris (Jóns s. kap. 17); má vera að það hallæri hafi verið afleiðíngar eptir Heklugosið 1104. Þar eptir bygði Þorkell prestr trandill fyrstr bæ á Þíngeyrum, og hygg eg að það sè sá hinn sami, sem kallaðr er í sögu Jóns biskups fóstbróðir hans, og andaðist síðan í Skálaholti (Jóns s. kap. 18; Bisk. s. I, 172); mun Þorkell prestr hafa verið settr af biskupi, sem trúnaðarmaðr hans, til að sjá um byggíng á stað og kirkju að Þíngeyrum[1]. Biskup lagði til þessarar byggíngar allar biskupstíundir milli Vatnsdalsár og Hrútafjarðarár, og varð ágreiníngr mikill síðar um þær tíundir; það mælti hann og fyrir, að í klaustri því, er reisa átti á Þíngeyrum, skyldi vera Benedikts regla. Klaustrið komst þó ekki á meðan Jón biskup lifði, og mun það hafa verið af því, að fè hefir safnazt seint til kostnaðarins, en 1133 var vígðr Vilmundr ábóti, og var hann fyrir klaustri á Þíngeyrum til dauðadags (1148). Um hans tíma og þar eptir hefir klaustrinu safnazt óðum fè, og varð það síðan eitt hið helzta klaustr á landinu.

---

## 30. [um 1150].

MÁLDAGI fyrir kristbúi á Dalbæ í Landbroti, með landi í Hraungerði, og fjörum og öðrum ískyldum, [er setti Guðini hinn góði].

Á Kirkjubæ á Síðu hefir frá alda öðli verið mikill helgistaðr kristinna manna í fornöld. Þegar Norðmanna ættir komu til Íslands settist Ketill hinn fíflski að í Kirkjubæ; hann kom vestan um haf, og var sonr Jórunnar mannvitsbrekku, dóttur Ketils flatnefs. Ketill hinn fíflski var kristinn, og áðr hann tók landið í Kirkjubæ höfðu þar verið kristnir menn vestan um haf, sem Norðmenn kölluðu Papa, og sú trú var lengi, að enginn heiðinn maðr mætti búa í Kirkjubæ (Landn. IV, 11). Þar hefir og enginn heiðinn maðr búið, því þegar Þángbrandr fór um land að boða kristni (997), þá bjó þar Surtr Þorsteinsson, Ásbjarnarsonar, Ketils sonar hins fíflska, og var hann skírðr og allir þeir

---

1) Í kirkjusögu Finns biskups (Hist. Eccl. IV, 30) er Þorkell trandill nefndr bóndi *(colonus)*, en í brèfi Þóris ábóta og Gríms ábóta í Niðarhólmi 1320 (Hist. Eccl. II, 183—184) er hann nefndr prestr, og sagt að hann hafi fyrstr byggt stað á Þíngeyrum.

lángfeðgar (Kristnis. kap. 7; Bisk. s. I, 12). Sonr Surts var Sighvatr lögsögumaðr (1076—1084). Af þeirri ætt hygg eg hafi verið Guðini hinn góði, sem sagt er að hafi spáð fyrir Jóni helga Ögmundarsyni, þegar hann var barn, um 1060 (Jóns s. kap. I; Bisk. s. I, 152; sbr. Jóns s. eptir Gunnlaug múnk Leifsson, kap. 3; Bisk. s. I, 217). Viðrnefni Guðina, að hann er kallaðr „hinn góði", og í Jóns sögu eptir Gunnlaug múnk „heilagr maðr", vottar það, að hann muni hafa lagt fè sitt til guðs þakka, og því ætla eg honum rèttilega eignaða tvo máldaga, sem eru enn til á skrám, fyrir kristbúi í Dalbæ í Landbroti, ásamt landi í Hraungerði, og fyrir öðru kristbúi á Uppsölum; munu þessi vera þau þrjú lönd, sem í öðru brèfinu segir að „Guðini setti". Gjöf þessi hlýtr að vera stofnuð um 1070 eða jafnvel fyrri, en skrárnar virðast vera seinna ritaðar, en því hefi eg sett þær um 1150, að um það bil munu vera gjörðar hinar tvær skrárnar um kristbú á Keldugnúpi og á Breiðabólstað, og það virðist einnig auðsætt á máldögum um gjöf Guðina, að þeir sè ekki ritaðir þegar gefið var, heldur síðar.

Skrá sú, sem máldagi þessi er tekinn eptir, er á skinni, og er í safni Árna Magnússonar af íslenzkum brèfum Fasc. LXXII, Nr. 1. Þessi skrá er 13 þumlúnga á lengd og rúmir 5 á breidd, og er rituð nálægt 1500. Á fremri blaðsíðunni eru ritaðir fjórir kristbúa máldagar, þeir er hèr fylgja (Nr. 30—33), í sömu röð og hèr, og neðst á blaðsíðunni fjörumáldaginn (Nr. 34); en á aptari blaðsíðunni er ritað gjafabrèf síra Guðmundar Árnasonar til Kirkjubæjar klausturs 1528 fyrir nokkrum ítökum, og er það samtíða frumrit. Þar fyrir neðan eru aðrar litlar skrár um nokkrar eignir og ítök Kirkjubæjar klausturs frá 16du öld, en allt þetta fyllir varla nema hálfa blaðsíðuna, og er hitt autt eptir skilið, er þó ekki neðri hlutinn auðr, heldr miðbikið og nokkuð þar niðr frá.

Í afskriptasafni Árna Magnússonar af íslenzkum brèfum eru einnig til nokkrar afskriptir af skinnblaði þessu, og eru þær hafðar hèr til samanburðar. Er það fyrst uppkast til afskriptar, með leiðrèttíngum Árna sjálfs; þar með fylgir önnur afskript hreinskrifuð. Í báðum þessum afskriptum er allt það sem á blaðinu stendr. Þriðja er afskript eptir annari frá 22. Aug. 1652, sem Ísleifr Einarsson, sýslumaðr í Skaptafells sýslu (1684—1719), hefir lèð Árna 1711, en hann skilað aptr 1712 um haustið. Þar er þessi fyrirsögn: „Um kristbús jarder utcoperad og handskriptad epter kirkiubæiar brefum"; en þetta stendr fyrir framan sjálfa afskriptina: „Christbus jarder j Skaptafellz syslu, epter þvi sem finnst i gömlum maldaga brefum utskrifudum, eirnen epter gamallra manna lysingu, medkenning þeirra sem frá eru, och vitnisburdum þeirra er enn nu lifa, hvad þeir her um heyrt hafa sina forfedur halda og segia. Jn primis epter kirkiubæjar klausturs máldaga brefum". Þar eptir fylgja kristbúa máldagarnir fjórir, í sömu röð og á skinnblaðinu, og tölurnar 1. 2. 3. 4 við hvern í röð; en seinast er fjöruskráin, með litilli aðgreiníng, og engin

tala við. Ekkert af því, sem er á aptari blaðsíðu skinnblaðsins, er hèr ritað, en þar sem fjöruskráin hættir er þessi staðfestíng: „Medkiennunst vier underskrifader menn ad þetta hier fyrer framanskrifad, svo miked sem Kristzbus jardernar og fjorurnar áhrærer er ordriett allt utcopierad epter þeim handskriftudum Kirkiubæjar briefum, er klausturhalldarenn Niculas Thormodzson framlagde Profastenum S. Magnuse Pieturssyne, og þeir nu samanlásu i Kirkiubæiar kirkiu Anno 1652. 22. Augusti oss aheyrande og adsiaande, Suo þar ber ecke á mille, huor handskriftud bref voru extract og rietteleg útskrift af þeim gömlu Kirkiubæjar brefum sem þar adur voru.

Botolfur Heinrs[1] son med e. h.
Havardur Loptson meh.
Gisle Einarson meh."

Þar fyrir aptan fylgir staðfestíng Árna, og tveggja skrifara hans, Þórðar Þórðarsonar og Páls Hákonarsonar, á afskript hans eptir þessu skjali, dagsett „j Skálhollte þann 31. Augusti Anno Christi 1712". Afskriptin frá 1652 hefir til skamms tíma verið til, og mun vera geymd enn á Kirkjubæ. — Fjórða er afskript „epter documente á pappir tilheyrandi Kirkiubæjar klaustre. Er i folio á einu arke" (segir A. M. sjálfr framan við afskriptina). Þar er fyrirsögn: „Maldaga bref Kirkiubæar klausturs", en brèfin sem þar eru rituð á eru þessi: 1) afsalsbrèf fyrir Eystri-Ásum til Þykkvabæjar klaustrs fyrir skóg. 1490; 2) gjafabrèf fyrir Raufarbergi til Kirkjubæjar klaustrs. 1471; 3) gjafabrèf fyrir viðarítaki í Skálar jörðu til Kirkjubæjar klaustrs. 1473; 4—7) kristbúa máldagar fjórir, í sömu röð og á skinnblaðinu; — 8) fjöruskráin (Nr. 34 hèr); 9—11) brèf Guðmundar prests Árnasonar, og tvær aðrar af þeim skrám er standa á aptari blaðsíðu skinnblaðsins, en tvær vantar, og hafa þær þá líklega ekki orðið lesnar. Þar eptir fylgir staðfestíng Árna Henrikssonar og þar fyrir neðan önnur, eptir Hávarð Loptsson og Jón Runólfsson. Þessi afskript hefir einnig verið frá 1652 eða þar um bil, sem nafn Hávarðar sýnir; en staðfestíng afskriptar þeirrar, sem er í safni Árna, er rituð með hendi Þórðar Þórðarsonar, skrifara hans, og sönnuð með honum af Hákoni Hannessyni og Hafliða Bergsveinssyni „j Skalhollti þann 7. Septembris Ao. 1708". Afskriptin er gegnumdregin, og innsigli þessara þriggja sett á þráðarendann; en ekki veit eg hvort það brèf er nú til sem afskript þessi er rituð eptir.

Það hafa sumir haldið, að Dalbær sá, sem hèr er nefndr, og kristbúið var á, sè Dalbær hinn ytri, sem nú er kallaðr, og er vestasti bær í Landbroti; en eg ætla það muni á getgátu einni byggt, og þykir mèr hitt vafalaust, að kristfjárjörðin hafi verið Dalbær hinn eystri; rök til þess þykir mèr vera, að sú jörðin hefir verið stærri en vestari Dalbær, og er það eðlilegt

1) *þannig;* = Heinreks?

þegar Hraungerðis land væri þar með, sem líklegt er, því þess er hvergi getið sèrílagi, og ætla eg það komi þar af, að þegar Guðini gaf löndin, þá hafi Dalbær og Hraungerði verið tvær jarðir, en síðan hafi bú í Hraungerði verið lagt niðr og landið lagt til Dalbæjar áðr en skráin hefir verið samin. Önnur rök hèr til eru þau, að Uppsölum hefir opt verið slegið saman við þenna Dalbæinn í jarðabókum, og taldar báðar sem ein jörð; mun það ekki einúngis koma af því, að þær eru nábýlisjarðir, heldr af hinu, að þær hafa frá fornöld átt skylt hvor við aðra, og verið báðar kristfjárjarðir. Hið þriðja atriði, sem styrkir hið sama, er það, að Dalbæ hinum eystra er talinn reki í jarðabókunum, og er það samkvæmt því sem hèr er sett í máldaganum, en Ytra-Dalbæ er enginn reki talinn.

Nú skal telja um Dalbæ það sem merkilegast er um samband þessarar jarðar við Kirkjubæjar klaustr, og verðr þar með að telja Uppsali, af því þessum tveim jörðum er stundum steypt saman, en Hraungerðis er hvergi getið sèrílagi, og mundi það nú vera mest að marka, ef nafn það fyndist sem örnefni í Dalbæjar landi.

Um 1150: Eptir kristbúaskrám þessum á að greiða á hverju ári í Kirkjubæ:
af Dalbæ (og Hraungerði) mörk vaðmála;
af Uppsölum hálfa mörk vaðmála.

Um 1216: Í máldaga Kirkjubæjar klaustrs frá þeim tíma er gjald af Dalbæ ekki nefnt;
af Uppsölum er talin hálf mörk.

Um 1340: í máldaga Jóns biskups Eindriðasonar er talin ískylda:
af Dalbæ (eystra) hálf mörk vöru og tveggja vetrúnga fóðr,
af Uppsölum hálf mörk vöru,
og af Dalbæ öðrum fimm aurar.

1397 telr Wilchins máldagi öldúngis sama gjald af Dalbæ (eystra) og Uppsölum.

1551—1579, í fornri jarðabók yfir hin svonefndu konúngsgóz á Íslandi, eru taldar meðal Kirkjubæjar klaustrs jarða:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| „Vpsaller. | Leiiequiilde | .iiij. | Lanndgiildenn | jc |
| Dalbey | — | .iiij. | — | jc xx alner. |
| Minne Dalbey | — | .iij. | — | jc." |

Það er því auðsætt, að þegar klaustrin voru tekin við siðaskiptin, þá hafa þessar jarðir verið taldar fortakslaust sem klaustrjarðir, þó hinir fornu máldagar teli þaðan að eins ískyldu til klaustrsins.

Jarðabækrnar telja ýmist Uppsali en ýmist Dalbæ eystri, ýmist hvorttveggja, þannig:

1639. Uppsalir, lsk. 1 hdr. kúg. 4, en þar er Dalbær ekki talinn.
1697. Dalbær syðri (eystri) 12 hdr. landsk. 1 hdr. kúg. ekkert.
Uppsalir . . . . . 12 hdr. — 1 — — 4.
1760. Uppsalir . . . . . 12 hdr. ldsk. 1 hdr. kúg. 3 (ekki Dalbær).
1769. Uppsalir. landsk. 1 hdr. leigur 40 áln.
Dalbær óbyggjandi eyðijörð undir Uppsali.

1806. Dalbær talin aðaljörðin, en Uppsalir sem eyðijörð þar undir.
1842. Dalbær eystri . 6 hdr.[1] leigumáli ótilgreindr.
Uppsalir . . . 12 hdr. landsk. 1 hdr. kúg. 3.
1855. [2]Dalbær eystri . 12 hdr. landsk. 50 al. kúg. 1½.
Uppsalir . . . . 12 — — 30 - — 1.

Frá 1639 niðreptir er Dalbær ytri talinn þykkvabæjar klaustrs jörð, og 6 hdr. að dýrleika, eptir jarðabókum. þetta mun og vera sá Dalbær, sem er talinn með þykkvabæjar klaustrs jörðum í máldaga klaustrsins eptir Ögmund biskup 1523, en í jarðabókinni 1551—1579 er hann talinn með jörðum Kirkjubæjar klaustrs, sem áðr er sagt; þar af sýnist ráða mega, að stundum hafi verið teknar jarðir frá einu klaustrumboði og lagðar til annars, eptir að klaustrin voru komin undir konúngsvaldið.

Árni Magnússon hefir ritað þetta á brèf, sem lagt er utanum skinnblaðið: „þetta innlagt er mitt, hefi eg það feingeð i Kaupenhafn fra Íslandi (kannske frá Mag. Birne[3]) og heyrer með riettu kirkiubæjar klaustre til sem eg nu sie. þordr þorleifsson þecker þar eckert til, og hefur það alldri fyrri sieð." Á öðru blaði hefir Árni ritað: „þetta er accuratissimè afskrifað, og confererað cum vidisse[4]".

Máldagi þessi um kristbúið í Dalbæ er ritaðr allra fyrstr á blaðinu, sèm áðr var getið, og er 11 línur á fremri blaðsíðunni.

---

Críst bu þat er stendur j dalbæ j landbrotí[5] er gefit gudi ok helgum nicholao biskupi land allt: ok þat land med er hraungerdí heítir med ollum gædum melteigar .ij. fyrer nedan steins myrar fliot: fiara ligur su hia glena osi [tiu tiger ok þriu hundrut[6] er þangat ligur þridungur. fim hrossa klyfiar uidar j skalar land annat huert sumar. Mæler korns: þar fylgia

1) eptir sýslumanni, Johnsens Jarðatal, bls. 8.

2) Skýrsl. um landshagi, I, 195.

3) þ. e. Birni þorleifssyni, biskupi á Hólum.

4) þ. e. með afskriptinni frá 1652.

5) það sem hèr er kallað Landbrot heitir Nýkomi í Landnámabók, IV, 11.

6) *frá [ samkvæmt Uppsala máldaga (Nr. 31)* og *fjöruskránni (Nr. 34) þar sem hún talar um kristbúa fjörur, en allar afskriptirnar lesa hèr:* þrir tiger og fijm hundrut. *Mèr virðist þó auðsætt, þegar vel er að gáð, að* þ^ír (þrír) og fijm *á skinnblaðinu sè gjört úr öðrum* orðum, og *hefir á fyrra staðnum verið skafið út, en á síðara staðnum lítr út sem gjört sè* fijm *úr* þriu. *þessi breyting kann að hafa verið gjörð eptir fjöruskránni, þar sem hún nefnir Dalbæinga fjöru, en hèr á auðsýnilega að skiljast sú fjara, sem þar er kölluð Kristbúa fjara.*

kyr sex ok xl aa. þar skolu fylgia tueigia Manna rekiur ok eigi uere en. x. aurar uadmala. su er afuinna af fiam þessum at kaupa tider mork uadmala j kirkiu bæ huer missere ok hafa omaga .ij. karlgilldan ok kuenngilldan ok reida þeim Mork frida til klæda huer missere ok fa þeim alla reidu uel. þar er ekki. gesta eldi skyllt[1]. hreppstiorar skolu skipa lannd þat huer misseri ok suo rada huer[er] omagar skolu uera. Sa skal abyrgiaz bæ þan att ollu er byr aa. en̄ gud launi honum abætur ef eru.

---

## 31. [um 1150].

Máldagi sem Guðini [hinn góði] hefir sett um kristbú á Uppsölum í Landbroti.

þessi máldagi er eptir hinu sama skinnblaði sem máldaginn um kristbúið í Dalbæ hèr næst á undan (Nr. 30), og er hann þar ritaðr næst á eptir á fremri blaðsíðu skinnblaðsins, með einnar línu millibili undan og eptir; hann er tæpar 11 línur. Í tveimr neðstu línunum eru nú komin göt á blaðið, og er það fyllt eptir afskriptunum. Frá skinnblaðinu sjálfu og afskriptum þess, og svo frá jörðinni Uppsölum, er skýrt að framan (bls. 197), og læt eg mèr nægja að vísa til þess.

---

Cristbu þat er stendur at uppsaulum. [hefir] gudini gefit gudi almattigum med ollum goda. þar skolu fylgia sex kyr. halfr fiordi tugur aa ok gelldur saudur. þar skal fylgia ein[n] eyrir ok XX. ok uirda til frids. mælir korns. u. hrossa klyfiar uidar atta tiger mels j hatvniga[2] mel. ok skolu þeir abyrgiazt. melteigur skal þar ok fylgia er ligur aa millum hatuniga[3] mels ok horgsdals mels. fiara ligur su hia glenu osi. tiutiger ok CCC. er londum þeim aa att fylgia þrimur er gudine setti. þar skal fylgia kuengilldur omagi. þar skal reida halfa mork uadmala j kirkiu bæ skírdag. þar er ekki gesta eldi mællt. ala

---

1) = skilt.

2—3) *í frumritinu hefir líklega staðið* hatuniga, *og sýnir sá ritsháttr að skráin er gömul.*

huern at osekiu er uill. han skal j eingri kuod skylldur att uera ne þingfarar kaupi at gengna þar skal huern mann [att][1] kirkiu grafa sekiann ok osekiann þann er þar fær liftion j landeign þar skal [ok sa einn][2] bua er hreppstiorar legi leyfi til.

---

## 32. [um 1150].

Máldagi fyrir kristbúi, því er Bjarnhèðinn og Ögmundr settu að Keldugnúpi á Síðu.

Eptir skinnblaði í safni Árna Magnússonar, hinu sama og tveir næstu máldagarnir hèr á undan (Nr. 30 og 31); er þessi ritaðr hinn þriði í röðinni á fremri blaðsíðu skinnblaðsins, með einnar línu millibili fyrir og eptir; hann er þar í 10 línum, en í honum er skinnblaðið mjög trosnað og stórt gat á, og er þar fyllt eptir afskriptunum, en þeim er lýst hèr að framan (Nr. 30).

Það ætla eg vafalaust, að sá Bjarnhèðinn sem hèr er nefndr sè Bjarnhèðinn prestr Sigurðarson, sem var á Kirkjubæ lengi († 1173); um hann er sagt hèr að framan (Nr. 29, bls. 187-188). Að máldagi þessi sè svo gamall staðfestist af því, að í máldaga Kirkjubæjar klaustrs, hèrumbil 1216, er talin hin sama ískylda af Keldugnúpi til Kirkjubæjar, sem hèr er sett. Sama ítala til klaustrsins er talin í máldaga Jóns biskups Eindriðasonar (um 1340) og Wilchins biskups (1397). Í Wilchinsbók er einnig sèrstakr máldagi fyrir kristbúinu á Keldugnúpi, og er hann þó allólíkr þessum. Í jarðabókinni yfir konúngsgózin eptir siðaskiptin, þeirri er áðr var getið, er engin ítala nefnd til klaustrsins af Keldugnúpi, og virðist svo, sem þessi jörð hafi síðan verið talin fátækra eign í Síðu hrepp, og ekkert gjald af henni tekið til klaustrsins, eptir máldögum, en mjög misjafnt er talinn dýrleiki hennar og leigumáli:

1697 telja sýslumenn dýrl. 18 hdr. landsk. 1 hdr. 100 áln. kúg. 6.

1756 er landsk. talin 60 áln. kúg. 2.

1760 dýrleiki og leigumáli eins og 1697.

1805 17. Aug. skýrir Jón sýslumaðr Guðmundsson svo frá, að dýrleiki sè 6 hdr., og leigumáli sá, að halda einn af hreppsómögum.

1821 28. Juni hefir Þórðr prófastr Brynjólfsson sent biskupi svo látandi skýrslu: „Í Kirkjubæjar klaustrs sókn er kristbúsjörðin Keldunúpr, sem eptir gömlum máldaga finnst að vera gefin af Bjarnhèðni nokkrum og Ögmundi, en óvíst hverir þessir voru eða hvenær. Í máldaganum er greint um tilgáng gjafarinnar, nl. að jarðar ábúandinn skyldi annast kvennómaga, sem gæti

1-2) hèr eru göt á skinnblaðinu.

klædt sig og afklædt, fyrir utan aðrar smámatgjafir. Jörðinni fylgðu þá 3 (iij, *rètt.* vj) kvígildi. Tilgángr gjafarinnar viðheldst ennnú um tèðar matgjafir, en 2½ kvígildi er burtfallið, án þess verði eptir komizt hvenær það skeði". —

1841 hafði prófastr á hendi bygging og umsjón jarðarinnar í biskups umboði, og svo mun ávallt verið hafa og vera enn. Í Jarðatali Johnsens (Khöfn 1847. 8vo. bls. 7) er talinn sami dýrleiki og leigumáli á jörð þessari sem 1697, en af skýrslu prófasts, sem þegar var getið, er svo að ráða, sem það sè ekki samkvæmt því ásigkomulagi sem nú er.

---

Crist bu þat er þeir biarnhedin ok ogmundur settu at kelldu nupi er gefit cristi ok petri lannd þat med ollum gædum [ok nytium̄][1]. þar fylgia kyr .uj. ok fiorertiger a. ok einn saudr uetur gamall. [ok .xiiij. aurar uj.][2] alna aura j klædnadi ok mælir korns: eda half ueit matar. [su skal afuinna][3] a cristbui þui att þar skal verra kuengilldur omagi auallt sa [er kunne at fara][4] j fott sin̄ ok ur. half mork uadmala skal reidazt j [kirkiubæ skirdag eda][5] Peturs Messo. ok caup at presti um fram. þar skal ok gefa kallmanz uord iola dag en fyrsta ok paska dag ok huitdrottinsdag ok nyt fiar þess allz er þar fylgir skal gefa Peturs Messo att morgin mali lamb skal marka or steck huort uor ok skal petur abyrgiaz ok gefa um haust er aptur kemmur. þar skal ala alla þurfa men ok þa er fara skylda erenda.

---

## 33. [um 1150].

Máldagi fyrir kristbúi því, er Loðmundr Þórisson og Dálkr bróðir hans settu á Breiðabólstað á Síðu.

Þessi máldagi er tekinn eptir hinu sama skinnblaði í safni Árna Magnússonar sem hinir fyrirfarandi (Nr. 30—32); er hann hinn fjórði í röðinni á fremri blaðsíðu skinnblaðsins, með einnar línu millibili fyrir og eptir, og er ritaðr í 15 línum, allt heilt og læsilegt.

Nöfnin Loðmundr og Dálkr eru sjaldsèn, og eru þó hvergi það eg veit nefndir þeir bræðr, sem að líkindum gæti verið þessir hinir sömu, sem máldagann settu. Loðmundar nafn kemr

1-5) gat á skinnblaðinu, en hefir verið heilt þegar afskriptirnar voru gjörðar, og er tekið eptir þeim.

einúngis fram í ætt Oddaverja, og er komið frá Loðmundi hinum gamla á Sólheimum. Loðmundr Úlfsson bjó á Sólheimum á öndverðri elleftu öld (1011. Njáls s. kap. 116). Loðmundr Svartsson bjó í Odda, afi Sæmundar hins fróða (Landn. V, 1). Loðmundr hèt og einn sonr Sæmundar, hans sonr var Jón; Eyjólfr sonr Jóns átti aptr son er Loðmundr hèt. Guðmundr múnkr Loðmundarson andaðist 1204 (ísl. Ann.). Loðmundr var enn ábóti í Veri 1307—1311, og hygg eg eflaust hann hafi verið af þessari ætt. — Dálks nafn kemr helzt fram fyrir norðan og vestan; en í hinum heldri ættum hittist það í Möðruvellínga ætt, því bróðir Ketils biskups Þorsteinssonar hèt Dálkr. En nú voru Oddaverjar og Möðruvellíngar skyldir, því Þórey, móðir Sæmundar hins fróða, var dóttir Eyjólfs hins halta á Möðruvöllum, Guðmundar sonar hins ríka. Eg held því efalaust, að Loðmundr og Dálkr, sem settu kristbúið á Breiðabólstað, hafi verið einhverir af þessari ætt, og það fer ekki fjærri, að þeir megi hafa verið uppi nálægt miðri tólftu öld, eða hèrumbil hundrað árum eptir að ættir Oddaverja og Möðruvellínga runnu saman. Í sjálfu sèr er ekki ósennilegt, að þeir Loðmundr og Dálkr hafi verið bræðr Helgu Þórisdóttur, sem var ein af hjákonum Jóns Loptssonar (Sturl. 2, 1) og að Guðmundr múnkr († 1204) hafi verið sonr þessa Loðmundar.

Máldagi kristbúsins á Breiðabólstað getr heldr ekki verið stórum ýngri en hèr er sett, því þar er talað um ráð þess „er í Kirkjubæ býr", en ekki nefnt klaustrið, eða þess forstöðumenn; en klaustrið var sett 1186 (ísl. Ann.). Í Kirkjubæjar klaustrs máldaga, frá hèrumbil 1216, er talin sama XII aura afreiðsla og hèr er skipuð til Kirkjubæjar; því hefir máldaginn án efa verið þá til. Sama gjald er og talið í máldaga Jóns biskups Eindriðasonar 1340, og í Wilchins máldögum kemr hið sama fram; þar er sèrstakr máldagi fyrir kristbúinu á Breiðabólstað, og hefir það þá verið við lýði.

Eptir siðaskiptin er Breiðabólstaðr talinn enn kristfjárjörð í máldagabók Gísla biskups Jónssonar (um 1575), en ekki getið neins gjalds þaðan til Kirkjubæjar. Í jarðabókunum er Breiðabólstaðr aptr á móti talinn Kirkjubæjar klaustrs eign, en alls ekki getið þess, að þar sè kristfè. Hin elzta jarðabók 1551—79 telr þar landsk iij^c og X álnir (= 2 hdr. 70 áln.) og kúgildi V. Síðari jarðabækr telja svo:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1639 | dýrl. | 24 hdr. | lsk. 2 hdr. 70 ál. | kúg. 6. | |
| 1697 | — | 24 — | — 2 hdr. | kúg. 70 áln.(!) | |
| 1753(60) | — | 24 — | — 1 hdr. 115 áln. | kúg. 3. | |
| 1756 | — | „ — | — 58 áln. | — ekkert. | |
| 1766 | — | „ — | — 60 — | — 3. | |
| 1769 | — | „ — | — 60 — | — 2½. | |

Í jarðatali Johnsens er talið eins og í jarðabókinni 1760, en í Landshagsskýrslum (I, 195) er dýrleiki talinn einsog að fornu, 24 hdr., og leigumáli 1 hdr. 66 áln. landsk. og 3 kúgildi.

Críst bu þat er lodmundur þoris son ok dalk²r brodur hans settu a breidabolstad er gefit kristi ok mario modur hans land allt med ollum gædum ok geirlandz heidur med merkium: tiutigir[1] ok þriu hundrut fioru a medal þyckbæinga fioru ok horgsdæla. skogarteiga fím j sulu felli. en þrir j fliozdal enum uestra. afretur þadan j lambatungur ok œ millum a. fisk ueidur j horgsa upp til merkigardz ok ut j osi firi breidabolstad. þar skulo fylgia. LX. aa. ok kyr. vj. ok þinglags hestar ij. þriar merkur j bussgognum ok uirt til vadmala. þar skal uerra su afuinna at hafa .ij. omaga auallt kuengildā þa er meigi fara j fot sin ok or ok fa þeim alla reidu þeir er se ur kyni þeirra lodmundar ok hafi sier eigi adur at uinnu medan þeir eru til[2]. þadan skal ok reida. xij aura uadmala huert uor j kirkiu bœ ok kaupa enn tider um fram. ui aurum. þar skal gefa nyt fiar þes allz er kristbui fylger mario messo enu fyre att morgin mal[e] ok kallmanz uerd jola dag en fyrsta ok hin atta dag ok enn þrettanda skirdag ok paska dag uppstigningar dag ok huit drottins dag. þar er ekki gesta eldi skyllt[3]. sa skal rada skipun a breidabolstad er j kirkiubæ byr.

---

## 34. [um 1150].

Máldagaskrá um rekafjörur á söndum við Skaptárós í Landbroti í Skaptafells sýslu.

Eptir hinu sama skinnblaði í safni Árna Magnússonar sem kristbúamáldagarnir hèr á undan (Nr. 30—33). þessi skrá er rituð neðst á fremri blaðsíðu á skinnblaðinu, og tekr hèrumbil hálfa sjöundu línu, en einnar línu millibil er fyrir ofan og neðan.

Um aldr skrár þessarar er reyndar ekkert víst, en bæði er auðsætt á henni að hún er forn, og svo staðfestist það af því, að henni kemr saman við kristbúa máldagana hèr á undan um fjörur þeirra, hefir því þótt líklegast að heimfæra hana til sömu tíma og þeir eru heimfærðir til.

---

1) *þetta er og samkvæmt fjöruskránni (Nr. 34); Wilchins máldagi (eða að minnsta kosti sum handrit hans) hefir* tveir tigir, *og er það afbakað.*

2) forrada, *bætir við skinnblaðið, en er dregið út aptr með striki.*

3) = skilt.

Næst fors fioru ligur hraun fiara atatiger ens þretanda hundras: þa er kristbua fiara tiutiger ens fiorda hundras: þa er haurgslendinga fiara þriu hundrud ok fimtiger. þa er haurgsdala fiara. attatiger ok fiogur hundrud: breidabolstadar fiara tiutiger ok þriv hvndrud: þa er þykbæinga fiara halft niunda hundrad: þa er hatuniga[1] fiara halfur fiorde tugur ok hundrad: þa er bruar fiara fimhundrud: þa er kirk[i]u fiara þritiger ok sextan hundrud: [þa er dalbæinga fiara fimhundrud ok þrir tiger[2].

---

## 35. 30. Novembr. 1154. í Lateran.

Anastasius páfi hinn fjórði staðfestir boð fyrirennara síns, Eugenius páfa hins þriðja, og setr erkibiskupsstól í Þrándheimi, staðfestir vald Jóns erkibiskups og skipar fyrir hver biskupsdæmi skuli hlýða undir hans erkistól.

Frá því settr var erkibiskupsstóll að Lundi í Skáney liðu tæplega fimmtíu ára, þar til settr var erkistóll í Niðarósi, og skömmu síðar annar í Uppsölum. Á þessum tíma hafði hið andlega valdið harðla blómlegan vöxt og viðgáng, og neytti þess með hyggindum og spekt. En því meir sem afl kirkjunnar jókst, því eðlilegra var, að yfirstjórn hennar í Róm vildi skipta yfirvaldinu í fjarlægum löndum, og að hvert land vildi helzt eiga sem minnst til annara að sækja. Því var og þess von, að Norðmenn vildi sem fyrst ná að hafa erkistól í sínu landi, þegar þeir voru orðnir lausir við yfirráð erkibiskupanna í Hamborg og Brimaborg. En það var regla, að ekki skyldi færri lýðbiskupar vera í erkibiskupsdæmi en fimm, og í Noregi voru ekki orðin fleiri biskupsdæmi en fjögr. Þessvegna var það ráð Norðmanna, að fá lögð þar til biskupsdæmin í þeim löndum sem mest áttu skylt við Noreg, eða mestar samgaungur áttu þar við, og vèr höfum engar sögur um, að þessi lönd hafi mælt þar á móti, svo sem þeim var það og hægra að sækja til Noregs, heldr en að sækja suðr til Danmerkr eða Hamborgar. Á fyrra hluta elleftu aldar, meðan erkibiskup Norðrlanda sat í Lundi, sjáum vèr að

---

1) *stafsetníngin á þessu orði bendir til forns handrits, sem hafi ritað* ŋ (hatuniŋa); sbr. Uppsala máldaga (Nr. 31, bls. 199).

2) frá [ er ritað á skinnblaðinu með sömu hendi og hitt, en er mèr þó nokkuð grunsamt, vegna þess að það kemr einmitt saman við þann stað í kristbús-máldaganum í Dalbæ, sem breytt hefir verið á skinnblaðinu (sjá bls. 198 athgr. 6). Þó er ekkert ólíklegt í, að til kristbúsins í Dalbæ hafi síðar verið gefin þessi fjara.

Íslendíngar voru í miklum metorðum í Noregi; er það eitt með öðru til staðfestíngar því, sem ráða má af frásögnum Þjóðreks múnks í Niðarósi, að um elleftu öld hefir mentan á Íslandi verið miklu framar en í Noregi, og margir ágætir menn, þó vèr höfum nú ekki sögur nema um nokkra af þeim. Milli 1140 og 1150 voru tveir Íslendíngar biskupar í Noregi, þó ekki væri þar nema fjórir biskupsstólar: Ívar skrauthanzki í Niðarósi, son Kálfs hins ránga, og Óttarr í Selju (Björgvin). Hitt vitum vèr nú eigi, hvern þátt þessir Íslendíngar hafi átt í að fá erkibiskupsstól settan í Noregi, en það er harðla líklegt að svo hafi verið. Eptir Ívar varð Hreiðar biskup í Niðarósi, hann fór til Róms, og er svo að sjá, sem hann hafi fengið fullkomið samþykki af Eugenius páfa hinum þriðja (1145—1153) til þess að settr yrði erkibiskupsstóll í Niðarósi, og verið vígðr til erkibiskups í þeirri ferð; en hann kom ekki í land aptr, og andaðist í Suðrlöndum. Um þetta hið sama leyti voru enn tveir biskupar Íslendínga vígðir í Lundi, af Áskeli erkibiskupi: Björn Gilsson að Hólum (4. Mai, eða 2. sunnud. eptir páska 1147, Húngrv. kap. 14) og Klængr Þorsteinsson að Skálholti (6. April eða 1. sunnud. eptir páska 1152, Húngrv. kap. 17). En það hið sama vor, sem Klængr var vígðr, sendi Eugenius páfi Nikolaus kardínála af Albano til Noregs, til að skipa þar um kirkjumál. Þá kom og Gizur Hallsson úr Haukadal, stallari Sigurðar konúngs, utan af Italia til Noregs, og Klængr biskup frá biskupsvígslu sinni í Lundi; fór hann út með kirkjuvið til Skálholts þetta sumar, og með honum Gizur Hallsson. Kardínálinn lenti í Noregi 19. eða 20. Juli, og hafði með sèr pallium handa Jóni biskupi Birgissyni í Stafángri, sem nú var vígðr til erkibiskups. Þá var hin merkilegasta samkunda í Niðarósi, er Jón erkibiskup var vígðr, og þá flutti Einar prestr Skúlason kvæði sitt „Geisla" um Ólaf helga í Kristskirkju í Niðarósi fyrir konúngunum þremr, Jóni erkibiskupi, höfðíngjum og klerkum og allri alþýðu; þar hefir og að líkindum kardínálinn verið viðstaddr. Svo segir Einar sjálfr í Geisla (vísu 8—11):

[8]. Heyrðu til afreks orða,
Eysteinn konúngr! beinna;
Sigurðr hygg at því, sneggjum,
sóknsterkr! hve ek fer verka;
drengr berr óð fyr Inga:
yðarrar[1] bið ek styðja
mærð, þat er miklu varðar[2],
máttugt höfuð áttar.

1) þannig er vísuorð þetta liðugra en í Fornm. s. (v, 351), og er hèr farið næst eptir Bergsbók í Stokkhólmi, sem hefir „yðara". „Máttugt höfuð yðarrar áttar" (= ættar) er Ólafr konúngr helgi, ættfaðir konúnganna.

2) „þat er varðar miklu" = þat varðar miklu.

[9]. Yfirmanni býð ek unninn,
upp er mærð komin, lærðrar.
Jón köllum svâ, allrar
alþýðu, brag hlýða:
höfum hróðr, en leyfa
hygg ek vin röðuls tiggja,
stóls vex hæð þar er hvílir
heilagr konúngr, fagran.

[10]. Öld samir Ólafs gilda[1],
orðgnóttar bið ek dróttinn,
oss at óðgerð þessi
ítrgeðs lofi kveðja:
fann ek aldri val vildra
vallrjóðanda allra,
raun dygir, rètt í einu
ranni, fremdarmanna.

[11]. Þreklynds skulu Þrændir
þegnprýðis brag hlýða,
Krists lifir hann í hæstri
hall, ok Norðmenn allir.
Dýrð er ágæt orðin
eljonhress í þessu,
þjóð nè þengill fæðist
þvílíkr, konúngríki.

Kardínálinn dvaldi hèrumbil tveggja mánaða tíma í Noregi, og skipaði kirkjunnar málum, þó að vèr höfum nú ekki svo ljósar sögur um skipanir hans, og verðum öllu framar að álykta um þær af breytíngum þeim er eptir fylgðu. Í Suðrlöndum var þessi ferð svo fræg, að sumir hafa sagt svo frá að kardínálinn hafi fyrstr kristnað Noreg. En það er víst, að hann grundvallaði kirkjuvaldið í Noregi, svo að það fór æ síðan vaxanda. Hann stofnsetti erkistólinn í Niðarósi og biskupsstól nýjan í Hamarkaupángi; hann setti kórsbræðr við allar dómkirkjur í Noregi, og áttu þeir síðan mestan þátt í kosníngum biskupa og erkibiskupa, en leikmenn alls engan; hann jók rèttindi manna til að gefa gjafir til heilagra staða; hann fèkk innleiddan Rómaskatt, eða Pètrspeníng, og hann tók til að banna prestum hjónabönd. Hann bannaði einnig vopnaburð í kaupstöðum[2]. Snorri Sturluson segir,

1) Ólafs gildar (gildar ítrgeðs Ólafs), það eru höfðíngjar og hirðmenn, eða sem hann kallar í síðara vísuhelmingnum „val vildra fremdarmanna".

2) R. Keyser. Den norske Kirkes Historie under Katholicismen. Christiania 1856. 8vo. I, 222—228. Þessi boð kardínálans eru líklega þau „trúargreina lög" *(catechismaticæ leges)* sem sagnafróðir menn í Suðrlöndum hafa sagt að hann hafi innleidt í Noregi og Svíþjóð, og hafi staðið ávallt síðan (Manrique. Annall. ordin. Cisterciens. Lugdun. 1642. Fol. II, 46); en það er mishermt hjá Suhm (Hist. af Danm. V, 135), að hann

að „hann bætti í mörgu siðu[1] Noregsmanna, meðan hann var í landi", og „að engi hafi sá maðr komið í Noreg útlendr, að allir menn metti jafnmikils, eða jafnmiklu mætti ráða við alþýðu, sem hann"[2]. Kardínálinn fór af Noregi til Svíþjóðar, og skyldi setja þar einnig erkibiskupsstól, en það var eigi að því sinni. Árið eptir andaðist Eugenius páfi (7. Juli 1153), og mun hann, að eg ætla, enga brèflega staðfestíng hafa gefið um ráðstafanir kardínálans, nema þær sem staðið hafa í erendisbrèfum hans, er vèr þekkjum nú ekki. En eptir Eugenius kom Anastasius páfi hinn fjórði, og hann hefir útgefið eptirfylgjandi staðfestíng um erkibiskupsdæmi í Niðarósi. Hann varð páfi 9. Juli 1153 og andaðist 2. Decembr. 1154, fáeinum dögum eptir að brèf þetta er útgefið, og var þá kosinn eptir hann þessi hinn sami Nikolaus kardínáli, sem í Noregi var, og kallaðr Adrianus hinn fjórði; hann andaðist 1. Septbr. 1159.

Brèf Anastasii páfa er nú ekki kunnugt nema eptir afskript einni sem gjörð hefir verið í Niðarósi VI. (eða VIII.) cal. Julii (= 26. eða 24. Juni) 1479 (en ekki 1429). Frá þessari einu afskript eru sprottnar allar þær er vèr þekkjum nú. Elzt af þeim mun vera sú, sem hefir verið rituð í bók frá Björgvin, er síðan hefir verið í bókhlöðu Kaupmannahafnar háskóla, og brann 1728 með bókasafni háskólans. Eptir þessari Björgvinarbók hefir Árni Magnússon ritað það fyrir Bartholin, í söfn þau er hann hefir eptir látið og nú eru á háskólabókhlöðunni (Barthol. Manuscrr. E, 150—158). Þar frá er einnig komin afskript í 8vo Nr. 2 meðal afskripta Árna Magnússonar á pappír af norskum brèfum; einnig tvær afskriptir í hinu mikla skjalasafni Langebeks í leyndarskjalasafni konúngs, og er önnur þeirra með hendi Langebeks sjálfs. — Önnur forn afskript er með hendi Arilds Hvítfeldar (segir Langeb.), hins forna danska sagnaritara, sú afskript er nú einnig geymd í Langebekssafninu, en ekki sèst á henni hvort hún sè eptir hinni fornu afskriptinni frá 1479 sjálfri, eða eptir brèfabókinni frá Björgvin. Þaðan er aptr sprottin afskript í konúngsbókhlöðunni (Gamle kongel. Saml. Nr. 2848. 4to, sem er sama og Foss. Saml. Catalog. Hafn. 1751. 8vo, Nr. 2790. 4to.).

Brèf þetta frá Anastasius páfa er prentað fyrst í Pontoppidans Annall. Eccl. Dan. Diplomatici I, 379—383 (eptir afskript

hafi samið „trúargreinir" (*catechismus*), og þarf því ekki að geta til, að frá honum sè komin trúarjátníngin í Kristindómsbálki í Járnsíðu og víðar (Munch III, 871 athgr. 3).

[1]) Þess má geta, að Suhm hefir einnig misskilið þetta orð *siðu*, svo sem það væri „siðferði" (eptir dönsku merkingunni); en það þýðir hèr ekki beinlínis siðferði, heldr einsog opt endrarnær sama og trúarlög eða kristnilög, einsog *leges catechismaticæ* sem þegar var getið; þannig köllum vèr kathólskan sið og lútherskan sið, og siðaskipti o. s. frv.

[2]) Saga af sonum Haralds gilla, Sigurði, Ínga og Eysteini, kap. 23.

Hvítfeldar, eða annari samkynja); þar eptir er ágrip í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. I, 224 athgr. a. — Hinar aðrar útgáfur eru teknar eptir afskript Árna Magnússonar: Thorkelin. Diplomatar. Arnamagnæanum, Hafn. 1786. 4to. II, 3—7 („ex apogr. chart. Nr. 2"); — Norges gamle Love I, 439—441 (eptir afskrift Árna í handriti Bartholins). Ágrip í Grönl. Hist. Mindesm. III, 80—84; sbr. Regesta Diplom. Hist. Dan. I, 41.

Hèr er prentað eptir afskript Árna Magnússonar í Barth. Mss. E, 151—157 (*A*), og afskriptinni í safni Árna sjálfs, Nr. 2 (*B*), en sleppt staðfestíngunni frá 1479; orðamunr er tekinn eptir afskript Hvítfeldar (*H*), Foss (*F*) og Pontoppidan (*P*), og er hann þó á allflestum stöðum lítt að marki, heldr er hann mestallr sprottinn frá því, að afskript Hvítfeldar er ekki allskostar rètt, og þarhjá ill aflestrar, svo að hún hefir enn meira afbakazt hjá Foss og Pontoppidan.

---

Anastasius Episcopus, servus servorum Dei, Venerabili fratri Johanni Trwdensi[1] Archiepiscopo ejusqve successoribus, canonice substituendis, in perpetuum[2].

Licet omnibus discipulis eadem ligandi et solvendi sit concessa potestas, licet unum præceptum ad omnes idemque pervenerit prædicandi Evangelium omni creaturæ: velut qvædam tamen inter eos habita est discretio dignitatis, et Dominicarum ovium[3] curam, qvæ omnibus æqvaliter imminebat[4], unus singulariter suscepit habendam, dicente ad eum Domino: „Petre, amas me? pasce oves meas." Qvi etiam inter omnes Apostolos principatus nomen obtinuit, et de fratrum confirmatione singulare a Domino præceptum accepit; ut in[5] hoc secuturæ posteritati daretur [intelligi, qvoniam[6], qvamvis multos ad regimen Ecclesiæ contingeret ordinari, unus tamen solummodo supremæ dignitatis locum fastigiumqve teneret, et unus omni-

---

1) *þannig B, þó með leiðrètting Árna, og sèst eigi hvað upphaflega hafi staðið. Í A dregit út* ū (Trūdensi) *og sett* w *uppyfir, með hendi Árna; hefir hann því fyrst ætlað að lesa* Trundensi. Trudensi *H*; Trundensi, *F*, *P*.

2) *þannig les Árni; í B er með hans hendi ritað á spázíu*: ppm. extat in membrana. — N. P. P. M. *(bersýnilega eptir sömu skammstöfun)*, *H*, *F*, *P*.

3) rerum, *F*, *P*. 4) imminebit, *H*, *P*. 5) *sl. F.*

6) *frá* [ intelligi. Qui quamv. *o. s. frv.*, *H*, *F*, *P*.

bus, et potestate judicandi, et gubernandi onere præsideret. Unde et secundum hanc formam in Ecclesiâ distinctio servata est[1] dignitatum. Et sicut in humano corpore pro varietate officiorum diversa ordinata sunt membra[2], ita in structura Ecclesiæ ad diversa ministeria exhibenda diversæ personæ in diversis sunt ordinibus constitutæ[3]. Aliis enim[4] ad [singularum Ecclesiarum[5], aliis autem[6] ad singularum urbium dispositionem ac regimen ordinatis, constituti sunt in singulis provinciis alii, qvorum prima[7] inter fratres sententia habeatur, et ad qvorum examen subjectarum personarum qvestiones et negotia referantur. Super omnes autem Romanus pontifex, tanqvam Noë in arcâ, primum locum noscitur obtinere; qvi, ex collato sibi desuper in Apostolorum principe privilegio, de universorum causis judicat et disponit, et per universum orbem Ecclesiæ filios in christianæ fidei firmitate non desinit confirmare; [talem se curans[8] jugiter exhibere, qvi[9] vocem Dominicam videatur audisse, qva dicitur: Et tu aliqvando conversus confirma fratres tuos. [Hoc nimirum[10] post Beatum Petrum illi Apostolici viri, qvi per successiones temporum ad gerendam curam sedis Apostolicæ surrexerunt, indesinenti curaverunt studio adimplere, et per universum orbem, nunc per se, nunc per [legatos suos, corrigenda corrigere, et statuenda statuere[11] summopere studuerunt. Qvorum qvoqve vestigia subsecutus felicis memoriæ papa[12] Eugenius, antecessor noster, de corrigendis hiis, qvæ in Regno Noruegiæ correctionem videbantur exposcere, et [verbo ibi fidei seminando, juxta sui officii debitum, sollicitus extitit. Et qvod[13] per se ipsum, universalis Ecclesiæ curâ obsistente, non potuit, per legatum suum, venerabilem scilicet[14] fratrem nostrum, Nicolaum Albanensem Episcopum, exsecutioni manda-

1) est servata, *H, F, P.* 2) ministeria, *F, P.*
3) constituti, *P.* 4) namque, *F, P.*
5) *frá* [ singulares ecclesias, *F, P.* 6) *sl. F, P.*
7) præcipua, *F, P.* 8) *frá* [ talemque curam, *F, P.*
9) quatenus, *F, P.* 10) *frá* [ Demum vero, *H, F, P.*
11) *frá* [ alios suos fratres confirmare, *F*; legatos suos, fratres confirmare, *H, P.* 12) P. P., *H, F, P.*
13) *frá* [ verbo i. fid. sem. munus officii debitum adimplere, quod per seipsum, *o. s. frv., H;* verbi Dei ibi semen seminando avidius officii debitum adimplere, quod *o. s. frv., F, P.* 14) sl. *H, F, P.*

vit. Qvi ad[1] partes illas accedens[2], sicut à suo patre familias acceperat in mandatis, talentum sibi[3] creditum largitus est ad usuram, et, tanqvam fidelis servus[4] et prudens, multiplicatum inde fructum studuit reportare. Jnter cætera vero, qvæ illic ad laudem nominis Dei[5] et ministerii sui commendationem implevit, juxta qvod prædictus antecessor noster ei præceperat, pallium fraternitati Tuæ indulsit. Et ne de cætero Provinciæ Norvegiæ Metropolitani[6] possit cura deesse, commissam gubernationi tuæ urbem Thrudensem[7] ejusdem Provinciæ perpetuam Metropolim ordinavit; et ei Asloensem[8], Hammarcopiensem[9], Bergenensem[10], Stawangriensem[11], Insulas Orcades, Insulas [Fareiæ][12], Suthraie[13] Insulas, Islandensium [et Grenelandie Episcopatus[14], tanqvam suæ Metropoli perpetuis temporibus constituit subjacere; et earum episcopatus[15] sicut Metropolitanis suis tibi tuisqve successoribus obedire. Ne igitur ad violationem constitutionis istius[16] ulli umqvam liceat aspirare, Nos eam[17] auctoritate Apostolicâ confirmamus, et præsenti privilegio communimus; statuentes, ut Trudensis[18] civitas perpetuis temporibus supradictarum urbium Metropolis[19] habeatur, et earum Episcopi tam tibi, qvam tuis successoribus, sicut suis[20] Metropolitanis obediant, et de manu vestrâ consecrationis gratiam sortiantur. Successores autem[21] tui ad Romanum Pon-

---

1) in, *F*. 2) eyða fyrir orðinu í *F*; sleppt eyðulaust í *P*.
3) sl. *H*, *F*, *P*. 4) servus fidelis, *H*, *F*, *P*.
5) Divini, *F*, *P*. 6) Metropolitanæ, *F*, *P*. 7) Trundensem, *H*, *F*, *P*.
8) Asloicnsem, *H*, *F*; Aslocensem, *P*. 9) Hamarköpiensem, *H*, *P*.
10) Bergensem, *H*, *F*, *P*. 11) Stabangriensem, *H*, *F*, *P*.

12) þannig stendr í brèfi frá Innocentius þriðja, scm er þessu að mestu orðrètt samhljóða, og mun ekki vera efi á, að svo hafi staðið í frumbrèfinu.

13) *þannig H*, *F*; Guthraie, *A*, *og dregið feitt blek í G*; *hefir Árni líklega lesið fyrst S*, *en sèð síðan að það var* G, *og dregið því í það til að breyta því*; *á spáziu ritar hann* corr: Suthr., *og í B á spáziu:* ita est; corr. Suth.; *sbr.* Gergii *fyrir* Sergii *í undirskriptunum.* — Suthrace, *P*. *Að öðru leyti tekr A svo saman:* Insulas Guthraie, Insulas Islandensium, et Gr. episc.

14) *í A og B er svo ritað*, *sem lesa mætti eins* Greuelandie; *frá* [ Grenelandiæ Episcopatum, *H*; Gronlandiæ episcopatum, *F*; Grönclandiæ, Episcopatum tanqv., *o. s. frv.*, *P*. 15) Episcopos, *H*, *F*, *P*.
16) sl. *H*, *F*, *P*. 17) ea, *H*. 18) Trundensis, *H*, *F*, *P*.
19) Metropolin, *P*. 20) sl. *B* og hinir. 21) vero, *F*, *P*.

tificem tantum recepturi donum consecrationis accedant; et ei solum modo[1] et Romanæ Ecclesiæ subjecti semper[2] existant.

Porro concesso tibi Pallio, pontificalis scilicet officii plenitudine, infra[3] ecclesiam tantum ad sacra missarum sollempnia per universam provinciam tuam hiis solummodo diebus[4] uti fraternitas Tua debebit, qvi inferius leguntur inscripti[5]:

Nativitate Domini,
Epiphania,
Cæna domini,
Resurrectione,
Ascensione,
Penthecostes[6],
Jn sollempnitatibus sanctæ[7] Dei Genitricis semperqve[8] virginis Mariæ,
Jn Natalitio Beatorum Apostolorum Petri et Pauli,
Jn Nativitate sancti Johannis Baptistæ,
Jn festo[9] Beati Johannis Ewangelistæ,
[Jn] Commemoratione omnium sanctorum,
Jn consecrationibus Ecclesiarum vel Episcoporum,
Benedictionibus Abbatum,
Ordinationibus Presbiterorum,
Jn die Dedicationis Ecclesiæ tuæ,
ac festis sanctæ Trinitatis,
et sancti Olavi,
et Anniversario tuæ Consecrationis die.

Studeat ergo Tua fraternitas, plenitudine tantæ dignitatis susceptâ, [ita strenuè cuncta[10] peragere, qvatinus[11] morum tuorum ornamenta eidem valeant convenire. Sit vita tua subditis exemplum, ut per eam agnoscant, qvid debeant appetere, et[12] qvid cogantur vitare. Esto discretione præcipuus, cogitatione mundus, actione purus, discretus in silentio, utilis in

1) *þannig H, F, P, og brèf Innoc. III.;* simili modo, *A, B.*
2) semper subjecti, *H, F, P.*
3) intra, *F, P.*
4) his diebus solummodo, *H, F, P.*
5) in scripto, *F, P.*
6) Pentecostes, *H;* Pentecoste, *F;* Pentecost. in solempnitatibus, *o. s. frv., P.*
7) beatæ, *H, F, P.*
8) semper, *H, F, P.*
9) die, *H, F, P.*
10) *frá* [ cuncta strenue, *H, F, P.*
11) tibi, *b. v. H.*
12) sl. *H, F, P.*

hefur verit vit kirkivna. verdur navdstad[d]ur jn[n]an þessar[1] tidar. þa skal kirkia[2] hver er hann sækir. til skylldazt vit hans hialp. sem hann hafe vit onga þeirra misgiort og refsing til leggia. ef honum verdur þar misgrandat sem engi [se sók[3] ꝍ hans male. ef hann hefir skript tekit fyrir þann oveg sem hann giorde fyr kirkivn[n]e. og heitir[4] yfir bott. eda gere þat þa þegar j þeirre. ef hann vill hialp af henne taka ef hann hefir eigi fyr giortt. og feste med eide. þviat hvertvetna þar er madr gengur til sætta uit kirkiv fridbrot skal uinna eid fyr en hans mal se losat. at hann [skal sialfur eigi optar[5] kirkiv frid briota. og helldur forstódv ueita. slika er hann ma. vóda laust vit sialfan sig. En ef hann ryfur eid sinn. med somu uerke. þa se þat ꝍ erkibiskups vallde. eptir mala voxtvm. hvort hann skal heima lausn taka. eda fara til papans. med riti biskups. En lausn þessa mals allz. þa liggur ꝍ papans vallde. huegi litla hrid j skriptvm hefur verit vit hvern þann er til hans miskvnar sœkir.

En þeir menn at misþyrma lærdvm monnum. mvnkvm. eda kanvnkvm. lærdvm eda olærdvm. þeim at j hreinlifis bvnade ero. ꝍ likam sjalfra þeirra. þa se þeir j banne. En þa er þeir koma til biskups lausnar þa skal biskup med þeim hætti lida lausnina. sem hann fin[n]ur vóld hvorstveggia hafa verit vm mein þat sem j hefur giorst.

Sama mal er vm þa. er ræna þa menn. er taka staf og skrep[p]v. og fara til Jorsala. eda til roms. eda til annara heilagra stada utan landz. eda so jn[n]an landz til heilagra manna þeirra er ver fagvm. eda[6] dyrkvm af gudz alfv. ef þeir ero eigi fvnir[7]. og sannir at suikrædum vit. landz konung og hans frid menn.

---

## 41. [um 1176].

Boð [Eysteins] erkibiskups um bannssakir á þeim er konur taka að herfángi [í Noregi].

[1]) þeirrar, *F.* [2]) kyrkian, *F.* [3]) *frá* [ sök se, *F.*
[4]) heitit, *F.* [5]) *frá* [ optar skal ei, *F.*
[6]) ok, *F.* [7]) = fundnir; fundnir, *F.*

þetta er að líkindum brot eitt úr einhverri boðorðaskrá erkibiskups, svo sem niðrlagið sýnir, og er það prentað hèr, sem hið fyrra hèr næst á undan, eptir skinnbókinni Nr. 186. 4to. í safni Árna Magnússonar, bls. 122 (sjá Nr. 38 og 40); það er og prentað áðr eptir fornu pappírshandriti, sem komið er frá þessari hinni sömu bók, í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. I, 243—244; orðamunr þaðan er hèr tilfærðr *(F)*.

það er varla efamál, að þetta boð erkibiskups sè einnig handa Norvegi, en ekki ætlað til Íslands, og sè því síðar snarað úr latínu á íslenzku. Ekki eru og heldr aðrar sannanir fyrir því, að það sè frá Eysteini erkibiskupi, en að það er meðal brèfa hans í skinnbókinni, og um ártal þess er sama að segja; hefi eg í þessu fylgt Finni biskupi, þareð eg veit eigi annað rèttara, og eg ætla það á sennilegum rökum byggt; það sannast og á Kristinrètti Sverris konúngs og Eiríks erkibiskups, að slíkt boð sem hèr er sett hafi þá verið alkunnugt, þar sem segir: („Nú eru þeir menn bannsettir, er) renna á hendr konum og brjóta þær til svefnis" (Norg. gamle Love I, 409). En þar sem hèr er skýrskotað til fornrar skipunar, mætti það þykja jafnvel líkara, að þetta boð væri ýngra en hèr er sett, og að hin „forna skipan" hefði verið frá Eysteini erkibiskupi, sú sem skýrskotað er til.

---

vm herfang[1].

Men[n] þeir er konur taka med herfangi þer er med nytv hafa jafnan verit. eda þer er goder menn vitv at j nauist hafa verit med þeim at skilst hafa med[2] orad sin. og skriptir fyrir tekit. og þvi sidan halldit med godri at ferd. þa hverr er þær tekr naudgar. huort er hann festir navdgar. eda eigi. þa med þvi at hann brytur j þvi gudz rett og frelse. þat er gvd hefur tiad hverium. þa er sa hverr eptir fornre skipan j gvdz banne. og papans. og allra heilagra manna. og ver endurnyium þat bann. at menn uite þat bann og uoda er vit liggur. og þo lægi vit er uer þegdum yfir. med vorv meine. og so hinna er ovitande ero og felle j. En konvm fyrir biodvm ver[3] j gudz nafne þeim er j skilum uilia vera ath veita atdratt til slikrar onytu med ueislum. þingvm. eda odrum hlutvm og

---

1) fyrirsögnin í skinnbókinni með rauðu letri; upphafsstafr rauðr, og dregið í grænt; sami stafr er og ritaðr utanmáls með bleki.

2) við, *F*. 3) at, *b. v. skinnb.*

egna sier so vtt vndir valld hins. at eigi er fiorsiall[1] þegar sliktt ualld hefur j hende. [og cett[2].

---

## 42. [1178].

Boð Þorláks biskups Þórhallssonar í Skálaholti um föstuhald í Skálaholts biskupsdæmi.

Þorlákr biskup var ábóti í Þykkvabæ í Álptaveri þegar hann var kosinn til biskups á alþíngi 1174. Vegna misklíðar þeirrar sem þá var á millum Noregsmanna og Íslendínga fór hann ekki utan til vígslu fyr en 1177, en hann stýrði biskupsdæmi og stóli frá því sumarið sem hann var kosinn og til þess Klængr biskup andaðist 28. Februar 1176, og svo þaðan frá til þess hann fór utan, en hann var vígðr af Eysteini erkibiskupi á Þíngmariumessu eða 5. sunnud. eptir Trinitatis, 2. Juli 1178 (Þorl. s. kap. 11; Bisk. s. I, 101). Þá fór hann út hið sama sumar, og kom heim í Skálaholt 9. August.

Ár það sem hann skipaði reglur um föstuhald vitum vèr eigi að ákveða með fullkominni vissu, en það er líkast að hann hafi eigi gjört það fyr en hann var fullseztr að biskupsstóli. Að hann hafi sett ymsar reglur á fyrstu árum sínum má ráða af brèfi Eysteins erkibiskups, því er hèr er heimfært til 1179. Ekki er heldr skrá sú, sem hèr fylgir, svo áreiðanleg, að vèr vitum með fullum sanni að hún hafi verið þannig samin af Þorláki biskupi sjálfum, en að hún sè forn sýnir það, að hann er ekki kallaðr hèr heilagr, og að efnið kemr saman við það sem segir í elztu sögu hans að hann hafi skipað um föstur (Þorláks s. kap. 15; Bisk. s. I, 106); mun því þetta varla vera úr lagi fært. Þetta styrkist einnig við það, sem fyrir er skipað um föstur í Kristinrètti hinum forna, sjá í útg. Thorkelins (Jus Eccles. vetus Havn. & Lips. 1776. 8vo.) kap. 26—30 og 33—34, og eru þar sum boðorð harðari en hèr, en sum aptr linari.

Skrá þessi er prentuð eptir skinnbókinni Nr. 347 í Fol. í safni Árna Magnússonar, sem hèr er talin rituð um 1370 (sjá bls. 117—120 að framan). Þessi skrá er rituð þar með hinni fornu hendi, seinust í þeim hluta skinnbókarinnar (bls. 168 í skinnb.), og talin þar 67. kap. í Kristinrètti hinum forna. Hún er prentuð eptir þessari sömu bók í útgáfu Vilhjálms Finsens af Grágás, bls. 251—252.

---

1) *þ. e.* forsjáll, *og svo hefir F.* 2) frá [ sl. *F.*

Vm boðfostur. 67[1].

Þessar fostur bauð Þorlakr byskop. alþyðu vm fram þat er lögföstur eru taldar.

föstu dagha alla rumhelga skal fasta. nema fostudagh j paska viku. þa er lofat at eta tvimællt.

fra þui er vetr kemr skal fasta fostu nætr allar til paska nema þa er nöst [er] jolum eptir. þa er lofat at hafa hvitan mat.

fra þui er vetr kemr skal fasta miðviku dag hvern til jola. fra jolum er eigi boðin miðvikudagha fasta til nio vikna fostu.

Þa er niu vikna fasta kemr til sio vikna föstu skal fasta þria daga j viku. ok eina nott.

Lofat er at hafa tvimællt annan dagh viku. j sio vikna fostu. ok hinn þriðia.

Jola föstu skal fasta hvern dagh. ok tvær nætr j viku nema messu daghar taki föstu af.

fra paskum til vætrar er setu monnum skyllt at fasta föstu nætr en eigi verkmonnum.

Ollum monnum er lofat at hafa huitan mat. föstu nott hina næstu eptir vppstigníngar dagh.

lofat [er] þeim monnum er eigi hafa vel fostu mat at hafa huítan mat föstu nætr fyrer huita daga.

Sex dögra fostu skal fasta. aðra fyrer allraheilagra messo. eða símons messo. en aðra skal fasta fyrer jol sem nöst ma jolum.

Þessar fostur ero boðnar heilom monnum ok eigi ellrum en siaurððum. ok eigi yngrum. en sextan vettra gomlum[2].

---

1) fyrirsögn með rauðu letri; upphafsstafr rauðr. Talan bendir til kapitulatölunnar í Kristinrétti eptir því sem skinnbókin telr.

2) í skinnbókinni er bætt við tveimr greinum, sem auðsætt er að ekki hafa átt við upphaflega, og eru þær þannig látandi:

Einga nott skal skyllt at fasta fyrer messo dagh þann er hann sealfan skulo menn fasta. nema fyrer annarrar tiðar saker se þa skyllt at fasta.

Ollum monnum voru boðnar her a landi tuær sex dægra föstur. heilum. yngrum en siauræðum. ok ellrum en sextan vettra gomlum. ok sua þessar allar fostur.

43. [1178].

Boð Þorláks biskups Þórhallssonar í Skálaholti um skriptahald í Skálaholts biskupsdæmi.

Það er auðráðið af sögu Þorláks biskups, að hann hefir innleidt bæði skriptir og margar aðrar agareglur kirkjunnar framar en áðr tíðkaðist á Íslandi; einkum er þess getið, að hann hafi sett skriptir um hórdóma (Þorl. s. kap. 15; Bisk. s. I, 106). Af þessum reglum eru til enn tvær skrár, sem kallaðar eru „Skriptaboð Þorláks biskups", er önnur þeirra á skinnbók Nr. 625 í 4to, en önnur á skinnbók Nr. 624 í 4to í safni Árna Magnússonar. Á aldri bókanna er ekki mikill munr, og verðr maðr því að álykta af skránum sjálfum um aldr þeirra; verðr það þá ofaná, þegar að er gætt, að í bókum þessum eru þrenn skriptaboð; 1) hin fornu, frá tíma Þorláks biskups, sem eru í Nr. 624, og að líkindum ekki stórum úr lagi færð, og tvenn í Nr. 625; eru hin fyrri 2) Skriptaboð Þorláks biskups hin sömu og í 624, en aukið inní hèr og hvar og sett í aðra röð, svo og bætt aptanvið áminníng, og er þetta óefað frá fjórtándu öld, eg hygg eptir Jón biskup Halldórsson, sem hefir viljað staðfesta og endrnýja og auka skriptaboð Þorláks biskups. 3) Boðorð um föstur og skriptir, sem virðist vera eldra en hitt sem á undan er, og heimfæri eg það til Árna biskups Þorlákssonar; þar er ekki skýrskotað til Þorláks biskups. Með skránum fylgja eiðaform ýmisleg, sem eru í sambandi við skriptamálin.

Finnr biskup hefir látið prenta þau tvenn skriptaboð sem hèr eru talin síðar (Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. IV, 150—160) en ekki hin fyrstu, líklega vegna þess, að hann sá að hin voru fjölorðari, og hefir hann þarfyrir haldið þau væri fyllri, en ekki athugað mismun orðfærisins á báðum; þó hefir hann sèð, að skriptaboð þau sem hann gaf út eru tvær skrár en ekki ein; þau skriptaboð, sem hèr voru talin seinast, eru og prentuð í Norges gamle Love III, 293—294, sem viðbætir við statútu Páls erkibiskups (1336—1346), af því skriptaboð þessi fylgja henni í sumum handritum. Hin elztu hafa aldrei verið prentuð fyr en hèr.

Finnr biskup hefir viljað halda, að það sem kallað er „Skriptaboð Þorláks biskups" sè ekki eldra en frá 14du öld miðri, og hafi menn þá tekið nafn Þorláks til að gjöra boð þessi því merkilegri og heilagri; leiðir hann það einkum til sönnunar, að orðið „gagnföstur" komi hvergi fram fyr en á miðri 14du öld. Eg vil þó ætla, að þessu sè ekki þannig varið, heldr sè þessi skriptaboð forn, og í engu verulegu úr lagi færð; tel eg þau rök til þess, að málfærið er hreint og fornlegt, og að skriptirnar sjálfar, sem til eru teknar, eru hinar sömu, sem bent er til víða í kirkjulögunum að hafi verið fornar. Þess má og geta, að Þorlákr biskup er ekki nefndr heilagr í þessari skrá, en hann

er nefndr svo í hinni síðari, sem á þessari er byggð. Orðið „gagnfasta", sem hèr er nefnt, er alls ekki tortryggilegt, því bæði er það svo eðlilegt málinu í sjálfu sèr, að það getr verið svo fornt sem vera skal, og þar að auki verðr sannað að það er mjög fornt orð, því það stendr tvisvar eða optar í kristindómsbálki í hinum fornu Gulaþíngslögum (Norges gaml. Love I, 12, 17); er það því að öllum líkindum jafngamalt kristninni á Norðrlöndum. Í hinum elzta máldaga kirkjunnar í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, sem hèr er heimfærðr til 1180 (Nr. 55 hèr á eptir), eru sömuleiðis nefndar „gagnföstur", og í máldaga kirkjunnar á Ásólfskála undir Eyjafjöllum, sem hèr er heimfærðr til 1179 (Nr. 50) kemr fyrir orðið „gángfasta", sem mun vera hið sama og „gagnfasta" (sbr. gagndagar og gángdagar, gagndagr og gángdagr). — En ef skriptaboð þessi eru frá tíma Þorláks biskups, þá er líkast að setja þau til þess árs sem hann kom til stóls síns, einsog hitt um boðföstur, sem er hèr næst á undan.

Skinnbókin Nr. 624 í 4to í safni Árna Magnússonar er nú 170 blöð eða 340 blaðsíður, og vantar þó í hana hèr og hvar. Skinnbók þessi er í minnsta fjögra blaða broti, ekki stærra en breitt 12 blaða eða 16 blaða brot, en ýmislega þètt og ýmislega vel skrifuð, en þó öll á síðara hluta fimtándu aldar. Ekki er þar ritað í dálkum, heldr allt í heilum línum. Eptir því sem handritið er nú vantar framanvið það, að minnsta kosti eitt blað, en það sem þar er á nú er þetta: 1) Ræður andlegs efnis. Eru þar fyrst fjórar ræður um guð, um eðli mannsins, syndina og hegníng hennar, og um eilífa sælu; í ræðum þessum eru víða latínugreinir úr biblíunni eða kirkjufeðrum, eða frægum fornum rithöfundum kirkjunnar; á einum stað er skýrskotað til hins heilaga Bernhards. Þessar ræður eru á 7 blöðum (bls. 1—14), en stúfr af áttunda blaði sèst framanvið, og kann vera að ekki vanti meira en eitt blað framanaf fyrstu ræðunni. Nokkru síðar í bókinni eru sjö ræður um sjö daga vikunnar (bls. 16—37); og þar næst enn þrjár ræður: ein heil, sem ætluð er til að flytja á kirkjudagshelgi, og brot af tveimr (bls. 37—53). Ræður þessar eru, að minnsta kosti sumar, ritaðar eptir öðrum handritum, svo fornum, að ritarinn hefir ekki getað lesið þær allstaðar. Enn eru þrjár ræður (bls. 235—251), sem útlista guðspjöll á tveimr Maríumessum og á páskadaginn. Þar að auki eru þar aðrar andlegar ritgjörðir: Um sálmasaung (bls. 98—100); um drottinlega bæn og þýðíng hennar (bls. 112—117); um sjö höfuðsyndir (bls. 117—140); spurníngar[1] lærisveins og andsvör

1) *til sýnishorns um spurningar þessar set eg hèr nokkrar til dæmis:* *sp.* hvar sat guð þegar hann skapaði himin og jörð? *sv.* á vængjum vindsins; — *sp.* hver var elzt borg? *sv.* Ninive með c og xxx manna; — *sp.* hve mörg eru kyn fjaðraðra fugla? *sv.* IV og XC; — *sp.* hve mörg orma kyn? *sv.* XXXVI; — *sp.* hversu mörg börn átti Adam? *sv.* xxx sonu og xxx dætr, fyrir utan Kain, Abel og Seth. o. *s. frv.*

meistara um ymsa hluti (bls. 252—260). Af slíkum fornum ræðum og ritgjörðum um andleg efni eru til mikil söfn í mörgum handritum, og eru margar þeirra ágætar bæði að efni og orðfæri. — 2) Æfintýri eða smásögur hálfandlegs efnis, til að sýna dæmi hegnínga fyrir glæpi og illan lifnað, og nauðsyn á að taka skriptir, gefa ölmusur, gánga til helgra staða o. fl. Þar eru fyrst í flokki átján slík æfintýri (bls. 53—85) og vantar þó í nokkurn kafla, líklega 8 eða 10 blöð; þessi æfintýri eru öll frá útlöndum, helzt af Englandi, Italiu og Frakklandi. Þá er Duggáls leiðsla frá Írlandi, og er það laung saga, hversu engill leiddi Duggál gegnum allar píslir sálnanna (bls. 260—297, og vantar þó í fjögur blöð). Þá er heill flokkr æfintýra með formála fyrir, og eru höfð eptir Jóni biskupi Halldórssyni í Skálholti; virðist þetta vera ritað eptir æfintýrabæklíng, sem saminn hefir verið á Íslandi eptir frásögnum Jóns biskups, „því at sumir menn á Íslandi samsettu hans frásagnir sèr til gleði og öðrum" (skinnb. bls. 300; Fornmanna sög. XI, í Formála bls. 11). Af þessum æfintýraflokki eru nú til 14, er það allr seinasti hluti bókarinnar (bls. 298—340) og vantar þó í að minnsta kosti eitt blað, enda er óvíst nema æfintýrin hafi í upphafi fleiri verið. Þessi æfintýri eru helzt frá Italiu, frá tíma Bonifacius áttunda, en eitt er um Absalon erkibiskup og er það prentað í Fornmanna sögum með Knytlíngu. Það æfintýri er einna skemtilegast sem stendr síðast í bókinni, og segir frá konúngssyni er lærði hjá meistara Mors (Dauðanum) í þrjú ár, og sat þann tíma til fóta meistara sínum þegjandi, en til launa fyrir þolgæði hans kenndi Dauði honum að sjá feigð á mönnum eptir því hvar hann sæi Dauða standa við sæng sjúkra manna, þegar hann vitjaði þeirra; hann kenndi honum einnig að hafa fuglinn Karadius til að eyða sóttum. Af þessu varð konúngsson frægr, og var síðan lengi konúngr, en þegar hann var orðinn hundrað ára skyldi hann deyja. Meistari hans stóð þá að höfðagafli við rúm hans, og það var feigðarmarkið. Þá beiddist hann undan á marga vegu, og tjáði ekki. Seinast fèkk hann frest til að lesa Faðir vor, en hann hætti í henni miðri, og svo varð Dauði að sleppa honum í það sinn, eptir loforði sínu, og lifði hann hundrað ár þareptir. Þá lagðist hann fyrir viljugr, og las útaf Faðirvor og andaðist þegar er hann sagði Amen. — 3) Leiðarvísan, drápukvæði um helgi sunnudagsins; það er prentað allt í boðsriti Bessastaða skóla 1844, útgefnu af Sveinbirni Egilssyni, en hèr í bókinni vanta 10 erindi aptanaf kvæðinu, enda er óvíst hvort þau hafi nokkrusinni hèr rituð verið (skinnb. bls. 85—90). — 4) Hugsvinnsmál, eðr hin svonefndu „Disticha Catonis de moribus", í íslenzkum ljóðum (bls. 140—148). Kvæði þetta er hèr mjög afbakað, og þó á ymsum stöðum merkilegt. Það er prentað eptir öðrum handritum í Boðsriti Bessastaða skóla 1831, og gefið út af Dr. Hallgrími Scheving. — 5) Um stjörnubókar fræði og rímtal; um þetta efni eru bæði smágreinir (bls. 15, 97, 102—103, 103—112) og

mjög laung ritgjörð (bls. 148—234), sem er að efninu til mest samhljóða Rímbeglu, en röðin víða önnur. Ritgjörð þessi er byggð bæði á fornum ritum íslenzkum um þessi efni, svosem á tölu Stjörnu-Odda og Bjarna prests hins tölvísa og Sæmundar prests (hins fróða)[1], svo og á útlendum ritum eptir Elpricus, Macrobius, Johannes af Havilla o. fl., en í þessari bók er án efa allt uppskrifað eptir öðrum íslenzkum bókum eldri, og víða misritað, einkum í latínuglósum og versum, sem ritarinn hefir ekki skilið. — 6) Sumstaðar er skotið inní smágreinum, sem eru allskostar frálausar, svosem bls. 15 er greinin „um silfrgáng á Íslandi", sem er í konúngsbókinni af Grágás, og styrkir það hvað hèr er sagt að framan (bls. 163) að grein þessi sè engin lögbókargrein; bls. 100 um Austrvegs konúnga (vitríngana), sbr. Rímb. III, 32; bls. 100—102 um stórþíng, sbr. Rímb. III, 8[2]. — 7) Skriptaboð Þorláks biskups, þau er hèr eptir fylgja, eru á bls. 91—97, og eru þau með sömu hendi sem á Duggáls leiðslu og miklum hluta af æfintýrum Jóns biskups Halldórssonar; er sú hönd fremr en ekki ófögr, og mjög bundin, en þó föst og vanaleg. Um skinnbókina vitum vèr nú ekki annað, en að Árni Magnússon hefir fengið hana frá Hjalta prófasti Þorsteinssyni í Vatnsfirði fyrir 1702, og er það til vitnis um að menn hafi þá ekki haft miklar mætr á henni, að Árni segir að prófastr hafi skrifað sèr, að „nokkrir meini að í bókinni sè nokkur partr af Rímbeglu".

Hèr er allsendis prentað eptir skinnbók þessari, nema hvað leyst er úr böndum.

---

Þessar skriftir baud Þorlakr biskup firir enar stærstv haufudsyndir.

IX. vetr eda .X. firir hordom þann er karlmenn eigozst uith. eda þann er menn eigo vith ferfætt kuikendi. ath fasta gagnfostor. iij. a huerium misserum. eina firir johannis Messo baptiste. adra firir michielis Messo. þridio firir jola. fosto. ok

1) af því eg hefi ekki orðið var við, að getið sè þeirra orða sem hèr eru eignuð Sæmundi, skal eg hnýta þeim hèr við. Eptir Stjörnu-Odda tal segir svo (bls. 153): „Sá er sólargángr at tölu Stjörnu-Odda norðr á Íslandi" (það er að segja, sem á undan er talinn, sjá í Rímbeglu). — „Í upphafi heims sagði Sæmundr prestr at sól nýsköpuð rynni upp i austri miðju, en túngl fullt á aptni".

2) hèr er þó bætt við fimta stórþíngi i Lateran 1215; er það til bendíngar um, hversu slíkar greinir hafi verið snemma samdar og smásaman auknar, svo að vèr þekkjum nú ekki margt þesskonar, sem er frá tólftu öld, öðruvísi en í handritum frá fimtándu öld eða seinna.

fasta an[n]an huern dag. j uiko huerre. ok ij nætr baud hann ath falla x tigum sinna a knebed. um langa fosto. ok jola fosto huern dag. er eigi ero .IX. lectior. ok syngia jafnioft[1] pater noster. taka rodning fosto dag huern um langa fosto. fim hogg eth fæsta af vende eda oolo suo ath sart uerde uith. uarna uith fiadr klædum odrum eñ hægindi ok suo uith lijnklædum um langa fosto ok suo jola fosto. ok falla nockut a knebed fosto dægr[2] eda uigiliu dægr. ok taka eigi corpus domini um þria uetr. eno næstu efter.

Atta uetra skrift þuilika ef kuongadr madr misþyrmir manzkono med munodlifi ok sie þad bert ordit. eñ nockuot linare ef leynt er. ok taka eigi corpus domini. iij. uetr.

Siav uetra skrift þuilika ef ookuongadr madr misþyrmir manzkono eda[3] ooheimilli kono ok suo ef madr misþyrmir ooheimilli kono iola dag ęda enn atta dag. æda enn þrettanda dag. eda æzstu dægur. langa friadag. ęda pasca dag. eda uppstigningar dag. eda huitdrottins dag. ęda eta menn kiot um la[n]ga fosto. þeir er ærit hafa annat thil. ok firir liug eida alla. þa er mikit liggr uith ok suo ef madr giorir geig j uithskiptum uith kono. kuiknodo barne. ęda misþyrmir madr oheimilli kono a sæng. ok taka eigi corpus domini iij uetr.

IX. uetra skrift þuilika skal bioda ef madr misþyrmir systrungo sinne.

viij uetra skrift ef manni einum er ooskylldara.

uij uetra skrift [ef næsta brædra er.

uj uetra skrift[4] ef manni er firnara eñ næsta brædra. ok nockro linari ok taka eigi corpus domini .ij. uetur.

fim uetra skrift ef annara brædra er ok suo ef madr misþyrmir kono eno lægri dægr um langa fosto. æda ena hæsto um jola. fosto. æda j paska uiku. æda ena helgo uuiku. æda messu dogum j eno hæsta halldi ero. æda jmbrodogum um haust. æda firir stuld þann er eigi er alllitit ok megi eigi aftur giallda. ok suo ef tiundum er leynt ok firir eida oosæra

---

1) = jafn-opt. 2) ð' (dægr *eða* daga), *skinnb.*

3) ookvongadr madr *hefir verið ritað aptr í annað sinn í skinnbókinni, en skafið síðan út.*

4) frá [ bætt inní eptir 625, og er það fallið úr hèr af ritvillu.

þa er eigi liggr allmikit uit[1] ok taka eigi corpus domini einn uetur.

iiij. ꝏra skrift ef kona er manni firnari en̄ annara brædra.

iij. uetra skrift þuilika ef þridia brædra er.

einum manni nanara ath sifium til jafnrar skriftar.

Firir uithskifti þeirra manna ꝏ milli er meinalaust er kallat skal bioda. iij uetra skrift ok iij gagnfost[u]r ꝏ huerium misserum ok fasta þria daga j uiku. ok .ij. nætur. falla ꝏ knebed x tiga sinnum annan huern dag um langa fosto. en̄ annan huern .u. tigum sinnum ok syngia jafnoft pater noster.

iij. uetur skal afallt eftir medan madr skilzt eigi uit ena somo synd.

eigi skal leysa fosto natta fosto. en̄ leysa skal onnor dægr j gagnfostum. ef madr uill falla xtigum sinna ꝏ knebed firir dægur. eda syngia fimtigum sinna pater noster.

Gefa skal ef uill aumingia mꝏls uerd. ęda alin̄ firir .ij. dægr.

þiggia skal leyfi oll med þessi skrift þau er gefin ero.

Suo skulo heilir menn falla ꝏ knebed ath bædi komj nidr hnie ok olbogar.

firir misþyrmslo uith oheimila kono a drottins dag. æda messu dogum laughelgum. eda fostodogum. æda uigiliu dogum. eda lægrum dogum ꝏ jola fosto. æda jolum. æda er kona hefir uanyfii. æda þa er barn er kuiknat. ęda horfir madr eftir ooheimilli[2] kono til samrædiss eda sier madr uith ath barngetnadr skuli geraz af uithskiftum. skal leggia uith skrift. þa er adr er tind[3] ath syngia fimtigum sinna pater noster ꝏ helgum dǫgum. eda falla ꝏ knebed xtigum sinna ꝏ rwm helgum dogum jafnmorgvm sem hann hefir misþyrmt.

Ef maðr tekr corpus dominj olofat þa skal hann jafn oft eigi taka. ok lata fylgia disciplinam huerio sinne .xu. hogg.

Firir stuld skal bioda auallt aftr ath giallda þad er stolid er ef mꝏ ok bioda þa lijtla skrift adra en̄ ella mikla. firir mikinn stuld ef ei mꝏ aftur giallda. ok sie meir stolid firir illzku sokum en̄ uesalldar. fostor skal bioda firir stuld ok rꝏdning. bænahalld ok knebediafoll. enda leysa skrift nockra un̄z golldit er þad er stolid er.

Meira skal bioda ꝏ uallt firir jafna synd audgum en̄ aum-

1) á spáziu. 2) sl. 625. 3) tynd, *skinnb.*

um. meira heilum eñ uanheilum. meira lærdum eñ oolærdum. meira meir uijgdum eñ midr uijgdum. Meira sælum. eñ ueslum. Meira eldrum eñ tuitogum. eñ þeim[1] er yngri ero.

Firir þad skal minzst bioda. þess er j lostaseme er misgert ath uakanda mannj. ef hann saurgaz af blijdlæti uith kono. Meira ef madr saurgaz af hondum sijnum sialfs. Meira ef madr saurgaz af trie borodo. mest ef madr saurgaz af annars karlmanz hondum. Firir þessa hluti skal bioda knebediafoll ok bænahalld um langafosto. ok nockut af gagnfostum.

ef konor eigaz uith þangat thil er þeim leysir girnd. skal bioda þuilika skrift sem korlum þeim er enn liotazsta hordom fremia sijn amillum. ęda þann er framdr er uith ferfætt kuikendi.

Ef madr spyr a paskum. ęda þa er hann hefir nyliga adur tekit corpus dominj þott eigi sie a paschcum. þa skal bioda ath fasta sex dægru eina. ef af ofati eino saman þikir uera. ok ongri annari uanheilsu.

Tolf alnir uadmals baud þorlakr biskup presti ath gefa ef hann slær kalek nidr sijdan er sungit er qui pridie ef a alltari kemur. eda ueiti fatækum mannj halfan manud. ok þvoj prestr j uatnj duka þa sem a kemr ok neyti sialfur eftir berging eñ brennj huar sem annarstadar kemr.

Ef madr misþyrmir mod[u]r sinne. eda dottur. eda systur. eda þeirre kono nocquore er nanare er eñ systrvnga ath frændzseme. eda sie þui lik mein a ath sifium eda uerdr misþyrmt kirkiu. ęda helgum stodum. ęda uekr madr kristnum monnum heiftar blod. ęda misbydr j nocquoro miog kennjmonnum. ęda boluar madr fodr sijnum. ęda mod[u]r. [ęda modir] barnj sijno. ęda gudlastar madr. ęda tekr madr naudiga kono berliga. eda sitr madr wti til frodleiks. eda fremr madr galldra. ęda þa hluti nocra er magnadir sie. ęda fremr madr þa hluti nocra er heidne sie. þa skal biskup skepia skriftir þott presti verdi helldr thil sagt. eñ biskupi.

ef prestr syngr Messo suo ath hann hefir eige þessa reido til alla. ametto. ok messoserk stolo ok hokol. handlijn corporal kalek ok patijno. vijn ok uatn. oblato. uijgdan alltaris stein fastan eda lausan. ok bækr suo hann biargiz uith ok lios ok .ij. menn fastandi adra eñ hann sialfur. eda hafi prestr

1) *eptir getg.;* þess, *skinnb.*

bergt a envm sama deigi adr en hann hafi Messo sungit. eda sungit a einum deige fleire messur en tuær eda lati prestr sem hann syngi Messo. þa er hann syngr eige. eda ero berliga brotin guðs bodord. ęda biskupa. þa skal biskup skript skepia. en prestr bioda ef presti er til sagt. syngia skal messo. þott alltarisdvkr sie oouijgdr eda lindi. eda suo þott eigi sie uaxlios ok sie þad eige firir ohlijdne sokum ok skal fylgia litil skrift.

ef gleymiz nona. eda onnor dagtijd þa skal syngia tijdena þegar j hug kemur ef ma. ok lata fylgia beati jmmaculati allan.

---

## 44. [1179]. at Rauðalæk.

Máldagi [Þorláks biskups Þórhallssonar í Skálaholti] fyrir Maríu kirkju að Rauðalæk í Litlahèraði í Skaptafells þíngi.

Svo er fyrir skipað í Kristinrètti hinum forna (1123), að þeir er kirkjur varðveita skuli láta gjöra máldaga á skrá um allt það fè sem til kirkna er lagið, hvort það er heldr í löndum eða búfè, eða lausum aurum, eða tíundum, og var þeim rètt, er kirkju varðveitti, að bera þann máldaga til þíngs og lýsa að lögbergi, eða í lögrèttu, eða á vorþíngi, því er þeir voru þíngheyjendr á; þeir skyldu láta ráða skrá, og lýsa þeim máldaga heima að kirkju einusinni á hverjum tólf mánuðum, þegar fjölmennast voru sóktar tíðir (Thorkel. kap. x, bls. 46; A. M. nefnd. útg. af Grág. kap. 10; Fins. kap. 4, bls. 15). Frá þeim tíma hafa án efa almennt verið gjörðar máldagaskrár kirkna á Íslandi, þó nú sè fáar til svo fornar, og fram á daga Árna biskups Þorlákssonar finnum vèr votta til, að þesskonar skrár hafi verið bornar í lögrèttu; en í Kristinrètti hans finnum vèr ekki um þetta neina skipun, og munu biskupar ávallt síðan hafa einir borið umhyggju fyrir máldögum öllum; þar af leiðir, að flest það sem eptir er af hinum fornu kirkna skrám er komið inn í máldaga biskupanna, og verðr það nú ekki aðgreint, þó menn geti leidt nokkur rök til að sumt sè fornt í máldögum þessum.

Þó eru til enn fáeinar máldagaskrár, sem eru svo fornar, að þær eru augljóslega frá þessum tímum. Nokkrar þeirra eru sýndar hèr að framan í safni þessu, en nokkrar munu fylgja eptir, og er ein af þeim þessi máldagi Rauðalækjar kirkju, er eg eigna Þorláki biskupi hinum helga.

Synir Heyjángrs-Bjarnar, hersis úr Sogni, fóru út til Íslands á ofanverðri landnámstíð. Ásbjörn dó í hafi, en Þorgerðr kona hans og synir þeirra námu land milli Kvíár og Jökulsár (Skeiðarár), og bjuggu á Sandfelli, Knappafelli og Svínafelli,

þar sem nú er kallað í Öræfum en þá var kallað í Hèraði, eða í Litlahèraði. Helgi, bróðir Ásbjarnar, bjó að Rauðalæk í landnámi þeirra. Bárðr, þriði son Heyjángrs-Bjarnar, nam fyrst Bárðardal nyrðra, en fór síðan suðr um fjöll og nam Fljótshverfi allt, þar við hlið frænda sinna fyrir utan Skeiðará (Landn. IV, 10) og bjó að Gnúpum. Freysgyðlíngar á Svínafelli urðu síðan höfuð þessarar ættar, og Rauðlækíngar voru önnur helzta ættin í þessum sveitum.

Þegar Þorlákr biskup hinn helgi kom út til stóls síns (1178) sat hann fyrsta vetr um kyrt í Skálholti, en um sumarið eptir (1179) bóf hann yfirferð sína til Austfjarða (Þorl. s. hin yngri kap. 18; Bisk. s. I, 280). Þá hóf hann og fyrst tilkall til umráða yfir stöðum, þ. e. þeim jörðum sem kirkjur stóðu á, og heimajarðir voru gefnar til, og yfir öllum kirknafjám. Hann kom þá fyrst að Svínafelli, og kúgaði fjárráð kirkjunnar þar af Sigurði Ormssyni; hann befir þá verið mjög úngr. Þaðan fór biskup til Rauðalækjar; þar bjó Ormr hinn gamli, líklega Ormr Svínfellíngr binn eldri, faðir Sigurðar; lagði hann einnig kirkjuforræði undir biskup, og þá ætla eg að máldagi þessi hafi verið gjörðr. Þaðan fór biskup til Austfjarða, og segir sagan svo frá, að hann hafi náð í þessari ferð yfirráðum yfir öllum stöðum fyrir austan Hjörleifshöfða, nema að Þvottá og Hallormstöðum, og hafi það haldizt síðan. En fyrir sunnan og vestan urðu yfirráð biskups í þetta sinn miklu minni, fyrir sakir mótstöðu Jóns Loptssonar og annara höfðíngja, svo sem segir í Þorláks sögu.

Rauðalækr var lengi eptir það kirkjustaðr, og hinn helzti í því hèraði sem kallað var Litlahèrað, eða, eptir því sem menn segja almennt, Litlahèrað og Stórahèrað (Breiðamörk), milli Jökulsár á Breiðamerkrsandi (Breiðár) og Skeiðarár. Um 1340 er saminn annar máldagi Rauðalækjar kirkju, sem enn er til, en ekki laungu þar eptir (1362) kom hið mikla eldgos og jökulflóð úr Knappafellsjökli, sem er austrhluti Öræfajökuls, og eyddi Rauðalæk og allt hèraðið þar í kríng; er það eitt hið mesta tjón, sem orðið hefir að einu eldgosi á Íslandi. Um þetta tjón er merkust frásögn í fornum annál frá Skálholti (Nr. 423. 4to í safni Árna Magnússonar), sem er ritaðr seint á fjórtándu öld; þar segir svo: (1362.) „Elldr vppi j .iij. stoðvm fyrir sunnan. oc hellz þat fra fardogum til hauz. með sua myklum bysnum. at eyddi allt litla herað oc mikit af horna firði oc lons huerfi. sua at eyddi .v. þingmannaleiðir. her með hliop knappafellz jokull fram j sio. þar sem uar þritugt diup. með griotfalli. aur oc saur. at þar urðu siðan slettir sanndar. tok oe af .ij. kirkiu sokner með ollu. at hofi oc rauðalæk. sandrinn tok j miðian legg a slettu. en rak saman j skafla. sua at uarla sa husin. Oskufall bar norðr um land. sua at sporrækt uar. þat fylgdi oc þersu at uikrinn saz reka hronnum fyrir uestfiorðum at uarla mattu skip ganga fyrir. [oc iamuel uiða fyrir norþan[1]". Í Hóla annálum (Á. M.

[1]) þessi orð frá [ hafa staðið utanmáls, og mun annar hafa bætt þeim við.

412 og 410. 4to), sem þorlákr biskup Skúlason hefir látið rita, án efa eptir öðrum eldri, segir svo: (1362). „Elldz vppkvoma i VI (úr: iij?) stoðum a Jslandi, j Austfiorðum sprack j sundur knappafellz jokull og hliop ofan a Lomagnups sand so að af tok vegu alla[1]. A su i Austfiorðum er heitir Vlfarzä hliop a stað þann er heiter að Rauðalæk og braut niður allan staðinn. suo að ecki hus stoð epter, nema kyrckian". Til þessa lýtr frásögn síra Jóns Egilssonar í Biskupa-annálum (Safn til sögu Ísl. I, 32), þó hann sýnist vilja setja viðburð þenna ekki seinna en 1348; hann segir að það hafi verið „sögn og ræða manna, að á tímum þessara vij síðustu biskupa (1216—1348) hafi það skeð, að jökullinn hafi hlaupið austr í Öræfum, og tekið af á einum morni og í einu flóði XL bæja, en VIII hafi eptir staðið, sem nú standa, og þar komst enginn maðr undan, utan prestrinn og djákninn frá Rauðalæk, — það er nú eyðijörð fram undan Sandfelli, — og kirkjan stóð þar um allt flóð, en var þó ekki gjörð utan af trè; hún er nú komin til Sandfells, og það hafa menn sagt, að þar sjáist víða enn merki til bæja, bæði grjót og hellur". — Í annálum Einars prests Hafliðasonar († 1393, XC ára gamall), sem kallaðr hefir verið lögmanns annáll (AM. 420. 427. 4to) er talin 1367: „Elldz uppkvoma j litla hieraði ok eyddi allt hieraðit", og þetta er aptr tekið orðrètt í annað annálsbrot frá 16. öld (AM. Nr. 429. 417. 4to) og fært til ársins 1366 með þessum orðum: „Elldz uppkoma i litla hieraði, og eiddi allt hieraðit. haufðu þar aður uerit LXX bæer. lifdi eingin kuik kind epter. utan ein aulldrut kona og kapall". Það er auðsætt, að þessi frásögn er rituð laungu eptir viðburðinn, eptir sögusögnum, og svo eru munnmæli enn í dag, að í flóði þessu hafi eyðzt tvö hèruð: Stórahèrað og Litlahèrað, og hafi farizt LXXX bæja.

Það mun varla vera að efa, að árið 1362 sè rèttast talið til þessa viðburðar (sbr. Ferðabók Eggerts og Bjarna bls. 783—787), og árin 1366 og 1367 einúngis komin fram af gáníngsleysi annálaritara á fimtándu öld og þareptir, en vafasamara er um eldgosið 1350[2]. Þeir fornir annálar sem geta þess eru einúngis tveir: Skálholts annáll hinn forni og hinn svonefndi Flateyjar annáll, sem er saminn í Víðidalstúngu, eða ef til vill í Þíngeyra klaustri. Í Skálholts annál stendr svo: (1350). „Elldz vppkvoma . . . . (eyða fyrir staðarnafninu) . . . . myrkr sva mikit at eigi sa vegv vm miðdegi"; en Flateyjarannáll segir: (1350). „Elldz uppqvama j Hnappafells Jökle oc myrkr sva mikit at

1) í Árbókum Espólins er þessi grein talin til ársins 1362, en söguna um eyðing Rauðalækjar (Esp. kallar Rauðabæ á einum stað) tekr hann eptir Jóni presti Egilssyni, og heimfærir til 1350.

2) í Safni til s. Ísl. I, 32 athgr. 5 er sagt, að Skálholts annáll hinn forni hafi þenna atburð 1349, og svo stendur í íslenzkum Annálum (Hafn. 1847. 4to. bls. 282), en í frumriti annálsins er viðburðr þessi talinn við árið 1350, eins og í Flateyjar annál.

eigi sa vegu um middegi. aleyddiz allt Litla herat". Það er auðsætt á þessu, að eptir Skálholts annál verðr ekkert tilgreint um hvar eldgosið 1350 hafi verið, en Flateyjar annáll er ef til vill samsettr af tveimr, og er þá tvennt til, annaðhvort að það sem við er bætt sè komið af misskilníngi ritarans, eða að eldgosin hafi verið tvö úr Knappafellsjökli, annað 1350, sem hafi eydt mikið af Litlahèraði, en annað 1362, sem hafi eydt Rauðalæk, og mest allt það sem eptir var hèraðsins.

Í Wilchins máldögum (1397) er ekki talin kirkja að Sandfelli, og getr það að vísu komið þar af, að kirkju þeirri sè sleppt, því ekki eru taldar í þeim máldögum, heldr en öðrum, allar kirkjur þær er þá voru uppi; en vera kann einnig, að allt hèraðið milli Skeiðarár og Fellshverfis hafi lagzt í eyði eptir þetta hið mikla flóð, og ekki byggzt aptr fyr en eptir svartadauða. Í máldagabók Gísla biskups Jónssonar (Gíslamáldaga) er Sandfells kirkja talin, og þar er ritaðr máldagi eptir Rauðalækjar kirkju máldaganum hinum ýngra, og sagt um leið, að Sandfell sè komið í staðinn fyrir Rauðalæk, sem sè fyrir laungu af fallinn. — Í jarðabók þeirri, sem Ísleifr Einarsson sýslumaðr samdi fyrir Árna Magnússon 1709, er sagt svo frá Rauðalæk: „Rauðilækr segist að fornu heitið hafi kirkjustaðr, sem verið hafi upp undir falljöklinum, en nú komið í aura og sèst ekkert til; er almennt tal, að allar hans eignir hafi lagzt til Sandfells kirkju".[1]

Máldagi þessi er hèr prentaðr eptir afskript einni í safni Árna Magnússonar, meðal hinna lausu brèfa-afskripta úr Skaptafells sýslu. Þessa afskript hefir Árni látið gjöra, sem hann sjálfr segir, „Epter qvere tilheyrande Sandfells kirkiu i Ȯræfum, er i 16. blaða forme halft af kalfskinne; halft af pappir með gamalle skrift". Þó hefir skrá þessi ekki verið eldri en frá síðara hluta fimtándu aldar, sem af stafsetníngu hennar má sjá, og Árni sjálfr bendir til með þessum orðum: „Bokfelleð (kalfskinneð) er ei eldra eñ so að þar ï eru: i. ie. ur. og. að; Imò er það yngra, eñ að þetta argument þurfi til að koma". — Seinast í kveri þessu hafa verið tíundareikníngar Öræfínga frá árunum 1572—1576.

Hèr er í öllu fylgt afskriptinni, þeirri er nú var getið, nema að því leyti sem leyst er úr böndum, og er þó ekki mikið bundið í þessari skrá.

---

1) eptir ágripi Jóns sýslumanns Guðmundssonar 1814 af jarðabók Ísleifs, er þá var í sýsluskjölum Skaptafells sýslu; það væri heppilegt ef þessi jarðabók Ísleifs væri heil til enn, því í jarðabókasafn Árna Magnússonar vantar Skaptafells sýslur báðar og Múla sýslur báðar, og væri vel hugsanda að þær sè til eystra enn í dag, ef því væri gaumr gefinn að leita þeirra.

Mariu kirkia su er stendur ad rauda lęk ꜳ heima land allt og hladna hollt langanes og backa med ollum gęđum. eyrar allar þęr er holum hafa fylgt. þria hlute í Ingolfs hofda. Enn tvo hlute ꜳ sꜳ er byr ꜳ eyrar horne[1]. kirkian ꜳ halfa ueide[2]. hun ꜳ einge teig i gegnis holum. XXX. hrossa skal hafa i kross holltz land fra raudalęk będe vetur og sumar. xv. yxna gamalla i hola land. xl. gelldinga annars hundrads skal hafa i fiallz land. þridie afriettur er ꜳ kviꜳr myre. Skoga alla þa sem eru ut fra sauda bols skoge[3] til skogs þess er fylger skammstodum. Einn skogar teigur er inne i dal i iokuls felle. Ostgialld er til rauda lękiar um allt hierad mille breidar[4] sandz og loma gnups sandz. kirkian ꜳ xv. kyr. og v. kugillde i gelldum nautum. niutige ęr og fimm kugillde i gelldum saudum. xij^c i metfie. L. hundrada i messu skruda. og er allt til virt. þing þau sem eru i milli graf brecku og jokuls ꜳr og kirkiu tiunder. nema fra sanda felle[5]. liggia til stadar at rauda lęk. Vm stadar fiorur er af því eigi greint ad þęr einar eru er ꜳdur eru i logrettu hafdar. Enn þęr vidkvomu er langanese fylgia.

Su er af vinna af fie þessu. at hafa presta ij. og diakn. þar [skal eigi sialldnar syngia en .ij. messor[6] um sinn i hverre viku. og alla vigillu daga og imbru daga. hvern dag um langa fostu og annan hvern um jola fostu.

kirkian ꜳ fioru mille kviꜳr og hamra enda. halfa uid sandfellinga. ꜳdra fioru ꜳ hun ein fyrer sunnan kviꜳ til ein-

---

1) *um Eyrarhorn stendr svo í jarðabók Ísleifs sýslumanns:* „Eyrarhorn segist heitið hafi að fornu kirkjustaðr út í leirum fyrir utan Hof; sèst nú ekkert þartil; segja menn almennt, að hans eignir hafi lagzt til Hofs kirkju".

2) *i hinum síðara máldaga Rauðalækjar* (um 1340) *stendr:* kirkian á fuglberg allt í höfðanum; *mun því hèr vera svo að skilja, að nú hafi hún átt þar einúngis hálfa veiði, en fengið síðar hálfa.*

3) *í hinum síðara máldaga Rauðalækjar kirkju* (1340) *stendr:* Sanda bóls skógi.

4) *þ. e.* Breiðársands (=Breiðamerkrsands).

5) *yfir línunni er ritað* u, *svo sem lesa mætti* Sanda felle, *en í línunni er* Sauda felle, *og er það rángt* Sandafell *er það sem nú heitir* Sandfell í Öræfum, *og er nú kirkjustaðrinn, síðan þángað var flutt kirkjan frá Rauðalæk.*

6) *frá [ eptir getgátu;* skulu eigi sialldnar .ij. m°a enn, *handr.*

angra. þridiu fioru oc hun fyrer eyrar horne. ij hlute allz reka uid sandfellinga. Enn af afname áttung í matreka[1].

---

## 45. [1179]. í Mýnesi.

Máldagi [þorláks biskups þórhallssonar i Skálaholti] fyrir Nikolaus kirkju í Mýnesi í Eyða þínghá.

Eptir máldagabókinni frá Skálholti í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík D 12, bl. 130 (sbr. Nr. 24), og ætla eg máldagi þessi muni vera saminn í þeirri ferð þorláks biskups til Austfjarða, sem getið var við Rauðalækjar máldaga hèr næst á undan. Í Mýnesi var hálfkirkja um 1600, en jörðin er nú bændaeign (Johnsens Jarðatal, bls. 369).

---

Mynes.

Nicholas kirkia j mynese a x hundruð j lande. þar skal syngia annan hvarn dag loghelgan. ok enn fiorþa hvern ottu song ok kaupa þrim morkum ok skal heima tiund. sa skal hafa heimilis prest er byr j mynese ef hann vill. enda misse enge annur kirkia. Lysa skal þar fra Mariu messu vnz liþr paska vikv fyrir þa daga alla er sungin er messa epter um daginn.

---

## 46. [1179]. á Streiti.

Máldagi [þorláks biskups þórhallssonar i Skálaholti] fyrir Germanus kirkju á Streiti í Breiðdals þíngum.

Streiti eða Stræti hefir heitið nesströnd sú sem liggr millum Breiðdalsvíkr og Berufjarðar; það land nam Skjöldólfr og bjó á Streiti. Son hans hèt Háleygr, og er þaðan komin sú ætt sem heitir Háleygja ætt (Landn. IV, 7).

---

1) vera kann að þessi seinasti kafli, um rekana, sè sú skrá sem nefnd er i máldaganum að hafi verið borin i lögrèttu, og hafi upphaflega verið skrá sèr i lagi, og eldri en máldaginn.

Sá máldagi sem hèr fylgir ætla eg sè einn af þeim, sem saminn hefir verið í yfirferð þorláks biskups um Austfjörðu sumarið 1179. það er eptirtektar vert, að máldagi þessi helgar kirkjuna Germanus biskupi hinum helga, og er það ekki kunnugt að honum hafi verið helguð kirkja annarstaðar á Íslandi. Fjórir helgir menn hafa borið þetta nafn, en líklegast er, að sá Germanus sem hèr er nefndr sè sá, sem var mest tignaðr á Frakklandi, og er það vottr þess, að þorlákr biskup hafi minnzt veru sinnar í Parísarborg. Sá Germanus var biskup í Auxerre (Antissiodorum) og er dagr hans haldinn 31. Juli. þegar sagan segir, að þorlákr hafi farið austr „um sumarið" lætr það nærri, að hann hafi getað verið á Streiti á Germanusdag 31. Juli, og að þá hafi kirkjan verið helguð og máldaginn settr.

Máldaginn er prentaðr hèr eptir tveimr afskriptum; er önnur þeirra í máldagabókinni frá Skálholti, í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, D 12 bl. 130; en önnur í máldagabókinni í safni Árna Magnússonar Nr. 263 Fol. bls. 98, sem er rituð um sama leyti og hin, um 1600, og mun henni verða ítarlegar lýst hèr á eptir (sjá Nr. 49); í þeirri bók er máldagi þessi kallaðr „gamall máldagi".

þegar Wilchins máldagi var saminn (1397) voru „bænhúsfè" frá Streiti komin að Heydölum, og jörðin orðin kirkjujörð þaðan, og svo er enn (Johnsens Jarðatal, bls. 378).

---

Streite.

GeRmanus[1] kirkia a Streite a land þat allt. kyr .ij. ok ær .xx. ok fiortan avra j busgognum. ok skal fylgia kvengilldr omage fiǫm þessum. þar skal syngia .ij. messur hins fiorþa tigar loghelga daga. en til erv skilder j þessvm song kyndilmessa. mariu messa hin fyrre ok annaR dagr paska. þar skal syngia viij daga rvmhelga ok er j þvi tale ösku dagr ok Germanus dagr. þessar tiðir skal kavpa tveim morkvm vadmala. ok liggr hon vndir heydala kirkiv ok þangat skal tivnd giallda. lysa skal of vetrinn fyrir þa daga er svngin er messa epter vm daginn.

---

1) Geirmanus, *D 12*.

## 47. [1179]. í Keldudalsholti.

MÁLDAGI [þorláks biskups þórhallssonar í Skálaholti] fyrir Nikolaus kirkju í Keldudalsholti í Sólheima þíngum.

þessi máldagi er augljóslega samkynja þeim, er hèr á undan og eptir eru heimfærðir til þorláks biskups hins helga, og er hann prentaðr eptir hinni sömu máldagabók frá Skálholti, sem opt er getið, og nú er í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, D 12 bl. 130.

Keldudalsholt heitir nú Keldudalr, og hefir verið kallaðr svo lengi, því í Sólheima máldaga hèrumbil 1340 er það nafn komið upp. Keldudalr er nú bændaeign (Johns. Jarðat. bls. 14); hefir þar nú ekki verið kirkja í ærið lánga tíma.

---

Keldu dals holt.

Nicholas kirkia j kelldu dals hollte. a. x. hundruð j lande. fiorar kluckur. gloþa ker. tiolld umhverfis sik. salltara ok allan sinn buning. þangat skal syngia annan hvarn dag loghelgan. ok enn fiorþa hvern ottu song. ok skal kaupa song þann ij morkum vaðmala ok skal sækia prest j eyena hǫ[1] um vetr með hest. ef eigi ma þurt[2] ganga a mille. heima skal tiund. Lysa fra Mariu messu vnz liðr paskavikv. fyrir alla þa daga er syngia skal eptir.

---

## 48. [1179]. á Sólheimum.

MÁLDAGI [þorláks biskups þórhallssonar í Skálaholti] fyrir Maríu kirkju á Sólheimum í Mýrdal í Skaptafells þíngi.

þessi máldagi er prentaðr hèr eptir máldagabókinni frá Skálholti í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, D 12 bl. 130; er hann þar í flokki með máldögum þeim sem hèr eru tilfærðir áðr, og ætla eg því hann muni vera saminn í hinni sömu yfirferð þorláks biskups.

---

[1]) eyin hǫ = Háey; það mun án efa vera sú sem nú heitir *Pètrsey*.
[2]) þurft, D 12.

Sólheimar þessir sem hèr eru nefndir eru Sólheimar ytri í Mýrdal (Johnsens Jarðatal, bls. 15), og er þar nú bændakirkja og þíngabrauð.

Solheimar.

Mariu kirkia a solheimum a halft land ok .x. hundroþ j klęðnaðe ok j busgognum. kyr .x. ok .xxx. a. fern messo [klęþe]. kluckur .v.

þesse er afvinna. þar skolo vera prestar .ij. eþa diakn ella. ok messa hvern dag .ij. messur ok salu tiðer einn dag j viko. ok sua vigilin d[aga]. annan hvarn dag of jola fosto ok sva of niu vikna fosto. hvern dag of langa fosto.

Brottsongr j kelldu dals hollt. annan hvarn dag loghelgan ok enn fiorþa hvern ottu song. ok sækia prest a vetr hinn þriðia hvern dag til fellz. en .xij. messur a solheima ok .xij. messur til Huals.

## 49. [1179]. i Miðarnarbæli.

Máldagi [þorláks biskups þórhallssonar í Skálaholti] fyrir Mariu kirkju í Miðarnarbæli undir Eyjafjöllum í Rángár þíngi.

það sem hèr heitir Miðarnarbæli er síðar kallað Miðbæli, og svo heitir enn í dag. Arnarbæli undir Eyjafjöllum er nefnt í hinni fornu jarteinabók þorláks biskups (Bisk. s. I, 348—349, sbr. bls. 323), og var þar þá prestsetr, en Miðbæli heitir þegar á fjórtándu öld, svosem í máldaga einum nálægt 1340, sem enn er til, og þaðan af. Nafnið er þessvegna með öðru því til styrkíngar, að máldagi þessi sè mjög gamall, og að öllum líkindum frá tíma þorláks biskups hins helga; tel eg hann því til sama árs sem yfirferð hans var til Austfjarða. Til eru aðrir máldagar ýngri fyrir Miðbæli, sem munu verða taldir á sínum stöðum. Kirkjan í Miðbæli heyrði á seinni tímum undir Eyvindarhóla, og var aftekin með konúngsbrèfi 17. Mai 1765 (Lagas. handa Ísl. III, 525). Nú er jörð þessi bændaeign (Johnsens Jarðatal, bls. 24).

Oddr biskup Einarsson lèt rita marga máldaga í bækr, og honum eigum vèr nú að þakka að nokkuð er til af hinum fornu máldögum, sem hafa verið í Skálholti allt fram á hans daga, en brunnu að mestu í mikla brunanum í Skálholti 1630. Á minnisblaði einu eptir Odd biskup (1612), sem er í safni Árna, stendr svo: „þetta eru

maldaga bækur sem stadurenn a. fyrst Wilehins Bök j spiolldum med einum spennle. Jtem onnur maldaga skræda stor og þar med tuo afgomul maldaga kuer lytel. þad fylgest ad. Jtem visitatiubok herra Gijsla heitens skrifud a pappyr bunden j huijtt papp. rauð j sniden in 4°. og er sagt Jon heitenn Markusson hafe hana skrifad. Jtem onnur Visitatiu Bok skrifud j langblada kuere j tijd herra Gijsla vm kirekiu eignernar." Af þessum orðum megum vèr þó enganveginn álykta, að ekki hafi verið til aðrar máldagaskrár í Skálholti en þessar, því til er enn brot af Stepháns máldaga, Jón prestr Egilsson og aðrir nefna Michaelsmáldaga, og Bjarni Marteinsson, sem hefir ritað bókina D 12, 1601, nefnir einúngis kver og blöð. Visitatiubók Odds biskups sjálfs var og til, og brann hún 1630 (Skarðsár Annálar). Það er því efalaust, að mikið hefir tapazt, og enn meira komizt á rínglreið, því miklu örðugra er að raða máldögunum niðr eptir afskriptunum, heldr en eptir frumritunum, hefði þau verið nú til; en eigi að síðr er þetta, sem frelsazt hefir í afskriptunum, harðla merkilegt í alla staði. Frá bókum þeim, sem Oddr biskup hefir látið rita, eru komnar allar þær afskriptir af Wilehins máldögum sem vèr þekkjum nú. Sama mun vera að segja um Gísla máldaga, og af máldagasöfnum eptir ymsa biskupa eru til tvær bækr, sem eru báðar ritaðar á hans tímum, önnur hèrumbil 1598 og önnur 1601. Þessi hin síðari er sú, sem opt hefir verið getið, að nú er í safni Steingríms biskups í stiptsbókhlöðunni á Íslandi, D 12 (sjá lýsíng hennar að framan Nr. 24, bls. 167); en hin er í safni Árna Magnússonar Nr. 263 Fol. Um uppruna og samband bóka þessara verðr nú lítið sagt með vissu, nema það, að þær hafa báðar samanlagðar enganveginn tæmt allt það máldagasafn, sem til var í Skálholti þegar þær voru ritaðar. Bók Árna (Nr. 263) hefir ætlað að steypa saman öllum máldögum, en hefir ekki komizt á miðja leið með það. Hin bókin (D 12) hefir tínt úr ymsum blöðum og kverum (sbr. bls. 168), og mun því meðal annars hafa líklega afskriptir af því, sem hefir verið á þessum tveimr „afgömlu" máldagakverum, er Oddr biskup nefnir. En fyrir því, að stóra „máldagaskræðan" hafi verið skrifuð upp, höfum vèr enga vissu, nema vèr gizkum á, að hún hafi verið öll í blöðum og þau blöð sè það sem Bjarni Marteinsson kalli svo (D 12). Máldagabókina Nr. 263 hefir Árni fengið „frá Bæ (Gaulverjabæ) í Flóa", og hefir hún heyrt til handritasafns þess, er Torfi prófastr Jónsson átti í Gaulverjabæ, og fèkk eptir Brynjólf biskup Sveinsson; hefir því bók þessi verið í Skálholti allan tíma Brynjólfs biskups. Bókin er nú alls 107 blaðsíður í arkarbroti, og þó sumar auðar, rituð með skýrri og laglegri settletrs hendi, eigi mjög bundinni. Það hefir í upphafi verið ætlan þess sem ritaði bókina, eða Odds biskups, sem mun hafa skipað fyrir því, að rita alla kirknamáldaga í Skálholts biskupsdæmi í þessa bók, eptir röð kirknanna, þannig, að allir máldagar sem til væri um sömu kirkjuna skyldi

standa saman; er svo byrjað að austan, á Möðrudal og Skeggjastöðum og Hofi í Vopnafirði, og haldið síðan suðr eptir. Það hefir einnig verið ætlan ritarans, að hafa alkirkjur í einum flokkinum, en hálfkirkjur og bænhús í öðrum, og svo klaustrin seinast. Utanmáls hefir ritarinn sett eptir hverju máldagarnir sè, en það er illt, að hann hefir verið mjög lítt kunnugr því efni; verðr það því helzt Wilchins máldagar og máldagar Stepháns biskups sem hann þekkir eða aðgreinir með vissu, enda er það og betra en ekki, en hitt er allt kallað „gamall máldagi" eða „forn máldagi", eða „gömul máldagaskrá", og einstöku sinnum „gamallt brèf" eða „afgamallt"; sumstaðar er og engin slík einkenníng; en „gamall máldagi" er eins kallaðr sá, sem er fra tíma Ögmundar biskups, einsog sá sem er frá fjórtándu öld, svo nú verðr maðr að álykta um það eptir öðrum merkjum hversu gamall hver máldagi sè. Þó er það lakast, að ritarinn hefir bæði hleypt úr máldögum sumra kirkna, sem hann hefir þó líklega ætlað sèr að taka ef honum hefði ekki annaðhvort sèzt yfir þá, eða ruglazt í öllu því safni sem fyrir honum hefir legið, og að hann hefir þar að auki annaðhvort hætt í miðju kafi, eða ekki enzt til að rita alla máldaga stiptisins eptir sinni fyrstu fyrirætlan, svo að alkirkna máldagar ná ekki nema að austan og suðr í Rángárvalla sýslu (bls. 1—42); þar eptir eru nokkur blöð auð (43—48). Síðan er um bænhús og hálfkirkjur: *a*) í Árness sýslu (bls. 49—56); *b*) í Rángárvalla sýslu (bl. 57—60); *c*) í Kjalarness þíngi (bls. 61—68); *d*) í Þverár þíngi (bls. 69—72); *e*) í Þórness þíngi (bls. 73—78); *f*) í Þorskafjarðar þíngi (bls. 79—82). Þá er um klaustrin: Þykkvabæ, Kirkjubæ og Skriðu (bls. 83—90); þá um Vestmannaeyjar (bls. 91—92). Eptir það koma aptr hálfkirkjur í Skaptafells þíngi (bls. 93—96) og í Múla þíngi (bls. 97—100). Að lyktum er Helgafells klaustr og Viðeyjar klaustr (bls. 101—108). Um aldr bókarinnar vottar svo í henni sjálfri, að hún sè „samanskrifuð eptir gömlum máldögum Anno 1598". Á stöku stöðum hefir Oddr biskup ritað sjálfr, einsog sèr til minnis, mun hann því hafa átt bók þessa í upphafi, og ætlazt til að hafa hana daglega sèr við hönd, þegar þyrfti fljótt til að taka að skoða máldaga kirkju einhverrar eða klaustrs.

Máldagi sá sem hèr fylgir er á bls. 98 í þessari bók, og kallaðr þar „gamall máldagi", er hann ritaðr innanum „hálfkirkjur í Múla þíngi", og kemr það af því, að ritarinn hefir ekki kannazt við bæjarnafnið, eða hugleidt hvar það gæti verið, mun hann og hafa villzt á máldaga Streitis (Nr. 46 hèr fyrir framan), því sá máldagi fylgir næst eptir í bókinni, og er það til styrkíngar því, að þessir tveir máldagar hafi í upphafi átt saman og sè samtíða.

Stafsetníngin í bók þessari er að sumu leyti fornleg, og er henni að því leyti fylgt hèr, en hinu er nokkuð breytt, sem bersýnilega er frá ritaranum komið.

---

Mariu kirkia j Miðarnarbæli a halft heima land ok .xij. hundrut j oðrv lage. kirkiv tiolld oll. ok kluckur .ij. ok skrin. kaleka .ij. prest messo fot tvenn. slopp einn. alltaris klæði fiogur. gunnfana .ij. gloþa ker. munnlaugar .ij. kerta stikur .iij. stola þria ok skirnar sa. ok vatn skiolv ok vatnker. Aspiciens bok of vetr ok kristinna laga þatt. Roðv krossa .v. slikistein ok ellz virke.

þar skal vera prestr ok diakn. en kvengilldr vm[a]gi ef eigi fær diakn.

þar skal lysa fra mariv messv hinni fyrri fyrer log helga daga til ennar siðaRi mariv messo. en hveria nott þaðan fra vnz liðr paska vikv.

þa[r] skal syngia hvern dag messo er gioR er til. aNan hvarn dag þess a mille. hvern dag of jola fostv. aNan hvarn dag .ij. messor of langa fosto ok vigilia hvern aptan. Tvær messor hver[n] fostv dag j imbro dogum a haust ok fyrer jol ok með vigilia. Tiund heima manna liggr til kirkio ok af næsta bæ ok fra Ravfarfelle env vestra ok syngia þangat .xij. messor.

---

## 50. [1179]. at Ásólfskála.

Máldagi [Þorláks biskups Þórhallssonar í Skálaholti] fyrir kirkjunni að Ásólfskála hinum austasta undir Eyjafjöllum.

Af sögunni um Ásólf hinn kristna sjáum vèr, að snemma hefir verið bygð kirkja á Ásólfskála hinum austasta undir Eyjafjöllum (Ísl. sög. 1843, I, 50 athgr. 1), og eru til nokkrir máldagar þeirrar kirkju, en sá er elztr sem hèr fylgir eptir, og heimfæri eg hann til tíma Þorláks biskups, á því ári sem hann fór um Austfirðínga fjórðúng. Nú er jörð þessi bændaeign kölluð (Johns. Jarðatal, bls. 25).

Máldagi þessi er hèr prentaðr eptir máldagabókinni frá Skálholti, sem nú er í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík í safni Steingríms biskups, D 12 bl. 54 (sbr. Nr. 24, bls. 167—169 að framan).

---

Asolfs skale.

Sa er kirkio maldage at Asolf skala at hon a halft land ok kyr .vj. ok griþung vetrgamlan. kluckur .iiij. ok tiolld vm

huerfis. silfr kalek ok ein messo fot. þrenn alltara klæþe. v. kerti sticur. munnlogar .ij. gloþa ker ok gunfana[1]. iij bœcr. salltari ok jam̄ leiñdar scra[2] ok mal boc[3]. Her skal heima tiund manna til leggiask ok fra ásolf scala inum nęrra[4]. ok fra gnupe. ok þangat skal skylt at syngia inn fiorþa hvern dag loghelgan messo ok dag j viko of langa fosto salo messo nema ino fyrsto ok ino siðustu. slicr messo songr var ok skyldr[5] til ins yzta ásolfs skala. xij. messur til ins nerra ásolfskála.

Su er afvinna her. at prestr skal vera heimilis fastr ok syngia hvern helgan dag ok eingi otto song a braut selia. her scal messo syngia .iij. daga rumhelga j viko vtan fosto. en j gangfostu[6] fiorar. skyllt[7] scal at syngia messo hvern þvattdag er prestr er heima. hvern dag vm jola fosto en .ij. messur vm langa fosto. Fra Mario messo enne fyrre scal lios brenna of vetr fyrer helgar til Mario messo ennar siþare. en þatan fra hveria nott til crucis messo vm varit. vaxi scal brenna vm otto songva þa daga helga er j meira hallde ero. reycelse scal a gloþ leggia huern dag er IX lexciur er[o] j otto songvi j messo.

---

## 51. [1179]. á Ljótarstöðum.

Máldagi [Þorláks biskups Þórhallssonar í Skálaholti] fyrir Maríu kirkju á Ljótarstöðum í Rángár þíngi.

Þessi máldagi er nú til í báðum máldagabókunum frá Skálholti, bæði þeirri frá 1598, sem er í safni Árna Magnússonar Nr. 263 Fol., bls. 59 (sbr. lýsíng þess handrits við Nr. 49, bls. 253—254), og hinni frá 1601, sem er í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, D 12 bl. 130.

Ljótarstaðir eru nú kirkjujörð frá Breiðabólstað í Fljótshlíð (Johnsens Jarðatal, bls. 29), og hefir þar ekki kirkja verið um lánga tíma.

1) gumfana, *D 12; í frumritinu hefir líklega verið* gũfana.

2) = Jafnlengdarskrá, *þ. e. líklega:* Ártíðaskrá ár um kring.

3) málbók *er líklega sama og* lesbók.

4) þ. e. Miðskála, *eptir seinni máldögum.*

5) = skilđr, skilđr.

6) gñgfostu, *D 12* = gagnföstu.

7) er, *b. v. D 12, og er ofskrifað.*

a Liotarstoþom.

Mariu kirkia a Liotarstoþum a x hvndraþ j lande. kv ok ær .vj. bvning sinn slikan sem er. þar skal skylt at syngia annan hvarn dag loghelgan. ok enn fiorþa hvern otto song ok skal heima tiund allra heima manna. ok skal prestr syngia þar fra Krosse. ok kaupa at honum ij morkum vaþmala. En ef prestr a allt land ok gegnir við kirkiu ollom maldaga, þa skal hann ei skyldr at kaupa at oþrom preste. Lysa[1] fire alla helga daga. þa er sungit er. fra Mariv messv vnz liþr paskavikv.

---

52. [1179]. i Ey.

Máldagi [þorláks biskups þórhallssonar í Skálaholti] fyrir Pètrs kirkju í Ey í Landeyjum í Rángár þíngi.

Eptir máldagabókinni frá Skálholti, sem nú er í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol., bls. 59 (lýsíng bókarinnar sjá við Nr. 49, bls. 252—254 hèr fyrir framan).
Jörðin Ey er nú eign Breiðabólstaðar kirkju í Fljótshlíð, og hefir svo verið býsna lengi (Johnsens Jarðatal bls. 30).

---

Petrs kirkia i Ey a .x. hundraþ í heima landi ku ok ær .vij. ok kluckur fimm ok tiölld um alla kirkiu. ok allan sinn buning. þar skal syngia af breiðabolstað annan hvarn dag loghelgan messu. ok en[n] fiorða hvern ottu song. ok kaupa fiorum morkom vaðmala. ok lysa firi alla helga daga fra Mariu messu unz liðr paskaviku. Heima skal tiund heima manna. ok af strandarhofði. ok or berianesi. Eigi skal prestr skylldr at kaupa tiðir ef hann a allt land ok syngi hann sialfr heima. hvert haust skal giallda tvævetran gellung[2] á breiðabolstað.

---

1) tviskrifað í báðum handritunum, og sýnir það að bæði eru eptir einu og sama frumriti. 2) = gelding.

53. [1179].

Brèf Eysteins erkibiskups í Niðarósi til Þorláks biskups í Skálaholti, allra lærðra manna og ólærðra, og allrar alþýðu á Íslandi, um hlýðni við þau boðorð sem Þorlákr biskup skipaði af guðs hálfu.

Eptir skinnbókinni hinni borgfirzku í safni Árna Magnússonar Nr. 186. 4to. bls. 125—126 (sbr. Nr. 38, bls. 218—220); prentað áðr í Finn. Joh. Hist. Eccles. Island. I, 251—253, og er þaðan tekinn helzti orðamunr (*F*).

Af því ártalið vantar í brèf þetta verða menn að álykta af efni þess hvenær það muni vera ritað, og er það einkum vafasamt, hvort það muni vera ritað á undan eða eptir brèfi því sem hèr fylgir næst á eptir. Væri þetta ritað seinna, þá yrði menn að hugsa sèr, að það brèf sem á eptir kemr væri ritað með Þorláki biskupi til Íslands, um sumarið 1178, og erkibiskup hefði þar nefnt þá menn, sem hann þykist þekkja en ekki vilja nefna í brèfinu 1173 (Nr. 38 hèr að framan); hefði þeir þá átt að taka vel undir það brèf, og Þorlákr biskup að hafa ritað það erkibiskupi, en hann að rita aptr þetta brèf 1179. En mèr þykir hitt líklegra, að erkibiskup hafi einúngis átt ráðagjörðir við Þorlák biskup um hvað gjöra skyldi, áðr hann fór til Íslands 1178, en ekki ritað með honum. Þessvegna talar hann hèr um ábyrgð vígslu hans, og er það, að eg ætla, vottr þess, að brèf þetta sè hið fyrsta sem hann ritar til Íslands eptir að Þorlákr er út kominn. Um haustið 1178 og vetrinn eptir og um sumarið 1179 hefir Þorlákr biskup haft fram boðorð sín, þá hefir því í fyrstu verið vel tekið, og Þorlákr hefir ritað um það erkibiskupi, og hann svarað um sumarið eða haustið 1179 með þessu brèfi sem hèr fylgir. En þá hið sama sumar fór Þorlákr biskup að hefja tilkall til staðanna og til kirkjueigna, og þá hefir þegar slegið í heitíngar við höfðíngja. Þá hefir biskup án efa ritað aptr erkibiskupi, og greint til þá menn sem ríkastir voru og harðsnúnastir, og þarhjá annmarkamenn um kvennamál; en erkibiskup hefir þá ritað aptr síðara brèfið (Nr. 54) annaðhvort seint um haustið 1179 eða um vetrinn eptir, því 1180 fór hann úr landi og var á Englandi nokkur ár, en þegar hann kom aptr voru nokkrir þeirra dauðir sem þar eru nefndir í brèfinu, og getr það því ekki verið þá ritað. Finnr biskup hefir talið þetta brèf til ársins 1180 í brèfaregistrinu við Kirkjusögu sína (Index Diplomatum í Hist. Eccl. IV, 381), en það ætla eg ólíklegra. Þarsem skinnbókin eignar brèf þetta Eiríki erkibiskupi, þá ætla eg það sè villa ein, því auðsætt er, að brèfið er ritað á fyrstu árum biskupsdæmis Þorláks biskups, bæði af því, hversu talað er um undirtekt við boðskap hans, er ekki átti við nema meðan boðskaprinn var nýr, og svo af því sem skýrskotað er til ábyrgðar vígslu hans.

Ekki verðr fullkomlega sèð á brèfi þessu, hvort það muni hafa verið ritað á Latínu, og þetta sè útleggíng þess, en þó virðist mèr á orðfæri þess líklegra að svo hafi verið, og að það sè ritað hèr í skinnbókinni eptir fornri útleggíngu, sem ritarinn hefir sumstaðar nokkuð afbakað.

---

Ey[steinn][1] erkibiskup sender. qvediu Þ[orlaki] biskupi lærdvm monnum. og olærdum og allri alþydv á jslande Guds og sina. Rit þorlags biskup[s] kom til min. med þekelegvm ordum. bædi af gvdz alfv. og so ydvare. kvest hann med vorv rade hafa flutt gvdz bodord fyri ydur. og kvedr[2] ydur veglega hafa under tekid og seiger á væne at gvdz ord og dyrd mvne fremd taka af vorum til mala og hans fra[m] burd og ydvare hlydne og godvilia. og vili gud at so se. fyri þui at þat ma alla oss draga til eilifra fagnada. og vnne gud oss þeirrar giptv at vor œhygia og embætti megi med ydur nockurra nyt vinna hvorvmtvegia til salv þurfta. En ef nockurer varda vor bodord. eda hans. fyri þui at helldur til nymælis[3]. at forn og onyt siduenia[4] þuerr[5] er hier til hefur þeim afskeidis hrvndit og haf[a] menn eigi þa vit tókv veit[t]a ne geslu sem vergdvkt vere. þa felle menn þat ur skape sier. og se hvat er satt er. og engi mundi vit kristne tekit hafa. hier ne j odrum stad. ef engi skyllde vit þa osidv skiliast er fyrnska hellt. eda forelldra[r] fagodv[6]. En þo at ydur þicke nymæle. þuiat hvgar herda og oþiarft[7] sialfræde hefer hier mote gengit vit toku þessa bodorda. þa mælvm ver þo. og so hann þat eitt uit ydur. er uorer landar hallda og lata sier vel lika. og eigum vier under einum lógvm gudz at bva. og þau ein bodord hofum ver honum

---

1) St' eir^e^s e'bp̄s (= statutum eiriks erkibiskups) *fyrirsögn með rauðu letri í skinnbókinni. Upphafsorðið er* Ey., *og má lesa úr því bæði* Eysteinn *og* Eyrikr *(sbr. bls. 221, athgr. 1).*

2) *í skinnbókinni ritað sem* kvedz.

3) nymæl', *skb., og má lesa hvort heldr* nymælis *eða* nymæla.

4) *skb. hefir* sidueria. 5) *skb. hefir* huerr.

6) *Þannig á spázíu með sömu hendi í skinnbókinni, en í línunni er misskrifað:* faogv.

7) = óþjarft; odiarft, *skb., og getr það verið ritað eptir* oðiarft.

ã hendi[1] folgit fram at bera j hlydne vit gud. og j abyrgd vigslu sinar vit oss. gœte hann til. ef hann vill. er jafnalldra ero vit kristna[2] menn og sidan hafa gengit at kristni hofst medal allra bestra manna. med ollvm kristnum þiodvm. enda mvnu eigi ener bestv men[n] helst hendi vit drepa. þeim bodordvm og sialfra sinna þurftvm. þviat þvi einv midlvm vier uit ydur. er papinn hefur til af heilagra manna settningvm tekid. en ver af honum. og villdvm vier at þav tæke med ydur eilifa nyt. og gæslv. en eigi þrigia vetra einna[3]. sem ek spyrr at svmer færi j ord og ætlon. og er betur fallit at so sem þier viliet eilifa hialp[4] epter taka. so setid þier og eilifa gæslv bodordvnvm. og eilifa sætt afbrigdvnvm. epter þeirri midlan er biskup leggur til med ydur. en gud gefe honum. þa ahlydne og framkvæmd. at hvorvmtvegia gegne best.

---

## 54. [1180].

Brèf Eysteins erkibiskups í Niðarósi til Þorláks biskups í Skálaholti og nokkurra nafngreindra höfðíngja á Íslandi, um vandlætíng sakir lífernis þeirra, með áminníng um að bæta ráð sitt.

Brèf þetta er prentað áðr í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. 1, 249—251, og er hèr tekinn helzti orðamunr þaðan (*F*); hèr er það prentað eptir hinni sömu skinnbók (A. M. Nr. 186. 4to, bls. 122—125, sbr. Nr. 38, bls. 218—220).

Finnr biskup eignar brèf þetta Eiríki erkibiskupi (Hist. Eccl. I, 227. 228. 249), einsog skinnbókin, en í brèfaregistrinu (H. Eccl. IV, 381) heimfærir hann það til 1180, sem er á dögum Eysteins, en hvergi er skýrt frá hvernig á þessari ósamhljóðan standi. Mèr virðist ekki efamál, að brèfið sè frá Eysteini, og hefi eg talið rök til þess við næsta brèf hèr á undan, hver röð brèfanna muni vera, og í hverju sambandi þau muni standa (bls. 258). Eptir því ætla eg brèf þetta vera ritað um vetrinn 1180, áðr en Eysteinn erkibiskup fór úr landi. Til þess

1) hendr, *F*. 2) kristiña, *skb.*; kristina, *F*.
3) þetta lýtr án efa að því, að Þorlákr biskup muni hafa fengið boðorðum sínum viðtöku einsog nýmæli á alþíngi. 4) tviskrifað í skb.

að sanna að brèfið sè frá Eysteini er nóg að geta þess, að tveir af þeim mönnum sem nefndir eru voru dauðir áðr en Eiríkr varð erkibiskup (Oddr Gizurarson † 1180; Böðvar þórðarson † 1187).

Höfðíngjar þeir sem hèr eru nefndir eru allir kunnugir og frægir menn. Jón Loptsson er hinn nafnfrægi höfðíngi í Odda, sonr Lopts Sæmundar sonar hins fróða (sbr. bls. 188. 224. † 1197). Böðvar þórðarson bjó í Bæ í Borgarfirði, faðir Guðnýjar í Hvammi, móður Sturlusona († 1187). — Ormr Jóansson er Ormr Jónsson Svínfellíngr hinn eldri, faðir Sigurðar Ormssonar; hann hefir verið hniginn á efra aldr þegar þetta var, og búinn að fá Sigurði syni sínum Svínafell, því Sigurðr bjó þar 1179 (þorláks s. hin ýngri, kap. 18; Bisk. s. I, 281), en Ormr hefir þá líklega búið að Rauðalæk, þar í nágrenninu, og mun vera sá „Ormr hinn gamli", sem nefndr er í sögunni (þorl. s. sst., sbr. hèr fyrir framan Nr. 44, bls. 245); er það eitt til marks um, að þorláks saga þessi, eða að minnsta kosti Oddaverja þáttr, muni ekki vera ritaðr fyr en menn þekktu Orm Svínfelling hinn ýngra. Ormr þessi hinn gamli varð síðan múnkr, og andaðist 1191 (ísl. Ann.; sbr. Bisk. s. I, 437). — Oddr Gizurarson er sá hinn sami sem getið er um í prestatalinu 1143 (bls. 187. † 1180). — Gizur Hallsson er sá hinn sami sem var stallari Sigurðar konúngs munns, og fór út með Klængi biskupi 1152 (sbr. bls. 205); var hann síðan lögsögumaðr 1181—1201, og andaðist 1206; hann var lengstum í Skálaholti hinn síðara hluta æfi sinnar, og var þar í mestu metorðum hafðr. Eitt er það eptirtektar vert, að tveir af höfðíngjum þeim sem taldir eru búa í Austfirðínga fjórðúngi, tveir í Sunnlendínga fjórðúngi, og einn í Borgarfirði, en enginn þar fyrir vestan. þeir sem eru nefndir eru allir úr þeim hèruðum sem þorlákr biskup var búinn að fara yfir 1179, eða sem næst honum lágu og hann þekkti bezt, því til Vestfjarða fór hann fyrst 1182. það er og eitt til marks um, að Eysteinn erkibiskup hafi ritað brèfið, að hann ávarpar einkum Gizur Hallsson og Jón Loptsson, því þeir voru honum kunnugir frá ýngri árum hans, þegar hann var kapellán Ínga konúngs og þar eptir, því þá hefir hann þekkt Gizur er hann var með Sigurði konúngi, og Jón Loptsson þegar hann var í Noregi 1163 og 1164.

Um orðfæri á brèfi þessu má segja hið sama og fyr, að það vottar fyrir sem því muni vera snúið úr Latínu, og að það sè hèr ritað eptir fornri útleggíngu, sem ritarinn hefir að öllum líkindum afbakað á mörgum stöðum. þessar afbakanir ætla eg þó sè hèr að fullu leiðrèttar.

---

Ey[steinn][1] erki biskup sender kve[div]. þorlaki. biskup[i]. Ey[steinn][2] erki biskup. sender qvediv. Jone loptz syne. Boduare þordarsyne. Orme Joanssyne[3]. Oddi gizvrarsyni. Gissure Hallssyne[4].

Spvrtt hofvm vier þat vellde er gud hefur ydur gefit. yfer þui folke er land þetta bygger. og af þui þikivmzt ver vita j hverre abyrgd þier ervt vit gvd bundner. er hverr ꝏ sinne viskv at svara. og þa skyn fyri at giallda. at engi er kostur leidrettingar. og er fyri þui hverivm rad vit at taka at kostgæfast medan volldin hefur j hendi. vitvm vier at hier ero vittrer menn j landi þessv. og væri þa sanvittrer. ef þat[5] stad tæke vitzka [þeirra. vit þeirra[6] rædv er Gvds lög kunna. og vitv ydra misferd. og er þeim mal hættazt er sina misferd sia og annarra og mecgu leidretta.

Kvnnigt er yckur. Jon. og gizsurr. at naudsynia mal rædum vier vit ydur. bæde ydvart og vortt. kristinna manna nafn bere þier. En skyrit þit. er skilit gudz lög. hvart[7] er þit hafit kristinna manna att hafi[8]. vm env hæstv bodord. eda eigi. At[9] þui. at vier hofum heyrtt. þa er margs med[10] ydr ꝏ fatt þat er kristnir menn adrir fylgia. og hafa vit tekid. þo at hofuct horfa[11] þicke og faga med mikkille uirding. En of[12] engan hlut synest oss meira ꝏ fatt. helldur en vm ohreinlife manna hier. og kvenna far. er eigi þarf fyri yckur at skyra vm. hversv stadfest bodord. er. af gvdz sialfs mvnne bodit. En þier hafit, þat med suivirding firrzt[13] ener agætustu menn. lifit[14] bufiar life. rekit[15] eigi hiuskap. ne þat helga samband er eigi ma slitna. nema kona manz hore under

1) St. eireks (= Statutum eireks) *fyrirsögn með rauðu letri í skinnbókinni. þar er og fyrsta orðið ritað* Eyr (= Eyrikr); *kemr það af því, að ritarinn hefir eignað brèf þetta Eiríki erkibiskupi, en í frumriti hans mun einúngis hafa staðið* E., *sem bæði mátti lesa úr* Eysteinn *og* Eirikr *(sbr. bls. 221 athgr. 1).*

2) Eyr. (= Eyrikr), *skinnb.* 3) Jvarssyne, *skb.*

4) *þannig hefir Finnr biskup þegar leiðrètt;* hakonar. s., *skb.*

5) *þannig* þ, *skb.*; þann, *F.* 6) *frá* [ þeirra. En vit þa, *skb.*

7) hv$^{\text{ð}}$ (hvad), *skb.* 8) = athæfi.

9) af, *skb., og enginn púnktr fyrir framan.* 10) v$^{\text{r}}$d (vard), *skb.*

11) hafa, *skb.* 12) *þann. leiðrètt í F;* ef, *skb.* 13) fyrst, *skb.*

14) lif$^{\text{t}}$, *skb.;* lifat, *F; púnktrinn er hèr færðr fram fyrir orðið.*

15) = rækit; *púnktrinn er færðr fram fyrir orðið.*

hann. og þo med þeim einvm hætte. at hvortvegia halldi sier fra savrlife medan[1] þav lifa bæde. eda saman byggiazt. En med þvi at hofdinngiar hafa slika ohæfv j sinne samviskv[2]. og af þvi treystazt þeir eigi hirtingar ord at hafa fyri alþydv. þa er þar komit at allra rad hallast j einn stad. ens meira. og hins minna.

So er og kennemanna mal vm kappsemd þeirra. og vopna burd. at þat er or þeim hætte sem anara manna mal. eda þeirra er j godum sidum ero.

Nu gioret þat fyri gvdz saker. fyri mun[it] yckur eigi þeirrar geskv. at vm yckra daga mætte nǒckur vmbot leggiast ꝍ rad manna. Sæll er sa. at so langa nyt skyllde vita epter sinna[r] syslv. sem þier vitit[3]. ef[4] þier leggit nv hvg ꝍ. at þier ættid eiliflega ydvars starfss. ef vm ydra daga skylde guds uilie meir fram ger vera. en hier til hefur verit. þa væri so sem eins[5] hvers manz hialp. er framleidis væri holpinn. af ydrv orrade. væri ydur nyt og avoxtur. Og ef þier skullvt ydvartt mal. edr annara til betre hluta flytia. en hier til hefur verit. þa mvnvt þier fyst verda at hirta sialfa ydur og styrk at veita biskupum ydrum til hegningar [vid] under lydinn[7] og gera nockrra skipan ꝍ. at sekter se settar til biskupa soknar vm kristne spell. þa hefer hann handa festing til hegningar. En þo at þier megit eigi af ydur j fystv geta þann skirleik[8] athæfis ydvars. er þurftt ydvare gegnde. þa eigit þier minne abyrgd at svara fyri eina ydur. helldur en bædi fyri ydur. og alla adra. þa er af ydvare uanræktt fyri farast. þuiat þier ervt skylldugir til at draga menn fra orade. þar sem ydur hefur gud fiorsiana[9] gefit. og vellde. Nv styrkit þier rad biskupa og set[id] eigi so fyrnskv ydra. at eigi takid þier vit hialp rade. er þier vitǒd sialfer Gitzor og Jon at engi[10] er fyri þvi at helldur nymæle. er[11]

1) m<sup>ð</sup> (= með), *skb.*

2) *þannig skb.; hefir ef til vill verið upphaflega* samvistv.

3) uisit, *skb.; púnktinum á eptir er við bætt.* 4) at, *skb.*

5) j, *skinnb., og svo hefir upphaflega verið, svo bæði hefir mátt lesa:* eins, *og* j (= i), *en á þessum stað hefir ritarinn lesið* i.

6) orade, *skb.* (= ærráði, orræði).

7) lydin, *skb.;* lyðni, *F; án efa er rètt lesið:* undirlýðinn.

8) sk'leik, *skb.;* stirkleik, *F.* 9) = forsjána.

10) eng, *skb.* 11) er, *einsog* at, *eða* þó at.

hier þycke nytt at heyra. er meir hefur riktt sialfræde en sanninde. Nv gior[it] nockrra þa skipan ꝍ mote fiandans vellde. med þvi alite sem gvd mvn til setia med yckur og biskupa ꝍ syn. at gud skipe ydur. til þeirra hluta er bædi megi adrer ydvara hialpa nyota og so sialfer [ér] ꝍ þeirre tid er allt reynest at hiegoma. nema þat eitt. er gudi er þionat. valete.

---

## 55. [1180].

Máldagi [Þorláks biskups Þórhallssonar í Skálaholti] fyrir Saurbæjar kirkju á Hvalfjarðarströnd.

Eptir máldagabókinni frá Skálholti í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, D 12, bl. 74 (sbr. Nr. 24 að framan).

Það ætla eg óefað, að máldagi þessi sè svo forn, að hann sè ekki ýngri en frá Þorláki biskupi hinum helga; það sýnir bæði orðfæri hans og samburðr hans við ýngri máldaga Saurbæjar kirkju.

Ártalið er hèr sett eptir ágizkan, og styðst það þó við nokkuð það er vèr vitum með vissu. Í Kristinrètti hinum forna er skipað svo fyrir í Biskupa þætti (kap. XIV, Thorkel. bls. 62), að Skálaholts biskup skuli fara yfir einn fjórðúng biskupsdæmis síns á ári, og sitt sumar um hvern fjórðúnginn af þeim þremr sem undir hann hlýddu. Nú er það sagt, að Þorlákr biskup fór um sumarið 1179 um Austfirðínga fjórðúng, svo sem áðr var getið (bls. 245); en hann fór fyrsta sinn um Vestfirðínga fjórðúng 1182, og allt norðr í Steingrímsfjörð, því hann vígði kirkju það sumar í Kálfanesi (Sturl. 3, 2; Guðmundar s. kap. 9; Bisk. s. 1, 425). Það er því líklegast, að Þorlákr biskup hafi farið um Sunnlendínga fjórðúng og suðrhluta Vestfirðínga fjórðúngs á árunum 1180 og 1181, og að þá sè gjörðir þeir máldagar, sem hèr fylgja eptir úr þessum hèruðum. En því færi eg þá til fyrri ára biskupsdóms Þorláks biskups, heldr en til hinna síðari, að líklegra er, og samkvæmara venjum og háttum biskupanna, að máldagar sè gjörðir í fyrstu yfirreiðum þeirra, nema þar sem svo á stendr, að þeir hafa síðar vígt einstöku kirkjur, eða sýslað í kirkjumálum á einstöku stöðum.

---

Saurbær.

Sa er circio maldage i saurbæ a hvalfiarþar strond. at kirkia a saurbæiar land allt oc annat land a færsticlo. hit þriþia [at] ramna berge. fiorþa i hofþa. fimta i katanese[1]. Sævar garþr halfr.

Sva er mællt ум lond þesse ꝍll er hær æro nu taliþ. at engom skal fra loga at osækio. hvargi[2] sæm staþ[3] þann varþvæiter[4].

Þar liggia til circio cyr .XV. oc .LX. asauþar. fimm cugillde i gelldfe. til fimtan hundraþa vaþmala i bugognom oc husbuninge. hæstar sæx gællder. oc ænge værre en fimtan aura cugillde.

En su ær af vinna staþar þæss. at þar scolo væra prestar tvæir. þar scal vera otto songr oc messa hvern loghęlgan dag. oc messa hvern rumhelgan dag. ij messor hvern dag rumhelgan vm langa fosto oc fosto daga j gagnfostom.

Þar scolo fylgia omagar tveir. quengilldr oc carlgilldr. þar scal ala þurfamenn iamn marga hionum. oc eigi fleire nema vili. Jóns messo ум þing. Petrs Messo. Olafs Messo. allra hæ[i]lagra Messo. jola nott. Mario Messo vm fostu. scirdags aftan. þvatt nott fyrer pasca.

Sa scal abyrgiasc circio. at hon brenne eigi. oc circio fe. er staþ varþvæiter.

---

## 56. [1180].

Máldagi kirkjunnar á Íngunnarstöðum í Kjós [er Þorlákr biskup Þórhallsson setti].

Þessi máldagi er tekinn eptir máldagabókinni D 12, bl. 77 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan).

Íngunnarstaðir voru á síðari tímum taldir meðal stólsjarða frá Skálholti, en kirkja var þar enn 1575, og er talin í máldögum Gísla biskups Jónssonar, eins og í Wilchins máldögum

---

1) nese, *tvítekið í D 12.* 2) huergi, *D 12.*
3) stañ, *D 12.* 4) varðvætter, *D 12.*

áðr. Kirkja þessi lá ávallt á seinni tímum undir Reynivalla sóknir, og seinast var hún felld af, en jörðin var seld með Skálholts stóls jörðum, og er hún nú bændaeign (Johns. Jarðat. bls. 101).

---

Jngunarstaþir.

Kirkia a oc in helga agatta[1] allt land a Jngunar stoþum oc settung j eyrar lande. kyr .vi. oc .xxx. a. fiogur kugillde j gelldfe. halft annat hundrat j busgognom oc j husbuninge. hestr gelldr lastalauss. xij manaþa tiþa bœcr oc messo fot. silfr kalec. roþo cross. alltara klæþe ij oc blæia. bricar clæþe gloþa ker oc gloþa jarn. [alltara steinn. kirkiu stoll. bakstr jarn[2] oc linslopp. kerta stika. munnlogar .ij. oc lyse steinn. biollur .v.

Su er afvinna skylld[3] a þesso fe. at þar scal vera seto prestr ef sa vill er þar byr. meþ biscops raþe. Joan prestr scal vera þar meþan hann vill oc fylgia þessu fe at allda eyþle.

Heima manna tiund alla a circia.

þar er scylldoct[4] at syngia annan hvarn dag oc inn .iiij. hvern otto song. oc kaupa at preste .ij. morcom[5]. oc ef enginn fæsc prestr. þa scolo reynvellingar fyrst eiga kost at lata syngia til þessa kaup[s] ef þeir vilia.

Biscops handsol ero a þessum circio fiam ollom. oc hann a valld oc forræþe einn at kavpa þessom kirkio fiam sva sem hann vill oc þa er hann vill til þurþar oc til miclonar vm fe eþa afvinno.

---

## 57. [1180].

Máldagi kirkjunnar í Eyjum í Kjós [sem þorlákr biskup þórhallsson setti].

---

1) hin helga mey Agatha; messudagr hennar er 5. Februar.
2) frá [ utanmáls í *D 12*. 3) = skilð. 4) scylldast, *D 12*.
5) merc[2], *D 12*.

þessi máldagi er í bókinni D 12, bl. 78 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan); hann er og í máldagabókinni Nr. 263. Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 65, og kallaðr þar „forn máldagi".

Kirkjan í Eyjum var síðan kölluð hálfkirkja, og heyrði undir Reynivalla prestsumdæmi, eins og hèr er skipað fyrir í máldaganum; stóð kirkja þar enn á dögum Gísla biskups Jónssonar, og er talin í máldögum hans (1575), en jörðin hefir ávallt verið bóndaeign. Nú er kirkja þessi fyrir laungu af tekin (sbr. Johns. Jarðat. bls. 100).

---

j Eyium.

Mariu kirkia[1] i Eyivm a .x. hundraþ j lande oc scog j Svinadal. buning sinn allan i tiolldom oc alltara klæþom. krossom oc kloccom oc kertisticom. oc þat er at skylldo þarf til guþs þionostu[2] at hafa. þa er messo scal syngia. fyrir þat vtan er prestr hefir meþ ser.

þar scal syngia annan hvarn dag loghelgan af reyne vollom. scildr til paska dagr oc kyndil messa[3]. kavpa hvndraþe alna[4].

Heima tivnd. oc[5] lysa of[6] petrinn of[7] nætr þa er svngit er oc fyrir allar log[8] hatiþer. þar scal syngia annan hvarn dag loghelgan. oc kaupa slico kaupe sem biskup vill[9].

---

## 58. [1180].

Máldagi kirkjunnar að Reykjum í Kjalarnes þíngi [er þorlákr biskup þórhallsson setti].

Eptir máldagabókinni D 12 í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, bl. 79 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan).

---

1) Petri Olavi, *b. v.* ***263***. 2) þarf, *b. v.* ***D 12***, ***263***.

3) þann. ***263***; messu, ***D 12***.

4) huñdradi alnum̃, ***D 12***; hvndrad alna, ***263***.

5) sl. ***263***. 6) af, ***263***. 7) af, ***263***.

8) sl. ***263***. 9) z c̄t., *b. v.* ***D 12***.

Reykir þeir sem hèr eru nefndir eru Suðr-Reykir í Mosfellssveit. þar stóð lengi kirkja, og heyrði undir Mosfell; er hún talin í máldögum Wilchins (1397) og Gísla biskups Jónssonar (1575), og kölluð hálfkirkja, en átti ekkert í heimalandi, því jörðin hefir ávallt verið bóndaeign. Úlfarsfell var kirkjujörð þaðan. Kirkjan að Reykjum var ein af þeim, sem var felld af með konúngsbrèfi 17. Mai 1765 (Lagasafn handa Íslandi III, 525).

---

Reyker.

Sa er maldage a kirkiu at reykium. at þar scal annan hvarn loghelgan dag messa oc inn .iiij. hvern[1] otto songr oc sva meþ hatiþom. sænda[2] annat hvart eptir preste mann eþa eyk. oc lysa fyrir hvern dag. þann er þar scal syngia.

þar scal giallda preste .C. alna. giallda miol at helminge. ef sa vill þat helldr er þar byr. en voro. en kirkia a nitian mæla acrlond i gorþom vt. oc selia sain half af hende.

[Taka heima[3] tiundir heima manna þeirra sem þar ero. oc lyse tolla.

alltara klæþe .iiij. oc biollor .iij. oc kerta stikur .ij. oc munnlogar .ij. oc duca .ij. oc brikar buninga .iij.

oc kyr ein. oc scal gefa nyt hennar mario messvr allar oc fæþa þurfamann.

---

## 59. [1180].

Máldagi [þorláks biskups þórhallssonar i Skálaholti] fyrir Gufunes kirkju.

þessi máldagi er eptir máldagabókinni D 12, bl. 80 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan).

Eptir því sem hèr er fyrir skipað skyldi vera heimilisprestr á Gufunesi, og svo mun hafa staðið nokkuð frameptir, en vèr höfum nú enga forna máldaga fyrir Gufunes kirkju aðra en

---

1) huer, *D 12.* 2) fæda, *D 12*; (*upphaflega:* ſæda).
3) *frá* [ oc, *D 12.*

þenna, því hún er ekki talin í Wilchinsbók; en í máldögum Gísla biskups Jónssonar (1575) er þar talin kirkja, og var þá jörðin orðin leigujörð frá Skálholti. Seinna varð hún konúngsjörð, en þó var hún ekki meðal stólsjarða þeirra sem Páll Stígsson tók í skiptum við stólinn (Safn til sögu Ísl. I, 132). 1752 var fluttr þángað fátækra spítali frá Viðey, sá er tekinn var af 1793, en skömmu síðar var jörðin seld (1798) og er hún síðan bændaeign. Kirkjan var ávallt á seinni tímum útkirkja frá Mosfelli í Mosfellssveit.

---

Gufunes.

Mariu kirkia a gufunesi a XX^c i lande oc kyr .ij. kross oc kluckur. silfr calec oc messo fot. tiolld vm hverfis. alltara klæþe .iij. Vatn ker. gloþa ker oc elldbera. slopp oc munnlogar .ij. lás oc kertta stikur .ij.

þar scal tiund heima oc af nio bœiom oc sva groptr. þar scal vera prestr oc syngia allar heimilis tiþir .ij. messor hvern dag vm langa fosto. messa hvern vigiliu dag. hvern dag vm jola fosto .ij. messor. nacqvern imbrodag a jola fosto. oc of haust.

lysa fra mario messo vnz liþr paska vico.

---

## 60. [1180].

Máldagi kirkjunnar að Ölfusvatni i Árness þíngi [er þorlákr biskup þórhallsson setti].

Eptir máldagabókinni D 12, bl. 80 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan). Máldagi þessi er einnig ritaðr í bók Árna Magnússonar Nr. 263. Fol. bls. 65, og kallaðr þar „forn máldagi".

Ölfusvatn og Hagavík eru, eins og kunnugt er, í Grafníngi, nálægt útsuðrhorni þíngvallavatns, en Sandey er í vatninu. Ölfusvatn er forn bær, því Grímkell goði, son Bjarnar gullbera, bjó þar hinn seinna hluta æfi sinnar, og Högni í Hagavík (Harðar s. kap. 2; Ísl. s. [1847] II, 5). Í sögunni er þess getið, að Grímkell hafði þar hof mikið. það er því harðla líklegt, að kirkjan þar hafi verið með hinum allra elztu, enda má og ráða það af því, að henni eru hèr taldar eignir eigi alllitlar,

og skipaðr setuprestr. Kirkja þessi er talin bæði í Wilchins máldögum og Gísla, en í hinum síðara þó sem leigujörð frá Skálholti, og síðan var Ölfusvatn selt með jörðum stólsins (sbr. Johns. Jarðat. bls. 73).

---

Vatn.

þessi er kirkio maldage at vatne. at þar liggr til sandey oll. oc .xij. hundroþ alna i vatz lande oc i hagavikr lande. oc scal eigi selia lond þesse nema með ollom gœþom. þeim er fylgia. at leyfe biscops þess er i scala hollte er.

þar fylgir oc kyr ein. oc scal gefa einnar kyr nyt fra þvi er sio vicna fasta kǫmr. hvern drottens dag. vnz liþr hvita daga. oc mario messo of[1] fosto. oc olafs messo. oc vppstigningardag. oc hvern drottens dag vpp fra olafs messo til vetrar.

at vatne scal vera seto prestr. oc syngia þar allar heimilis tiþer. oc .ij. daga rumhelga i viko. oc alla þa daga er messa er til gor. hvern dag messa of[2] iola fosto. oc annan hvarn dag .ij. messor of[3] langa fosto. vigilia hvern dag rumhelgan of[4] langa fosto. syngia .ij. messor fosto dag i imbro dogom of[5] haust oc of[6] vetr.

kirkia a kluckur .iij. tiollð vm huerfis i kirkio. alltara[7] klæþe .iij. prestz messo fot full. kertastikur .ij. gloþa ker. oc gloþa[8] jarn. roþo kross. lyse kolo. [skirnar sar. oc silfr kalekr[9].

---

## 61. [1181].

Máldagi Mela kirkju í Borgarfirði [er þorlákr biskup þórhallsson setti].

---

1) af, *263*. 2) af, *263*; vm̄, *D 12*.
3) af, *263*; vm, *D 12*. 4—6) af, *263*.
7) *þann. 263*; alltaris, *D 12*. 8) *þann. 263*; gloðar, *D 12*.
9) *frá [ þannig eptir 263*; kirckia ä Sär: z silfur kalek:, *D 12*.
*Eptir þenna máldaga er hálf blaðsíða auð í D 12, og endar hèr annar hinn forni máldagakafli í bók þessari (bl. 52—80); er þar í þeim kafla enginn máldagi ýngri en frá dögum Árna biskups Helgasonar.*

Eptir máldagabókinni D 12, bl. 120 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan).

Þessi máldagi er ekki ritaðr í bókinni eptir fornum máldaga, heldr eptir máldaga Sveins biskups hins spaka (1466—1476), eru þá komnar inn í skrá þessa á tveim stöðum greinir, sem ekki hafa verið í hinum forna máldaga, svo sem augljóst verðr þegar menn bera saman Mela kirkju máldagaskrár frá ymsum tímum, sem enn eru til allmargar, ein eða fleiri frá hverri öld. Með þeirra leiðbeiníng hefi eg aðskilið það hið elzta, sem eg ætla rèttilega heimfært til Þorláks biskups hins helga, og hefi eg áðr fært rök að (Nr. 55), hvers vegna eg tel það til ársins 1181. Það sem máldaginn hefir um landamerki Mela stendr ekki í hinum síðari máldögum kirkjunnar, og kynni menn því að hugsa, að því væri einnig skotið inn í Sveins máldaga, en mèr virðist það vera augljóslega fornt, og muni það vera fellt úr af því mönnum hafi þótt óþarft að rita það upp aptr, fyr en eptir svo lángan tíma, að hin forna skrá gat verið orðin fúin og þurft endrnýjunar við, og til þess gat verið komið á ofanverðri fimtándu öld. Það er eitt til líkinda um, að landamerkin sè forn, að máldaginn er saminn ekki mjög laungu eptir að Þorlákr á Melum hafði keypt jörðina, og við þau kaup munu landamerki Mela hafa verið ákveðin eptir lögum (Grágás í landbrigða þ. 2. kap.; Fins. II, 80).

Þeir feðgar Þorlákr og Magnús á Melum voru merkir menn og höfðíngjar; frá þeim eru komnir Melamenn, og eru ættir þeirra raktar víða í Landnámabók (Ísl. s. 1843. I, ættatafl. I og III). Þeir voru náskyldir Reykhyltíngum og Sturlúngum. Magnús Þorláksson á Melum átti Valdísi, dóttur Hreins ábóta að Þíngeyrum, Styrmissonar, af Gilsbekkínga ætt († 1171; ísl. Ann.; sbr. Bisk. s. I, 85 athgr. 8). Magnús veitti Páli presti Sölvasyni í Reykjaholti móti Böðvari Þórðarsyni og Hvamm-Sturlu í Deildartúngumálum, og sýnir það, að hann var fullroskinn maðr og hèraðsforíngi 1179 (Sturl. 2, 34). Það kemr því allvel heim, að hann hafi nálægt þessum tíma lagt fè til kirkjunnar á Melum.

---

## Melar.

Þetta er maldage kirkiunnar a melum. at hon a allt heimaland itakalaust. meþ ollom þeim gognom oc gæþom er Þorlakr keypte oc magnus lagþe til.

Ero þesse landamerke i millum mela oc belgs holltz. flatr steinn fyrir norþan osinn a skala læk oc upp a steininn a skala hollte oc þaþan i titlings hollt. oc þaþan augsyn i vorþohollt oc þaþan i byrgishollt. oc þaþan augsyn i fiskelækiar

steckia. oc þaþan i fugls þufo. skamt fra tungarþe at fiskelæk. stackgarþs[1] enge i fiskelækiar veito oc or fuglþufo i iarþkrossa suþr i veito viþ læke. oc augsyn þaþan i stein fyrir ofan holltz fot. oc augsyn or holltino i kringlottar þufur. oc augsyn þaþan i landbrotz kelldur. sem sunnan ganga i vatnit. Garþr er gengr or melavatne oc ofan i meyiavatn fyrir ofan garþ a ase. Annarr garþr ofan or tungarþe a ase. oc ofan i gilit fyrir vestan akrgerþe a ase.

Kirkian a reka allan þaþan fra þvi gile oc til steinsins fyrir norþan skalalækiar os.

Fiarmaþr af melum a at sitia a tungarþe at ase.

Hun a selia land allt. er liggr i millum fosslækiar oc tungu ar[2].

Kirkian a æfinliga skylld i fiskelæk. mork vax eþa sauþ a haust. þann er iafn goþr se.

þar scolo oc vera .ij. prestar. eþa prestr oc diakn oc kvenngilldr omage or kyne magnus.

þar er lofaþr groptr ollum þeim likum. er menn vilia þangat færa oc kirkio lægt er.

þar liggr til kirkio tiund af xv bæium oc half or hofn. þar fylgia kirkiur at læk. oc i hofn. oc bænhus .iij. oc luka .vj. aura af hverio[3].

---

## 62. [1181].

Máldagi kirkjunnar að Miklaholti [er þorlákr biskup þórhallsson setti].

þessi máldagi er prentaðr eptir máldagabókinni úr Skálholti, sem nú er í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, D 12, bl. 65 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan).

---

1) stack garð z, *D 12.*

2) hèr hefir verið skotið grein inn í máldagann síðar um jarðaeignir, kvikfè og eignir innan kirkju, og er þeirri grein sleppt hèr, en mun koma fram í síðari máldögum.

3) hèr er bætt við grein í máldaganum, sem er miklu ýngri, og er henni hèr sleppt, en hún mun koma fram í síðari máldögum.

Gunnþjóf þann, er hèr er nefndr í máldaganum, og mun hafa gefið Miklaholts kirkju þær eignir sem henni eru hèr taldar, hefi eg ekki fundið nefndan í sögum vorum nè fornum skrám. Það kveðr svo ramt að, að nafn þetta kemr hvergi fyrir í Landnámabók, og varla eða ekki á Íslandi annarstaðar, svo getið sè, en í Noregi er nefndr Gunnþjófr bóndi nálægt þessum tíma, enda er og nafnið í sjálfu sèr fornt, og svo er nefndr sonr Friðþjófs hins frækna (Friðþjófs s. í Forn. s. Norðrl. II, *100*), svo ekki er að efa að nafn þetta hafi verið á Íslandi, þó vèr höfum nú ekki sögur af því.

---

Myckll[a] hollt.

Myckla holltz kirkia a heimaland allt meþ ollom gæþom. tialldeyiar meþ ollom gæþom. ketil sker oc hello sker oc taþna sker at helminge viþ skognesinga. meþ ollom gæþom. reke fra fossløk vt op leyningar at helminge viþ skognesinga. Naust giorþ oc sallt gerþ[1] i skogarnes land oc acrgerþe. Scognesingar eigo einge i miclaholltz lande hia deilldar læk fyrir reka varþveizlo. hafrsfell. lagsardalr. lagsarbacke. þufna land. Rece a homlu barþa. at þeim hluta sem til telsc. nauta afreitr[2] a flotur[3]. Rauþmælingar eigo haga heimilan .xij. hrossom .ij. manoþr i micla holltz land suþr fra huse. oc husrum manne. er gætir. at hafrs felle. skogr i langa dal. hylir .ij. i straumfiarþar a niþr fra laxa. kyr .x. eitt naut vetrgamallt. L. a. gelldungar .ij. [ok] xx. sneguer[4]. tvevetr hestr einn. .iij. merkr vaþmala. CCC i busg[ognom] oc husbunaþe. tvenn messo fot. XL. rapta [til forkirkiu giorþar[5].

Su er afskylld fiar þessa. at prestr oc diacn scal vera i mycla hollte. [oc] qvengillder omagar .ij. pr kyni gunnþiofs. Oc scolo þeir hafa alla atvinno af staþar fiam. oc vinna staþ allt þat er þeir mega.

Þar scal ala menn alla þa er ser megu eige geta mat oc klæþe. fyrir ǫsco sǫcom eþa elle eþa vanheilso.

---

[1]) *þannig hefir og Gyrðs máldagi, en í Gísla máldaga er* hjalls gerþ; *sýnist það vera allsennilegt að lesa svo, en þó mun þetta vera rèttara.*

[2]) = afrèttr. [3]) = Flötur (*þ. e. nú kallað* Flatir).

[4]) = snøggir, *þ. e.* án reyfis. [5]) *frá* [ og forkirkiu giord, *D 12.*

þesse sǫngr[1] þvatnætr allar. oc fimto nœtr allar. [oc] messor[2] fyrir postola messor allar.

---

## 63. [1181].

Máldagi Mariu kirkju á Kolbeinstöðum [sem þorlákr biskup þórhallsson setti].

Eptir máldagabókinni D 12, bl. 104 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan).

þorleifr sá sem hèr er nefndr hefir sira Jón Halldórsson ætlað að vera mundi þorleifr hreimr. þorleifs hreims er getið í Sturlúngu allvíða, hann var úngr þegar Flugumýrar brenna var, og var þá fyrir skenkjurum (1253), síðan var hann lögmaðr þrisvar (1263—1266, 1268—69 og 1271—72) og andaðist 1289. Ef hann væri sá sem hèr er nefndr, þá yrði máldagi þessi að vera frá dögum Árna biskups þorlákssonar. En bæði virðist mèr máldaginn sjálfr lýsa því, að hann sè eldri, og svo mundi þorleifr hreimr að líkindum vera nefndr lögmaðr, ef hann væri sá sem hèr er talað um; þykir mèr og allliklegt, að sira Jón Halldórsson kunni að hafa minnzt brèfs Oddgeirs biskups þorsteinssonar 17. August 1375, um ómagavist í ætt þorleifs hreims, en sú ómagavist var í Hítardal, en ekki á Kolbeinstöðum, enda er og jafnvel sagt í því brèfi, að þorleifr hreimr hafi eignazt þá hina sömu ómagavist í Hítardal af Katli presti föður sínum. þessvegna þykir mèr hitt líkara, að þessi þorleifr sè þorleifr beiskaldi, sonr þorláks hins auðga í Hítardal († 1200). Sá þorleifr er víða nefndr, einkum í Landnámabók, Sturlúnga sögu, þorláks biskups sögu og víðar, og var einn með helztu mönnum á Íslandi á sinni tíð. þorleifr beiskaldi var ekki mikill vin Sturlu í Hvammi (Sturl. 2, 28), en hann er talinn ávallt í flokki með þorláki biskupi, og þar var hann í fylgð með honum um Borgarfjörð þegar Bæjar-Högna mál stóðu yfir (þorláks s. hin yngri kap. 20; Bisk. s. I, 286), gekk hann þá í milli við Eyjólf Stafhylting og bægði vandræðum; það er þessvegna harðla líklegt, að hann muni hafa eptir sig látið gjafir til kirkna og fátækra. þorleifr beiskaldi átti Herdísi Koðránsdóttur, af ætt Ósvífrs hins spaka, Helgasonar, og er komin frá Álfheiði dóttur hans Kolbeinstaða ætt og Melamanna ætt í Borgarfirði (Ísl. s. I. B. [1843] ættat. IV; Antiquit. Americ. ættatafl. VIII).

---

1) sǫgur, *D 12.* 2) allar, *b. v. D 12.*

Kolbeins staþer.

Mario kirkia a Kolbeins stoþom a Mydal. prests messo fot. silfr kalek. tiolld vmhverfis. kluckur .iij. alltara klæþe þriu. gloþa ker ok ellbera. munnlogar .ij. oc lás.

þar scal vera prestr oc syngia allar heimilis tiþer .ij. messur hvern dag vm langa fosto. oc salo tiþer hvern aptan. hvern dag messa vm jola fosto. oc avallt[1] er messa er gor til. lysa scal fyrir helga daga fra hinni fyrro mario messo til ennar siþare. en hveria nott þaþan fra vnz liþr paska viko.

þar scal vera qvengilldr omage or kyne þorleifs[2].

þar scal heima tiund. oc af atian bæiom oþrom. oc songr til fimm bônhusa.

---

## 64. [1181].

Máldagi Mariu kirkju á Hítarnesi [sem þorlákr biskup þórhallsson setti].

Máldagi þessi er tekinn eptir þeim tveim bókum: D 12, bl. 103 (sbr. Nr. 24 og 55 að framan) og Nr. 263 Fol. í safni Árna, bls. 75, og er hann kallaðr þar „gamall máldagi".

Hítarnes er kallað „staðr" lengi fram eptir öldum, og svo er það kallað „Beneficium" í máldaga Gísla biskups 1574. Kirkja hefir staðið þar alla tíma, þángað til hún var af tekin með konúngsbrèfi 17. Mai 1765 (Lagas. III, 525); síðan er jörðin kölluð lènsjörð prestsins, en þíngin eigi að síðr Hítarnes þíng (Johns. Jarðat. bls. 133, 140).

---

Hitar nes.

Mariu kirkia a hitar nese a hitar nes land meþ ollom gæþom. hon a .x. kyr. oc hundraþ agilld[r]a sauþa .x. hundraþ[3] alna j busgognom[4] oc husbunaþe. xx. vætter matar. oc fra skilþir selar oc fiskar.

---

1) ofa uallt, *D 12.*

2) ɔ: þorleifs Hreims lögmanns, *D 12 utanmáls, með hendi sira Jóns Halldórssonar í Hítardal.*

3) hundrud, *D 12.* 4) *þann. 263;* busgagni, *D 12.*

Su er afvinna þessa fiar. at þar scal vera prestr. oc syngia allar heimilis tiþer. oc annan hvarn dag .ij. messor vm langa fosto. hvern dag messo um jola fosto. oc avallt er messa er til gior. ef prestr er heima. vigilia hvern aptan of langa fosto. þriar lecciur. þar scal lysa hveria nott fra mario messo hinne ęfre vnz liþr þaska viko.

Þar scolo oc vera .ij. qvengillder omagar. er ser vinno[1] alla reiþo. or kyni þorhalls[2] eþa steinunnar.

Jorundr scal varþ veita þessom fiǫm. oc hans erfingiar. ef biscope þickia þeir til fallnir. en ella or þorhalls[3] kyne eþa stein[unnar]. sa sem biscop vill.

Kirkia a alltaris klæþe þriu. kertastikur .ij. kluckur .ij. munnlogar .ij. oc tiolld vm hverfis kirkio. tiv merkr vax.

Fiorom morcom scal kaupa at preste vaþmala.

Leyfþr er þar groptr.

---

## 65. [1181].

MÁLDAGI kirkjunnar að Fossi á Mýrum [sem Þorlákr biskup Þórhallsson setti].

Eptir máldagabók í safni Árna Nr. 263 Fol., bls. 71.

Jörðin Foss við Lángá á Mýrum eða Lángárfoss (Johns. Jarðat. bls. 131) hefir ávallt verið bændaeign. Kirkjan sem þar var er nefnd hálfkirkja í Gísla máldaga (1575), en lögð niðr eptir konúngsbréfi 17. Mai 1765 og kölluð þá „kapella" (bænhús; Lagas. h. Ísl. III, 525).

---

Þessi er kirkiu maldagi at Forsi. at hun a Þordisar fit halfa. vagstrond. kyr ij. þar scal syngia annan hvarn dag helgan. paskadag. mariumessur allar. mikals messu. nicholass messu. Auguthu[4] messu. ottu songr með annari hvarri messu. heima tiund oll. ok lysitollar. Þinga tollr ok sva fra smiðiu hvali. gialda presti tvær merkr. vj. aura a alftanes eþa sauð.

1) vinne, *263*; vinnu, *D 12*. 2) Þorhallz, *263*; Þorhalldz, *D 12*. 3) *skammstafað í báðum:* þ' þ'. 4) = Agatha, 5. Februar.

en ef sonr margretar eða tanna verðr prestr þa skal af sex aura gialld a alftanes.

---

## 66. [1182].

Máldagi Mariu kirkju á Bakka í Hrútafirði [er Þorlákr biskup Þórhallsson setti].

Eptir bókinni D 12, bl. 101 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan).

Bakki í Hrútafirði er á síðari öldum almennt kallaðr Prestbakki, svosem kunnugt er. Í Wilchins máldaga (1397) er kirkjunni eignað þar allt heimaland, en í Gísla máldaga (1575) hálft, einsog hèr. Á öndverðri átjándu öld átti Guðmundr Þorleifsson hinn ríki í Brokey jörðina, og gaf bændahlutann kirkjunni, er um það brèf ekkju hans, Helgu Eggertsdóttur, og erfíngja þeirra, Fuhrmanns amtmanns, útgefið í Brokey 13. Juni 1720 (Lagas. handa Ísl. I, 787), og hefir Prestbakki síðan verið allr kirkjueign (sbr. Johns. Jarðat. bls. 218).

Þorlákr biskup fór um Vestfjörðu fyrsta sinn 1182 (Sturl. 3, 2; Guðmundar s. kap. 9; Bisk. s. I, 425); þá vígði hann kirkju í Kálfanesi við Steingrímsfjörð, og er þá harðla líklegt hann hafi einnig verið á Bakka í Hrútafirði, sem er þar í nágrenni við.

Feðgar þeir sem hèr eru nefndir, Valgarðr og Þorkell, eru ekki kunnugir af öðrum sögum, en eptir líkíngu nafnanna að ráða væri ekki ólíklegt, að Þorkell prestr í Síðumúla og sonr hans Valgarðr, sem Þorgils skarði lèt drepa um haustið 1253 (Sturl. 8, 23), hafi verið af þessari sömu ætt, enda finnum vèr og optlega, að Húnvetníngar hafa flutzt suðr í Borgarfjörð og sezt þar að (Eiðr Skeggjason, Hallfreðr vandræðaskáld o. fl.).

---

Backi j hruta firþe.

Mario kirkia a backa j hruta firþe a heima land halft. oc þria tugo a oc fimm kyr. buning sinn allan. þangat scal tiund giallda mille mela oc guþlaugs vicr. oc sva [af] vikinne sialfre.

Þar scal vera prestr heimilis fastr. oc syngia þar allar heimilis tiþer.

þar scal lysa fra mario messo hinne fyrre til hinnar siþarre. fyrir helga daga. ef lios ma vel ut bera. en hveria nott þaþan fra vnz liþr paska viko. oc scal biscop fyrir staþar fiam raþa. en þeir hafa feþgar valgarþr oc þorkell meþan þeir þikia til færir.

---

## 67. [um 1185.]

Máldagi [þorláks biskups þórhallssonar í Skálaholti] fyrir Mariu kirkju undir Hrauni [Staðarhrauni].

Eptir máldagabókinni D 12, bl. 104 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan).

Máldagi þessi er svo forn, að hann getr varla ýngri verið en frá dögum þorláks biskups hins helga, en hann er heimfærðr hèr til ársins 1185 af því, að um þetta leyti var þorlákr biskup opt í Borgarfirði, og átti þar í deilum við Högna í Bæ og Eyjólf Stafhyltíng.

Tanni Torfason, sá er hèr er nefndr, er að minni ætlan sá hinn sami sem gefið hefir í upphafi hálft Staðarhraun til kirkjunnar, og Hallfríðr kona hans (sjá Nr. 26, bls. 172—174 hèr að framan); er þess og getið, að Tanni þessi muni vera sá Tanni Torfason, sem Landnámabók rekr ætt til (Landn. II, 4).

---

### Hraune.

Mario kirkia vndir raune a heima land oc annat at forse[1] meþ ollom gæþom. kyr .xij. oc sextige a. oc .LX. agilldra gilldunga. halft annat hundraþ vaþmala. eþa hesta .ij. atta hundroþ alna j busgognom oc husbunaþe. oc kvernar vm fram. hon a alltaris klæþe .ij. oc silfr kalek. er vegr halfa mork. kluckur fimm. oc tiolld vm alla kirkio. alltara stein buinn. plenarium. messo fot þrenn. oc .xij. manaþa tiþa bœkr.

afreitr j langa vatzdal notum[2] ollom. oc lia eigi oþrom.

þar scal vera prestr oc diakn. oc [syngia] allar heimilis tiþer. tvær messor vm langa fosto hvern dag. oc vigilia hvern

---

1) = Brúarfossi (Johns. Jarðat. bls. 131). 2) = nøtum, nautum.

aptan. messa hvern dag vm iola fosto. oc annan hvarn dag þess a mille. oc avallt er messa er gior til.

þaþan scal hallda bru a hitará. oc griotá.

lysa fyrir alla helga daga fra mario messo hinne fyrre til hinnar siþare. en hveria nott þaþan fra vnz liþr paska viko.

erfþar staþr scal vera. oc hafa sa er biscope þiker bezt til fallinn or kyne tanna torfa sonar.

---

## 68. [um 1185].

Máldagi kirkjunnar í Reykjaholti í Borgarfirði [er þorlákr biskup þórhallsson setti].

Eptir frumritinu sjálfu frá Reykjaholti, sem prestrinn sira Vernharðr þorkelsson hefir góðfúslega lèð mèr.

Máldagi þessi verðr prentaðr í safni þessu í heilu lagi við árið 1224, og mun eg þar skýra ítarlegar frá honum, en eg get hèr þess að eins, að eptir því sem eg kemst næst þá er hann í þremr köflum, og er sinn kaflinn ritaðr á hverjum tíma. Leiði eg þetta bæði af efni máldagans sjálfs, og af ritshætti þeim sem á honum er, og tel eg fyrsta kaflann ritaðan ekki síðar en á dögum þorláks biskups, eg tek til 1185, það ár sem Páll prestr Sölvason andaðist og Magnús prestr sonr hans tók við. þeir feðgar voru báðir hinir mestu vinir þorláks biskups. Annar kaflinn er eflaust ritaðr þegar Snorri Sturluson tók við Reykjaholti af Magnúsi presti (um 1207), og hinn þriði ekki fyr en 1224 um haustið, þegar Snorri gekk að eiga Hallveigu Ormsdóttur, og Ingibjörg dóttir hans var gipt Gizuri þorvaldssyni. Tveir hinir síðari kaflarnir segja sjálfir til hvenær þeir sè ritaðir, hinn fyrsti tilgreinir aptr á móti einúngis fasteignir og ítök kirkjunnar, en nefnir ekkert það, er menn geti ráðið af hvenær hann sè ritaðr; þó er hann svo ólíkr hinum, að augljóst er hann muni vera töluvert eldri en þeir; er hann því og hèr settr meðfram til þess, að mönnum gefist færi á að bera hann saman við hina aðra máldagana, sem hèr eru á undan komnir og heimfærðir til daga þorláks biskups, en eru ekki fundnir nema í afskriptum.

---

Til kirkio ligr i rævkiaholte heimaland meþ ollom lands nytiom | þar fylgia kyr tottogo. griþungr tuevetr. xxx. a. oc

hundraþ. | þar ligr til fim hluter. grimsar alrar en þrir huerfa undan. nema | þat es [ec] mun nu[1] telia. þat es hlaupa garþr[2] alr. oc þrir hluter arennar fyr | norþan miþberg. en fiorgongren[3] huerfr fra. þar fylger oc[4] | fiorþongr haorgs hyliar siþan es settungr es af teken oc ostemma | at rauþa vats ose. þar fylgia hestar þrir enge verre an[5] xiiii aurar. | þar huerfr oc til selfor i kior meþ óveþe þeirre es þar fylger at | helfninge oc afretr a hrutafiarþar heþe. oc itoc þau es han[6] a. i faxa | dal. oc geitland meþ scoge. Scogr i sandale niþr fra sclakkagile umb | scala tofst. gengr mark fyr neþan or steinom þeim es heita klofningar | þeir standa viþ sandals o. ok þar up a fialsbrun[7]. þar fúlger oc scogr | i þuerarliþ at viþa til sels. torfscurþr[8] i steinþors staþa land. Salds | sæþe niþr fort.

---

## 69. [um 1186].

Skrá [Ögmundar ábóta Kálfssonar] um kanoka setr og staðar forráð að Helgafelli.

Þessi skrá er nú ekki til sèrílagi, heldr er hún sett inn í máldaga Helgafells klaustrs í máldagabók Wilchins biskups 1397, og hefir hann án efa látið setja hana í bók sína eptir frumritinu, sem hefir verið á Helgafelli. Handrit þau af Wilchins máldaga, sem eg hefi tekið hèr skrá þessa eptir, eru pappírsbækrnar Nr. 259 (bls. 100) og Nr. 260 (bls. 108) í Fol. í safni Árna Magnússonar, báðar með hendi Jóns prests Erlendssonar í Villíngaholti í Flóa (1632–1672), sem mest ritaði fyrir Brynjólf biskup; einnig máldagabókin Nr. 263. Fol. í safni Árna, sú er áðr var getið (Nr. 49 hèr að framan), rituð 1598, og er skrá þessi talin þar einnig sem „Wilchins máldagi" (bls. 102).

1) munnu, *frumr.* 2) garþr, *yfir línunni með sömu hendi í frumr.*

3) *þannig frumr. og þó tveir seinustu stafirnir einsog frálausir hinum. Árni Magnússon heldr hèr misritað, og hafi átt að vera* fiorþongren.

4) hèr er sem eyða í frumr. í enda linu fyrir fimm eða sex stöfum.

5) = en. 6) *mun án efa vera misritað fyrir* hon, *þ. e. kirkjan í Reykjaholti.*

7) *í frumritinu er samtengt einsog* af ialsbrun.

8) *þannig eptir öllum afskriptum, en nú er komið hèr gat á skrána, svo eigi sèst nema litið af* f-*inu í samstöfunni* torf.

Eptir því sem Annálar segja var klaustr sett 1172 í Flatey á Breiðafirði. Sá sem mest hefir gengizt fyrir því, og án efa lagt þar til eignir sínar, hefir verið Ögmundr Kálfsson, hefir hann og verið þar ábóti orðinn 1174[1], því þá var hann í biskupskjörum með Þorláki og Páli presti í Reykjaholti (Þorl. s. kap. 9; Bisk. s. I, 98) og er talinn „skörúngr mikill". 1182 var hann með Þorláki biskupi á yfirferð hans yfir Vestfjörðu, og var við kirkjuvígslu í Kálfanesi í Steingrímsfirði (Guðmundar s. kap. 9; Bisk. s. I, 425).

Tveim árum síðar (1184) segja Annálar að klaustr hafi verið flutt úr Flatey og að Helgafelli, en hvernig það hefir að borizt vitum vèr eigi. Það er að sjá, sem Ögmundr ábóti hafi sjálfr keypt landið að Helgafelli, og nokkrar eignir með, og lagt það til klaustrsins, og að sú gjöf hafi verið grundvöllrinn. En Ögmundr ábóti lifði ekki lengi síðan, og drukknaði um vorið 1189 (Sturl. 3, 6; Guðm. s. kap. 15; Bisk. s. I, 432; ísl. Annálar telja 1188) í Túnguósi, þar sem kallað er Ábótapollr.

Skrá þessi lýsir því sjálf, að hún sè samin skömmu eptir að klaustrið var sett, og þessvegna er hún hèr heimfærð til ársins 1186. Þau eru og önnur rök þar til, að hèr eru engar aðrar eignir taldar klaustrinu en þær, sem það er stofnað með, og er enda ekki talin jörðin Þrándarstaðir, sem Æsa hin auðga að Hólmlátri gaf þángað, og hlýtr að vera komin undir klaustrið á fyrstu árum þess á Helgafelli[2].

Ekki vitum vèr með vissu neitt um þá þrjá menn, Guðmund, Ólaf og Eyjólf, sem hèr eru nefndir, en tímans vegna getr það vel staðizt, og er jafnvel mjög líklegt, að Guðmundr múnkr Loðmundarson († 1204), Ólafr kanoki Sigurðarson († 1204) og Eyjólfr kanoki Þorsteinsson († 1228) sè þessir hinir sömu, sem skráin getr um; en hvað sem um það er, þá er það víst, að enginn þeirra hefir orðið ábóti á Helgafelli, því 1187—1230 voru þessir þar ábótar: Þorfinnr Þorgeirsson (Sturl. 3, 3; Landn.

---

1) í ábótatali frá 14. öld í Stokkhólmsbók af Biskupasögum (Nr. 5 í Fol.) eru taldir ábótar í Flatey Eyjólfr Hallsson og Hafliði Þorvaldsson, en þar mun vera eitthvað mishermt, og slengt saman við ábótatal í Saurbæ og Hítardal (sbr. ísl. Ann. 1212 og 1201).

2) um gjöf Æsu er talað í landamerkjaskrá Þrándarstaða og Íngjaldshóls, sem er rituð hèrumbil 1280. Í þeirri skrá er sagt, að Æsa hafa gefið Þrándarstaði „staðnum að Helgafelli". Finnr biskup telr gjöf þessa til hèrumbil 1174 (Hist. Eccl. Isl. IV, 67) en þá var enn klaustr í Flatey, og getr því jörðin ekki verið gefin fyr en síðar. Æsa hin auðga er án efa Æsa Þorbergsdóttir, kona Þórhalls Svartssonar á Hólmlátri (Sturl. 2, 29); hann var auðugr maðr, og allmikill fyrir sèr. Sveinn Sturluson vó Þórhall hèrumbil 1174, og átti hann þá eptir þrjár dætr vaxnar. Æsa hefir því orðið að vera gömul kona 1184, og hefir varla lifað lengi þar eptir.

II, 25. 27, † 1216), Ketill Hermundarson, Hallr Gizurarson og Hallkell Magnússon. Þorfinnr ábóti bjó fyrir sunnan áðr en hann komst í ábóta stètt, en ætt hans var að vestan, og er því líklegt hann kunni að hafa verið af kyni Ögmundar ábóta Kálfssonar, sem oss er nú ókunnugt.

---

Þenna raþahag hofum ver raþit. at þeir Guþmundr oc Olafr oc Eyiolfr scolo taka viþ[1] staþ her at Helgafelli. oc halda her kanoka lif ef guþ gefr afl til. sva fiolment sem þa vill verþa. meþan mitt lif er. en hafa staþ meþan þeir vilia. oc þeir verþa til færir. oc sa þeirra sem lengr lifir. ef sa er færr. Nu villda ec at annarr hvarr guþmundr eþa olafr tæki þetta sæte eptir [mic]. ef þeir gæta at ser. oc kome eige spiöll a þeirra raþ. þau er firi þvi eige at standa. en ef eige verþr sva. þa villda ek at þeir hefðe fiarraþ oc tæke abota. ef sva vill ganga. þætte mer bezt. at af varo kyne være. ef sva ma. meþ umsio biskops. Nu ef eige verþr afl til at munklife se halldit. hvat sem at skortir. þa hofom ver akveþit. hver her skal kennimanna vist vera .V. messo songs menn. diakn oc subdiakn. ij. messur hvern dag rumhelgan. en svo helga daga sem forraþs maþr vill. allt annat tiþa halld sem somir.

Meþ þesse afskylld fara þeir fear hlutir. lond fiogr. þau er þar fara saman meþ eyium þeim er abote keypte þar meþ itakalaus. oc meþ ollom gæþom. raptskogr i dranga land. oc arnar huals enge. kyr .XX. vxn. ij. tamer oc graþungr. viij. hross. hit fæsta. XXᶜ i busgagne oc husbuninge. oc þeim gæþom sem innan veggia ero. kvern oc selnet. ij. skip. annat atta ært en annat sexært. hundraþ bækr. oc messoklæþe. oc allt annat kirkio skruþ. klockor .iiij. oc skrin. þau fe oll saman virþe ek sva sem þriu hundruþ hundraþa mune vera. oc hundraþs alna virþ kugillde þess fiar. er i þvi er.

---

1) mȝ (með), *handr., og er það yngra orðatiltæki og líklega breyting ritarans.*

## 70. 27. Januar 1189. í Lateran.

Clemens páfi hinn þriði bannar öllum klerkum og kennimönnum í Noregi að bera vopn.

Brèf þetta er að vísu ekki nema til klerkastèttarinnar í Noregi, en brèf Eiríks erkibiskups, það sem hèr fylgir næst á eptir, sýnir, að hann dvaldi ekki við að birta það á Íslandi. Þó megum vèr ekki skilja þetta brèf svo, sem þar með sè nýtt boðorð gefið, er erkibiskup hafi síðan birt á Íslandi með brèfi sínu, og hafi það þarmeð orðið þar í lög leidt, heldr er þetta brèf einúngis ritað til að halda fram þeirri reglu, sem fyrir laungu var sett, og ítrekuð á mörgum þíngum kirkjunnar, en var lítt aktað í Noregi um þessar mundir. Á Íslandi sjáum vèr að regla þessi hefir verið orðin almenn í tíð Gizurar biskups (Kristni s. kap. 13. 14; Bisk. s. I, 29. 31), og þess er getið sem merki klerkdóms Páls prests Sölvasonar í Reykjaholti, að honum lágu opt eptir vopnin á alþíngi (1181), þegar Jón Loptsson rèði honum til að bera þau til að verja hendr sínar. Regla þessi hefir því verið alkunnug á Íslandi laungu áðr en þetta brèf var ritað, en af þessu boði páfa og erkibiskups sjáum vèr enga verkan, því í deilum Guðmundar biskups og optar bera prestar vopn einsog aðrir og berjast hraustlega (Sturl. 4, 6 og víðar). Þó er það eptirtektar vert, að í stað þess að á öndverðri elleftu öld var sú stefnan, að fjölga goðorðum og mínka þau, og gjöra þar með einstökum höfðíngjum örðugra fyrir að beita ofrvaldi, þá kemr það fram á ofanverðri öldinni, að prestar gefa og selja af hendi goðorð sín veraldlegum höfðíngjum, og beina þarmeð veg til að auka veldi þeirra, metorðagirnd og ráðríki. Þar með opnast og vegr til þess, að hin andlega og veraldlega stèttin skilst að, og hvor beitir sínu vopni, önnur hinum útlendu kirkjulögum frá Róm, en önnur hinum fornu innlendu lögum og venjum, þar til hún leiðist einnig til að leita aðstoðar hjá útlendu konúngs valdi.

Páfabrèf þetta er prentað hèr eptir Frumritinu, sem er í hinu norska frumbrèfasafni Árna Magnússonar Fasc. III, Nr. 1 (ekki I, 3) en það er áðr prentað í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. IV. í Formálanum; Thorkel. Diplomatar. Arnamagn. II, 11 og í Langes og Ungers Diplomat. Norveg. II. Samling. Christiania. 1852. 8vo. Nr. 1.

Frumbrèfið er svo í hátt, að það er 6 þuml. á breidd, 4 á hæð, faldrinn tæpr hálfr þumlúngr, ígegnum miðjan faldinn tvö göt með í dregnum gulum silkiþræði, og hángir þar á blýbóla páfans heil og ósködduð. Framan á bólunni nafn páfans: CLEMENS pp. III. í þremr línum, aptaná höfuð tvö, og á annað að vera Páls postula, en annað Pèturs; yfir höfðunum: SPA. SPE. (þ. e. Sanctus Paulus. Sanctus Petrus); milli höfðanna sverð standandi á oddinum, í mynd svosem kross.

Aptan á brèfinu með fornri hendi: „Ne clerici arma in

expeditione assumant". Þar undir með hendi Árna Magnússonar ártalið 1189. Þar fyrir neðan „Num. XXXVI." og neðst „Fasc. 3. 1.", sem er tala brèfsins í brèfasafni Árna. Utan við þetta hægramegin stendr með hendi Árna: „Clementis III. bulla at ingen Clericus maa gaa i Krig eller bære gevær. 1189".

---

Clemens episcopus seruus servorum dei. Dilectis filiis vniuersis clericis per Norweiam con|stitutis. salutem. et apostolicam benedictionem.

Cum arma clericorum iuxta sacre scripture testimoni | monium[1] orationes et[2] lacrime iudicentnr. periculosum est uobis et professioni uestre | penitus inimicum bellis uos carnalibus immiscere. qui debetis etiam a curis | secularibus abstinere. Juxta illud apostoli. „Nemo militans deo implicat se negotiis | secularibus" et cetera. Jnde est quod uniuersitati uestre auctoritate apostolica pro|hibemus. ne quis uestrum nisi forte ut tribuat penitentiam et alia sacramenta | ecclesiastica morientibus. et praua opera dissuadeat. in expedicionem ire. aliqua te|meritate presumat. Alioquin. sententiam quam propter hoc venerabilis frater noster | . . .[3] Nidrosiensis archiepiscopus in uos tulerit. nos auctore domino ratam habebimus. et | mandabimus inuiolabiliter obseruandam.

Datum Laterani. V. | kal. Februar. Pontificatus nostrj anno Secundo.

---

## 71. [1189].

**Brèf Eiríks erkibiskups** til biskupanna á Íslandi, Brands Sæmundarsonar og Þorláks Þórhallssonar, um hjúskaparmál og um kennimenn.

---

1) *þann.* = testimonium.

2) þannig útgáfurnar; í frumbrèfinu er þetta orð nú ólæsilegt, einsog það væri skafið út.

3) eyða, og þar í púnktar fyrir upphafsstaf nafnsins.

Eptir skinnbókinni úr Borgarfirði Nr. 186. 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 110—114 (sbr. Nr. 38 hèr að framan). Brèfið er prentað áðr í Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 244—249, og í „Index diplomatum" (IV, 381) heimfært til ársins 1180, er það án efa prentvilla ein, í stað 1188, þegar Eiríkr varð erkibiskup. Orðamunr helzti eptir Hist. Eccl. er tilfærðr og merktr *F.*

það virðist mèr augljóst af brèfi þessu, að það muni vera hið fyrsta embættisbrèf, sem Eiríkr erkibiskup hefir ritað til Íslands, og ætti það eptir því að vera sent út þángað um vorið eða sumarið 1189. þau orð, sem einkum votta þetta, eru, að hann kveðst nú vera til boðorða settr yfir biskupunum báðum, og annað hitt, að boðorðin um kennimenn eru hèrumbil sama efnis hèr eins og í brèfi Clemens páfa hins þriðja hèr næst á undan. þetta brèf hefir því erkibiskup án efa haft með sèr frá Róm 1189, og auglýst það sem fyrst um sitt erkibiskupsdæmi.

Brèf þetta hefir verið upphaflega á Latínu, og það er svo að sjá, sem það hafi verið íslenzkað af þeim hinum sama sem ritað hefir skinnbókina. Til þessa er ljós vottr bæði einstöku orðatiltæki í brèfinu sjálfu, sem eru stælt eptir Latínunni, og þó einkum, að utanmáls eru mörg orð rituð á Latínu, og þegar að er gætt, þá eru það þau orð sem hljóta að hafa staðið í brèfinu sjálfu, orðrètt rituð upp úr því; það er og eptirtektar vert, að einmitt þau orðin í Íslenzkunni, sem samsvara hinum latínsku er utanmáls standa, eru rituð með öðru bleki, en þó með sömu bendi í bókinni, og er auðsætt, að ritarinn hefir í fyrstu skilið eptir eyður fyrir þessum orðum, og ritað þau inní síðar; er það líklegt hann hafi verið í vafa um hvernig þeim skyldi snúa, og ráðfært sig um það við aðra, en síðan ritað inní eyðurnar, þegar þeir hafa verið búnir að koma sèr niðr á hversu snúa skyldi. þetta brèf er eitthvert hið þreifanlegasta dæmi um, að erkibiskupar hafi ritað á Latínu, þó vèr þekkjum nú ekki sum brèf þeirra nema á Norrænu (= Íslenzku), það er að skilja í útleggíngum, sem að líkindum eru allar samdar á Íslandi og þessvegna hvergi að finna nema í íslenzkum handritum.

---

## Statvta Eyreks erkibiskups[1].

Eyr[ekr] erki biskup sender kvediv brandi biskup[i] og þorlaki biskupi brædrum sinum Guds Qvediu og sina.

Mikils hugda eg at œ fatt vere med ydur. En eigi hefur mer so birst firi augvm fyr. sem nu. og se eg af þui. at nv hefur ec heyrtt. at hier er micill þorf guðz vina. þviat anad

1) fyrirsögn með rauðum stöfum í skinnbókinni. Upphafsstafrinn grænn, gulr og rauðr.

tueggia er hier godur madr til micilla nytia. bædi sier og þeim er hann a til at gæta. eda til þvngligs tions. bæde sier og odrum. Nu þo at ver megum eigi allan yduar varnad tea. ydur innilega. þa þav mal er freklegust ero bodin. sem er vm hiuskap. eðr kenne manna at hæfe er ver heyrdvm. at mest væri a vant med ydur. vilivm ver ydur tia med nokurum ordum. þuiat anad tueggia verdit þier. þui. at fylgia. og adra med bodordum. til fylgdar flytia. ella eigi þier. eigi biskupar vera yfer þeim. er eigi vilia vit þeim [taca. bodordunvm.[1] En þo at þeir menn. er gud hefur vellde led. sier til hialpar. ok odrum. er þeir ero yfer setter. vili helldur sinv megni og a litvm til onytz snva. helldur en til gagns. sier og odrum. og kallizt nymæle heyra. er sliktt er fram borit. þa verdit þier at lata eigi sanninde rakna firir orda þeirra saker. Nv med þvi at ec em til bodorda settur yfer badum. þa so sem þid eigvd gvdj hlydnj at ueita. og hinum helga petro og mier so tacid þid vit þeim bodordum. og teiz at bader. En ef so er at menn rise med ollv a mote. og vilia so a fyrnsku hallda at bodord ydur eiga ongvan stad. þa sækist helldur a fund minn. En þit tynid yckur bæde og odrum þeim er þit eigut til at gæta. þviat skliktt sem [ þat ad[2] vier hofum til greida at leggia med yckur. þa skal þat firi gudz saker heimillt vera.

Nv ef madr firi lættur konv sina. og tekur adra konv. þa skal hann vit skiliazt þa konu er hann tok sidar. En taca hina fyre. eda se j forbodum. En ef madr tecr vitande frændkonv sina. eda sifkonu at fimta manni. eda gudsifiv sina. þa kemur þar forbod firi. ef eigi lætur af. Og ef anad tveggia hiona giorer hordom.[3] þa skal anad hvortt [sættazt aptur. eda hreinlega hallda[4] medan bæde lifa. En ef anad huort vill eigi [til sættar ganga[5] og eigi [hallda sic uid[6]. þa skal þat þeirra j forbodvm er eigi uill sættast. En ef madr legst med frændkonv. kono sinar. og er leynt. þa skal eigi hiv skilia hvegi naen at frændseme [eda þott systur se[7]. En ef upp kemur.

1) *frá* [ bodordum taka, *F.*
2) *frá* [ sl. *F.*
3) adullterivm, *skinnb. utanmáls.*
4) [ reconciliari eðr continere, *utanm.*
5) [ reconciliari, *utanm.*
6) [ continere, *utanm.*; hallda við, *F.*
7) *frá* [ er þó systir sè, *F.*

og er so nait at [ skemd at[1] giorer firi monnum samvistv þeirra. þa skal skilia þav og hvorke fyrer leitast medan bæde lifa. En [sialft leypt[2] þvi þeirra firir at leitast. sem eigi vardar[3] eda velldur meinvm. ef þat lifir leingur. En þo[4] at þau skiliast sidan er upp kemur. þa megu þau ecki firir leitast medan bæde lifa. En ef madr villizt j kuonfange þa giorest þat œ florar lunder anad tueggia. at anar er madr en til er hugtt. eda[5] sa er þv veizt hverr er. og reynest sa at þræle. er þu hugder at frials væri. þridia er þat. er þar sem þu hvgder audæfe vere. þa er þar fatæke. Fiorda er þat. ef madr hygst taca goda konv og vitra. og uel heila og reynast at odrv. Nv þeir tveir hiner fystv villur.[6] persone. og hegdanar.[7] þa megu þeir slita hiuskap ef maðr bindz eigi med samþyki[8] sidan hann vard var uit. En þeir tueir ener sidare [villur. audæfe og macktar leike[9] megu eigi slita hiuskap. Eigi skal heil viti madr fa ærrar konv þo at audig se. En ef feingit er þa skal eigi skilia. huort er hann uisse hana æra eda eigi.

En vm fastnadar mal. þegar madr fastnar sier konu med jaquede hennar sialfrar. og er [samþycktt af nalægd og eigi af okomnv[10] þa er þat fast svo sem fullr hiuskapur ef vottar vitv. Nv fullnast þetta at gudz logum. En þo er hitt bodit at þat skal giora med frænda rade. En þo at þvi bregde nockut. þa er þat fullt þegar vitne fæst. [af samþycki[11]. En allt þat er ver lærder menn megvm draga til þess. at forrad frænda se ꝍ giptingvm kvenna. þa er betra til þess at draga. þviat optast er þat. at þeir sia betur firir. en þær sialfar. En þat er [samþycki okomit[12] er heitid er fastnadar malum. er ver kollum handfest. En [samþycki af nalægdum[13] er þat er ver kollum fastnadar rett.[14] er hvortveggia þeirra jatazt odrv til

1) [ scandalvm, *utanm.* 2) [ = sjálfleyft.

3) verður, *skinnb.* 4) þa, *F.* 5) er, *F.*

6) error, *utanm.*; *orðatiltækið* tveir . . . villur *sýnir ljóslega, að brèfinu er snúið úr Latínu* (primi . . . errores).

7) condicionis, *utanm.*; *á því sem undan er gengið sèst að* conditio *hefir þýdt hèr* stètt (frjáls *eða* þræll) *en ekki* hegðan.

8) consensu, *utanm.* 9) [ error fortune et qvalitatis, *utanm.*

10) [ consensus de presente z e[l] de fvtvro, *utanm.*; okomnum, *F.*

11) [ de consensu, *utanm.* 12) [ consensus de futuro, *utanm.*

13) [ consensus de preeenti (= presenti), *utanm.*

14) púnktrinn er fluttr aptr fyrir orðið.

hivskapar med vottum epter þeim lanz sid er hier geingur. þat ma eigi riufa. Þeirrar konv ma engi fa. nema sa er fastnad hefur. medan þau lifa bæde. En hvortvegia ma kiosa hreinlife ef vill þott anad banne. fyrer samgang þeirra og þat fyrer leitast er eigi kys hreinlife. En ef anar fær þa skal refsa sem fyrer hordoma[1]. En allt þat er hier er nv sett þa er jafnmæle medall kallz og konv. fyrer vtan þat er at eigi ma kona so vegna bonda sinum. sem bonde konv sinne. til skilnadar fyrir hordom.[2] En ef madr nemr[3] konu. og samþycki[a]st þau sidan. þa ma hann hafa hana at eigin konv med frænda rade. og hennar uilia. og skal hann vera j skriptvm fyrir namit[4]. En ef madr legst med konv manz. medan bonde hennar lifir. þa ma hann fa þeirrar konv epter fra fall hins. ef þav vilia bæde. ef hann hefur eigi radit honum bana. eda vnnit henne nockur fastinde. til þess. at hann skylde fa hennar ef hinn felle fra. En ef madr ma eigi eiga lag vit konv sina. þa verdur þat[5] anad huortt med giorningvm. eda med kynfylgiv spelle. En ef med giorningvm er. þa verdur at hialpa lata. med bænvm og olmosv giordvm vit gud og ef þat stoðar. þa er nel. En ef eigi stodar. þa ma hvn fra[6] radast. og er hvn eigi neydande til aptur hvarfs. ef hun hefur fyrir leitast. þott bonde hennar kome. til mogvligs[7] samneytis. En ef kyn fylgio spell. kemur at manni. so at hann ma eigi eiga lag vit konv sina. þa mecgv þav skiliast. ef þat sanazt med sex manna uitne. epter ia sialfra[8] þeirra. En sa skal vera eidur[9] bædi hionanna og þeirra ennv nanustu manna j beggia ætt. at alldri hofdv þav likam sinvm saman blandit j sinvm hiuskap. En ef kona seiger anad. en karllmadr. þa skulv hans ord meira mecga. en hennar.

Kenne menn bere eigi vopn[10]. og skulv vera fridsamer vit

---

1) advllterivm, *skinnb. utanm.;* — hordom, *F.* 2) advllterivm, *utanm.*
3) nemst, *skb.* (*upphafl.* nemr *lesið* nemz). 4) *þann. F;* namz, *skb.*
5) mȝ, *b. v. skb., og er ritvilla.*
6) *þann. les F.; í skinnb. ritað* f' (fyrir). 7) possibilitas, *utanm.*
8) sialfum, *rángt, F.* 9) leið², *skb.*
10) skipanir þessar til kennimanna eru bersýnilega lagaðar eptir fyrirskipunum þingsins í Lateran 1179, á tíma Alexanders páfa hins þriðja, sem standa í ymsum söfnum af Acta Conciliorum, svosem t. a. m. Harduins. Paris 1714. Fol. Vol. vi. P. ii. col. 1679 (concilium Lateranense. Tit. xii.).

olærda menn. þviat olærder menn sæta miclvm stormælvm ef þeir vinna ꝍ kenne monnum. og take eigi þær saker oskylldar ꝍ́ hendur sier. er þeir skulv anad tueggia. med odd eda egg sækia. Take þær[1] einar og þo skylldar sacker ꝍ́ hendur sier at ecki þurfe vopn vit. En ef kenne madr verdur hirtur af odrum hvorum yckrum og vill eigi [at lata. epter þvi[2] sem ec hefe tied yckur. fyr j rite minv[3]. þa se fyst ꝍ́ honum forbod en sidan bansettning. ef eigi vill at lata. En þo at þer finnit ꝍ́ mote þeim malvm. herdu og þra mikit. þa er vfallit at þier latid fyrir þvi[4] Guds eyrinde fallazt og þvrft hinna. er þier eigut at gæta. fyrir þvi. at med þvi er batans von. ef stadfesta kemur ꝍ́ mot. þra[5] heimskra manna. og sv ast er til gudz vilia litur. En eigi til hins. hveria naud hann þoler. fyrir Guds saker. enda krefur eigi gud af ykur framkvæmdar sinna bodorda. nema starfs. og godvilia. þviat j gudz er vallde. at snua hverivm þegar honum þikir fallit uera. en epter starfe og uilia er huerium ömbun buin. valete.'

---

## 72. [1190].

Brèf Eiríks erkibiskups til biskupanna á Íslandi, og til Jóns Loptssonar og annara höfðíngja og alþýðu, um bannsmál; sömuleiðis að enginn vígðr maðr takist sóknarmál á hendr til fjár, eða þau er kappi og vopnum verðr fram að halda; og að biskupar vígi eigi hèr eptir goðorðsmenn.

Brèf þetta er tekið eptir skinnbókinni Nr. 186. 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 126—128 (sbr. Nr. 38 hèr að framan). Það er prentað áðr í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. I, 253—255, og er hèr getið helzta orðamunar þaðan *(F)*; í brèfaregistrinu við sögu Finns biskups (IV, 381) er það heimfært til ársins 1180, og er það að líkindum prentvilla.

Það getr varla verið efa undirorpið, að brèf þetta sè sent til Íslands sumarið 1190. Í brèfi þessu talar erkibiskupinn um stefnu, er þeir hafi átt fimm biskupar og ábótar og fjöldi kenni-

1) Tate þ'r, *skb.* 2) *frá* [ láta eftir því, *F.*

3) hèr er án efa litið til þess, sem sagt er framarlega í brèfinu, um þá er eigi vilja hlýða boðum biskupa, en ekki til annars brèfs, sem áðr hafi verið ritað. 4) þat, *F.* 5) *þannig skb., ekki* þeirra.

manna, þar sem þeir hafi gjört skipanir um bannsmál. Þessi stefna var haldin í Mai 1190, líklega í Björgvin, og þá er samin ályktan sú sem stendr framanvið hinn norska Kristinrètt, þann er eignaðr er Sverri konúngi (Norg. gaml. Love I, 409), og efni þeirrar ályktunar kemr allvel saman við það sem hèr stendr í brèfinu. Erkibiskup segir hèr, að sig minni að hann hafi sent áðr skrá til Íslands; þar getr hann án efa um brèf það, sem hèr er næst á undan, og er það enn til sönnunar um, að það brèf muni ritað vera árinu fyrir.

Brèf þetta virðist annars bera það með sèr, einsog önnur brèf erkibiskupa til Íslands, að það hafi verið upphaflega samið á Latínu, og að þetta sè íslenzk útlegging þess, en ekki eptir frumriti, heldr ritað eptir öðru eldra handriti íslenzku.

---

Ey[rikr][1] erkibiskup sender qvediu. B[randi] biskupi ok Þorlaki biskupi. Jone loptzsyni. ok ollvm odrvm hofdingivm. bvendvm ok bvþegnvm. ok allri alþydv á Jslandi. gvdz ok sina.

land vortt hefir vnder bardaga leigit micklvm vm hridir. ok vitvm vier vor volld til þess vera. en eigi gvdz vilia. at hann mundi oss navdsynia laust beria ef eigi gengi sakir til. En þa er vier biskupar hofum fvnd vorn haftt. ok hofvm epter sȯkvm fregit. þa hofum vier þat fvndit j. at hvorertveggiv ero eigi med ollv saklavser. lærder ok olærder adrer med onyttri diorfvng ɑ mote gudi. en adrer med þogn ok orækd[2] þerar gœslv. er lærdvm monnum hefer[3] ɑ folki at hafa. ok med þvi at fiolde olærdra manna. kvast meirr med oviskv j stormæli hafa fallit vm banz mal. helldur en med jlvilia ef þeir hefdi vitad á sinvm malvm abyrgd. þa fyrir[4] þat færdvm[5] ver þat j lysingar er ver sœm mesta misferd á ok gudi er [mest osame[6] j ok letvm ban[n] epter fara v. biskupar saman ok abotar ok fiôlld[7] kennemanna. ok stendur þat ban[n] so vida sem vort er Riki yfer. ollvm þeim er til þess gera.

---

1) St' eilifs erkibiskvps. *fyrirsögn í skinnb. með rauðu letri. Upphafsstafrinn grænn og dregið í rautt. Upphafsorðið er ekki ritað nema* Ey., *og verðr þaraf ekkert með vissu ráðið.*

2) orægd, *skinnb.* (*uppha\fl.* orækð). 3) = hæfir; hef², *skinnb.*

4) ferir (f⁵ir), *skinnb.* 5) f'ðm̄, *skinnb.*

6) *frá* [ mestr ósómi, *F.* 7) fiölldi, *F.*

Nv er þat eitt mal. ef menn briota kirkiv frid. hvort er þeir taka helgat. eda ohelgat. eda grand veita manni jn[n]an kirkiv. eda kirkiv gardz med heiptǫgri hendi. eda konur taka navdgar. eda vinne menn ǡ likamma lærdz manz. eda munks. sem ꜳ skranne er. at vier hofvm vt hingad sett.[1] ok vm allt vortt lannd jn[n]an fyri.

En oss minnur[2]. at vier hofvm sent vt hingat skra nockura.. vm varnad lærdra manna. ok hogvere. þa er þeim byriar at hafa vit folk. ok vilivm ver enn vora nad ǡ breida ok þat latvm ver fylgia. at þeir menn er j gvdz þionvstv hafa bvndit sig ok subdiakn̄ er at uigslu. eda hærre. Take eigi soknarmal ǡ hendur sier. þav er med kappe ok vopn̄vm verdur fram at hallda. En ef vardar [skylldum manni[3] lærdz mannz. eda fatækvm manni. þa gere kavplavst at veita fullting til Rettz. en hvergi vm fram. ok sia þar til vmbvn̄a at gvd er.

En̄ mettord þat þier kallit syslv vt hier. þa synest oss eigi fiarre vera sem greiua[4] skattur ǡ vtlondvm eda lendz manz rettvr med oss ok med þui at eigi ma bædi þiona senn veralldar jvasan̄ ok rettlega kenne manz nafn bera ok þa skylldv jnna er kenne menn [eigu] vit gvd at hafa. þa er þat af tekit at hinn same madr se yfer soknar madr ok kenne madr. ok [fyri þvi biodvm ver biskupum at vigia eigi[5] þa menn er god ord hafa. nema þeir sele vpp þat nafn þangat sem fallit þicker ok ganga frelster fra jvasan til gvdz embættis ok til. vigslv tǫkv.

---

## 73. 15. Juni 1194. í Róm.

Celestinus páfi hinn þriði staðfestir ýmisleg rèttindi erkistólsins í Niðarósi, þar á meðal að erkibiskup megi senda mjöl til Íslands, til að kaupa fyrir klæðaefni, og hafa toll af einu Íslandsfari árlega.

---

1) sendt, *F.* 2) = minnir, *og þann. F.*

3) *frá* [ skylldumanni, *F.* 4) greina, *skinnb.*

5) *frá* [ fyribiodum ver biscupum at vígia, *F.*

Eptir Transscripto í Leyndarskjalasafninu (Norge Nr. 20), á stóru blaði á skinni. Þetta Transscriptum er staðfest af Kapitula og kanúkum við Mariu kirkju í Oslo, og útgefið þar 16. April 1399. Tvö innsigli hafa verið fyrir Transscripto, og er hið fyrra týnt, svo gatið eitt er eptir, en hið síðara hángir við, og er þó brákað og máð. Afskript af brèfi þessu er í Bartholins brèfabók í bókasafni háskólans í Khöfn C, 328—331, og önnur í afskriptasafni Árna Magnússonar af norskum brèfum, Nr. 5, hin þriðja í Leyndarskjalasafninu í Langebeks mikla brèfasafni með hendi Jóns Marteinssonar.

Prentað áðr í Thorkelins Dipl. Arnamagn. II, 13—17 og í Dipl. Norveg. II, Nr. 3.

---

Celestinus episcopus seruus seruorum dei. Venerabili fratri Heirico nidrosiensi archiepiscopo eiusque successoribus canonice substituendis. imperpetuum.

Ea cura et diligencia. volumus fratrum et coepiscoporum nostrorum dignitates et jura seruari. vt in hiis in quibus fauorem apostolicum preuia Racione deposcunt illum sibi senciant benignius suffragari. Eapropter venerabilis in Christo frater tuis iustis postulacionibus clementer annuimus et personam tuam atque nidrosiensem ecclesiam cui auctore deo preesse dinosceris sub beati petri et nostra proteccione suscipimus et presentis scripti priuilegio communimus statuentes vt quascunque possessiones. quecunque bona. eadem nidrosiensis ecclesia inpresenciarum iuste et canonice possidet. aut in futurum concessione pontificum largicione regum vel principum. oblacione fidelium seu aliis iustis modis prestante domino poterit adipisci firma tibi tuisque successoribus et illibata permaneant. libertates autem et immunitates quas de concessionibus regum et precipue Regis Magni Norwagiensis ecclesia tuo subiecta regimini hactenus obtinuisse dinoscitur tibi et ecclesie ipsi. auctoritate apostolica confirmamus. et perpetuam habere decernimus firmitatem.

Licitum quoque sit tibi et successoribus tuis in capellis a regia liberalitate fundatis vel dotatis sicut in aliis ecclesiis vel capellis prouincie tue jdoneas instituere. sine ipsorum assensu vel presentacione personas secundum renunciacionem. quam de jure patronatus per publica instrumenta. et per priuilegia sua. constat eosdem reges fecisse.

Statuimus insuper vt in eleccionibus episcoporum et abbatum prouincie tue nulla .vis nulla potencia nulla auctoritas vel consensus regis seu principis jnterueniat nec fauore ipsorum quisquam officium ecclesiastice prelacionis obtineat. Nisi quem concordi eleccione illi ad quos electio pertinet. vacanti ecclesie sciencia et moribus judicauerint apciorem.

Clericos eciam regni Norwagie. debita volentes libertate gaudere presenti pagina districcius prohibemus. ne aliquis episcopus. abbas seu clericus. cum ipsi Regalia non habeant. ărma sumere. vel in expedicionem jre vel ad hoc quicquam. de suo jmpendere compellantur. nisi forte necessitas tam grauis jmmineat quod id a dyocesano episcopo et sapiencioribus et discrecioribus viris ecclesiasticis communicato consilio fieri permittatur. Si vero aliquis clericus qui nec prelacionem obtineat ecclesie nec eius sit ministerio vel officio. quod absque dispendio ecclesie deserere non possit specialiter deputatus expedicionem sequi. ă suo episcopo permittatur. jn eo ibi officio seruiat. quod professioni sue vel ordini competere dinoscatur.

Specialiter autem presbiteros vel clericos. et laicos beati Olaui martiris seruicio deputatos et sacerdotes alios omnes tam in Rure quam ciuitate morantes. juxta quod regie pietatis priuilegio sunt exempti ab illis ăngariis immunes esse omnino. censemus. que lingua Norwagica certo et appropriato vocabulo nuncupantur læidangre.

Preterea vobis concedimus triginta mensuras farine que lest vocabulo appropriato dicuntur pro emendis vestibus ad opus ministrorum beati Olaui mittere in Jslandiam illis presertim temporibus quibus id patrie pacietur vbertas. Et vectigalia que de vna naui ab jslandia venienti annis singulis ecclesiæ beati Olaui debentur eidem auctoritate apostolica confirmamus.

Omnes eciam ad eius ecclesiam deuocionis causa et peregrinacionis intuitu accedentes tam aduenas quam jndigenas sive guerre tempus sit siue pacis in eundo et Redeundo firma volumus et statuimus securitate gaudere. potiri. et eos qui rei de talium molestacione inuenti fuerint pene canonice in eos generali deliberacione statute decernimus subiacere. Jllis quos

interfici tali conflictu a peregrinis pro defensione sua contigerit sepulturam censentes ecclesiasticam denegari.

Clericis vero in causis canonico jure prohibitis jnterdicimus penitus seculare judicium et illos qui contra prohibicionem communem et nostram specialiter super hoc venire temptauerint et subire iudicium seculare secundum arbitrium dyocesani episcopi censemus canonice puniendos.

Ecclesias eciam dedicatas sine permissione dyocesani episcopi nulli omnino fas sit destruere, siue de loco ad locum aliqua occasione transferre.

Nulli eciam regi vel principi liceat approbatas patrie leges et scriptas absque consensu episcoporum et sapientum consilio [immutare] et pecuniarias penas tam in clericis quam in laicis contra antiquam consuetudinem in ecclesiarum seu clericorum dispendium vel ab aliquo episcopo seu abbate regalia non habente ante consecracionem seu benediccionem aut post fidelitatis exigere sacramentum. Sed et in dandis decimis de terris et mansionibus suis reges omnino sequantur canonicas sanctiones.

Nichilominus presencium tibi auctoritate concedimus. vt secundum quod predecessores tui obtinuisse noscuntur. liceat tibi et successoribus tuis non ad voluptatem sed ad tuum et ecclesie commodum. aues falcones scilicet et austures et griseos emere prout a predecessoribus tuis est hactenus obseruatum.

Decernimus ergo vt nulli omnino hominum liceat prefatam ecclesiam temere perturbare aut eius possessiones auferre vel ablatas retinere minuere seu quibuslibet vexacionibus fatigare sed omnia integra conseruentur. eorum pro quorum gubernacione ac sustentacione concessa sunt vsibus omnimodis profutura. Salua in omnibus apostolice sedis auctoritate.

Siqua igitur in futurum ecclesiastica secularisue persona. hanc nostre constitucionis paginam sciens. contra eam temere venire temptauerit. secundo terciove commonita nisi reatum suum congrua satisfaccione correxerit. potestatis honorisque sui dignitate careat Reamque se diuino iudicio existere de perpetrata iniquitate cognoscat. et a sacratissimo corpore ac sanguine dei et dominj redemptoris nostri Jhesu Christi aliena fiat. atque in extremo examine diuine vlcioni subiaceat. Cunctis autem eidem loco sua jura seruantibus sit pax domini nostri Jhesu Christi. quatinus et hic fructum bone actionis percipiant

et apud districtum judicem premia eterne pacis jnueniant. Amen. Amen. Amen.

Et ego Celestinus, catholice ecclesie episcopus.

Ego Albinus Albanensis episcopus.

Ego Octauianus Hostiensis et Velletrensis episcopus.

Ego Johannes Prenestinus episcopus.

Ego Petrus Portuensis et sancte Rufine episcopus.

Ego Pand[ulfus]. Basilice XII. apostolorum presbyter cardinalis.

Ego Petrus tt:[1] S. Cecilie presbyter Cardinalis.

Ego Johannes tt: S. Clementis Cardinalis Viterbiensis et Tuscanensis episcopus.

Ego Gwido presb. cardin. S. Marie trans Tiberim tt: Calixti.

Ego Hugo[2] presb. cardin. S. Martini tt: Equicij.

Ego Johannes tt: sancti Stephani in Celio monte presb. cardin.

Ego Cinthius tt: sancti Laurencii in Lucina presb. cardin.

Ego Soffredus[3] tt: sancte Praxedis presb. cardin.

Ego Bernardus sancti Petri ad vincula presb. cardin. tt: Eudoxie.

Ego Johannes tt: sancte Prisce presb. cardin.

Ego Gracianus sanctorum Cosme et Damiani dyaconus cardin.

Ego Gregorius sancte Marie in porticu dyaconus Cardinal.

Ego Gregorius sancte Marie in Aquiro diaconus cardinalis.

Ego Gregorius sancti Georgii ad velum aureum dyac. cardin.

Ego Lotarius sanctorum Sergii et Bachi dyaconus cardin.

Ego Nicholaus sancte Marie jn Cosmidin dyacon. cardin.

Ego Bobo sancti Theodori dyaconus cardinalis.

Ego Petrus sancte Marie jn via Lata[4]. dyacon. cardin.

Ego Cencius sancte Lucie in Orchea dyac. cardin.

Datum Rome apud sanctum Petrum. Per manum Egidij. sancti Nicholai in carcere Tulliano dyaconi cardinalis decimo septimo kalendas Julii. Jncarnationis dominice. Anno Millesimo Centesimo Nonagesimo quarto. Pontificatus vero domini Celestini pape tercij Anno quarto.

---

1) = titulo. 2—3) þann. handr. 4) *leiðrètt;* Lateran, *handr.*

74. 17. Marts 1196. í Lateran.

Celestinus páfi hinn þriði bannar strengilega að leikmenn hafi nokkra lögsögn yfir andlegum málum.

Brèf þetta er að vísu einúngis til kórsbræðra í Niðarósi, en það sýnir dæmi til á hvern hátt klerkastèttin bæði í Noregi og á Íslandi komst smámsaman til einveldis í öllum þeim málum, er þá voru andleg kölluð. Þeir útveguðu sèr skipanir páfans, og gátu síðan komið fram sem trúir og hlýðnir þjónar, sem framkvæmdu það þeim var skipað og brýndu fyrir söfnuðinum trú á hinn óbrygðanlega eyrindsreka Krists og eptirrennara í Rómaborg. Þessvegna má vel heimfæra þetta brèf til Íslands að efni til, einsog Finnr biskup hefir gjört.

Frumrit brèfs þessa var ritað á asnaleðr, og var fyrrum í hinu norska frumbrèfasafni Árna Magnússonar Fasc. III, Nr. 2, en nú kvað það vera komið í Ríkisskjalasafn Norðmanna í Kristjaníu (Dipl. Norv. I, 1). Afskript Árna Magnússonar er í afskriptasafni hans af norskum brèfum, Nr. 6; sömuleiðis eru í Leyndarskjalasafninu í Langebeks Diplomatario tvær afskriptir eptir frumritinu, önnur með hendi Klevenfeldts, en önnur með hendi Langebeks, rituð í Kaupmannahöfn 21. Septbr. 1736.

Prentað í Pontopp. Annal. Eccl. Dan. Diplomat. 1, 488; G. Schönings Throndhjems Domkirkes Beskrivelse. Anhang. Khavn 1762. 4. bls. 63—64; Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. IV. B. í formálanum; Thorkel. Diplom. Arnamagn. II, 17; Langes og Ungers Diplom. Norveg. I, Nr. 1.

---

Celestinus episcopus seruus seruorum dej. dilectis filijs. Nidrosiensi capitulo salutem et apostolicam beneditionem.

Cum ecclesiastice dignitates et spiritualis iurisditio a laicorum personis esse debeant aliene. mirari non sufficimus. quod post canonicas institutiones felicis recordationis Adrianj pape predecessoris nostri quibus tres archidiaconatus in ecclesia uestra distincxit. et decanum duxit unicum ordinandum. per laicos iurisditiones conquerimini ecclesiasticas exerceri. et eis in spiritualibus indebitam potestatem concedj.

Volentes igitur tam detestabile uitium a Nidrosiensi ecclesia remouere. auctoritate presentium districtius inhibemus. ne aliquis laicus in diocesi uestra ecclesiasticam iurisditionem exerceat. uel causas audiat aut diffiniat. que iudicio exigunt ecclesiastico terminarj.

Nulli ergo omnino hominum liceat hanc paginam nostre

inhibitionis et constitutionis infringere. uel ei ausu temerario contraire. Siquis autem hoc attemptare presumpserit indignationem omnipotentis dej. et beatorum Petrj et Paulj apostolorum eius. se nouerit incursurum.

Datum Laterani xvj. Kal. Aprilis. Pontificatus nostri anno quinto.

Aptaná með höndum frá 13. og 14. öld: „Item quod nulli committitur spiritualium causarum jurisdicio nisi clericis".

Blýbóla páfans hángir við í gulu silki. Aptaná bólunni eins og sagt er við Brèf Clemens páfa hins þriðja: höfuð Pètrs og Páls postula með sverði á milli; framaná: CELESTINVS P̄P. III.

---

## 75. 25. Mai 1198. í Róm.

Innocentius páfi hinn þriði leyfir biskupi í Björgvin að beita kirkjunnar valdi við þá Íslandsfara úr hans biskupsdæmi, sem ekki vilja gjalda þær tíundir sem kirkja hans á að fornri venju.

Brèf þetta er prentað áðr í brèfasöfnum Innocentius páfa: Opera Innocentii III. Colon. 1575. Fol. II, 129; og: Epistolæ Innocent. III. coll. Steph. Baluzius. Paris 1682. Fol. I, 117. (Epp. Libr. I, Nr. 217).

Biskup sá í Björgvin, sem brèfið er ritað til, hefir verið Marteinn, sem getr um í Sverris sögu; hann var enskr, og var hirðprestr Sverris áðr hann var gjörðr að biskupi í Björgvin, og er hann kallaðr forkunnar góðr klerkr.

---

Bergensi Episcopo.

Innocentius episcopus seruus servorum Dei venerabili fratri[1] . . . Bergensi Episcopo salutem et apostolicam benedictionem.

Cum a nobis petitur qvod justum est et honestum, tam vigor eqvitatis, qvam ordo exigit rationis, ut id per sollicitudinem officii nostri ad debitum perducatur effectum.

Sanè sicut ex tua significatione comperimus, mercatores

---

1) *eyða fyrir nafninu, líklega:* Martino.

diocesana tibi lege subjecti, cum eos negociationis causa in Islandiam transfretare contingit, decimas quas Ecclesia tua percipere ab antiquis temporibus consuevit, contra salutem suam detinent, eas reddere denegantes.

Volentes igitur tibi et Ecclesiæ tuæ paterna solicitudine providere, fraternitati tuæ auctoritate apostolica indulgemus quatenus mercatores ipsos ad persolvendas consuetas et debitas decimas, si monitione præmissa noluerint, ecclesiastica districtione sublato appellationis obstaculo compellendi liberam habeas facultatem.

Nulli ergo omnino hominum licitum sit hanc nostræ paginam confirmationis infringere vel ei ausu temerario contraire. Si qvis autem hoc attemptare presumpserit indignationem omnipotentis Dei et beatorum Petri et Pauli apostolorum ejus se nouerit incursurum.

Dat. Romæ VIII. Kalend. Junij.

---

## 76. 30. Juli 1198. í Reate.

INNOCENTIUS páfi hinn þriði áminnir biskupa á Íslandi, Pál Jónsson í Skálaholti og Brand Sæmundarson á Hólum, og allan klerkdóminn á landinu, um vandlætíng og siðferðisbót.

Brèf þetta er hèr prentað eptir brèfasöfnum Innocentius páfa hins þriðja: Innocentii III. Opera. Colon. 1575. Fol. II, 195—196; Epistolæ Innocent. III. coll. Baluzius, I, 178—179 (Libr. I, Nr. 320); og síðan með Kristinrètti Árna bisk., Thorkel. útg., Append. bls. 234—237; sbr. Raynaldi Annall. Eccles. 1198. § 73, Col. Agripp. 1691. Fol. Tom. XIII, 19. Eptir Baluzius er sú afskript úr Langebeks brèfasöfnum, sem er í Leyndarskjalasafninu við „Island 1198."

Sá Erlendr ábóti sem hèr er nefndr er ekki talinn neinstaðar með ábótum á Íslandi, og hvergi er hans getið það menn vita (Finn. Joh. Hist. Eccl. IV, 123). Þó lítr svo út sem maðrinn hafi verið íslenzkr, eða að minnsta kosti komið utan af Íslandi, enda er ekki heldr getið neins ábóta úr Noregi um þessar mundir með Erlends nafni. Nafnið er of einkennilega norrænt til þess það geti verið misritað í brèfinu, því það er varla að marka, þó hin fornasta útgáfa brèfsins hafi *C* upphafstaf nafnsins síðar í brèfinu, er gæti þýdt Carolus, þ. e. Karl Jónsson, er þá var ábóti á Þíngeyrum; þar er og mart annað á móti. að hann geti átt hèr hlut að máli. Erlendr Brandsson

hèt prestr einn, er var í fylgð með Guðmundi presti Arasyni yfir Heljardalsheiði um miðjan vetr 1195; hann varð síðan múnkr, eptir því sem segir í Guðmundar sögu (kap. 22; Bisk. s. I, 441), en þó eru ekki mikil líkindi til að hann sè sá sem hèr er nefndr.

Eptirtektar er það vert, að biskupar á Íslandi eru hèr ávítaðir um samnautn við Sverri Noregskonúng. Það mun benda til þess, að Páll biskup Jónsson í Skálaholti var með Sverri, og þáði af honum miklar sæmdir, þegar hann var í Noregi til biskupsvígslu 1194—1195. Það er þó harðla ólíklegt, að sendimaðr biskupanna af Íslandi hefði skýrt frá þessu, heldr er líklegra að bæði þetta og jafnvel allt brèfið sè í einhverju sambandi við illdeilur Eiríks erkibiskups og Sverris konúngs, því þar sparaði hvorigr nein brögð við annan.

---

P. Schalaholtden. et B. Holen. Episcopis, et aliis ecclesiarum prælatis, et clericis vniuersis, per Hislandiam constitutis. Qua significat ijs grauia quædam vitia quæ per Hislandiam corrigere debeant.

Qvamvis insula vestra longo terrarum tractu ab Urbis partibus sit remota, vos tamen, qvod Apostolicæ provisionis non sitis extorres, æstimare debetis, cum ex injuncto nobis Apostolatus officio facti simus secundum Apostolum sapientibus et insipientibus debitores, et ita pastoralem solicitudinem gerimus de propinqvis, qvod eam extendimus etiam ad remotos, qvos absentes corpore, spiritu vero præsentes, caritatis brachiis amplexamur.

Sanè dilectum filium Erlend. Abbatem, latorem præsentium, qvem ad nos transmittere curavistis, boni testimonii virum, paterna benignitate recepimus, et sicut eo didicimus referente, licet nullas ex parte vestra portaverit nobis literas sigillatas, qvas tamen asseruit se amisisse, in maris periculis constitutum, nonnulla in partibus vestris, velut in usum et consvetudinem sunt redacta, qvæ ab agro Dominico sunt studiosius exstirpanda, ne per spinas et tribulos semen Evangelicum suffocetur, inter qvæ seqventia duximus, ad cautelam exempli gratia exprimenda; ut per ea studeatis cetera vitia capitalia evitare, per qvæ ira Dei venit in filios diffidentiæ, qvi stercora pro croceis amplectuntur, et luci tenebras anteponunt.

Et ut incipiamus a primo inobcdientiæ vitio, per qvod peccatum intravit in mundum; cum in Ecclesia Dei diversi

gradus ad instar cælestis Curiæ sint distincti, ut secundum dispositionem superiorum obtemperantibus inferioribus cuncta ritè procedant, unde et Romana Ecclesia tanqvam magistra non humana sed divina dispositione universis et singulis per orbem Ecclesiis est prælata, ut ad eam velut Caput aliæ sicut spiritualia membra respondeant, cujus pastor ita suas aliis vices distribuit, ut ceteris vocatis in partem solicitudinis solus retineat plenitudinem potestatis, ut de ipso post Deum alii dicere possint: *Et nos de plenitudine ipsius accepimus*, sicut idem Erlendus[1] Abbas nobis diligenter exposuit, qvi sunt inter vos subditi, dum Prælatis suis in his, qvæ agunt perperam, nolunt humiliter obedire, ac secundum ipsorum monita salubria declinare a malo et facere bonum, contra torrentem dispositionis divinæ brachia nituntur extendere, et qvasi contra stimulum calcitrare, qvæ sic disposuit gradus et ordines differentes, ut reverentiam minores majoribus exhiberent. Profecto qvi talia agunt regnum Dei non possidebunt, erroris magnitudinem non pensantes, cum secundum prophetam peccatum hariolandi sit repugnare et scelus idolatriæ nolle acqviescere. Hi nempe vel sunt potentes, et peccata sua propria temeritate defendunt, non attendentes qvod legitur: „*Potentes potenter tormenta patientur*, et: *Deposuit potentes de sede*;“ vel minores. Et ut licentius proruant in peccatum majorum tuitione defendere se nituntur, declinantes corda sua in verba malitiæ, ad excusandas excusationes in peccatis; tanqvam in extremo examine, qvando unusqvisqve onus suum portabit, illi possint eos à ventura ira defendere, qvi pro suis sceleribus æternis incendiis reservantur.

Qvid de homicidiis, incendiis et fornicationibus referemus? et qvod excommunicatis communicare præsumitis, et præsertim Svero, et excommunicato et apostatæ, Deo et sanctis ejus pro suis actibus inimico.

Si vellemus ad ungvem singula proseqvi[2], qvæ inter vos dicuntur peccatis exigentibus freqventari, pagina cresceret in immensum, et tædium legentibus et audientibus generaret. Dolemus ergo plurimum et tristamur, hæc inter vos liberè perpetrari.

Sed veremur admodum et movemur, ne forte (qvod absit)

---

1) C., útg. 1575; E., Baluz. 2) útg. 1575; persequi, Baluz.

propter dissolutam negligentiam vestram ista proveniant, qvæ dum negligitis perturbare, qvid aliud facitis qvam fovere, facti canes muti, non valentes latrare; qvibus dicitur per Prophetam: *Clama, ne cesses, qvasi tuba exalta vocem tuam, annuncia*[1] *populo meo scelera eorum, et domui Jacob peccata eorum.* Unde Apostolus inqvit Ephesiis: *Mundæ sunt manus meæ a sangvine omnium vestrum. Non enim subterfugi, qvominus annunciarem vobis omne consilium Dei.* Mundus ergo à sangvine ipsorum non esset, si eis annunciare Dei judicium noluisset: qvia cum increpare delinqventes noluerit eos procul dubio tacendo pastor occidit.

Cum itaqve in tremendi die judicii de vestris et subditorum vestrorum actibus debeatis reddere rationem, qvin etiam, et de omni verbo otioso qvodcunqve locuti fueritis; hortamur universitatem vestram, monemus in Domino, et per apostolica scripta mandamus, qvatenus contra delinqventes qvasi contra bestias Ephesi viriliter exsurgentes, ne post cursum vitæ labentis in manus Dei viventis (qvod horrendum est) incidatis, murum vos pro domo domini non dubitetis opponere, et contra faciem Damasci turrim vos inexpugnabilem opponentes, evellere ac destruere, ædificare pariter, et plantare unanimiter procuretis qvæ in Ecclesia Dei evellenda et destruenda ædificanda fuerint et plantanda.

Ceterum qvoniam adhuc habemus multa vobis dicere qvæ non possunt commode per præsentem Epistolam declarari; præmissis breviter prælibatis, caritati vestræ duximus prædicendum, qvod auctore patre luminum, à qvo omne datum est optimum, et omne donum perfectum, in proximo invento viro secundum cor nostrum, eum ad vos mittere disposuimus: per qvem de singulis qvæ omittere vel facere debeatis et omnibus qvæ fuerunt nobis ex parte vestra proposita, cum ad vos venerit efficiemini certiores.

Datum Reat. III. kal. Augusti.

---

1) þann. 1575; annunciabo, Baluz.

## 77. 30. Juli 1198. í Reate.

Innocentius páfi hinn þriði áminnir höfðíngja og alþýðu á Íslandi um hlýðni við kirkjunnar forstöðumenn, og um að stunda góð verk og einkum ölmusugjörðir.

Brèf þetta er prentað eptir brèfasöfnum Innocentius páfa, þeim hinum sömu sem talin eru við hið næsta brèf hèr á undan (Nr. 76), því bæði brèfin fylgjast að.

---

Epistola scripta principibus et populis per Hislandiam constitutis.

Qvamvis insula vestra longo terrarum tractu ab Urbis partibus sit remota . . . . . . [o. s. frv. einsog í brèfinu til biskupanna Nr. 76 næst á undan] . . . . .

Dolemus ergo plurimum et tristamur, hæc inter vos liberè perpetrari, quos salvos fieri cupimus, et ad agnitionem veritatis venire, ad qvod viam vobis salubriter præparabit, si habueritis in his qvæ Dei sunt obedientiam ad prælatos, et eos, imo Deum in ipsis, curaveritis honorare, in qvibus contemptis Deus spernitur, et in receptis recipitur, et etiam honoratur, et opera impenderitis in operibus pietatis, et præsertim eleemosynis conferendis, quarum efficaciam scriptura commendans inqvit: *Sicut aqva exstingvit ignem, ita eleemosyna peccatum exstingvit.*

Ceterum qvoniam adhuc habemus multa vobis dicere . . . . . . . . . [o. s. frv. til enda, sem Nr. 76] . . . . .

Datum Reat. III. Kal. Augusti.

---

## 78. [1198].

Máldagi [Páls biskups Jónssonar í Skálaholti] fyrir kirkjunni að Hofi í Eystra-hrepp í Árness þingi.

Í hinni fornu jarteinabók Þorláks biskups og í sögu hans segir svo frá, að kirkja að Hofi væri fyrst allra kirkna á Íslandi helguð Þorláki biskupi, og að hún væri vígð á því ári sem helgr dómr Þorláks biskups var tekinn úr jörðu (Þorláks saga

hin ýngri, kap. 44; Bisk. s. I, 316, sbr. bls. 315, athgr. 4; Jarteinabókin frá 1199, kap. 3; Bisk. s. I, 334). það er ætlan mín, að sá vígslu-máldagi sè hinn sami og hèr fylgir, og hefir hann þá verið saminn um sumarið 1198.

Máldaginn er prentaðr eptir bókinni D 12, bl. 56—57. (sbr. Nr. 24 að framan).

---

Hof.

Kirkia at hofi fyrir vtan þiorsa er helgoþ mario drotningo. oc petre postola. oc þorlaco. hon a i kykom kviste .v. kyr oc xl. a. þar fylgir scambeinstaþa land.

oc j londom þessom baþom saman liggr su skylld. at þar scal vera prestr heimilis fastr oc syngia þar allar heimilis tiþer. oc loghelga daga. oc þa er messa er gior til. ef sua ma vera. oc .ij. daga i vico i[t] sialnasta þess a mille vtan fosto .ij. messor annan hvarn dag vm langa fosto oc vigilia hvern aptan rumhelgan. þar scal syngia messo Joans messo vm þing oc petrs messo oc eptir aqveþno þess a mille. ef prestr er heima. huern dag messa vm jola fosto.

þar scal vera diacn heimilis fastr oc qvengilldr omage. sa er sialfr mege ser vinna reiþo. henni scal fa alla reiþo sem fulgo cono oc reckio vm fram.

Biscop scal fyrir raþa omaga.

---

## 79. [um 1200].

Máldagi [Páls biskups Jónssonar í Skálaholti] fyrir kirkjunni í Hjörsey á Mýrum.

þessi máldagi er hèr tekinn eptir bókinni D 12, bl. 65—66 (sbr. Nr. 24).

---

Hiorsey.

Sa er kirkiu maldage i Hiorseyiu. at þar liggr til kirkio land þat er at seliom heiter. er tekr .x. hundrat alna at verþe.

Bonde sa er byr j hiorseyiu scal heima hafa tiund sina oc hiona sinna allra oc sva þess mans er byr a kirkio lande. tiunda scal kirkio fe þesse. hafa helming kirkian sialf. en fiorþung biscop. en annan fiorþung þurfamenn. heima þar scal grafa lic allra heima manna. þeirra er þar andasc. oc sua þeirra er at seliom andasc. oc sua ef lic recr af sǫ. oc scal heima þar grafa. Ef lic finnasc vt i londom þessom. oc scal þau oll heima þar grava.

Sa maþr er byr i hiorseyio scal hafa heimilis prest. ef hann vill. þann er syngr alla loghelga daga oc allar heimilis tiþer. hann scal kaupa at preste. iiij. morcom.

Lofat hefir biscop þeim manne er byr i hiorseyio at hafa ey[1] heimilis prest. oc scal sa syngia annan hvarn dag helgan oc halfar heimilis tiþer. oc kaupa .ij. morcom at preste.

Bonde scal scylldr vera at lysa kirkio fra mario messo enne siþare til þess er liþr pasca vica.

Sa maþr er byr i hiorsey hann scal abyrgiasc kirkio þessa. er helgoþ er inom sæla thorlace biscope. oc fe hennar allt. at þat spillesc at engo. oc reisa aþra kirkio slica. ef þesse verþr nackvat. abyrgesc kirkio þessa at ollo.

---

## 80. [um 1200].

Skrá um skipti á Spákonu arfi, eptir frásögnum Þórarins Þorfinnssonar, Eyjólfs Einarssonar og Karls Jónssonar ábóta á Þíngeyrum.

Þessi skrá er frumrituð á einu skinnblaði í safni Árna Magnússonar Nr. 279. 4to. Þar eru með ymsar aðrar skrár um reka Þíngeyra klaustrs, kristfè í Hvammi í Vatnsdal, og ýmislegt fleira frá ymsum tímum, sem síðar mun verða tekið í safn þetta. Skrá þessi fyllir hèrumbil hálfa aðra blaðsíðu (23. og 24.), þegar öll blöðin eru talin, og er með stórri og skýrri hendi án efa frá hèrumbil 1200, en víða allmjög máð. Afskriptir af skrá þessari eru til bæði eptir Björn á Skarðsá og eptir Árna Magnússon, einnig er til reikníngr Björns um það hvernig skiptin yrði eptir þessari skrá (Nr. 500 og 505 í pappírsafskriptum íslenzkra brèfa í safni Árna).

---

1) = æ, ætíð.

Um þá menn sem hèr eru nefndir í skránni vitum vèr nú harðla lítið, að fráteknu því sem vèr vitum um Karl Jónsson. Hann var vígðr til ábóta að Þíngeyrum 1169, og var fyrir því klaustri þar eptir um nokkur ár, þartil hann sagði af sèr 1181. Skömmu síðar fór hann til Noregs (1185), og var þar með Sverri konúngi og ritaði sögu hans. 1187 kom hann út aptr til Íslands, og tók við ábótadæminu að Þíngeyrum á ný, hèlt hann því þar eptir um lángan tíma, og stóð þá klaustrið með miklum blóma með merkilegum og lærðum klerkum, sem voru einkanlega Gunnlaugr Leifsson og Oddr Snorrason. 1207 lagði Karl niðr ábótastètt sína í annað sinn, og lifði síðan skamma hríð; hann andaðist 1212 eða 1213 (ísl. Ann.).

---

Sua skal skipta spakono arfi. át luti skal gora fim Oc skal | hverfa en sætte lutr af enom fyrsta i hvam i vazdal en þat er ep|ter er skal hel[mingr][1] a ha[skulls]taði en annaʀ helmingr a | Gunsteinstaði. Nv ero .IIII. luter epter. þar [skal taka] einn [lut] | oc draga ofan a þria. Nu eru þar luter .III. þar skal hve[rfa sæt]]tuŋr af enom fyrsta til þiŋeyra. En þat er epter er þess lutar| skal a haskullstaði. þa ero eptir luter .II. áf aðrom þeirra skal hver|fa sætuŋr a Gunsteinstaðe [. . . . .[2] oc þa skal þvi er ep|ter er skipta i fiora staðe oc skal hverfa ein lutr a Gunstein|staði annaʀ a haskullstaði enum þriðia [skulo] skipta með | ser mvnkar oc þorar[inn . . . . . . . .[3][i] helmi[nga. [en] fiorða sku|lo taka myra menn. oc skipta i helminga með ser. Nu er| epter ein lutr. oc skal þeim skipta i fiora staðe. oc skal hver|fa ein lutr a mastaði annaʀ til svinavaz. þriði til spa|konofellz. enom fiorða skulo skipta með ser i helminga| munkar oc þ[orarinn. Sogn er sa hlute he]fðe fylgt ey|ionne syðre. Munkar eigo nu Gunsteinstaða lut| oc þan er þorarinn hafði att . . . . . . . .[4] eiga þeir nu | eyiar luta.

---

[1]) það sem er í klofum er fyllt eptir afskriptunum, en skinnblaðið er þar nú algjörlega máð og ólæsilegt.

[2]) eyða fyrir svosem þremr orðum, og lesa þeir Gunnlaugr prestr í Vallholti og Björn á Skarðsá 1645 svo, sem þar hafi ekkert verið í ritað.

[3]) hèr er eyða fyrir svosem tveimr eða þremr orðum, og sýnist svo sem þar hafi eitthvað ritað verið (föðurnafn Þórarins), en afskriptin 1645 les svo, sem þar hafi ekkert verið ritað.

[4]) eyða fyrir tveimr eða þremr orðum, og er óvíst hvort þar hefir nokkuð verið ritað. Afskriptin 1645 les svo, sem þar hafi ekkert ritað verið.

Spacono arfr er amilli varar ennar | forno oc deilldar hamars oc eigo spaconoarfar ef|ut fester. en norðan menn ef in rekr i hop. En þat er | nv samit at at helmingi skulo hafa hvareʀ. | þa er næst milli laxar oc forsar. þa er fra rauða | skriðo til hramnsar. þa er fra hellis vik til motz uið finzstaði. fyr finstoðom er fimdeillt | oc hverfa .iii. luter til spacono arfs en tueir til lanz | þes minte karll abota. at sua uæri skipt. þa er hvalr | kom þar. Eige letzk eyiulfr einars svn glaugt uita hner | [þar] voro skipti. Vera quað hann þa er þat sǫgðo at þriðiuŋr | reka fylgði landi. en .ii. luter spacono arfi. Fyr ár | bakka er spacono arfr at aullom luta en engi mil|li finnstaða oc ar bakka. þa er næst inn fra þorlaugar | dys til selvikr. þorlangar dys stendr fyrir laukiardal a | laukiar bakkanum fyrir sunnan. Sua quað eyivlfr einars | sun segia ser þorarin þorfinz sun um spacono arf.

---

## 81. [um 1200].

Alþíngis lög um stiku mál á vaðmáli og klæðum á Íslandi, í stað hins forna álna máls.

Á dögum Páls biskups Jónssonar gekkst mjög við ránglæti manna á milli um álna mál. þá gaf Páll biskup það ráð til, að hafa stikur, sem væri að lengd tvær íslenzkar álnir hinar fornu. þetta ráð styrkti Gizur Hallsson, er þá var lögsögumaðr, og synir hans, einnig Sæmundr í Odda og Ormr á Breiðabólstað, bræðr Páls biskups, og var það þá í lög tekið og hèlzt lengi síðan (Páls bisk. kap. 8; Bisk. s. I, 135).

Í sögu Páls biskups segir, að Gizur Hallsson væri lögsögumaðr þegar lögmál þetta var samþykkt, en hann lagði af lögsögn 1201; getr því ekki lögboð þetta verið ýngra en frá því ári, og ekki eldra en frá 1195, þegar Páll biskup kom út til Íslands; en líklegt er, að Páll hafi verið biskup nokkur ár áðr hann stakk uppá lögmáli þessu. Fyrir þá sök er það heimfært hèr til 1200.

Um álna málið sjálft hafa margir verið í vafa, og einna merkilegast er, að stiku mál Páls biskups hafa menn varla getið um[1], því þó lengd stikunnar sè auðfundin, þegar fundin er hin

1) Í Arnesens islandske Rettergang bls. 525 er sagt, að stikan hafi verið „omtrent halv Alen efter de Tiders Maade", það er einmitt móthverft hinu rètta, því stikan var tvöföld alin, eða alinin var hálf stika. Á

forna alin, þá er stiku málið mjög merkilegt, og hefir haldizt við harðla lengi á Íslandi í kaupum og sölum. Eptir því sem Páll lögmaðr Vídalín segir, er var manna lærðastr og merkastr í öllum slíkum fræðum, þá hefir hin fornasta íslenzka alin verið $18\frac{5}{7}$ þumlúnga, og stikan eptir því $37\frac{3}{7}$ þumlúnga. Ef menn kasta brotunum, þá verðr stikan öldúngis jöfn enskri yard. Þetta er harðla merkilegt, af því að vèr vitum, að frá Englandi komu mest klæði í fornöld, og frá Íslandi vaðmál mest; er því líklegt, að þessi breytíng hafi átt eitthvað skylt við verzlunarviðskipti við Englendínga, þareð ekki er hægt að skilja, hver endrbót gæti verið í að tvöfalda hina fornu alin, nema því að eins, að hið nýja mál yrði þarmeð jafnt eða í hagkvæmri tiltölu við annað mál, sem menn þekktu og tíðkuðu í verzlun sinni.

Það er merkilegt, að vèr getum af grein þessari ráðið, að hið forna álnarmál hafi verið markað á kirkjuvegg á Þíngvelli, en hvergi annarstaðar svo getið sè; því hefir mönnum verið örðugt að fá leiðrètta kvarða sína, og þessvegna er hèr boðið að marka stikumál að hverri graptarkirkju, þ. e. að hverri þeirri kirkju er leyft var að grafa lík að. Því er mjög líklegt, að finna mætti enn forn stikumörk á steinum í kirkjuveggjum eða kirkjugörðum á Íslandi, ef leitað væri, bæði á Þíngvöllum og annarstaðar, einsog Páll Vídalín segir (Fornyrði bls. 17) að hann hafi heyrt þau munnmæli, að sá hinn markaði álnarsteinn hafi verið í Þíngvalla kirkju vegg í þeirra manna minni, sem lifðu á hans barndómsárum; hefði eptir því steinn sá átt að vera til á öndverðri seytjándu öld.

Stiku málið hefir staðið harðla lengi. Í Jónsbók (Kaupab. 26. kap.) er sagt fyrir öldúngis eins og hèr, að „stika skal sú vera, at tvær álnir gjöri stiku, sem verit hefir at fornu", og ekki vitum vèr nein rök fyrir að þetta hafi breyzt fyr en á 15du öld og síðan, að hin þýzka verzlan fór að aukast. Þaðan af fór að tíðkast hin svonefnda Hamborgar alin, sem sumir hafa síðan kallað íslenzka alin (tilsk. 30. Mai 1776 § 3), og líklega optlega blandað saman við hina fornu. Þessi Hamborgar alin hefir af sumum verið kölluð hnefa alin, og er $21\frac{9}{11}$ þumlúngs. Hún var aftekin með tilskipan 30. Mai 1776 (Lagasafn handa Ísl. IV, 314—353) og er þar skipað að hafa þaðan af sömu álnir einsog í Danmörku tíðkaðist (eptir tilsk. 10. Januar 1698); þó eru enn tíðkaðar íslenzkar álnir almennt manna á milli, sem kunnugt er, og munu það þó mest vera Hamborgar álnir[1].

Eptirtektar er það vert, að mæli menn framhandlegg meðalmanns frá alnboga, og fram á lengsta fíngurgóm, mun hann

síðari tímum hefir almennast verið nefnd stika í sömu þýðíng og alin, og er það viðlíka móthverft hinu rètta.

1) Það hafa þó trúverðugir menn sagt mèr, að þeir hafi sèð kvarða á Íslandi, sem hafi verið markaðar á þrennar álnir: hin danska og Hamborgaralin og íslenzk alin, og væri hin íslenzka styzt þeirrá.

verða rúmir 18 þumlúngar. Þar með verðr sennilegt, að hin fornasta íslenzka alin sè bygð á alnboga málinu, líkt einsog *cubitus* hjá Rómverjum. Leggi menn hnefa fyrir framan, þá munu menn fá 21 þumlúng og nokkru meira, en það samsvarar hinni síðari íslenzku alin, eðr Hamborgar alin; er hún því sannnefnd hnefa alin. Hin danska alin þar á móti mun vera beint komin af hinu rínlenzka máli. — Til er enn hin svonefnda þumalalin, sem talað er um á röggvuðum vararfeldum (Nr. 23 að framan); það segir Björn prestr Halldórsson að sè alin mæld frá alnboga fram á þumalgóm, en eg ætla miklu framar, að þumalalin sè lengri en hin (frá handkrika á þumalgóm), og nái hèrumbil danskri alin.

Grein þessi, sem eg ætla sè hin fornu alþíngislög um stiku málið, finnst nú í tveim handritum; annað þeirra er Belgsdalsbókin (sbr. bls. 117—120), og er grein þessi þar aptan við Kristinrètt hinn forna, ásamt mörgum öðrum einstökum greinum, og talin þar með Kristinrèttinum. Eins og hún er í þessari bók eru öll líkindi til hún hafi verið upphaflega, og því er sú uppskriptin kölluð hèr *A*. — Önnur uppskript er í Staðarhólsbókinni af Grágás (sbr. bls. 86—88 að framan), og er lagaboð þetta þar sem aptasti kapítuli í þeim bálki, sem sumir hafa kallað áðr Landsleigubálk, en í útgáfu A. M. nefndarinnar er kallaðr Kaupabálkr; þar er og bætt ymsu við, og ber það með sèr, að hèr er nýmælum knýtt við hið upphaflega lögmál. Þó er þessi uppskript bæði forn og merkileg, svo sem eg hefi áðr sýnt að bók þessi muni vera rituð á þrettándu öld, og því er sú uppskript kölluð *B*. — Ekki megum vèr láta það villa oss, að greinin stendr í handritunum sem kapítuli í Kristinrètti, eða í Grágás, heldr megum vèr hafa það sem vott þess, hversu opt því er blandað saman í handritum sem ekki á saman með rèttu, og að menn mega einkum eiga von á viðaukum og nýmælum aptast í bálkum eða kapítulum í Lögbóka handritunum. Einmitt það, að annað handritið hefir greinina með Kristinrètti, en hitt í Grágás, sýnir, að hún muni ekki vera föst lögbókargrein; efnið sjálft sýnir, að hún getr hvorki heyrt til Kristinrèttar hins forna, einsog hann var upphaflega, og ekki heldr til Grágásar, því stikan var þá ekki komin á. Þar á móti er efni greinarinnar öldúngis samsvarandi því, sem Páls biskups saga segir frá, og eptir því sem greinin er orðuð í *A* kemr hún fram sem heilt lagaboð; eg efast því ekki um, að vèr höfum hèr hin rèttu alþíngis lög um stiku málið eptir uppástúngu Páls biskups Jónssonar og Gizurar Hallssonar lögsögumanns.

---

A.

Eptir Belgsdalsbókinni frá hèrumbil 1370 í A. M. safni Nr. 347. Fol., bls. 167; sbr. útg. Vilh. Finsens af Grágás II, 250.

vm mal a klæðom[1].

Menn skulo mæla vaðmal ok lerept ok klæði oll með stikum þeim er jafnlangar se tiu sem kuarðe tvitugr. sa er merkðr er a kirkiu vegg a þingvelli.

Rett er at draga kuarða við vaðmal ok við lerept x alna long eða lengre ok skal at hrygg mæla en eigi at jaðri.

Eigi skulo alnar ganga aðrar en þessar. ef menn hafa stikur rangar. eða kuarða rangan sua at muni vm oln j .xx alnum eða meira þeim er þeir męla. ok varðar þat fiorbaugs garð. ok skal vm oll afbrigð þessa mals sua sokn fara sem mællt er ef menn mæla alnar rangar.

Sa skal raða er kaupir lerept eða klæði hvart hann vill mæla at hrygg eða at jaðri.

Ret[t] skal at sǒkia við vattorð þat er nefnt er. þa er maðr mælir rangar alnar. þa sǒk er j þui geriz. ef sokiandi vill þat helldr en kviðburð.

Slikar alnar skal mæla með stiku a viðum. ok a teindo jarne sem a vaðmalum. eða klæðum eða lereptum[2].

Þat er mællt at at graftar kirkiu hverri skal merkia stiku lengð. þa er rett se at hafa til alna mals. ok megi menn þar til ganga ef a skilr vm alnar.

---

## B.

Eptir Staðarhólsbókinni frá hèrumbil 1275 í A. M. safni Nr. 334. Fol., bls. 99; prentað áðr í útgáfu A. M. nefndarinnar af Grágás I, 497—499.

Of stikan vaðmála oc klæða oc lerepta. LXXXI[3].

Þat er melt at nu | scolo menn mæla vaðmal oc lerept | oc klæði ǫll með stikum þeim er iam lan|gar ero .X. sem

1) fyrirsögn með rauðu letri. upphafsstafr blágrænn. eptir fornri tölu 65. kap. i Kristinrètti hinum forna.

2) ler[5]. *skinnb.; Fins. les:* lerepti.

3) þessi fyrirsögn er i skinnbókinni i yfirliti því (bls. 73 í skinnb.), sem er fyrir framan hinn svonefnda Kaupabálk, yfir kapitulana i þessum bálki og tölu þeirra, en í bálkinum sjálfum er eyða fyrir fyrirsögninni og þar i ritað með hendi frá 17. öld: „Cp̄. 84". — Upphafsstafrinn er rauðr.

kvarði. XX. sa er mercðr er a | kirkio veG a þingvelli. oc scal leGia þumal fingr | fur hueria stiko.

Rétt scal at draga við vað|mál kvarða oc við lerept eða klæði .X. al|na lǫng eða lengri. oc scal sa raða er mælir | hvart hann vill mæla at ryG eða at iaðri eða þar | a milli. ef hann vill þat helldr.

Eigi scolo alnar | ganga aðrar en þessar.

Vaðmal scolo vera stiko | breið eN eigi miore. oc epter þui at ǫllo gør sem aðr | var mælt i logum.

Ef menn hafa stikor rangar | eða kvarða ranga sva at ván se at mune hálfri | stiko i .X. stikum eða meira þott eigi se lengra melt eN hálf aᵛNur stika. oc ver þat fior Bavgs Garð. oc scal vm ǫll | afbrigð þessa máls sva at sócn fara sem melt er. Ef menn | mæla alnaR rangar.

Sa scal raða er kaᵛper lerept eða | klæði hvart hann vill mæla at ryG eða at iaðri. | eða þar a miðli. ef hann vill sva helldr[1].

Rett skal at | søkia við váttorð þat er at verðr nefnt. þá | er maðr mælir rangar alnar. þa sǫc er i þvi geriz ef | søkiandi vill þat helldr en qviðburð[2]. |

Vaðmál scolo eigi vera iaðar flá svá at meira mune eN ǫln i tuitogo vaðmale. Ꜳt ryG scal | mæla ef meire munr er eN sva.

Tui eln scolo | vaðmal. oc scolo rétt boðin ef fingrom gegna a | breidd oc se kost góð.

Taka scolo þeir er við eiguz | laᵛgsiaendr .IIª. til um gialld ef iaðar flá er va|ra eða mio.

Nio buar þess er sottr er scolo bera iafnan hvart | sa hafi i þvi siNi rangar alnar mælt sem honom var vm stefnt. |

Ꜳ scal qveþa avallt er stefnt er. i hueriom stað mæltar | voro þær alnar. eða. hue nær. eða. huerra manna imille.

---

1) hèr er lagt á vald kaupanda, hvort mæla skuli að hrygg eða jaðri, en skömmu áðr er sagt, að sá er mælir skuli þessu ráða. Þessi ósamkvæmni bendir eflaust til breytínga með nýmælum.

2) lítil eyða, sem svarar fimm bókstöfum, í enda línu. Lítill upphafsstafr, með bleki ritaðr en þó utan línu, stendr fyrir því sem eptir fylgir, og mun það vera vottr þess, að það er ýngra nýmæli.

82. [um 1200].

Alþíngis lög um pundara, og um sektir þeirra er mæla eða vega rángt.

Þau lög, sem hèr eru sett, standa í svo nánu sambandi við lögin um stiku málið, og eru svo harðla lík þeim að öllu, að ekki virðist efamál að heimfæra þau til hins sama tíma, jafnvel þó þeirra sè ekki getið svo greinilega í sögu Páls biskups, að af henni verði ályktað með fullri vissu, að þau hafi verið samin jafnframt hinum.

Lög þessi koma fram í handritum með þrennu móti: Belgsdalsbókin hefir þau í heild sinni, og lætr þau fylgja Kristinrètti hinum forna. Þar munu þau þó vera næst því sem þau hafa upphaflega verið, og kalla eg því þetta handritið *A*. — Staðarhólsbókin skiptir í tvennt, og hefir fyrst síðara hlutann í tveim kapítulum, í hinum svonefnda Kaupabálki; en upphafið setr hún sem seinasta kapítula í sama bálki. Þessa uppskript kalla eg *B*, og set eg hèr kaflana saman einsog þeir virðast eiga að vera. — Konúngsbókin hefir einúngis upphafið, orðrètt að kalla má eins og Staðarhólsbókin, og lætr það vera kapítula í Rannsókna þætti; þessi uppskript er hèr nefnd *C*.

---

A.

Eptir Belgsdalsbókinni frá hèrumbil 1370 (sbr. bls. 117—120 að framan). Það er ritað á bls. 166—167 í skinnbókinni, með hinni fornu hendi, og talið þar sem kapítuli í Kristinrètti hinum forna. Prentað áðr í Viðbæti við útgáfu Vilhjálms Finsens af Grágás II, 249—250.

Vm loghpundara eða mælir [maðr] rangar alnar[1].

Þat er logpundari er atta fiorðungar eru j vett. en .XX. merkr skulo j fiorðung vera.

Ef maðr a pundara meira eða minna en mællt er ok varðar þat .iij. Marka sekt.

Nu reiðir hann rangar vettir eða mælir hann rangar alnar sva at munar vm oln j. XX. alnum. þa varðar fiorbaugs Garð.

---

[1]) *fyrirsögn með rauðu letri. upphafsstafr rauðr. eptir fornri tölu 64. kap. i Kristinrètti hinum forna. I yfirliti kapítulanna á 15. bls. í skinnbókinni er fyrirsögnin þannig:* Vm lögpundara eða mæli maðr rangar alnar.

sa a sok er sins hefir j þui mist. en ef hann vill eigi sókia þa a sa er vill. Til sakar þeirrar skal kuæðia a þingi. IX. heimilis bua þess er sottr er.

Sók þeirri skal stefna at heimile þess er sottr er. eða þar sem hann heyrir sialfr aa.

Rett er þeim er sókir at stefna j þingbrekku a varþingi. þui er hann heyr[1] sialfr. ok skal þui at eins rett at stefna þar j dom ef sa er a þingi er sottr er. en elligar skal stefna til alþingis.

Ef sia sok verðr rett hófðut. ok koma þau gaugn fram með henni at domi sem henni eigu at fylgia þa skulo eigi varnir metaz vm þat mal ok eigi skulo gagnsakar. metaz ef þat eru [eigi] sekðar sakar amot. alna mals sok.

Þott eigi se lengra vaðmal mællt rongum alnum. en .iij. alnar ok varðar þo. fiorbaugs garð. ok von er at muna mundi oln. j. XX. alnum ef sua langt vaðmal væri. slikum alnum[2] mællt.

Slikt varðar vm rangar alnar a lerepte sem a vaðmalum.

Rett er at sókia vtan landz menu vm alnar[3] rangar at heraðs domi. slikri sokn sem til er mællt vm rettafars sakar.

---

B.

Eptir Staðarhólsbókinni frá hèrumbil 1275, Nr. 334 Fol. í A. M. safninu (sbr. bls. 86—88 að framan), og er þar í tveim köflum, svo sem áðr er getið. Fyrri kaflinn er í skinnbókinni bls. 99, seinastr í hinum svonefnda Kaupabálki. Í yfirlitinu framanvið bálkinn í skinnbókinni er þessi kaflinn talinn kap. LXXXII.; hinn annar kaflinn er á bls. 90—91 í skinnbókinni, og talinn sem L. og LI. kapítuli í sama bálki.

Í útgáfu A. M. nefndarinnar er fyrri kaflinn prentaðr tvisvar, fyrst eptir Staðarhólsbók, sem LXXXIII. kap. í Kaupabálki (I, 499) og í annað sinn eptir konúngsbók, sem CXX. kap. í Vígslóða (II, 197); en síðari kaflinn er talinn allr sem LI. kap. í Kaupabálki (I. 462—463).

1) heyr[5] (heyrir), *skinnb.*

2) malnum (*með striki undir*), *skinnbók.* 3) *í skinnb.* alnan, *misritað.*

Of pundara. LXXXII[1].

Þat er lǫg pundare | er. VIII. fiorðungar ero i vett. | en .XX. merkr scolo i fiorðungi vera.

Ef maðr a pun|dara meira eða minna eŋ mælt er. oc varðar. þat. III. | Marka secð.

Nv reiðir hann rangar vétter eða mælir | hann rangar álnar. sva at munar um oln i XX. al|num. þa varðar þat fior Baugs Garð. Sa a soc þa er sins | hefer[2] i þvi mist. En ef hann vill eigi søkia þa a | sa er vill .IX. bua scal til þess qveþia a þingi. Stef|no sǫc er þat.

Of alnar rangar. oc søkia at heraðs domi. L[3].

Sva er melt ef maðr mælir alnar rangar. sva at munar aln eða meira i xx. alnom. at þat varðar fior Bavgs Garð. sa a sǫc þa er sins missir i þui. Til þeirrar socnar scal qveþia a þingi IX. heimilis bua þess er sottr er.

Sǫc þeirre scal stefna at heimili þess er sóttr er. eða þar sem hann heyrir a sialfr.

Rétt er þeim er sǒkir at stefna i þingbrecko a várþingi þvi er hann heyr sialfr. oc scal þuiat eins rétt at stefna þar i dom ef sa er a þingi er sóttr er. en ella scal stefna til alþingis.

Ef þessi sǫc er rétt hǫfðut. oc koma þǫ gǫgn fram með henne at domi sem henne eigo at fylgia. þa eigo varnir eigi at metaz. vm þat mál. oc eigi scolo gagnsakir metaz. ef þat ero eigi secðar sakir a mot álna sǫ́c.

Þótt eigi se lengra vaðmál rǫngum alnom mælt en .III. alnar. oc varðar þat fior Bavgs Garð. ef van er at muna mundi óln i .xx. álnom. ef sua langt vaðmál vere mælt slicum alnom.

Slict varþar um rangar alnar a lereptum sem a vaðmalum.

---

[1]) þessi fyrirsögn er í skinnbókinni (bls. 73) í yfirliti því sem er fyrir framan bálkinn, yfir kapitulana í bálkinum og tölu þeirra. Í bálkinum sjálfum (bls. 99) er eyða fyrir fyrirsögn, og þar í ritað með hendi frá 17. öld: „Cp 85". Upphafsstafr grænn, og dregið rautt í.

[2]) tvítekið í skinnbókinni.

[3]) þannig er fyrirsögn í yfirliti fyrir framan bálkinn bls. 73 í skinnb., en í bálkinum sjálfum (bls. 90) er eyða fyrir fyrirsögn, og þar er ritað í með hendi frá 17. öld: „cp. 52". Upphafsstafr rauðr og dregið í grænt og gult.

Of þat ef æstmenn gera aflaga i kæpstefnom. LI[1].

Rett [er] at søkia æstmenn at heraðsdómi. slícri sócn sem melt er vm retta fars sakir.

---

C.

Eptir konúngsbókinni af Grágás (Gamle kgl. Saml. Nr. 1157 Fol.) bls. 165, og er ritað sem kapítuli í þætti þeim sem þar í bókinni er nefndr Rannsókna þáttr. Prentað í útgáfu Vilh. Finsens II, 169; kap. 232; einnig í útgáfu A. M. nefndarinnar af Grágás II, 197—198, og sett þar sem kap. CXX í Vígslóða; þó mun það aldrei hafa átt þar skylt við.

vm reizlor[2].

Þat er lǫgpundare er VIII. fiorðungar ero i vétt eɴ .xx. merkr scolo[3] i fiorðung vera.

Ef maðr a pundara meira eða minna en mælt er oc varðar þat III. Marca secþ.

Nv reiþir hann rangar véttir eða mælir rangar alnar. sva at munar vm ǫln i xx. álnom. þa varþar þat fiorbavgs Garþ. Sa a soc þá er sins hevir i þvi mist. Eɴ ef hann vill eigi søkia þa á sa er vill.

Nio bva scal til þess qveðia a þingi. Stefno soc er þat.

---

## 83. [um 1200].

Alþíngis lög um leigu fè og ábyrgð á því, og um löggjald.

Þessi lög virðast vera náskyld og samtíða þeim, er hèr eru talin frá tímum Páls biskups. Þau eru einnig prentuð hèr eptir sömu bók, Belgsdalsbókinni í safni A. M. Nr. 347 Fol., bls. 166. Prentuð áðr í Viðbæti við útgáfu Vilh. Finsens af Grágás, II, 248—249.

---

1) þannig i yfirliti kapitulanna i bálkinum, bls. 73 í skinnbókinni. Í bálkinum sjálfum (bls. 91) eyða fyrir fyrirsögn, og ritað þar í á 17. öld „Cp. 53". Upphafsstafr blágrár, og dregið i rautt.

2) fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr blágrænn, ekki stór.

3) upp yfir línunni, en virðist vera ritað með fornu hendinni.

vm logleigo a fe[1].

Þat er lógleiga ꝍ fe at hinn ellepti eyrir vaxe a þuilikt fe sem jnnstǫðan er.

Rettr er at maðr reiði vett vllar af ꝍm .xx.

Kyr skal vera at IX. alnum j hond. en at .x. alnum a frest a leigo.

Rett er [at] ala vettrung eptir kv at leigu ok skal maðr abyrgiaz sem fulgu fe.

Tvevett naut a maðr at ala eptir ku. ef eigi er kalfbært. ok abyrgiaz við megri ok við handvǫmmum sinum.

Þeir menn sem eigi verða asatter vm giolld skulo taka tva logseandr a meðal sin. þa er fyri orði ok eiði kunni hyggia ok raða kunni fe sino. til fullz eyris. ok er þat loggealld er þeim þikkir sua. Ef þeir verða eigi a eitt satter. þa skal sa hafa sitt mal er eið vinnr at. Ef baðir vilia sveria þa skulo þeir hluta ok skal sa er hlytr vinna eið. at honum þikkir sua sem hann segir. enda skal þat þa standaz. Ꜳt þui vætti at ek vinn eið at bok. ok segi ek þat. guði at ek [ꝍ sua fe sem nu hefi ek talt eða minna[2].

---

## 84. [um 1200].

Vorþíngis samþykt Árnesínga um hversu fjárlag skal vera i Árness þíngsókn.

Skrá þessi ber það með sèr sjálf, að hún sè samþykkt á vorþíngi, samkvæmt því sem alþíngislög voru til, að hèraðsmenn mætti á vorþíngum setja fjárlag, og ákveða ýmislegt annað í hèraðsmálum.

Um tíma þann sem skrá þessi sè frá, er vafasamara, og eru þó allmörg rök til að aldr hennar fari nærri því sem hèr er sett. Það er auðsætt, að hún er töluvert ýngri en fjárlag það sem hèr var áðr heimfært til hèrumbil 1100 (Nr. 23 að framan), því hún getr ekki röggvarfelda, sem þar eru taldir, og svo er um ýmislegt fleira. Hèr eru og komnir þriggja álna aurar, sem mest gengu á Suðrlandi seinast á tólftu og framan af þrettándu

---

1) fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr blágrænn. eptir fornu tölunni kap. 63 í Kristinrètti forna.

2) frá [ er úr fjáreiðnum til tiundar, og er það sett hèr af vangá ritarans.

öld. Hèr er og miðað mál við álnar, en eigi við stikur, og bendir það til, að skráin sè heldr eldri en 1200, en ýngri.

Skrá þessi er prentuð hèr, sem hinar undanfarandi, eptir Belgsdalsbókinni, Nr. 347 Fol. í A. M. safninu, bls. 165, og er hún þar talin sem kapítuli í Kristinrètti hinum forna; hún er áðr prentuð í Viðbæti við útgáfu Vilh. Finsens af Grágás II. 246—248.

---

vm fiar lagh j arnes þingh sokn[1].

þat er fearlag i arness þingsokn

at þriu hundrat alna vaðmala. skulo ganga firir hundrat þinglags aura.

Vaðmal skulo ganga j giolld ny ok onoten. þriskept ok tvieln breið. ok skal sa mǿla hvart sem vill at hrygg eða jaðre er við skal taka.

Eyrer gullz skal vera at hundraði. þriggia alna aura. þat gull at eigi vesni at lit j elldi ok se aðr vel litt.

Mǫrk vegin brendz silfrs skal ok at hundraði.

Gull ok silfr skal vega at metom byskups eða þeim oðrum er þar se jofn við.

þriar alnar af breiðu lerepti nyio þui er vel se klæð hæfpt firir storleiks sakir. ok se halfrar þriðiu alnar breitt. skulo vera at halfri mǫrk. þ[r]iggia alna aura ok verðr þa aln at fiorum alnum.

Enskt lerept tveggia alna skal vera aln við sik ok þinglags eyrir.

Mork vaxs skal vera at eyri.

kyr kalfbǫr skal vera. at xxx. þ[riggia] alna aura.

Vxe fiogurra vetra gamall iafn við ku.

Vxe .vj. vetra gamall at halfum fimtatige. ok sua þott ellre se.

Vxe .v. vetra gamall. at halfum atta eyri hins fiorðatigar.

j. kyr gelld miolk ok kuiga tvævetr. su er kalf hefir borit skal vera at atta aurum ok xx. ok er þa sem leiga fylgi þeim aðr þær verða kugilldar.

Gelld kyr ellre en þrevetr. skal vera at fiorum aurum ok .xx. enda eru þau þa fiogur at þrimr kugilldum.

---

1) fyrirsögn með rauðu letri. upphafsstafr rauðr. eptir fornu tölunni í i bókinni cap. 62 í Kristinrètti, sbr. yfirlitið bls. 15. í skinnbókinni.

tau tvevetr naut skulo iofn við ku.

ær loðin ok lomboð er at .v. aurum.

þriu vetr gaumul naut skulo jofn við ku.

Gelldingr tvevetr ok ellre er agilldr.

ær gelld ok gymbr su er lamb leiðir er at fiorum aurum.

vetrgemlingar tveir ero iafner við a.

Reyfi sitt skal hverr sauðr hafa. heraðrękir skulo sauðir vera. ok sua naut hit sama.

vætt gamalla sauða vllar skal vera at .x. aurum.

vett vetrgemlinga vllar ok

hundrat fiska skarpra. hlutr mannz vvaliðr[1] er at atta aurum.

Ef fiskar eða vll gelldz eigi a fardǫghvm. þa skal sa er gelldr fǿra til heim[i]liss þerss er við skal taka. En ef hann ferr or hrepp þa skal fǿra til heimiliss þess er hann atti fyrer fardagha. Eñda verðr þar eindaghi a þui fe hinn fimta dagh viku þa er .viij. vikur ero af sumri.

Vett matar. skal vera at .x. aurom. ostr. eða smior. eða miol. eða morr. sa er a haust [er] giorr.

her er ok hross mǿllt j giolld.

hestr. fiogurra vettra gamall ok ellri. hvart sem hann er[2] graðr eða gelldr skal vera kugilldi.

Eigi skal graðr hestr ganga j giolld ellri en .x. vettra. gamall. ok eigi gelldr hestr ellre en. XII. vettra skal vera at þrim morkum.

Merr þreuettr. at .xx. aurom.

tuö tueuetr hross skolu jofn við kv.

þriu vetrgomol við kv jofn.

j eingo geallde skal hross a gealld taka. meira en þriðiung gealldzins. af þui ma ekki minna gealld j hrossum geallda en kugilldi.

---

1) óskýrt ritað í skinnbókinni, og líkist: vıaliðr; en það er án efa = úvaliðr, óvalinn, þar sem ekki er valið úr fiskinum heldr tekið holt og bolt.

2) á spáziunni.

## 85. [um 1200].

Vorþíngis samþykt um kauplag á ymsum varníngi í Árness þíngi og Rángár þíngi.

Skrá þessi virðist vera frá sama tíma einsog sú sem hèr er sett næst á undan, um fjárlag í Árness þíngsókn. Hèr er að eins sett kauplag um nokkrar greinir, og þarf það þó enga grunsemd að vekja um, að skráin sè ekki heil, því slíkar kauplags-skrár munu hafa verið ótal margar og margvíslegar, eptir því sem þurfa þótti eða til hlýða í hvert skipti.

Skráin er hèr prentuð eptir hinni sömu bók og fyr er getið, frá Belgsdal, Nr. 347 Fol. í Á. M safninu, bls. 167, og er talin þar kapítuli í Kristinrètti hinum forna; hún er prentuð áðr í Viðbæti við útgáfu Vilh. Finsens af Grágás II, 251.

---

Vm lagh hverso menn skulo kaupaz viðr[1].

Nv er ok lag lagt a hversu menn skulo kaupaz við at retto.
Tvęr alnar breiðz lerepz skulo vera at .vj. alnum.
Þrir raptar at .vj. alnum.
Pund katla skal vera at .xij. aurum.
Pund reykelsis at .xij. aurum ok sua vax.
vett miols ok sua[2] annars matar skal vera at .v. aurum.
Morr. haust gerr ok ostr skal jafn at verði við miol.
at .v. aurum skal vætt vera j haust tiund.
vætt tiðru skal vera at .vj. aurum.
Jarn teint skal vera jafnlang[t] vaðmali.
Slik skulo vetr kaup sem sumar kaup.

Jofn erv log við vara landa sem við vt lenda menn. ef af þess[u] mali bregða. vm allt þat er nu er akuæðit hversu dyrt vera skal. ef maðr kaupir dyrra eða selr dyrra en mællt er. þa varðar fiorbaugs garð hvarumtveggia þeim er selr ok þeim er kaupir.

Vm afbrigð þessa mals er slik sokn til við vttan landz menn sem mællt er vm rettafars sakir eða vm alna mal.

---

1) fyrirsögn með rauðu letri. upphafsstafr rauðr. eptir forнri tölu 66. kap. í Kristinrètti hinum forna.

2) matar *b. v. skinnb.*

vm oll afbrigð þessa mals oc sa sok er sökia vill.

vm tvær þingsoknir Arness þingsokn ok rangæinga þingsokn skal eigi kavpa ok eigi selia dyrra hundrat skarpra fiska. en at. v.[1] aurum.

Þetta mal skal hallda vm kaupa far. vnz liðr alþingi at sumri. en alna mal skal fast vera framleiðis.[2]

---

## 86. [um 1200].

Máldagi fyrir ferju yfir Ölfusá og fyrirskipanir um farníngarreglur.

Skrá þessi er tekin eptir Wilchins máldagabók frá 1397, en hún er bersýnilega miklu eldri, og að helztu líkindum samin um eða skömmu eptir 1200. Það er helzt einkennilegt, að hèr er nefnd stika, og sýnir það að skráin er ýngri en alþíngislögin um álnamálið (Nr. 81 að framan).

Handrit þau, sem hèr er prentað eptir, eru í Árna Magnússonar safni Nr. 263 í Fol., sem áðr er getið (Nr. 49 hèr að framan), bls. 51, og er kallaðr þar Wilchins máldagi; Nr. 260 í Fol., bls. 15-16; Nr. 259 í Fol., bls. 13-14, báðar með hendi Jóns prests Erlendssonar í Villíngaholti; sömuleiðis Nr. 256 í 4to, bls. 11-11, og er það brot úr Wilchins máldaga á skinni, ritað á 17. öld. Einnig hefi eg haft afskript eptir máldagabók þeirri, sem er í skjalasafni við biskupsdæmið á Íslandi.

---

### Feriu maldagi a olfus a.

Þessi er feriu maldagi a olfus a. at þar liggr til land at feriu ok kyr .iij. engi teigr a straums nesi. kasta tvitogum kesti i feriu land firi utan a. þar skal sa er kalldaðarnes a ok fe þetta varðveitir fa bat ok flutninga skip. þar skal flytia alla menn oleigis. þar skal leigia tveim alnum vaðmals undir hvert

---

[1]) *þetta er líklega misritað, og á að vera annaðhvort* VIII. *eða* X.

[2]) hèr eptir fylgir kapituli „um boðföstur", eptir skipun Þorláks biskups, og er það seinasti kapítuli með eldri hendinni. Í yfirlitinu, bls. 15. í skinnbókinni, er þessi kap. talinn 67. kap. í Kristinrètti hinum forna, og er hann þar seinastr, svo skinnbókin hefir líklega í fyrstu endað hèr, og er svosem $\frac{1}{3}$ dálks auðr á bls. 168b.

kngildi. ef a skip er lagt. nema sauð. undir fyl skal leigia ef a er lagt. sem undir hross. ellra en halfs manaðar. .v. hross til tveggia alna ef við skip eru hofð. Reka hvergi hross nema af feriu stað þa er hin neðri er feria. en ef reka. komi feriu maðr kaupi við flutningar menn sem hann getr. greiða vaðmal ei skemra saman en stika. half mork matar vætt. hverr matr sem er. ok ullar vætt ok skreiðar hundrað. ei skal leiga undir naut. þo at við skip se hofð. ok undir enga farma. I hond skal leigu giallda. eðr setia veð halfu betra eðr meira. ok forveðia a .vij. natta fresti.

Feriu maðr skal koma til ar at miðium morni. ok vera til miðs aptans i færu veðri. þaðan fra er hann eigi skylldr at flytia til miðs morgins. liggia menn við eykt dags eðr lengr. þa er feriu maðr sekr. Feriu maðr er skylldr at roa a mot ollum monnum. hann skal ok raða hversu miok hlaðit er skipit. sialfir skulu roa firi hrossum sinum. ok undir formum. En þeir er eigi hafa kunnattu til eðr heilsu. roi feriu maðr ok taki alin a .xiiij. hross. þeir skulu fyrstir fara yfir a er fyrstir koma. kallnesingar skulu iafnan fara er þeir koma til. þriar nætr er feriu maðr skylldr at flytia a .xij. manuðum. fostu natt i fardogum. ok þa er til þings er riðit. þria daga er hann eigi skylldr at flytia. paska dag ok kirkiu dag ok allra heilagra messu dag. Verðr feriu maðr obyrgr firi utan a. sva at hann ma eigi aptr komast. þa skal sa er at feriu byr gefa honum mat um mals sakir. en selia ef hann þarf lengr. þeir sem at feriu bua eru skylldir at biarga skipi með feriu manni ef þarf ok fara oleigis. en ef fleiri þarf til firi utan a krefi bua þa sem næstir eru. þeir sem i inni husum bua. I Kalldaðarnesi. i sandvik hinni ytri ok at forsi. skulu biarga skipi með feriu manni oleigis. en engir aðrir.

Engi skal feria onnur a olfusa en þessi. en þat er lofat at flytia menn yfir a harstaði. ok meta eigi leigu. ok eigi heimta fe firi. en launi er flutt[r] er nokkuru ef hann vill. en engu ef hann vill þat.

## 87. [Decembr. 1201].

Brèf Guðmundar prests Arasonar, biskupsefnis að Hólum, til Sigurðar bónda Ormssonar á Svínafelli og Þuríðar Gizurardóttur konu hans, að taka við forráðum staðarins á Hólum með biskupsefni.

Brandr biskup Sæmundarson á Hólum andaðist á Sixtus dag 6. August 1201. Á Egidiusmessu, 1. Septbr., komu höfðíngjar Norðlendínga saman á Víðivöllum til að kjósa sèr biskup í stað Brands. Voru þar helztir ábótarnir frá Þíngeyrum og Múnkaþverá, Kolbeinn Tumason af Víðimýri og Hafr Brandsson úr Skagafirði, Hjálmr Ásbjarnarson vestan úr Vestrhópi, Guðmundr hinn dýri Þorvaldsson úr Öxnadal. Úr Þíngeyjar þíngi er enginn til nefndr. Þar kom og Gizur Hallsson, sunnan úr Skálholti, og mun hann þá hafa verið nær hálfáttræðr. Þá hafði hann látið af lögsögu um sumarið áðr, og Hallr sonr hans tekið við. Gizur mælti fram með Magnúsi syni sínum, er síðan varð biskup í Skálholti. Var það helzt talið Magnúsi presti til gildis, að hann var ættstór maðr, og frændmargr, og reyndr að fjárvarðveizlu, en þeir Hjálmr Ásbjarnarson og Hafr vildu eigi kjósa mann utan fjórðúngs til biskups yfir sig. Kusu þeir þá Guðmund prest Arason til biskups. Föðurætt Guðmundar var að norðan, frá Hvassafelli í Eyjafirði, en móðurætt hans að vestan, komin frá Eyrbyggjum (Sturl. 2, 39). Guðmundr prestr Arason var fæddr 26. Septbr. 1161, en var vígðr til prests af Brandi biskupi annan sunnudag í föstu (17. Marts) 1185; þá varð hann þíngaprestr að Hofi á Höfðaströnd, en síðan á Miklabæ, þá í Viðvík, þareptir á Völlum í Svarfaðardal, þá að Upsum, síðan að Stað í Reyninesi (Reynistað), og þar eptir að Víðimýri, hjá Kolbeini Tumasyni, er þá var mestr höfðíngi í Skagafirði, og átti Gyríði Þorvarðsdóttur, bræðrúngu Guðmundar. Guðmundr prestr Arason var orðinn frægr um allt land fyrir trúrækni sína, vígslur og yfirsaungva, en um forsjá hans í veraldlegum efnum hafa menn verið uggandi, og því lagðist sá orðrómr á, að Kolbeinn Tumason mundi hafa dregið hann fram til biskups kosníngs, svo hann Kolbeinn gæti sjálfr náð öllum yfirráðum yfir Hólastól, og svo reyndist, að jafnskjótt sem Guðmundr hafði tekizt kosníng á hendr, og var kominn að Hólum, tók Kolbeinn undir sig öll ráð á staðnum og staðarins fè. Þegar kosníngr fór fram, var Guðmundr á umferðum fyrir sunnan og austan land. Hann hafði það sumar farið til alþíngis, og af þíngi að heimboðum austr um land. Að Stafafelli heyrði hann andlát Brands biskups, og var það á Bartholomeus messu (24. August), en hann kom að Valþjófstöðum til Jóns Sigmundarsonar þann sama dag sem hann var kosinn til biskups (1. Septbr.), en í Krossavík í Vopnafirði fèkk hann boð um að hann væri kosinn

til biskups. Þar eptir fór hann norðr, og eptir að hann var enn á ný kosinn á öðrum fundi á Víðimýri 14. Oktbr., og hafði tekizt kosníng á hendr, fór hann heim að Hólum og var þar um hríð. Það beið ekki lengi, að hann fèkk nóg af yfirráðum Kolbeins, og minntist hann þá þess, að hann átti mikinn vin og merkan eystra, sem var Sigurðr Ormsson á Svínafelli. Sigurðr var sonr Orms svínfellíngs hins eldra, og var sá hinn sami sem Þórlákr biskup hafði náð af kirkju ráðum að Svínafelli. Ormr faðir Sigurðar var systursonr Bjarnar biskups á Hólum, og var í elli sinni á Múnkaþverá og andaðist þar í klaustri (Bisk. s. I, 488). Kona Sigurðar Ormssonar var Þuríðr, dóttir Gizurar Hallssonar lögsögumanns, og systir Magnús prests, sem hafði verið þá í biskupskjörum með Guðmundi og varð síðan biskup í Skálholti; hann bjó í Bræðratúngu. Þuríðr hafði átt áðr Tuma Kolbeinsson, er var höfðíngi mikill í Skagafirði; Tumi andaðist 1184 og áttu þau saman þrjú börn: Kolbein Tumason á Víðimýri, sem áðr var nefndr, Arnór Tumason og Haldóru, sem var gipt Sighvati Sturlusyni 1197, og brúðkaup haldið í Bræðratúngu. Báðir þeir, Guðmundr biskupsefni og Kolbeinn, munu hafa hugað gott til, að Sigurðr og kona hans kæmi norðr og tæki við ráðum, og því ritaði biskupsefni þeim brèf það sem hèr fylgir, en önnur varð þó reynd á því máli, svosem sögur gánga frá.

Um tíma þann sem brèfið er ritað á skýra sögurnar greinilega, því þar segir, að biskupsefni hafði sent menn með brèfi „um vetrinn" austr til Svínafells, og skömmu seinna er sagt, að þá er Sigurði komu orð biskupsefnis bjóst hann og fór austan „eptir jól"; er þar af auðsætt, að brèfið muni ritað vera á jólaföstunni sama ár og Guðmundr var kosinn til biskups.

Brèf þetta er bæði í sögu Guðmundar biskups og í Sturlúngu; tek eg það hèr eptir helztu handritum, sem einkennileg eru og rituð finnast á skinnbókum; er *A—C* eptir handritum af Guðmundar sögu, en *D* eptir Sturlúngu.

---

## A.

Þessi afskript brèfsins er tekin eptir Guðmundar sögu hinni elztu í Resens bók (*codex Resenianus*) Nr. 399 í 4to í safni Árna Magnússonar; er brèf þetta þar ritað á bls. 77 í skinnbókinni. Sú bók mun vera rituð á seinasta hluta þrettándu aldar (1280—1300), en hún á kyn sitt að rekja til prestssögu Guðmundar Arasonar, sem rituð mun hafa verið á árunum 1212—1220, af Lambkári djákna, syni Þorgils prests Gunnsteinssonar á Stað á Reykjanesi (Biskupa sögur I. B. Formál. bls. LVIII—LXII); er því líklegt, að brèfið sè ekki stórum úr lagi fært í Resensbók, þareð hún er

kynjuð frá handriti, sem er ritað svo nærri tímum þeim sem brèfið sjálft er ritað á; en þótt orðamunr sè í öðrum handritum, þá mun það þó ekki vera efunarmál, að brèfið hafi verið ritað á Íslenzku en eigi á Latínu, og sè orðamunrinn ekki kominn af öðru en fyrirtekt eða gáleysi ritaranna. Skinnbókin Nr. 394 í 4to í safni Árna er skrifuð eptir Resensbók, og er því ekki þörf að taka hana til greina sèrílagi, en brèf þetta er prentað í sögu Guðmundar í Biskupasögum I, 478–479.

---

Guðs q[ueðiu] oc sina sender G[uðmundr] er nu er kallaðr biskupsefne . Sigurðe oc Þuriðe.

Guð hefer miclar iarteiner við oss gert um þat at uêr skylldim heit var efna mega sem ver erom skyllder til við yðr at fa yðr staðfestu . Nu em ec þurftugr yðars fulltings er ec hefe meira vanda a mic tekit eɴ ec sea til fêʀ at bera . Nu byð ec yckr til staðar forraða með mer oc fiar forraða . oc komit sem fyst megi þer . þui at þat gegner staðnum oc mer . oc ǫllom oss.

Valete.

---

B.

Eptir miðsögu Guðmundar biskups, sem er samin ekki síðar en 1320, og rituð finnst á góðri skinnbók frá 1350 eða þarumbil, Nr. 657 C. í 4to í safni Árna Magnússonar. Brèf þetta finnst á bls. 58 í skinnbókinni. Í Biskupasögum er einúngis tekinn helzti orðamunr þessarar skinnbókar, af því að þar var um það eitt að gjöra sem breytir nokkuð efninu sjálfu.

---

Gvðs q[veðiv] ok sina sender G[vðmvndr] er nv er kallaðr . biskvpsefne . Sigvrði ok Þvriði.

Gvð hefer miklar iartegner gert at ver skyldim heit vor eñda mega sem ver vorvm skyllder til at fa yðr sta[ð]festv Nv er ek þvrftvgr þins fvllting[s] er ek hefer meira a hendvr tekiz eñ ek se til fær at bera . Nv bið ek ykcr til staðar forraða ok fiar varðveizslv með mer . ok komit sem fyst ma þviat þat gegɴer betr staðnvm mer ok yckr ok ollvm oss.

---

## C.

Þessi afskript brèfsins er tekin eptir handriti af Guðmundar sögu, sem Þorlákr biskup Skúlason hefir látið rita 1641, líklega eptir skinnbók nokkurri, ekki allgamalli, sem nú mun vera týnd. Handrit þetta Þorláks biskups átti Þormóðr Torfason síðan, og ekkja hans gaf Árna Magnússyni, en það er nú Nr. 395 í 4to í safni Árna. Brèf þetta er ritað á bls. 69—70 í þessu handriti, og er auðsætt, að bæði orðfæri og stafsetníng er breytt á þann hátt sem var tíðkaðr á 16. og 17. öld, en það er mest sett hèr til að sýna, hversu ritarar hafa leyft sèr að snúa á ymsan hátt og breyta því sem þeir rituðu eptir, og hversu margvíslega þeir snúa orðfærinu á ymsa vegu, þó efnið sè hið sama.

---

Gudz kuediu og sijna sendir Gudmundr prestr Arason, kosinn til Biskups Sugurdi Bonda Orms syne, og hans konu Þurijdi.

Gudz milldi hefur giort vid oss mikla myskun overdugañ a margañ hatt, einkanliga ad vier megum nu med nockrum hætti sijnast efna þad, sem vier jatudum ad fa yckr stadfestu nordr hia oss. Nu saker þess ad eg hefi mikid a mik tekid ok jatast vndir meira vanda eñ eg sie til fær ad bera, kenner eg mik miog þurfanda yckar fulltingz, þui Byd eg yckr nordr til Hola ad hafa þar stadar forräd. villda eg ad þid kiæmid sem first, þuiat eg vænti þad gegna stadnum betur, og ollum oss.

Vere gud med badum yckr.

---

## D.

Eptir Sturlúngu, sem ritað er á skinnbókinni Nr. 122 A. í arkarbroti í safni Árna Magnússonar, bls. 74. Þetta handrit er hið bezta sem menn nú vita til vera af Sturlúngu, og mun vera ekki ýngra en frá 1330 eða þarumbil. Árni Magnússon fèkk það vestan af landi, og þar mun það hafa verið lengst; eru þó frá því ættuð flest eða öll handrit af Sturlúngu sem vèr þekkjum nú, og síðan blönduð á ymsa vegu, en handrit þetta hefir ekki verið haft við útgáfu sögunnar enn sem komið er.

Í útgáfunni af Sturlúngu stendr þetta brèf í 3. þætti 14. kap. (I, 218), og hirði eg eigi að færa til allan þann orðamun sem á milli ber við það sem hèr er eptir skinnbókinni, því hver sem saman ber verðr þess skjótlega var, að þó brèfið sjálft sè ekki eins rètt hermt í Sturlúngu, einsog í Guðmundar sögu, þá er þó enn allmart afbakað í þeim handritum Sturlúngu sem útgáfan fylgir, frá því sem skinnbókin hefir. Þar sem orðamunar útgáfunnar er getið, er hann merktr *St.* Úr handritum af Sturlúngu er brèfið tekið eptir því sem Finnr biskup hefir látið prenta það í Hist. Eccl. Island. I, 341 athugagr. a, og hirði eg eigi heldr að geta þaðan alls orðamunar, því hann hefir ekkert við að styðjast, og er að meiníngunni til leiðrèttr í hinni latínsku útleggíngu sem þar fylgir, en þegar hans er hèr getið er hann merktr *F.*

---

G[vðs] Q[veðiv] oc sina. sendir G[vðmvndr] er nv er callaðr. Electvs. Sigvrði o[rms] s[yni] ok Þorriði.

Gvð hefir miclar iartegnir gort. At ver skylldim heit vart efna mega sem ver erom skylldir til við yðr at fa [yðr][1] staðfestv. Nv em ek scylldvgr[2] þins fvlltings. At ec hefi meira vanða iatað amik. en ek se til fæʀ at bera. Nv byð[3] ek yckr til staðar forraða oc fiar varðvæizlo með mer. oc comit sem fyst. þviat þat gegnir betr staðnvm oc ollvm os.

Valete.[4]

---

[1]) *í skinnbókinni vantar þetta orð, en St. setr oss, sem er gagnstætt hinu rètta. Orðið miðar til þess, sem sagan segir frá (Sturl.* 3, 8: I, 209) *að Guðmundr hafi lofað Sigurði Ormssyni að útvega honum staðfestu nyrðra ef hann ætti ráð á, til þess að Sigurðr lèti af að hugsa til hefnda við Sæmund í Odda.*

[2]) *á að vera* þvrftvgr, *eins og hafa handrit Guðmundar sögu.*

[3]) *þann. skinnb. 122 A. og F;* bið, *St.*

[4]) *í skinnbókinni ritað:* vl'; *úr þessu orði er komið orðið* vel, *sem í St. stendr seinast í brèfinu:* þat gegnir betr st. ok ollum oss vel.

88. [Marts 1202.]

Brèf Guðmundar prests Arasonar, biskupsefnis að Hólum, til Páls biskups Jónssonar í Skálholti, að segja upp atkvæði sitt um kosníng biskupsefnis.

Þegar Sigurðr Ormsson á Svínafelli fèkk brèf og orðsendíng frá Guðmundi biskupsefni, fór hann austan eptir jólin, sem fyrr var getið. Biskupsefni hafði þá um vetrinn sent boð vestr, til Rafns Sveinbjarnarsonar á Eyri í Arnarfirði, að koma til móts við sig; en Rafn var hans mesti vin og trúnaðarmaðr. Þeir hittust að Staðarbakka, og hèlt biskupsefni lánga ræðu og merkilega sunnudaginn annan í níuviknaföstu (*Sexagesima* = 17. Februar 1202), og lýsti því yfir, að hann gæfi fúslega upp kosníng, ef aðrir vildi undir gángast og það fengi samþykki manna. En þar gaf sig enginn fram, sem biskup vildi vera eða hnekkja kosníng hans. Síðan fór biskupsefni norðr aptr, og á þeirri leið hittust þeir Sigurðr Ormsson, en biskupsefni þurfti víða við að koma, og fór því Sigurðr undan og beið hans heima á Hólum. Þar eptir var rædt um, með hverjum kostum Sigurðr skyldi ráðast norðr að Hólum, og var hann þá ekki svo óðfús til að fá staðfestu þar norðr, einsog hann hafði áðr látizt vera; vildi hann nú ekki til ráðast, nema honum væri handsalað staðarforráð og staðarfè, og það fór fram með tilstyrk Kolbeins og þeirra höfðíngja í Skagafirði, en síðan virti hann sjálfr fè sitt og kallaði tíu hundruð hundraða, og neyddi biskupsefni til að taka við því fè öllu uppá ábyrgð Hólastóls, að ekki skyldi þverra; en það var allskonar fè, bæði frítt og ófrítt. Sigurðr Ormsson fór austr aptr, þegar handsöl voru fengin, og ritaði þá biskupsefni með honum það brèf sem hèr fylgir til Páls biskups í Skálholti; mun það að líkindum vera ritað fyrst í Marts, þegar vèr ætlumst á tíma þann sem muni hafa liðið frá fundinum á Staðarbakka og þartil málið um fjárforráðin var til lykta leidt.

Guðmundr biskupsefni játar í þessu brèfi, að hann hafi tekizt á hendr biskupskosníng án þess að hafa þar til lof Páls biskups, sem þó hafi átt að vera, segir hann. Þetta er þó eigi svo að skilja, sem Guðmundr hafi viljað játa, að Páll biskup ætti að ráða biskupskjörum fyrir norðan, heldr að þegar þar var biskupslaust, þá var Skálholtsbiskup næstr að hafa biskupsvald yfir Hóla biskupsdæmi, og segja yfir klerkum þar; og þareð Guðmundr var prestr, var það tilhlýðilegt að hann tækist eigi embætti eðr tign á hendr án þess að segja til yfirmanni sínum og taka þartil orlof af honum, en þá var næstr yfirmaðr hans Páll biskup. Eigi að síðr er ekki því að neita, að kosníngr Guðmundar ber með sèr, að Norðlendíngar hafi viljað vera einráðir um kosnínginn, og þessvegna hafa þeir ekki viljað bíða

alþíngis, þar sem biskupskosníngar voru vanir að fara fram, til þess að Páll biskup og Sunnlendíngar gæti ekki ráðið neinu við þá um hvern kjósa skyldi, eða biskup í Skálholti ná að beita sínu atkvæði, sem við hina fyrri biskupskosnínga.

Þetta brèf er eins og hið fyrra tekið eptir helztu handritum af Guðmundar biskups sögu (*A—C*) og af Sturlúngu (*D*).

---

## A.

Eptir Guðmundar sögu hinni elztu í Resensbók (*codex Resenianus*) Nr. 399 í 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 78 (sjá Nr. 87 A. hèr næst á undan). Eptir þessari bók er brèfið prentað í Biskupasögum I, 479.

---

Q[ueðiu] Guðs oc sina. sender G[uðmundr] er nu er kallaðr biskups efne.

Vér høfum iataz under meira uanda eɴ ver sem til fèrer. at bera oc hafl ecke yðart lof til sem vera atte. Nu uilium ver biðea yðr a at líta af Guðs halfu. sem þer erot skyllder til at segia huat yðr er nêst skape. Vilít þer annan mann kiosa til þessa ualldz oc uanda. er vêr høfum omacliga under gengit. þa uil ec feginn upp gefa. oc fara. þui at ec uerð þes uáʀ af noccorum monnum. at þetta þickiaz ofmélt hafa. Eɴ ec hefe þui raðit Sigurð Orms sun til staðar forraða með mer. þui at menn kuiddo féar forraðum mínum. Nv raðit skiott annat tueɢia. þat er Guð kennir yðr. oc sendit mer bref sem fyrst. huart sem þer kíosít mic til eða fra.

---

## B.

Eptir miðsögu Guðmundar biskups í skinnbókinni Nr. 657 C. í 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 59 (sbr. Nr. 87 B. næst á undan). Í Biskupasögum er einúngis orðamunr tekinn eptir þessu handriti.

---

bref G[vðmvndar] biskvp[s] efnis.[1]

Pali biskvpi senðer Q[veðiv] G[vðs] ok sina G[vðmvndr] p[restr] er nv er kallaðr biskvps efni

ek hefer iataz vnder meira vanða eñ ek se til fær at bera ok haft ecki yðvart rað til ok lof sem vera a. Nv vil ek biðia yðr af gvðs halfv sem þer ervt skylder til at segja hvat yðr er næst skapi vilít er annan mann til kiosa þessa vegs ok vanða er ek hefer omackligr vnder iataz þa vil ek fegin[n] vpp gefa ok fra fara þviat ek verð þess af nockvrvm vaʀ at þetta villðv omællt hafa ok hefi ek þvi raðit S[igvrð] Orms son til fiar foraða með mer at menn kviða við fiar foraðvm minvm. Nv kiosit skiott annað tveGia þat sem gvð kenner yðr ok sendit mer bref vm sem fyst hvart er kiosit mig til eða fra.

---

## C.

Eptir handriti þorláks biskups Skúlasonar af Guðmundar sögu, frá 1641, bls. 70 (sbr. að framan, Nr. 87 C.).

---

Vyrdulegum Herra pœle Biskupe er med Gudz myskun helldr stiorn Skalholltz Christni sender Quediu Gudz og sijna Gudmundr Prestr nu kalladur Biskups efne.

Eg giore ydr Kunnugt, þo ad þier hafid þar af fulla vissu af annara framburdi, ad eg hefi Jatast vnder meira vanda, eñ minn lytil leyki sie til fær ad bera, hefi eg þad giort oforsialiga so ad eg hefi huorki haft til ydart räd nie loford. Nu ʙid eg ydr af Gudz Alfu, ad þier leggid a med mier heylsu samligt rad, og segid Lijosliga, huad ydrum vilia gengr næst j þessu male, vilie þier annan Kijosa til þessa vegs og vanda, er eg omakligr hefi vndir Jatast, þa vil eg feginn vpp gefa, og fyri alls ecki hafa myna Jatan og annara vilia þar vm, þviat eg þykist þegar verda var þess ad nockrer af þeim sem mig leyddu mest fram med sijnum til logum, villdu þeir nu omællt hafa, þui hef eg rädid Sugurd Orms son med mier til stadar

1) fyrirsögn með grænu letri í skb. og sömu hendi og hitt.

forräda, þuiat marger Kuijda miog mijnum fyar forrädum. Nu kijosid annad tueggia, huort sem Gud kenner ydr mik til edr fra, og sendid ydart Bref sem fyrst til mijn, ad eg megi sem flyotast vita ydar vilia Synist ydr ad styrkia þad sem adr er giort, vyrdist mier hentiligra kristne Gudz fyri nordan land, ad eij dueliest lengi mijn vtanferd.

Valete in Christo.

---

## D.

Eptir skinnbókinni af Sturlúngu, Nr. 122 A. í arkarbroti í safni Árna Magnússonar, frá hèrumbil 1330, bls. 74 (sbr. að framan Nr. 87 D.). Í útgáfunni af Sturlúngu er brèf þetta prentað í 3. þætti 15. kap. (I, 218—219), og er hèr ekki tilfærðr nema hinn helzti orðamunr sem þar er á milli og skinnbókarinnar, en útgáfan er hèr merkt *St*. Ekki er heldr getið nema hins helzta af því sem á milli ber í brèfinu við það sem prentað er hjá Finni biskupi í Hist. Eccl. Island. I, 339 athgr. a, og lítr svo út, sem sú afskript er hann hefir fylgt hafi verið samsett eptir tveim handritum, af þeim flokkum *B* og *D* sem hèr er kallað.

---

Pali. biscvpi. sendir. Q[veðiv] G[vðs] oc sína. G[vðmvndr] prestr. er nv [er] callaðr. biskvps efni.

Ek hefir iazt vndir meira vanda. en ek se til fæʀ at bera. oc haft ekci yþvart[1] lof til sem vera ætti. Nv vil ec biðia yðr alita af G[vðs] alfv sem þer ervð skylldir til. at segia. hvat[2] yðr er næst scapi. vili þer anna[n] mann kiosa til þessa vegs oc vanða. er ec hæfi vmacligr vndir iataz. þa vil ec fegin[n] vp gefa oc fra fara. þviat ec verþ þess varr af noccvrvm. at þetta þiciaz of mælt hafa. ok hefi ec þvi raðit S[igvrð] o[rms] s[on] til fiar for raða með mer. at menn qviddv við fiar foʀaðom mínvm. Nv kiosit sciot annat tveɢia mig til æ[ða] fra. Sem G[vð] kennir yþr.

Valete.

---

1) rað eðr, *b. v. St, F.*

2) hv̊t (= hvat *heldr en* hvart), *skinnb.;* hvat, *St, F.*

89. [Marts 1202].

BRÈF PÁLS BISKUPS JÓNSSONAR í Skálholti til Sæmundar Jónssonar í Odda, um kosníng Guðmundar Arasonar til biskups að Hólum.

Samband brèfs þessa við hið fyrirfaranda er auðsætt, og sama er að segja um tímann sem það muni vera ritað á, að það mun vera jafnskjótt og Sigurðr Ormsson var kominn suðr að Skálholti. Það kann að þykja eptirtektar vert, að Páll biskup ritar Sæmundi bróður sínum í Odda, en ekki öðrum höfðíngjum, svo sem þeim Haukdælum, sonum Gizurar Hallssonar; en bæði var, að Sæmundr var um þessar mundir mestr höfðíngi á Íslandi, og svo var þá nýlega útkljáð mál þeirra Sæmundar og Sigurðar Ormssonar (Sturl. 3, 45: I, 201) á þann hátt, að þeir bræðr Páll biskup og Sæmundr rèðu öllu sem þeir vildu, en svo er að sjá, sem Guðmundr biskupsefni hafi verið Sigurði veitandi að málum þessum. Brèfið er því einskonar eptirleitan við Sæmund, hvort honum muni þykja ráð að hepta kosníng Guðmundar, og þarmeð vald það, sem hann og Sigurðr vinr hans fengu í hendr með umráðum Hólastóls. En eins og eptirleitan þessi er varkárnislega samin og vitrlega, eins er svar Sæmundar vottr um hans fullan höfðíngskap og göfuglyndi. Meðferð Páls biskups á þessu máli, að hann spyr Sæmund einn, og skýrir síðan Haukdælum frá álylktan sinni, sýnir ljóslega, að um þessar mundir hafa Oddaverjar ráðið öllu í hinum helztu málum á Íslandi.

Þetta brèf er einsog hin fyrri tekið hèr eptir helztu handritum af Guðmundar biskups sögu (*A—C*) og af Sturlúngu (*D*).

---

A.

Þessi afskript er tekin eptir sögu Guðmundar biskups hinni elztu í Resens bók (*codex Resenianus*) Nr. 399 í 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 78 (sbr. Nr. 87 A. hèr að framan). Eptir þessari bók er brèfið og prentað í Biskupasögum I, 480.

---

Q[ueðiu]. Guðs oc sina sendir pall biskup. Sêmunde broður sinum.

Bref Guðmundar biskups efnis er komít til mín . þat er ec skyllde kiosa annan mann til biskups . ef ec vil . eɴ hann lez buiɴ upp at gefa kosnínginn . hann hefer oc raðit Sigurð til forraða með ser . þui at þat vgðu menn hellz aðr at fíar-

uarðueizla hans munde eigi vera með forsea. Ek þickivmz oc þess kenna a brefínv. at hann man êtla utan isumar ef hann er til kiøreɴ. þui at hann bað mic gera skiott annat huart at kiosa hann til eða frá. Nu uil ec at þu seger huart ec skal at queða.

---

## B.

Eptir miðsögu Guðmundar biskups, sem rituð er á skinnbókinni Nr. 657 C. í 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 59; sú skinnbók er rituð, sem áðr er sagt, hèrumbil 1350 (sbr. Nr. 87 B. hèr að framan). Í Biskupasögum I, 480 er að eins tilfærðr lítill orðamunr úr þessari bók.

---

bref pals[1].

Pall biskvp sender q[veðiv] G[vðs] ok sina Sæmvndi bræðvr sinvm.

Bref G[uðmundar] biskupsefnis kom til miɴ at ek skylda kiosa annan mann til biskvps ef ek vil þviat hann lezst bviɴ vpp at gefa kosningiɴ hann hefer raðit S[igvrð] o[rms] son til staðar foraða þvi at menn hvgðu þat aðr hellzst at fiar varðveizla hans mvndi eigi með forsia vera. Ek þickivmz þess keɴa ibrefi hans at hann mvn ætla vtan i svmar ef hann er eigi fra kosiɴ þviat hann bað mig skiott at kveða hvart ek villda kiosa hann til eða fra. Nv vil ek at þv seger hvart ek skal at kveða.

---

## C.

Þessi afskript brèfsins er tekin eptir Guðmundar biskups sögu sem er á bókinni frá 1641, er Þorlákr biskup Skúlason hefir látið rita og nú er í safni Árna Magnússonar Nr. 395 í 4to, bls. 71 (sbr. Nr. 87 C. hèr á undan).

---

[1]) fyrirsögn með grænu bleki, en sömu hendi, í skinnbókinni.

Pall med Gudz myskun Biskup j Skälhollti, sendir Sæmunde Brod[u]r sijnum Kuediu Gudz og sijna.

Bref Gudmundar Biskups efnis kom til vor, j huoriu hann beiddi eg Kijore annan til Biskups ef eg villdi, þviat hann kuadst giarnan villda Kosninginn gefa vpp vndir mijna forsio hefur hann og radid Sigurd Orms son til stadar forräda, þviat Nordlendingar vgdu þat, ad eij mundi hann til fijar haga hafa fulla for siö. Eg þottist þad kenna j Brefi hans ef honum bæri til Kosningrinn ad hann mun ætla j sumar vtañ, þviat hann bad mig sem flijotast giora sier kunnigt med mijnu Brefi, huort eg Kijori hann til edr fra, Nu vil eg ad þu seigir frænde huad mier sie gioranda,

Signe þig sannr Gud.

## D.

Eptir skinnbókinni af Sturlúngu Nr. 122 A. í Fol. í safni Árna Magnússonar, frá hèrumbil 1330, bls. 74 (sbr. Nr. 87 D. hèr að framan). Í útgáfunni af Sturlúngu er það prentað eptir pappírshandritum í 3. þætti 15. kap. (I, 219), og er ekki tilfærðr þaðan allr orðamunr, þareð hann þótti ómerkr, en sá sem hèr er getið er merktr *St.* Sama er að segja um brèfið einsog það er prentað hjá Finni biskupi (Hist. Eccl. Island. I, 339 athgr. a), og er það þar bóti lakara en í Sturlúngu; orðamunr þaðan er merktr *F.*

Pall biskvp s[endir] q[veðiv] G[vðs] oc sína semvndi broðvr s[invm].

bref biskvps e[fnis] com til mín . ät ec skyllði kiosa annan mann til biskvps [ef ek villdi[1] . hann læz bvinn vpp at gefa kosninginn hann hæfir raðit til S[igvrð] o[rms] s[on] til foʀ raða[2] . þviat menn vgðv . at fiar varðveizla hans mynði eigi með for sia. Ek þiciomz þess kenna ibrefi hans . at hann man ætla vtan isvmar . ef hann er eigi fra kosinn . þviat hann bað mic skiot[t] að qveða hvart ec villða kiosa hann [til] eða fra. Nv vil ec at þv segir hvart[3] ec skal at qveþa.

1) frá [ sl. *F*, en ófyrirsynju. 2) staðarforráða, *St*, *F*.
3) hvat, *F*.

## 90. [Marts 1202].

Brèf Sæmundar Jónssonar í Odda til Páls biskups í Skálholti, að hann ræðr honum til að samþykkja kosníng Guðmundar prests Arasonar til biskups að Hólum.

Þetta brèf er, einsog það sjálft ber með sèr, svar uppá hið næst fyrirfaranda, og mun það án efa ritað vera samstundis eða svo nær, þegar Sæmundr fèkk brèf bróður síns, og ekki seinna en í Marts 1202. Það er auðráðið á anda brèfsins, að margir hyggnir menn hafa þá þegar leidt í grun, hversu fara mundi ef Guðmundr prestr yrði biskup, og mun það hafa verið allra þeirra vili, sem mestir höfðíngjar voru syðra með Skálholtsbiskupi, að Magnús Gizurarson yrði biskup á Hólum í það sinn, í stað Guðmundar. Þar sem Sæmundr minnist á í brèfinu mál þau, sem verið höfðu milli hans og Sigurðar Ormssonar á Svínafelli, þá er sagt frá þeim viðskiptum í stuttu máli í Sturlúngu 3. þætti kap. 45 (I, 200—201). Jón Loptsson í Odda, faðir Sæmundar, hafði átt handsöl á fjám eins manns austr í Skaptafells þíngi, er Glæðir hèt; þegar hann andaðist voru erfíngjar hans austr í sveit Sigurðar Ormssonar, tók hann þá fèn undir sig og setti þar í mann einn, sem Kári hèt. Þá var Jón Loptsson andaðr († 1197; sbr. bls. 188, 224, 261 að framan) og urðu þá deilur á alþíngi 1199 um fè þessi milli Sigurðar og Sæmundar. Sæmundr bauð, að Þorvaldr Gizurarson frændi hans skyldi gjöra um málið, en Sigurðr vildi eigi, því þeir Sighvatr Sturluson, sem átti stjúpdóttur hans, og Kolbeinn Tumason, stjúpsonr hans, lofuðu honum styrk sínum. Um vetrinn eptir (1200), er á leið, fór Sæmundr austr á Síðu, og lèt drepa Kára, sem sat í fjám Glæðis, og um vorið stefndi Snorri Sturluson, fyrir hönd Sæmundar, Sigurði Ormssyni til vorþíngs að Þíngskálum. Sigurðr ætlaði þá að leita sèr liðs þess sem honum var lofað, en náði því ekki um vorið, og fèkk því ekki nema tvö hundruð liðsmanna, þar sem Sæmundr hafði sjö hundruð eða tólf hundruð. Sigurðr fór þá með lið sitt uppá eyna Há (þ. e. líklega Pètrsey í Mýrdal, sbr. bls. 251 að framan), og ætlaði að verjast þaðan; lá þá við sjálft að þeir berðist, en þeir Páll biskup og Þorvaldr Gizurarson neyddu Sigurð til að taka sættum og voru grið sett, en Páll biskup skyldi gjöra á þíngi um málið. Á alþíngi 1200 kvað Páll biskup upp gjörð sína, og fèkk þá Sæmundr eignir Glæðis, en svo var stillt til í gjörðinni, að Sigurðr mátti þó una sínum hluta. Þó var það almanna rómr, að Sæmundr hefði borið æðra hlut, og svo var það ríkt í Sigurði, að eptir sögunni ætti hann að hafa sagt Guðmundi presti Arasyni sumarið eptir, að hann mundi að vísu leita til hefnda við Sæmund, og til að sefa hann ætti Guðmundr þá að hafa lofað honum staðfestu nyrðra ef hann ætti með (Guðm. saga kap. 37 í Bisk. s. I, 467; Sturl. 2, 8: I,

209), og að hafa ent það í brèfi því sem hèr að framan er sett (Nr. 87, bls. 321—324). það er því ekki af sögunum að sjá, að Guðmundr hafi átt neinn þátt til missættis í málum Sæmundar við Sigurð Ormsson, en Guðmundr var mikill vin Sigurðar og var á Víðimýri hjá stjúpsyni hans, svo líkindi eru til hann hafi fyllt þeirra flokk.

Brèfið er prentað hèr, eins og hin fyrirfarandi, eptir handritum af Guðmundar sögu (*A*—*C*) og af Sturlúngu (D).

A.

þessi afskript brèfsins er eptir Guðmundar sögu hinni elztu í Resensbók (*codex Resenianus*) frá 1280—1300, Nr. 399 í 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 79 (sbr. Nr. 87 A. hèr að framan). — Eptir þessari sömu bók er brèf þetta prentað áðr í Biskupasögum I, 480.

Pali biskupi. sender Q[ueðiu] Guðs oc sina Sêmundr broðir hans.

Veitzu broðír at Guðmundr biskups efne hefer uerit ecke micill uínr imalum uarum Sigurðar. En þo er hann mioc leyfðr af mørgum monnum oc líclict at þui mune kosningr til hans fallinn at þat mune Guðs uile vera. spyr ec oc at hann mune fyri margra luta saker uel tilfallin. béðe fyri saker gezku sinnar. oc siðuende oc hreinlifis. er mesto varðar. En ef nacquat er annat i. þa tacþu ecke uannda af þeim norðlendingum. at þeir abyrgiz sealfer kiør sitt. er þat mitt rað at þu kiosir hann helldr til en fra. þuiat eigi er uist huerr Guði líkar betr en sea. oc er uanu bezst at hétta. oraþit er at sa finníz er ecke ma at finna. Einhlítir gerðuz þeir norðlendíngar um kiør sítt. enda beri þeir nv abyrgð. fyri hue verðr.

B.

þetta er eptir miðsögu Guðmundar biskups á skinnbókinni Nr. 657 C. í 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 59 (sbr. Nr. 87

B. hér að framan). Í Biskupasögum I, 480 er orðamunr nokkur tilfærðr úr bók þessari, en ekki framar.

---

Bref sæmvndar or odda.[1]

Pall biskvpi brœðvr sinvm sender S[æmvndr] Q[veðiv]. G[vðs] ok sina. veizstv broðer at Gvðmvndr biskvpsefne hefir ecki verit mikill vin miN i malvm vorvm sigvrðar eñ þo er hann miog leyfðr af morgvm monnvm. Nv er ok likazst at þvi hafi kosning vnder hann fallit at þat mvni gvðs vili vera spyr ek ok at hann mvn firi margs saker vel til fallinn bæði gæzskv saker ok siðvendis ok hreinlifis er mestv varðar. Eñ ef nockvt er annan[2] i þa tack eigi vanda af norðlenðíngvm at þeir abyrgiz sialfer kosníng siN er þat mitt rað kios hann helldr til eñ fra þviat eigi er vist hverr lickligri[3] er til at Gvði liki betr eñ sia ok er or vænv bezt at hætta. oraðit er at sa finniz er ecki se at. Einhillter[4] gerðvz þeir at norðlendingar vm kosning siN ber[i] þeir nv abyrð firi hversv verðr.

---

C.

Eptir Guðmundar sögu í handriti þorláks biskups Skúlasonar frá 1641, í safni Árna Magnússonar Nr. 395 í 4to, bls. 71 (sbr. Nr. 87 C. hér að framan).

---

Herra Páile Biskupe Brod[u]r sijnum sendir Sæmundr Quediu Gudz og sijna,

Vite þier þad Brodir minn ad Gudmund[r] prestr Ara son hefur ecki verid mikill vinur vor j til logum sijnum vm mal ockar Sigurdar, eñ miog er hann lofadr af morgum, þyki mier og lijkligt ad þvi hafi Kosninginñ vnder hann borid, ad Gudi muni hann fyrir margar greinir vel virdast til fallinn, bædi Saker gijæsku, hreinlijfis og sidseme er mestu vardar Eñ ef nockud

---

[1]) fyrirsögn með grænu bleki en sömu hendi í skb.

[2]) *ritvilla, f.* annat. [3]) lilickligri, *ritv. í skb.* [4]) *ritv. f.* einhliter.

finnst annad j, tæki eg ecki vanda af Nordlendingum, helldr lieti eg þa sialfa abyrgiast sinn Kosning. Nu er þad mitt rad ad þier styrkid þeirra gjord, kiosandi hann helldr til eñ frä, þviat Ouijst er þad huor lijkare finnst j Gudz þionustu maklegri eñ þessi og er vr vænu best ad hætta, Oradid er ad sä hittist er einskis sie auant. Einhlijter giordust Nordlendingar ad vm kosning þennan, Bere þeir nu abyrgd fyri ad huoriu þeim verdr.

Styrcki ydur milldur Gud alla tijma.

---

## D.

þessi afskript brèfsins er eptir Sturlúngu, svo sem hún er í skinnbókinni Nr. 122 A. í Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 74; sú skinnbók er hèr tíðfærð til hèrumbil 1330 (sbr. Nr. 87 D. hèr að framan). Í útgáfunni af Stúrlúngu 3. þætti kap. 15 (I, 219) og hjá Finni biskupi (Hist. Eccl. Island. I, 339—340 í athugagrein) er nokkur orðamunr, og er hans hèr ekki getið nema á tveim stöðum, merkt *St.* (= Sturlúnga) og *F.* (= Finns kirkjusaga). Í Biskupa-æfum Jóns prófasts Halldórssonar, föður Finns biskups, er hèr í þessu brèfi fylgt í flestu sömu orðatiltækjum og Finnr biskup hefir.

---

Pali biskvpi s[endir] q[vediv] semvnðr. G[vðs] ok sína.

Væiztv broðir. at G[vðmvndr] biskvps efni hefir ecci mickill vín verit í malvm varvm Sigvrðar. Eñ þo er hann læyfðr af monnvm. oc líclígt at þvi mani kosningr vndir hann fallin. at þat man G[vðs] vili vera. Spyr ec at hann man fyri mart vel til fallin. bæði gæskv sinar. oc siðvenði. oc reinlifiss er mesto varðar. Eṅ ef noqvat er annat i. þa [taci þer[1] vanða af nordlendingvm. at þeir abyrgiz s[i]alfir kíor sitt. Eṅ þat er mitt rað. kios hann helldr til eN fra. þviat at eigi er víst hveR licligri er til

---

[1]) *þannig frá [ skinnbókin, en er líklega misritað í staðinn fyrir* takiþ e' (= eigi); *þó má og skilja svo það sem handritið hefir, einsog þar stæði:* þá taki þèr vanda af Norðl. ef þèr samþykkit eigi, at þeir *o. s. frv.* — taki þat, *F;* þá færi þat vanda at Norðl., *St.*

at G[vði] lici en sia . oc er [vænv bestz at hætta[1] . vraðit at sa finniz at ekci mggi at finna. Ein litir[2] gerðvz nordlendíngar at vm kior sitt . beri þeir nv abyrgð fyri hve verðr.

---

## 91. [Marts 1202].

Bréf Páls biskups Jónssonar í Skálholti til Guðmundar prests Arasonar, biskupsefnis að Hólum, að hann samþykkir kosníng hans, og æstir hann til fundar við sig áðr hann fari utan.

Þegar Páll biskup hafði fengið bréf það frá Sæmundi bróður sínum í Odda, sem hèr stendr næst á undan, sendi hann orð þeim Gizurarsonum: Þorvaldi í Hruna, Magnúsi presti í Bræðratúngu, og eptir því sem sumir segja Halli lögsögumanni, sem síðan varð ábóti að Helgafelli; þar var og á þeirri ráðstefnu Sigurðr Ormsson frá Svínafelli, og mun hann því varla hafa farið austr í milli, heldr verið í Skálholti meðan brèfin fóru í milli Páls biskups og Sæmundar bróður hans. Ekki er þess getið að Gizur Hallsson væri á þessum fundi. Þá lýsti Páll biskup því yfir, að hann mundi gefa því atkvæði sitt, að Guðmundr væri kosinn til biskups, og var það þá bundið fastmælum; sendu þeir Páll biskup og Sigurðr Ormsson mann norðr til Hóla með bréf Páls biskups, það er hèr fylgir. Í Sturlúngu (3, 16: 1, 220) segir, að biskup hafi sent Sigurð Ormsson norðr með brèfið, en það mun ekki rètt hermt, og mun það rèttara sem segir í Guðmundar sögu, að Íngimundr Grímsson hafi verið sendr norðr með brèfið.

Þó það sè ekki fullvíst, hvenær bréf þetta sè ritað, þá er líklegra það sè í Marts en í April, því til milliferða milli Skálholts og Odda þurfti ekki lángan tíma, og ekki heldr til að boða þá Gizurarsonu til fundar í Skálholt, þareð þeir bjuggu þar í nágrenni við.

Bréf þetta sjálft er tekið, eins og hin fyrirfarandi, eptir Guðmundar sögu (*A—C*) og eptir Sturlúngu (*D*).

---

### A.

Eptir Guðmundar sögu hinni elztu í Resens bók (*codex Resenianus*) í safni Árna Magnússonar Nr. 399 í 4to, bls. 79—80

---

1) *frá* [ vænu bezt at hætta i, *F*; nú vonum bezt at hætta, *St.*

2) *þ. e.* einhlítir.

(smbr. Nr. 87 A. hèr að framan). Eptir þessari bók er það prentað í Biskupasögum I, 481.

---

Pall biskup sender . Q[ueðiu] . Guðs oc sina . Guðmunde biskups efne.

Guð hefer þic kiørit [til biskups ok uêr . ok ertu fastliga kosinn[1] til biskups . at Guðs løgum oc manna sua sem ma fullígast . a uaro landi . Nu er Guð oc goðer menn . hafa þenna uanda a þíc lagt . þa berr oss nauðsyn til at hitta þic sem braðaz . þuiat uêr kennum þess ibrefe þínu at þu mant utan étla isumar . ef sua ferr sem þu êtlar . Nu uil ec koma at mote þer þar sem þu uill . En kunna þaucc oc øfussu at þu sêkir míc heim . enda skyllda þíc eigi til þess . þui at morG nauðsynea erende a ek til erkibiskups . þau er ec vil at þu komer a minn fund . aðr þu ferr utan.

---

## B.

Þessi afskript brèfsins er tekin eptir miðsögu Guðmundar biskups, sem er á skinnbók frá hèrumbil 1350 í safni Árna Magnússonar Nr. 657 C. í 4to, bls. 59—60 (sbr. Nr. 87 B. hèr að framan].

---

Pall biskvp sender q[veðiv] G[vðs] ok sína G[vðmvnde] biskvps efne . Gvð hefer kosit þig til biskvps . ok ver ok ertv fastliga kosin[n] til biskvp[s] at gvðslogvm ok manna sem a þessv landi ma framaz . Nv er gvð ok goðer menn hafa þenna vanða aþig lagt þa ber oss nauðsyn til at finna yðr sem braðaz . þviat ek kenði þess ibrefi þinv at þv mvnt vtan ætla isvmar ef sva fer sem þv ætlar . Nv vil ek koma til moz við þig þar sem þv vill . eñ kvNa þauck at þv sækir mig heim eñ skyllda þig eigi til þviat ek a nauðsynia eyrenði til erkibiskvps þar er ek vil fiNa þig aðr eñ þv fer vtan.

---

[1] *frá [ er bætt inní eptir B, og hefir ritarinn bersýnilega fellt þessi orð úr og hlaupið yfir vegna orðanna* til biskups, *sem eiga að standa tvisvar í brèfinu.*

## C.

Eptir pappírshandriti þorláks biskups frá 1641 af sögu Guðmundar biskups, í safni Árna Magnússonar Nr. 395 í 4to, bls. 72, (sbr. Nr. 87 C. hèr að framan).

---

Pall medr Gudz myskun Biskup Skälholltz Christne, sendir Gudmundi Biskups efne kuediu Gudz og sijna.

Medr þui ad þier gafud ydart maal vndir mig, huort eg villdi kiosa ydur til Biskups edr annan, er bædi ad eg þori eij, og eij vil eg ganga j moti þeim Gudz vilia ad þu siert Biskup, þui sie aullum kunnugt, ad þu ert nu kosinn til Biskups af Gudi og oss, so fastliga sem a þessu landi ma framast giorast, og medr þui ad þier hafid þennan vanda vidtekid af Gudi og godum monnum þa Skipid so ydrum giordum, sem þier siaid best standa. Eg kendi þess j Brefi ydru, ad þier munud ætla vtañ j sumar, þui byriar ockr hittast sem fliotast, og giora badir samañ Rad fyrir þeim hlutum, sem Christnenne hier a landi heyrer til. So ætla eg ad skrifa bref til Erchi Biskups, og villdi eg ad þier tækid med. Nu vil eg koma til motz vid þig j þann stad sem þier vilied a kueda, eñ kunna þock ad þier sæked oss heim, eñ skyllda eij til.

Valete.

---

## D.

Þessi afskript brèfsins er tekin eptir Sturlúngu, svo sem hún er á skinnbók þeirri frá hèrumbil 1330, sem nú er í safni Árna Magnússonar Nr. 122 A. í Fol., bls. 75 (smbr. Nr. 87 D. hèr að framan). — Þar kemr að mestu saman við útgáfan af Sturlúngu (3, 16: I, 220), og Kirkjusaga Finns biskups (Hist. Eccl. Island. I, 340 í athgr.) og er getið helzta orðamunar þaðan.

---

Pall biskvp s[endir] q[veðiv] G[vðs] oc sína G[vðmvndi] biskvps efni.

Gvð hefir kosit þíc til biskvps oc ver. Nv er gvð oc goþir

menn hafa þenna vanda aþic lagt. þa berr oss nauðsyn til at finna þic sem braðazt. þviat ek kendi þess ibrefi þínv. at þv mant ætla vtan isvmar[1]. Nv vil ec koma til motz við þik þar er þv vill. En kvnna þarcc ef þv sækir míc heim. en skylløa þig eigi til. þviat ec amorg nauðsynia eyrinði til erchi biskvps. þau er ec vil attv[2] comir a miɴ fvnð aðr þv ferr vtan. Vale.

## 92. [1203].

Máldagi Bessastaða kirkju í Fljótsdal, [sem Páll biskup Jónsson setti].

Brynjólfr hinn gamli, Ævarr hinn gamli og Herjólfr voru bræðr þrír, er námu land fyrir austan: Brynjólfr Fljótsdal, Ævarr Skriðdal og Herjólfr Breiðdal. Sonr Brynjólfs hins gamla hèt Özur, hans son var Bessi, sem Bessastaðir í Fljótsdal eru kenndir við (Landn. IV, 2, eptir Hauksbók), og mun hann hafa byggt þann bæ fyrstr. Bessi var ættarnafn í þessu kyni, og voru þessir Bessar blótmenn miklir, spakir menn og lögkænir. Það hefir verið ættarmark, að hver Bessi í ættinni hèt Spak-Bessi, og því er það hvikult í sögum Austfirðínga, að þeir hafa ekki verið fullvissir um, hverjar sögur heyri til hverjum þeirra Spak-Bessanna. Einn Spak-Bessi var á Bessastöðum seinast á tíundu öld, hann hafði blóthús á bæ sínum, sem segir í Droplaugarsona sögu (1847, bls. 10—11), og hefir hann mátt vera rammr blótmaðr eptir því sem sagan segir, að hann kenndi því um, þegar kom hálfs mánaðar hríð, að Droplaugarsynir gengu sólarsinnis í kríngum blóthús hans, og þó óviljandi. Þessi Spak-Bessi hafði alið upp Helga Ásbjarnarson, er var einn af helztu mönnum þar eystra á ofanverðri tíundu öld, og átti Droplaugu dóttur Bessa. Um Helga Ásbjarnarson er sagt mart í sögum Austfirðínga; bjó hann fyrst í Fljótsdal, síðan í Mjófanesi og seinast á Eyðum, og þar var hann drepinn af Grími Droplaugarsyni (1005). Spak-Bessi hefir verið gamall maðr eða jafnvel andaðr þegar kristni kom á Ísland, en Hólmsteinn son hans bjó á Bessastöðum þegar Brennu-Flosi fór austr í liðsbón um vorið eptir Njálsbrennu (1012). Sörli Broddhelgason bjó þá á Valþjófstað, og átti dóttur Guðmundar hins ríka á Möðruvöllum.

1) ef sá vill [ef sva er] sem þu mundir kiósa, *b. v. St.*; ef so er sem þú mundir kjósa, *F.*

2) flytir fram ok, *b. v. St.*; þú framflytir oc, *b. v. F.*

Sonr Hólmsteins var Úrækja, en hans son mun hafa verið Hólmsteinn sá, sem getið er um með Gizuri biskupi að vottaði um rètt Íslendínga í Noregi (Nr. 21, bls. 64 hèr að framan). Af ætt þessara lángfeðga var komin Þorbjörg, er átti Loptr son Páls biskups í Skálholti (um 1200; Landn. IV, 3). Á Bessastöðum mun hafa verið snemma kirkja gjör, og hafa verið framan eptir helzta kirkja í Fljótsdal, en um og fyrir 1200 varð Valþjófstaðr aðalkirkjan, og þó ekki nema hálflandi þar til 1306, að kirkjan eignaðist alla jörðina og þar varð staðr (Beneficium). Í Wilchins máldaga er Valþjófstaðar kirkja orðin miklu fremri en sú á Bessastöðum, en 1512 jók það við, að þá var vígð klaustrkirkjan á Skriðu, og fór síðan enn meir hnignandi fyrir Bessastaða kirkju. Þó er þar enn kölluð hálfkirkja í Gísla máldaga 1576, en 1641 um sumarið (6. August), þegar Brynjólfr biskup Sveinsson visiteraði, er ekki talin kirkja á Bessastöðum, heldr er jörðin talin með Skriðu klaustrs jörðum, og getið þess, að í notum Bessastaða „forsorgast heima á klaustrinu átta ærgilda ómagi"; það eru leifar af fátækra-eldi því, sem hèr er sett í máldaganum, en síðan virðist það vera með öllu horfið, einsog flestar þær kristfjárkvaðir, sem fylgt hafa jörðum þeim er teknar hafa verið undir konúng.

Um tíma þann, sem máldagi þessi er saminn, má álykta af Páls biskups sögu og Annálum, þegar vèr heimfærum máldagann til Páls biskups. Þess var áðr getið, að Páll biskup ritaði Guðmundi Arasyni biskupsefni 1202, að finna sig áðr hann færi utan; fór þá Guðmundr suðr til Skálholts eptir hvítadaga (hvítasunnu, þ. e. í Juni) og síðan norðr aptr, og þá utan í Eyjafirði nálægt miðsumri (14. Juli); en um vorið eptir var hann vígðr til biskups (13. April 1203) og kom út um sumarið í Mjóafirði í Austfjörðum (Guðm. s. kap. 50; Bisk. s. I, 484—486). Þá var Páll biskup á visitazíu sinni í Austfjörðum, og hittust þeir þar þrír biskupar, Páll og Guðmundr og Jón Grænlendínga biskup, sem verið hafði á Íslandi um vetrinn og komið af Grænlandi sumarið áðr (ísl. Annálar 1203; Páls s. kap. 9: Bisk. s. I, 135; Guðm. s. kap. 50: Bisk. s. I, 486). Í þessari ferð til Austfjarða er harðla líklegt að þeir máldagar hafi verið samdir, sem heyra til tíma Páls biskups, og snerta kirkjur í í Austfjörðum. Í máldaga þessum sjálfum er að vísu ekkert svo einkennilegt, að hann verði með vissu heimfærðr til tíma Páls biskups, en það virðist sennilegra að færa hann til þess tíma, en til daga Þorláks hins helga, af því hversu hann er orðaðr, og af því hann heldr ekki fram biskupsforráðum, svo sem ætla mætti um máldaga Þorláks biskups í Austfjörðum; þess má einnig geta, að mægðir Bessastaða fólks við Pál biskup, sem áðr var sagt, benda til, að þar hafi verið kunnleikar á milli.

Máldaga skrá þessi sem hèr fylgir er tekin eptir tvennskonar skjölum: er annað uppskript Bessastaða máldaga og Njarðvíkr máldaga í Borgarfirði (í Múla þíngi), sem gjörð er af

þorkeli presti Gizurarsyni og tveimr leikmönnum í Túngu í Biskupstúngum (Bræðratúngu) á Maríumessu síðari (8. Septbr.) 1421, og er til enn í afskript frá Árna Magnússyni í skjalasafni hans; en annað er Wilchinsbók. þó er máldaginn mjög aukinn á báðum stöðum, og er því ekki tekið annað hèr en það, sem bersýnilega er fornast. Stafsetníngin er eptir því sem stendr í Transscripto, og er hún augljóslega frá þeim tíma sem það er ritað á (1421).

---

þesse ær maaldagæ a bessastodum ath þar skal vera hæímílis prestr ef sa will er þar byr aa oc[1] hafua kiorit fiorda dagh pasca oc taka hæíma tíundh[2] allra hæíma manna oc lyse tolla Ræidha presti tuau hundrot[3]. þar er skyldt ath synghia huern dagh hælgan oc alla ymbro dagha. Midhuiko dagha alla oc fria dagha a langha fausto. oc tuær dímbill nætr Paalm swñodagh oc pasca dagh allar tidær.[4]

þar skal ãnnazst hundrat alna vmagha[5]. æda lata synghia hundrat salo messna: Ræidha vt æf vill þetta hundrat j wadmalum mat ædha skædom þeim fatækom monnom sem hann will oc sæ sa æíghí loghkomæn a fe hans[6].

---

## 93. 13. Februar 1206. i Róm.

INNOCENTIUS páfi hinn þriði staðfestir boð fyrirrennara sinna um að erkistóll skuli vera í Niðarósi, og skipar fyrir hver biskupsdæmi skuli heyra þar til.

Eirekr erkibiskup sat ekki lengi að stóli sínum í Niðarósi. Milli Sverris konúngs og hans reis upp hin megnasta deila um takmörk hins veraldlega og hins andlega valds, konúngsvaldsins og biskupavaldsins, eða páfavaldsins, sem var hið sama; leið þá ekki á laungu þar til Eiríkr erkibiskup stökk úr landi (1191), og suðr til Danmerkr, og var þar með Absaloni erkibiskupi í Lundi og Vilhjálmi ábóta í Eplaholti. Með styrk þeirra og ráði var þá ritað páfa um mál Sverris konúngs og erkibiskups, og fèllst hann á málstað erkibiskups, sem vænta mátti; en erkibiskup lèt lesa upp brèf páfa í Danmörku og lýsa þar banni yfir

1) þannig er einusinni í brèfinu, en allstaðar annarstaðar bundið, (ꝉ).

2) ꝉ (oc), *b. v. brèfið, og er það ritvilla.*

3–6) hèr er í brèfinu skilnaðarmerki þrír púnktar, hver upp af öðrum.

Sverri konúngi. Skömmu eptir að Eiríkr erkibiskup kom til Danmerkr fèkk hann augnaverk, og misti sjónina og var blindr síðan; sparaði þá ekki Sverrir að kalla það guðs hegníng fyrir mótþróa hans við konúngdóminn: „þat sama bann ok blótan," sagði hann, „er hann (erkibiskup) nefnir mik til, þat hefir nú dreifzt í augu hans, ok er hann nú fyrir því blindr."[1] Um viðreign Sverris við flokka þá, sem móti honum voru reistir, eru miklar frásagnir í sögu Sverris konúngs, en þó nærri lægi að hann yrði yfirbugaðr, þá varð það þó ekki; var þó ríki hans allt í banni, og enginn biskup í Noregi þorði að vera við stól sinn, heldr fóru þeir allir úr landi og suðr til Danmerkr til erkibiskups. Eptir dauða Sverris (9. Marts 1202) breyttist þetta, svo að allir biskuparnir fóru heim til Noregs til stóla sinna þá um sumarið, og ríkið var leyst úr banni, en konúngrinn, Hákon Sverrisson, lofaði að veita kirkjunni allt það frelsi, sem hún ætti eptir heilögum ritníngum, og eptir því sem hún hefði haft að fornu og nýju (Brèf Hákonar í Norges gamle Love I, 444). En Innocentius páfi, sem hafði búizt við að fá fullkominn sigr yfir konúngsvaldinu í Noregi, var ekki vel ánægðr með slík málalok, og ritaði erkibiskupi og biskupum í Noregi á þá leið, að erkibiskup hefði alls ekki átt með að leysa bannið, og skyldi hann kalla þá lausn sína aptr (páfabrèf 24. Januar 1204). En 1. Januar 1204 andaðist Hákon konúngr Sverrisson, og vita menn ekki til að þessu boði páfans hafi í neinu framgengt orðið. Árið eptir lagði Eiríkr erkibiskup niðr embætti sitt, og kaus Þóri Guðmundarson, kórsbróður í Oslo, til erkibiskups; fór Þórir þá til Róms og var vígðr, og kom í land aptr 1206, en Eiríkr erkibiskup lifði þó síðan nokkur ár og andaðist ekki fyr en 1213 (ísl. Annál.).

Það er líklegt, að Þórir erkibiskup hafi haft með sèr til Noregs nokkur páfabrèf, sem eru rituð í Februar og Marts 1206, og enn eru til. Þau eru öll stíluð til erkibiskups í Niðarósi, og eru prentuð meðal brèfa Innocentii páfa hins þriðja, og eru þau þessi: — 1, dags. 11. Februar (III. id. Febr.) 1206, að enginn megi vígja biskupa án þess að hafa þartil umboð erkibiskups, eða, þegar hann er ekki, skipun eða umboð kórsbræðra í Niðarósi; — 2, dags. 13. Februar (idib. Februar) 1206 um erkibiskupsdæmið í Niðarósi og staðfestíng rèttinda þess, það sem hèr eptir fylgir; — 3, dags. 18. Februar (XII. cal. Martii) 1206, um aflausnir þeirra sem leggja hönd á klerka, að erkibiskup megi leysa þá og taka eiða af þeim, nema þeir hafi lagt hendr á biskup eða ábóta, eða á annan hátt sýnt klerkum svo greypilegt ofríki, að þeir hljóti að sækja lausn til páfagarðs; — 4, dags. 1. Marts (cal. Martiis) 1206, útaf spurn erkibiskups um það, hvort smábörn þau megi kristin kallast, sem eru skírð hrákaskírn, eða á þann hátt, þegar svo stendr á að þeim er ekki lífvænt og ekki er vatn

1) Sverris saga kap. 121; Fornm. s. VIII, 293.

að fá og ekki nær til prests, að einhver nærstaddr ber munnvatn í höfuð barninu og á brjóst þess og milli herða, og lætr það skírn heita. En því er svarað af hendi páfans á þá leið, að til skírnar þurfi tvennt, vatnið og orðið, svo sem skrifað stendr: „farið út um allan heiminn" o. s. frv., og sömuleiðis: „nema maðr verði endrfæddr af vatni og anda" o. s. frv., og sè þessvegna enginn vafi, að vanti hvorttveggja eða einúngis annaðhvort, þá sè skírnin ekki rètt. — 5, dags. 1. Marts (calend. Martiis) 1206 um presta, sem leggja klerkabúníng sinn og taka vopn, og úthella blóði og gjöra ymsa aðra óhæfu móti klerklegum lifnaði, að erkibiskup skuli áminna þá, og vili þeir eigi hlýðnast, þá að taka af þeim saung og embætti; þó skulu þeir, sem drepa klerka þá er vopn bera, vera skyldir að sækja lausn á páfagarð. Þessi brèf eru ekki hèr prentuð, að fráteknu því eina sem nefnir Ísland, jafnvel þó að þau snerti óbeinlínis allt Niðaróss erkibiskupsdæmi, þareð vèr höfum engar skýrslur um, að þau hafi verið á þessum árum birt á Íslandi, en á tímum Árna biskups Þorlákssonar sjáum vèr merki til, að þetta sem hèr er skipað kemr fram í kirkjulögum og skipunum hinna íslenzku biskupa.

Um tímann, þegar brèf þetta er ritað, er nokkur vafi, og kemr af því, að í enda brèfsins stendr ártal 1205, en bæði indictio og ár páfans, sem var kosinn 8. Januar og vígðr 22. Februar 1198, sýna árið 1206, og að því bendir einnig ferð Þóris erkibiskups; það er því auðsætt, að í brèfinu er ártalið byggt á því tímatali, sem kallað er hið florentinska, og byrjar árið þrem mánuðum á eptir vorum tímareikníngi, eða 25. Marz. Þetta tímatal er í mörgum páfabrèfum frá miðöldunum. Suhm (Historie af Danm. IX, 84) hefir getið þessa páfabrèfs við 1205, og sagt, að Du Theil heimfærði það til hins sama árs, sem og mundi rèttast vera, en þetta er villa, því Du Theil heimfærir það, einsog öll hin brèfin, einmitt til 1206; í Grönl. Hist. Mindesm. (III, 87) er það talið fortakslaust til 1205; allir aðrir, þeir sem mèr er kunnugt um, hafa tíðfært það til ársins 1206 (Raynald. Annall. Eccles. 1206 § 26; Lappenberg. Hamburg. Urkundenb. I, 186; K. Maurer. Die Bekehrung d. Norweg. Stammes II, 680); það eina ber á milli, að sumir setja daginn til 15. Februar, sem mun einúngis vera komið af vangá.

Brèf þetta er prentað áðr í brèfasafni Innocentii páfa hins þriðja, sem gefið er út af De Brèquigny og La Porte du Theil, og heitir: Diplomata, chartæ, epistolæ et alia Documenta, ad res Francicas spectantia o. s. frv. Paris 1791. í Fol. Tom. II. Pars II. bls. 834—836 (Epistol. Innoc. III. Libr. VIII, epist. CCXIV). Ágrip í Grönlands Histor. Mindesmærk. III, 87—88. Hèr er fylgt útgáfunni í hinu franska safni, nema að því leyti sem þar er aflagað, og er það leiðrètt hèr eptir brèfi Anastasius páfa hins fjórða 30. Novbr. 1154 (bls. 204—214 að framan), en breytínganna getið og Du Theils útgáfa merkt *Th.*

Innocentius episcopus, seruus seruorum Dei, Venerabili fratri N. .[1] Nidrosiensi archiepiscopo, ejusque successoribus, canonice substituendis, in perpetuum.

Licet omnibus [discipulis eadem[2] ligandi et soluendi sit concessa potestàs, licet unum præceptum ad omnes idemque pervenerit prædicandi Evangelium[3] omni creaturæ; velut quædam tamen inter eos[4] habita est discretiò dignitatis, et dominicarum ovium curam, quæ omnibus æqualiter[5] imminebat, unus singulariter suscepit habendam, dicente ad eum Domino: „Petre, amas me? pasce oves meas!"; qui etiam inter omnes apostolos principatus nomen obtinuit, et de fratrum confirmatione singulare a Domino præceptum accepit, ut in hoc secuturæ posteritati daretur intelligi, quoniam, quamvis multos ad regimen ecclesiæ contingeret ordinari, unus tamen solummodo supremæ dignitatis locum fastigiumque teneret, et[6] unus omnibus et potestate gubernandi et judicandi honore præsideret. Unde et secundum hanc formam in ecclesia distinctio servata est dignitatum, et, sicut in humano corpore pro varietate officiorum diversa ordinata sunt membra, ita in structura ecclesiæ ad diversa ministeria exhibenda diversæ personæ in diversis sunt ordinibus constitutæ. Aliis enim ad singularum ecclesiarum, aliis autem ad singularum urbium dispositionem ordinatis ac regimen[7], constituti sunt in singulis provinciis alii, quorum prima inter fratres sententia habeatur, et ad quorum examen subjectarum personarum quæstiones et negotia referantur. Super omnes autem Romanus pontifex, tanquam Noë in arca, primum locum noscitur obtinere; qui, ex collato sibi desuper in apostolorum principe privilegio, de universorum causis judicat et disponit, et per universum orbem ecclesiæ filios in christianæ fidei firmitate non desinit confirmare, talem se curans jugiter exhibere, qui vocem dominicam videatur audire, qua dicitur: „et tu aliquando conversus, confirma fratres tuos." Hoc nimirum, post beatum Petrum, illi apostolici[8] viri, qui

---

1) Upphafið híngað að er ekki prentað hjá Du Theil, en það er hið sama upphaf og í öðrum påfabréfum.

2) frá [ sleppir *Th.*, og er það fallið úr óvart.

3) Evangelia, *Th.* 4) eas, *Th.* 5) sl. *Th.* 6) ut, *Th.* 7) rerum, *Th.*

8) apostoli &, *Th.*

per successiones temporum ad gerendam curam sedis apostolicæ surrexerunt, indesinenti curaverunt studio adimplere, et per universum orbem, nunc per se, nunc per legatos suos, corrigenda corrigere, et statuenda statuere, summopere studuerunt. Quorum quoque vestigia subsecutus felicis memoriæ Eugenius papa, prædecessor noster, de corrigendis his quæ in regno Norvegiæ correctionem videbantur exposcere, et verbo ibi fidei seminando juxta sui officii debitum sollicitus exstitit, et quod per se ipsum, universalis ecclesiæ cura obsistente, non potuit, per legatum suum Nicolaum, tunc scilicet Albanensem episcopum, qui postea in Romanum pontificem est assumtus, executioni mandavit. Qui, ad partes illas accedens, sicut a suo patrefamilias acceperat in mandatis, talentum sibi creditum largitus est ad usuram, et tanquam fidelis seruus et prudens multiplicatum inde fructum studuit reportare. Inter cetera vero, quæ ad laudem illic nominis Dei et ministerii sui commendationem implevit, juxta quod prædictus antecessor noster ei præceperat, pallium Johanni, antecessori tuo, indulsit, et ne de cetero provinciæ Norwegiæ metropolitana cura possit deesse, commissam gubernationi suæ urbem Nidrosiensem ejusdem provinciæ perpetuam metropolim ordinavit, et ei Asloënsem, Amarcopiensem[1], Bargensem[2], Stavangriensem, insulas Orcades, insulas Fareiæ, Suthraiæ et Islanden, et Grenelandiæ episcopatus, tanquam suæ metropoli perpetuis temporibus constituit subjacere, et eorum episcopos, sicut metropolitanis suis, tam sibi quam suis successoribus obedire. Ne igitur ad violentiam constitutionis ipsius ulli unquam liceat aspirare, Nos felicis memoriæ prædicti Eugenii et Alexandri, atque Clementis, prædecessorum nostrorum Romanorum pontificum vestigiis inhærentes, eandem constitutionem auctoritate apostolica confirmamus et præsentis scripti privilegio communimus, statuentes, ut Nidrosiensis civitas supradictarum urbium perpetuis temporibus metropolis habeatur, et earum episcopi tam tibi quam tuis successoribus sicut suo metropolitano obediant et de manu vestra consecrationis gratiam sortiantur. Successores autem tui ad Romanum pontificem tantum percepturi do-

1) þ. e. = Hamarcopiensem, í Hamarkaupángi; Amatripiensem, *Th.*
2) Bergensem, í Björgvin.

num consecrationis accedant, et ei solummodo et Romanæ ecclesiæ subjecti semper existant. Porro, concesso tibi pallio, pontificalis scilicet plenitudine potestatis, infra ecclesiam tantum, ad sacra missarum solemnia per universam provinciam tuam his solummodo diebus uti fraternitas tua debebit, qui inferius leguntur inscripti: Nativitate Domini, Epiphania, coena Dominj, Resurrectione, Ascensione, Pentecoste, in solemnitatibus beatæ Dei genetricis semper virginis Mariæ, Natalitio beatorum Petri et Pauli, et Exaltatione sanctæ crucis, Nativitate beati Johannis baptistæ, Festo beati Johannis evangelistæ, Commemoratione omnium sanctorum, in consecrationibus ecclesiarum vel episcoporum, benedictionibus altarium, ordinationibus Presbyterorum, in die consecrationis ecclesiæ tuæ ac festis sanctæ trinitatis et sancti Olavi, et anniversario tuæ consecrationis die. Studeat ergo tua fraternitas, plenitudine tantæ dignitatis suscepta, ita strenue cuncta peragere, quatenus morum tuorum ornamenta eidem valeant convenire. Sit vita tua subditis exemplum, ut per eam cognoscant quid debeant appetere, quid cogantur vitare. Esto discretione præcipuus, cogitatione mundus, actione purus, discretus in silentio, utilis in verbo; curæ[1] tibi sit magis prodesse hominibus quam præesse. Non in te potestatem ordinis, sed æqualitem oportet pensare conditionis. Stude, ne vita doctrinam destituat, ne rursum vitæ doctrina contradicat. Memento quod est ars artium regimen animarum. Super omnia studium tibi sit, apostolicæ sedis decreta firmiter observare, et tanquam matri et dominæ tuæ ei humiliter obedire. Ecce, frater in Christo carissime, inter multa alia hæc sunt pallii, hæc sacerdotii, quæ omnia facile, Christo adjuvante, adimplere poteris, si virtutum omnium magistram, caritatem et humilitatem habueris, et quod foris habere ostenderis, intus habebis.

Decernimus ergo,[2] ut nulli omnino hominum liceat eandem ecclesiam temere perturbare, vel ejus possessiones auferre, vel ablatas retinere, minuere, seu quibuslibet vexationibus fatigare. Sed illabata omnia et integra conserventur, eorum, pro quorum gubernatione et sustentatione concessa sunt,

1) cura, *Th.* 2) héðan frá er eins og í brèfi Anastasius páfa, 30. Novbr. 1154.

usibus omnimodis profutura, salua sedis apostolicæ auctoritate. Si qua igitur in futurum ecclesiastica secularisve persona hanc nostræ constitutionis paginam sciens, contra eam temere venire temptaverit, secundo tertiove commonita, nisi præsumptionem suam congruâ satisfactione correxerit, potestate honorisque sui dignitate careat, reamque se divino judicio existere de perpetratâ iniquitate cognoscat, et a sacratissimo corpore et sanguine Dei et Domini redemptoris nostri Jesu Christi aliena fiat, atque in extremo examine districtæ ultioni subjaceat. Cunctis autem eidem loco sua jura servantibus sit pax Domini nostri Jesu Christi, quatinus et hic fructum bonæ actionis percipiant, et apud districtum judicem præmia æternæ pacis inveniant. Amen Amen.

Datum Romæ, apud sanctum Petrum, per manum Johannis sanctæ Mariæ in Cosmedin, Diaconi Cardinalis, sanctæ Romanæ ecclesiæ Cancellarii, id. Februar. Indictione IX., incarnationis dominicæ anno MCCV, Pontificatus vero Domini Innocentii Papæ Tertii anno octauo.

---

## 94. [Vorið 1206]. í Reykjaholti.

Afhendíng á kirkjufjám í Reykjaholti í Borgarfirði, þegar Magnús prestr Pálsson og Hallfríðr þorgilsdóttir kona hans lètu af hendi, en Snorri Sturluson tók við.

þessi skrá er annar kaflinn af Reykjaholts máldaga, eptir frumritinu sjálfu (sbr. Nr. 68, bls. 279 hèr að framan).

þessi kafli máldagans ber sjálfr með sèr, í stafa setníng og mörgu öðru, að hann er ritaðr nokkru síðar en hinn fyrsti kaflinn, sem hèr var talinn til 1185. Að efninu til sýnir einnig kafli þessi sjálfr hvenær hann sè ritaðr, þar sem stendr, að fjórir menn, sem hèr eru nafngreindir, hafi virt kirkjufè í hendr Snorra; einnig að Magnús og Hallfríðr hafi gefið til kirkju, og þeir Snorri og Magnús einnig, að helmíngi hvor þeirra. þetta er ljós vottr um, að skrá þessi er samin þegar Magnús Pálsson og Hallfríðr kona hans afhentu Reykjaholt í hendr Snorra Sturlusyni. Hitt er meira á reiki, hvenær þessi afhendíng hafi fram farið, og veltr það á nokkrum árum.

Magnús prestr Pálsson var sonr Páls prests Sölvasonar í Reykjaholti, sem var frægr kennimaðr á dögum þorláks biskups

hins helga († 1185; sbr. bls. 188—189 að framan); Hallfríðr kona hans var þorgilsdóttir, prests frá Stað á Snæfellsnesi (Staðastað), Ara sonar prests hins fróða. þau bjuggu fyrst á Helgafelli (Sturl. 2, 38: I, 106) en síðan í Reykjaholti, eptir andlát Páls prests Sölvasonar. Bæði þau Magnús prestr og Hallfríðr önduðust 1223 (ísl. Annálar). Brandr prestr og Ari prestr voru synir þeirra. En af því Páll prestr Sölvason var eigi skilgetinn, þóttist þórðr Böðvarsson, móðurbróðir Sturlusona, sem var sonr Helgu þórðardóttur, skilgetinnar bróðurdóttur Sölva, föður Páls prests, vera næstr erfðum til staðarforráða í Reykjaholti eptir Magnús prest Pálsson, og fèkk hann Snorra systursyni sínum heimildir sínar að staðnum.

Snorri Sturluson var nítján vetra þegar Jón Loptsson fóstri hans í Odda andaðist. Hann var síðan í Odda með Sæmundi Jónssyni, fóstbróður sínum, þar til þeir þórðr Sturluson, bróðir hans, beiddu til handa honum Herdísar, dóttur Bessa prests hins auðga Vermundarsonar á Borg á Mýrum. Hún átti átta hundruð hundraða, en Snorri hafði átt fjörutigi hundraða í föðurarfi og voru þau nú eydd hjá móður hans, en hún lagði þá Hvamm í Hvammsveit honum til kvonarmundar. þau Snorri og Herdís hèldu brúðkaup í Hvammi um haustið 1198 (Guðm. s. kap. 30: Bisk. s. I, 457), og voru þá í Odda um vetrinn eptir; var þá Snorri þann vetr og árið eptir í málum með Sæmundi fóstbróður sínum móti Sigurði Ormssyni á Svínafelli (Sturl. 3, 45; I, 200—201).

Bessi prestr hinn auðgi andaðist á sama ári og Brandr biskup á Hólum; þó mun það hafa verið annaðhvort seinna á árinu 1201, eða um vetrinn eptir, því konúngs-annáll færir andlát Bessa prests til 1202. En eptir Bessa tók Snorri Sturluson allan arf, og rèðst þá „til bús til Borgar, og bjó þar nokkura vetr" (Sturl. 3, 19: I, 223; Guðm. saga kap. 51; Bisk. s. I, 486). Snorri og Herdís munu því hafa farið að búa á Borg um vorið 1202, og er þá undir komið hversu lángt það bil er, sem sagan kallar „nokkura vetr". Menn hafa sett svo, að Snorri muni hafa flutzt að Reykjaholti 1208 eða 1209, og er það víst, að hann muni ekki hafa farið þángað seinna en í fardögum 1208, því snemma um vorið 1209, þegar hann var í flokki með höfðíngjum, þeim er tóku Guðmund biskup af stóli, og bauð biskupi til sín, þá var hann kominn að Reykjaholti. En það er líklegast, að Snorri hafi farið fyr að Reykjaholti, og hafi ekki búið lengr að Borg en 4 ár (1202—1206); er það bæði ráðanda af frásögnum í Sturlúnga sögu, þar sem sagt er frá viðrbúníngi Snorra að flytjast frá Borg á þann hátt, sem það hafi þótt óþarflegt skjótræði (Sturl. 3, 20: I, 224—225), og þar að auki af því, að Gizur sá, sem hèr er nefndr í skránni, fyrstr af þeim sem virtu í hendr Snorra, getr varla annar verið en Gizur Hallsson, því hann einn mundi hafa verið nefndr fremstr af þeim sem hèr eru taldir. Hefir þá Gizur

Hallsson og þórðr Böðvarsson frá Görðum á Akranesi, móðurbróðir Snorra, sá hinn sami sem gefið hafði honum heimildir sínar að staðnum í Reykjaholti († 1220), virt fè af hendi Snorra, en Ketill Hermundarson, er síðan varð ábóti að Helgafelli († 1220), og Högni prestr þormóðarson hinn auðgi í Bæ, af hendi Magnús prests. En þareð Gizur Hallsson andaðist þetta sama sumar (27. Juli 1206) verðr afhendíngin ekki sett seinna en hèr er sett, og varla heldr fyr, vegna þess að það er hèrumbil víst, að Snorri fór að búa á Borg 1202 og bjó þar „nokkura vetr". það virðist svo, sem Herdís Bessadóttir hafi búið eptir að Borg, þegar Snorri fór að Reykjaholti, því hennar er aldrei getið með Snorra síðan, og þegar Hallbera dóttir þeirra andaðist (1231), var hún á Borg, en tveim árum síðar andaðist Herdís (1233 eptir konúngsannál).

---

[1]Her liggia til tio hundroþ sex alna aura | i bokom oc i messo fotom oc i kirkio skruþe[2]. fvr vtan klukkor II[3]. | þeir ero ovirþar. Magnus oc hallfriþr gefa til kirkio roþo kross oc lic|neske þau es standa vfer altara. oc buneng a plenario.

þat es kirkio | fe umb fram of þat es aþr es talt. kirkio fe fvlgia tuer mercr | vax. oc tottogo.

þau liggia lond til kirkio breiþabolstaþr. oc rævkia land. oc hogende.

her fvlgia eɴ kirkiofe siav | kugilde imetfe.

Sa es bvr iravkia holte skal annaz hafsland | oc tuau kvgilde bufiar meþ. þvi fe skal fvlgia kueɴ gildr | omage huer missere. oc skal sa haɴ til taka es i ravkia | holte bvr.

þesse kirkio fe es ero i bokom oc i messo fotom oc i kirkio | skruþe virðo til. sextogo hvndraþa vaþmala ihendr Snor|ra. þeir Gizoʀ oc þorþr. oc ketill hermundarson. oc hogne prestr. |

1) þessi kafli Reykjaholts máldaga byrjar framarlega í línu, hinni sömu sem fyrsti kaflinn hættir, og er engin aðgreiníng nema púnktr á milli.

2) *hèr er sett yfir línunni, með sömu stafagerð og sama bleki og er á nokkru af þriðja kaflanum, þetta:* oc gvðvæfiar hævkvll vvirðr. ær Ormr b. gaf i d. Gil. s.; *þetta er ritað inn í máldagann síðar og heimfært hèr til þriðja kaflans, frá 1224.*

3) þessi tala er rituð yfir línunni, og þó með sömu hendi; er hún og sýnilega rituð fyr en það sem á undan stendr að „Ormr bóndi Gilsson gaf".

Skrin þat es stendr a altara meþ helgom domom gefa þeir Magnus oc | Snorre at helfninge hvarr þeirra. oc es þat kirkiofe umb fr|am of þat es aþr es talet.

---

95. [um 1209].

Máldagi kirkjunnar að Skarði hinu eystra á Rángárvöllum, [sem Páll biskup Jónsson setti].

Í sagnaritum vorum á síðari tímum er mjög opt blandað saman Skarði hinu eystra og Skarði hinu ytra eða vestara í Rángár þíngi, og verðum vèr því hèr að rekja aðalatriði þau, sem þarf til að gjöra rèttan aðgreiníng í því máli.

Þess er fyrst að geta, að Skarð hið eystra var á Rángárvöllum, það er að segja fyrir austan Rángá hina ytri, og er nú fyrir laungu í eyði, sem þegar mun sýnt verða; en Skarð hið ytra var á Landi, fyrir vestan Rángá hina ytri, milli og Þjórsár, og er það Skarð sem enn er útkirkja frá Völlum eða Stóruvöllum á Landi.

Í hinum fornustu sögum vorum er meira getið um Skarð hið eystra en um Skarð hið ytra, en þegar fram eptir dregr verðr Skarð hið ytra merkilegra.

Landnámabók getr þess (Landn. V, 6; Íslend. s. 1843. I, 294) að Þorsteinn Ásgrímsson, Úlfs sonar gyldis, hersis af Þelamörk í Noregi, nam land að ráði Flosa (þess er nam alla hina eystri Rángárvöllu), frá Víkíngslæk og upp til móts við Svínhaga-Björn, og bjó í Skarðinu eystra; Þorsteinn var kallaðr Tjaldstæðíngr, því hann hafði sjúka menn þar sem hèt Tjaldastaðir, og var þar síðan bær með því nafni. Þorgeir bróðir Þorsteins keypti lönd af Hrafni Hængssyni niðri í oddanum milli Rángánna, og bjó fyrstr í Odda á Rángárvöllum. Þeir bræðr komu seint út til Íslands, og mun það hafa verið um ár 920.

Þegar þeir Hjalti og Gizur hvíti komu út til Íslands að boða kristni, ár 1000, voru með þeim á alþíngi sjö menn skrýddir, og höfðu krossa tvo, merkti annar hæð Ólafs konúngs Tryggvasonar, en annar hæð Hjalta Skeggjasonar, og segir svo í Kristnisögu að þeir sè nú (þegar sagan var rituð) í Skarðinu eystra (Kristnis. kap. 11: Bisk. s. I, 21—22); en í Ólafs sögu Tryggvasonar (Fornm. s. II, 235) og í Flateyjarbók segir, að krossar þessir sè í Skarðinu ytra[1] (Ólafs s. í Skálh. útg. II, 240).

---

[1]) Í staðaregistrinu í Fornm. s. XII. B. er þessi staðr svo tilfærðr: „Skarð ytra eða stóra, bær á Rángárvöllum, nú eyðijörð"; en þetta á

Á seinni tímum hafa menn skilið svo, sem „skarð" þetta, er krossarnir stóðu í, hafi verið klettskarð á alþíngi, hjá Þíngvöllum, og svo segir í hinni svonefndu „Búðaskipun á alþíngi", eða „alþíngis-catastasis", sem rituð er um 1700, en það mun vafalaust, að þar eigi að skiljast Skarð í Rángárþíngi, annaðhvort Eystra-Skarð (á Rángárvöllum) eða Ytra-Skarð (á Landi)[1].

Um og eptir 1200 bjuggu þeir bræðr í Eystra-Skarði á Rángárvöllum: Eyjólfr hinn óði Þorsteinsson og Hallr prestr bróðir hans. Hallr prestr var auðmaðr mikill, en Eyjólfr ekki, og var hvor þeirra sèr um bú. Þegar Þorgrímr alikarl flýði suðr úr Eyjafirði (haustið 1198), settist hann að á Eystra-Skarði, og fèkk Hallr prestr honum þá bú sitt og var á vist með honum, en það stóð einúngis einn vetr. Eyjólfr átti dóttur sem Álfdís hèt, hana átti Loptr Markússon vestan af Rauðasandi (Sturl. 3, 25; I, 171; 4, 13: II, 22; Rafns s. Sveinbjarnars. kap. 12: Bisk. s. I, 659, 661).

Um 1240 bjó í Skarðinu eystra á Rángárvöllum Guðmundr Þorsteinsson; hann átti Arnbjörgu, dóttur Skeggja Njálssonar í Skógum (Landn. 5, 1: Ísl. s. I, 277, athgr. 4) og Solveigar Jónsdóttur, systur Orms Svínfellings hins ýngra (Sturl. 7, 48: III, 97).

Ár 1270 var máldagi Odda kirkju á Rángárvöllum borinn fram undir dóm í lögrèttu á alþíngi (Árna bisk. s. kap. 6: Bisk. s. I, 685). Sá máldagi er enn til, og eru þar taldar ískyldir í annara manna jarðir, sem kirkjan í Odda eigi; þar er talið að hún eigi: „á Tjaldastöðum gelding gamlan. Í Skarði hinu eystra geldingr gamall ok annar tvævetr"; enn framar eru þar taldir osttollar: „á Tjaldastöðum ostleifr; í Skarði hinu eystra ostleifr". Hversu fornar þessar ískyldir hafi verið vitum vèr nú ekki að tilgreina, en það væri ekki ólíklegt að álykta svo, að þessi kvöð til Odda kirkju hefði ekki verið komin á Eystra-Skarð þegar máldagi sá var gjörðr er hèr fylgir eptir, og væri kvöðin því fyrst komin upp í tíð hinna síðari Oddaverja.

Ár 1300 segja annálar frá hinni miklu elds uppkomu í Heklufelli, sem hófst nálægt miðjum Juli mánuði (11—13. Juli). Þá varð landskjálfti fyrir sunnan land sjöttu nátt jóla um vetrinn eptir, og fèll ofan bær í Skarði eystra (Skarði hinu eystra segir beint Laurent. saga kap. 14: Bisk. s. I, 804). Þar í kirkjunni var mikill málmpottr festr við brúna-ásinn; honum barði svo við ræfr kirkjunnar af skjálftanum, að brant pottinn. Kistur tvær stóðu í andyrinu; þeim barði svo saman af land-

ekki við um Ytra-Skarð, sem er á Landi, og bygð jörð, heldr um Eystra-Skarð.

1) í athugagreininni í Bisk. s. I, 21 hefir þó það mishermzt, að Eystra-Skarð er þar talið „á Landi", þar sem á að vera „á Rángárvöllum".

skjálftanum, að þær brotnuðu í smá mola (Laurent. saga lætr kisturnar hafa verið í Næfrholti).

Ár 1390 segir Flateyjar-annáll og annáll sira Einars Hafliðasonar frá eldsuppkomu í Heklufelli, sem þeir telja hina sjöundu, segja þeir hún hafi verið með svo miklum fádæmum af gný og dunum, að bresti heyrði um allt landið; eyddust tveir bæir, Skarð og Tjaldastaðir, af bruna. Var svo mikið vikrakast, að sló hest til bana, og öskufall svo mikið, að margr fènaðr dó af; færði sig rásin eldsuppkomunnar úr sjálfu fjallinu og í skógana litlu fyrir ofan Skarð, og kom þar upp með svo miklum býsnum, að þar urðu eptir tvö fjöll og gjá í milli. Þessi eldr kom upp á fyrra ári (1389), en slokna̋ði á þessu (1390); urðu þar í nándir hverar og heit vötn.

Máldagabók Wilchins biskups, sem talið er að sè samin 1397, hefir bæði máldaga „Nicholaus kirkju" í Eystra-Skarði, og Michaels kirkju í Skarði (= Ytra-Skarði) og sömuleiðis máldaga Odda kirkju, með sömu ískyldum og áðr voru taldar frá Skarði hinu eystra og Tjaldastöðum. Hafi þessir bæir eyðzt 1390, þá má í fyrsta áliti virðast kynlegt, að máldagarnir sè óbreyttir sem áðr, og er þá tvennt til: annaðhvort er ritað í Wilchinsbók orðrètt eptir hinum eldri máldögum á þessum stöðum, einsog optar, án þess sýnt verði greinilega hvað sè frá tíma Wilchins biskups og hvað sè eldra; eða að bæirnir hafa ekki eyðzt að fullu í eldgosinu 1390, heldr byggzt aptr skömmu síðar.

Í biskupa annálum Jóns prests Egilssonar, sem prentaðir eru í Safninu til sögu Íslands I, 15—136, er sagt, að í tíð Gottsvins biskups í Skálholti (1437—1448) hafi komið eldr upp í áttunda sinni (eða sjöunda sinni eptir tölu sumra) í Heklu, og í þeim eldi hafi tekið af átján bæi á einum morni fram undir Heklu, en norðr undan Keldum, og þar í voru tveir stórir staðir, hèt annar í Skarði eystra, en annar Dagverðarnes. Á hvorum fyrir sig voru 50 hurðir á járnum (Safn I, 36—37). Að vísu ber saga þessi vott um, að hún sè einúngis afbreytíng sögunnar um eldgosið úr Heklu 1390, eptir munnlegum frásögnum, og fyrir þá sök er eðlilegt, að hun væri flutt nokkru nær tímum sögumannsins, en þó gæti menn ályktað af samburði sögu þessarar við Wilchins máldaga og annálana, að í brunanum 1390 hafi eyðzt Tjaldastaðir og Eystra-Skarð, hafi Tjaldastaðir síðan aldrei byggzt, en Eystra-Skarð hafi orðið byggt aptr. En á árabilinu 1437—1448 hafi verið annað Heklugos, og þá hafi eyðzt Eystra-Skarð að fullu og öllu, en Dagverðarnes um hríð, og hafi þó orðið byggt aptr síðan. Í einni annálabók nýrri, sem er samsteypa, er skýrt frá eldgosi 1436, en orðrètt að mestu eins og í annálum Jóns prests Egilssonar. Mun það því víst, að sá höfundr hefir einúngis tekið söguna eptir Jóni Egilssyni, en búið til ártal sjálfr, til að koma henni niðr á tiltekið ár.

Þess má enn geta, að í máldagabók Gísla biskups Jónssonar

1575 stendr máldagi kirkju í Eystra-Skarði, en ekki kirkjunnar á Ytra-Skarði; en að efninu til er sá máldagi Eystra-Skarðs bersýnilega af sama tægi eins og máldagar Ytra-Skarðs, eða Skarðs kirkju á Landi, og er því án efa svo varið, að menn hafa þá ekki vitað betr, en að Skarð á Landi væri hið forna Skarð hið eystra, og mega menn nú ekki láta það villa sig.

Um Skarð hið ytra vitum vèr það einna fyrst, að það muni hafa verið eign Oddaverja. Nálægt Ytra-Skarði var viðreign þeirra Þorláks biskups hins helga og Jóns Loptssonar (Þorláks s. hin ýngri kap. 24: Bisk. s. I, 291, sbr. Safn til s. Ísl. I, 31). Þegar Páll, sonr Jóns Loptssonar, fór frá Odda, gjörði hann bú í Skarði (Páls s. kap. 1: Bisk. s. I, 127), og það er vottað á fleirum stöðum en einum, að hann hafi búið í Ytra-Skarði[1] (Þorláks s. hin ýngri, kap. 19: Bisk. s. I, 282; Guðm. s. kap. 51: Bisk. s. I, 487; Sturl. 3, 21: I, 226). Þegar Páll fór utan til biskupsvígslu (1194) varðveitti Herdís kona hans búið í Skarði, og þar hèldu þau búi sínu eins eptir að Páll biskup var kominn í Skálaholt og hún með honum. Vorið 1207 eptir páska fór Herdís í Skarð til bús þeirra, og drukknaði í Þjórsá á leiðinni útyfir (17. Mai). Eptir andlát Páls biskups bjó Loptr sonr hans í Skarði hinu ytra, þartil 1223, að hann varð að víkja, eptir víg Bjarnar Þorvaldssonar á Breiðabólstað (1221), og fór hann þá vestr í Hítardal. Eptir það keypti Andreas, sonr Sæmundr Jónssonar í Odda (Sæmundr † 7. Novbr. 1222), Skarð af Katli Þorlákssyni, móðurfrænda Lopts, og munu síðan ættíngjar Oddaverja hafa búið í Skarði lengi fram eptir; í Gyrðs máldaga og Wilchins er nefndr Sæmundr bóndi, sem hafi átt jörðina í Skarði, og lýsir nafnið því, að sá Sæmundr muni hafa verið af ætt Oddaverja. Um 1400 og þar eptir bjó Krákr hinn gamli í Skarði á Landi, hann var samtíða Lopti hinum ríka, en ekki vitum vèr nú, hverrar ættar hann var; sonr hans Eiríkr átti dóttur sem Íngibjörg hèt, hana átti Jón, sonr Ólafs Loptssonar hins ríka, og var þeirra son Torfi í Klofa, sem var uppi seinast á 15du öld, og átti opt í ertíngum við Stephán biskup (Safn I, 115, sbr. I, 52).

Þegar tíðsetja skyldi máldaga þenna, þótti líklegast að telja hann til daga Páls biskups, þareð hann þótti ekki svo fornlegr, að hann yrði með vissu heimfærðr til daga Þorláks biskups hins helga, og þó fornlegri en svo, að hann yrði eignaðr hinum síðari biskupum.

Máldaginn er prentaðr hèr eptir máldagabókinni D 12 í handritasafni Steingríms biskups í stiptisbókhlöðunni í Reykja-

1) sira Jón Halldórsson í Hítardal segir í Biskupa æfum (æfi Páls biskups), að Páll hafi búið í Eystra-Skarði: á sama bæ, segir hann, sem eyddist í eldgosinu 1390; en þetta er misskilningr einn, og móthverft því sem sögurnar segja.

vík, bl. 26, ok er handriti þessu lýst áðr (Nr. 24 og 55, bls. 167—169, 264).

---

Skarð hit eystra.

Sa er kirkiu maldagi j scarði hinu eystra. at kirkia a halft land a scarði. oc halfan siaunda tog asauðar oc eina ku. kirkia a til fiogurra tyga hundraða alna vaðmala j bunaði sinum j tioldum oc messu fötum oc klukkum oc kalec. oc ollu hennar skruði. þvi sem þar þarf at hafa.

Pund vax j oðru lagi oc var þat eigi virt.

Su er þar skyld a. at þar skal vera prestr oc diacn.

Sa er j skarði byr skal abyrgiast kirkiu oc hennar fe eptir sliku sem biskup vill.

---

## 96. [Vorið 1211].

Bréf Þóris erkibiskups í Niðarósi til Arnórs Tumasonar og fimm annara höfðíngja á Íslandi, að hann ávítar þá harðlega fyrir framferðir þeirra við Guðmund biskup Arason á Hólum, og stefnir þeim að sumri á sinn fund.

Þetta bréf er hið fyrsta utanstefníngar bréf til Íslands, og þykir því tilhlýðilegt að segja nokkuð frá aðdraganda þess.

Eptir að Guðmundr biskup Arason var vígðr til biskups (13. April 1203) af Eireki erkibiskupi, fór hann út til Íslands um sumarið, og kom út í Austfjörðum. Síðan fór hann heim til stóls síns að Hólum, og var þar þá fyrir ráðum Sigurðr Ormsson og Þurfðr kona hans. Þetta hèlzt eitt ár; en vorið eptir (1204) fèkk biskup Sigurð til að fara norðr að Múnkaþverá, og taka þar við klaustrráðum, því staðrinn á Þverá var þá að mestu fallinn að húsum. Biskup vann tvennt með þessu, bæði að losast við ráð Sigurðar á Hólum, og að fá auði hans nokkuð að starfa, en Sigurðr elskaði staðinn á Þverá, því Ormr faðir hans hafði þar verið múnkr á seinustu árum æfi sinnar, og andazt þar (1191), og nú var frændi hans Ormr Skeggjason ábóti á staðnum († 1212). Sigurðr Ormsson fór, og rètti við staðinn að Þverá; en síðan fór hann að Möðruvöllum í Hörgárdal og bjó þar lengi, þar til hann í elli sinni gekk í klaustr á Þverá, eins og faðir hans, og endaði þar sína æfi († 1235). Tvö ár sat Guðmundr biskup að stóli sínum svo að

allt gekk sæmilega milli hans og veraldlegra höfðíngja, en þegar deilurnar hófust fyrst urðu þær snarpari en nokkurntíma áðr, því nú hófst fyrir alvöru orustan milli hins andlega og veraldlega valds á Íslandi sjálfu, og milli hins útlenda og innlenda valds á aðra hönd, sem áðr hafði rètt að eins gjört vart við sig á dögum Þorláks biskups hins helga, en dregizt undan aptr fyrir öfluga mótstöðu Jóns Loptssonar í Odda, fyrir hóglyndi þeirra Brands biskups og Páls, og fyrir því, að Eiríkr erkibiskup átti fullt í fángi í Noregi og hafði verið landflótta fyrir Sverri í tíu ár. Fyrsta málið, sem gjörði augljóst sundrlyndi Guðmundar biskups og Kolbeins Tumasonar, er þá var mestr höfðíngi fyrir norðan land, var um dómsvaldið yfir prestum: Kolbeinn vildi hafa rètt á að dæma presta og klerklegrar stèttar menn í öllum málum sem undir landslög heyrðu, en biskup vildi láta presta og klerka alla vera á sínum dómi, en neitaði að nokkur veraldlegr valdsmaðr mætti dæma þá. Þetta dómsvald, eða takmörkin milli hins veraldlega og hins andlega valds, hefir verið ágreiníngsatriðið frá því að páfaveldið hófst fyrir alvöru og ávallt síðan. Þetta stríð var á Íslandi upphaf og undirrót til, að landið misti frið og frelsi. Eitt ár stóðu deilur biskups og Kolbeins, þartil biskup bannsetti hann (haustið 1206). Þá gengu vinir á milli og urðu þeir þá sættir, og þó með því móti, að Kolbeinn játaði bæði skriptum og fègjöldum á biskups dóm, og gjörði biskup um sumarið eptir á alþíngi (1207) tólf hundruð vadmála á hendr Kolbeini. Þeir Páll biskup og Sæmundr í Odda voru í ráði um þessa gjörð. En um sama leyti hófst deila milli biskups og þeirra höfðíngjanna í Eyjafirði, Sigurðar Ormssonar og Halls Kleppjárnssonar, og bannfærði biskup þá jafnskjótt. Ekki beið lengi þartil Kolbeinn Tumason fór sömu leið, því hann galt ekki nema hálft fè það, er biskup gjörði á hendr honum að greiða, og samneytti Sigurði og Halli, þó þeir væri í banni. Biskup bannfærði hann þá og sjálfan í annað sinn (Decbr. 1207). Um vorið eptir (1208) veitti Kolbeinn heimsókn á staðinn á Hólum, til að stefna mönnum biskups til Hegraness þíngs; var þá biskup með mönnum sínum uppi á húsum, og var skrýddr, og las þar upp bannsetnínguna á Norrænu, en þó stillti Kolbeinn sig, svo ekki varð af bardaga. Á vorþíngi hafði Kolbeinn mikið lið, og þá kom Þorvaldr Gizurarson að sunnan til móts við hann. Þá var við sjálft að veitt yrði aðför biskupi, en fyrir milligaungu manna urðu þeir sáttir með því móti, að öll mál skyldu vera „undir erkibiskupi". Það er hið fyrsta sinn, sem vèr finnum beint skotið málum á erkibiskups dóm, og er þar með beindr sá vegr, að kjósa heldr að eiga virðíng sína og rèttindi undir útlendum höfðíngjum, en að styrkja rèttinn í landinu með afli og rèttvísi landsmanna sjálfra. Vèr vitum nú ekki með fullri vissu, hver fyrstr hafi stúngið uppá að skjóta málum undir erkibiskups dóm, en eigi er ólíklegt að það hafi verið Þorvaldr Gizurarson, og hafi það verið þó í fyrstu runnið frá Páli biskupi.

Erkibiskup hafði ritað honum, að hann skyldi styrkja Guðmund biskup það hann mætti, en ofsi Guðmundar og harka var meiri en svo, að Páll biskup gæti fylgt honum, því „hann (Guðmundr) virði hvorki mennina nè landslögin, en forboðaði eða bannsetti hvern þeirra, er nokkuð vildu móti hans vilja gjöra" (Páls s. kap. 15: Bisk. s. I, 141). En þá gafst Páli biskupi færi á að sýnast hlýðinn erkibiskupi og að smokka sèr úr málinu, og jafn framt hafði hann von um að stilla til friðar, ef málið væri lagt á dóm erkibiskups. En sætt þessi stóð ekki lengi, því sama vorið kom upp enn mál um sekt á hendr klerki nokkrum, og lèt Kolbeinn dæma hann, en biskup forboðaði Kolbein og alla þá sem í dómi höfðu verið. Kolbeinn og Sigurðr Ormsson gáfu þessu ekki gaum, og tóku upp fè klerksins, en klerkr hafði þá handsalað fè sitt biskupi, og biskup bannsetr bæði Kolbein og Sigurð. Þetta sumar fór biskup ekki til alþíngis, en þeir höfðíngjarnir lètu dæma til sektar sex af biskupsmönnum, en biskup mat sekt þá einkis, og hèlt þá sem frjálsa menn; hinir höfðu og eins bannsetníng biskups að engu, og gengu í kirkjur sem áðr, og jafnvel klerkar samneyttu þeim. Biskup fór um sumarið norðr í Þíngeyjar þíng, en þegar hann kom norðan yfir og í Eyjafjörð, urðu þar óspektir af mönnum hans, og voru rændir Austmenn, sem biskup kallaði í banni fyrir samneytu við bannsetta menn, en sjálfr tók hann helga dóma frá Möðruvöllum, því þá var Sigurðr Ormsson kominn þángað, og vildi biskup ekki láta bannsettan mann varðveita heilaga hluti. Allar þessar framferðir kölluðu bændr hernað og rán, og safna þeir nú flokkum höfðíngjar Eyfirðínga, Sigurðr Ormsson, Hallr Kleppjárnsson og Arnór Tumason, og í annan stað Kolbeinn, og ætla að biskupi. Kolbeinn var fyrstr, og reið heim að Hólum með fjögr hundruð manna og settist um staðinn; var þá leitað um sættir, en Kolbeinn vildi þá ekki annað, en að þeir sem sekir voru væri seldir honum á vald óskorað; það vildi biskup ekki, nema þeim væri friði heitið. Þá var tekið það ráð af hendi biskupsmanna, að biskup skyldi ríða af staðnum með sína menn, og fór hann af stað með þrjú hundruð manna; var það mart klerkar, lausíngjar og förufólk. Þegar biskup reið af stað segir prestr einn við Kolbein: „Þar ríðr biskup á brott með virðíng ykkar beggja". Þetta þoldi Kolbeinn ekki, og skipaði að fara í veg fyrir biskup og fylkir liði. Biskup vildi víkja úr vegi, en þegar flokkunum lenti saman varð sá bardagi milli þeirra, sem kallaðr er Víðinesbardagi (8. Septbr. 1208). Kolbeinn var fjölmennari, en í bardaganum fèkk hann steinshögg í ennið, og fèll við, og varð það hans bani. Þegar hann fèll varð lið hans allt á sundrúngu, flýði sumt, en sumt gekk til handa biskupi; en í sama bili komu flokkar Eyfirðínga, sem ætluðu til liðs við Kolbein, og þegar þeir sjá hvað orðið er snúa þeir undan, en aðra nótt eptir leyndust þeir Sigurðr Ormsson og Arnór Tumason fjórir saman úr flokkinum, og flýðu suðr á land. Hallr Kleppjárnsson gekk þá til sætta og þeir Eyfirðíngar, en Þorvaldr

Gizurarson, sem var kominn norðr á Kjöl með flokk sinn til liðs við Kolbein, sneri þar aptr, þegar hann heyrði hvað orðið var.

Guðmundr biskup hafði nú unnið mikinn og óvæntan sigr fyrir sakir ráðleysu og slysni, ósamheldni og ónytjúngskapar mótstöðumanna sinna; bauð hann nú sjálfkrafa erkibiskups dóm á öllum þessum málum, enda þurfti hann ekki að draga í efa, hvert álit erkibiskups væri á aðalundirstöðu málsins; en jafnframt sparaði hann ekki að leggja gjöld á þá, er farið höfðu til Hóla með Kolbeini; varð nú illr kurr í Skagfirðíngum, og margir stukku burt og vestr í Dali til Sighvats Sturlusonar, mágs Kolbeins, og kærðu mál sín fyrir honum. Nú fóru boð um hèruð, og ætluðu höfðíngjar þegar á hendr Guðmundi biskupi með lið, en Páll biskup fèkk aptrað því í fyrstu, með því hann vænti að Guðmundr biskup mundi gæta hófs í ágengni sinni. En þegar það var ekki, sendi Páll biskup Björn kapellan sinn norðr til Guðmundar biskups, til að letja hann vandræða, en Guðmundr biskup virti þetta að engu, og taldi Pál biskup vera í andskotaflokki sínum. Varð því engi linan eða sætt, heldr æ frekari ágángr biskupsmanna, og þegar voraði drógu höfðíngjar flokka saman og fóru norðr; þar var fyrirmaðr Þorvaldr Gizurarson í Hruna, Arnór Tumason úr Eyjafirði, Jón Sigmundarson frá Svínafelli, Sighvatr Sturluson frá Hjarðarholti í Dölum, Snorri Sturluson bróðir hans úr Reykjaholti, Þórðr Böðvarsson frá Görðum á Akranesi, móðurbróðir þeirra Sturlusona, Magnús Guðmundarson gríss frá Þíngvöllum, sem síðan var kosinn til biskups, og Þorvaldr Snorrason úr Vatnsfirði. Þessir allir veittu heimsókn að Hólum um vorið eptir (1209) með sjö hundruð manna, varð þar bardagi og varð lítil mótstaða af hendi biskups manna, því liðsmunr var mikill, en þó þeir setti biskupi tvo kosti þá lèt hann ekki undan að heldr, þó hann gæti með því frelsað líf manna sinna. Þá bauð Snorri Sturluson honum heim með sèr, og það þág hann og fór sama dag á burt með Snorra; en þegar þeir voru farnir gengu þeir Arnór Tumason að þeim er í kirkju voru flúnir, og voru þeir þá teygðir þaðan og sumir drepnir, þeir sem mest voru risnar sakir af við Guðmund biskup. Síðan settust þeir Arnór Tumason og Sigurðr Ormsson á staðinn, og kúguðu nú þá er biskupi höfðu fylgt, ekki minna en hann hafði áðr kúgað mótstöðumenn sína. Þeir lètu nu einnig presta taka alla menn úr banni, og fremja alla þjónustu einsog áðr.

Guðmundr biskup var um vetrinn í Reykjaholti með Snorra, en þág ekki heimboð Páls biskups til Skálholts, því hann var honum reiðr fyrir fylgisleysi við sig; en um vorið eptir (1210) fór hann norðr til Hrútafjarðar, og ætlaði á skipum norðr í Skagafjörð, eða allt til Austfjarða. Þeir Arnór drógu þá lið saman, og lètu gæta hafna, þar sem biskup kynni að leuda; en þegar biskup heyrir liðsafnað, snýr hann aptr og fer vestr til Steingrímsfjarðar. Þá heyrði hann, að prestar höfðu ekki sætt banni því, er hann hafði lagt fyrir, að ekki mætti sýngja

tíðir í Hóla kirkju, og ekki grafa þar lík, þareð kirkjan væri saurguð af manndrápum og af grepti bannsettra manna; höfðu menn hlýdt því fyrst, og voru tíðir súngnar í tjaldi í kirkjugarðinum, en síðan höfðu þeir Arnór og Sigurðr þraungvað prestum til að sýngja eins og áðr. Biskup bannsetti alla þá presta, sem höfðu súngið í óleyfi hans og átt samneyti við bannsetta menn. Um vetrinn eptir var Guðmundr biskup á Stað í Steingrímsfirði, en prestar fóru sínu fram um þjónustugjörð hvað sem hann sagði, og var Gunnlaugr múnkr á þíngeyrum í ráði með þeim um það efni, því hann þótti þá einna merkilegastr fyrir norðan land af klerkum.

Um vorið 1211 var lagðr sættarfundr með Guðmundi biskupi og Arnóri Tumasyni, en sætt gekk eigi saman, því Arnór vildi að biskup skyldi ekki stjórna öðru á Hólum en kirkju og tíðum. Er það merkilegt að sjá, hversu nálægt þetta fer kröfum margra manna á vorum dögum um kirkjustjórn og vald klerka. Þá fór biskup að vestan með tíunda mann, og kom á óvart til Halls Kleppjárnssonar í Eyjafjörð, og tók hann vel við biskupi, því þeir voru orðnir sáttir áðr; en hinir drógu flokka saman jafnskjótt og þeir heyrðu komu biskups; fór þá biskup undan og norðr, og saung í tjöldum, en ekki í kirkjum, meðan höfuðkirkjan á Hólum var óhreinsuð.

Þá um sumarið kom út brèf Þóris erkibiskups, það er hèr fylgir eptir; skulum vèr nú fara nokkrum orðum um það.

Brèfið sjálft stendr ekki í hinni elztu sögu Guðmundar biskups, en þess er þó getið þar með þessum orðum: „þá koma út brèf Þóris erkibiskups, ok voro þar á utanstefníngar, ok tekit hart á úvinum biskups". Hèr er orðað svo, sem fleiri en eitt brèf hafi komið frá erkibiskupi til Íslands um þessi mál vorið 1211, og er það í sjálfu sèr líklegt, að rituð hafi verið brèf til beggja biskupanna sèr í lagi, auk utanstefníngarbrèfsins. Brèf þetta kemr fyrst fram í Sturlúngu, og mætti geta til, að Sturla Þórðarson hefði haft það, eða afskript af því, frá Þórði föður sínum, sem var mesti vinr Guðmundar biskups, eða og frá þeim Sturlúngum, frændum sínum. Síðan er brèfið ritað heilt í miðsögu Guðmundar biskups, og í þeirri sögu hans sem Arngrímr ábóti ritaði, og vitum vèr nú ekki greinilega hvernig á þeim afskriptum brèfsins hefir staðið.

Þegar vèr gætum að nöfnum þeim, sem í brèfinu standa, þá finnum vèr þar þó ekki nefnda alla þá höfðíngja, sem voru í atför við Guðmund biskup. Þar eru ekki nefndir Sighvatr Sturluson[1], Þórðr Böðvarsson, Magnús Guðmundarson, Þorvaldr

[1]) Sighvatr Sturluson er ekki nefndr í neinni af þeim þremr afskriptum sem á skinnbókum eru, en nafn hans er sett inn í brèfið í pappírshandritum af Sturlúngu, og þannig er það komið í kirkjusögu Finns biskups og í Noregssögu Munchs. Sama er að segja um nafn Þorvalds Vatnsfirðíngs, Snorrasonar, sem komið er inn í sum pappírshandrit, og þaðan í

Vatnsfirðíngr. Þeir Arnór og Sigurðr Ormsson eru nefndir fyrstir, og er það eðlilegt, því þeir voru það sem settust á staðinn á Hólum og skipuðu þar öllu sem þeir ætti, en Þorvaldr Gizurarson, sem var fyrirliði fyrir atförinni sjálfri (1209), er hèr hinn þriði í röðinni. Hversvegna Jón Sigmundarson sè nefndr til fremr en hinir aðrir, sem ekki eru nefndir, vitum vèr nú ekki. Hallr Kleppjárnsson hafði verið í öllum flokkadráttum móti biskupi, og sætt þeirra hefir orðið seinna en svo, að hún hafi verið orðin erkibiskupi kunnug áðr brèfið væri ritað. Þar sem Snorri Sturluson er nefndr, þá sannar það, að hann muni ekki hafa blíðkað mjög biskupinn eða erkibiskup með heimboði sínu við Guðmund biskup, eða með því að hýsa hann heilt ár, heldr muni boð þetta hafa verið tekið sem fullkomið varðhald, sem það og mun hafa verið í raun og veru.

Svo er sagt, að Arnór Tumason og þeir aðrir hafi orðið kyrrari við brèf erkibiskups, en enginn vottr er til að þeir höfðíngjarnir hafi gegnt utanstefníngum hans, nema annaðhvort dræmt eða ekki, jafnvel þó sumir hefði sjálfir játað gjörð erkibiskups á málunum. Jón Sigmundarson fór utan 1211 um sumarið, og er líklegt að hann hafi farið eptir brèfi erkibiskups; hann andaðist árið eptir (1212), líklega í Noregi. Arnór Tumason lýsti utanferð sinni af málum þeirra Guðmundar biskups 1212, og eptir því sem beztu annálar segja fór hann utan það ár, en eptir Guðmundar sögu hinni elztu sýnist sem hann hafi ekki farið fyr en 1213. Þessir tveir höfðíngjar voru þeir einu, sem gáfu gaum utanstefníng erkibiskups. Hallr Kleppjárnsson var orðinn sáttr við biskup áðr en brèfið kom út, og genginn í flokk með honum, og fór hann ekki utan, en hann var drepinn á jólaföstunni 1212. Þorvaldr Gizurarson fór utan 1213, með Teiti Bessasyni, systursyni sínum, sem hafði verið kosinn til biskups í Skálholti sumarið áðr; er það ekki ólíklegt, að Þorvaldr hafi viljað vinna þar mart í einu höggi, svosem að fylgja frænda sínum, en þykjast um leið gegna brèfi erkibiskups og jafnframt njóta biskupsefnis til að vera í milligaungu við erkibiskup og skýra honum frá öllum málstað. Snorri Sturluson hreyfði sig hvergi, og fór ekki utan fyr en 1218, þegar önnur hríðin gekk í garð móti Guðmundi biskupi, og hefir Snorri þá líklega ekki viljað verða til að hýsa hann í annað sinn.

Í brèfi erkibiskups er höfðíngjum skipað að fá biskupi svo mikið fè af staðarins eign, að hann megi hneisulaust fara utan og út aptr. Um utanferð hans leikr þó á nokkrum vafa, því beztu annálar segja, að Arnór Tumason hafi farið utan 1212, en biskup ekki fyr en 1214; þar á móti ber öllum sögum saman um það, að þeir hafi ætlað utan hið sama sumar báðir, Arnór og Guðmundr biskup, og hafi Arnór komið fram ferð sinni, en

---

kirkjusögu Finns biskups. Elztu sögurnar segja beint, að sex einir hafi verið utan stefndir.

biskup orðið tvisvar aptrreka, og farið utan vetri síðar. Þetta mun satt vera, hvort sem menn setja utanferðirnar 1212 og 1213, eða 1213 og 1214. Hið síðara hefir Guðmundar saga hin elzta og Sturlúnga saga, og segja þær beint, að Guðmundr biskup hafi verið hinn fyrsta vetr (1214—15) í Vík austr, og lengstum hjá Nikulási biskupi í Oslo. Eptir því er þá vafasamt, hvort Guðmundr biskup hafi hitt Þóri erkibiskup lifanda, eða ekki; en þeir Arnór og Þorvaldr Gizurarson voru þá án efa komnir af stað aptr út til Íslands þegar Guðmundr kom til Noregs, hefir því ekkert orðið úr málum biskups í þetta sinn, því kórsbræðr í Niðarósi höfðu þá enn ekki fengið það vald, sem þeir sýndu opt á fjórtándu öld og þar eptir, til að úrskurða í erkibiskups stað, en án efa mun Guðmundr biskup hafa beðið málaloka þegar næsti erkibiskup kæmi, og því var hann í Noregi heil fjögur ár í þetta sinn (1214—1218). Eptir Þóri erkibiskup kom Guttormr, var hann kosinn 1215, og kom til stóls síns 1216. Hjá honum mun Guðmundr biskup hafa fengið þá ályktan, að hann hafi verið ómaklega rekinn af stóli, og því hefir hann farið út aptr til stóls síns 1218, eins og ekkert hefði í skorizt, en það stóð ekki lengi, sem sögurnar segja frá.

Í hinum síðari sögum Guðmundar biskups er lángr þáttr um viðrtal hans við Þóri erkibiskup, er þar með atvikum sagt að þeir hafi verið samtíða einn vetr, og jafnframt orðað svo, sem Þórir hafi verið erkibiskup allan þann tíma sem Guðmundr biskup var í Noregi (Bisk. s. I, 573—583). En nú er það víst, að Þórir erkibiskup andaðist 8. August 1214. Þessa hefir og söguritarinn gætt að nokkru leyti, og fyrir því lætr hann Arnór Tumason fara utan 1212, og Guðmund biskup 1213; verðr þá ekkert til fyrirstöðu að því leyti, að þeir hefði verið samtíða einn vetr Þórir erkibiskup og Guðmundr biskup, en það er móthverft því sem elzta sagan segir skýlaust, að Guðmundr „var hinn fyrsta vetr í Vík austr", og því ekki í Niðarósi, en þetta er og ný styrkíng þess, að Þórir erkibiskup hafi annaðhvort verið dauðr áðr en Guðmundr biskup kom til Noregs, eða að hann hafi að minnsta kosti ekki verið á lífi þann vetr sem Guðmundr var fyrstan í Noregi, eða með öðrum orðum, að Guðmundr hafi komið til Noregs 1214 um sumarið eða haustið. Þáttrinn um viðtal Þóris erkibiskups og Guðmundar ber og ljós merki þess, að hann sè „diktaðr" af einhverjum klerki, sem hefir viljað leiða greinilega fyrir sjónir það sem hann hefir heyrt eða ímyndað sèr um kenníngar og vígslur Guðmundar biskups, og aðrar ástæður hans; er ekkert líklegra en að þetta sè samsett á tímum Auðunnar biskups eða eptir skipan hans, um það mund sem bein Guðmundar biskups voru tekin úr jörðu (1315), og dýrkan hans jókst á ný.

Flestir eru samdóma um að heimfæra þetta brèf Þóris erkibiskups til ársins 1211. Svo er talið í Guðmundar sögu hinni elztu, í Sturlúngu og í Annálum; þannig er og talið í brèfa-

registrinu aptan við sögu Finns biskups, en í sjálfri sögunni (Hist. Eccl. Island. I, 228) er það tíðfært til 1212, og því fylgir Keyser í hinni norsku kirkjusögu (Den norske Kirkes Historie I, 335). Þetta ætla eg þó ekki vera á nægum ástæðum byggt, og hygg eg vafalaust að 1211 sè hið rètta ártal brèfsins, og svo hefir einnig Munch í sinni sögu.

Þrjár fornar afskriptir af brèfinu eru komnar til vor, er ein í Sturlúngu (A), önnur í miðsögu Guðmundar biskups (B), og hin þriðja í sögu Guðmundar biskups eptir Arngrím ábóta (C).

---

A.

Þessi afskript brèfsins er tekin eptir hinni ágætu skinnbók af Sturlúngu, sem eg hefi áðr nefnt (sjá Nr. 87 D.) og talið vera ritaða hèrumbil 1330. Sú skinnbók er, sem áðr er sagt, í safni Árna Magnússonar, Nr. 122 A., og stendr brèfið ritað á bls. 82–83 í skinnbókinni. Í útgáfunni af Sturlúngu er það ritað í 4. þætti, kap. 8 (II, 14—16), og get eg eigi orðamunar þaðan nema að eins á helztu stöðum, með merkinu *St.* Sama er að segja um þá afskript brèfsins, sem finnst í kirkjusögu Finns biskups (Hist. Eccl. Island. I, 255—257, og er orðamunr þaðan merktr *F.*

---

Þorir ercki biskvp sendir hormvngar orð oc heilræþa[1]. Arnori tvma s[yni]. Sigvrði. orms syni. Þorvalldi G[izvrar] s[yni]. Joni Sigmvndar s[yni]. halli klepp[iarns] s[yni].[2] Snora[3] S[tvrlv] s[yni].

Sanligt[4] þickir oss. At byria bref vart oc eyrinði. af hormvng oc hæilræðvm. þviat sva sem ver eigvm at fagna yðrvm fagnaði Sva eigvm mer[5] oc at vfagna. yðrvm vfagnaði. [eptir þvi segir pall postvli. „Gaudete cum gaudentibus. et flete cvm flentibus"[6]. fagna þeirra fagnaði er fagnað gera gvþi. En grati[7] hina er [við] hann gremiaz. En eptir gvðs orþvm sialfs

1) heilræði, *St, F.*

2) Þorvaldi Snorrasyni, *b. v. F*, *og St. telr nokkur handrit önnur, sem svo hafa.*

3) Sighvati ok Snorra Sturlusonum, *St, F.*

4) sannliga, *F;* sæmiligt, *St.*

5) mer = vèr, *er norsk mállýzka, sem kemr fram í brèfinu.*

6) *frá* [ þviat sýsla vor ok Páll (Pètr, *F*) postuli skylda (skipa, *F*) oss at, *St, F.*

7) gráta, *St, F.*

þa gremz sa við gvð. er við hans eyrindreka gremz. þat er biskvpa oc presta. hann s[agði] sinvm postvlvm. „qui uos audit me audit qui uos spernit me spernit.". Sa er yðr hlyðir hann hlyðir mer. En sa er yðr fyri litr. hann fyri litr mig. saumv orð taca til var. þvi at þeir erv vorir[1] feðr. en vær þeirra synir. sem propheta segir. [„Pro patribus nati sunt[2] filii"[3]. þa keNing keNvm ver er þeir lærðv[4] oss. oc með [sa*m*v a*m*bon[5] ef ver flitiom vel. með sa*m*vm[6] giolldvm er ver f[lytivm] illa. halæitr er var vanði. ef ver þegiom eða [hegnvm eigi glæpa. þviat ef ver gerv[m] þat[7]. þa er tynd sal ins synðvga. en gvð hæimtir hana af oss. oc er vlicr kostr. at falla i nacqvara græmð[8] við mennina hvegi mattvgir er þeir erv. eða grimmir. helldr [en gremiaz við gvþ[9]. En heþan spvrst hormvligr grimlæikr. oc fatiðr. Gvði. oc ollvm gvðs logvm gagnstaðligr er gvþmvndi. biskvpi. er vęitr. ef sa er voxtr a er margir segia. at vlærðir menn hafa hann fyri dæmþan. þar sem engi maðr a a honom dom nema pafiN oc ver af hans henði. oc hann nv settr af sinv biskvps riki. hætt af morgvm salvm til abyrgða. menn af honom drepnir. oc noccor prestr i þeirri tolv. En þann vanða a engi at leysa nema paviN si[a]lfr. ꜳðrir oc a moti teknir.

Nv er þar comit. at þessor mein verða alldri með orðsendingvm sloct. ver hofom þess freistað. oc hafa yfir bætr frestaz oc velldr þvi vansi trvar[10]. of kapp[11] oc þralyndi. þeirra er i illv[12] þralynðaz. En þa er vær læitom við at ransaka hvaþan þessar sacir risa. eða. hverir með kapp læita við. helldr at næra þessi mein en slocva. þa visa svmir sokom i eiN stað. svmir i annan. Oc siam ver fyri þvi ecki annat helldr[13] i þessv mali. en. biskvp. sæki a [vorn] fvnd. oc þeir með honom er her ero anefndir.

þat bioðvm[14] ver [oc vndir lyðni[15] gvði til þacka[16]. heilagri cristni til frelsis. synðvm yðrvm til la*v*snar. oc ollvm landz lyþ til þvrptar. at þer sækit at svmri a varn fvnð. En mer

1) þannig skinnb. 2) tibi, *b. v. St.* 3) frá [ fallið úr í *F.*
4) letu, *St, F.* 5) *frá* [ sönnum umbunum, *F.* 6) sönnum, *F.*
7) *frá* [ heftum ei glæpa þeirra er gjör vitum, *F.* 8) grimd, *St, F.*
9) frá [ fallið úr í *F.* 10) sumra, *St.* 11) ofskap, *St.*
12) öllu, *St.* 13) heilt, *St.* 14) boðum, *St.*
15) *frá* [ yðr til í hlýðni, *St.* 16) *frá* [ ok yðr í hlýðni við guð, *F.*

skolvm alla stvnd a leggia. at vsæt falli. Satt risi. salor hialpiz. oc lang æʀ friþr standi i þessv lanði. [Ef þetta rað er æigi fyri liðit[1].

En þer. Arnor oc avþrom þeim er þv hefir yfir [gvðs æigv oc biskvps[2] setta. þa bioðvm vær þeim af gvðs alfv fastliga i lyðni at þer fait honom [af staðarins eign sva mikit goz[3]. At hann megi sæmiliga vtan fara. oc hvarki kenni hann neisv i vtan ferð ne aptr hvarfi. En ef þer afrækiz[4] þetta vart boð. þa vitiþ þat fyri vist at yðvarr vandi skal. avkaz marfalliga.[5]

## B.

Eptir miðsögu Guðmundar biskups, sem rituð er á skinnbók í safni Árna Magnússonar Nr. 657 C. í 4to, bls. 73—74. Bókin mun vera rituð um 1350 (sbr. Nr. 87 B. hèr fyrir framan, bls. 323). Eptir þessari skinnbók er brèfið prentað í Biskupasögum I, 571—573.

Þorer erkibiskvp sender hormvngar orð ok heilræða. Ar[nore]. t[uma] s[yni]. ok S[igvrði] or[ms] s[yni]. Þorvalldi gizsvrar syni. Joni Sigmvndar syni. halli kleppi[arns]. syni. Snoʀa stvllv syni.

sanligt þicker oss at byria vart eyrendi af hormvng ok heilræðvm þviat sva sem ver eigvm at fagna yðrvm fagnaði, sva eigv ver at ofagna ok yðrvm ofagnaði þviat sysla vor ok petr[6] postvli skylldar oss „Gavdere cum gaudentibus et flere cum flentibus". fagna þeirra fagnaði er fagnað gera gvði eñ grata hina er grimaz við [hann]. Eñ epter gvðs orðvm grimaz sa við hann er við hans eyrendreka grimiz þat er við

1) = fyrir litið. — *Frá* [ Til langra meina man standa, eptir því er guð kennir oss, ef þetta ráð er fyrirlitið, *St*, *F*.

2) *frá* [ guðs eign ok biskupsstól, *St*, *F*.

3) *frá* [ sva mikit af staðarins fè, *St*, *F*.

4) afrækit, *St*, *F*.

5) = margfaldliga.

6) *þannig skinnbókin, en rèttara er sem A hefir:* Páll postuli.

biskvpa ok presta. [hann petvr postvli seger sva i sinvm pisli[1]. „Quí vos ædit me ædit et qui vos spernit me spernit"[2]. hverr er yðr heyrir mig heyrir hann hverr er yðr hafnar mer hafnar hann". þær særmv orð koma til[3] vor þviat þeir vorv vorir feðr eñ ver þeirra synir sem spamaðrinn segir: "fratribvs(!) tvis nati sunt tibi filij." þa kenning kennv ver at þeir letv oss með somv aminni[n]g lærða ef ver flytivm vel með sænnvm rokvm giolldvm ok ef ver flytivm illa. þa er voʀ haɢr hætligr ef ver þegivm ok hefɴvm eigi glæpa. þviat ef þat gerv ver þa er tynd sal þess ens syndvga. eñ gvð heimter hana af oss ok er olickr kostr at falla i nockvra grimd við menn hversv mattvger sem þeir er[v]. eða harðer. helldr eñ grimaz við gvð. Eñ heðan spyrzt hormvligr grimleikr ok fatiðr. Gvði ok ollvm gvðs logvm. er G[vðmvndi] biskvp[i] er vętr ef sa voxtr er a sem menn segia at olærðer menn hafi hann fyri dæmdan þar sem eingi maðr a a honvm dom nema pafinn[4] ok ver af hans hendi ok er hann nv settr af sinv biskvp ʀiki. hætt morgvm salvm til abyrðar. menn af honvm tekner ok nockvrir prestar af þeirra tolv. Eñ þenna vanða ma eingi leysa nema pafinn[5] sialfr. nv er þar komit at þessi mein verða alldri með orðsendingvm sloct. Vær hofvm þess freistat. eñ yfir bætr hafa frestaz ok velldr þvi va[n]si trvar ok kapp þeirra er j illv þralyndaz. Eñ þa er ver leitvm við at ransaka hvaðan þessar saker risa. eða hverrer með kappi leita við vm at næra þessi mein helldr eñ slokva. þa visa svmer sokvm i ein[n] stað. Eñ svmer i annan ok siam ver ecki annað heillt rað iþessv mali eñ biskvp sæki avorɴ fvnd ok þeir menn[6] með honvm er her erv anefnder þat bioðvm ver ok yðr i hlyðni gvði til þacka heilagri kristni til frelsis syndvm yðrvm til lærsnar ok ollvm landz lyð til þvrftar at þer sækit at svmri avorñ fvnd. Eñ nv skvlv ver alla stvnd aleggia at osætt falli eñ sætt efliz. salvr hialpiz ok langær friðr standi i þessv landi. Eñ oss vg[g]er

---

1) *hèr hefir ritaranum skjátlazt í ritníngunum; frá [ á að lesa eins og A hefir:* hann sagði sínum postulum.

2) spernid ne spernid, *afbakað í skb.*

3) hans, *b. v. skb., en þar er dregið í strik og á ekki að lesa.*

4) p̄p̄ (papa), *skinnb.* 5) p̄p̄ (papa), *skinnb.*

6) a, *b. v. skb., en dregið í strik.*

at til langra meina standi. epter þvi sem oss kenner[1] hvgboð ef þetta rað er fyri litið. Eñ þer Ar[norr] [ok] þeim ǫðrvm er þv hefir yfir gvðs eigv ok biskvp stol setta þa bioðvm ver þeim fastliga ihlyðni af gvðs halfv at þer fait honvm af staðarins eign sva mikit at hann megi sæniliga[2] vtan fara ok hvarki kenni hann hneisv i vtan ferð ne aptr hvarfi. En ef þer afrækis þetta vort eyreyndi þa vitið þat vist at yðvar vandi mvn aukaz marfalligliga[3].

---

## C.

Þessi afskript brèfsins er eptir sögu Guðmundar biskups, þeirri er Árngrímr ábóti á Þíngeyrum samdi. Arngrímr þessi var vígðr til ábóta á Þíngeyrum eptir Stephan, á Laurentiusmessu 10. August 1351, er þá bar á miðvikudag. Hann var í miklum metum hjá hinum æðri mönnum fyrir lærdóm sinn, og því setti Ormr biskup Ásláksson hann til officialis í sinn stað þegar hann fór utan 1354, en mannorð hans hefir án efa verið í lakasta lagi, því þrem árum síðar (1357) afsögðu prestar í Hóla biskupsdæmi að hlýðnast honum, „því hann var borinn hinum ljótustum málum", var þá tekið af honum officialis-embætti á prestastefnu í Skagafirði, og svo ábótadæmi, en hann kvaðst sjálfr leggja niðr embætti þessi, því hann kvaðst hafa gjört það heit, að gánga undir prèdikara lifnað og fara í klaustr í Björgvin, og afsala sèr alla tign og upphefð. Tók þá Þorsteinn prestr Hallsson við officialis-störfum. En árið eptir settu þeir Eyjólfr prestr Brandsson og bróðir Eysteinn, er sendir voru til að rannsaka kirkjustjórnina á Íslandi, Arngrím aptr í ábótastètt (1358), og gáfu engan gaum að ófrægð þeirri sem á honum lá, nè að heiti því er hann þóttist gjört hafa, enda var hann þá ekki ákafr að enda heitið. Eptir þetta mun hann hafa haldið ábótastètt á Þíngeyrum til dauðadags (13. Oktbr. 1362), og hefir hann ritað sögu Guðmundar biskups líklega til þess að bæta fyrir sálu sinni, að dæmum margra annara á páfaöldunum.

---

1) tviskrifað í skb. 2) sæmliga, *Bisk. s.* (sæmiliga?).

3) *líklega einúngis ritvilla, fyrir* marfalliga (= margfaldliga).

Sögu Guðmundar biskups eptir bróður Arngrím höfum vèr enn á merkilegri skinnbók frá hans dögum, sem er í bókasafni Svíakonúngs í Stokkhólmi (Nr. 5 í Fol.), og er komin þángað líklega að norðan, nálægt miðri 17du öld. Fremst í bókinni eru tvær biskupa myndir, og er önnur að öllum líkindum mynd Guðmundar biskups. Þar eptir kemr fyrst saga hans, þar eptir Jóns saga Hólabiskups Ögmundarsonar, hins helga; þá biskupa tal og ábóta, þarnæst Þorláks saga og seinast Játvarðar saga hins helga, Engla konúngs; bókin er alls 71 blað, og tekr Guðmundar saga með drápu Arngríms aptanvið yfir 46 blöð, eða meir en helmíng bókarinnar. Þessi bók er vandlega rituð, með fyrirsögnum með rauðu letri og upphafsstöfum með ymsum litum, er hún í stóru fjögra blaða broti með tveim dálkum á blaðsíðu og 40 línum venjulega á dálkinum (Biskupas. I, Formál. bls. XXIX—XXX). Brèf Þóris erkibiskups er þar á 91—93. dálki. Ekki þori eg að gjöra mikið úr, þó brèfið sè hèr öðruvís orðað en í hinum öðrum bókunum, og þykir mèr það helzt ætlanda, að bróðir Arngrímr eigi sjálfr þær breytíngar á orðfæri brèfsins, sem hèr eru.

---

bref herra þoris erkibiskvps[1].

Þorir meðr gvðs miskvnn erkibiskvp j niðar ósi sendir arnori tumasyni . Sigvrði orms syni . Þorualldi Gizurar syni Snorra sturlu syni . ok auðrum þeim sem for menn erv kirkivnnar meín giorða norþan landz þa kueðiu at hneigia fra illu ok gera gott.

Su haurmungar framferð er af yðr flytz fyri sannorða menn angrar hiarta uárt ok æ eGiar at ver hefim með hrygðar orðum heil ræði vaar til yðuar þui at sua sem postulin lærir at hafa glaum með goðum monnum sua ervm ver skylldvgir af hirðiligri sam piníng[2] at syta með sytaundum en sakir þess at frægðin flytr os eigi fagnaðar efni eyrvm uárum þat er yðr heyrir til grætr mær ok móðir almennilig kristni ok ver

1) *fyrirsögn með rauðu; en þetta stendr á spáziu með hendi frá 17. öld:* 47. Bref Þorers Erkebiskupz til Snorra Sturlusonar. *þessi hönd hefir sett tölur við kapitula sögunnar og telr hèr 47. kap., en skiptir sögunni alls í 91 kap. með drápu Arngríms.* 2) sam *á spáziu.*

með moður uári af þeirri grimd ok ágang er þer gerit henne ok hennar formonnum með beri vhlyðní við æzta hirði er sua talaði til postulanna ok þeirra laugligra leytis manna. Huer er yðr heyrir. heyrir mik ok hver yðr hafnar hafnar mik. þessi uárs drottins orð postulum gefin i fyrstu liða fram til uár er skipumz þott. uuerðugir firir erfð ok hiorð almáttigs guðs þuiat ver segiumz þeirra synir sem prophetinn uáttar ef ver ueítum gvðs kristni þa kenning er þeir selldu oss ok taukvm lika aumbun sem þeir toku ef ver likivmz þeim j ástundan ok einaurð guð spialligra boðorða en ef ver faullum j leti svefn leigv mañzins með hirðv leysu hiarðarinnar taupum ver hirðis nafni ok kynferði postulanna. þar með oss sialfa ok sælir vára vndir maña er ver ættim að lifga með allri kuñastu þviat þenna ávinning krefr heosti konungr framar aullum fiar hlut af vári ár menning. þvi stæði yðr uel at virða huersv ver skylldumz af striðv laganna at boða gleópi vara vñdir manna. þviat ef ver vanrækivm þeirra lif er þat uár dauði. Nv þott ver hnðgvím ok gangím ver en vera skylldi eða j mót aullum setningum ok seálfum náttúrv laugunum at límr af dæmi hðfuðit sinni sæmd. huað undrandi dirfðar vær heyrum með yðr geraz at þer hafit dæmt til utlegðar fauður yðuarn en elskuligan broður uárn hera Guðmund hola biskup en huersu yðuart rasanda forz er laugunum fiarlægt lysiz j þeim orðum at ifir biskupin er einkis mannz dómr á jarðriki. utan hera pafans ok uar af hans ælfu. Her fyri veri yðr hugleiðanda þo siðla se j huersu hætt forað ok greypiligan glæp þer hafit steypt yðrum sælum fyri biskupsins utlegðar dóm presta drap ok klerka ok fleiri annara undir kirkiunnar vernd. fyri þessar vheofur ok aðrar her ugreindar at sinni er þer hafit j fallið j sua fordæmliga guðs reiði at yðr má engi leysa eða upp reisa utan hera pauinn. Ver hofum profat at lina þessi mein með amíningar orðum ok verpz j uínd þuiat uandræði vaxa ok groðsamlig orð gera með yðr ecki frio skilium ver at þat leiðir af langri vlyðzkv ok ofbelldis fullum illuilia yðuars landz skapar.

Nv sakir þess at ver hðfvm leítað huerr uppræs gangi rikazt sua uándra uesallda fleiri en fram lútr yðuarr illvili mot kirkiunni flytz oss þar af nðckvð ymislikt. Seam ver eigi

annat likara kristni guðs til nꝍða en allr yðuarr ꝍ skilnaðr af huoRatueGiu halfu komi fyri oss þvi bioðvm ver yðr aullum fyR nefndum af þvi guðs ualldi sem ver haulldum synðum yðrum til lausnar kirkiunni til frelsis ok aullum landz lyð til eiginligs friðar at þer komið ꝍ uarn fvnd forfalla laust sem fyrst megi þer siþan skip ganga ok sakir þess at ver höfum kallat biskupinn eigi siðr bioðvm ver þer arnorr vndir banðz uiðrlaugu at þu ueitir biskupinum liðugan gang til stols síns þar með allan kost ꝍ kirkiunnar nꝍ́ð sva uilium ver ok bioðum undir saumu striðu at hann ok hans föruneyti hafi sua sæmiligan kost af kirkiunni fram ok aptr með hennar eyrindi at hann megi uel fara huar sem hann vill vera.

Nv ef þer þveriz enn móti þessum uórum ueg skulum ver hug ꝍ leGia sem skylldan byðr at koma mót yðr skipiz þer ok uel uið skylldumz ver ok þui framaR at gera yðrum mꝍ́la greínum huað gott er ver megum þuiat mꝍ́ttvgr er guð at reisa sonu habrahꝍms upp af steínum.

---

## 97. [sumarið 1211].

MÁLDAGI Álptamýrar kirkju í Arnarfirði, [sem Páll biskup Jónsson setti].

Eptir máldagabókinni í safni Steingríms biskups í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík D 12, bl. 63 (sbr. Nr. 24 og 55 hèr að framan).

Þessi máldagi er svo forn, að hann verðr varla talinn yngri en frá tíma Páls biskups Jónssonar, og er þá sennilegast að heimfæra hann til þess árs, þegar Páll biskup fór yfir Vestfirðínga fjórðúng; en þetta var árið 1211, svo sem segir í sögu hans (Páls biskups saga kap. 17; Bisk. s. I, 144). Í þessari ferð tók hann banasótt, og komst nauðulega til Hítardals, þar lá hann nálega fjórar vikur, og komst heim í Skálholt þrem nóttum fyrir Símonsmessu (25. Oktbr.). Þó reis hann aptr úr rekkju og las messu seinast á allraheilagra messu dag (1. Novbr.), en nokkrum dögum seinna sló honum niðr aptr, og andaðist hann í Skálholti 29. Novbr. 1211.

Máldaginn fellr eiginlega í tvennt, eða í tvo kafla, og er þó ekki að sjá á þeim mikinn aldrs mun. Sá er einúngis munrinn, að hin seinasta grein máldagans virðist hafa verið borin í lögrèttu sèrílagi, eptir því sem fyrir skipað er í Kristinrètti Þor-

láks og Ketils 13. kap. (Thorkel. bls. 58; Fins. Grág. kap. 4, bls. 18), og er mælt svo fyrir í þeirri grein máldagans, að prestr og djákn skuli vera heimilisfastir á Álptamýri, en áðr er einúngis gjört ráð fyrir að prestr sè þar innanþínga. Á báðum greinunum máldagans má sjá, að Álptamýri hefir þá verið bóndaeign og bóndabýli þegar máldaginn var gjörðr, og það var jörðin 1230 og enn síðan (Sturl. 7, 4: III, 11).

Um þá menn, sem nefndir eru í máldaganum, vitum vèr ekki að segja neitt með vissu. Af því að nefnd eru saman karl og kona: Steingrímr. Þuríðr.| Kár. Ýngilldr.| Högni prestr og Cecilia|, gæti mönnum dottið í hug, að hèr væri nefnd þrenn hjón, sem hefði lagt til kirkjunnar á Álptamýri, og þá líklega búið þar eða þar í grennd við síðara hluta tólftu aldar, eða hèrumbil samtíða Þorláki biskupi hinum helga. En vèr finnum einnig flestöll nöfn þessi á fyrra hluta þrettándu aldar í Arnarfirði og Dýrafirði, enda þótt vèr ekki þarfyrir getum sagt með vissu, hvort það sè hendíng ein eða ekki, eða það sè aðrir menn úr sömu ættum. Eg skal þó geta nokkurra þeirra: Steingrímr Ólafsson hèt heimamaðr Rafns Sveinbjarnarsonar á Eyri (Rafnseyri); hann kvað Andreas drápu fyrir Rafn þá nótt sem Rafn lifði seinasta († 4. Marts 1213; Rafns s. kap. 19: Bisk. s. I, 672; Sturl. 4, 17: II, 33); þó Steingrímr væri heimamaðr með Rafni þarf það ekki að vekja neinn grun um, að hann væri ekki frjálsborinn maðr eða af góðum ættum, því vèr finnum opt um þessar mundir, að göfugra manna synir eða frændr voru heimamenn hjá göfgum frændum sínum. — Þuríðr hèt dóttir Rafns á Eyri; bóndi hennar, Helgi Sveinsson, fèll á Örlygstöðum 1238, og sonr hennar Guttormr bjó í Lokinhömrum í Álptamýrar sókn 1242 (Sturl. 7, 4: III, 11). — Kár múnkr Geirmundarson var forgaungumaðr að sættarfundi, þeim er haldinn var að Þíngeyri í Dýrafirði 1213, eptir víg Rafns á Eyri (Sturl. 4, 18: II, 35); hefir hann þá án efa verið gamall, því sonr hans Eyjólfr Kársson fèll í Grímsey 1222 með Guðmundi biskupi Arasyni, og var hann þá roskinn maðr. Eyjólfr átti Herdísi, dóttur Rafns Sveinbjarnarsonar, en Kár múnkr átti Arnleifu, dóttur Jóns Húnrauðarsonar af Húnrauðlínga ætt fyrir norðan í Húnavatnsþíngi, og kemr hann því einnig við skrár í því hèraði. — Ýngvildr hèt dóttir Arons Bárðar sonar hins svarta, af Seldæla ætt, og mun hún hafa verið í Arnarfirði; hún var jafnliða í ætt við Rafn á Eyri, og líklega á aldr við hann; hefir hún þá án efa verið roskin kona 1211. — Högna prests finnum vèr hvergi getið, svo að heimfært verði til þessarar skrár. — Cecilia hèt dóttir Guðmundar Sigurðarsonar; hana átti Bárðr Þorkelsson á Söndum í Dýrafirði, sem bjó þar 1242 (Sturl. 7, 4: III, 11). Vèr sjáum því á þessu, að flest af nöfnum þeim, sem í máldaganum standa, hafa verið til í ættum á Vestfjörðum á þeim tímum sem hèr koma til greina, og geta

jafnvel þessir menn allir sem hèr voru nefndir verið þeir hinir sömu sem máldaginn getr um. Þó er ekki þarfyrir eptir minni ætlan ástæða til að gjöra máldagann ýngri en hèr er sett, því væri hann það, þá mundi varla bregðast að getið væri annaðhvort Bjarna Sverrissonar, sem Sturla Sighvatsson kúgaði til að selja landið á Álptamýri 1230 (Sturl. 5, 11: II, 123), eða Odds Ólasonar, sem þá keypti landið að Bjarna. Væri aptr á móti máldaginn settr fyr, svo sem á tíma Þorláks biskups hins helga, til ársins 1182, þegar Þorlákr fór um Vestfirðínga fjórðúng, þá væri að vísu orðfæri máldagans alls ekki á móti því, heldr öllu fremr með, en nöfn þessi sem hèr eru talin gæti þá alls ekki átt við sökum tímans, og virðist það þó varla vera hending ein, að nöfnin flest geta með fullum líkindum heimfærzt til þess tíma sem hèr er settr.

---

Alfta myre.

Sa er maldage kirkio þeirrar er stendr vestr a alfta myre. er helgoþ er mario-moþor vars drottens. [oc] Joane baptista.

Þar ero til gefnar atta tiger hundrat alna. þau fe liggia þar heima. en stapadals land allt liggr þar til kirkio.

[Su er afvinna af][1] fe þvi. at þar scal af giallda atian alner vaþmals oc gefa þurfamonnom a hverio hauste. oc skipta meþ annare tiund.

En sva scal kirkio varþveita. at þar scal messo syngia hvern helgan dag. oc iafnskuld[2] oþ alþinge sem þess a mille. þar scal messo syngia alla leyfisdaga. þa er meþ meira halldc ero oc hvern dag oþ langafosto. þa er[3] messa er til[4] gior. oc sva imbrodaga alla. syngia þria daga messo j viko hverre. a mille drottins daga. nema prestr eige heiman farar or þingom sinom.

Prestr scal minnasc. j hverre messo er hann syngr at Mario kirkio. þeirra manna allra. er sin auþæfe hafa lagt til þeirra[r] kirkio. nefna til einkum Steingrim. þoriþe. Kar. Yngilldi. Hogna prest oc Cecilio. oc renna hug sinom oþ

---

1) eyða í D 12.

2) iafnkuld, *D 12; í frumritinu hefir* sk *verið dregið í eina stafsmynd, svo sem stökusinnum sèst í afgömlum skrám, og hafa menn síðar lesið það sem eitt* k.

3) og, *D 12.* 4) er, *b. v. D 12.*

alla þa menn . er sina olmoso hafa þangat lagt . Scal buande lata lysa kirkio fra mario messo inne fyrre . hveria nott . oc allt til philippus messo[1] .

En sia maldage er nu hafþr j logretto.

prestr oc diacn scal vera heimilis fastr a Altamyre . oc lata skômmom[2] missa oto songvar . oc oracio[3]. skryþesc[4] opt j messom oc varþveitiþ vel kirkio . goþer brøþr[5]. oc gorit sva fyrir guþs saker.

---

## 98. [1217]. á alþingi.

Alþíngislög í kristnum rètti um lögföstur, um hjúskap og um ómegð.

Þegar Páll biskup Jónsson andaðist í Skálholti, 29. Novbr. 1211, var biskupslaust um vetrinn til alþíngis. Þá var valinn Teitr Bessason, sem áðr var getið, sumarið 1212 á alþíngi, sonr Bessa Halldórssonar og Halldóru, dótfur Gizurar Hallssonar lögsögumanns. Teitr biskupsefni mun þá hafa verið í Skálholti um vetrinn, en sumarið eptir fór hann utan (1213), og með honum Þorvaldr í Hruna, móðurbróðir hans (eða eiginlega: hálfbróðir móður hans, Sturl. 3, 5: I, 205); en Magnús prestr Gizurarson í Bræðratúngu, annar hálfbróðir móður hans, tók þá við ráðum í Skálholti og fór þángað. Um vetrinn eptir andaðist Teitr biskupsefni í Noregi, og varð ekki vígðr, en Þorvaldr kom út um sumarið eptir. Það sumar var þá enn enginn biskup kosinn, og hèlt Magnús prestr ráðunum; en á alþíngi 1215 var Magnús prestr kosinn til biskups, og fór utan til vígslu samsumars. Þess var áðr getið, að Þórir erkibiskup Guðmundarson var andaðr 8. August 1214; var þá kosinn til erkibiskups í hans stað Guttormr, og mun hafa farið til Róms þá um haustið. En árinu áðr, 19. April 1213, hafði Innocentius páfi hinn þriði stefnt öllum erkibiskupum og þar að auki ábótum, príorum og prelátum úr hinum nálægari löndum, til almenns kirkiuþíngs í Rómaborg, er átti að hefjast 1. Novbr. 1215. Þegar Guttormr erkibiskup var vígðr, mun páfinn ekki hafa viljað gefa honum heimfarar leyfi fyr en kirkjuþínginu væri lokið, en það stóð 11—30. Novbr. 1215, og er það kallað hið fjórða kirkjuþíng í Lateran; mun þá Guttormr erkibiskup hafa verið þar nálægr. Þíng þetta var mjög fjölmennt. Þar voru 71 höfuðbiskupar og erkibiskupar, 412 biskupar, fleiri

1) = frá 15. Aug. um haust til 1. Mai á vor. 2) ꝁômð ( = skömmom), *D 12*.
3) *líkist mest* ðracna *í D 12*, oracio (= oratio) *þ. e. bæn í messu*.
4) ꝁrijdizt, *D 12*. 5) brodur, *D 12*.

en 800 ábótar og príorar, og þaraðauki fjöldi sendiboða frá erkibiskupum, biskupum, prelátum og sömuleiðis frá konúngum og öðrum höfðíngjum. Hin helzta fyrirætlan páfans var að ávinna alla kristna menn til að hafa samtök að frelsa Jórsalaland frá yfirráðum Serkja; en margar ályktanir voru þar einnig samdar um trúarlærdóma, kirkjusiðu og hjúskaparreglur. Þar var áskorað um þrenníngarlærdóminn fastara en áðr var; þar var ákveðið í trúarjátníngu, að brauð og vín breyttist í kvöldmáltíðar-sakramentinu í Krists sannarlegan líkama og blóð; þar var bannað að geyma í kirkjum veraldlega fjármuni; skipað var að geyma vandlega undir lás heilagt viðsmjör og guðs líkama; enn var það og skipað öllum kristnum mönnum, að taka skriptir og gánga til altaris að minnsta kosti á páskum ár hvert. Um hjónabönd var það ákveðið, auk annars, að hèðan af mætti byggja hjúskap í fjórða lið, þar sem áðr hafði verið fullt bann við að byggja hjúskap nánara en að fimta. Þessara greina er hèr getið vegna þess, að þær koma síðar fram í kirkjulögum og skipunum biskupa á Íslandi, og hin síðasta þeirra, um kvonfaungin, er lögtekin á Íslandi í nýmæli því sem hèr fylgir eptir.

Um vorið 1216 mun Guttormr erkibiskup hafa komið heim til stóls síns, en skömmu síðar vígði hann Magnús Gizurarson til biskups að Skálholti, og fór hann út til Íslands samsumars. Árið eptir á alþíngi mun Magnús biskup hafa borið upp nýmæli það sem hèr fylgir eptir, og höfum vèr það því til sönnunar: 1) að sú grein í því, sem snertir kvonfaung manna, er samkvæm því sem ákveðið var á kirkjuþínginu í Lateran 1215, og er það óefað, að þá ákvörðun hafi Guttormr erkibiskup haft með sèr til Noregs, og Magnús biskup til Íslands (en Guðmundr Hólabiskup var um þetta skeið í Noregi, sem áðr var getið); 2) er getið beggja síðari atriðanna í nýmæli þessu í annálum vorum með þessum orðum: "Færð frændsemi og ómegð í lögum", og setja allflestir, og einmitt allir hinir beztu annálarnir það við ár 1217. Til þess hins sama miðar það, sem talið er í annálum í Guðmundar biskups sögu hinni elztu (Bisk. s. I, 507), þar sem segir: "Fêrð frêndseme ok úmegð"; 3) stendr í nýmæli þessu sjálfu, svo sem það er orðað í Konúngsbókinni, að það se gjört „þá er Magnús Gizorarsun var byskup orðinn"; það er óefað svo að skilja, að það var lögtekið skömmu eptir að hann var orðinn biskup.

Lög þessi eru tekin hèr eptir tveim hinum elztu handritum sem nú eru til af Grágás: Konúngsbókinni eða Skálholtsbókinni í bókasafni konúngsins (*A*) og Staðarhólsbókinni í safni Árna Magnússonar (*B*).

Þegar vèr þarnæst skoðum efnið í lagaboðinu, þá finnum vèr þar þrjú atriði, sem aðgreina þarf. Er hið fyrsta um föstur; annað um hjúskaparleyfi og hið þriðja um ómegð.

1. Hið fyrsta atriðið, um föstur, er ekki nefnt í annálum, þar sem þessa lagaboðs er getið; mætti mönnum

því hugsast, að þessi grein væri nýmæli sèrílagi. þetta getum vèr nú ekki ákveðið eptir skýrslum þeim sem í höndum eru, en hitt sjáum vèr með rökum, að lagaboð þetta muni vera komið í gildi nálægt þeim tíma sem hèr er um að ræða. það er auðsætt á því, að þegar vèr berum saman Konúngsbókina og Staðarhólsbók, eða Kristinrètt þorláks og Ketils, eptir því sem báðar hafa, þá sjáum vèr, að í Konúngsbók er þetta nýmæli ekki komið inn í Kristinrèttinn, heldr er þar skipað fyrir einsog verið hefir áðr en nýmælið var gefið; en í Staðarhólsbókinni eru reglur þær sem hèr eru skipaðar settar inn í Kristinrèttinn á þeim stöðum sem þær þóttu við eiga, og er það ljósast að sýna hversu báðar bækrnar orða, til að fá greinilega hugmynd um, hversu menn hafi breytt smásaman lögbókum sínum í fornöld, eptir því sem lögin breyttust; er þetta mjög eptirtektar vert, vegna þess oss gefst svo mjög sjaldan færi á að rekja nákvæmlega þær breytíngar sem á eru orðnar, og sýna þær í sjálfum uppruna sínum. Hèr tökum vèr því heila grein, fyrst eptir Konúngsbókinni og þar næst eptir Staðarhólsbók, svoað augljóst verði hversu þær eru orðrètt samhljóða, nema þar sem hin síðari setr inn reglur þær sem hèr eru settar í nýmæli Magnús biskups.

| KONÚNGSBÓK (bls. 12b. Fins. Grág. I, 29). | STAÐARHÓLSBÓK (bls. 14a. sbr. Kristinr. þorl. og Ket. Thorkel. útg. bls. 102). |
|---|---|
| Ef berr á aNan dag vikv. eþa iN. III. igangdogvm. philippvs messv oc iacobs. eþa crucis meSo. eþa kirkiv dag. oc er rett at eta tvi mellt oc eigi kiot. | Ef beR a annan dag uico. eða enn þriðia i gagndogom. Philippus Messo oc Jacobus eða Crucis Messo. eða kirkio dag. oc er rett at eta þa tvimælt. en eigi slátr. |
| Ef berr a miðvikv dag igangdogvm messv dagana. oc scal fasta sem aþr. | Lꝍg scyllt er at fasta dag oc nott fvr upstigningar dag. |
| EN. V. dagr vikv i gangdogvm er vppstigningar dagr. haN scolom ver hallda sem pascha dag. | Hinn .Vta dag igagn dǫgom er upstigningar dag[r]. hann skulo ver hallda sem pascha dag. |
| Fra pascha deginum fvrsta. scolo vera vikvr. VII. til drottins dags ihvita dogvm. þar er vika heil a millum oc gangdaga vikv. | Fra pascha deginum fvrsta skulo vera vicvr VII. til drottins dags ihuita dogum. þar er vika heil a mille oc gagn daga viko. |
| Lavgar dag fvr huita daga er moNvm skylt at fasta dag fostv...... | Þuátt dag firir huita daga er monnum scyllt at fasta dag oc nótt...... |

Konúngsbók
(bls. 14a, Fins. Grág. I, 32—33).

Langa fostv eigvm ver at hallda. þat erv. VII. vicvr. drottins dag þaN scolo ver ganga i fostv. sem vpp er sagt a þingvm oc a leiþvm. þa er maþr gengr ifostv. þa scal eta kiot fvr miþia nott. eN þa scal eigi eta kiot. a þeim vikvm. VII. fvr eN sol reNr a fioll pascha dag.

ANan dag vikv iN fvrsta i langa fostv. oc iN. III. er rett at hafa tvi męlt. oc eigi kiot. eN alla daga aþra þaþan fra. til pascha nema drottins daga þa scal fasta.

XI. erv nętr þęr. er logskylldar erv at fasta i langa fostv. Fostv nøtr. VII. oc miþvicv nott in fvrsta. oc in efsta. oc miþvicv nott i ymbro dogvm. oc þvátt nǫtt.

Jola fostv eigvm ver at hallda. ver scolom taka til [annan dag vikv[1]. at varna við kiotvi. þaN er drottins dagar verþa. III. á millvm oc iola. dags ins fvrsta. þa scal eigi eta kiot a þeirri stvndv. nema drottins daga oc messv daga logtekna.

Fostv daga eigvm ver at fasta i iola fostv. oc nęternar. oc iN nęsta dag iolvm fvr. dag fostv. oc fvr iN. XIII. dag.

Staðarhólsbók
(bls. 15a.b. sbr. Krr. Þorláks og Ket. Thorkel. útg. 122—126).

Langa fa'sto eigo ver at hallda. þat ero VII. vicvr. Drottins dag þañ skvlo ver ganga ifǫsto sem up er sagt a þingi eða aleiðum. þa er maðr gengr ifǫsto. oc skal hann etið hafa kiǫt fvr miðia nótt. En þa scal eigi eta kiot a þeim. VII. vikum fyR en sol rennr afiǫll pasca dag.

Annan dag viko hinn fvrsta ilanga fǫsto oc iN þriðia er rétt at hava tui mælt oc eigi kiot. EN alla daga þaðan fra til pascha nema drottins daga. þa scal fasta.

Miðviko nætr allar oc fosto nætr allar er iǫgscylldt at fasta um langa fosto. oc þvatt [nott] i imbro dǫgum.

Iola fosto eigum ver at halda. ver skulum taka til annan dag viko at varna við kiotve. þann er drottins dagar ero. III. a millum oc iola dags ens fvrsta. þa scal eigi eta kiot aþeirre stundo. nema drottins daga oc messo daga. lǫgtekna.

Fa'sto daga eigo ver at fasta i iola fǫsto oc nættrnar. oc enn næsta dag iolum fvr. oc iola nótt. oc fvr hinn. XIIIda dag. scolum ver fasta vm dagiN.

1) frá [ yfir línunni með sömu hendi.

Ef vèr nú berum saman hvorttveggja, þá sjáum vèr í Konúngsbókinni hversu hinum eldri reglum hefir verið háttað, að minnsta kosti þeim sem verið hafa fyrir 1217, en í Staðarhólsbók má sjá, að þar er komin á sú breytíng sem hèr er skipuð um föstuhald, og búið að setja hana inn í Kristinrètt, má þar rekja rètt sèrhvert atriði: 1, um föstu á jólanótt; henni er beint bætt inní. — 2, um páskanótt; þar verðr ekki sýndr neinn munr á reglunum. — 3, um uppstigníngardags nótt er bætt í, og sömuleiðis: — 4, um hvítasunnu nótt, svo að þar sem áðr var skipuð dagfasta laugardaginn fyrir hvítasunnu, þá er hèr skipað að fasta dag og nótt. — 5, um miðvikunætr á lángaföstu sjáum vèr að hin eldri regla hefir verið sú, að fasta þrjár þeirra, en nú er hinum fjórum bætt við, og hefir því upp frá þessu átt að fasta allar miðvikunætr um lángaföstu.

2. Hið annað atriði, um kvonfaung manna, eða um hjúskaparleyfi, er án efa sú lagabreytíng, sem annálar kalla að „frændsemi" hafi verið „færð í lögum". Þessi grein er í báðum aðalbókunum af Grágás, en þó með sínu móti í hvorri, sem eg nú mun sýna. Lög þau sem hafa verið á Íslandi um þetta atriði getum vèr rakið lángt fram, og má með allmikilli vissu segja, hver eldri eru og hver ýngri. Verðr þar enn tilfært sumt til merkis um, hversu handrit þau af Grágás, sem vèr höfum nú, hafa myndazt. Í Kristinrètti hinum eldra höfum vèr enga lagagrein um það, hversu náið menn megi byggja að frændsemi, eða hversu fjarskyld karl og kona þurfi að vera til að mega koma saman í hjónaband; þær lagagreinir, sem snerta þetta efni, eru þessvegna allar í Grágás, þángaðtil Kristinrèttr Árna biskups var saminn. En þessar greinir í Grágás eru einnig misgamlar, og virðist mèr þær helzt vera í þrennu lagi, eða frá þremr tímabilum; set eg því hèr fyrst saman hinar eldri hvorutveggju, sem heyra til tímabilinu fyrir 1217, og eru þær báðar í Konúngsbókinni, sín á hvorjum stað, en þar næst set eg saman hina ýngri þessara, sem hefir verið hin gildandi lagagrein til þess 1217, til samjafnaðar við hina ýngstu þessara þriggja, sem er löguð eptir nýmælinu frá 1217, og nú stendr í Staðarhólsbókinni einúngis.

| KONÚNGSBÓK | KONÚNGSBÓK |
|---|---|
| (bls. 120b. Festaþáttr kap. 163. Finsens Grág. II, 60). | (bls. 110a. Festaþáttr kap. 144. Fins. Grág. II, 30). |
| Ef frændsemi er með monnom byGiande oc nanare eN at siaunda maNe. þa scal af þeS þeirra fe bera III. Mercr ilog- | EN ef frændsemi er þeim byGiande oc nanare eN at .VII. manne se hvart. þa scal af þess þeirra fe bera ilogrétto er |

retto er þat vill eigi láta[1] fvr raðom lata standa.

Ef frændsemi er þar at .VI.ta mane oc at VII.da þa scal bera .III. Mercr ilǫgrétto. en þar Mercr .VI. er at VI.ta mane er hvartveggia.

En ef frændsemi er at .V.ta mane oc at .VI.ta þa scolo þær þa þó raða raðom sinom ef þær vilia. en þær scolo gera tiund af fe sino ena meire. enda scal bera VI. Mercr af þui tiundar feno ilǫgrétto ef sva vinz til. En þoat tiund se mine oc scal þo bera VI. Mercr ilǫgrètto oc scal gialda .C. alna vaðmala fvr þær .VI. Mercr en byscop scal raða fvr þeirre tiund er vm er fram. oc ef hann gorir eigi tiund ena meire. þa v[arðar] f[iorbaugs] G[arð] oc [scal] q[ueðia] til IX. b[va] aþingi [oc] a huerr sǫc er vill.

þat vill eigi fvr ráðom lata standa.

En þar er frændsemi er at VI.ta mane oc .VII.a scal bera X. aura ilǫgrètto. en þar .C. álna er at sétta mane er huartuegia.

En ef frændsemi er at V.ta mane oc VI.ta *vsque*[2]. oc a huerr soc er vill.

Hèr eru settar þær reglur, að frændsemi er byggjandi sektalaust þegar hjón eru að sjöunda manni hvorttveggja[3]. Þegar frændsemi er að sjötta og sjöunda, segir hið eldra lagaboðið svo fyrir, að bera skuli þrjár merkr í lögrèttu, eða gjalda þrjár merkr til lögrèttunnar, sem þá rèði lögum og lofum. Sjáum vèr þar af, að biskupar muni ekki um þær mundir hafa tekið fè fyrir slík lof, nema að því leyti sem þeir áttu sæti í lögrèttu með öðrum höfðíngjum. Hið ýngra lagaboðið segir, að bera í lögrèttu tíu aura, og sýnist svo, sem það sè hèr talið jafngilt þrem mörkum[4]. Þegar frændsemi er að sjötta manni hvort-

1) þessu orði er ofaukið hèr í skinnbókinni, og er það ritvilla.

2) hèr hefir sá sem ritaði skinnbókina ætlazt til að kæmi inn orðrètt sú klausa sem hèr stendr á móts við, þó hún komi síðar þar í bókinni.

3) sbr. Brèf Nikulás páfa hins annars 1059: De consanguinitate nullus uxorem ducat usque post septimam generationem, vel quousque parentela cognosci potuerit.

4) þá væri hver mörk 20 álnir; annars er mörk átta aurar, eða 48

tveggja, segir hin eldri reglan að gjalda sex merkr, en hin ýngri hundrað álna, og virðist það einnig vera talið jafngilt. Þegar er að fimta og sjötta, áttu hjónaefnin að gjöra meiri tíund af fè sínu, eða telja fram allt sitt fè til að gjalda tíunda hlut af því öllu; væri fè svo lítið, að tíundin af því næmi ekki sex mörkum, skyldi þau þó gjalda sex merkr til lögrèttunnar, en á þann hátt, að fyrir þær sex merkr skyldi gjaldast hundrað álnir vaðmála; er því auðsætt, að gjald það hefir þótt vera lint, og lagt á til vægðar fyrir fátæktar sakir. En væri fè meira en svo, að hin meiri tíund af því næmi sex mörkum, skyldi þær sex merkr gánga til lögrèttu, en biskup ráða fyrir tíund þeirri sem umfram væri. Þau sem voru fimmenníngar að frændsemi eða nánari voru í forboði, ef þau höfðu hjónasambúð.

Þessar eru aðalreglur þær um hjónabandsleyfi, sem hafa verið lög á Íslandi um elleftu öld, og fram til 1217; kemr það og heim við þær reglur, sem hafa verið í Noregi um sama mund, svo sem stendr í hinum fornu Kristinrèttum Norðmanna. „Oss er lofat at taka at siaunda kne ok siaunda lið frændkonur vârar", segja hin eldri Gulaþíngslög (kap. 24; Norges gamle Love I, 15); — „Telja skal frá syskinum tveim sex menn á hvarntveggja veg, ok taka at hinum seaunda", stendr í Frostaþíngslögum hinum eldri (II, 1; Norg. g. Lov. I, 147) og í Kristinrètti þeim sem eignaðr er Sverri konúngi (kap. 56; Norg. g. Love I, 424). — Hið sama ritar Eirekr erkibiskup til biskupanna á Íslandi, Brands og Þorláks (1189): „ef maðr tekr vitandi frændkonu sína eða sifkonu at fimta manni, eða guðsifju sína, þá kemr þar forboð fyrir ef eigi lætr af" (Dipl. Island. I, 286).

Þessum reglum var nú breytt á kirkjuþínginu í Lateran 11—30. Novbr. 1215, og hjónabandsleyfi fært fram um einn lið. Í ályktunum kirkjuþíngsins segir svo: „ekki skal banna þeim hjúskapar sambúð, sem fjarskyldari eru að frændsemi eða mægðum en að fjórða lið; því slíkt bann verðr ekki haldið almennt, nema með miklum óhægindum. Það á og vel við, að fertalan sè bönnuð í þeirri holdlegri sambúð, er postulinn segir um, að maðrinn eigi ekki ráð á líkama sínum, heldr konan, og að konan eigi ekki ráð á líkama sínum, heldr maðrinn; því að fernskonar vökvar eru í mannlegum líkama, er samsettr er af fjórum höfuðskepnum"[1]. Þessar ástæður mundu þó líklega ekki þykja eins öflugar nú á vorum dögum til að byggja á þeim bann á móti kvonfaungum fjórmenninga.

álnir, og þrjár merkr þá tuttugu og fjórir aurar, en það er opt, að í sakeyri eru aurar metnir hærra en í öðrum gjöldum.

1) Prohibitio quoque copulæ conjugalis quartum consanguinitatis et affinitatis gradum de cetero non excedat: quoniam in ulterioribus gradibus jam non potest absque gravi dispendio hujusmodi prohibitio generaliter observari. Quaternarius enim numerus bene congruit prohibitioni conjugii

Ályktanir kirkjuþíngsins í Lateran mun Guttormr erkibiskup óefað hafa haft með sèr til Norvegs um vorið 1216, og samsumars hefir Magnús biskup haft þær með sèr til Íslands. Á alþíngi 1217 hefir hann borið upp nýmæli sitt, sem rýmkar hjónabandsleyfi um einn lið. Þetta nýmæli er nú ritað sèrílagi í Konúngsbók, en ekki sett í lögbókina; þar á móti er það komið inn í Festaþátt í Staðarhólsbók, og þareð sú samskeytíng er merkileg og einkennileg til að lýsa handritum Grágásar, mun eg setja hèr þann kafla úr báðum bókunum, sem snertir þetta efni, og má þá sjá hvorttveggja, bæði hin eldri lögin og hin ýngri, og sömuleiðis hvernig nýmælið, eða hin ýngri lögin, er skeytt inn í bókina eptir því sem ritað er í Staðarhólsbók.

| Konúngsbók | Staðarhólsbók |
| --- | --- |
| (bls. 109b—110. Festa þáttr kap. 144. Fins. Grág. II, 30—31). | (bls. 55a. A.M. útg. I, 307-310, í Festa þ. k. 1—4). |
| Ef frændsemi komr up með þeim manne er kono hefir fastnað ser oc kononi sv er eigi er byggvande. þa scal sa þeirra fara er raðe vill renna ahálfom manaðenom næsta er hann verþr viss til fundar við annan. oc telia frændsemi sem at domi oc sanna sva at leggia þat undir þegn scap sinn iamt sem at dome oc hafa menn .v. at sanna með ser. | [1]Ef frændsemi kømr upp með þeim er kono hefir fastnað ser. oc kononi. su er eigi er byggiande. þa scal sa þeirra fara er raðe vill renna ahalfom manaðe hinom næsta er hann verðr víss til fundar við annan oc telia frændsemi sem at domi. oc sanna sva at leggia þat undir þegnscap sinn. iamt sem at domi oc hafa menn .v. til at sanna með ser. |

---

corporalis, de quo dicit Apostolus, quod vir non habet potestatem sui corporis, sed mulier: neque mulier habet potestatem sui corporis sed vir. quia quatuor sunt humores in corpore, quod constat ex quatuor elementis. — Conciliorum collectio ed. Coleti. Tom. XIII, Venet. 1730. Fol. á dálki 986. Concil. Lateran. IV. § L. sbr. Mansi Collectio conciliorum XXII, 1038.

[1]) Fyrirsögn kapítulans, sem er aunar kapítuli í Festaþætti, er í yfirliti kapítulanna framanvið Festaþátt (bls. 53 í skinnbókinni) þannig: „of festar oc frændsemi. II". — Við þessa fyrstu grein sbr. niðrlagið á 54. kap. í Festa þætti í útgáfu Á. M. nefndarinnar I, 378-379, eptir Staðarhólsbók, og greinina „um hjónaskilnað" í Belgsdalsbók (útg. Vilh. Finsens II, 235). Á báðum þessum stöðum eru ekki heimtaðir nema þrír vottar, þar sem hèr eru heimtaðir fimm, og mun það vera ýngra lögmál en það sem hèr er. Konúngsbókin hefir eigi þau lög, og í Staðarhólsbók er sumt af þeim kallað „nýmæli".

[1]En ef frændsemi er þeim byggiande oc nanare en at. VIII manne se hvart. þa scal af þess þeirra fe bera ilǫgrétto er þat vill eigi fyr ráðom lata standa.

En þar er frændsemi er at VIta mane oc .VIII. scal bera X. aura ilǫgrétto. en þar .C. álna er at sétta mane er huartueggia.

En ef frændsemi er at Vta mane oc VIta þa[2] scolo þau þa þó raða raðom sinom ef þau vilia. en þau scolo gera tiund af fe sino ena meire. enda scal bera VI. Mercr af þui tiundar feno ilǫgrétto ef sua vinz til. En þoat tiund se mine oc scal þo bera VI. Mercr ilǫgretto oc scal gialda .C. alna vaðmala fyr þær .VI. Mercr en byscop scal raða fyr þeirre tiund er vm er fram. oc ef hann gorir eigi tivnd ena meire þa v[arðar] f[iorbaugs] G[arð] oc [scal] q[ueðia] til IX. b[ua] aþingi [oc] a huerr sǫc er vill.

þar er men scolo gera tiund ena meire[4] *usque* sǫc *ér* vill.

En ef frændsemi er með þeim byggiande. oc se þo fegialld a hǫndom þeim. þa scal af þess þeirra fe bera i lǫgretto er þat vill eigi fyr raþum lata standa.

[3]Of sifiar. oc meire tiund. nymæli .III.

þat er nymæli at iafn nait scal byggia sifiar oc frændseme at fimta manne hvart. En ef at fimta manni er hvartveggia at frændzsemi þa scolo þau raða raðum ef þau vilia. En þau scolu gera tiund ina meire af fe sino ǫllo saman. Enda scal bera C. alna af þvi tiundar feno ilǫgrétto ef sva vinnz til. En þoat tiundin se mine oc scal þo bera C. alna ilǫgrétto sem aðr. En ef hann gørir eigi tiundina meire. þa varðar fior Baugs Garð. oc scal qveðia .IX. bva til aþingi. oc a huerr sǫc er vill.

---

1) þessi klausa og hin næsta á eptir er hin sama og áðr var tilfærð bls. 376—377 í síðara dálki; eru þær teknar hèr aptr vegna samskeytinganna, en á fremra staðnum þurfti ekki klausuna sem á undan þeim er.

2) hèr er sett inn vegna samburðarins klausan heil og orðrètt (sbr. bls. 377 á fyrra dálkinum) einsog hún á að vera, en á þessum stað hefir ritari skinnbókarinnar einúngis: vsque oc a huerr soc er vill.

3) sbr. hið eptirfylgjanda lagaboð, undir stafliðnum *B*.

4) það sem hèr vantar í til að fylla upp greinina um gjald á meiri tiund er hvergi í Konúngsbókinni, en í Staðarhólsbókinni er það í 55. kap.

þar er maðr a at gialda tiund[1] *vsque* lamba gæror sex.

En ef frænd semi er nanare en at v. mane oc .vi. mane. þa v[arðar] f[iorbægs] G[arð] samforin nema þæ geti biarg quiþ þan at han visse eigi frændsemina þa er han gecc at eiga kono þá oc se firnare

Ef nanara er en sva. þa varðar fior Bægs Garð. samforin. nema þæ geti þan quið at han vissi eigi frændsemi með þeim. þa er hann gecc at eiga kono þa. enda se firnara en anana brøðra. Eigi scal

1 Festaþætti (í skinnbókinni kap. 54. af því talan er villt), bls. 71 á fyrra dálki, sbr. Fins. útg. af Grágás II, 30; A. M. nefnd. útg. I, 379:

Of meire tiund. LIIII.

þar er menn scolo gera tiund ena meire af fe sino fvr raða hags sakir. þa scal af þvi tiundar fe bera ilǫgretto c. alna. oc er þa sem v. ærar gialldiz af huerium fiorðungi tiundar iþvi. Maðr scal oc giallda lǫgtiund huert ár af fe sino iam vel þa sem aðr þott hann gøre ena meire tiund. en þat vár er hefz gialld hinar meiri tiundar. scal niðr falla iam mikit af hueriom fiorðungi þeirrar tíundar sem maðr gelldr ifiorðung lǫgtíundar. En af þvi tíundar fe er þa verðr eptir scal biscop hafa fiorþung sa er ifir fiorðungi er. en annan fiorðung tiundar scal giallda til þingvallar. Siþan scal sa er giallda á raða firir þeim tueim fiorðungum tíundar við ráþ biscops er þa ero eptir. En ef maðr gerir eigi tiund ena meire. þa varðar þat fior Bægs Garð. oc skal qveðia til ix. bua aþingi. oc asa sǫc er vill.

1) það vem vantar til að fylla greinina er hvergi í Konúngsbók, en í Staðarhólsbókinni (bls. 21) er það sett inn í Tíundarlög Gizurar biskups, og prentað í útgáfu Thorkelins af Kristinrétti Þorláks og Ketils, kap. 49 bls. 172, sbr. hér að framan bls. 97-98:

þar er maðr a at giallda tiund ena meiri af fe sino. þa scal hann virða fe sitt allt til .vi. alna æra. oc giallda iam fríþa æra. af. sem þeir er virðir vóro. En þat ero vi. alna ærar. kyr oc ǽr at þinglagi þvi sem þar er iþvi heraðe. þat er lægeyrir vi. alnar vaðmáls. eða varar felldir nýir sva at þeir se eigi veR virðir en vara. Eyrir gullz fvr .ccc. alna. Mork vegin brenz silfrs er iofn við eyri gullz. Melracka scinn .vi. oc lamba gæror .vi. (Staðarhólsbókin bætir við: þat er huartueGia logeyrir).

frendsemi eN aNara brøðra[1]. þa er ecki fe viti at domi oc versc haN maleno. oc scal þa døma scilnað þeirra.

Eigi scolo oc vera sifiar scyldre með þeim. ef haN hefir aðr kono átta eða hon boanda eN þriþia brøþra.

Guðsifiar scolo eigi vera með þeim þær er hvarki þeirra hafe halldit aðro undir scírn. ne undir primsigning. né byscops

fevite þa døma. en scilnað scal døma með þeim. oc versc hann sva malino.

En ef frændsemi er at v.ta maNe oc .vi.ta þa scal bera c. alna ilǫgrétto.

EN ef vi.ta manne er hvártveggia. þa scal x. aura[2].

Of sifiar hvarar tveggio. IIII.

Eigi scolo oc vera scylldri sifiar með þeim ef hann hefir kono átta aðr eða hon boanda en v.ta manne.

Guðsifiar scolo oc eigi vera með þeim þær er aNat hvart þeirra hafe haldit ǫðro undir scírn. ne undir primsignan.

1) sbr. lagagreinir þær í Grágás, sem enn framar finnast um frændsemisspell og sifjaspell.

*a*) í Konúngsbók, bls. 120b í Festaþætti (Fins. útg. kap. 162; II, 59—60), einnig í Staðarhólsbók bls. 63, kap. 32 í Festaþætti (Á. M. nefnd. útg. I, 345—346), og í Belgsdalsbók sem kap. 41 í Kristinrètti hinum gamla (Fins. II, 236). Í þessari grein er lýst, hvað sè frændsemisspell hið meira og sifjaspell hið meira. Það er frændsemisspell hið meira, ef maðr liggr með næsta bræðru sinni eða nánari konu, eða ef hann á þá konu, sem er næsta bræðra hans eða nánari. En það er sifjaspell hið meira, ef maðr liggr með þeirri konu, eða á hana, er bræðrúngr hans hefir átta, eða nánari; svo og ef þær eru bræðrúngur hans, eða systrúngur, eða nánari konur, er hann hefir áttar eða getið barn við, eða orðið sannr að legorði við. Sifjaspell hið meira eða frændsemisspell hið meira varðar skóggáng, en hið minna fjörbaugsgarð (áþekkt finnst í Staðarhólsbók í Festaþ. kap. 44 og 49).

*b*) í Staðarhólsbók bls. 70 (53. kap. í Festaþætti, og er kallað þar „nýmæli", í útg. A. M. nefnd. I, 376-377) og í Belgsdalsbók sem 42. kap. í Kristinrètti hinum gamla (Fins. útg. II, 237), er ekki í Konúngsbókinni. Þar er um frændsemis spell hið minna og sifjaspell hið minna, og liggr þar við sekt til biskups.

Báðar þessar greinir munu vera lög frá þrettándu öld, frá hèrumbil 1220 til 1260, þó þau verði nú ekki tíðfærð nákvæmlega.

2) hèr er sett inn í Staðarhólsbók greinin um ómegð úr nýmælinu frá 1217, sem ekki á hèr við.

| | |
|---|---|
| hond. ne hvartki þeirra aꝏars bornom oc hvarki þeirra scal scírt hafa aꝏat. ne aꝏars born. Slict er mǫlt um prest[1] ef haꝏ· scirði konona eða born þeirra. | ne undir byscops hǫnd. oc hvartki þeirra annars bornum. oc hvartki scal scirt hafa anat ne aꝏars born. Slict er mǫlt vm prestiꝏ ef hann scírir kono eða bǫrn hennar sem vm Guðsifiar. |

Ef vèr nú berum saman lögin, svo sem þau standa hèr í dálkum eptir Konúngsbók og Staðarhólsbók, þá sjáum vèr, að í fyrra dálkinum, sem er Konúngsbók, stendr hin eldri reglan óhögguð, sem áðr var lýst, en í hinum síðara dálkinnm, í Staðarhólsbók, er nýmæli Magnús biskups frá 1217 komið inn í lögin, og greinunum vikið við eptir því; eru leyfin færð hèr fram um einn lið, samkvæmt ályktun kirkjuþíngsins í Lateran, en þó ekki svo fullkomlega, að ekki sè haldið gjöldunum, því þau eru ekki færð nema um hálfan lið. Áðr var laust við öll gjöld þegar að sjöunda manni var hvorttveggja; nú var og leyst frá öllu gjaldi þegar var að sjötta og sjöunda, sem áðr galt tíu aura. Þegar var að sjötta manni hvorttveggja var nú sett lægsta gjald, tíu aurar, þar sem áðr var hundrað álna. Að fimta og sjötta var nú sett aptr hundrað álna, þar sem áðr var tíund hin meiri. Væri að fimta manni hvorttveggja var nú sett tíund hin meiri, þar sem áðr var forboð.

Það er eitt eptirtektar vert við þessa tölu ættanna til hjónabands leyfis, að hún er í sömu hlutföllum eins og þær ættartölur í fornum lögum, sem frændmenn bygðu á kröfur til bóta eptir frændr sína, þá er vegnir voru. Slík ættartala kemr fram í Baugatali í Grágás, sem er mjög fornt, og þareð líkíngin verðr ljósust með því að setja hvorttveggja fram í töfluformi, skulum vèr láta hèr fylgja fyrst töfluna um Baugatal og þar næst töflur um ættatal til kvonfánga, eptir því sem leyfin voru fyrir og eptir 1217, og eptir því sem síðan var, samkvæmt Kristinrètti Árna biskups Þorlákssonar. Um töfluna eptir Baugatali getum vèr þess einúngis, að hèr eru að eins sýndir liðirnir, en hægt er fyrir hvern sem vill eptir því að fylla ættina á ýmsa vegu, eptir því sem til hagar, og að hugsa sèr N. N. eða hinn vegna fluttan í hvern lið sem vera skal, eptir því sem á frændsemi stendr einkum í hinum síðari liðum.

1) þessi grein hafa menn sagt að bæri með sèr, að hún væri frá þeim tíma meðan prestar voru eigingiptir, eða ekki ýngri en 1200. Þetta mun nú að vísu vera satt, að greinin mun vera eldri en svo, en varla verðr þó þessi sönnun bygð á efni hennar, af því það á eins við um barneignir og sambúð presta við „meðhjálpir" sínar, eins eptir sem áðr að þeim var bannað hjónaband.

BAUGATAL Í GRÁGÁS.

1.

föðurfaðir } baugr tvítugauri [= XX aura baugr]
móðurfaðir } baugþak IV aurar (= hálf mörk). þveiti XXXII.

2.

föðurbróðir } baugr tvímerkíngr [= II. marka baugr þ. e. XVI aurar] baugþak III aurar. þveiti XXIV.
móðurbróðir }

faðir > baugr þrímerkíngr [= III marka baugr þ. e. XXIV aurar] baugþak VI aurar. þveiti XLVIII.

3.

bræðrúngar } baugr tólfeyríngr [XII aura baugr] baugþak II aurar. þveiti XVI.
systrúngar }
systkinasynir }

N. N. (hinn vegni) } baugr þrímerkíngr (sem faðir).
bróðir (hins vegna) }

4.

bróðursonr } baugr tvímerkíngr o. s. frv. sem föðurbróðir.
systursonr }

sonr (hins vegna) } baugr þrímerkíngr (sem faðir eða bróðir).

manni firnari en bræðrúngr > mörk (VIII aura).

5.

næsta bræðra > V aura og I ortug.

sonar sonr } baugr tvítugauri o. s. frv. (sem föðurfaðir).
dóttur sonr }

manni firnari en næsta bræðra > hálfr fjórði eyrir.

6[1].

annara bræðra > II aura og I ortug.

manni firnari en annara bræðra > hálfr annar eyrir.

7.

þriðja bræðra > I eyrir
(þar fellr saktala eptir baugatali).

1) Hjá sumum hefir verið vafi um hver frændsemi sè þar sem talið er „annara bræðra" og „þriðja bræðra", og svo hefir farið einnig fyrir mèr í útgáfunni af Kristnisögu í 6. kap. (Bisk. s. I, 10-11 athgr. 5), þar sem sagt er frá lagaboði um guðlastan: „Þat sumar (996 eptir sögunni) á alþíngi var þat í lög tekit, at frændr hinna kristnu manna skyldu sækja um þá goðlöstun, nánari en *þriðja bræðra* ok firnari en *næsta bræðra*". Samkvæmt þessum lögum sóktu Ósvífrssynir þá um sumarið Stefni Þor-

ÆTTATAL TIL KVONFÁNGA Í GRÁGÁS.

(Faðir)

1.

bróðir / systir } fyrsti liðr . *primus gradus.*

2.

bræðrúngar og bræðúngur / systkinabörn / systrúngar og systrúngur } annar liðr . *secundus gradus.*

manni firnari en bræðrúngar (= að öðrum og þriðja).

3.

næsta bræðra (þrimenníngar) } þriði liðr . *tertius gradus.*

manni firnari en næsta bræðra = að þriðja og fjórða.

4.

annara bræðra (fjórmenníngar) } fjórði liðr . *quartus gradus.*

manni firnari en annara bræðra = að fjórða og fimta.

| Fyrir 1217. | 5. | Eptir 1217. |
|---|---|---|
| (bannað) | þriðja bræðra (fimmenníngar) } fimti liðr. *quintus gradus.* | (tíund hin meiri) |
| (tíund hin meiri VI merkr = c áln.) | manni firnari en þriðja bræðra = að fimta og sjötta. | (c álna í lögrèttu) |
| | 6. | |
| (c álna í lögrèttu, eða VI merkr) | at sjötta manni hvorttveggja } sjötti liðr *sextus gradus.* | (x aura í lögrèttu) |
| (x aura í lögrèttu, eða III merkr) | manni firnari = að sjötta og sjöunda. | (frjálst) |
| | 7. | |
| (frjálst) | at sjöunda manni hvorttveggja } sjöundi liðr *septimus gradus.* | (frjálst) |

gilsson til sektar um kristni, en frændsemi þeirra var þannig (Landnámab. 2, 11: Ísl. s. 1843, I, 95; Fornm. s. I, 285-86).

Ketill flatnefr

| Helgi bjólan | | Björn austræni |
|---|---|---|
| Eilifr | (bræðrúngar) | Óttarr |
| Þorgils | (næsta bræðra) | Helgi |
| Stefnir | (annara bræðra) | Ósvifr hinn spaki |
| | | Ósvífrssynir. |

þegar lengra leið, og biskupar fóru einir að taka sektir og leyfisgjöld í hjónabandsmálum, varð á þessu enn nokkur breytíng, og sjáum vèr hana fyrst koma fram í Kristinrètti Árna biskups og skipunum hans, en því til styrkíngar og samburðar höfum vèr skipanir erkibiskupa í Noregi og hina norrænu Kristinrètti [1]. Eptir Kristinrètti Árna biskups verðr ættartalan þannig:

1.

föðurmóðir } (bannað)
móðurmóðir

2.

{móðir (stjúpmóðir) föðursystir } (bannað)
{tengdamóðir (móðir konu manns) móðursystir

3.

{N. N. (maðr) tengda systir (systir konu manns) } (bannað)
{systir bróður kona (kona bróður manns

4.

{sonar kona . dóttir (stjúpdóttir) . systurdóttir } (bannað)
bróðurdóttir.

bræðrúnga } skilnaðr, skriptir við biskup sjálfan; gjald til biskups hálf fimta
systrúnga mörk (36 aurar = 1 hdr. 96 áln.).

5.

dótturdóttir } (bannað)
sonardóttir

þrimenníngar: skilnaðr, skriptir; gjald til biskups þrjár merkr (24 aurar = 1 hdr. 24 áln.).

6.

at fjórða manni jafnlángt framkomin (fjórmenníngar): skilnaðr, skriptir; gjald til biskups hálf önnur mörk (12 aurar = 72 áln.).

7.

at fimta manni jafnlángt framkomin } (frjálst)
(fimmenníngar)

Ósvífrssynir og Stefnir voru því „manni firnari en annara bræðra", eða sem vèr nú köllum „að fjórða og fimta". Það er því auðsætt, að það sem Ólafs saga Tryggvasonar hefir (Fornm. s. I, 285): „þrimenningar ok fjórmenníngar ok þar í milli", er rángt, því Ósvifrssynir voru fjarskyldari en svo, og gátu því ekki verið sóknaraðilar að lögum, en rètt væri orðað ef þar stæði „firnari en þrimenníngar ok nánari en fimmenníngar", því næsta bræðra eru sama og vèr köllum nú og höfum lengi kallað þrimenn-ínga, annara bræðra = fjórmenníngar og þriðja bræðra = fimmenningar, og þarf að leiðrètta athugagreinina við Kristnisögu eptir því. — En því til staðfestu, að næsta bræðra sè hið sama og þrimenníngar, sjá enn framar Ólafs sögu hins helga (Christiania 1849), kap. 70, bls. 54, samanb. við Fornm. s. I, 287 (Áslákr fitjaskalli næsta bræðrúngr Erlíngs Skjálgssonar), og sömuleiðis Grágás í þingsk. þætti kap. 35 (Fins. I, 62) samanb. við Njál. kap. 143, bls. 235 (þrimenningr Marðar ruddr úr kvið eptir grein í Grágás, sem skipar næsta bræðra að rísa úr kviði).

1) „Ekki skulu þeir menn saman gánga, er nánari sè at frændsemi

Ef vèr berum saman þær reglur, sem fram koma eptir Kristinrètti Árna biskups, þá sjáum vèr, að þeir liðir falla aptanaf, sem áðr voru leyfðir með gjaldi til lögrèttunnar; hafa þessir liðir þá líklega verið frjálsir frá því 1275, eða fyrr, en þess verðum vèr varir, að sektagjöld Árna biskups eru nokkru hærri en í Noregi voru um sama leyti, og sama kemr fram bæði fyr og síðar á Íslandi. Þannig heldr þetta nýmæli Magnús biskups 1217 gjöldum fyrir kvonfáng sexmenninga, sem þó var frjálst eptir ályktun kirkjuþíngsins í Lateran, og hefir líklega verið svo annarstaðar. Árni biskup setr gjöld bræðrúnga, þrimenninga og fjórmenninga til 36 aura, 24 aura og 12 aura, en í Kristinrètti Jóns erkibiskups 1280 eru þessi gjöld: 12 aura, 10 aura og 8 aura[1]. — Í skipun Jóns biskups Halldórssonar í Skálholti 1326 er það talið með bannssökum að binda hjúskap „við fjórmenníng sinn eðr þaðan af skyldara að frændsemi eðr sifskap" (Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 75), og í skipun Pètrs biskups Nikolássonar á Hólum (1392—1394) er skipað, að „ef maðr verðr brotlegr með frændkonu sinni at þriðja ok fjórða, sekr átján aurum ok vatnfasti XXX nátta", og samsvarar það sektum í Kristinrètti Árna. Að öðru leyti voru kvonfaung í Noregi leyfð í sömu liðum og á Íslandi, sem sjá má á skipun Eilífs erkibiskups í Niðarósi frá 1320: „Þat skal ok opt fyrir folki lýsaz. at engin maðr ma konu fa ser skylldari at frendsemi eðr sifsköpum en at fimta manni se til annars hvars þeirra at telia. En

eðr sifjum en at fimta manni hvórt, nema biskup vili framar orlof til gefa". Statut. Árna bisk. Þorlákssonar 1269 í F. Joh. Hist. Eccl. II, 52. — „Hefir maðr frændkonu sina eðr sifkonu at fjórða manni frá systkinum að telja jafnlángt framkomin, þá skulu þau skiljast ok gjalda biskupi XII aura ok gánga til skripta; — hefir maðr þrimenníng sinn at líkams losta, þá skulu þau skiljast ok gjalda biskupi þrjár merkr ok gánga til skripta; — tekr maðr at líkams losta systrúng sinn, bræðrúng eðr hálfbræðrúng, þá skulu þau skiljast ok gjalda biskupi hálfa fimtu mörk, ok gánga til skripta við sjálfan biskup". Kristinr. Árna bisk. Þorlákssonar 1275, kap. 20 (Thorkel. útg. bls. 140). — Sama leyfi og sömu sektir eru taldar í Gulaþings Kristinrètti kap. 30 (Norges gamle Love II, 322, sbr. Gulaþings Kristinr. í Viðbæti, kap. 25; NgL. II, 334—335) og enn hinar sömu í Borgarþings Kristinrètti, kap. 21 (Norg. g. Love II, 302).

1) Kristinrèttr Jóns erkibiskups, kap. 47 (Norg. g. L. II, 372): „Heuir maðr frendkono sina eða sifkono at fiorða manne fra sydzskinum. iamfaret att tælia. þa skulu þau skiliazst. oc gialde byscupi mork. oc gange till skripta. Heuir han þrimenningh sin att likams losta. þa skulu þau skiliazst. ok gange till scripta. oc gialde byscupi x aura. Tækr maðr at likams losta systrungh sin eða bræðrongh þa skulu þau skiliazsth. oc ganga till scripta. oc gialda byscupi XII. aura. En ef maðr tækr at likams losta foður moðor. foður systur. moðor moðor. moðor systur. sunar dottor. dottor dottor. broðor dottor eða systur dottor. þa skulu þau skiliazst ok ganga till skripta. oc gialda byscupi .iij. merkr." — Eptir Kristinrètti Árna biskups þá liggr það við afbroti með þessum konum sem hèr eru taldar, að bæði voru friðlaus og fè þeirra allt upptækt á konúngs náð og biskups.

fiorða manni af hvarri tveggiu halfu eðr[1] nanara er fyrirboðit at fá utan biskup lofi eðr kirkjunnar umboðsmaðr" (N. g. Love III, 252; Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 481). Og hið sama vottar skipan Páls erkibiskups (1336—1346), með þessum orðum: „Item sa sem festiz eða giptiz vitande nermeir en i fimta kuizsl a annan huern væghin (þ. e. = að fjórða og fimta) at frendsemi eða sifscopum. ..... falla i ban af scalfu verkinu" (N. g. L III, 287; F. Joh. H. E. I, 522).

Fyrir siðaskiptin á Íslandi mun það enn hafa staðið um hjónabönd, sem skipað er fyrir í Kristinrètti Árna biskups, að kvonfaung væri bönnuð með fjórmenníngum og nánari. Kirkjuregla eða Ordinantia Kristjáns þriðja 2. Septbr. 1537 (Ísl. Lagas. I, 45) bannar hjónaband með þrimenníngum og nánari, eða með öðrum orðum: leyfir hjónabönd með fjórmenníngum og með þriðja og fjórða; en þó reglugjörð þessi væri samþykt fyrir Skálholts stipti á alþíngi 1541, þá finnum vèr, að Gizur biskup Einarsson hefir látið það vera komið undir sínum eigin vilja og kríngumstæðum, hvort leyfi skyldi gefa til kvonfángs fjórmenníngum, eða þeim sem voru að þriðja og fjórða. 1541 skipar hann manni að skilja sambúð við konu, af því þau væri að þriðja og fjórða; 1542, 1544 og 1546 gefr hann aptr leyfi til hjónabands með fjórmenníngum, sem þó var beinlínis leyft í kirkjureglunni. Á Íslandi hefir það verið fast í mönnum lengi fram eptir, að fjórmennínga kvonfaung væri leyfileg, og þó líklega með samþykki biskups, en að þriðja og fjórða væri ekki leyft hjónaband, nema með konúngs samþykki, og svo er tekið fram í Stóradómi (Ísl. Lagas. I, 87). Úr þessu var skorið með opnu brèfi 29. April 1585, sem ákveðr, að hèðan af skuli leyfð vera kvonfaung að þriðja og fjórða (Finn. Joh. H. E. III, 27 sbr. 48; Magn. Ket. II, 107). Þar eptir var farið að gefa konúngsleyfi til kvonfánga í þriðja lið (þrimenníngsleyfi), og kostuðu þau stundum ærna penínga, svo ekki þurfti þessvegna að lá svo harðla mjög hinum pápisku biskupum[2]; seinna fóru að tíðkast meira leyfi til hjónabands að öðrum og þriðja, öðrum og fjórða og í öðrum lið (syskinabarna). Stóð þetta þángað til fyrst tilskipanirnar 27. Decbr. 1770 og 3. April 1771, og síðan tilskipan 23. Mai 1800 skipuðu um þetta ákveðnar reglur.

3. Hið þriðja atriði er um ómegð, og er það í báðum bókum, en þó er það í Staðarhólsbók komið inn á þann hátt, að ritarinn hefir tekið það einsog óvart með, þar sem hann hefir

1) *aðrir hafa rángt:* en.

2) 1641 mátti einn maðr á Íslandi gjalda 200 dali (spesíur) fyrir þrimennings leyfi; það var sama og 50 hundraða. 1653 skyldi greiða 30 dali og 1657 50 dali til fátækra fyrir þrimennings leyfi; 1655 átti einn að gjalda 100 dali til byggingar á Bessastaða kirkju fyrir hjónabands leyfi að öðrum og þriðja.

tekið greinirnar um kvonfaung eptir nýmælinu frá 1217, og sett þær í lögbókina. þetta er svo augljóst af því, að þessi grein um ómegðina á alls ekki við þar sem hún er nú sett inn í Staðarhólsbók (A. M. útg. I, 309-310), en þar af má aptr sjá með fullri vissu, að þessi grein hefir fylgt nýmælinu frá upphafi, og ekki verið rituð sèrílagi; mun hún því einmitt að efninu til vera lögtekin 1217, ásamt hinum, og til hennar lýtr það sem í Annálum segir, að þetta ár hafi verið færð ómegð í lögum.

En í hverju þessi færsla ómegðar sè innifalin, sem Annálar segja frá, það sjáum vèr enn með því, að bera saman Konúngsbók og Staðarhólsbók. Hèr er eins og áðr, að Konúngsbók hefir eldri lögin óbreytt, en í Staðarhólsbók er búið að breyta þeim, og það einmitt samkvæmt nýmæli þessu, enda stendr og utanmáls í bókinni sjálfri, að greinin sè „nýmæli" eins og hún er þar. Vèr skulum því taka báðar bækrnar eins og áðr, og leiða fyrir sjónir hver munrinn er.

KONÚNGSBÓK

(bls. 108ª Ómagabálk. kap. 143. Fins. Grág II, 25-26.)

Eigi er maðr scylðr at taca við þeim monnom er honom er maɴe firnare eɴ næsta brøðre eða aɴaʀa brøðre nema hann eigi ser VI. missera biorg oc sinom omǫgom oc sva þeim er þa byðzc.

Maðr a cost at beina X. VI. alna a'rom til handa þeim omaga er honom er f[i]rnare eɴ aɴaʀa brøðre eða þriðia brøðre eða taca við honom ella.

Maðr er eigi scyldr at taca við þeim manne er honom er maɴe firnare eɴ aɴaʀa brøðre oc eigi er hann scyldr at taca við þriðia brøþra sinom nema hann eigi sva a'ra at honom se siálfom VIII. missera biorg oc hans scullda liðe oc sva þeim er þa er honom boðiɴ.

STAÐARHÓLSBÓK

(bls. 49ᵇ Ómagab. kap. XXVII. A. M. útg. I, 285-286.)

... Eigi scal maðr scylldr at taca omaga þeim er hann er aɴaʀa brøð[r]e eða maɴe nanare. nema hann eigi ser oc omogvm sinom oc sva þeim er byðz VIII. missara biorg.

Eɴ maɴe firnare scal fiɴa til X. a'ra vǫro a hveriom misserom. oc er hann þa eigi scyldr at taca við þeim omaga.

Eɴ ef hann vill eigi sva til fiɴa. þa ma honom føra þaɴ omaga. ef er. VIII. missera biǫrg. þeim omogvm er fvr ero. oc sva þeim er þa byðz.

þegar vèr skoðum hvað hèr er sett til reglu, þá sjáum vèr muninn bráðlega. það er hin eldri reglan, að næsta bræðra

(þrimenníng) er maðr skyldr að taka ómaga frænda sinn; manni firnari eða annara bræðra (að þriðja og fjórða eða fjórmenníng) því að eins, að maðr hafi sex missera björg eptir sem áðr; en þegar ómagi er manni firnari en annara bræðra, eða hann er þriðja bræðri (að fjórða og fimta eða fimmenníngr), þá gat maðr leyst sig frá að taka við honum með því að greiða tín aura (á ári?), enda var hann ekki skyldugr að taka slíkan ómaga nema hann hefði átta missera björg eptir sem áðr. — Hin nýjari reglan er sú, að næsta bræðra (þrimenníng) sinn er maðr skyldr að taka eins og eptir eldri lögum; þann ómaga, sem var manni nánari en annara bræðra (= manni firnari en næsta bræðra), eða annara bræðri manns (að þriðja og fjórða eða fjórmenníngr), var maðr eigi skyldr að taka nema hann hefði eptir sem áðr átta missera björg; þegar ómagi var manni firnari en annara bræðra (að fjórða og fimta), gat maðr leyst sig frá að taka við honum, með því að greiða tíu aura á hverjum misserum, en ef hann vildi það ekki, þá mátti færa honum ómagann, og þó því að eins, að hann hefði átta missera björg eptir sem áðr. Breytíngin verðr þá þessi, að eptir síðari reglunni er maðr ábyrgðarlaus við þriðja bræðra sinn (fimmenníng) þó hann verði ómagi, en áðr varð maðr skuldbundinn til að greiða með honum tíu aura eða hálft hundrað (á ári?), eða taka hann að öðrum kosti, ef maðr hafði ákveðin efni til. Þessi breytíng kemr einmitt fram eptir því sem nýmælið er orðað í Konúngsbók, þar sem segir: að „nú" sè af tekið að skylda menn til að leggja til ómegðar þriðja bræðra síns tíu aura. Um hina breytínguna er hèr ekki getið, sem er sú, að eptir eldri reglunni skyldi átta missera björg vera til viðtöku fjarskyldari mönnum í ómegð, en sex missera björg til viðtöku hinum nánari; þarámóti er átta missera björg tiltekin handa hvorumtveggja í síðari reglunni. En það er nú ekki hægt að ákveða, hvort þessi breytíng hafi fylgt nýmælinu frá 1217 eða ekki.

---

## A.

Eptir Konúngsbókinni af Grágás, í bókasafni konúngs: Gamle kongel. Saml. Nr. 1157 í Fol., bls. 16. Lýsíng handrits þessa sjá að framan bls. 73-77. Þar er nýmæli þetta sem kapítuli sèr, rètt á eptir Kristinrètti Þorláks og Ketils, því í niðrlagi kapítulans sem á undan er standa þau orð sem enda Kristinrètt: „Sva settv þeir Ketill byskop ok thorlakr byskop" o. s. frv. (sbr. bls. 74). — Prentað eptir skinnbókinni í útgáfu Vilhjálms Finsens af Grágás, sem 18. kap. í Kristinna laga þætti (I, 36—37); en eptir afskript af skinnbókinni er það prentað áðr í útgáfu Thorkelins af Kristinrètti Þorláks

og Ketils (Havn. & Lips. 1776. 8vo, bls. 164), og er þar talið sem 44. kap. í Kristinréttinum.

---

nymęli kvanfong[1] manna[2].

Þat var nymeli gort þa er magnvs Gizorar svn var byskvp orþin.

1.

at nv er logskyllt at fasta. nętr þer. viij. er aþr voro eigi log skylldar. ein er iola nott. onnvr pascha nott. iij. fvr vppstigningar dag. iiij. fvr huitz sunnv dag. oc miþuikv nętr. iiij. vm langafostv. þer er eigi voro aþr logteknar.

2.

Þat var annat nymęli. at [iafna ætt[3] skal bygia. sifiar oc fręndsemi. at .v. mani hvartvegia. þar sem hiuskapar raþvm skal raþa. oc skal þar er frendsemi er at .v. mani giallda ena meiri tiund.

en þar er frendsemi er at .v. mani oc .vi. skal gialda .c. alna.

En þar er at .vi. mani er hvarttvegia. skal gialda. x. avra.

Þa ligr ecki fe gialld a þaþan fra. þott hivskapar raþvm se raþit.

3.

Þat var fornt laugmal þar er .iij. bręþra er með monvm at frendsemi. at þar skylldi til ǫmegðar legia .x. avra. en nv er þat af tekit.

---

B.

Eptir Staðarhólsbók af Grágás í safni Árna Magnússonar Nr. 334 í Fol., bls. 55. Þessari skinnbók er lýst hèr að framan, bls. 86—88. Þar í bókinni er nýmæli þetta mestallt sett inn í lögin, og er talið þar þriði kapítuli í Festaþætti. Eptir skinnbókinni er

1) kvanf. (*má lesa* kvanfang *eða* kvonfong), skb.

2) Fyrirsögn og upphafsstafr dimmrautt. Greinatölunum er hèr bætt við, til aðgreiningar atriðunum.

3) *frá [ misritað í skinnbókinni, og á að lesa* jafnnait, *einsog í* B.

það prentað í útgáfu Árna Magnússonar nefndarinnar af Grágás (Havn. 1829. í 4to. í tveim bindum) I, 308—310.

---

Of sifiar. oc meire tiund. nymæli. III.

Þat er nymæli at iafn nait scal bygia sifiar oc frændsemi at fimta manne hvart.

En ef at fimta manne er hvartvegia at frændzsemi þa scolo þar raða raðum ef þar vilia. En þar scolo gera tiund ina meire af fe sino ǫllo saman. Enda scal bera C. alna af þvi tiundar feno ilǫgrétto ef sva vinnz til. En þoat tiundin se mine oc scal þo bera C. alna ilǫgrétto sem aðr. En ef hann gørir eigi tiundina meire. þa varðar fior Bargs Garð. oc scal qveðia .IX. bva til aþingi. oc a huerr sǫc er vill.

Ef nanara er en sva. þa varðar fior Bargs Garð. samfǫrin. nema þar geti þan quið at han vissi eigi frændsemi með þeim. þa er hann gecc at eiga kono þa. enda se firnara en anana brøðra. Eigi scal fevite þa døma. en scilnað scal døma með þeim. oc versc hann sva malino.

En ef frændsemi er at V$^{ta}$ mane oc .VI$^{ta}$ þa scal bera C. alna ilǫgrétto.

En ef VI$^{ta}$ manne er hvártvegia. þa scal X. aura.

Þar er þriðia brøþra er með monnum at frænzsemí. hafðe þat lǫgmál averit. at þar scylldi til omegðar legia X. aura. en nv er þat aftekit.

---

## 99. [1218]. á alþingi.

Máldagi Kirkjubæjar klaustrs á Síðu, þegar forræði staðarins og eigna hans voru dæmd biskupi í Skálaholti.

Þessi skrá er prentuð hèr eptir tveim bókum, og er önnur þeirra máldagabók Odds biskups Einarssonar frá 1598, sem er í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol., bls. 87 (sbr. Nr. 49 hèr að framan, bls. 252—254); en önnur er máldagabókin D 12 í safni Steingríms biskups í stiptisbókasafninu í Reykjavík, bl. 52 (sbr. Nr. 24, bls. 167—169). Utanmáls í máldagabók Odds biskups er ritað „Afgamalt", einsog víðar í bókinni þar sem hinar fornustu skrár eru ritaðar.

Um tíma þann sem máldaginn er saminn verðr einúngis ákveðið eptir rannsóknum um aldr þeirra manna sem nefndir eru, og eru flestir þeirra kunnugir og frægir menn: Ormr Jónsson mun vera að líkindum Ormr Jónsson Breiðbælíngr, sonr Jóns Loptssonar í Odda og hálfbróðir Sæmundar í Odda, en albróðir Páls biskups (Sturl. 2, 1: I, 48); hann bjó á Breiðabólstað í Fljótshlíð, og var veginn í Vestmannaeyjum 6. Aug. 1218 (Sturl. 4, 22: II, 47; ísl. Ann.; Ártíðaskrá hin íslenzka í Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 597 og í Langeb. Script. Rerr. Dann. II, 513). En ef hann er sá sem hèr er nefndr, sem líklegast er, þá hlýtr máldaginn að vera „hafðr í lögrèttu" ekki seinna en 1218 á alþíngi. Annar maðr, sem til mætti nefna, er Ormr Jónsson Svínfellíngr († 1241). — Teitr Þorvaldsson Gizurarsonar varð lögsögumaðr 1219 (ísl.Ann.), og þareð hann er ekki nefndr svo hèr í máldaganum, þá er það vottr þess, að máldaginn sè fyr gjörðr en hann tók lögsögn († 1259). — Einar Þorvaldsson Gizurarsonar bróðir hans († 1240) er nefndr á stöku stöðum í Sturlúnga sögu[1]. Gizur, sem síðan varð jarl Noregs konúngs, er ekki nefndr hèr með sonum Þorvalds, því hann var þá úngr (fæddr 1209), og er það enn einn vottr um, að máldaginn sè ekki ýngri en hèr er sett. — Helgi Þorsteinsson mun án efa vera Digr-Helgi úr Kirkjubæ († 1235), og þeir Ögmundr og Arnór synir hans; er Ögmundr kunnugr af deilum sínum við þá sonu Orms Svínfellíngs, en Arnór varð í elli sinni ábóti í Viðey (1247), og er talinn þar fyrstr ábóti († 1249). Hina þrjá af uppsöguvottunum vitum vèr ekki að greina.

Um votta þá, sem tilgreindir eru þegar máldaginn var borinn í lögrèttu, vitum vèr meiri skil. Þorvaldr Gizurarson er hinn nafnkunni höfðíngi, sonr Gizurar Hallssonar og bróðir Magnús biskups; hann bjó í Hruna og andaðist kanoki í Viðey 1235. Synir hans eru án efa þeir Teitr og Einar, sem áðr voru nefndir. Hjalti biskupsson er sonr Magnús biskups (Sturl. 3, 5: I, 206), og sýnir hans nafn, að máldaginn er settr eptir að Magnús Gizurarson var biskup orðinn, þ. e. eptir 1216. Hjalti var í Örlygstaða bardaga móti Sturlúngum, og kemr víðar við Sturlúnga sögu († 1248). — Magnús prestr Guðmundarson mun óefað vera Magnús á Þíngvöllum, sonr Guðmundar gríss; hann var kosinn til biskups eptir Magnús Gizurarson og fór utan 1236, en fèkk ekki biskupsvígslu, fór síðan til Róms og kom út aptr, og druknaði 1240. — Björn prestr er að líkindum Kygri-Björn prestr Hjaltason, sem var kosinn til biskups að Hólum eptir Guðmund Arason og fór utan 1237, en fèkk ekki biskupsvígslu og andaðist í Rómför um vetrinn eptir. — Hallkell prestr Magnússon mun vera sá, sem vígðr var síðan til ábóta að Helgafelli (1226), og andaðist þar 1244 (Sturl. 5,

1) i registrinu er honum blandað saman við báða sonu Þorvalds Vatnsfirðings.

9: II, 120; Ísl. Ann.; F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 68). — Ormr Jónsson hygg eg muni vera heldr Ormr Breiðbælíngr, sem áðr var nefndr, en Ormr Svínfellíngr. — Helgi þorsteinsson er óefað Digr-Helgi frá Kirkjubæ, eins og fyr, og synir hans þeir Ögmundr og Arnór. sem fyr voru nefndir.

Ef vèr berum saman allt sem hèr er sagt, sjáum vèr, að máldaginn getr ekki verið eldri en frá alþíngi 1216, og ekki ýngri en frá alþíngi 1218.

---

[1]Mariu kirkia [sv er stendr[2] j kirkivbæ a j skrvði sinv oc [bokvm oc[3] klvckvm. oc allt til virt. hvndrað hvndraða oc tiu tyge[4] hvndraða. Land þat er hon stendr a. oc hravnland með ollvm gæðvm oc afvinnv[5]. mork. oc mortvngv. vikar land hallt oc tvngv oc ravðalækiar backa halfan. steinsmyrar .ij. oc fliota land. þessi lond liggia[6] með ollvm gæðvm. melvm oc fiorvm oc skogvm til kirkivbæiar.

Or Asgarði skal reiða hvndrað oc fæða[7] navt oc hafa omaga .iij. manvðr[8].

or holmvm .ij. vetter matar.
af heiði halfa vett smiors. oc hrvt vetrgamlan.
or þyckvabæ[9] .vij. avra.
fra vppsolvm halfa mork.
af geirlandi .VI. avra.
af breiðabolstað .xij. avra.
fra kelldvgnvpi halfa mork.
[fra þvera mork[10].

þetta skal reiða hver misseri j kirkivbæ.

Þar fylgia þrir tigir kva. oc .vij. kvgilldi gelldra navta. hallt annat hvndrað asavðar. sex tygir gelldinga oc sex tigir vetrgamalla savða. þrir tigir hrossa. oc halfr fiorði togr hvndraða j hvsbvnaði oc bvsgognvm.

Staðr þessi oc fiarhlvtr var dæmdr vndir forræði biskvps

---

1) Kirckiu Bær, *fyrirsögn* i *D 12.* 2) frá [ sl. *D 12.*
3) frá [ sl. *D 12.* 4) tiu tiga, *D 12.*
5) *þannig leiðrètt;* af iñv, *263*; a fit z, *D 12.*
6) thil, *b. v. D 12.* 7) *þann. D 12*; feiða, *263.*
8) manuði, *D 12.* 9) eyða fyrir nafninu i *D 12.*
10) *frá [ þann. D 12*; frá þverey .ij. avra, *263.*

þess er j skalahollti er. með slikri afvinnv. sem honvm synist at lata vera.

En þessir vorv doms vppsogv vottar.
ormr joansson[1]
Teitr oc Einar þorvallz synir.
helgi þorsteinsson.
Ogmvndr oc arnon helga synir.
pǫll[2] finnbiarnarson
oc eyiolfr svgandason
oc hrafn arnason.

þessi maldagi var hafðr j logrettv næsta svmar eptir. er staðar forræðin vorv dæmd biskvpi þeim er j skalahollti er. oc þessa fiar lvtar. oc vottar at nefndir siðan.
þorvalldr G[izvrar] s[on] oc synir hans.
hiallti biskvps [son][3].
magnvs prestr gvðm[vndar] s[on].
biorn prestr hial[ta][4] son.
hallkell prestr magnvs son.
ormr [joans son[5].
helgi þorsteins son oc synir hans.

---

## 100. [um 1218].

Máldagi um kvikfè þykkvabæjar klaustrs, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

þessi skrá er tekin eptir tveim bókum, og er önnur þeirra máldagabók Odds biskups Einarssonar frá 1598, sem er Nr. 263 í Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 85, og er þar kölluð „gamall máldagi" (sbr. Nr. 49, bls. 252—254 hèr að framan), en önnur er bókin D 12 í safni Steingríms biskups í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, bl. 52—53 (sbr. Nr. 24 að framan).

Tímatalið er á skrá þessari sett að ágizkun, því það eina sem verðr sèð á henni sjálfri það er, að hún er forn; en það þótti sennilegt, að heimfæra skrána frá þykkvabæjar klaustri

---

1) ioaull (= ioanff., *rángt lesið*), ***D 12***. 2) poll, ***263***; pall, ***D 12***.
3) Bp̄s, ***263***; Bp̄, ***D 12***. 4) *þann.* (hial') ***D 12***; hials'., ***263***.
5) Jon son, ***D 12***.

til þess tíma, sem vèr vitum að Magnús biskup Gizurarson gjörði skrá um Kirkjubæjar klaustr og eignir þess.

---

[1]Staðr[2] j þiockvabæ[3] a fiora tygi[4] kva heima oc .v. með vtlondvm. oxn[5] .xi. tvævetrir oc .iij.[6] þrevetrir. ij. [fiogra vetra gamlir[7]. einn .viij.[8] vetra. vi.[9] fimm vetra. ij. griðvngar tvevetrir.[10] vetrgomvl navt. xxv.[11] kalfar[12] .xxij. halfr tivndi togr[13] gelldra savða. ellri en vetr gamlir. tiv tygir annars hvndraðs asavðar heima. vetrgamlir savðir .xvij. oc cc. lx. gymbra[14] lambaðar. haga lomb halfr tolfti togr[15] annars hvndraðs[. fiorvtygir asavðar annars hvndraðs[16] með vtlondvm. hross einv miðr en fiorir tygir.

---

## 101. [um 1220].

Skrá um fjárheimtur og leigufè og sauðatolla Þingeyra klaustrs.

Þess var getið áðr, við skrána um Spákonuarf (Nr. 80, bls. 304—306), að í safni Árna Magnússonar fyndist í Nr. 279 í 4to ymsar skrár frá Þingeyra klaustri. Á hinu sama blaði, sem stendr á skráin um Spákonuarf, er og ritað sú skrá sem hèr fylgir eptir. Skráin um Spákonuarf endar með fullri línu nær á miðri blaðsíðu, en með næstu línu byrjar þessi skrá, og ritað rètt sem framhald af hinni, með litlum upphafsstaf; þó er það bæði þekkjanlegt á höndinni, að hún er önnur en á hinni skránni, og á efninu, að þessi á ekki skylt við hina um Spákonuarf, enda virðist og ekki þessi skrá vera ritað öldúngis

1) þyckua Bær, *fyrirsögn í D 12.* 2) *þann. D 12;* staðurinn, *263.*
3) *þann. 263;* þyckua Bæ, *D 12.* 4) fiorvtyge, *263.*
5) yxn, *263.* 6) þrir, *263.* 7) *frá* [ fiogura vetra, *263.*
8) atta, *263.*
9) iij., *D 12, og er óvíst hvort rèttara hefir verið lesið* (vi *eða* iii).
10) tvævetrir, *263.*
11) xxij., *D 12, og er óvíst hvort rèttara hefir verið lesið* (v *eða* ii).
12) *þann. 263* (kalfa); kaplar, *D 12, og hefir það verið rángt lesið, sem sèst á því, að* hross *eru talin síðast í máldaganum.*
13) tugr, *263.* 14) gymbrar, *D 12.* 15) tugur, *263.*
16) frá [ tekið eptir *263;* sl. *D 12* því, og mun vera ritvilla.

samtíða hinni, þó hún sè mjög forn, og hefi eg því sett aldrsmun þeirra til hèrumbil tuttugu ára.

Nú skal lýsa skrá þessari nokkru ljósar. Hún er á bls. 24 og 25 í skinnblaða safni því er áðr var getið (Nr. 279 4to). Eru fyrst tíu línur ofan af blaðsíðunni síðari hlutinn af skránni um Spákonuarf; þá kemr fyrsti kaflinn af þessari skrá, og er um vaxtafè, sem „staðrinn" átti hjá ymsum mönnum. Þar er enginn efi á, að „staðrinn" muni vera Þíngeyra staðr, þ. e. Þíngeyra klaustr, en ekki Hóla staðr, því allflest bæjanöfn, sem í skránni eru, eiga heima í Húnavatns sýslu enn í dag; getum vèr því með fullum líkindum þar af ályktað, að manna nöfnin muni einnig flest eða öll vera úr Húnavatns þíngi. Eptirtektar vert er nafnið Þorfinns jarlaskálds; það nafn finnum vèr hvergi annarstaðar, og ekki er þess getið í Orkneyínga sögu nè í Sturlúngu, nè í Skáldatali: mun því mega ætla, að þessi maðr hafi ort kvæði um Orkneyja-jarla og verið síðan kallaðr jarlaskáld, og hafi átt heima í Húnavatns þíngi. Annað nafn er Þorsteinn Jónsson, ef það skyldi vera Þorsteinn bóndi í Hvammi í Vatnsdal, sem kemr víða við Sturlúngu (Sturl. 7, 17: III, 37 og víðar, sbr. Ísl. s. 1813, I, 358—359), faðir herra Ásgríms Þorsteinssonar. Þorsteinn bjó í Hvammi 1243, og átti þá vaxin börn, svo að tímans vegna gæti hann verið sá sem hèr er nefndr. Þessi hinn fyrsti kafli fyllir sjö heilar línur og tæpa hálfa hina áttundu.

Þá er autt það sem eptir er línunnar og tveggja lína bil, en síðan fylgir annar kafli um lausafè, sem standi á nokkrum bæjum er allir eru í Húnavatnsþíngi, og hjá nokkrum mönnum þar; mun ekki vera efi á, að þetta sè einnig fè Þíngeyra klaustrs, og sjá menn, að klaustrið hefir um þessar mundir haft ekki lítið fè í veltu á leigustöðum. Af bæjum þeim sem nefndir eru í þessum kafla eru fimm hinir fyrstu í Þorkelshóls hrepp, sem nú er kallaðr (Johnsens Jarðatal í Húnav. s. 5, 142, 160, 141, 139 og 163), en Þóreyjarnúpr er úti í Kirkjuhvamms hrepp, sem nú er nefndr (Jarðat. í Húnav. s. 3, 65); vegna afstöðunnar getr einnig Ós verið það sem nú heitir Litli-Ós í sama hrepp (3, 72). Þessi kafli skrárinnar er ritaðr með sömu hendi og hinn fyrri, og tekr hann þrjár heilar línur og hálfa, en það sem þá er eptir er eyða, og er það neðst á blaðsíðu.

Hinumegin á opnunni, á næstu blaðsíðu (bls. 25), byrjar aptr með sömu hendi samskonar skrá, og fyllir hún svo að kalla tvær línur heilar, svo að ekki er eptir autt nema sem svarar tíu stafa bili. — Bær og Rèttarholt, sem hèr er talið í þessum kafla, eru líklega tveir bæir í Skagafirði, þó er þetta einúngis víst um Rèttarholt (Johns. Jarðat. í Skagaf. s. 6,184 í Akra hrepp) en Bær getr verið bæði Bær á Höfðaströnd (í Skagaf. s. 9,292), og Litli-Bær í Vindhælis hrepp í Húnav. sýslu (Húnav. s. 12, 401). Ef báðir bæirnir væri úr Skaga-

firði, væri einnig líklegt, að þeir menn sem hèr eru nefndir hafi verið Skagfirðíngar.

Eptir þennan kafla fylgir eyða, sem svarar tæpu þriggja lína rúmi; þar í eru rituð nokkur orð, og virðist það vera með sömu hendinni, en þessi orð eru svo svipuð upphafinu á þeim kaflanum sem eptir kemr, að það er að sjá svo sem ritarinn hafi verið byrjaðr þar á næsta kaflanum, en hafi hugsað sig um og þótt þurfa meira bil, og byrjað því lengra burtu.

Þá er seinasti kaflinn, og eru fyrst nær því tvær línur með fornu hendinni, en síðan þrjár línur fullar með nokkuð ólíkri stafagerð, en þó fornri. Þessi skrá hljóðar um sauðatolla, og mun það enn vera óefað, að þessir tollar hafi heyrt undir Þíngeyra klaustr. Eptir efninu verðr ekki annað sèð, en að þessi kafli allr sè ein heild sèr, og þessvegna ritaðr á sama tíma og hinn, þó höndin sè önnur. Öllu er því eins varið og fyr með þenna kafla, að örnefni þau og jarðanöfn, sem þar eru talin, eru öll í Húnavatns þíngi og flest alkunnug enn í dag. Eru þar fyrst taldir Ljótshólar, sem nú eru í Svínavatns hrepp (Johns. í Húnav. s. 9, 240); þar næst er talin jörð, sem líklega eru Njálstaðir, og er þá tvennt til, að það sè annaðhvort hin forna eyðijörð, sem Árni Magnússon getr um í jarðabók sinni að hafi verið hjá Kolugili í Þorkelshóls hrepp (Johns. í Húnav. s. 5, 157 athgr. 17); eða að það sè Njálstaðir í Vindhælis hrepp (Johns. í Húnav. s. 12, 400). Þarnæst eru fjórir bæir taldir úr Bólstaðarhlíðar hrepp: Mörk, Gil, Hólar (Blöndudalshólar) og Skoptastaðir (Johns. í Húnav. s. 10, 309, 296, 271 og 283). Þareptir eru taldir aptr tveir bæir, sem eru í Svínavatns hrepp: Eldjárnsstaðir og Lángamýri (Hv. s. 9, 248, 252—253). Seinast er talið „fyrir Mjófadal", og er það svo orðað sem það sè gjald fyrir beitarland, en ekki eptirgjald eptir jörðina Mjófadal í Bólstaðarhlíðar hrepp (Hv. s. 10, 305—306). Það sem eptir er af bls. 25, þegar þenna kafla þrýtr, er autt frá upphafi, þartil þar hefir verið ritað á skrá nokkur, sem er einúngis fjórar línur, um hvalskipti millum Rifs og Hella í Kaldrana landi; er sú skrá heimfærð hèr til c. 1290.

Öll þessi skrá Þíngeyra klaustrs er prentuð hèr eptir frumritinu, sem eru skinnblöðin í A. M. safni Nr. 279 í 4to, bls. 24—25, og þarmeð hefi eg haft til hliðsjónar afskript eina, sem Árni Magnússon hefir sjálfr ritað og er í safni hans; er hún, eins og vænti mátti, nákvæm og vönduð í alla staði.

---

staðrinn[1] a at hialmi prest kýr .v. ok lagvoxtv með. .x. hvndrað at odda[2] | ok lag [voxtv].

[1]) upphafsstafrinn er lítill, vegna þess að byrjað er einsog framhald af skránni um Spákonuarf (sbr. Nr. 80, bls. 306).

[2]) manns nafnið *Oddi.*

at ara .c. ok la᷑g [voxtv].
at brandi .vi. hvndrað ok la᷑g [voxtv].
at þorði .c. |
at þorarni prest .c. ok la᷑g [voxtv].
at gesti .v. h[vndrað] ok la᷑g [voxtv].
at knyki[1] .c. ok la᷑g [voxtv]. |
at eygerþi .c. ok la᷑g [voxtv].
at inga .ccc. ok la᷑g [voxtv].
at ioni .cc. ok la᷑g[voxtv].
at Gvðmvndi | hæl halft þriþia hvndrað.
at þorsteini ions syni .c. ok la᷑g[voxtv].
at inga | Magnvssyni .c. ok la᷑g[voxtv].
at tanna .c. ok la᷑g[voxtv].
at berþori[2] .x. hvnd[rað] ok la᷑g[voxtv].
at þorfin|ni iarla skalld xx. h[vndrað] ok la᷑g[voxtv].
at steinþori .v. kýr ok la᷑g[voxtv]. |
at Gýriþi xx. h[vndrað] ok la᷑g[voxtv].

[eyða fyrir rúmlega hálfri línu og tveimr heilum; þar fyrir neðan með sömu hendi]:

| á a᷑þvnar sta᷑þom .x. h[vndrað].
at asgei[r]s a .cccc.
igaltarnesi .v. c |
at þorgkelshvali[3] .cc.
at lækia moti .c.
at snoRa prest .v. h[vndrað]. |
at GRimi prest .cc.
at þoreyjar gnvpi .c. ok la᷑[gvoxtv].
at grimi at osi .xvii. | h[vndrað] ok lei[gv].
at asbirni .cccc.

[eyða fyrir rúmlega hálfri línu og tveimr heilum neðst á blaðsíðu í vinstri hendi. Efst á næstu blaðsíðu í hægri hendi er þetta ritað með sömu hendi]:

| xi. h[vndrað] i bæ

---

1) mannsnafnið *Knykr* eða *Knjúkr*, sem er meðal fornustu nafna í Landnámabók (Nesja-Knjúkr, Mýra-Knjúkr).

2) = Bergþóri.

3) misritað, og á að vera *Þorkelshváli* (í Víðidal).

at arnori .x. h[vndrað].
at odda[1]. ccc.
i rettarholti .c.
at Sigvrþi .x. h[vndrað].
at þorvarþi prest .iiij. h[vndrað].
a[t] kalfi .cc.
at arna .cc. ok kyr.

[þetta fyrirfaranda er ritað í tveimr línum efst á blaði; þá er eyða fyrir tæpum þremr línum, og hefir þar í verið byrjað að skrifa með sömu hendi það sem hèr eptir kemr, en hætt við aptr, og stendr þar að eins þetta: "þess' m̃ eigo hol" ... en þá stendr þar fyrir neðan sem eptir fylgir með sömu hendi eða samtíða]:

þesser men eigo savþa tolla at giallda i svmar
hoskvllr hallti halfan anan fiorðvng smiors oc tveir h[lvtar].
at gvðmvndi i liozholvm f[iorðvng] smiors.
at Grana bva hans. f[iorðvng].
at halldori maga h[alfr] annan f[iorðvngr].

[það sem hèr er á eptir heldr Árni Magnússon sè ritað með annari hendi, en þó fornri, og er þar fram haldið línu]:

at bergi auilsstoðvm[2] f[iorðvng] smiors. |
at tani alfs s[yni] halfr anar f[iorðvngr] smiors.
at avnundi a mork. h[alfr] a[nnar] f[iorðvngr] smiors.
at Gvðfinno[3] at gili f[iorðvngr] smiors.
at diacna at holvm[4] f[iorðvngr].
at Olafi mar|gretarsyni a scoptastoðvm[5] f[iorðvngr].
at eyiolfi a elldiarnsstoðvm halfr anar f[iorðvngr] eþa vaþmal.

---

1) án efa manns nafnið *Oddi*.

2) *Árni les* ůilsstoðum, *en hvorugt nafnið er þekkjanlegt, líklega á þar þó að standa:* á Njálstöðum.

3) *Árni les* Gvðfinne *eða* Gvðfinno; *seinasti stafrinn er klestr og þessvegna óskír.*

4) þessir „Hólar" eru að líkindum Blöndudalshólar.

5) nú kallað á Skottastöðum.

at þorsteini a langamyri. h[alfr] a[nnar] f[iorðungr] eþa vaþmal.

at gisli [at gisli[1] fyrir miovadal[2].

---

## 102. [um 1220].

Máldagi Saurbæjar kirkju á Kjalarnesi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Máldagi þessi er nú ekki til annarstaðar, það oss sè kunnugt, en í hinni fornu máldagabók D 12 (sbr. Nr. 24 hèr að framan), er hann hèr prentaðr eptir henni, og haldið öllu því úr stafsetníngunni sem fornt er. Hann er ritaðr á bl. 75—76.

Allr máldaginn ber þess vott, að hann sè forn, og hefi eg þá ætlun, að hann sè eigi ýngri en frá tímum Magnús biskups Gizurarsonar. Hèr eru teknir til verðlags „þriggja álna aurar", sem gengu mest á Suðrlandi framan af þrettándu öld (sbr. Nr. 84 hèr að framan); hèr er einnig tiltekið auralag það sem gángi í Kjalarnes þíngi, og bendir það til vorþíngis samþykta, sem þá hafi tíðkazt.

Í öðrum máldaga Saurbæjar kirkju, sem er í hinni sömu bók, og mun vera frá dögum Árna biskups Helgasonar, er einnig talið kirkju fè og skrúði í Saurbæ, og má sjá á samburði máldaganna, að þessi er miklu eldri. Hèr standa „kertistikur iiij"; þar eru taldar „kertistikur iij ok ein brotin". Hèr eru talin „tjöld umhverfis í kirkju"; þar eru talin „tjöld vond umhverfis kirkju". Hèr er og miklu færra en þar sem kirkjan á.

Svo er að sjá, sem seinustu tvær greinirnar kunni að vera ýngri en hitt, sem á undan er. Þó má geta þess, að um tíma Páls biskups eða þar nálægt hefir búið í Brautarholti, í nágrenni við Saurbæ, Árni bóndi, sem virðist hafa verið góðfrægr maðr, og kallaðr læknir góðr (Þorláks s. hin ýngri, kap. 49: Bisk. s. I, 321); gæti það því tímans vegna og bústaðarins vel staðizt, að hann væri sá sem hèr er nefndr. Í hinum ýngra máldaganum, sem fyr var getið, vantar niðrlagið, og má þó sjá að þar hefir verið getið um einkunn eða mark á fè, sem kirkjan ætti. Um seinustu greinina aptr á móti eru meiri einkenni til að hún muni vera ýngri, bæði vegna þess, hversu hún stendr í

---

1) frá [ þannig tvítekið.

2) þannig ætla eg rètt lesið. Árni les „miovabol", og svo má einnig lesa, en jörð með því nafni er ekki í Húnavatns sýslu, þar sem þó allar hinar jarðirnar eru. Mjófidalr mun hafa verið lèðr Gisli til beitarlands.

máldaganum og hversu hún er orðuð, en þó er sú grein eldri en ýngri máldaginn, því þar er það sett í máldagann á rèttum stað, sem hèr er talið.

---

Saurbær.

Sia er maldagi a saur bæiar circiu a cialar nesi. at þar liggia til circiu .x. hundruð þriggia alna aura j Saurbæiar landi. slicra sem ganga j cialar nes þingi. þar fylgia oc kyr tiu. oc griðungr tvævetr. oc kugilldis hestar .iij. xij. manaða tiða bǫkr. oc þrenn messu fot. gylltr silfr calecr. sa er stendr nær .IX. aurum. alltara clæði .iiij. innar. en .iij. vtar. sloppr oc cantara kapa. scrin oc bakstr jarn. krossar .vij. gloða cer oc ællbære[1]. kerti stikur .iiij. oc munlogar .ij. skirnar sar oc ketill .j. skiola oc læctarar .ij. hand bǿcr .ij. abreizl. tiolld umhuerfuis j circiu. oc biorar .ij. glerglygr. klokur .iiij. inne oc ein vti. boca cista. skript oc gvnnfani. biarn fell. læctara tialld. skaf jarn. hand clæði .iiij. oc buðcar .iij.

Su er afskylld þessa fiar at þar scal vera prestr oc messa alla log hælga daga. oc vm langa fostu oc imbro daga oc annan huan ottu songr. messa annan hvarn dag rumhelgan it sialldnasta.

Bru scal hallda a blic dals a. þar milli fialls oc fioru. ær sa vill sem j saurbæ byr. þa ær meðal maðr megi bera halfa vætt a baci ser j logne. oc hafa fatæcan mann þar til er a er gior. æn æf votn taca af bruna. eða fellr af fyrir fyrnsku sacir. þa scal gefa halfa mork hin fyrstu missere. en mork onnur. en .xij. aura hin þriðiu. en siðan scal hafa qvengillda an omaga þar til er a er gior.

þar liggia tiundir til millum blikdals ar. oc æilifsdals ar. nema af eyri. oc vr myrdal. ef þar bua landeigendr. þa sculu þeir taka sina tiund heima oc hiona sinna allra. en ef leiglendingar bua þar eða hiabuðar menn. þa scal j saurbæ þeirra tiund gialldaz oc hiona þeirra. ef þav giora skiptingar tiund.

þetta fe gaf arni bondi til kirkiu j saurbæ. klocku er stendr .xiiij. fiorðunga. oc þela hogg. brun oc slopp. oc einkunn a fe.

Item a kirkian hundrað j haustlagi. oc C voru. hundraðs ketill.

---

1) = eldberi.

## 103. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar í Gaulverjabæ í Árnes þíngi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Þessi máldagi er hèr prentaðr eptir máldagabókinni D 12, bl. 59 (sbr. Nr. 24 hèr að framan), og vitum vèr hann ekki annarstaðar til vera í fornum handritum.

Um máldaga þenna eru nokkur einkenni, hversu gamall hann sè, og helzt í niðrlaginu. Þorlákr biskup er kallaðr hèr helgr, og er því máldaginn ekki eldri en 1200; en þar sem svo segir, að Eyjólfr hafi haldið þenna máldaga, og reidt þá af höndum, sem þeir hafi gjört sín á milli Þorlákr biskup og Gunnar prestr, þá beudir það til þess, að máldagi þessi muni ekki vera miklu ýngri, þareð greinin sýnir ljóslega, að máldaginn kveðst vera bygðr á samníngi Þorláks biskups og Gunnars prests, hvort sem maðr skilr svo, sem Eyjólfr hafi búið fyr en Gunnar, og afhent honum Gaulverjabæ, og hafi þá um leið samníngr gjörzt milli biskups og prests, eða að menn skili svo, að Eyjólfr hafi búið síðar, og haldið svo sem máldaginn greinir, eptir þeim samníngi sem þeir hafi gjört Þorlákr biskup og Gunnar prestr. Sá samníngr virðist ekki hafa verið ritaðr, eptir því sem hèr er orðað, heldr munnlegr einúngis.

Sá Eyjólfr, sem hèr er nefndr að hafi búið í Gaulverjabæ, vitum vèr eigi með vissu hver verið hefir. Vèr getum helzt hugsað til tveggja manna af þeim sem kunnugir eru. Annar er Eyjólfr Jónsson, sonr Jóns Loðmundarsonar og bróðir Keldna-Valgerðar, frændi Oddaverja (Sturl. 2, 1: I, 49); hann átti son sem Guðlaugr hèt, og var fulltíða maðr um 1220, og var á Þíngvöllum út í Árnes þíngi; getr það því vel verið, að sá Eyjólfr hafi búið um tíma í Gaulverjabæ, og tími sá sem hann var uppi kemr vel saman við máldagann. Annar er Eyjólfr Ásgrímsson, sonr herra Ásgríms Þorsteinssonar, sem var samtíða Árna biskupi Þorlákssyni, og bjó líklega á Stokkseyri eða þar um kríng. En þar á móti er, að væri þessi Eyjólfr sá sem nefndr er í máldaganum, yrði máldaginn ekki eldri en frá 1280—1290, og virðist það ugglaust að hann sè miklu eldri.

Eitt er það til marks um, að máldaginn er mjög gamall, að kirkjan er ekki talin hèr að eiga nema hálfa jörðina, mun þó ekki vera að efa, að Gaulverjabær hafi snemma orðið staðr (Beneficium).

---

Gaulveriabær.

J Gavlveria bǫ liggr halft land til kirkiv með ollvm gæðvm j hvsvm oc ollvm lands nytivm. acr lond a lopstoðvm[1].

---

[1]) = Loptstöðum.

þara qvama oll vestr fra hvse half til kirkiv a vetrinn oc sin misseri hvart fiara avstr fra hvsvm eða vestr með ollvm gæðvm oðrvm við lopstaða menn. oc skiptist at vetr nottvm.

þeir skolv raða er j golveria bœ bva fyrir beit a myre oc a voll við þa er sambeit eiga.

alftar reiðr oll hvar sem finnast j galtar staðar landi oc vallar landi.

Selfor ef vill j vallar land.

Kyr .iiij. a kirkia oc messv fot. klvckvr .iiij. kerti stikvr .ij. alltara blæivr. mvnnlogar .iij. oc gloða ker. roðv cross. stolar .ij. tvo pvnd vax. lic vitil[1].

Bæiar landi fylgia allar veiðar at helmingi við lopstaða land j fiorv.

þar scal vera prestr heimilis fastr oc syngia allar heimilis tiðir ef ma fyrir þingvm. messa hvern dag vm iola fostv .ij. vm langa fostv oc sva imbrodaga. vigilia hvern dag vm langa fostv.

allir þeir menn sem sambeit eigv vpp a voll scolv hafa j troð fe sitt of vetr vpp fra olafs messv.

þar scal fa til bryggiv a gerða læc.

þessvm maldaga helt eyiolfr vpp þa er hann bio j bǫ. oc reiddi þa af hondvm sem þeir gjorðv sin a milli þeir þorlacr biscvp hinn helgi oc gvnnarr prestr.

---

## 104. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar að Apavatni í Grímsnesi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Þessi máldagi er prentaðr eptir máldagabókinni frá Skálholti í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol., bls. 54 (sbr. Nr. 49, bls. 252—255 hèr að framan), og er máldagi þessi kallaðr þar „forn máldagi". Með honum eru ritaðir í bókinni tveir aðrir máldagar, að Ragnheiðarstöðum og Bíldsfelli, er hèr eru færðir til sömu tíðar.

Á Apavatni hefir verið kirkja lengi, og er hennar enn getið í Wilchinsbók, en í Gísla biskups máldaga finnum vèr eigi getið Apavatns kirkju og ekki þaðan af. Þegar Árni Magnússon samdi

---

1) þannig er skýrt í bókinni ( = líkakrák?).

jarðabók sína um Grímsnes, sem var 1708, segir hann, að það hafi verið munnmæli að kirkja hafi verið að Apavatni hinu syðra eða neðra, „en engin vita menn rök til þess, og engin merki sjást til þess", segir hann. — Jörðin mun hafa nokkuð snemma komizt undir Skálholt, og hefir síðan verið talin stólseign, þartil hún var seld með Skálholts stóls jörðum; hefir henni um þann tíma verið skipt hèrumbil í helmínga, og kallað annað Apavatn hið efra, en annað hið neðra eða syðra. Þórisstaðir, sem máldaginn nefnir, eru óefað sú jörð sem nú er stundum kölluð Þórustaðir eða Þóroddstaðir (Johnsens Jarðatal, í Árnes sýslu 10, 416), sem er næsti bær við Apavatn.

Það þykir mèr vera vottr um aldr máldagans, sem stendr hèr um saung á Þorláksmessu. Þorláksmessa um vetr (24. Decbr.), sem var andlátsdagr Þorláks biskups hins helga, var lögtekin 1199 (ísl. Annálar); en Þorláksmessa á sumar (20. Juli), sem er upptöku dagr heilags dóms Þorláks biskups, var lögtekin 1237. Nú virðist sem máldaginn gjöri að eins ráð fyrir einni Þorláksmessu, og er það þá vottr um, að hann sè saminn á tímabilinu milli 1200 og 1237.

---

Mariu kirkia at Apa vatni a .x. hvndrað j heima landi. kluckur .ij. alltara klæði .ij. songhuss tiolld. mvnlavgar tvær ok kv eina.

Þar skal vera annan hvarn dag loghelgan messa. ok en fiorða hvern otto song[r]. Þar er akveðinn songr paska dag ok kyndil messv ok Þorlaks messv. ok skal þann song kavpa tveim morkvm vaðmala.

Tivnd skal þar heima allra þeirra manna er þar erv vistvm eða a Þoris stoðvm en eigi af fleirvm bæivm.

Lysa skal þar fyrir þa daga er messa er svngin efter fra Mariv messv. ok fram vm paska vikv.

---

## 105. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar að Vörðufelli á Skeiðum í Árnes þíngi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Eptir máldagabókinni í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol. bls. 49 (sbr. Nr. 49 að framan), og er kallaðr þar „forn máldagi".

Vörðufell er enn kallað fell eitt á Skeiðum, en Fjall heitir nú bær sá, sem hèr er nefndr Vörðufell (Johns. Jarðat. Árn. s. 6, 233), og stendr undir fellinu. Jarðirnar Hagi og Miðhús eru líklega jarðir þær með þessu nafni, sem nú eru í Eystrahrepp (Johns. 7, 265 og 287), en Framnes, Vorsabær og Birnustaðir eru enn jarðir í Skeiðahrepp (Johns. 6, 234, 260 og 235); Snútr (= Snúðr?) er oss nú ókunnug jörð.

---

Kirkia j vorðufelle[1] er helgnð Mariu. Petro. Olavo. Martino. Gallo.

hun a .x. hundrað j lande. tiolld umhverfis sik. buning sinn allan.

þar skal syngia annan hvarn dag loghelgan messu. ok en fiorða hvern ottu song. ok kaupa tveim morkum.

þar skal heima tiund. ok or haga. fra miðhusum. ok fra Snute. af framnese. or vorsabæ hvarum tveggia. af birnustoðum onnur hvar missere.

Lysa fra mariu messu unz liðr pascha viku. fyrir þa daga alla er skyllt er at syngia. ok sva fyrir allar hinar hæstu hatiðir[2].

---

## 106. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar í Einiholti í Árnes þíngi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Þessi máldagi er tekinn eptir máldagabókinni í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol., bls. 50 (sbr. Nr. 49 hèr að framan), og er þar kallaðr „forn máldagi".

Einiholt er nú venjulega kallað Einholt, og er það í Biskupstúngna hrepp, eigi lángt frá Haukadal (Johns. Jarðat. 9, 353 í Árn. s.). Í Wilchins máldaga er enn nefnd kirkja í

---

1) Árni Magnússon uppfyllir línunni: „ɔ: Fialle", þ. e. að Vörðufell er sami bær sem nú er kallaðr Fjall, á Skeiðum í Árnes sýslu.

2) *í handritinu er þessu hnýtt aptan við:* Ecki stendr þessi maldagi eptir þvi sem kirkian var vigð. þvi at hun var vigð næst eptir þa er a lambastoðum er i borgar.firði. *þetta heyrir ekki til máldaganum, heldr hefir það verið ritað í bók þá sem máldaginn hefir upphaflega staðið í, annaðhvort samtíða eða skömmu síðar.*

Einiholti og taldar eignir hennar, en í Gísla máldaga er þar einúngis nefnd hálfkirkja („í Einholti"), en engar eignir hennar taldar. Einiholt er ein af þeim fjórum eða fimm jörðum í Biskupstúngna hrepp, sem ekki hefir orðið stólseign, heldr verið bændaeign líklega ávallt frá alda öðli; þar á móti virðist af máldaganum, sem Haukdælir hafi um þetta mund átt einhver umráð jarðarinnar.

Hèr er í máldaganum skipað Þorláks dag óttusaungr og messa. Þar af má ráða, að máldaginn sè frá þeim tíma meðan ein Þorláksmessa var í lögum, eða frá 1200 til 1237 (sbr. við Nr. 104).

Eitt af því sem kirkju þessari er eignað er glergluggr, og er það sjaldgæft á þessum tímum, svo menn kynni þar af að leiða sèr í grun að máldaginn væri ýngri. En þetta þarf þó enga grunsemd að vekja, því getið er fyr en þetta um, að glergluggar hafi verið fluttir til kirkna á Íslandi. Svo segir í sögu Páls biskups (kap. 5: Bisk. s. I, 131), að hann hafi flutt út með sèr til Íslands tvo glerglugga til Skálholts kirkju um sumarið 1195, og má þar af ráða, að glergluggar muni hafa verið um þessar mundir farnir að tíðkast í kirkjum á Íslandi hèr og hvar, þó þeir hafi þá verið sjaldgæfir. Í máldaga Saurbæjar kirkju á Kjalarnesi (Nr. 105 að framan) er einnig talinn glergluggr, sem kirkja sú eigi, og sömuleiðis í Lángaholti (Nr. 107 hèr næst á eptir) og á stöku stöðum öðrum.

Þar sem til er tekið í máldaganum, að lýsa kirkju frá Maríumessu, þá mun vera hèr svo að skilja eins og annarstaðar, að Maríumessa þessi sè annaðhvort Maríumessa hin fyrri (15. August), eða Maríumessa hin síðari á haust (= 8. Septbr.), en páskavika er, einsog kunnugt er, vikan eptir páska, en ekki vikan fyrir páska, sem heitir dymbilvika.

---

Mariu kirkia j einehollte a x. hundrað j lande . kluckur tuær . glerglugg . alltara klæðe . roðu kross . mvnnlaug ok elldbera .

Su er afvinna þessa fiar . at syngia messu annan hvarn dag helgan . en fiorða hvern ottu song . ok þær einar hatiðer . er sa lofar er j Haukadal byr . ottu song . kaupa tveim morkum ok vera bæðe [þorlaks dag ottu songr[1] ok messa.

Tiund liggr þar til allra heimamanna . en gialda j Haukadal hvert haust vetrgamlan sauð .

Lysa fyrir þa daga er messa er sungin eptir . ok ena hæstu daga fra Mariu messu unz liðr paska viku .

---

1) *frá* [ það laks dag ottu. s., *263*.

107. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar í Lángaholti í Árnes þíngi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Þessi máldagi er nú einúngis fundinn í máldagabókinni frá Skálholti í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol., bls. 49 (sbr. Nr. 49 að framan), og er hann kallaðr þar „forn máldagi, ekki úr Wilchins bók".

Lángaholt þetta sem hèr er nefnt mun vera Lángholt hið syðra í Ytra-hrepp (Johns. Jarðat. 8, 327 í Árnes sýslu). Þar er og talin kirkja í Wilchins máldaga, og eignir hennar, en í Gísla máldaga er þar engin kirkja talin, og kann vera hún hafi þá verið niðr fallin, en jörðin var á seinni tímum lengi stólsjörð frá Skálholti. Uunarholt (Johns. 9, 328) og Birtíngaholt (Johns. 9, 326) eru bygðar jarðir þar í nágrenninu enn í dag.

Meðal þess sem kirkjan á er talið „vatnssteinn", „stökkvill" og „horn". Ef vatnssteinn er ekki misritað fyrir „vatnsker", þá má það vera sömu þýðíngar, annaðhvort steinker til að hafa í vígt vatn, eða steinn með bolla í klöppuðum, til hins sama, eða og í staðinn fyrir mundlaug. Stökkvill eða stökkull var kallaðr vöndr sá, sem hafðr var til að stökkva vígðu vatni á söfnuðinn (sbr. Safn til sögu Ísl. I, 668). Horn eru í hinum seinni máldögum talin með eignum ymsra kirkna, og voru þau stundum búin, þ. e. brydd og spengd með gulli, silfri eða kopar.

---

Mariu kirkia j langa hollte a .xx. hundrað j lande ok ku. krossa .ij. ok kluckur .ij. alltara klæðe tvo. kerta stikur tvær. ok munlaugar tvær. glerglugg ok gloðar ker. songhuss tiolld skiolu ok vatnstein. stola .ij. ok stokkvil. [sæng .j.[1] ok hæginde. horn ok handklæðe. fimm merkr vax ok reykelse.

Su er afvinna þessa fiar at þar skal syngia messu hvern helgan dag. ok annan hvarn ottu saung. kaupa .iiij. morkum.

Lysa fra mariu messu. hinne fyrre fyrer alla heilaga daga unz liðr pascha viku. þar scal heima tiund. ok or unnar hollte. ok or birtinga hollte.

---

1) *frá [ ritað líkast sem:* vængi.

## 108. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar að Bíldsfelli í Grafníngi í Árnes þíngi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Þessi máldagi er prentaðr eptir máldagabókinni frá Skálholti í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol. (sbr. Nr. 49 að framan), bls. 54 (263 a); önnur afskript hans er í bókinni D 12, bl. 58 (sbr. Nr. 24 að framan), og er þar sleppt niðrlaginu; hin þriðja afskript er í Nr. 263, bls. 52 (263 b), og er þar einnig sleppt síðara hlutanum. Á báðum stöðunum í 263 er máldagiun kallaðr „forn máldagi". Þess sem á milli ber er getið hèr í orðamun neðanmáls.

Bíldsfell er enn bygð jörð, og heyrir nú undir Þíngvalla hrepp (Johns. Jarðat. 11, 480 í Árnes sýslu). Þar er talin kirkja í Wilchins máldaga, en í Gísla máldaga er hennar ekki getið, og mun hún þá hafa verið niðr fallin.

Í máldaganum er skipað að sýngja „einhverja" Pètrs messu; það mun án efa vera svo að skilja, að það væri á einhverjum þeim degi, sem helgaðr er Pètri postula, í minníng þess, að kirkjan var honum helguð. Þessir dagar eru: 22. Februar, á daginn Cathedra Petri eða Pètrs stóll, sem haldinn var í minníngu þess þegar Pètr postuli hafi sett biskupsstól sinn í Antiochia; annar var Pètrs messa og Páls, 29. Juni; þriði var bandadagr (Vincula Petri) 1. August, sem haldinn var í minníng þess, þegar Pètr postuli var settr í bönd og ofsóktr (Postul. gjörn. kap. 12).

---

[1]Kirkia at Billz felli er helgvð Mariv drottningv. Petro postvla. Nicholao biskvpe.

Kirkia a .x. hvndrað j landi. klvckvr .ij. alltara klæði .ij. tiolld vm songhvs. oc elldberi.

Þar skal syngia annan hvarn dag loghelgan. oc hinn fiorða hvern ottv song.

skyllt skal[2] at lysa fra[3] Mariv messv[4] siðani vnz liðr paska vikv[5]. fyrir þa daga alla er þar er svngit.

Þar skal tivnd heima en kavpa .ij. morkvm at presti.

vnder Vlfliotz [vatns] kirkiv liggr sea kirkia.

skyllt skal at syngia einhveria Petrs messv.

---

1) Bils fell, *fyrirsögn í D 12.* 2) *þann. D 12, 263* (b); se, *263* (a).

3) fyrir, *misritað, D 12.* 4) messvni, *263* (b).

5) vika, *D 12, og sleppir síðan því eptir er, en setr einúngis í stað þess:* ꝉ cet. ꝉ cet. — *það sem eptir er vantar einnig í 263 (b).*

## 109. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar í Oddgeirshólum í Flóa, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

þessi máldagi er prentaðr eptir máldagabókinni D 12 frá stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, bl. 56 (sbr. Nr. 24 að framan).

Kirkja í Oddgeirshólum hefir staðið mjög lengi, og er hennar getið bæði í Wilchins máldaga og í máldögum Gísla biskups Jónssonar. Um rekafjöru kirkjunnar hafa báðir þessir máldagar svo, að kirkjan eigi „hálfa Hafnar ferju til reka", og er það misritað; ferju fyrir fjöru. — Reykir, sem eignaðir eru kirkjunni, er jörðin Litlu-Reykir, sem nú eru kallaðir (Johns. Jarðat. 2, 82 í Árnes sýslu), og er hún sumstaðar í jarðabókum talin með Oddgeirshólum, einsog hjáleiga með höfuðbólinu.

---

Odd geirs holar.

þesse er maldagi mariu circiu þeirar er stendr j oddgeirs holum. at þar scal syngia hvern loghelgan dag oc annan hvarn ottu song. þar scal prestr hafa .iiij. mercr caups.

þar liggr til kirkiu hafnar fiara half oc land at reycium oc tiund þaðan oc lysi tollr allr oc tiund or ollum heima husum. iij. kugilldi bu fiar fylgia circiu. clucur .ij. kerti sticur .ij. alltara clæði .iij. elldberi. tiolld of songhus .xvj. mercr vax.

---

## 110. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar á Ragnheiðarstöðum í Flóa, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

þessi máldagi er prentaðr eptir máldagabókinni frá Skálholti, Nr. 263 í Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 54, og er kallaðr þar „forn máldagi" (sbr. Nr. 49 að framan).

Á Ragnheiðarstöðum í Gaulverjabæjar hrepp (Johns. Jarðat. Árnes s. 3, 90) er ekki talin kirkja í hinum síðari máldögum, Wilchins eða Gísla; virðist því, sem kirkjan þar hafi ekki staðið lengi, heldr verið fallin niðr þegar á fjórtándu öld.

Í máldaganum segir, að kirkjan eigi tíu hundruð í landi, en í jarðabókum stendr, að dýrleiki Ragnheiðarstaða sè ekki meiri en tólf hundruð alls; það bendir til þess, sem víðar kemr fram, að þegar kirkjur hafa verið lagðar niðr, sem hafa átt

hluta í heimalandi, þá hefir dýrleiki þess hluta fallið niðr, og kaupahlutinn einn verið talinn, svo að jörðin hefir öll haldið þeim dýrleika, sem kaupahlutinn einn hafði áðr.

---

Mariu kirkia a ragneiðarstoðvm a .x. hvndrað j landi. kluckur tvær. kross. ok alltara klæðe. buning sinn allan slikan sem hann er.

Þar skal syngia messv annan hvarn dag helgan. ok en fiorða hvern ottv song ok kavpa þann song tveim morkvm.

Tivnd liggr þar til allra heima manna. en giallda hvert havst j golveria bæ gellding.

Lysa fyri þa daga alla er messa er svngin eptir fra mariv messv vnz liðr paska vikv.

---

## 111. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar í Þerney með sundum í Kjalarnes þíngi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Þessi máldagi er í báðum hinum fornu máldagabókum: *a*) Nr. 263 í Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 65 (sbr. Nr. 49 að framan), og er hann kallaðr þar „forn máldagi"; *b*) í bókinni D 12 í safni Steingríms biskups í stiptisbókhlöðunni í Reykjavík, bl. 79 (sbr. Nr. 24 að framan).

Í Þerney er talin kirkja bæði í Wilchins máldaga og í máldaga Gísla biskups Jónssonar, og bænhús hefir staðið þar með kirkjugarði fram á þessa öld, þó ekki hafi þar messað verið um lánga tíma. Þerney var ein af þeim jörðum Skálholts stóls, sem Páll Stígsson neyddi Gísla biskup til að skipta fyrir jarðir í Borgarfirði (bréf 27. Septbr. 1563 prent. í Safni til sögu Íslands I, 131—132), var hún síðan konúngsjörð og seld 1816 (Johns. Jarðat. bls. 438). Eignir kirkjunnar hafa fallið niðr þegjandi: hefir Álfsnes verið talið sem jörð sèr, og selt sèrílagi; Háfaheiði er talin í Gísla máldaga, og hefir þá líklega verið bygt ból. Í jarðabók Árna Magnússonar (1704) er kallað Háheiði, forn eyðijörð, sem enginn minnist hversu lengi hafi verið í auðn, og þótti þá óbyggileg, því hún væri komin í holt og hrjóstr; en land hennar var þá undir Álfsnesi, og var sú sögn manna, að landskuld af Álfsnesi hafi verið aukin um helmíng, þegar Háfaheiði var lögð þar til. Þetta kemr einnig saman við dýrleikann, sem talinn er á Þerney og jörðunum sem þar undir hafa legið, því Þerney hefir verið 30 hdr., Viðnes (Víðines) 10 hdr., Álfsnes 10 hdr. og Háfaheiði 10 hdr., en í hinum síðari jarðabókum er

Álfsnes talið 20 hdr., og er þá Háfaheiði talin með. Háfaheiði mun því hafa lagzt í eyði seint á 16du eða snemma á 17du öld, og verið síðan talin með í Álfsness landi. Viðnes er það sem nú er kallað Víðines, og hefir það verið talin hjáleiga frá Þerney, og selt með eynni. Þegar öll eignin fylgðist að, var hún talin LX hundraða, og var eyjan sjálf talin helmíngr, en eignirnar á landi helmíngr.

Hèr er skipað í máldaganum að sýngja skuli messu í Þerney ávallt er „níu ræðíngar" eru; þetta orð ræðíngar samsvarar latínska orðinu „lectiones", og skyldi þá messa á þeim helgidögum, þegar „novem lectiones" væri. Á katólsku tímunum var svo að kalla hver dagr í árinu tileinkaðr einhverjum helgum manni, og var þá þann dag lesið ágrip af æfi hans og jarteinum. Þessu sem lesið var skiptu klerkarnir í kafla, annaðhvort þrjá, eða sex, eða níu eða tólf, eptir því hversu mjög hinn helgi maðr var tignaðr á þeim stað, því ekki var á þessu nein föst regla, heldr mátti hver fylgja sinni tilfinníng í því, bæði hvern menn vildu tigna helzt, og hvenær þeir vildu halda hátíðina, einúngis að ekki raskaðist hinar stóru almennu hátíðir kirkjunnar: jól, páskar, uppstigníngardagr, hvítasunna, Maríumessur o. s. frv. Þessvegna sjáum vèr enn í dag, að hvert land hefir svo að kalla sína röð helgra manna í almanökum; máldagarnir sýna oss, að kirkjur eru helgaðar ymsum, og sögur vorar og annálar votta opt, að menn völdu sèr einn eða annan helgan mann framar öðrum til trausts og áheita. Nú hafði hver kirkja eða klaustr sína tíðaskrá, eða almanak, optast nær ritað fremst í tíðabók sína, eða bók þá, sem messureglurnar stóðu í, og var þar sett við hvern merkisdag hvort þá væri þrjár, sex, níu eða tólf ræðíngar. Vèr sjáum sýnishorn af þessu í hinum latínsku brotum aptan við Þorláks sögu hins helga (Bisk. s. I, 396—404), má þar sjá bæði hvert efni var í þessum ræðíngum, hversu þeim var skipt, og hversu þær voru fleiri eða færri, eptir því hversu mikið var haft við á þeim degi á hverjum stað. Á Íslandi var, eins og vèr vitum, Þorlákr biskup tignaðr með þeim mestu, voru því níu ræðíngar á Þorláksmessum líklega á flestum stöðum, einkanlega í Skálholts biskupsdæmi, eða þar sem kirkja var helguð Þorláki; svo var og eins að sínu leyti um Jón biskup Ögmundarson í Hóla biskupsdæmi, og um Guðmund biskup. Þar á móti vitum vèr af reglubók Niðaróss kirkju, að þar hafa ekki verið nema sex ræðíngar á Þorláksmessu (Bisk. s. I, 403—4). Eptir tölu ræðínganna nefndu menn stundum dagana sjálfa, svosem að sá eða sá dagr væri „dies trium (sex-novem-duodecim) lectionum", þ. e. þriggja (eða sex, níu eða tólf) ræðínga dagr.

[1]Mariv er kirkia helgvð j þern eyio[2]. jacobo[3] postvla. nicholao ok Thorlaco, [marie magdalene ok Agnete[4].

hvn a þessi fiogvr [lond. half þerney[5]. Olfsnes[6] hafva[7] heiði. Viðnes. ok er j þerney Tivnd ok groftr af þessvm bæivm.

Kirkia a at helmingi selfor j Stardal ok sva afreit[8]. ok sva þess hlutar fiorv j krossa vik er þerney fylger. halft þriðia kvgilldi bvfiar.

hvn a tiolld vmhverfis. klvckvr tvær ok kalek. messv fot tvenn[9] ok tvenn[10] alltara klæði. slopp ok kantara kapv. skrift ok gloða ker ok tolf manaða tiða bøcr[11].

Sv er afvinna þessa fiar. at þar skal vera prestr ok diakn. ok syngia allar heimilis tiðer ok messv[12] ofvallt[13] er niv ræðingar erv. Tvær messvr hvern dag of[14] langa fostv ok vigilia hvern aptan rvmhelgan. messa hvern dag of[15] jola fostv. en annan hvarn dag þess a milli.

Þar skal kavpa fiorvm morkvm heima song ok þrettan messvr j Olfsnes[16].

Lysa of[15] nætr fra mariv messv siðane vnz liðr paska vikv.

---

## 112. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar að Hólmi hinum innra á Akranesi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Eptir máldagabókinni D 12 í safni Steingríms biskups, sem er í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, bl. 74 (sbr. Nr. 24 að framan). Um aldr máldagans má helzt ráða af þremr atvikum, og er það fyrst, að hann er í þeim kafla bókarinnar, sem hinir

---

1) þerney, *fyrirsögn í D 12.* 2) þerney, *D 12.* 3) Jacobbo, *D 12.*

4) *frá* [ mariu magdalenu ok agnesi, *D 12.*

5) *frá* [lonđ half: þerñey, *o. s. frv., D 12, og er það rángt, því kirkjan hefir átt Þerney eina hálfa, en hinar jarðirnar heilar.*

6) *þann. D 12* (Olfz nes); Alfsnes, *263.*

7) hafra, *D 12, og er það rángt, en sýnir að orðið hefir verið ritað* hafva (= Háfa). 8) *þann. D 12;* afrett, *263.*

9—10) .ij., *D 12.* 11) *þann. D 12;* bækur, *263.* 12) messa, *D 12.*

13) af vallt, *D 12;* avalt, *263.* 14) af, *263;* um, *D 12.*

15) *þann. D 12:* af, *263.* 16) *þann. D 12;* Alfsnes (*hið sama*), *263.*

fornustu máldagar eru í; annað er það, að hèr er nefndr hlasshvalr, og má ráða þar af, að máldaginn sè frá þeim tíma sem Grágás var lögbók á landi voru. það kemr einnig hèr fram, að Staðarhólsbók snertir framar efni máldaga þessa en Konúngsbókin, og vottar það, að hann muni vera rèttilega settr á daga Magnús biskups Gizurarsonar, en sè ekki eldri. Um hlasshval hefir Konúngsbókin alls ekkert, og tvítekr þó greinina um hvalreka á leigulöndum (Fins. útg. II, 126 og 129). Í Jónsbók er ekki heldr nefndr hlasshvalr, og Járnsíðu vantar allan eða mestallan Rekabálk. Þar á móti hefir Staðarhólsbók greinilegar ákvarðanir um þetta atriði, og það svo, að hún hefir fyrst forna grein um hlasshval, og þar næst hefir hún innskotsgrein um hið sama, sem auðráðið er að muni vera ýngri, enda stendr og innanmáls í bókinni við þá grein, að hún sè „nýmæli". En þetta samband greinanna getum vèr nú rakið með samburði eins handrits, sem útgefendr Grágásar hafa ekki notað, og ef til vill ekki þekkt; en það er skinnbókarbrotið Nr. 279 í 4to í safni Árna Magnússonar, það hið sama sem vèr höfum tekið eptir skrána um Spákonuarf og aðrar skrár þíngeyra klaustrs (sbr. Nr. 80 hèr að framan). Á þessari bók eða kveri hefir verið fremst Rekabálkr, ritaðr með fornri hendi á þrettándu öld, meðan Grágás var landslög; hefir það án efa verið með vilja gjört, að rita þar í upphafi þenna bálk, því bókin hefir verið ætluð til að rita í hana ymsar lausaskrár klaustrsins og heimildir til reka og ýmislegra annara hlynninda; var það þá handhægt, að hafa þar með við hönd sèr Rekabálk, til að þurfa ekki að seilast lángt eptir lögunum. Nú skulum vèr á líkan hátt og fyr bera saman hvorttveggja handritið, og sèst þá hversu steypt er saman greinunum í Staðarhólsbók:

| ÞÍNGEYRABÓK (A. M. 279 4to. bls. 4). | STAÐARHÓLSBÓK (bls. 176b. A. M. útg. I, 362). |
|---|---|
| vm leigu landz fiorv[1]. Ef hual rekr a fioru þa er leigu lande fylger. þa scal leig [lendingr][2] festa hual þann sem hann eigi oc aðr var tint. enda [a hann][2] at hafa af hualnum samfengnum hlas þat er einn eykr ma d[raga a][2] þa oc a slettum velle æf hualr er tuitogr eþa len[gri. en ef | vm hvalreka a leigo lande. LVI. Sva er oc mælt. ef hual rekr afioro þa er leigo landi fylgir. þa scal leiglendingr festa hual þann sva sem hann eigi oc aðr var tint. enda a hann at hafa af hvalnum samfengnum hlas hual. þat er eiɴ eykr ma draga a þá a slettum velli. ef hvalr er tuitogr eða lengri. |

[1]) fyrirsögn með rauðu letri; upphafsstafrinn grænn, og dregið í rautt og gult. [2]) fúið gat á blaðinu í skinnbókinni.

hua]lr[1] er scemre eþa scerðr sua at hann se minni en [heill þess kyns h]ualr[1] tvitogr þa scal læiglendingr ecki [hafa af hualnum. en][1] iafn scyldr er hann at festa enn minna hual ......

[2]Hlasshvalr scal nu vera vi. viii. fiorðunga vettir. hálft hvart spik oc rengi. ef þess kyns hualr er. En ef hualr er skemri. eða skerðr sva at hann se miɴi en heill þesskyns hualr xxgr. þa scal leiglendingr ecki hafa af hualnom. eñ iamscylldr er hann at festa iñ miɴa hval sem hiɴ meira.....

Ef vèr jöfnum greinum þessum saman, þá verðum vèr þess varir, að ekkert ber á milli nema það, að Staðarhólsbók setr inn eina grein sem hin hefir ekki, og sè gætt að efni hennar, þá sèst ljóslega að hún er nýjari en hitt, þareð hún gefr almenna og vissa reglu um hlasshval eptir vigt; en í Konúngsbókinni er sleppt öllu þessu og meira af kapítulanum, svo að líklegt er hann sè ekki saminn eða settr í lög fyr en snemma á þrettándu öld. — En það ætlum vèr, að svo sè að skilja ákvörðun máldagans, að hann kalli hlasshval tvítugan eða lengri, og muni kirkjunni vera gefinn hlutr landeiganda úr þeim hval, en ekki úr þeim er minni væri, hèlt þá eigandi eptir þeim hlutanum, því leiglendíngr skyldi ekkert hafa af þeim hval eptir Grágás; landeigandi gefr því allan reka af stórhvölum, nema það er leiguliði átti, en heldr eptir smáhvalareka; hann gefr og allan sinn hluta af viðrekanum, en leiguliði heldr eptir keflarekanum, sem hann átti að lögum.

Hið þriðja atriði, sem sýnir að máldaginn sè forn, er það, að skipað er að sýngja „Pètrsmessu um alþíngi", þ. e. Pètrsmessu og Páls, 29. Juni. Þó sker þetta atriði ekki svo ljóst úr um aldrinn, að það verði fullyrt með vissu, til hvers tíma hann heyri. Frá því ár 999 og meðan Grágás hèlzt hófst alþíng venjulega þegar tíu vikur voru af sumri, en ekki fyr, nema lögsögumaðr boðaði á alþíngi árið áðr að þínglausnum, að menn skyldi koma fyr til þíngs árið eptir. Sumar byrjaði þá eptir gamla stíl á fimtudaginn sem fèll á 9.—15. April, og tíu vikur af sumri voru þá liðnar á miðvikudags kvöld 17.—23. Juni; alþíng hófst því um þetta mund í fyrsta lagi hinn 18da Juni og í seinasta lagi á Jónsmessu, 24. Juni, og var í lengsta lagi fjórtán nátta þíng, var það því á enda í fyrsta lagi á þriðjudags kvöld 30. Juni, og í seinasta lagi á þriðjudags kvöld 7. Juli, eða kvöldið fyrir Seljumanna messu. En þegar Járnsíða var

[1]) fúið gat á blaðinu í skinnbókinni.

[2]) ný (= nýmæli), *innanmáls í skb.*

sett, og síðan Jónsbók, var settr fast ákveðinn dagr til alþíngis, og skyldu menn koma til þíngs Pètrsmessu aptan, það er kvöldið fyrir Pètrsmessu og Páls, eða 28. Juni. Nú lægi að vísu nærri að hugsa, að þar sem máldaginn segir fyrir að sýngja Pètrsmessu um alþíngi og annan dag helgan um þíngið, þá sè líklegast að Pètrsmessa hafi þá verið í upphafi alþíngis og því sè þannig til orða tekið; en það virðist líklegra, að Pètrsmessa sè helzt tiltekin vegna þess hún var einna mestr helgidagr um alþíngistímann, sem sýnir Kristinrèttr hinn forni.

---

Kirkia at holme.

Kircia at holme er helgvð með gvði hinne helgv gvðs moðvr marie. oc Johanne efangelista. jacobo postvla envm ellre. thoma erchibiskvpe. oc vincentio diacono oc Sebastiano. oc ollvm helgvm.

En sa er cirkiv maldagi at holmi. at þar liggr til circiv bol oc tyrfings staðir. hval reci fra circiv homrvm oc til bresa gerðis. ef meiri er en hlass hvalr. En ef minne er þa eigv land eigendr. Viðreci allr fylgir j þvi takmarki. nema cefla reke.

þar fylgia kyr .viij.

þangat leggiast tivndir til af .vij. bðivm.

þar fylgia klockvr .v. oc messv fot tvenn. oc cantara capa oc sloppr. scrin oc messv fata cyrtil[1]. hand boc oc stola oc crisma cer. plenarium oc glerglvggr. altara klæði .vij. cista. oc circiu tiolld oll. Roðv crossar þrir oc skript. kerti sticvr. ij. oc gloða cer. mvnlogar .ij. oc lysi colvr þriar. hægindi oc dyna.

Sia er scylld a stað þeim. at þar scal prestr vera at heimilis hvsi oc tiðir hvern helgan dag. ottv songvar allir oc heimilis tiðir. hvern dag messa of langa fostv. oc jola fostv. jmbrv daga alla. oc leyfis daga. oc .iij. daga j vikv rvmhelga. þar scal vera scyllt at syngia petvrs messv vm aldingi oc annan dag helgan vm þingit.

þar er gropt lofat þeim monnvm ollvm er menn vilia þangat færa.

---

1) *þann.* cyrttil, *D 12 (ritvilla fyrir* cistu, *eða* cistil*?)*.

113. [um 1220].

MÁLDAGI Garða kirkju á Akranesi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Þessi máldagi er prentaðr hèr eptir máldagabókinni frá 1601, sem er D 12 í safni Steingríms biskups í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, bl. 76—77 (sbr. Nr. 24 að framan).

Máldagi þessi er í alla staði svo svipaðr þeim sem er næst á undan, Innrahólms kirkju máldaga, að enginn getr verið efi á að þeir sè samtíða. Þar sem talið er að kirkjan eigi gullkaleik, gylltan róðukross, glerglugg og fleira, sem um þessar mundir var sjaldfengið, þá bendir það oss á, að auðugr maðr og höfðíngi bjó í Görðum um þessar mundir, Þórðr prestr Böðvarsson, móðurbróðir Sturlusona († 1220), og eptir hann Þorleifr sonr hans (Sturl. s. og Þorláks bisk. s., Bisk. s. I, 284—286).

Í máldaganum stendr, að kirkjan eigi tíu kýr og þrettán kúgildi ásauðar, og leysi hvort annað; það er svo að skilja, að heimilt skyldi vera að greiða kú fyrir ærkúgildi, og sömuleiðis ásauðarkúgildi fyrir kú, þegar skilað væri innstæðufènu eða reikníngr gjör.

---

Garðar.

Þesse er maldagi Lorencii oc Sebastiani kirkiv j gorðvm a acra nesi. at circia a [halft][1] heima land oc skrin gyllt með hœlgvm domvm. silfr kaleka .iij. oc einn gylltan oc gull kalec. hinn fiorða.

VI. manna messv fot. oc kantara kapvr .iij. oc sloppa .iiij. IX. alltara klæði. munnlǫgar .ij. oc kerte sticvr .iij. oc jarn stikv mikla. VI. klockvr. roðv krossa .V. oc einn gylldr. lica cracr. font oc skiolv. gloða ker .ij. tiolld vm alla kirciv. gler glvgg oc stola .iij. oc messv fata kistv. kerta stock oc pvnd vax.

a milli oss j arna nesi oc griot garðz j galmans vik a kirkia alla stor reka. oll þav tre er þvi erv lengre en sex alna. at boloxi megi a setia fyrir framan. en fyrir ofan ala a allt garða land allan reka vt fra mark lôc. en sa er við garð at osi.

---

[1]) Þessu er bætt inni, vegna þess að bæði Gyrðs máldagi og Wilchins hafa svo, og er ekki líklegt, að kirkjan hafi mist hálft heimaland frá því þessi máldagi var settr og fram á fjórtándu öld. Í Gísla máldaga (1575) er fyrst talið kirkjunni allt heimaland í Görðum.

Selfarar tvennar. onnvr a mas staði en onnvr vpp með leira fyrir vestan gagn vart biskvps breckvm.

af rætt j Svanga j Skorradal ollvm navtvm oc a gagn heiði ollvm savðvm.

kircia a kyr tio oc .xiij. kvgilldi asavðar oc leysa hvart annat oc þria tigi gelldinga.

Sea er skyll[d] a þrim kvm. vætr oc svmar. at gefa nyt vndan hvern fostv dag meðan miolk er. vndan annarri hvern þvat dag. vndan hinni þriðiv hvern drottins dag.

þar scvlv vera prestar .ij. oc diakn oc hvern dag messa .ij.[1] vm langa fostv.

ef heimelis prestr er a heynesi. þa scal giallda j garða hvndrað.

j gorðvm skal syngia .ij. messvr miðvikvdag hvern oc fostv dag hvern.

Tivndir liggia vndir þessa kirkiv af halfvm fiorða tygi[2] bóa.

þar skvlv fylgia verk hestar .ij.

ecki fylgir Skagi garða landi.

---

## 114. [um 1220].

Máldagi kirkjunnar að Melum í Melasveit í Borgarfirði, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Prentaðr eptir máldagabókinni D 12, bl. 73—74 (sbr. Nr. 24 hèr að framan).

Vèr höfum áðr prentaðan máldaga Mela kirkju, sem talinn er eldri en þessi, og heimfærðr til tíma þorláks biskups (1181; sjá Nr. 61, bls 270—272). Flest af því sem talið er kemr saman þar og hèr, en sumt er þar talið frekara, og ætti það að benda til, að ekki væri rètt aðgreint í máldaga Sveins biskups hið forna og hið nýja, heldr ætti að sleppa úr ítökum þeim, sem talin eru þar framar en hèr. En jafnvel þó vandhæfi sè á að segja með vissu, að sú aðgreiníng sè allskostar rètt sem þar er fylgt, þá mun eg þó geta þess, að dæmi finnast eins til þess í máldögum að kirkju eignir mínki, eða þær breytist ýmislega, eins og að þær vaxi, og svo er einmitt um hina síðari máldaga Mela kirkju, að þeir eru í hvikulla lagi; en sumstaðar

---

1) *þ. e.* tvær messur daglega.

2) tygir, *D 12.*

verðr engin aðgreiníng með fullri vissu gjörð, fyr en búið er að prenta alla máldagana og geta menn síðan jafnað þeim saman sín á milli.

---

Melar.

Kirkia at melvm er helgvð gvði almattcvm. oc sancte marie. petvre. oc andree. Stephano. Olauo. Laurentio. Martino oc Nicholao. Thollaco. Agatte. Lucię. oc sanctarvm undecim m[illivm][1]. oc ollvm helgvm.

Hon a mela land allt með ollvm gǿðvm þeim er thorlacr ceypti. oc magnvs hefir siðan til lagt. oc sel for j land þat er liggr a milli fosslæk[i]ar oc tvngv ar. oc viðan til hvsa. oc bvnavtnar meðan þar getr.

kircia a .v. kyr. oc halfan þriðia tavg hvndraða j bocvm oc messv fotom oc ollv kirciv skrvði.

þar liggr [til] circiv tivnd sv er verþr af .xiiij. bovm oc or hofn half.

Sv er skylld[2] a stað þeim. at þar skal vera prestar .ij. at heimili. eða prestr oc diacn oc qven gilldr omagi or cyni magnvs[3].

þar scal vera ottv songr. oc messa hvern dag[4] nema vm alþingi. þa er ei scyllt at syngia optar nema log helga daga[5]. Annan hvarn dag .ij. messvr vm langa fostv. oc þa vigilia hvern aptan rvmhelgan. oc annan hvarn vm iola fostv.

þar skal lios brenna vm not[t] fyrir mariv messv hina fyrri. oc hveria nott þaðan fra vnz liðr cross messv vm varit[6].

þar er lofaðr groptr ollvm þeim licvm er menn vilia þangat fǿra. er circiv lægt eigv.

þar fylgia kirk[iv]r at læk oc j hofn. oc bǿna hvs þrenn.

---

1) þ. e. 11000 meyja, eða hin helga Ursula og stallsystr hennar, sem kallaðar eru Kolnis meyjar. Ártíðardagr þeirra er 21. Oktobr.

2) skyllda, *D 12.* 3) magnusar, *D 12.* 4) daga, *D 12.*

5) *hèr endar bl. 73, en efst á bl. 74 stendr:* halft land j Skorra hollti .xvi. kyr oxa .vi. vetra gamlan oc hesta .ij. *og er þessu án efa skotið inn í máldagann af ritaranum, en ofanmáls er ritað* sogn guðina *og ætla eg þetta hafi tillit til þess sem inn er skotið.*

6) Mariumessa hin fyrri er 15. August; krossmessa um vor er 3. Mai.

115. [um 1223].

Máldagi Hvamms kirkju í Norðrárdal, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Eptir máldagabókinni D 12, bl. 78 [sbr. Nr. 24 að framan].

Máldagi þessi heyrir til þeim kafla bókarinnar, sem í eru hinir fornustu kirknamáldagar úr Skálholts biskupsdæmi; þar að auki sýnir bæði málfæri máldagans sjálfs, og samburðr við aðra máldaga Hvamms kirkju, að hann er mjög forn, og trauðlega ýngri en hèr er sett; sýnir og upphafið, að hann muni vera vígslumáldagi kirkjunnar. En um tímatal hans á dögum Magnús biskups Gizurarsonar getum vèr helzt farið eptir því, að vèr vitum hann visiteraði á Vestfjörðum 1224, og eptir Kristinrètti skyldi Skálholts biskup hafa farið um biskupsdæmi sitt á hverju þriggja ára bili; er því líklegt hann hafi verið í Borgarfirði árið fyrir.

Það er einkennileg ákvarðan í þessum máldaga, að þar megi leysa XII aurum hvert kúgildi kirkjunnar, það er: að gjalda megi einúngis 72 álnir fyrir hvert hundrað (120 álnir), ef ekki væri kúgildi til þegar svara ætti af hendi kúgildum kirkjunnar; það er einúngis hálft hundrað með ársleigu af hundraði, eða helmíngr innstæðunnar með eins árs leigu hennar allrar.

---

Hvammr.

Mariv kirkia ok ins helga thorlaks biskvps j hvammi var vigð með þessvm maldaga.

at þar skal vera prestr heimilis fastr ok syngia allar heimilis tiðir. messa avallt er [gor er[1] til. vigilia hvern dag vm langa fostv. annan hvarn dag vm jola fostv. þar scal cavpa .iiij. morcvm at presti.

þar scal vera messv diacn heimilis fastr ef biskvp vill. eða miðr vígðr ef hann vill sva.

Kirkia a .xx. kvgilldi. heimillt at leysa .XII. avrvm kvgilldi. kirkia a land a holi ok froða engi.

hvn a klvckvr .iiij. kerti stikvr .ij. gloða ker. elldberi. vmbvnað vm font. hvn a vercfæri lic at grafa. munlogar .ij. alltara klæði .ij. tiolld vm songhvs .xv. mercr vax ok reykelsis.

Þar liggr til kirkiv tivnd heima manna ok [af] .xviij. bøvm oðrvm.

---

1) *frá* [ gorir, *D 12.*

þar er leyfðr allra manna groptr nema presta.
þar liggia til .vii. bonhvs kavpa .vi. avrvm af hveriv. z cet.

---

116. [um 1223].

Máldagi kirkjunnar í Hafsfjarðarey, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Máldagi þessi er prentaðr hèr eptir bókinni D 12, bl. 68-69 (sbr. Nr. 24 hèr að framan).

Um tímatal máldaga þessa er mest farið eptir því, að hann er í hinum fornasta kafla bókarinnar, og hann er svo líkr máldaga Hvamms kirkju hèr næst á undan, að hann er augljóslega frá sama tíma.

Kirkjan í Hafsfjarðarey, eða Haffjarðarey, sem nú er venjulegra að nefna, var búin að eignast alla heimajörðina á fjórtándu öld og var þar þá staðr (Beneficium). Kirkjan þar var Nikulás kirkja, eða helguð hinum heilaga Nikulási biskupi af Mirrea, sem var mjög tignaðr af mörgum mönnum á Íslandi og margar kirkjur eru helgaðar; er og af honum mikil saga á Íslenzku rituð, með formála Bergs ábóta Sokkasonar frá Múnkaþverá (1325), og góð drápa, sem ort hefir Hallr prestr Ögmundarson, um eða nálægt 1400, og enn fleiri kvæði. Til sóknar í Haffjarðarey lá allr Eyjahreppr, og þegar Wilchinsbók var samin (1397) lágu þar undir fimm bænhús. En á sextándu öld fóru að koma þar landbrot mikil af sjáfargángi, svo að torsótt varð að komast yfir sundið í eyna; tók Gísli biskup Jónsson þá kirkjuna af 1563, og lèt byggja aptr litla kirkju í Hrossaholti, en sókninni var skipt við Gnúpá og bæirnir sunnan árinnar lagðir að Kolbeinstöðum, en vestan árinnar að Miklaholti[1]. Bjarni prestr Gíslason var seinastr prestr að Hafsfjarðarey, og fór hann að Staðarhrauni 1568 (Prestatal í Ritum hins ísl. lærd. lista fèl. xi, 73). þetta stóð þó skamma stund, því 1570 var bygð kirkja á Rauðamel hinum ytra, og lögð þángað öll hin forna sókn Hafsfjarðareyjar kirkju, nema Höfði. þar eptir voru Kolbeinstaðir og Rauðamelr þíngabrauð, allt til þess 1645, að Brynjólfr biskup Sveinsson gjörði þá breytíng, að Kolbeinstaðir voru lagðir til Akra, eða Hítarness þínga, en Rauðimelr til Miklaholts, og hefir svo staðið síðan[2]. Í máldagabók Gísla biskups er skýrt frá, hversu skipt var upp kirkjufjám í Hafsfjarðarey, og var þar þá ekki um auðugan

---

1) Brèf höfuðsmannsins Páls Stigssonar og Gísla biskups Jónssonar um sóknaskipan í Snæfellsness prófastdæmi, gjört á Bessastöðum 27. Decembr. (Septembr.?) 1565. prent. í Lagas. Ísl. i, 90-92.

2) Rit hins ísl. lærd. lista fèl. xi, 76 athgr. 25.

garð að gresja innanstokks. Á síðari tímum hefir jörðin í Hafsfjarðarey komizt alveg í auðn, en Hausthús, sem var fyrrum jörð sèr, og síðan fylgði Hafsfjarðarey sem eyðihjáleiga og höfð til selstöðu, hefir orðið aðaljörðin. Í Gíslamáldaga eru Hausthús talin eyðikot, sem sè haft til selstöðu; í jarðabókinni 1696 er Hafsfjarðarey talin bygð jörð með 100 álna landskuld og 5 kúgildum, en Hausthús ekki nefnd; í jarðabók Árna Magnússonar er talinn dýrleiki á Hafsfjarðarey 16 hundr., landskuld 100 áln. og kúgildi 3, þarmeð Hausthús eyðihjáleiga, sem sè höfð til sels, og er þar með talin landskuld 40 áln. og kúg. 1. — Frá þeim tíma eru Hausthús talin í jarðabókum sem aðaljörðin, og þó með töluvert minni leigumála en áðr [1760: landsk. 80 áln. kúg. 3], og svo er enn í hinu seinasta jarðamati frá 1850 (Skýrsl. um landsh. á Ísl. I, 683). — Hinn forni dýrleiki á Hafsfjarðarey, sem Árni Magnússon telr, hefir síðar verið tileinkaðr Hausthúsum. Þess skulum vèr enn geta, að fasteignum Hafsfjarðareyjar kirkju er svo skipt, að Rauðamelskirkja hefir eignazt Hausthús (þ. e. Hafsfjarðarey sjálfa) og Hömluholt[1] með 10 kúgildum, þegar Rauðamelskirkja var sett 1570, og hefir prestr síðan 10 fjórðúnga smjörs af Rauðamels eignum. Hólsland hefir lagzt undir Miklaholts kirkju.

Í máldaganum sjálfum er ýmislegt eptirtektar vert. Það er fyrst, að Eyjar land (þ. e. heimajörðin Hafsfjarðarey) og Hóls land[2] sè „at tveim kúgildum hins fimta tigar", það ætla eg sè: 42 hundr. að dýrleika; nú er dýrleiki jarðanna 32 hundr., og gæti manni því dottið í hug, annaðhvort að misritað væri í máldaganum „fimta" í stað „fjórða", því þá stæði allt í skorðum, eða að hundraðatala jarðanna væri hèr aukin af því þær væri virtar móti kúgildum, eða og, að dýrleikinn hefði síðar verið settr niðr, þó vèr ekki vitum hvenær það hafi verið gjört. — Þar sem talað er um að leysa eitt gjald með öðru, er sagt svo fyrir, að leysa skuli vættina með hálfri mörk; þ. e. með 24 álnum, og kemr það heim við Hvamms máldaga hèr næst á undan, þegar þrjár vættir mjölvægs matar eru taldar í hundrað svo sem hèr (sbr. Nr. 23, bls. 167 hèr að framan); verðr þá hundraðið leyst með 72 álnum, ef matr var til, en annars varð hlutaðeigandi að greiða kúgildi, það er fullt hundrað.

---

## Hafs fjarðar ey.

Sa er kirkiu maldagi j hafs fiarðar ey. at eyiar land halft liggr til kirkiu oc hols land halft. En þau .ij. eru at tveim kugilldum ens fimta[3] tigar.

---

1) þessa jörð átti Hafsfjarðareyjar kirkja þegar hún var tekin af.

2) Hóls land (Hólsland) er kallað alstaðar, og lítr þó út sem jörðin hafi að fornu heitið Höll.    3) *þannig D 12 (rètt.* fjórða?*).*

En þar fylgir til halfs niunda hundraðs j busgagne oc husbuningi oc hestar .iij. ij. marka hestr hvaR oc kyr .xij. oc .lx. a. oc .l. vætta matar. Rett er at giallda iafn margar fiska vættir sem smior vættir. en annars matar leysir hverr giallda skal halfa mork fyrir vætt. oc kugilldi fyrir þriar v[ættir]. ef eigi er matr til.

Su er afvinna af fe þessu. at kaupa at preste sem við ma komast. en prestr er skylldr at syngia þar messu huern dag loghelgan oc annan hvarn ottu song oc allar heimilis tiðir. oc sva rumhe[l]gar tiðir. sem bondi getr keypt við prestinn[1].

---

## 117. [1224].

Skipan Magnús biskups Gizurarsonar um saung og þjónustugjörð í kirkjum, sömuleiðis um skriptir og um innleiðslu kvenna í kirkju.

Þessi skipan er án efa sú, sem getið er um í Annálum við árið 1224, og kallað: „Boðorða breytni Magnús biskups messu". í

Finnr biskup hefir haldið (Hist. Eccl. Isl. I, 312 athgr. *a*), að Magnús biskup hafi verið settr af embætti fyrir þessa skipan, af því hún muni hafa verið gjörð fyrir hvöt kórsbræðra í Niðarósi, en fjandskapr var milli þeirra og Pèturs frá Húsastöðum, sem þá var í erkibiskupskjörum að Niðarósi. Þessu hafa sagnaritarar Norðmanna fylgt (Keyser. Den norske Kirkes Historie. I, 402) og síðan rakið þar úr ymsar frásagnir, sem bygðar eru á sögu Arngríms ábóta og auknar með tilgátum (Munch. Det norske Folks Historie. III, 874—75). En þó oss vanti nú margar greinilegar frásagnir um, hverjar sannar ástæður hafi verið til ymsra viðburða á þessum tímum, þá mun varla geta leikið á tveim túngum um þetta mál. Ef að Magnús biskup hefði orðið settr af embætti fyrir skipanir í andlegum málum, þá hefði það annaðhvort orðið að vera af því, að hann hefði gefið skipanir sem hann átti ekki vald á að gefa, eða að efni skipananna sjálfra hefði verið ósamkvæmt kirkjulögunum. En þetta virðist hvorugt hafa verið. Biskupar höfðu vald til að haga kirkjusiðum og helgihöldum á ymsa vegu, þegar það raskaði ekki hinum almennu reglum kirkjunnar. Vèr finnum að vísu vott til þess,

1) prestuñ, *D 12.*

að menn þóttust hafa meira fyrir sèr, þegar sagt var að sá eða sá siðr væri við kirkjuna í Niðarósi, eða í Rómaborg o. s. frv., eða sumir þóttust ekki vilja tigna þann helgan mann sem ekki væri tignaðr annarstaðar en á Íslandi; en ekki finnum vèr neinn vefengja það vald biskupa, að skipa fyrir um ymsa hluti í slíkum efnum. Þar að auki ber einnig skipanin sjálf með sèr, að biskup hafði ráðaneyti klerka sinna, þareð hún er samþykkt á prestastefnu. Að efninu til er ekki heldr neitt í skipun þessari, sem ekki er samkvæmt þeirra tíma siðum og lögmáli, og miðar til at bæta reglur í kirkjusiðum og efla gott siðferði. Prestum er hèr skipað í fyrstu grein, að hafa ekki hina sömu þjónustugjörð lengr en einn mánuð í senn; það bendir til, að þeir muni hafa haft áðr óbreytta þjónustugjörð um marga mánuði, og þarneð forsómað að hafa nógar og reglulegar tíðabækr. Hinar næstu greinir miða til að koma fastri reglu á kirkjusaung, og er sú regla samkvæm hinni rómversku kirkju. Greinin um skriptir er að nokkru leyti bygð á skipunum kirkjuþíngsins í Lateran 1215. Seinasta greinin miðar til að gjöra mun á lausakonum sem eiga börn, og eigingiptum konum, og bendir sú skipan til, að allar konur hafi áðr verið leiddar í kirkju á Íslandi með sama sið, en greinarmunr svipaðr þeim sem hèr er skipaðr hefir ávallt síðan haldizt við, meðan sá siðr stóð að leiða konur í kirkju. Árni biskup Þorláksson hefir staðfest á ný skipun þessa (1269 eða 1270), og mundi það eigi hafa orðið ef hún hefði verið svo fjarstæð, að samþykkt hennar hefði verið afsetníngarsök fyrir þann biskup sem setti hana.

Eg hygg, að með afsetníng Magnús biskups hafi verið allt öðruvísi úfað, og muni viðskipti þeirra biskupanna Guðmundar og hans á einn veginn, en á annan veginn viðskipti beggja biskupanna við hina veraldlegu höfðíngja á Íslandi, eða í fám orðum að segja: viðreign hins andlega og veraldlega valds á Íslandi, hafa verið undirstaða málsins. Allt lýtr að því, að óvild hafi verið undir niðri alla tíð milli biskupanna, frá því að Guðmundr sigraði Magnús í kosníngnum. Þar við bættist, að framferðir biskupanna voru harðla ólíkar: Guðmundr mat að engu skynsamlega stjórn eða ráðvísi eða eignir í veraldlegum efnum, landslög og rèttindi manna voru fyrir honum einkis verð, ef þau sýndust koma í bága við það sem hann vildi vera láta í smáu sem stóru. Magnús hèlt fram hinu sama sem Páll biskup, hann sætti hverju færi til að auka vald biskupa, en fór aldrei í berhögg. Hann fylgði höfðíngjum, og var í frændsemi og vináttu við þá, og neytti valds síns til að setja niðr þrætur þeirra og skakka á milli þeirra þegar mest reið á, en þá sá hann svo um, að hann og frændr hans og heilög kirkja báru ægishjálm yfir öllum öðrum. Meðan Páll var biskup ríktu Oddaverjar, eptir að Magnús tók við ríktu Haukdælar, og höfðu þá um tíma Sturlúnga í flokki með sèr. Þetta álit á málinu styrk-

ist við, ef vèr lítum skyndilega yfir helztu viðburðina á þessu tímabili, og einkum viðskipti biskupanna.

Þess var áðr getið, að Guðmundr biskup kom út 1218, en jafnskjótt samsumars rak Arnór Tumason bann frá stóli. Samt var hann á Íslandi þartil Sturla Sighvatsson elti hann út í Grímsey og hertók hann þar (1222) og fór hann þá utan. Guttormr erkibiskup tók þá enn hið fyrra bragð, að stefna höfðíugjum utan, en enginn gegndi. Þá mun og erkibiskup hafa ritað Magnúsi biskupi, því árið eptir (1223) sendi hann tvo klerka með brèfum sínum til erkibiskups. En þá um vetrinn (6. Febr. 1224) andaðist Guttormr erkibiskup, og svöruðu kórsbræðr brèfum Magnús biskups um vorið; er það hið fyrsta sinn sem vèr þekkjum að kórsbræðr komi fram í íslenzkum málum. Vèr verðum varir við upp frá þessum tíma, að vald kórsbræðra í Niðarósi fer æ vaxanda, og afskipti þeirra af kirkjumálum, einkanlega kosníngum biskupa og erkibiskupa, en þessa hafa menn ekki gætt á Íslandi, og fyrir þá sök ekki skeytt um að setja þar kórsbræðr eða capitulum á báða biskupsstólana, þareð þeir hafa treyst hinum fornu lögum sjálfra sín, að þeir skyldi biskupar vera sem kosnir væri af lærðum og leikum á Íslandi. En fyrir þetta hið sama voru kosníngar þeirra að engu hafðir, þegar vóx metnaðr kórsbræðra í Niðarósi, heldr var þá sagt, að þegar engir kórsbræðr væri við einn biskupsstól, þá fèlli biskupskosníngr undir kórsbræðr móðurkirkjunnar, það er á erkibiskupsstólnum í Niðarósi. En þessir kosníngar í Noregi voru aptr ollandi því, einsog vænta mátti, að öll yfirráð málanna lentu í útlendra höndum smásaman meir og meir, og Íslendíngar sjálfir blèsu að þeim kolunum. Eptir að Guðmundr biskup kom til Noregs, var hann fyrst í Björgvin, en síðan fór hann norðr til Niðaróss og var þar tvo vetr (1224—1226). Þá kom Pètr erkibiskup í land, og hefir þá Guðmundr biskup túlkað mál sitt fyrir honum; má ráða í á hvern hátt það hafi verið, af því, að 1226 um vorið komu þeir út til Íslands Guðmundr biskup og Björn klerkr, sem kallaðr var Rita-Björn, og höfðu brèf erkibiskups, var þar tekið embætti af Magnúsi biskupi, og honum utan stefnt, ásamt þeim höfðíngjunum, Þorvaldi bróður hans Gizurarsyni, Sighvati Sturlusyni og Sturlu syni hans. Af þessari utanstefníngu þyki mèr auðsætt, að breytíng Magnús biskups á messusaungnum hafi ekki verið ástæðan, heldr samlag biskups við höfðíngjana, og rógr sá sem Guðmundr biskup hefir getað spunnið út af því, um fylgisleysi Magnús biskups við kirkjunnar málefni; en þar til hefir og einnig komið áhugi erkibiskups og laungun til að fá sem mest ráð á Íslandi, þegar hann sá að Íslendíngar gáfu á sèr fángaráð.

Magnús biskup gegndi ekki utanstefníng erkibiskups, og hèlt embætti sínu sem áðr; þeir höfðíngjarnir sátu einnig kyrrir, og höfðu að engu boð erkibiskups. Þorvaldr fór að stofna klaustr í Viðey og gjörðist þar kanoki, og Magnús biskup styrkti

þar til. það sem mest hefir valdið, að skipun erkibiskups var í þetta sinn að engu höfð, hefir án efa verið það, að Pètr erkibiskup andaðist á þessu ári, og eptirmaðr hans, þórir hinn þrænzki, kom ekki til stóls síns í Niðarósi fyr en 1228, en þá sendi hann jafnskjótt brèf til Íslands og stefndi utan á ný Magnúsi biskupi, Sighvati og Sturlu. þorvaldr Gizurarson var þá úr sögunni, og kominn í klaustr sitt. þá fór Magnús biskup loksins utan, en Sighvatr og Sturla gáfu utanstefníngunni engan gaum. þegar Magnús biskup kom til Noregs er svo að ráða sem hann hafi verið lengst framanaf í Björgvin, fra því um haustið 1228 og til þess 1230, en þá andaðist þórir erkibiskup og varð hann ekki lángvinnr (+ 8. Aug. 1230). Á þessu ári er þess getið, að Magnús biskup færi til þrándheims, og kemr þá fram ný hlið á hinum íslenzku málum, sem ekki er fagrari álits en hin fyrri; þá stefna kórsbræðr utan Guðmundi biskupi Arasyni á Hólum, en Hákon konúngr og Skúli jarl stefna höfðíngjum. þessi er hin fyrsta utanstefníng frá konúngs hendi, og þó án alls rèttar, þareð konúngr átti alls ekki yfir höfðíngjum á Íslandi að segja. En í þessu er grunsamt um að sè bendíng frá Magnúsi biskupi, og hafi hann sagt þeim, að höfðíngjar á Íslandi mundi eigi þykjast skyldir að meta að neinu stefnur erkibiskups eða kórsbræðra, en þeir kynni heldr að meta stefnur konúngs og jarls, því þá hefir verið að myndast sá almennr hugsunarháttr manna, að konúngar og jarlar væri bornir til að ráða yfir bændum hvar sem væri, en frjálsa þjóðstjórn og jafnborin rèttindi þekktu menn eigi nè skildu neitt í. En hafi Magnús biskup gefið þessa bendíng, sem mèr virðist auðsætt að verið hafi, þá hefir hann þarmeð veitt framgáng hinu háskalegasta ráði fyrir frelsi Íslands. Nú var hann í þrándheimi í tvö ár (1230—1232), og var þá Sigurðr erkibiskup kominn til Niðaróss, þegar hann fór út til Íslands; færði hann nú þau brèf erkibiskups út, að Guðmundr biskup skyldi vera af embætti, og galt með því aptr Guðmundi biskupi í sömu mynt brèf þau, er hann hafði fært honum áðr. Ekki höfðu menn á Íslandi verið í þetta sinn svo auðsveipir, að gegna utanstefníngum konúngs og jarls; en nú var aptr stefnt utan hinum sömu mönnum og fyr, og þarmeð þorvaldi Gizurarsyni. Fór það þó enn sem fyr, að enginn gegndi stefnunni. Árið eptir (1233) urðu einskonar lyktir á málum á Íslandi, því þá sættust biskupar báðir við Sturlúnga, og Sturla Sighvatsson fór einn utan, en þessar sættir stóðu ekki lengi, og árið eptir (1234) voru á tíu stöðum flokkar og setur með herbúnaði. Nú voru báðir biskuparnir orðnir gamlir menn, og komu menn sèr því saman um að kjósa biskupsefni til beggja biskupsdæmanna, eptir því sem siðvenja hafði verið, voru þá kosnir 1236 Magnús prestr Guðmundarson á þíngvöllum, dóttursonr Jóns Loptssonar í Odda, að Skálholti, og Björn prestr Hjaltason, sem kallaðr var Kygri-Björn, að Hólum. Báðir klerkarnir fóru utan samsumars, en þegar til Noregs kom voru þeim gjörðar allskonar tálmanir,

svo ekki varð af vígslu þeirra. Það er líklegast, að erkibiskup og kórsbræðr muni hafa fundið sèr til formgalla á kosníngi þeirra, að biskupar voru þá enn báðir á lífi og hèldu embætti, og fyrir því fór Björn prestr til Rómaborgar. En meðan á þessu stóð þá önduðust biskuparnir Guðmundr og Magnús, báðir á sama árinu (Guðm. † 16. Marts 1237; Magnús † 14. August 1237), og var þá Björn prestr í Rómför sinni, en um vetrinn eptir andaðist hann á leiðinni, og var þarmeð eydt máli þeirra biskupsefnanna. Þá var um sama leyti kominn nýr snúníngr á viðskiptin við Ísland, því 1237 um vorið hafði Hákon Noregs konúngr stefnt enn í þriðja sinn utan goðorðsmönnum, og í þetta sinn heppnaðist honum í fyrsta sinn að egna fyrir þá; fóru þeir þá fjórir frændr að sunnan og vestan: Snorri Sturluson, Þorleifr Þórðarson í Görðum á Akranesi, Ólafr Þórðarson hvítaskáld og Þórðr kakali Sighvatsson; þá fór og utan Þórarinn Jónsson að austan, sonr Jóns Sigmundarsonar. Um vorið eptir (1238) þegar frètzt hefir lát Bjarnar biskupsefnis til Noregs, mun hafa komið upp það ráð í Noregi, að kjósa norræna biskupa til Íslands, og er ekki getið að hinir íslenzku höfðíngjar mælti þar neitt í móti; er því líklegast, að þeir hafi verið hafðir í ráðum með, og hafi þeim litizt svo á, sem engin hætta væri í að hafa biskupa norræna, heldr mundi það öllu fremr vera ymsum kostum búið, og mundu þessir hinir útlendu menn verða öllu óráðríkari og óágengari við höfðíngja heldr en innlendir biskupar, enda og hafa í annan stað miklu minna bolmagn við höfðíngjum, þareð þeir hefði engar ættarstoðir í landinu, mundi því þetta vera gott ráð til að koma aptr á rèttan stofn höfðíngjavaldi því, sem áðr hafði verið, en var lækkað eigi alllítið fyrir biskupavaldinu. Nú kom þar til, að þetta ár (1238) var eitthvert hið mesta kollsteypuár í veraldlegri stjórn, sem liðið hefir yfir Ísland, og má sjá þaraf, hversu mikils var í mist, þar sem báðir biskupar voru fallnir frá, og fimm af helztu goðorðsmönnunum voru úr landi. Á þessu sumri var alþíngi eydt með vopnum og ófriði (Sturl. 6, 9: II, 204) og með höfðíngjum hófst einn flokkr af öðrum, þar til lyktaði með bardaganum á Örlygsstöðum og falli þeirra feðga, Sighvats og Sturlu (21. August 1238). Það ár voru vígðir norrænir biskupar til Íslands, Sigvarðr Þèttmarsson ábóti í Selju til Skálholts og bróðir Bótólfr í Helgisetri til Hóla, og komu út vorið eptir til Íslands, þá kom og út Snorri Sturluson og aðrir goðorðsmenn, og segja menn að Snorri hafi þá gjörzt jarl Skúla hertoga, en Hákon konúngr lagði þá farbann fyrir Íslendínga frá Noregi og fór Snorri að honum nauðugum; mun það ekki efamál, að farbann konúngs muni hafa verið til þess, að Snorri og Sturlúngar þeir sem í Noregi voru skyldi eigi geta komizt til að reisa rönd við Gizuri Þorvaldssyni eptir fall Sturlu, en Gizur var háðr konúngi og honum handgenginn.

Vèr höfum nú sèð viðskipti Magnús biskups og Guðmund-

ar, og þá viðburði í sögu landsins, sem höfðu rót sína í óheillakosníngi Guðmundar til biskups, og í óvild þeirri sem milli biskupanna var. Er þar af auðsætt, að þessi skipan Magnús biskups um messusaunginn, sem hèr fylgir, muni ekki hafa getað verið nein orsök til þess hann yrði settr af embætti. Nú skulum vèr skýra nokkru gjör frá því, sem sumum kann að vera ókunnugt í sjálfri skránni.

*Credo in unum* er trúarjátníngin á Latínu („Vèr trúum allir á einn guð, föður almáttugan" o. s. frv.) og er hún prentuð bæði á Latínu og Íslenzku í gröllurunum með nótum, einsog hún var súngin meðan grallarasaungrinn hèlzt. Einsog kunnugt er var hún súngin eptir guðspjall, áðr en prestr steig í stól.

*Puer natus* („Einn sveinn er oss fæddr" o. s. frv.) er messu upphafið í latínusaung, eðr hinum forna kirkjusaung á jóladaginn, og er tekið eptir Esajas spám. 9. kap. — Þessi sálmr er prentaðr á Latínu í öllum hinum eldri gröllurum, sem latínusaungr er í.

*Præfationes* (prefatíur) í messum, eðr formálar, voru svo kallaðir af því, að sá saungr var súnginn og tónaðr rètt áðr en byrjað var að útdeila kvöldmáltíðar sakramentinu. Præfationes eru svo gamlar, að hin elzta sem menn þekkja var eignuð Jakob postula, en síðan var þeim fjölgað svo í Vestrlanda-kirkjunni, að menn höfðu sumstaðar sína á hverjum sunnudegi, og svo var víða enn á elleftu öld. Síðan skipuðu páfarnir fyrir, hversu þessu skyldi haga, og var þá tiltekið fyrst níu, síðan tíu og seinast ellefu præfationes; eru þær allar hinar sömu sem hèr eru skipaðar, nema eina vantar, sem eignuð er Gregorius páfa og er um Andreas postula (sbr. Du-Cange, Glossarium med. Latin., við orð. „Præfatio"; Bona, Rerr. Liturgg. Libri III. prent. í hans Opera. Paris. 1678. 3 Voll. Fol.). — Allar þessar Præfationes eru prentaðar í hinum katólsku messubókum (Missale Speciale. 1504. Fol., bl. LXX) og víðar, og hjá oss þekkjum vèr fjórar þeirra, sem hèldust við eptir siðaskiptin og voru súngnar á fjórum hátíðum: jólum, páskum, hvítasunnu og Trinitatis (þrenníngarhátíðinni); eru þær allar prentaðar á Latínu og á Íslenzku í þeim gröllurum sem hafa latínusaung, og voru súngnar alltaf meðan grallarasaungrinn hèlzt. Úr sögu Guðmundar biskups höfum vèr eitt dæmi, að præfatio var þá súngin á Latínu, og var það þegar hann var prestr á Völlum í Svarfaðardal (um 1190; Guðm. s. kap. 19: Bisk. s. I, 438). — Þær præfationes, sem hèr eru taldar eru þessar, og er þá sleppt því sem allar hafa sameiginlegt, sem er forsaungrinn (Dominus vobiscum — Drottinn sè með yðr, og: Sursum corda — Lyptum upp hjörtum vorum til himins, o. s. frv.) og eptirsaungrinn (Sanctus — Heilagr, heilagr, heilagr er drottinn Zebaoth o. s. frv.), en tekið einúngis það sem er einkennilegt við hverja um sig:

I. Quia per incarnati verbi mysterium nova mentis nostræ oculis lux tuæ claritatis infulsit. ut dum visibiliter deum cognoscimus per hunc invisibilium amo-

rem rapiamur. Et ideo cum angelis et archangelis. cum thronis et dominationibus. cumque omni militia celestis exercitus hymnum gloriæ tuæ canimus sine fine dicentes: (Sanctus, o. s. frv.)

þetta er svo útlagt í grallaranum: þú sem fyrir orðið, sem á sig tók manndóm, í ljóma þinnar birtu upplýsir vor hugskots hjörtu með nýju ljósi, svo að nær vèr berlega þekkjum guð, að vèr þá mættum í rèttum kærleika til sannrar ástar og girndar óforgengilegra hluta verða upp kveiktir. Og þar fyrir með englunum og höfuðenglunum, með trónunum og maktarvöldunum, sömuleiðis ásamt með öllum himneskum hirðsveitum, sýngjum vèr lofsaunginn þinnar dýrðar oáflátanlega, segjandi: (Heilagr, o. s. frv.)

þessi præfatio er prentuð í hinum íslenzku gröllurum í jólasaungnum.

II. Quia cum unigenitus tuus in substantia nostræ mortalitatis apparuit. nova nos immortalitatis suæ luce reparavit. Et ideo cum angelis, o. s. frv. (sem I).

þessi er ætluð til þrettánda dags jóla og fram til lángaföstu.

III. Qui corporali jejunio vitia comprimis. mentem elevas. virtutem largiris et præmia. per Christum dominum nostrum. Per quem majestatem tuam laudant angeli. adorant dominationes. tremunt potestates. coeli coelorumque virtutes. ac beata seraphin. socia exsultatione concelebrant. Cum quibus et nostras voces ut admitti jubeas deprecamur. supplici confessione dicentes: (Sanctus, o. s. frv.).

IV. Qui salutem humani generis in ligno crucis constituisti. ut unde mors oriebatur inde vita resurgeret. Ut qui in ligno vincebat per lignum quoque vinceretur. Per Christum dominum nostrum. Per quem majestatem tuam, o. s. frv. (sem III).

V. Te quidem domine omni tempore. sed in hoc potissimum die (hac pot. nocte) gloriosius prædicare. cum pascha nostrum immolatus est Christus. Ipse enim verus est agnus. qui abstulit peccata mundi. qui mortem nostram moriendo destruxit. et vitam resurgendo re-

paravit. Et ideo cum angelis et archangelis, o. s. frv. (sem 1).

þessi præfatio er prentuð í hinum íslenzku gröllurum í páskasaungnum, og er íslenzkuð þannig: Að vèr drottinn alla tíma háleitlega heiðrum og lofum þig, en þó einkanlega á þessum degi, á hverjum vort páskalamb Kristr er fyrir oss fórnfærðr. því hann er það sannarlega páskalamb, sem burt tók allar heimsins syndir. Sá sem fyrir sinn dauða hefir vorn dauða sigrað og lífið fyrir sína upprisu endrnýjað. Og þarfyrir með englunum (o. s. frv. sem 1).

VI. Qui post resurrectionem suam omnibus discipulis suis manifestus apparuit. et ipsis cernentibus est elevatus in coelum. ut nos divinitatis suæ tribueres esse participes. Et ideo cum angelis (o. s. frv. sem 1).

VII. Qui ascendens super omnes coelos. sedensque ad dexteram tuam. promissum spiritum sanctum hodierna die in filios adoptionis effudit. Quapropter profusis gaudiis totus in orbe terrarum mundus exsultat. Sed et superne virtutes atque angelicæ potestates ymnum gloriæ tuæ concinunt. sine fine dicentes: (Sanctus. o. s. frv.).

þessi præfatio er prentuð í hvítasunnu-saungnum í hinum íslenzku gröllurum, og er íslenzkuð þannig: Hver upp er farinn yfir alla himna, sitjandi til þinnar hægri handar. og hefir sínum útvöldum börnum gefið þann fyrirheitna heilaga anda, hvar fyrir allr heimrinn stórlega sig gleðr með hjartans hæsta fögnuði. Líka einnig þeir himnesku kraptarnir og englanna maktarvöldin; ásamt með þeim sýngjum vèr einnig lof þinni guðdómlegri majestatis dýrð og æru fyrir utan enda óaflátanlega, segjandi: (Heilagr, o. s. frv.).

VIII. Qui cum unigenito filio tuo et spiritu sancto unus es deus. unus es dominus. non in unius singularitate personæ. sed in unius trinitate substantiæ. Quod enim de tua gloria revelante te credimus. hoc de filio tuo. hoc de spiritu sancto sine differentia discretionis sentimus. Ut in confessione veræ sempiternæque deitatis. et in personis proprietas. et in essentia unitas. et in

majestate adoretur æqualitas. Quam laudant angeli. venerantur archangeli. adorant dominationes. tremunt potestates. coeli coelorumque virtutes. et beata seraphin socia exsultatione concelebrant. cum quibus et nostras voces ut admitti jubeas. te precamur. supplici confessione dicentes: (Sanctus. o. s. frv.).

Þessi er prentuð í hinum íslenzku gröllurum í saungnum á Trinitatis sunnudag, en niðrlagið er nokkuð frábrugðið í sumum katólskum messubókum. Í grallaranum er þannig íslenzkað: Þú sem með þínum eingetnum syni og heilögum anda ert einn guð og einn herra, ekki í einíngu persónunnar heldr í þrenníngu einnar undirstöðu; því að allt það sem vèr trúum fyrir þína opinberan um þína guðdómlega dýrð, það sama trúum vèr um þinn eingetinn son, það sama og einnig um heilagan anda fyrir utan allan mismun nokkurs aðskilnaðar; svo að í einni sannri og eilífri guðdómsins viðrkenníngu tilbeðin verði sundrgreiníng persónanna og eining verunnar. með jafnri majestatis dýrð og heiðri. hverja majestatis dýrð að lofa englarnir og höfuðenglarnir, himnarnir og allir himnanna kraptar, cherubin og svo seraphin, með samhljóðandi óaflátanlegri röddu segjandi: (Heilagr, o. s. frv.).

IX. Te domine suppliciter exorare. ut gregem tuum pastor eterne non deseras. sed per beatos apostolos tuos continua protectione custodias. ut hisdem rectoribus gubernetur. quos operis tui vicarios eidem contulisti præesse pastores. Et ideo cum angelis (o. s. frv., sem I). Þessi præfatio var á postula messum.

X. Et te in veneratione beatæ Mariæ semper virginis. exsultantibus animis collaudare. benedicere et prædicare. quæ et unigenitum tuum sancti spiritus obumbratione concepit. et virginitatis gloria permanente lumen æternum mundo effudit Jesum Christum dominum nostrum. Per quem majestatem tuam, o. s. frv. (sem III).

*Communicantes* er upphafið á því sem tónað var eptir útdeilínguna, og er með ymsum smábreytíngum, hèrumbil á þessa leið:

Communicantes et diem sacratissimum celebrantes.

quo dominus noster Jesus Christus pro nobis est traditus. sed et memoriam venerantes inprimis gloriosæ semper virginis Mariæ. genetricis ejusdem Dei et domini nostri Jesu Christi. sed et beatorum apostolorum.

Hanc igitur oblationem servitutis nostræ. sed et cunctæ familiæ tuæ. quam tibi offerimus. ob diem in qua dominus noster Jesus Christus tradidit discipulis suis corporis et sanguinis sui mysteria celebranda.

Quesumus domine ut placatus accipias. diesque nostros in tua pace disponas. atque ab eterna damnatione nos eripi. et in electorum tuorum jubeas grege numerari. o. s. frv.

Skipan Magnús biskups Gizurarsonar er enn til á mörgum skinnbókum, þar sem eru í söfn af skipunum hinna fyrri biskupa; þar á móti hefi eg aldrei fundið hana ritaða í Kristinrètti Árna biskups, einsog lagagrein eða kapítula Kristinrèttarins, og svo mun varla finnast, nema ef vera skyldi í pappírshandritum [1]. En af því að skipan þessi er í marga staði merkileg í kristinrètti á Íslandi, og er grundvöllr kirkjusiðanna í merkilegu atriði, einnig að hún hefir verið höfð í metum og samþykkt af hinum eptirfylgjandi biskupum í Skálholti, og haldizt í gyldi að nokkru leyti fram á þessa öld, þá hefi eg hèr, einsog áðr, prentað hana með þeim afbreytíngum sem hún hefir í skinnbókum, og læt hverja afskript hennar halda sèr eins og hún er; en til þess að lesandi fái fljótt yfirlit yfir handritin, og aldr þeirra og niðrröðun, læt eg fylgja hèr töflu yfir þau, og get þess, að greinatalan er ekki í handritunum, heldr er hún sett hèr til að gjöra yfirlitið ljósara. Handritataflan er þannig, og eru handritin merkt A—N, en orðamun er hægt að finna þegar menn jafna saman afskriptunum.

1) í sögu Finns biskups (I, 309) er orðað nokkuð óskilmerkilega. Fyrst segir hann, að sèr sè ekki ljóst í hverju boðorðabreytni Magnús biskups hafi verið innifalin (quæ mutatio qualis aut quanta fuerit, non liquet), en kveðst ætla að hún sè sú, sem sè kölluð boð Magnús biskups, og sè 43. kap. í Kristinrètti hinum nýjara. Þetta hefir Munch tekið upp eptir Finni biskupi. En í athugagrein við sögu Finns biskups er skipanin prentuð eptir þrem handritum, sem þar eru nefnd, og er hún í engu þeirra rituð sem kapítuli í Kristinrètti. Þar að auki má geta þess, að í Kristinrètti Árna biskups eru ekki til 43 kapítular alls; flest handrit hafa frá 32 til 35, en varla fleiri. Eg ætla að svo standi á þessu, að Hannes Finnsson hafi bætt athugagreininni við þegar bókin var prentuð í Kaupmannahöfn, en ekki breytt neinu í sögunni.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| *A*: A. Magn. 671. B. 4to. c. 1320. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *B*: A. Magn. 344. Fol. c. 1350. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *C*: A. Magn. 351. Fol. c. 1360. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *D*: A. Magn. 48. 8vo. c. 1360. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *E*: A. Magn. 350. Fol. 1363. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *F*: A. Magn. 175. A. 4to c. 1400. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *G*: A. Magn. 354. Fol. c. 1400. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *H*: A. Magn. 687. A. 4to. c. 1479. | 1 | 2 | 3 | » | » | » |
| *I*: A. Magn. 186. 4to c. 1480. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *K*: A. Magn. 456. 12o. c. 1480. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *L*: A. Magn. 148. 4to. c. 1480. | 1 | » | » | » | 2 | 3 |
| *M*: A. Magn. 136. 4to. c. 1480. | 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 |
| *N*: A. Magn. 135. 4to. c. 1490. | 1 | 2 | » | 3 | 4 | » |

Skrá þessi er hvergi prentuð áðr, nema í Kirkjusögu Finns biskups (Hist. Eccl. Island. I, 309, athgr. *a*, með latínskri þýðíngu), og er þar farið eptir handritum þeim sem hèr eru kölluð G, C og I.

---

## A.

Eptir skinnbókarbroti í safni Árna Magnússonar Nr. 671. B. í 4to., bls. 15—16. — Bókarbrot þetta er alls 12 blöð, eða 24 blaðsíður, og er í litlu fjögra blaða broti, ritað með ymsum höndum, og eru hinar elztu þeirra ágætlega góðar með íslenzkri stafagjörð, og sýnast vera frá upphafi fjórtándu aldar, ef ekki eldri, en sumar hafa krókótta stafi, líkt og er á norskum brèfum á fjórtándu öld, og vèr köllum norskt handarlag. Þar er á bókinni helzt þetta: — 1) eiða form nokkur, sem svarin hafa verið fyrir prófóstum og biskupum á tímum Árna biskups Þorlákssonar og síðan í þyrmslamálum við klerka og kennimenn, og í kvennamálum; þar með fylgja: — 2) griðamál frá hinum sömu tímum, bls. 1; —

3) aflausnarbrèfs form frá prófasti, eptir settar skriptir í konumáli, bls. 2; — 4) þrjár ræður ritaðar með ágætlega fallegri fornri hendi, bls. 3—7; er hin fyrsta á allraheilagra messu, önnur á allra sálna messu (2. Novbr.), þriðja er um hlýðni, og er skýrskotað þar til hins helga Bernardus ábóta. — 5) þarnæst fylgja ymsar greinir á Latínu, með öðrum höndum ritaðar, og er það allt guðfræðislegs efnis, eptir ymsum bókum, svosem Durands Rationale (Durand † 1. Novbr. 1296), Remund de Penna forti († 1275), Gregorius og Augustinus, bls. 7—14. — 6) vers á Latínu um geðslag manna (bls. 15), eptir hinni fornu skiptíngu í fjögur lyndismót eða temperament:

| | |
|---|---|
| Largus, amans, hilaris, ridens, rubeique coloris<br>Cantans, carnosus, satis audax, atque benignus | Talis est sanguineus. |
| Versutus, fallax, irascens, prodigus, audax<br>Astutus, facilis, siccus, croceique coloris. | Talis est colericus. |
| Est sompnolentus, pinguis, facie color albus<br>Est hebes huic sensus piger in spiramine mulltos | Talis flegmaticus. |
| Non expers fraudis, timidus, luteique coloris<br>Inuidus et tristis, gracilis, dextreque tenacis. | Talis melancolicus. |

7) Þar eptir fylgir Skipan Magnús biskups, sú er hèr er prentuð, og er hún með snotri hendi, sem gengr næst hinni fegrstu, er áðr var nefnd; þessi skrá er rituð á bls. 15—16, og fylgja þar eptir: 8) tvær skipanir Árna biskups Þorlákssonar, bls. 16—17; en neðanmáls á bls. 16 er brèfsform frá sömu tímum til gjafasafna handa fátækum hjónum.

Eptir Skipanir biskupanna fylgir aptr á Latínu: 9) nokkuð úr Durands Rationale og úr Decretis, bls. 18—21; þareptir: — 10) ræða nokkur um kvöldmáltíðina, bls. 22—23. Á seinustu blaðsíðunni er einhver gamall reikníngr, að mestu ólæsilegr; þarnæst ein grein úr skipun Árna biskups Þorlákssonar um skírnar staðfestíng barna, sem skírð hafa verið skemmri skírn; þessi grein er með mjög fornri hendi, og ágætlega rituð. Neðst á blaðsíðunni er grein á Latínu úr kirkjurètti, og virðist vera úr ritum Goffridus (Goffridus Andegavensis—Goðfreðr frá Angers í Frakklandi, frá fyrra hluta tólftu aldar).

Eptir þessu handriti hefir skrá þessi ekki verið fyr prentuð.

þessi[1] boð uoro sett af magnusi biskupe ok i samþykki tekin af aullum lerðum monnum | a presta stefno

1. at prestar. skulu eigi fyrna mein þionusto. en skipta um sinn | a hueriom manaðe

2. Syngia credo in unum i messo huern drottins[2]. dag. jola. dag. primum | i aullum messum. Setta. dag. iola. atta. dag. jola ok iafnan i þeiri uiku er puer natus er | sungin. þrettanda[3]. dag uppstigningar. dag. mario messo[r]. fiorar[4] crvcis messur baþar allra heilagra messo | kirkiu. dag. altaris dag[5]. postola messor allar. laughelgar. alla pascha uiku ok huita daga | uiko þria octauiss[6]. daga. epiphanie ascensionis[7]. assumpcionis. sancte. marie. marci ewangeliste | luce ewangeliste. johannis ante portam latinam. Jn commemoracione pauli. ad uincula petri. | Barnabe apostoli. marie magdalene ok sua ef nío ręðengum[8] er sungit. in diuisione apostolorum | ok in transfiguracione domini.

3. Eigi skal hafa fleire en tiu[9] prefaciones i messum.

eina um iol | framan til. þrettanda[10]. dags. Quia per incarnati.

aunur in epiphania domini. atta[11]. daga. Quia cum unigenitus.

þriðia[12] um | langa fausto til palma. dags. bęði drottins daga. ok þar ameþal. qui corporali.

fiorða[13] ena efzsto | fimm[14] daga. Qui salutem ok iafnan er messa er sungen de sancta crvce.

fimta[15]. um pascha til | gagndaga. Te quidem.

---

1) upphafsstafr rauðr, nær því afmáðr. Fyrirsögn er engin.

2) d°ttnins, *skb.* 3) 13., *skb.*, með indverskri tölu eptir hinu fornasta lagi, sem finnst í mörgum skinnbókum frá fjórtándu öld.

4) 4, *skb.* með indverskri tölu. Þessar fjórar Maríumessur eru: Kyndilmessa (2. Febr.), Boðunardagr (25. Marts), Maríumessa hin fyrri (Himnaför Maríu, 15. August) og Maríumessa hin síðari (Fæðing Maríu, 8. Septbr.); sbr. Kristinrétt Þorláks og Ketils, kap. 22 og 23.

5) kirkjudagr og altarisdagr er sá dagr, sem haldinn var árlega í minning vígslu kirkju nokkurrar eða altaris, og var sá dagr með mestu hátíðum að þeirri kirkju. 6) octatauiss, *skb.* 7) assencionis, *skb.*

8) ræðing = lectio, sbr. bls. 412 að framan.

9—12) 10. 13. 8. 3. með indverskum tölustöfum í fornri mynd í *skb.*

13—15) tölustafir fornir indverskir; 4, 5 og 5.

Setta[1] de ascensione[2]. niu[3] daga. Qui post resurreccionem.

Siounda[4]. um huita daga. Qui ascendens | ok semper er messa er sungen de spiritu sancto.

Atta[5]. de trinitate alla þa uiku ok domini daga alla | fra huita daugum ok til iola faustu Qui cum unigenito nema þat [festum se[6] sungit | er ser hafi aðr prefacionem.

Niunda[7] de apostolis. Te domine suppliciter ok se su semper er þeim er sungit | nema uigilio daga.

Tiunda[8] de domina. Et te in ueneracione. ok ueri su iafnan er henni er sungit | nema kyndil messo. Quia incarnati. ok sua þar til. domini[9]. daga fra octava epip[h]anie ok til. niu[10] uikna | fausto nema fyrr kome nio uikna. fasta. þa skal obreytt prefacio

4. hafa skal ok comm|unicantes ok hanc igitur[11] alla. pascha uiko ok helgo uiko. j(ola). dag. i aullum messom | skal syngia communicantes ok sua. þrettanda[12]. dag. skir. dag. uppstigningar. dag. ok engua þessa luti optar | en nu ero akueðnir. Sa huer ok sem gerer annars kostar at uilia sinum skal | giallda biskupi. eða. umboðsmanni hans. tolf[13] aura. eða. missa ella messo saungs.

5. Eigi[14] skal | leyfa havfuð synð ok engi a at gera þott boðen se. Vm þa eina luti kaus hugr | umbun[15] er maðr er eigi skylldr at uita[16]. Bioða bera skript fyri bera synd ok leynda | skrift fyri leyndan laust. Banna berliga j formêli. pasca. dag. þionusto tekio huerium þeim | er eigi hefir til skripta gengit. eða. ser ueit a hendr leynda stor luti.

---

1) tölustafr forn indverskr: 6. 2) asceneione, *skb.*

3—5) tölustafir fornir indverskir: 9, 7, 8.

6) [ se festum, *skb. með víxlunarmerki uppyfir.*

7—8) tölustafir indverskir með fornu lagi: 9, 10.

9) d^r, *skb.* (= drottins). 10) tölustafr indverskr með fornu lagi: 9.

11) g^r (= igitur), *skb.*

12—13) tölustafir (13, 12) með hinni fornu mynd hinna indversku tölustafa. 14) Eḡ, *skb.* (eigi *eða* engi).

15) er munbun, *skb., og sýnist* er *vera strikað yfir.*

16) *þannig allir, nema* K, *sem hefir* veita, *og mun réttast að lesa svo*: Um þá eina luti kýss hugr umbun, er maðr er eigi skyldr at veita.

6. manna konur at eins skal með | brennanda kerte i kirkiu leiða. þer er born eigu með bondum sinum en allar aþrar með | aungo kerte[1].

---

## B.

Eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar, Nr. 344 í Fol., bls. 147. Bók þessi er merkileg og ágætlega rituð, hèrumbil um 1350. Á henni er rituð Jónsbók (bls. 3—115), og þar aptanvið nokkrar rèttarbætr, en engin ýngri en frá Hákoni hálegg; þar með fylgja skipanir eða leyfi Vilhjálms kardínála, og síðan forsagnir í ymsum málum (bls. 116—123). Þá koma ymsar greinir, sem heyra til kirkjurèttarins, og seinast Kristinrèttr Árna biskups Þorlákssonar (bls. 123—146). Seinast eru Skipanir eða Statutur biskupa og erkibiskupa (bls. 147—157), og er þar fremst þessi skipan Magnús biskups, er hèr fylgir eptir, en ýngst er Statuta Jóns biskups í Skálholti frá 1345. Skinnbók þessa hefir Árni Magnússon án efa átt frá barnæsku, því hann hefir ritað framan á fremsta blaði: „Arnas Magnæus island. m. pr.", og bendir áskript þessi til, að hann hafi ritað hana þegar hann var úngr stúdent í Kaupmannahöfn. Skinnbók þessi hefir aldrei verið höfð við útgáfur, og er þó ein með hinum beztu.

---

Boð[2] þessi voro sett af herra magnvsi biskvpi ok i samþykt tekin af lærðvm monnvm a prestastefnv.

1. at prestar skvlo eigi fyrna meir þionostv en skipta vm sinn a manaði.

2. Syngia credo in vnvm i messv hvern drottins dag. jola dag fyrsta i ollvm messvm. Setta dag. atta dag ok iafnan i þeirri vikv sem pver natvs er svngin. þrettanda dag vpstign-

---

1) fylgir eptir skipan Árna biskups Þorlákssonar, sem lýsir því, að hún staðfesti skipanir Magnús biskups.

2) engin fyrirsögn í skinnbókinni. Upphafsstafr grænn og dregið í rautt. Orðið „collatum", sem Árni hefir ritað fyrir ofan, merkir, að hann hafi skrifað þetta upp eða látið skrifa og borið það saman. Statuta þessi fylgir hèr næst á eptir Kristinrètti Árna biskups. Skinnbókin hefir allvíðast strik yfir stafnum *i* (í), og er því hèr ekki sinnt.

ingar dag. mario messor .iiij. krossmessor baðar. allraheilagra messo. kirkio dag ok alltaris[1] dag. postvla messor allar. alla paska vikv ok hvitadaga vikv. þria octavis daga epiphanie. ascensionis[2]. assvmpcionis. Marie[3] magdalene ok sva in divisione apostolorvm ok transfigvracione domini.

3. Eigi skal hafa fleiri en x prefaciones i messv.

Eina vm iol til þrettanda dags. Qvia per incarnati.

Onnor in epiphania VIII daga. Qvia cum vnigenitus.

Þriðia vm langa fostv til palma dags bæði drottins daga ok þar i milli. Qvi corporali.

fiorðv efztv vikv v. daga. Qvi salvtem. ok iafnan er messa er svngin de crvce.

fimta vm paska til gagndaga. Te quidem.

Setta de ascensione[4] .IX. daga. Qvi post resvrreccionem.

Sionda vm hvita daga. Qvi ascendens. ok iafnan er messa er svngin de sancto spiritv.

Atta de trinitate. alla þa vikv ok drottins daga alla fra hvita dogvm ok til iolafostv. Qvi cum vnigenito. nema þat festvm se svngit er ser hefir aðr prefacionem.

Nivnda de apostolis. Te domine svppliciter. ok se sv iafnan er þeim er svngit.

Tivnda sancta maria Et te in veneracione ok veri sv iafnan er henne er svngit nema kyndilmesso. þa skal. Qvia per incarnati ok sva þar til drottins daga fra octavam epiphanie nema fyr komi niv viknafasta þa skal obreytt prefacia.

4. hafa skal ok communicantes ok hanc igitur[5] alla paska vikv ok helgv vikv. iola dag i ollvm messvm. ok sva þrettanda dag skirdag vppstigningar dag. ok einga þessa lvti optar en nv ero akveðnir. En sa hverr er hann giorir annars kostar at vilia sinvm skal giallda biskvpi eða hans vmboðs manni xij avra eða missa ella messv söngs.

5. Eingi a at leyfa synd ok eingi at gera þo at boðin se. vm þa eina lvti kyss hvgr ombvn er maðr er skylldr at vita. bioða bera skript fyri bera synd en leynda skript fyri leyndan lost.

---

1) hèr er skinnbókin farin að feyskjast, svo orð þetta verðr nú varla lesið. 2) ascencionis, *skb.*

3) hèr er hlaupið yfir sem svarar línu, líklega frá nafninu *Marie* til *Marie*, sjá fyrir framan bls. 435. 4) ascencione, *skb.* 5) g[1], *skb.*

banna berliga i formæli a paskadaginn þionostv tekio hverivm þeim er eigi hefir til skriptar gengit eða ser veit a hendr leynda stora lvti.

6. Manna konvr at eins skal i kirkio leiða með brennanda kerti þær er börn eigv með bondvm sinvm en allar aðrar konvr með eingv kerti[1].

---

## C.

Eptir Skálholtsbókinni hinni fornu og góðu, í safni Árna Magnússonar Nr. 351 Fol., bls. 189—190, og hefi eg áðr getið þess, að bók þessi muni vera rituð um 1360. Lýsíng hennar er hèr að framan á bls. 108—109. Ekki er þar nein viss röð á statutum og rèttarbótum, nema að kafli af rèttarbótum er fremstr, næstr Jónsbók, og eru þær allar fornar; þá kemr Kristinrèttr Árna biskups og þar eptir statuturnar biskupa og erkibiskupa, og þó ekki í neinni rèttri tímaröð. Þá kemr aptr flokkr af rèttarbótum, sem allar eru frá fjórtándu öld, og seinast er safn af lagaforsögnum.

---

Þetta erv boð herra magnvs biskups[2].

Boð þessi woru sett af herra Magnusi biskupi ok j samþykt tekin af lærðum monnum œ presta stefnu.

1. at prestar skulu æigi fyrna mein þionostu en skipta vm sinn[3] j mánaði.

2. Syngia credo ín unum deum j messu huern drottins dag. Jola dag fyrsta j ollum messum. Setta dag. átta dag ok jafnan j þeirri viku sem Puer natus er sungín. þrettanda dag. vppstigningar dag. Maríu messur .iiij. kross Messur baðar. allra heilagra Messo. kirkiu dag ok alltaris dag. postula mess-

---

1) næst á eptir stendr í skinnbókinni statuta Árna biskups, sem skipar að fylgja þessari skipun Magnús biskups.

2) Fyrirsögn með rauðu letri; upphafsstafr grænn og dregið í rautt.

3) yfir línunni, en þó með sömu hendi að líkindum.

ur allar. alla paska viku. ok huita daga viku. þria octauis daga epiphanie. Ascensionis. Assumpcionis. Marie[1] magdalene ok sva in diuisione apostolorum ok transfiguracione domini.

3. Eigi skal hafa fleiri en tíu prefaciones j Messu.

Eína vm Jol til þrettanda dags. Quia per incarnati.

Onnur in epiphania .VIII. daga Qui[a] cum vnigenitus.

þriðia vm langa fostu til palma dags bæði drottins daga ok þar j milli. Qui corporali.

fiorðu efstu viku .V. daga. Qui salutem. ok iafnan er messa er sungin de crvce.

fimta vm paska til gagndaga. Te quidem.

Sétta De ascensione .IX. daga. Qui post resurreccionem.

Siðnda vm huíta daga Qui ascendęns ok iafnan er messa er sungin de sancto spiritu.

Atta de trinitate. alla þa viku ok drottins daga alla fra huíta dögum ok til Jola föstu. Qui cum vnigenito. nema þat festum se sungit er ser hefir aðr prefacionem.

Níunda de apostolis. Te domine suppliciter. ok se su iafnan er þeim er sungit.

Tíunda sancta Maria. Et te in veneracione. ok were su iafnan er henni er sungit nema kyndil Messo þa skal Quia per incarnati. ok sva þar til drottins daga fra octauam epiphanie nema fyR komi .IX. vikna fasta. þa skal obreytt. prefacia.

4. hafa skal ok Communicantes. ok hanc igitur alla paska viku. ok helgu viku. Jola dag j öllum messum. ok sua þrettanda dag. skírdag. vppstigningar dag. ok einga þessa luti optar en nu eru akneðnir. En sa huerr er hann gerir annars kostar at vilia sinum skal giallda biskupi eða hans vmboðs manni .xij. aura. eða missa ella Messosöngs.

5. Eingi a at leyfa synd ok eingi at gera þo at beðinn se. Vm þa eina luti kyss hugr ömbun er maðr er skylldr at vita. Bioða bera skript fyri bera synd. en leynda skript fyri leyndan laust. banna berliga j formæli a paska daginn þion-

1) sleppt úr og hlaupið yfir frá *Marie* til *Marie* í skb., sbr. bls. 438, athgr. 3 hér að framan.

ostu tekiu huerium þeim er æigi hefir til skriptar gengit. eða ser veit a hendr leynda stora luti.

6. Manna konur at eins skal j kirkiu leiða með brennanda kerti þær er börn eigu með bondum sínum. en allar aðrar konur með engu kerti[1].

---

## D.

Prentað eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar, Nr. 48 í 8vo., bls. 53—54. þessi skinnbók er forn og merkileg, og virðist vera rituð mestmegnis hèrumbil 1360, að fráskildum nokkrum blöðum, sem ritað er á með síðari höndum, á 15du öld og 16du; er það opt, að blöð hafa verið auð í skinnbókum frá upphafi, og hafa ymsir aðrir orðið til að rita þar á síðar eitt eðr annað.

Bók þessi er að austan, úr Múla sýslum, og hefir verið þar lengi. það votta greinir, sem ritaðar eru á bls. 110, rètt við enda bókarinnar, og eru þær þannig: „Einar þorvarðz son á þessa skræðvbók. goldin í tíundir af Bessastöðum af Einari Styrbjörns syni 1631 8. Juli"; og þar hjá: „þetta kver er eign Ásmundar Jónssonar, honum gefið af Sira Einari þorvarðssyni... anno 1643, þann 17. Decbr.". þessi sira Einar þorvarðsson var prestr á Valþjófstað, og sleppti því brauði eða andaðist 1657; en eptir Ásmund hefir Pètr sonr hans eignazt skinnbókina, því svo hefir Árni Magnússon ritað, að hann hafi fengið hana „frá Pètri Ásmundarsyni á Ketilstöðum á Völlum. 1708".

Fremst í skinnbók þessari er ritað upphafið á Jóhannes guðspjalli á Latínu, og er það á fyrstu blaðsíðu, en á annari er dregin upp mynd Krists á krossinum, og Maria og Jóhannes standandi undir krossinum; á þriðju blaðsíðu er rituð trúarjátníngin, einsog hún finnst rituð í hinum fornu lögbókum: „þat er upphaf laga várra Íslendínga", o. s. frv. — Á næstu bls. þar á eptir byrjar Kristinrèttr Árna biskups (bls. 4—50), og endar hèr með 32. kap., en sleppir þremr hinum seinustu sem standa í útgáfu Thorkelins; er það og án efa hið rètta, því þessir þrír kapítular eru að rèttu lagi lausar kirkjulaga greinir, eða að öðrum kosti, sem eg mun síðar leiða fyrir sjónir, slíkar greinir, sem Árni biskup hefir ekki getað fengið lögteknar á Íslandi, og hafa því komizt á

[1]) í skb. fylgir næst skipan Árna biskups, er samþykkir þessa.

flækíng í handritunum; þessvegna finnum vèr og greinir þessar ýmist stakar sèrílagi, ýmist með Kristinrètti Árna biskups, og ýmist með biskupa statutum.

Eptir Kristinrètt Árna biskups fylgir fyrst „um bannsverk sextán", bls. 50—53, sem prentað er í viðbæti við Kristinrètt Árna í útgáfu Thorkelins (bls. 220—224). Þar eptir kemr Skipan Magnús biskups Gizurarsonar, sú er hèr fylgir eptir (bls. 53—54), og eptir henni skipan Árna biskups Þorlákssonar, er staðfestir hana, og síðan ymsar aðrar greinir úr kirkjulögum (54—60).

Þar eptir koma um hríð kaflar úr veraldlegum lögum, er þar fyrst Saktal lögbókar (bls. 61—88); þar eptir alþíngis samþykt hin forna um melrakkaveiðar; þá brot úr hinni almennu rèttarbót Hákonar konúngs háleggs frá 1313, og síðan ymsar forsagnir í lagasóknum, svosem fjárkrafa, skuldarstefna o. fl. (bls. 89—95). Þar eptir fylgja fjórar rèttarbætr (bls. 95—106), og eru þær allar frá Eiríki konúngi Magnússyni (prestahatara) og Hákoni konúngi bróður hans. Þá er hinni fornu hendi lokið, en með hendi frá 15du og 16du öld eru ritaðar ymsar smágreinir (bls. 107—111), og er einna merkust af þeim skipan Pètrs biskups á Hólum um ljóstolla, er hún rituð með hendi frá 1450 eða þarumbil.

---

statvtvm.[1]

Þessi boð vorv sett af herra Magnvsi biskvpi ok i samþykt tekin af lærðvm monnvm a prestastefnv

1. at prestar skvlo eigi fyrna meir þionostv en skipta vm sinn a manaði.

2. syngia credo in vnvm i messv hvern drottins dag. Jola dag fyrsta i ollvm messvm setta dag atta dag ok iafnan i þeirri víkv sem þver natvs er svnginn þrettanda dag. vppstigningar dag. mario messor .iiij. krossmessor baðar. allra heilagra messo. kirkio dag. alltaris dag. postvla messor allar. alla paska vikv ok hvita daga vikv. þria octavis daga. epiphanie.

---

1) Fyrirsögn með rauðu letri; upphafsstafr grænn og dregið rautt í; á spáziu utanmáls er ritað með sömu hendi að sjá: sa er oðro vis gerir vitandi gialldi biskvpi .xij. avra. eða missa ella messo songs, og er þessi grein eptir sjálfri statutunni.

ascensionis[1]. assvmpcionis marie[2] magdalene ok sva in divisione apostolorvm ok transfigvracione domini.

3. Eigi skal hafa fleiri prefaciones en .x. i messv.

Eina vm iol til þrettanda dags. Qvia per incarnati.

Onnor in epiphania. VIII. daga. Qvia cum vnigenitvs.

Þriðia vm langafostv til palmadags. bæði drottins daga ok þar i milli. Qvi corporali.

fiorðv efztv vikv .v. daga. Qvi salutem ok iafnan er messa er svngin de crvce.

fimta vm paska til gagndaga. Te qvidem.

Setta de ascensione[3]. IX. daga. Qvi post resurreccionem.

Sionda vm hvitadaga. Qvi ascendens ok iafnan er messa er svngin de sancto spiritv.

atta de trinitate alla þa vikv ok drottins daga alla fra hvitadǫgvm ok til iolafostv. Qvi cvm vnigenito nema þat festvm se svngit er ser hefir aðr prefacionem.

Nivnda de apostolis. te domine svppliciter. ok se sv iafnan er þeim er svngit.

Tivnda sancta maria. Et te in veneracione. ok veri sv iafnan er henne er svngit. nema kyndilmesso. þa skal Qvia per incarnati ok sva þar til drottins daga fra octavam epiphanie nema fyr komi niv vikna fasta. þa skal [obreytt prefacio[4].

4. Hafa skal ok commvnikantes ok hanc igitur[5] alla paska vikv ok helgv vikv. jola dag i ollvm messvm ok sva þrettanda dag. skirdag. vppstigningar dag. ok enga þessa lvti optar en nv ero a kveðner.

En sa hverr er hann gerir annarskostar at vilia sinvm skal giallda biskvpi eða hans vmboðsmanni. xij. avra eða missa ella messo songs.

5. Eingi a at leyfa synd. ok eingi at gera þo at boðin se. vm þa eina lvti kyss hvgr ombvn er maðr er skylldr at vita. bioða bera skript fyri bera synd en leynda skript fyri leyndan lǫst.

banna berliga i formæli a paska daginn þionostv tekiv hverivm þeim er eigi hefir til skriptar gengit eða ser veit a hendr leynda stora lvti.

1) asceneionis, *skb.*

2) hèr er felld úr lína, einsog i *B* og *C*, og hefir verið hlaupið yfir frá *Marie* til *Marie.* 3) asceneione, *skb.* 4) *frá* [ obrefaeio, *skb.* 5) g[1], *skb.*

6. Manna konvr at eins skal i kirkiv leiða með brennanda kerti þær er born eigv með bondvm sinvm. en allar aðrar konvr með eingv kerti[1].

---

## E.

Prentað eptir skinnbókinni Nr. 350 Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 285—286. þessi skinnbók er ein af hinum merkilegri bókum í safni Árna, bæði af því, að hún hefir verið rituð með meiri viðhöfn, en vant er að hafa á íslenzkum handritum, og svo af því, að hún skýrir sjálf frá aldri sínum. Hún er rituð í stærsta arkarbroti, með tveim dálkum á blaðsíðu; letrið er skýrt og stórt, og ágætlega sett, upphafsstafir með ymsum litum og fyrirsagnir með rauðu letri. Aldr bókarinnar má sjá á grein nokkurri um heimsaldrana, sem rituð finnst á bls. 296—297, og eru þar í þessi orð: „Hinn VIII alldr er vppRisa dauðra manna. er allir skolo upp Risa a doms degi með þeirri a/nd ok likama sem hann hafði haft í þessum heimi. En af þeim sama alldri ero nu liðin M. CCC. LX ok iij ar"; sýnir þetta, að bókin er rituð ár 1363 og þarumbil, sem og kemr heim við ritshátt hennar og stafagerð, en hún hefir síðan komizt í ómildar hendr, svo að blöð hafa týnzt úr henni; síðan hafa þessi skörð verið fyllt aptr, með blöðum sem rituð hafa verið á 16. öld; en af því þessi hönd er í fljótu áliti ekki ósvipuð hinni fornu hendinni, þá hafa stöku menn á seinni tímum tortryggt bókina alla, og ætlað hana vera ritaða alla á sextándu öld.

það sem menn þekkja fyrst til skinnbókar þessarar er það, að Eggert lögmaðr Hannesson hefir átt hana, og hefir gefið hana Birni Magnússyni, dóttursyni sínum, sem var sýslumaðr í Barðastrandar sýslu (sbr. Safn til sögu Íslands I, 700—701). þessi Björn bjó í Bæ á Rauðasandi seinast á sextándu öld, og hefir skrifað nafn sitt á fremstu blaðsíðu í bókinni 1594, en síðan hefir hann látið binda hana í mesta viðhafnar band, og setja gyllta stafi utan á spjöldum framan og aptan; þetta stóð framaná: „Biórn Magnvs son a bokina giefen af Egert Hannes svne hvors sal Gvð naðe", en á aptara spjaldinu stóð: „Epter mig niote sa sem

1) eptir þetta kemr i handritinu skipan Árna biskups þorlákssonar, sem staðfestir þessa skipun Magnús biskups, svo sem áðr var getið.

Gvð vill. Anno 1601". Utaná miðju spjaldinu hvorutveggja var mynd Lúthers gyllt í prestlegum búníngi, haldandi á opinni bók í hendinni með þessu letri á: „In silentio et spe fortitudo vestra, Lutherus" (Hreysti yðar er í þögninni og voninni, Luther), en neðanundir þeim stimpli stóð ártal 1570. Eptir Björn sýslumann erfði bókina sonr hans, Eggert sýslumaðr hinn ríki á Skarði á Skarðströnd, en eptir hann komst hún á flækíng, þar til Árni Magnússon fèkk hana 1697 eða 1698 (skýrsla Árna um bókina í Nr. 435, í 4to. bls. 136). Þá sýnist svo, sem hún hafi þó enn verið í viðhafnar bandi sínu, og svo lýsir Thorkelín henni 1777 (Kristinr. Árna í formála bls. XIII); en nú er hún fyrir laungu flett því, og komin í einfalt pappírs bindi.

Nú skal skýra í stuttu máli frá hvað ritað er á bók þessari: það er 1) Jónsbók (bls. 2—143), með rèttarbótum hinum elztu, settum hèr og hvar í textanum; frá þessari eru ættaðar hinar prentuðu útgáfur Jónsbókar. — 2) Safn af rèttarbótum Noregs konúnga (bls. 143—161), eru þær hèr alls 24 að tölu, og er einhver hin ýngsta þeirra frá 1353. Norðmenn hafa víða farið eptir bók þessari, þar sem þeir hafa gefið út sumar af rèttarbótum þessum, og kalla þeir þá bók þessa Skarðsbók (*Codex Scardensis*, sjá Norges gamle Love, III. Bindi). — 3) Forsagnir við ymsar lagasóknir, 18 að tölu (bls. 161—165). — 4) Saktal og yfirlit yfir Jónsbók (bls. 165—181). — 5) Hirðskrá (bls. 181—214). — 6) Kristinrèttr Árna biskups (bls. 214—241), og er þetta handrit mestr grundvöllr fyrir útgáfu Thorkelíns af þessum Kristinrètti (Khöfn 1777. 8vo); þar fylgir einnig sýnishorn bókarinnar og lýsíng hennar í formálanum. Eptir Kristinrètti fylgir: — 7) flokkr mikill af ymsum skjölum, sem snerta kirkjurèttinn; er þar fyrst brèf Vilhjálms kardínála (1247) með samþykkt Innocentii páfa, þar næst sáttargjörð Magnús konúngs og Jóns erkibiskups (1277), síðan ymsar statutur erkibiskupa í Niðarósi og biskupa í Skálholti, og enn framar yms önnur skjöl og greinir, er snerta kirkjulög, er sumt af þessu prentað aptan við útgáfu Thorkelíns. Ýngst í þessum kafla er statuta Gyrðs biskups um heytolla (1359), en seinast stendr statuta Páls erkibiskups (1336) á Latínu (bls. 297—300), og endar þar hin forna hönd. Skipan Magnús biskups Gizurarsonar, sú er hèr fylgir eptir, er á bls. 285—286, og þar á eptir sú skipan Árna biskups Þorlákssonar, sem samþykkir hana; og eru þær báðar

með hinni fornu hendinni. Á þau blöð bókarinnar, sem eru fyrir aptan það er forna höndin hættir (bls. 300—314) er ritað ýmislegt með höndum frá 15du öld, helzt um aflausnir og eiðatökur.

Í safni Árna Magnússonar er önnur skinnbók, Nr. 138 í 4to, sem rituð er um eða nálægt 1500. Á þessari bók er fyrst Jónsbók (bls. 1—189), þar næst rèttarbætr og forsagnir og saktal Jónsbókar, en Hirðskrá ekki; þar á eptir Kristinrèttr Árna biskups og skipanir erkibiskupa og biskupa, allt í sömu röð sem í Skarðsbók (350 Fol.), þar til á bls. 295 í þeirri bók, að þær skiljast að, og er rèttarbót Eiríks konúngs um lyktir staðamála seinast af því sem báðar hafa (Nr. 350, bls. 295; Nr. 138, bls. 357). Þá fylgja í Nr. 138 á bls. 357—361 um reglur dómara, og um þá sem sverja ósæra eiða, og seinast með annari hendi um gjald á ljóstollum. Skipan Magnús biskups Gizurarsonar er í þessari bók rituð á bls. 343—344, en þareð hún er samkvæm Skarðsbók að mestu leyti, og ekkert er merkilegt í ritshætti hennar eða stafsetníng, er hèr að eins getið orðamunar hennar í athugagreinum.

---

skipanir Magnus biskups[1].

Þessi boðorð voru sett af herra Magnusi biskupi ok i samþyckt tekin af allum lærðum monnum a presta stefnu.

1. at prestar skulu æigi fyrna mein þeonostu en̄ skipta um sinn a huerium manaði.

2. syngia Credo ín unum deum. huern drottins dag i Messo. Jula dag hín fursta i ollum Messum. Setta dag.. Atta dag. ok iafnan i þeirri uiku. er puer natus er sungit. þrettanda dag. uppstigníngar dag Maríu Messur IIII. Cros Messur baðar allra heilagra Messo. kirkiu dag. alltaris dag. postula messur allar lôghelgar. alla pascha viku. ok sua huita daga uiku. III. octauís daga. Epiphanie. Ascensionis. Assumptionis. Marci ewangeliste. luce ewangeliste. Johannis ante portam latinam. Jn commemoracione beati pauli apostoli. Ad uíncula petri. Barnabe apostoli. Marie Magdalene. Diuisionem apostolorum.

---

[1]) Fyrirsögn með rauðu letri; upphafsstafr rautt og dregið í grænn.

3. æigi skal hafa fleiri prefaciones i messum[1] eñ x.

Eina um íul[2] til þrettanda dags. Quia per ín carnati.

aNNur ín epiphanía domíní. viij daga. Qui cum unígenítus.

Þriðia um langa fôstu framan til palmsunnu dags. Qui corporali.

Fiorðu hina[3] efztu uiku .v. daga. Qui salutem. ok iafnan er Messa er de sancta cruce.

Fimta um pa[s]cha uiku. ok til gagndaga. Te quídem domine.

Setta de ascensione domini .IX. daga. Quí post resurrectionem[4].

Seaunda um huíta daga. Qui ascendens. ok iafnan er Messa er sungin de spiritu sancto.

attanda de trinitate. alla þa uíku. ok drottíns daga. til iola fôstu. Qui cum unígeníto. nema þat festum se sungit sem ser hefir aðra prefationem.

Níunda de apostolis. Te domine suppliciter. ok se su iafnan er þeim er sungit nema vigilia[5] daga.

Tíunda de domína. Et te [ín ueneratione[6]. ok ueri su iafnan er henne er sungit. nema kyndils Messo[7]. Quía per íncarnati. ok sua þar til drottins daga. fra octaua epiphaníe. nema furr komi. IX. uíkna fasta. þa skal vbreytt prefacia.

4. Hafa skal ok communícantes ok Hanc igitur. alla pascha viku ok[8] helgu uiku. Jola dag i ollum messum. þrettanda dag. skirdag. vppstígníngar dag. ok ꝍngua þersa luti optan eñ nu ero[9] akueðnir. Sa huerr er oðru uís gerir at vilia sínum [skal giallda[10] biskupi .xij. aura. eðr hans umboðsmanni. ella missa[11] Messo songs.

5. Engín ꝏ at leyfa[12] hofuð synd. ok engín at gera þo at boðin se. Vm þa eína luti kys huger[13] ômbun er maðr er æigi skylldr at víta[14]. Bioða bera skript fur bera synd. eñ leynda skript fur leyndan lôst. Banna berliga i formæli paska dag.

1) messune, 138. 2) *þann.* 350; iol, 138. 3) hinu, 138.
4) suam, *b. v.* 138. 5) vigiliu, 138.
6) inueneracione, 138. 7) kyndilmesso, 138. 8) sl. 138.
9) *þann.* (e⁰), 350, 138. 10) *frá* [gialldi, 138. 11) missi, 138.
12) lofa, 138. 13) hug⁵, 350; hvg² (= hugr), 138. 14) = vita, 138.

þionostu tekíu hueríum þeim manni er æigi hefir til skripta gengit. eðr ser neít œ hendr leynda storlnti.

6. Manna konur at eins skal með brennanda kerti i kirkiu leiða. þær er börn eiga með bondum sínum. en allar aðrar með ongu kerti. ok cetera[1].

---

## F.

Eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar Nr. 175 A. í 4to, bls. 43—45. þessi skinnbók virðist vera rituð hèrumbil um 1400, og er þar á ritað safn af allskonar skrám og skjölum, sem mestöll snerta Kristinrètt og kirkjulög. þar er helzt að geta Kristinrèttar Árna biskups (bls. 2—36) og vantar þó í nokkur blöð. þar eru og á statutur erkibiskupa og biskupa á Íslandi, skriptaboð og forsagnir fyrir aflausnum, en bókin er alls ekki nema 74 blaðsíður. Árni Magnússon hefir fengið bók þessa í blöðum, sumt fra Skálholti, en sumt annarstaðar að, og sýnist svo sem hún muni vera upphaflega rituð í einhverju klaustri á Íslandi.

---

þesse[2] boð voru set af magnuse biskupi ok j samþycki tekín af ollum lærdum monnum jn sinodo.

1. Jn primis at prestar skulu eigi meir fyrna þionvstu en skipta vm sin j manaði.

2. Jtem skal syngia credo in vnum j messu jafnan hvern drottins dag. jola dag j ollum messum ok jafnan j þeirri viku er puer natus er sungin hin setta dag j iolum hin atta dag ok hinn þrettand[a] vpstigningar dag festum corporis Christi mariu messor fiorar kross messur baðar allraheilagra messu kirkju dag alltaris dag postula messur allar loghelgar alla paska viku ok suo huitasunnu viku. iij octauis daga epiphanie,

---

[1]) í báðum handritunum fylgir hèr næst á eptir Skipan Árna biskups þorlákssonar, er staðfestir þessar skipanir Magnús biskups.

[2]) Fyrirsögn engin. Upphafsstafr rauðr og dregið grænt í.

ascensionis domini. assumpcionis marie. marci euangeliste luce evangeliste johannis ante portam latinam jn commemoracione pavli ad vincula petri. barnabe apostoli marie magdalene Jn diuisione apostolorum jn tran[s]figuracione domini.

3. jtem skal eigi[1] fleiri en x prefaci[o]nes. j messum eina vm iol til þrettanda dags. qvia per incarnati.

onnur jn epiphania domini. atta daga qvia cum vnigenitus.

þriðia vm langa fostv til palma dags drottins daga ok þar j millum qui corporali.

fiorða hina efztu viku fim daga qui salutem ok iafnan er messa er sungin de cruce.

fimta vm paska til gagndaga a te quidem.

setta de ascensione[2] IX daga qui post resurreccionem.

siaunda vm huita daga. qui ascendens ok iafnan er messa er sungin de spiritv sancto.

hin viij de trinitate qui cum vnigenito ok alla þa uiku ok alla drottins daga til jola fostu nema þat festvm se sungit er ser hafui prefacionem

hin niunda de apostolis te domine suppliciter ok se su jafnan er þeim er sungit nema vigiliu daga

hin tiunda de domina et te in veneracione ok se su jafnan er henni [er] sungit nema kyndil messu þa skal vera quia per incarnati. ok suo þar til suunu daga fra octaua epiphanie nema fyr komi niu vikna fasta þa skal cothidiana.

4. Jtem skal hafua communicantes et hanc igitur[3]. alla paska viku ok hinu helgu viku jola dag j ollum messum. þrettan[da] dag ok skirdag ok vppstiguingar dag. ok eingua þessa hluti optar ne sealnar hafua en nu eru akueðnir skal hver ok sem giorir annars kostar at vilia sinum gialldi biskupi xij aura eðr missi elligar messu songs.

5. Jtem a eingin at leyfva hofuð synd ok eingi at giora þo at boðin se vm þa hluti eina kys hugr ombun er maðr er ei skylldr at vita.

bioða bera skript fyrir bera synd. en leynda skript fyrir leyndan glæp

banna berliga i formæli a paska dag þionustu tekiu hueri-

[1]) eⁱ, *skinnb. á spáziu*'*og boðað hèr inn i.* [2]) ascencione, *skb.* [3]) gᶦ, *skb.*

um manni þeim sem eigi hefuir til skripta geingit eðr ser veit a hendi leynda stor hluti.

6. manna konur at eins skal met brenna[n]da kerti j kirkiu leiða þær sem born eigv vit bondum sinum. en allar aðrar met eingu kerti[1].

---

## G.

Eptir skinnbókinni Nr. 354 í Fol. í safni Árna Magnússonar. Sú bók er í litlu arkarbroti, rituð með stóru letri í tveim dálkum, fyrirsagnir með rauðu letri og upphafsstafir með ymsum litum. Finnr biskup segir (Hist. Eccl. Isl. I, 440) að bók þessi sè rituð með sömu hendi og nokkuð af Flateyjarbók, og væri það þá vottr um, að hún væri rituð seinast á 14du öld norðr í Húnavatns sýslu. Það kann og satt að vera, að hið elzta í henni sè ritað um eða eptir 1400, en sumt er ritað síðar, á 15du, 16du og 17du öld. Árni Magnússon hefir fengið þessa bók frá Skálholti, og heitir hún hjá honum „Skálholtsbókin sú ýngri og lakari" (Nr. 435. 4to. bls. 131), þar sem Nr. 351 heitir hin eldri og betri (sbr. C hèr að framan, bls. 439); þó er bók þessi í alla staði merkileg.

Fremst í þessari Skálholtsbók er Kristinrèttr Árna biskups (bls. 2—33), og byrjar hann á annari blaðsíðu bókarinnar, með hendi frá 17du öld, en fyrsta blaðsíða er auð, sem opt er vani í þeim íslenzkum skinnbókum sem vandaðar eru, því sú blaðsíða hefir verið ætluð fyrir saurblað. Eptir Kristinrètt fylgir Brèf Vilhjálms kardínála með staðfestíng Innocentii páfa og þareptir nokkrar statutur erkibiskupa og biskupa í Skálholti (bls. 33—85). Hin þriðja í röðinni í þeim flokki er Skipan Magnús biskups Gizurarsonar, sú er hèr fylgir eptir (bls. 47—48), og þar næst eptir fylgir skipan Árna biskups Þorlákssonar, er staðfestir hana. Ýngst af þeim sem ritaðar eru með fornu hendinni er skipan Wilchins biskups frá 1396 eða þar um bil (bls. 65—66) og sýnir hún, að bókin muni varla rituð vera fyrir 1400, en seinast í öllum statutaflokki þessum er Skipan Godsuins Skálholtsbiskups

---

[1]) hèr eptir fylgir í skinnbókinni skipan Árna biskups Þorlákssonar, sem samþykkir þessa skipun Magnús biskups.

1439 um tíundir (bls. 85); hún er rituð með nýjari hendi en hinar fyrri.

Eptir þann kafla sem nú var talinn fylgja yms eiðsform, og er fremst eiðsform biskups til erkibiskups (bls. 85—87). Á bls. 88—89 er ritað með hendi frá 16du öld dómaskrár, og er fremst þeirra úrskurðr Guðmundar lögmanns (sunnan og austan 1302—1307 og 1321—1340) um rekamark milli Hornafjarðar(ár) og Hjörleifshöfða. Þá kemr aptr nokkuð eldri hönd, frá 15du öld (bls. 90—91), er þar með ritað eiðsform fyrir ráðsmann í Skálholti, og Skipan Sveins biskups Pétrssonar 1472, um helgihald á Vitjunardag Maríu (2. Juli) og um tíundargjöld. Síðan fylgja nokkrar blaðsíður auðar (bls. 92—94), en þar eptir hefst Jónsbók og nær hún til enda skinnbókarinnar (bls. 95—276). Í Jónsbók er það hér frábrugðið öðrum handritum, að eptir Konúngserfðir og eiða, sem standa í flestum handritum lögbókar, er hér sett inn hirðskrá, eða réttara sagt mikill kafli hennar (bls. 111—118), og nokkrir kapítular sem vanir eru að fylgja Kristinrétti Árna biskups (bls. 118—121); eru það leyfi Vilhjálms kardínála um helgidaga vinnur, kapítuli um ósóknardaga, um eiða og um prófanir, og um að presta skuli sækja fyrir biskupi, en leikmenn fyrir leikmönnum. Þessar greinir eru allar frá dögum Árna biskups Þorlákssonar. Við enda Jónsbókar er autt nokkurra lína bil (bls. 276), og heilt blað þar á eptir (bls. 277—278); má þar af ráða, að bók þessi hafi aldrei lengri verið.

---

St[atutum] Magnus biskups[1].

Þessi boð uoru sett af magnusi biskupi ok j samþykt tekín af ollum lærdum monnum a presta stefno.

1. at prestar skulu eigi meir fyrna þionostu. en skipta vm sinn a hueriom manaði.

2. Syngia credo in unum j Messo huern drottins dag. Jola dag hinn fyrsta i ollum messum. sétta dag iola. attadag ok iafnan i þeirri uiku er puer natus er sungin. þrettanda dag. Vppstigningar dag. Mariu Messor .v[2]. kross messor

1) þessi fyrirsögn er með rauðu letri í skinnbókinni; upphafsstafrinn rauðr og dregið í grænt.

2) hin fimta Maríumessa, sem hér er talin, mun vera Þíngmaríumessa (2. Juli).

báðar. Allra heilagra messo. kirkiu dag. alltaris dag. Jn festo reliquiarum. Postula messur allar lôghelgar ok alla paska uiku. ok sua huítadaga viku. fiora octaues daga epiphanie. ascensionis. ok assumpcionis marie ok natiuitatis eiusdem. Marci ewangeliste. Luce ewangeliste. Johannis ante portam latinam. Jn commemoracione Pauli. ad uincula petri. barnabe apostoli. Marie Magdalene. in diuisione apostolorum. ok transfiguracione domini.

3. Eigi skal hafa fleiri en x prefaciones i Messum.

eina vm iol til þrettanda dags. Quia per incarna[ti].

Aðra in epiphania domini .viij. daga. Quia cum unigenitus.

þriðia vm langa fôstv til palma dags bæði drottins daga ok þar i millum. Qui corporali ieiu[nio].

Fiorða hina æfztu uiku .v. daga. Qui salutem. ok iafnan er messa er sungin de cruce.

fimta vm paska uiku til vppstigningar dags. Te quidem nema j gagn daga Messo ok salu Messo. þa skal huers dags prefacio.

Sétta de ascensione[1] domini IX daga. Qui post resur[rectionem].

Siaunda um huítadaga. Qui ascendens. ok iafnan er messa er sungin de spiritu sancto.

Atta de trinitate alla þa uiku. ok drottins daga alla fra huíta dôgum til iola fôstu. Qui cum uni[genito]. nema þat festum se sungit er ser hafi aðr prefacionem.

Níunda de apostolis. Te domine suppli[citer]. ok se su iafnan er þeim er sungit nema vigilia.

Tiunda de domina. Et te in uener[atione] ok ueri su iafnan er henne er sungit nema kyndil Messo. þa skal uera. Quia per incarnati ok sua þar til drottins daga fra octava epiphanie[2] nema IX uikna fasta kome fyʀ. þa skal obreytt prefacio.

4. Hafa skal communicantes ok hanc igitur alla paska uiku ok helgo uiku. Jola dag i ôllum messum. þrettanda dag skirdag. Vppstigningar dag. ok einga þessa hlute optar en nu

1) ascencione, *skb.* 2) epiphania, *skb.*

er ækueðit. Sa huer er hann giorer annars kostar at vilia sinum. gialldi biskupi .xij. aura. eðr missa ella messo sôngs.

5. Eingin æ at lofa hofut synd ok eingin at giora þo at boðin se. vm þa hlute eina kyss hugr ombun er maðr er eigi skylldr at uita. bioða bera skript firer bera synd en leynda skript firer leyndan laust. Banna berliga j formæli paska dag þionostutekiu huerium þeim er eigi hefuir til skripta geingit. eða ser veit æ hendr leynda stórglæpi.

6. Manna konur at eins skal j kirkio leiða með loganda kerti þær sem born eiga með bóndum sínum en allar aðrar með ôngu kerti.

---

## H.

Eptir skinnbókarbroti í safni Árna Magnússonar, Nr. 687 A. í 4to. Sú bók er í litlu breiðu 8 blaða broti, en svo þètt rituð, að þar eru 39 línur á blaðsíðunni. Á 3. bls. er ritað ofanmáls „anno domini M⁰ ed⁰ Lxx⁰ nono", sýnist það vera með sömu hendi eða líkri og mestr hluti kversins sjálfs, og kann vera bókin hafi ekki verið eldri, er hún því sett hèr niðr á e. 1479. Brot úr þessu sama handriti eru í safni Árna Nr. 688 C í 4to, og 56 í 8vo. Sá hlutinn, sem nú er merktr 687 A, er ekki nema fáein blöð (bls. 1—12), og er þar mest megnis á Statutur biskupa og erkibiskupa, og safn af greinum eða skrám, eiðsformum og þesskonar, sem tilheyra kirkjurèttinum. Um tíundir og fjárlag hefir einnig verið þar á, því það snertir einnig presta og kirkjur; er fremst brot aptan af skrá, um það, hvernig taka skuli tíund, og hefir verið talið fram til xx hundraða, má finna þessa tíundartölu víðar í handritum (A. Magn. 123 í 4to, bls. 174 og víðar), og er hún að því leyti merkileg, að þar sèst hversu tíundir hafa verið teknar á Íslandi að minnsta kosti síðan á síðara hluta 15du aldar, og má rekja þaðan af framúr til vorra tíma. — Seinast á kveri þessu (bls. 12) er Skipan Magnús biskups um kirkjusiðu, sú er hèr fylgir eptir, og vantar aptanaf, svo þar af má ráða, að á bók þessari hafi verið í upphafi mikið safn af skipunum biskupa og erkibiskupa, er nú sè að líkindum glatað og undir lok liðið.

incipiuntur constitutiones inprimis de magno[1].

þessi bod uoru sett af magnusi biskupi. ok j samþyckt tekin af aullum lærdum monnum ꝗ̃ prestastefnu.

1. at prestar skulu eigi meir fyrna þionustu. eñ skipta um siɴ j hverium mauadi.

2. Syngia credo in unum j Messo hvern drottins dag. Jola dag j ollum messum. Setta dag. ok atta dag. ok iafnan j þeirri Messo er puer natus er sungin. þrettanda dag. Vppstigningar dag. Mariu Messor. fiorar. Cross Messur baðar. allra heilagra Messo dag. kirkiv dag. alltaris dag. postula Messor allar loghelgar. Pascha uiku alla ok helgu uiku. þria octave dage. epiphanie[2]. ascensionis[3]. Assumpcionis[4]. Marce ewangeliste. ok luce ewangeliste. Johannis ante portam latinam. barnabe apostoli. Jn commemoracione beati pauli. Marie Magdalene. Diuisionem apostolorum. ad uincula petri. Transfiguracionem domini.

3. Egi skulu fleiri prefaciones j messum eñ .x.

Eina um jol til þrettanda dags. Qvia per incarnati.

Annur in epiphania domini. atta daga. Qvi cum unigenitus.

þridia um langa fostu til palma dags. Qvi corporali.

Fiorda vm efstu uiku fim daga. Qvi salutem. ok jafnan er messa er sungin De cruce.

Fimta um paska til gagndaga. Te qvidem domine.

Setta de ascensione[5] niu daga. Qvi post resurrectionem[6].

Siounda[7] vm huita daga. Qvi descendens[8] ok jafnan er Messa er sungiu de spiritu sancto.

Attanda de triuitate alla þa uiku. ok drottins dag til jola fostu. Qvi cum unigenito nema þat festum se sungit að sier hafi adra prefacionem.

---

1) ritað með bleki i skinnbókinni. Fyrirsögnin („magno" ritað: mag°) á liklega að þýða: „Hér hefr biskupa skipanir, og er fyrst af Magnúsi biskupi."

2) ciph'ie, *skb.* 3) ascnco's, *skb.* 4) assumpco's, *skb.*

5) ascncoe, *skb.* 6) R°noem, *skb.*

7) skinnbókin hefir hér tölustafinn 7 með hinu forna lagi (ʌ).

8) *þann. skb.; rètt.* ascendens.

Niunda[1] de apostolis Te domine suppliciter. Exoramus. Tiunda[2] De domina. Et te in ueneracione ok se[3]........

## I.

Eptir skinnbókinni úr Borgarfirði frá hèrumbil 1480, í safni Árna Magnússonar, Nr. 186 í 4to, bls. 66—68 (sbr. að framan Nr. 38, bls. 219).

her vppbyriazt statvtvr biskvpana[4].

þesse bod voru sett af magnuse biskupe og j samþyktt tekit af ollvm lærdvm monnvm[5] cū presta stefnv.

1. at prestar skulv eigi meir fyrna þionvstv en skipta vm sinn j hverivm manade.

2. Syngia credo in unvm j messo huern drottins dag. Jola dag fyrsta j ollvm messvm. Setta dag jola og atta dag og jafnan j þeirre Messo er pver natus er sunginn. þrettanda dag. vpstigningar dag. mariv Messor[6] allar. kross Messor[7] badar. allra heilagra messv[8]. kirkiv dag. alltaris dag. Jn festo reliquiarum. Postula messur allar loghelgar. Paska vikv alla. og svo huíta svnv vikv. fiora octavis daga epiphanie domini. ascensionis[9]. assumpcionis[10] marie og natiuitatis eiusdem. marci ewangeliste. luce ewangeliste. Johannis apostoli ante portam latinam. Jn commemoracione pavli. ad vincula petri. Barnabe apostoli. Marie magdalene. Jn divisione apostolorum. Jn transfigvracione domini.

3. Eigi skal hafa fleire prefaciones[11] j messvm en x.

---

1) hèr er einnig tölustafrinn 9 með hinu forna lagi.

2) hèr er sömuleiðis talan 10 með fornu lagi i skinnbókinni (10).

3) hèr hættir brotið, og vantar aptanaf þessari statutu og líklega fleiri þess kyns, sem á bókinni hafa verið.

4) fyrirsögn með rauðu letri, upphafsstafr rauðr og dregið i gult og grænt, stærri en á flestum öðrum stöðum i bókinni, af því hèr skyldi byrja safn af biskupa tilskipunum. Upphafsorðið (þī = þessi) er ritað utanmáls með sömu hendi og á bókinni er.

5) *i skinnbókinni ritað* m̄n (*svosem* menn).

6—7) *ritað i skinnbókinni* M° (*einsog* Messo). 8) messvr, *skb.*

9) ascencionis, *skb.* 10) ascumcionis, *skb.* 11) p̄facois, *skb.*

Eina vm jol til .xiij. dags Qvia per incarnati.

adra in epiphania dominj. atta daga Qvia cvm[1] vnigenitus.

þridia vm lan̄ga fostv til palma. dags. bæðj drottins daga og þar j millvm. Qvi corporali jeivnio.

fiordv vm efstv vikv. v. daga Qvi salutem og jafnan þa messa er sungin de crvce.

fimta vm pasca vikv til vppstigningar dags. Te qvidem domine. nema j gagndags messo og salv messvm. þa skal hvers dags prefacio.

Setta de ascensione[2] dominj. niv daga. qvi post resvrreccionem.

Siovnda vm hvita daga Qvi ascendens og jafnan er ꝳessa[3] er svngin de spiritv sancto.

attanda de trinitate alla þa vikv og drotins daga alla fra hvita dogvm og til jola fostv. Qvi cvm vnigenito nema þat festvm se svngit at ser hafe adra prefacionem.

Nivnda de apostolis. Te de[us] suppliciter exoramus og se sv jafnan er þeim er sungin. nema uigilia.

tivnda. Te domina. og te in veneracione. og vere sv jafnan er henni er svngit. nema kyndills ꝳesso. þa skal Qvia per incarnati og so drottins daga fra octava[4] epiphanie nema IX vikna fasta kome fyr þa skal obreytt prefacia.

4. Hafa skal commvnicantes og hanc igitur[5] alla paska vikv. og helgv vikv. jola dag j ollvm messvm. og so þrettanda dag skirdag og vppstigningar dag og ongva þessa hlvti optar en nv vorv akvednir. Sa og hverr er hann giorer anars kostar at vilia sinvm skal giallda biskvpi .xij. avra. eda hans vmbodz manni. eða missa ella ꝳesso song.

5. engi ꝏ at leyfa hofvd synd. og engi ꝏ at gera þott bodin se. vm þa eina. kys[6] hugur umbun. er madr er eigi skylldur at vita. bioda bera skript. fyri bera synd. En leynd[a] skript fyri leyndan laust. Prestar skvlv banna berliga j formæle ꝏ paska dag. þionvstv tekiv hverivm þeim sem eigi hafa til skripta gengit. eda veit hann sier ꝏ hendur leynda storhluti.

---

1) yfir linunni með sömu hendi. 2) ascencione.
3) M° (*svosem* Messo), *skb.* 4) oct'. 5) g^r, *skb.*
6) tvítekið í skb.

6. Manna konur at eins skal j kirkiv leida med brenanda kertis liosse. þær er barn eiga uit bonda sinvm. en allar adrar med öngv kerti[1].

---

## K.

Eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar Nr. 456 í tólf blaða broti; sú skinnbók er rituð á síðara hluta fimtándu aldar, hèrumbil 1480, og er með smáu letri og þèttu, en laglegri hendi; ekki er þar ritað í dálkum, heldr í heilum línum. Bókin skiptist að efninu til í þrjá hluta, og eru í hinum fyrsta lög og lagaskrár, sem snerta veraldlegan rètt, í hinum öðrum statutur og lagagreinir er koma við kirkjulögunum, og í hinum þriðja forsagnir (*formulæ juridicæ*).

Hinn fyrsti kafli bókarinnar nær frá bls. 1—91, og vantar þar framanvið, óvíst hversu mikið. Eptir því sem nú byrjar, þá er fremst brot úr ágripi úr Jónsbók, sem hefst í rekabálki (bls. 1—3) og nær yfir allan kaupabálk (bls. 3—6), farmannalög (bls. 6—12) og þjófabálk (bls. 12—18). Eptir það tekr við safn af rèttarbótum, fram á daga Magnús konúngs Eiríkssonar (smek); í þessum flokki er Leyfisbrèf Vilhjálms kardínála frá 1247 og tveir af sáttmálum Íslendínga við Noregs konúng; er „gamli sáttmáli" seinastr í röðinni (bls. 82—83). Þá taka við töluraðir (bls. 84—91), og endar þarmeð hinn fyrsti kafli bókarinnar.

Annar kaflinn byrjar með þessari fyrirsögn með rauðu letri: „Her hefr upp statutam þeirra biskupanna", og nær frá bls. 91—232. Í þessum kafla eru statutur erkibiskupa og biskupa í Skálholti, sumar heilar og úr sumum greinir. Hin elzta þeirra er Skipan Magnús biskups Gizurarsonar, sú er hèr fylgir, og er hún rituð á bls. 127—130; næst henni kemr skipan Árna biskups Þorlákssonar, sem staðfestir hana. Ýngstar af biskupastatutunum eru Gyrðs biskups í Skálholti, Ívarssonar. Margar greinir eða skrár aðrar, sem snerta kirkjulögin, eru ritaðar í þessum kafla, og sumar þeirra tvisvar eða á tveim stöðum; sýnir það, að ritarinn hafi safnað úr ymsum handritum og hafi liðið á milli,

[1]) næst eptir þessu stendr í bókinni Skipan Jóns biskups í Skálholti um skírnarkatla og krismaker o. s. frv. (bls. 68—69), og þar næst skipan Árna biskups Þorlákssonar, er staðfestir skipan Magnús biskups.

svo hann hafi ef til vill ekki munað sjálfr hvað hann var búinn að setja í handrit sitt.

þriði kafli bókarinnar nær frá bls. 232—249, en seinasta blaðsíðan (250) er auð, og sýnir það, að ekkert vantar aptanaf. þessi kaflinn hefir inni að halda forsagnir ymsar, fyrir setníng og uppsögn þínga, lögfestum, ættleiðíngum o. fl.; seinast í þeim flokki er kaupsetníng (bls. 249) með annari hendi, nokkru litlu ýngri en þeirri, er öll bókin er rituð með.

---

preceptum[1].

þessi bod uoru sett af magnuse biskupi ok j samþyckt tekin af ollum lærdum monnum á presta stefnu

1. at prestar skulu eigi meir fyrna þionuztu en skipta um sinn á huerium XII. manadom.

2. syngia credo in unum j messu huern drottins dag. Jola dag j ollum messum. setta dag ok atta dag. ok jafnan j þeirri messo er puer natus er sungin. þrettanda dag. upp stigningar dag mariu messo ok crossmessur badar. allra heilagra messu dag. kirkiu dag. alltaris dag. postula Messor allar loghelgar paska uiku alla ok helgu uiku. þria octave daga epiphanie. ascensionis[2]. assumpcionis. marci evangeliste ok luce ewangeliste. Johannis ante portam latinam. barnabe apostoli. in commemoracione beati pauli. marie magdalene. diuisionem apostolorum. ad vincula petri. transfiguracionem domini.

3. Eigi skal hafa fleire prefaciones[3] j messum en .x.

Eina vm jol til þrettanda dags. Quia per in carnati.

Aunnur in epiphania domini atta daga. qui cum unigenitus.

þridia um langa fostv til palma dags. qui corporali.

Fiorda um efztv uiku fimm daga. qui salutem ok jafnan er messa er sungin. de sancta cruce.

Fimta um paska til[4] gagndaga. te quidem domine.

setta de ascensione[5] .IX. daga. qui post resurreccionem.

---

1) með rauðu letri. Upphafsstafr rauðr, og dregið í grænt og gult.

2) ascencionis, *skb.* 3) prefacionis, *skb.*

4) tvitekið i skb., sitt a hvorri bls. 5) ascencione, *skb.*

VII[1]. um huita daga. qvi ascendens ok jafnan er messa er svngin de sancto spiritv.

Atta de trinitate alla þa uiku ok drottins daga alla fra huita dogvm ok til jola fostv. qvi cum unigenito. nema þat festum se sungit er sier hefir aður prefacionem.

IX[2]. de apostolis. te domine suppliciter. ok se sv jafnan er þeim er sungit.

X[3]. sancta maria. et te in ueneracione ok ueri su jafnan er henni er sungit nema kyndelmesso. þa skal. qvia per in carnati ok svo þar til drottins daga fra octauam epiphanie nema fyrr komi niv uikna fasta þa skal obreytt prefacia

4. Hafa skal ok communicationi(!) ok hanc igitur[4] alla paska uiku ok helgu uiku. jola dag j ollum messum ok suo þrettanda dag skirdag upp stigni[n]gar dag ok einga þessa hluti optar en nu ero akuednir. En sa hver er hann giorer annars kostar at uilia sinvm skal giallda biskupi eða hans vmbods manni. XII. aura eda missa ella messv songs.

5. Eingi ä at leyfa synd og eingi ä at giora þott bodin se vm þa eina[5] kys hugur ombon er madur er eigi skylldr at ueita. bioda bera skript. fyri bera synd. en leynda skript fyri leyndan lost. Banna berliga j formæli ä paska dag þionuztu tekiu þeim huerium manni er eigi hefir til skripta gengit ä fostvnni. eda sier ueit á hendur leynda storhluti.

6. Manna konur einar skal [i] kirkiu leida med kerti brennanda þær er barn eiga med bonda sínum. en allar adrar med eíngu kerti.

---

## L.

Þessi afskript er prentuð eptir skinnbókinni Nr. 148 í 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 270—271. Sú bók mun vera rituð nærfellt 1480, eða heldr síðar, og er henni lýst áðr (bls. 155—158 hèr að framan).

---

1) talan yfir línunni; í línunni er stafsmynd, sem virðist hafa átt að vera tölustafrinn 7 í hinni fornu mynd (Λ).

2) tala þessi er yfir línunni, en í línunni tölustafrinn 9 í fornu myndinni.

3) þannig yfir línunni, en í línunni 10, sem er sama talan í fornu myndinni. 4) GT, *skb.* 5) hluti *er fellt úr.*

Samþyckt[1].

Bod þessi vorv sett af herra magnvsi biskvpi og j samþyckt tekin af lærdvm monnvm ꝏ presta stefnu.

1. ād prestar skvlv eigi fyrna meir[2] þionustu eñ skipta vm sinn ꝏ manade.

2. Eingi ꝏ at leyfa haufut synd oc eingi at giora þo at bodin sie. vm þa eina hluti kys hugr aumbvn er madr er skylldr at vita. Bioda bera skript fyri bera synd. eñ leynda skript fyri leyndañ laust. Banna berliga j formæle ꝏ paska daginn þionvstv tekiv hverivm þeim sem eigi hefuir til skripta gengit. eda sier veit ꝏ hendr stora leynda hluti.

3. Manna konur at eins skal j kirkiv leida med brennanda kerti. þær er bavrn eigv med bændvm sinum. en allar konur adrar med aunguo kerti. vtan gangi sialfar inn. ok cetera[3].

---

## M.

Eptir Skinnastaðabók í safni Árna Magnússonar Nr. 136 í 4to, bls. 262—263. Bók þessi virðist vera rituð um 1480 eða jafnvel litlu seinna, og er henni lýst hèr að framan (bls. 67—68). Á bók þessari eru söfn af veraldlegum og andlegum lögum og lagaskrám, og er fyrst Jónsbók og þarnæst flokkr af rèttarbótum, og því er að veraldlegum rètti lýtr (bls. 1—218), en þareptir kemr Kristinrèttr Árna biskups, og eptir honum skipanir biskupa og erkibiskupa, með ymsu öðru, er hnígr að kirkjulögunum (bls. 218—286). Á bls. 287—293 er ýmislegt, sem flest er nokkru síðar ritað, en bls. 294 er auð, og sýnir það að ekki vantar aptanaf bókinni, en þar á móti sýnist vanta á einum stað inn í bana, þar sem kirkjulaga kaflinn hættir (bls. 286).

---

1) með rauðum stöfum. Upphafsstafr rauðr. 2) me*r*, *skb.*

3) næst á eptir fylgir skipan Árna biskups, er staðfestir þessa, og er sú seinast i bókinni.

Vm magnus[1].

Þessi bod voru sett af Magnusi biskupi ok j samþyckt tekin af ollvm lærdum monnum a presta stefnv.

1. at prestar skulu eigi meir fyrna þionvstv en skipta vm sinn a hverivm xij manudum.

2. Syngia credo in vnvm j messv hvern drott[ins] dag. jola dag fursta j ollvm messvm. setta dag atta dag ok jafnan j þeirri vikv er pver natus er svngit. þrettanda dag vppstigningar dag Mariv mess[u]r iiij. Cros mess[u]r badar. allra heilagra[2] Messo. kirkio dag. alltaris dag. Postvla mess[u]r allar loghelgar. alla paska vikv ok helgv vikv. þría octavis daga. Epiphanie ascensionis. Assvmpcionis sancte Marie. Marce ewangeliste Johannis ante portam latinam. J[n] commemoracione pavli apostoli. Ad vincula petri. Barnabe apostoli. Marie magdalene. Ok sua ef IX rædingvm er svngit in divisione apostolorum ok transfigvracione domini.

3. Eigi skal hafa meir en x. prefacionem(!) í messvm.

eina vm jol fram til þrettanda dags. Qvia per incarnato (!).

onur in epiphania domini viij daga. Qvia cvm vnigenitus.

þridia vm langa fostv. til polma dags bædi drott[ins] daga ok þar a millvm Qvi corpor[a]li.

fiordv hina efstv vikv ok jafnan er svngit er de sancta crvce fim daga. Qvi salvtem.

fimtv vm paska til gagndaga. te qvidem.

Settv de ascensione[3] IX daga. Qvi post resurrexionem suam.

Seavndv vm hvita daga. Qvi ascendens ok jafnan at messa er svngen de spiritv sancto.

Attanda de trinitate alla þa vikv ok drottins daga alla fra hvita dogum ok til jola fostv. Qvi cvm vnigenito. nema þat festvm se svngit at ser hafi adra prefacionem.

nivnda de apostolis te domine. ok se sv jafnan er þeim er svngit. nema vigiliv daga.

tivnda de sancta maria. Et te in veneracione. ok veri sv jafnan er henne er svngit nema kyndel Messo. þa skal

1) þessi fyrirsögn er með rauðu letri; upphafsstafrinn er grænn og dregið rautt í. Skinnbókin hefir strik yfir öllum í-um (í), og þótti óþarfi að halda því hèr, er þeim því öllum sleppt.

2) heil|alra *(í tveim línum)*, *skb.* 3) ascencione, *skb.*

quia per incarnati ok sva þar til drottins dag fra octava epifanie. nema furr komi niv vikna fasta. þa skal obreytt prefacio.

4. Hafa skal ok commvnicantes. ok[1] sva skírdag þrettanda dag ok uppstigningar dag. ok ongva þessa hluti optar en nv ero ꝺ kvednir. Sa ok sem gerir an[n]ars kostar at vilia sinvm skal giallda biskupi eda hans vmbodz manni xij avra eda missa elligar messo savng.

5. Engi ꝺ at leyfa hofut synd ok engi at gera þo bodin se. vm þa eina hlvti kys hvgr ombon er madr er[2] skylldr at veita. Bioda bera skript fyri bera synd en [leynda] skript fnr leyndan lost. Banna berliga j formæli. paska dag þionvstv tekiv hverivm þeim er eigi hefir til skriptar gengit eda ser veit ꝺ hendr leynda storhluti.

6. Man[n]a kon[u]r at eins skal med loganda kerti j kirkiv leida. En adrar med ongv kerti[3].

---

## N.

Eptir Arnarbælisbók, sem er skinnbók Nr. 135 í 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 220. Bók þessari er lýst áðr (bls. 128—133 hèr að framan), og er þess þar getið, að meginpartr hennar sè ritaðr um 1380, eða fyr; en sá kafli sem hèr er um að ræða, og heldr rèttarbætr og Statutur erkibiskupa og biskupa, er miklu ýngri, og virðist vera ritaðr hèrumbil 1490. Næst á eptir Skipan Magnús biskups kemr hèr Statuta sem eignuð er Sveini biskupi, og ætti að vera eptir því frá hèrumbil 1470; en þegar vèr gætum að efni hennar, þá er hún orðrètt samhljóða nokkrum greinum í Statutu Árna biskups Þorlákssonar, þeirri hinni sömu sem staðfestir skipun Magnús biskups og í flestum bókum fylgir næst eptir henni. Hèr er því tvennt til, annaðhvort að Sveinn biskup hafi látið taka þessar greinir sem hèr standa út úr skipun Magnús biskups, og aðrar greinir úr skipun Árna biskups Þorlákssonar, sem hann hafi svo eignað sèr og látið gánga út undir sínu nafni,

1) hèr mun sá hafa hlaupið yfir línu, sem ritaði skinnbókina.

2) eigi *mun vera fellt úr.*

3) *næsta grein á eptir í skinnbókinni byrjar svo:* Vm skipanir arn[a biskups]. Herra Arne biskup j Skalhollti bavð hallda skipanir magnvs biskvps þꝍr er her ero fur Skrifuaðer *o. s. frv. þareptir eru skipanir Árna biskups sjálfs um fórnar upphald o. s. frv.* (F. Joh. Hist. Eccl. II, 50).

einsog staðfesting á skipun Magnús biskups. Að öðrum kosti ætti það að vera villa ritarans í skinnbókinni, að eigna Sveini biskupi þessa staðfesting, en harðla ólíklegt er að svo væri, þareð ritari bókarinnar hefir verið samtíða Sveini biskupi eða svo að kalla, og mundi honum því trautt hafa orðið að eigna honum aðrar skipanir en þær, sem hann hefði eignað sèr sjálfr.

---

bod af magnusi biskupi[1].

þessi bod voru sett af magnusi biskupi ok j samþycki tekin af aullum lærdum monnum a presta stefnu

1. at prestar skuli eigi fyrna þionostu. meír en sua. at skipta vm sinn a manudi.

2. Syngia skal. Credo ín unum j Messo huern sunnu dag Jola dag hinn fysta j ollum Messum. setta dag Jola. attunda dag jola ok jafnan j þeirri viku. er puer natus er sungin. þrettanda dag. uppstigníngar dag. Mariu. Messur fíorar. kross messor badar allra heilagra Messo. kirkiu dag. alltaris dag. Jn festu(!) Reliquiarum. postula messur allar laughelgar. alla paska viku ok huita daga uiku. fiora octavu daga ascensionis[2]. assumpcionis. marie uirginis ok nati[ui]tatis. marcij ewangeliste luce ewangeliste. Johannis apostoli ante portam latínam.

3. En huer sa er odruuís gerir. at vilia sínum gialldi. biskupi xij aura eda misse Messo song.

4. Einge a leyfa haufut synd ok einge a at gera þo bodin se. Vm þa eina hluti kys hugur ombun. er madr er eigi skylldr at uíta. bioda beꝛa skrift fyri bera synd. en leynda skrift fyri ley[n]dan laust. forbioda[3] skal berliga huerium þeim manni þíonostu at paskum. er eigi hefir til skrifta gengit j fostunni forfalla laust. eda veít ser a hendr leyndar stor syndir[4].

---

1) fyrirsögn virðist hafa verið með rauðu letri, en er nú orðin dauf aflestrar; upphafsstafrinn grænn. 2) assencionis, *skb.*

3) *ritað fyrst* Bioda *í línunni, en* f° *með sömu hendi á spáziu og vísað inn.*

4) *næst eptir þessu kemr í skinnbókinni grein sem þannig byrjar:* „Sveinn biskup af skalhollti bauð at hallda þessar skipanir. herra Magnus biskups

118. [1224].

MÁLDAGI Eyrar kirkju í Álptafirði [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

þessi máldagi er hèr prentaðr eptir máldagabókinni D 12, bl. 68 (sbr. Nr. 24 hèr að framan). Eyri í Álptafirði er, einsog alkunnugt er, Geirrauðareyri sem fyr var nefnd, eða Narfeyri sem nú er kölluð, og er útkirkja frá Breiðabólstað á Skógarströnd.

þegar vèr skulum ákveða um aldr á máldaga þessum, þá er þess fyrst að geta, að hann er einn í hinum fornasta kafla í bókinni, og allt orðfæri hans bendir einnig til þess, að hann muni vera frá þeim tímum sem hèr er sett. Guðrún Sveinbjarnardóttir, sem hèr er nefnd í máldaganum, mun án efa vera systir Rafns Sveinbjarnarsonar á Eyri í Arnarfirði, dóttir Sveinbjarnar Bárðar sonar hins svarta. Guðrúnu átti Sámr prestr, sonr Símonar þorgrímssonar, Özurarsonar, Oddbjarnarsonar, þorkels sonar háks, þorgeirs sonar Ljósvetníngagoða. Móðir Sáms prests var Guðrún Sámsdóttir, og hefir ætt þessi verið talin í broti því af fornum ættum, sem fylgt hefir Landnámu í Melabók hinni eldri (Íslend. s. 1843, 1, 353[1]; sbr. Sturl. 2, 5: I, 52; Rafns s. Sveinbjarnars. kap. 2: Bisk. s. I, 640). Sámr prestr og Guðrún áttu saman tvær dætr: Steinvöru og Guðrúnu. Af því Sáms prests er ekki víða getið, þá sýnist líklegast að hann hafi andazt snemma, og kann vera að Guðrún hafi gefið þau tíu hundruð fríðs fjár til kirkjunnar á Eyri, sem hèr eru talin, í minníng hans, eða við greptrun hans; en Guðrún bjó lengi á Eyri eptir það, og kemr við sögur. Um sumarið 1219 í August mánuði veitti hún lið Eyjólfi Kárssyni mági sínum í Flatey, þegar hann fór suðr að Hvítárvöllum og náði Guðmundi biskupi undan valdi Arnórs Tumasonar (Sturl. 4, 24: II, 50—51; Guðm. s. kap. 69: Bisk. s. I, 509). þegar Rafnssynir flýðu fyrir þorvaldi Vatnsfirðíng, eptir víg föður þeirra, var Einar Rafnsson um vetrinn 1224—1225 á Eyri, með Guðrúnu föðursystur sinni, og þar var hann enn 1228, og fór þaðan þegar þeir bræðr Rafnssynir brendu inni þorvald Vatnsfirðíng á Gillastöðum (6. August 1228). Guðrún Sveinbjarnardóttir hefir því búið á Eyri lengi um þetta tímabil, en hèr er máldaginn settr niðr á árið 1224, af því vèr vitum að það sumar fór Magnús biskup Gizurarson um Vestfirðíngafjórðúng (Sturl. 4, 40: II, 82).

---

er her ero aðr ritaðar" *o. s. frv. þar eptir kemr skipan um fórnar upphald o. fl., samhljóða skipun Árna biskups þorlákssonar* (Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. II, 50).

1) þar sem stendr á bls. 353: „Sámr átti . . . . . . dóttur" á að lesa: „Sámr átti [Guðrúnu Sveinbjarnar] dóttur".

Eyre j Alfta firðe.

þesse er maldage a eyre j alfta firðe. at þar skal vera prestr einn.

Kirkian a tiolld vm alla kirkiu. klockur .ij. silfr kalek. alltara klæði. iiij. kerta stikur. iij. munnlogar. iij. gloða ker ok elldbera. roðu krossa .iij. ok skript. x. hundruð j metfe. skipum ok netium[1] eða bus gagne eða bus buningi[2]. tiu hundruð friðs fiar ok vm fram kyr .iiij. ok eyk kugilldan.

þa er j oðru lagi .x. hundruð friðs fiar. er guðrun sveinbiarnar dottir gaf til kirkiunnar.

En þetta fe allt er rett goldit j londum eptir † virðingu[3].

þangat liggia tiundir af holms latre ok ogrlygs stöðum ok allt þar er j millum. nema buanda tiund j langadal hinum ytra þess er femestr er j dalnum. þaðan skal giallda til eyrar .iij. merkr a hverium miserum. hvort sem heimilis prestr er j langadal eða eigi.

til eyrar a at giallda fiorðung osts hver bonde sa er þingfarar kavpi a at gegna j eyrar þingum.

Soungr[4] er af[5] eyre a holmslatr. ok a leiti. a backa. ok til dranga. j auxney. j langadal. a carstaði.

---

## 119. [1224].

Máldagi kirkjunnar í Tjaldanesi, [sem Magnús biskup Gizurarson setti].

Eptir tveim bókum: *a*) Nr. 263 í Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 75, og er kallaðr þar „gamall máldagi" (sbr. Nr. 49 að framan); *b*) eptir máldagabókinni frá 1601 í safni Steingríms biskups í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, D 12, bl. 64 (sbr. Nr. 24 að framan).

Um tíma þann sem máldagi þessi sè ritaðr á ályktum vèr helzt af því, að hann er í hinum sama kafla í bókinni D 12, þar sem hinir fornustu máldagar eru, enda ber hann og með sèr, að hann er mjög gamall. það styrkir ætlun vora um aldrinn, að 1228 bjó Árni bóndi í Tjaldanesi, og segir svo frá í Sturlúngu, að þorvaldr Vatnsfirðíngr kom til hans í seinustu

1) þann. D 12. 2) *rèttara:* hus buningi (?).

3) *þann. D 12; á líklega að þýða:* virðingu eiðsvarinna manna.

4) þann. (soungur) D 12. 5) *getgáta*; at, *D 12.*

ferð sinni vestr um Dali, og bar á hann sakir um það hann hefði keypt Ólafseyjar; hefir því Árni bóndi verið gildr efnamaðr á sinni tíð. Á máldaganum sjáum vèr, að bóndinn hefir átt son, sem líklega hefir þá verið úngr, og óráðið hvort hann skyldi vera prestr eða eigi.

Árið er sett hèr eptir því, að vèr vitum að Magnús biskup Gizurarson fór þá um Vestfirðínga fjórðúng (Sturl. 4, 40: II, 82).

---

[1]Kirkia j Tialda nesi er helgvð með gvði mariv drottningv ok petro postvla. Olavi konvngi ok Thorlaci biskvpi.

hvn a x. hvndraþ[2] fiar.

þar skal syngia annan hvarn dag lavg helgan. ok enn fiorða hvern ottv song.

þar skal heima[3] vera tivnd allra heimamanna.

þar skal vera prestr heimilis fastr. meðan arni byr þar ok sonr hans. ef hann er prestr. ok kavpa at presti tveim morkvm. ef hann er eigi heimilis fastr.

Heima skvlv þar tollar allir. en groftr skal til staðarhols. ok sva kirkia[4]. ef eigi er heimilis prestr. Lysa fyrir alla daga. þa er svngit er fra[5] mariv messo vnz liðr paska vikv.

---

## 120. [1224].

Máldagi Reykjaholts kirkju í Borgarfirði, með tillögum þeirra Snorra Sturlusonar og Hallveigar Ormsdóttur.

Í Kristinrètti Þorláks og Ketils er fyrst lagðr grundvöllr til reglulegra máldaga um kirkjueignir á Íslandi. Þar er skipað svo fyrir (Kristinr. hinn gamli kap. 10, Thorkel. bls. 46), að: „þar er maðr leggr fè til kirkju, hvart sem þat er í löndum eða lausum aurum, í búfè eðr tíundum, af þeim bólstöðum er hèraðsmenn skulu þángat inna, ok skal sá maðr, er kirkju varðveitir, láta gera þann máldaga á skrá allan, hvat hann hefir fjár gefit þángat, eðr aðrir hèraðsmenn, til þeirrar kirkju. Þann máldaga er honum rètt at lýsa at lögbergi, eðr í lögrèttu, eðr á varþíngi því er hann heyir, hvat fjár liggr til þeirrar

---

1) Tiallda ness, *fyrirsögn í D 12.*

2) hundruð, *D 12; þessi hundruð, sem hèr eru nefnd, eru ekki að fjártölu, heldr að hundraðatölu á landsvísu* (= tiu kúgildi í fè).

3) sl. D 12. 4) kirkiu, *D 12.* 5) fyrir, *D 12.*

kirkju. Hann skal láta ráða skrá ok lýsa þann máldaga heima at kirkju um sinn á tólf mánaðum hverjum, þá er menn hafa þángat tíðasókn flestir". Af þessari reglu er auðsætt, að fram hlutu að koma tvennskonar máldagar, aðrir sem eru samdir heima við kirkjurnar sjálfar, og auglýstir við kirkju og í hèraði, en aðrir sem eru lögrèttubornir. Vèr höfum sèð í safni þessu dæmi uppá hvorutveggju, og er það eins augljóst, að þetta hefir komið fram í lögun sjálfra máldaganna. Þegar máldaginn er lögrèttuborinn, þá kemr hann fram sem heil skrá, samin með vandaðri reglu einsog heilt skjal þarf að vera, sem er lýst á allsherjar þíngi. Þegar hann er saminn í hèraði, þá er í fyrstu samin skrá í venjulegu formi og kemr fram í heild sinni, en hvað sem síðan bætist við eignir kirkjunnar, þá er því bætt aptanvið, án þess að breytt sè lögun skrárinnar, þeirrar er í fyrstu var samin, og er þá ekki skeytt því, að búa til heila nýja skrá; verða því þessir máldagar í stúfum og samsteyptum stykkjum. En af því biskupar áttu að sjá um öll kirknafè, þá varð það án efa jafnskjótt og máldagar hófust nauðsyn fyrir þá, að hafa hjá sèr aðalbók slíka, sem ritaðir væri í allir máldagar kirkna, og eru þarmeð orðnar til máldagabækr þær á biskupsstólunum, sem að nokkru leyti eru enn til. Þegar nú biskupar tóku máldagana í bók sína, hafa þeir ekki ætíð látið rita upp orðrètt skrár þær sem á kirkjunum voru, heldr lagað um leið sumt það, sem ekki breytti efni máldagans, heldr gjörði hann skipulegri í forminu, og fyrir þessa sök finnum vèr nokkurn orðamun, eða breytíng í niðrskipaninni, milli máldaganna, eptir því sem þeir eru stólsmáldagar eða biskupamáldagar, eða eiginlegir kirkjumáldagar, eða heimamáldagar sem vèr gætum kallað.

Máldagi Reykjaholts kirkju í Borgarfirði, sem hèr fylgir eptir, sýnir oss ljóst dæmi um þetta. Vèr höfum þar fyrir oss heimamáldagann í frumriti, og getum þar svo ljóslega sèð, hvernig hver stúfr er skeyttr við það sem áðr var, að þar getr enginn efi á verið, skulum vèr því nú taka hvern kafla sèrílagi og leiða fyrir sjónir hversu máldaginn hefir myndazt smásaman.

Hinn fyrsti kaflinn er hèr heimfærðr til ársins 1185, þegar Páll prestr Sölvason andaðist og Magnús prestr sonr hans tók við, og er þessi kaflinn preutaðr sèrílagi hèr á undan sem Nr. 68, bls. 279—280.

Annar kaflinn er hèr heimfærðr til 1206, þegar Magnús prestr Pálsson sleppti Reykjaholti og afhenti kirkjufèn í hendr Snorra Sturlusyni. Þessi kaflinn er prentaðr sèrílagi hèr að framan, Nr. 96, bls. 348—351, og eru þar færð rök til um tímatal og þá menn sem nefndir eru.

Hinn þriði kaflinn ber með sèr, að hann er ritaðr eptir að Hallveig Ormsdóttir var komin að Reykjaholti til bús með Snorra, og það var um haustið 1224. Til þess árs hefir einnig Finnr biskup heimfært máldagann, og aðrir samsinnt því

(sbr. Ísl. sög. I. B. 1843, Form. bls. XL), en Finnr biskup hefir farið villt í því, að halda, að máldaginn hafi þá allr verið saminn í einu, miklu heldr er það reyndar styzti kaflinn sem þá er saminn, en þar við tengist það sem mjög er merkilegt, að vèr sjáum nú full rök til, að Magnús biskup Gizurarson hafi látið gjöra Reykjaholts kirkju máldaga og færa í bók sína meðal stólsmáldaganna, eptir vorri hyggju einmitt í þetta sama sinn. Þessvegna tökum vèr máldagann hèr í tvennu lagi, og köllum hann máldaga A sem vèr eignum Magnúsi biskupi, en B köllum vèr heimamáldagann. Haustið 1224 var Magnús biskup í Reykjaholti, að brúðkaupi Gizurar Þorvaldssonar og Íngibjargar dóttur Snorra Sturlusonar, svosem segir í Sturlúnga sögu (4, 40: II, 82—83): „Magnús biskup fór þetta sumar (1224) yfir Vestfirðínga fjórðúng, en þann tíma sem hann var í Dölum hafði Snorri inni brúðkaup þeirra Gizurar Þorvaldssonar ok Íngibjargar dóttur sinnar í Reykjaholti, því at biskupi var þángat hægast til at sækja, en Þorvaldr (Gizurarson) vildi fyrir hvern mun at hann væri þar at brúðkaupinu. Þar var ok Þórðr Sturluson, ok hit bezta mannval um Borgarfjörð ok sunnan með Þorvaldi; var þar hin virðuligasta veizla ok með hinum beztu faungum er til voru á Íslandi. En litlu fyrir brúðkaupit hafði Snorri heim Hallveigu Ormsdóttur, ok gjörði við hana helmínga fèlag, en tók heim til varðveizlu fè sona hennar, Klængs ok Orms, átta hundruð hundraða; hafði Snorri þá meira fè en nokkur maðr annar á Íslandi". Ekkert er líklegra, en að þau Snorri og Hallveig hafi þá gefið til kirkjunnar, og að þetta hafi verið sett á skrá, en Magnús biskup hafi þá um leið látið rita í bók sína allan máldaga Reykjaholts kirkju, eins og hann var þá orðinn þegar hann var í Reykjaholti. Þá er og rituð innskotsgrein í heimamáldagann, sem einnig er tekin í stólsmáldagann, á þann hátt, sem bendir til að hún sè löguð í hendi. Það er og eitt sem styrkir þá ætlun, að Magnús biskup eigi stólsmáldagann (A), að hann endar með þessum þriðja kafla; er það órækt sönnun fyrir að næsti kaflinn sè yngri. Þess má geta, að klukkurnar, Árnanautar tveir og Sölmundarnautr, gæti vel hafa dregið nafn af Árna öreyðu, tengdasyni Snorra, og Sölmundi austmanni, mági hans, að þeir hefði gefið honum klukkurnar áðr.

Hinn fjórði kaflinn er einúngis rekamáldagi kirkjunnar í Reykjaholti, og er hann augljóslega ritaðr með annari hendi en hinir fyrri kaflarnir, og án efa yngri, svo að hann hefir ekki staðið á því blaði sem heimamáldaginn (B) er ritaðr á, þegar stólsmáldaginn (A) var ritaðr. En þar vèr nú ekki getum heimfært hann til neins ákveðins tíma, jafnvel þó líklegast sè að telja hann til tíma Árna biskups Þorlákssonar, þá látum vèr hann fylgja hèr hinum eldra máldaganum. Í Íslendínga sögum (1843. Form. bls. XL sem áðr var getið) er sagt, að þessi kafli gæti verið frá Magnúsi biskupi Gizurarsyni, en þá þekktu menn ekki stólsmáldagann. Þessi fjórði kafli er neðstr á fremri blaðsíðunni

í heimamáldaganum, og er þar með á enda það á skránni B, sem kallazt getr máldagi.

Á annari blaðsíðu máldagans eru tvö lángstrik dregin niðr eptir öllu blaði, og skipta þau blaðsíðunni svo, að tveir þriðjúngar eru fyrir framan, eða vinstramegin, en einn fyrir aptan eða hægramegin. Í þenna síðara dálk eru ritaðar fjórar línur sem nú eru læsilegar, og ein efst, sem varla sèst, en í breiðara dálkinum eru ritaðar fjórar línur, og er þetta fimti og sjötti kafli. Þó er sjötti kaflinn, sem er í mjóa dálkinum, ritaðr fyr, því annars mundi sá sem ritaði fimta dálk hafa ritað út línuna heila, en það hefir hann ekki getað vegna þess, að hann hefir fundið ritaðan fyrir sèr áðr hinn sjötta kaflann. Allt hitt annað af síðari blaðsíðunni er autt.

Hinn fimti kaflinn virðist ekki vera fyr ritaðr en um tíma Árna biskups Þorlákssonar, og er ekki annað við hann markvert, en að hann inniheldr það sem kallað var Dedicatio ecclesiæ, það er að segja grein fyrir því, hverjum kirkjan var helguð, því þetta er ekki í upphafi heimamáldagans einsog vant er að vera. Af stólsmáldaganum er að ráða, að kirkjan hafi um þetta mund verið helguð Pètri postula, og ekki öðrum, svo telr Wilchins máldagi einnig; má þar af ráða, að ekki sè ætíð talið fullt hverjum kirkjur sè helgaðar, heldr sè að eins getið einhvers hins helzta.

Hinn sjötti kaflinn er auðfærðr til ákveðins tíma. Nafn Ingibjargar Snorradóttur bendir til, að hann sè ritaðr um það mund sem hún var gjafvaxta mær í Reykjaholti, áðr hún giptist Gizuri Þorvaldssyni; lýtr því þessi kafli að sama tímabili einsog hinn þriði kaflinn, að árinu 1224; þó mætti og vera, að gjöf hennar væri seinni, frá þeim tímum hún var í Reykjaholti þegar Gizur og hún voru skilin. Kálfaskinn voru um þessa tíma þarfagjöf, til að rita á bækr handa kirkjunum.

---

## A.

Þessi afskript máldagans er tekin eptir bókinni D 12 í safni Steingríms biskups í stiptisbókhlöðunni í Reykjavík, bl. $71^{b}$—72. Þess er getið hèr á undan, að sá máldagi sem hèr er ritaðr muni vera það sem vèr köllum stólsmáldaga, það er að segja máldagi kirkjunnar á þann hátt orðaðr, sem hann var ritaðr í máldagabók biskupsins í Skálholti, og sýnir það sig þá sjálft, að hann er ritaðr þannig sem hann er í tíð Magnús biskups Gizurarsonar, því hann hefir þrjá fyrstu kafla heimamáldagans, og endar með þeim kaflanum sem telr gjafir þeirra Snorra Sturlusonar og Hallveigar Ormsdóttur til kirkjunnar.

það er helzt einkennilegt við þenna texta máldagans, fyrst, að hann setr í upphafi hverjum kirkjan sè helguð, þarnæst að hann fellir inn grein þá, sem rituð er yfir línunni í öðrum kafla í heimamáldaganum (sbr. bls. 350 að framan, athgr. 2), og orðar hana svo sem hún getr átt við í máldagaskránni. þessi grein hefir verið til mestu vandræða öllum þeim sem hafa fengizt við heimamáldagann, en einsog hún er orðuð hèr er hún auðveld, og á allskostar vel við. þó er ekki sýnilegt, eptir því sem ritað í frumskránni, sem er heimamáldaginn, að þessi grein verði lesin eptir henni þannig sem hèr stendr. þegar maðr les „Ormr Bjarnarson" í staðinn fyrir „Ormr bóndi Gilsson" eða þvíumlíkt, sem menn hafa áðr lesið eptir frumskránni, þá er allt auðvelt, því þar sem enginn veit til hver Ormr bóndi Gilsson hafi verið, þá er Ormr Bjarnarson alkunnr; hann var nefnilega annar sonr Hallveigar Ormsdóttur og Bjarnar þorvaldssonar á Breiðabólsstað, og hefir án efa bæði hann og Klængr bróðir hans verið í Reykjaholti með móður sinni um þetta skeið. það er harla ólíklegt, að sá sem ritaði máldagabókina D 12 hafi þekkt svo vel til, að hann hafi fundið þetta nafn og breytt því í afskript sinni þegar hann ritaði bókina; þessvegna mun varla vera efi á, að nafnið hafi staðið þannig í hinni fornu skrá eða stólsmáldaganum, sem hann hefir haft fyrir sèr. Að öðru leyti ber afskript þessi keim af, að hún sè ekki rituð stafrètt eptir máldagabókinni fornu, svosem og við mátti búast, en samburðr við frumskrá heimamáldagans sýnir, að hún muni ekki vera úr lagi færð í neinu verulegu atriði að orðum til eða efni.

---

Reyc hollt

Til petrs kirkiu j reykia hollti liggr heima land með ollum lands nytium.

þar fylgia kyr .xx. griðungr tvævetr. xxx. a oc hundrað.

þar liggr til fimm lutir grimsar allrar. en þrir huerfa vndan. nema þat er nu man ek[1] telia. þat er hlaupa garðr allr. oc þrir hlutir arinnar fyrir norðan miðberg. en fiorðungrinn hverfr fra. þar fylgir oc fiorðvngr haurks hyliar. siðan er settungr er af tekinn. oc stæmma at rauða vatns ose. þar

[1]) her er rèttara en i frumskránni B.

[2] *vera kann að hèr sè ritvilla, og hafi staðið* ostemma (= ástemma) *einsog í B.*

fylgia hestar. iij. oc ængi verre en fjogrtan aurar. þar hverfr oc til sel for j kior með a væiði er þar fylgir at helmingi oc [afreit at[1] rutafiarðar heiði. oc itok þau er hun[2] a j faxadal. oc geitland með skogi. Skogr j sand dale niðr fra skalca gile[3] vm skala toft gengr mark fyrir neðan vr steinum þeim er heita klofningar. þeir standa við sand dals a oc þar vpp a fialls brun. þar fylgir oc skogr j þverar lið at viða til sels. torf skurðr j steindors staða land. Salds sæði niðr fœrt.

[II]. Her liggia til .x. hundrað sex alna aura j bocum oc messu fotum oc j kirkiu skruði. [oc gvðvefiar hocvll er ormr biarnar son gaf til. vvirðr[4]. oc klockvr[5]. þeir[6] eru oc ovirðar.

Magnus oc hallfriðr gefa til kirkiu roðu cross oc licneske þau er standa yfir haalltare oc buning a plenario.

þat er kirkiu fe vm fram þat er aðr er talt.

kirkiu fe fylgia .ij. merkr vax oc xx.

þa[u] ligia lønd til kirkiu. breiðabolsstaðr oc reykia land oc hoginde.

her fylgia enn kirkiu. vij. kugilldi j metfe.

Sa er byr j reykia hollti skal annast haps land halft oc tvau kugilldi bufiar með. þvi fe skal fylgia kvenngilldr omagi hver misseri. oc skal sa hann til taka er j reycia hollti byr.

þessi kirkiu fe er ero j bokum oc messu fotum oc j kirkiu skruði. virðo[7] til sextigi hundraða vaðmala j hendr Snorra þeir gizur oc þorðr oc ketill hermundar son. oc hogne prestr.

Skrin a alltare. þat [er] stendr með helgum domum. gefa þeir Magnus oc snorre at helmingi hvar þeirra. oc er þat kirkiu fe vm fram vm þat er aðr er talt.

[III]. Kirkia a oc vm fram klockur. þeir[6] er þau hallveig oc snorre leggia til staðar. saungmeyiar .ij. oc .ij. arnnar[8]

---

1) *frá [ þetta er líklega afbakað í afskriptinni, úr:* afretr á.

2) hèr er rèttara en í frumskránni B.

3) þetta nafn mun vera rángt hèr, en rèttara í B, að það heiti að rèttu Slakkagil.

4) þetta frá [ heyrir til III. (þ. e. þriðja kafla máldagans, frá 1224), svosem sjá má í B, sbr. bls. 350 athgr. 2 að framan.

5) *hèr er án efa felld úr talan* .ij., *sem er í B yfir línunni.*

6) þr̄, *D 12,* (þeir = þær).  7) virðz, *D 12.*

8) arna nautar, *sem B hefir, er án efa rèttara.*

nautar. oc hin fimta solmundar nautr. hin .vi. petrs. nautr. oc þar með messu [fot] hin beztu. smellta krossar .ij. skript.

---

## B.

Eptir frumriti Reykholtsmáldaga á skinni, sem hefir verið geymt þar við kirkjuna frá upphafi. Stærð blaðsins og letrshætti vil eg ekki lýsa hèr, þareð svo er til ætlazt, að steinprentuð verði nákvæm mynd af því, að stærð og öllu lagi eins og frumritið sjálft. Þær hinar fyrstu sögur um skjal þetta þekkjum vèr nú frá dögum Gísla biskups Jónssonar og Eggerts Hannessonar lögmanns (um og nálægt 1560—70), og er þá sagt, að máldagabrèf þetta sè ólæsilegt. Það er með öðrum orðum að segja, að menn lögðu þá ekki svo mikla stund á að gaumgæfa forn rit, að þeir legði sig í líma til að komast framúr þeim, og fyrir þá sök var mart það kallað ólæsilegt og ónýtt, brennt og kastað út, sem vèr mundum nú hafa mikið gefið til að geymt hefði verið. Vèr getum nú hæglega lesið mart það, sem á 17. öld var talið öldúngis ólæsilegt, svo sem t. a. m. Hauksbók, og Árni Magnússon bætir við, um leið og hann skýrir frá að Gísli biskup Jónsson og Eggert lögmaðr hafi kallað Reykholts máldaga ólæsilegan, með nokkurskonar drýgindum: „og enn nú verðr hann þó lesinn." Árni Magnússon hefir fengið frumritið til láns austr í Skálholt, og hefir látið rita þar nákvæma afskript af því, sem hann og skrifarar hans, Ormr Daðason og Þórðr Þórðarson, hafa staðfest með nöfnum og innsiglum 22. Juli 1711. Þessi afskript er enn í safni Árna, rituð á 10 blöð í 8 blaða broti, er á fremsta blaðinu einúngis ritað framan á með hendi Árna: „gamall maldage Reykholltz kirkju"; þessi hin sama fyrirsögn er rituð með hendi Árna efst á öðru blaði, fyrir ofan það sem máldaginn byrjar, en síðan fyllir máldaginn sjálfr þrjú blöð, og nokkuð á fjórða, en á því sem eptir er af fjórða blaðinu stendr staðfestíng afskriptarinnar af Árna og skrifurum hans, með innsiglum. Hin síðari fimm blöðin eru auð. Þar að auki hefir Árni látið rita, og að nokkru leyti sjálfr ritað, athugagreinir nokkrar um máldagabrèfið og um ymsa staði í því, sem fylgja afskriptinni á blöðum sèrílagi. Þessi afskript Árna er bezt og fullkomnust af þeim sem vèr höfum enn haft. Hann hefir tekið eptir því, að

frumbréfið er ritað með sex rithöndum; einnig hefir hann aðgætt það, að fjórði kaflinn sè líklega ritaðr með nokkru ýngri hendi en hinir fyrstu þrír, en þar á móti hefir hann ekki farið fram í að sýna, hver aldrs munr sè á hinum köflunum sín á milli, eða hvernig á þeim standi. Það lítr út sem hann hafi ímyndað sèr alla kaflana ritaða hèrumbil um sama mund, á dögum Snorra Sturlusonar, en hafi aldri tekið fyrir sig að bera saman aldr þeirra manna, sem nefndir eru í máldaganum, og hversu það kemr saman við tímatalið.

Um daga Árna bjuggu í Reykholti þeir lángfeðgar, forfeðr Finns biskups Jónssonar, og Finnr sjálfr var þar síðan prestr yfir tuttugu ár. Finnr biskup var þessvegna nákunnugr Reykholtsmáldaganum, og hefir látið prenta hann í kirkjusögu sinni, og farið þar um hann mörgum orðum; eru fyrst prentaðir fimm fyrstu kaflarnir í athugagrein (Hist. Eccl. Isl. I, 206—208) með latínskri útleggíngu, og á öðrum stað (Hist. Eccl. Isl. IV, 136—138) hefir hann viðbætisgrein, sem helzt fer orðum um stafsetníng máldagans. Með fjórða bindi kirkjusögunnar fylgir eptirmynd máldagans, þó ekki af honum öllum, heldr af hverjum kafla, eptir því sem Finnr biskup hefir skipt honum að rithendi til; þar er einnig prentaðr sjötti kaflinn, nema brot það af efstu línunni, sem Árni Magnússon hafði lesið, því það hefir Finnr biskup ekki gaumgæft. Þessi útgáfa Finns biskups er hin fyrsta útgáfa Reykholts máldaga á prenti. Eptir ætlan Finns biskups er máldaginn allr ritaðr með fjórum höndum, að minnsta kosti fimm fyrstu kaflarnir, því um hinn sjötta ákveðr hann ekkert. En þessi skiptíng er mjög ónákvæm, því fyrst er svo að sjá, sem hann hafi ekki aðgreint fyrsta og annan kaflann, heldr látið annan kaflann byrja með orðunum: „Skrín þat es stendr á altara" o. s. frv., og tekið þar saman við allan þriðja kaflann. Ekki hefir hann heldr aðgreint innskotsgreinina, þá sem er rituð yfir línunni í öðrum kaflanum með sömu hendi og á þriðja kaflanum er. Þriði kaflinn hjá honum verðr því fjórði hèr, og hinn fjórði aptr sá sem hèr er hinn fimti. Að því leyti sem tímatal snertir, og þá menn sem eru nefndir í máldaganum, þá heldr hann allan máldagann vera ritaðan á sama degi, um haustið 1224, og tekr einmitt það fram, að þá var brúðkaup Gizurar Þorvaldssonar og Íngibjargar Snorradóttur, þá kom Hallveig Ormsdóttir til bús með Snorra, og þá var Magnús biskup Gizurarson nærverandi í Reykholti. Eptir þessu verðr Þórðr sá, sem máldaginn nefnir, Þórðr Sturluson, bróðir Snorra, og Gizur verðr Gizur Þorvaldsson.

þar sem hann kallar Magnús þórðarson hafa afhent Snorra Reykholt með eignum kirkjunnar, þá er það minnisvilla eða prentvilla, í stað þess það var Magnús prestr Pálsson sem afhenti (sbr. bls. 349 að framan). En þetta tímatal getr alls ekki staðizt. Vèr höfum sèð áðr (bls. 349), að Snorri var kominn að Reykholti 1209, og þá hlýtr afhendíngin í hendr honum að hafa verið farin fram, enda eru og þar færð rök til, að hún hafi fram farið 1206 um vorið, og að þórðr og Gizur, þeir sem virtu í hendr Snorra, hafi verið þórðr Böðvarsson, móðurbróðir hans, sá sem gaf honum heimildir sínar að staðnum, og Gizur Hallsson. þetta þarf reyndar engrar frekari styrkíngar við, en þó tekr það af öll tvímæli um, að máldaginn geti ekki verið ritaðr allr 1224: að Magnús prestr Pálsson og Hallfríðr þorgilsdóttir kona hans, sem afhentu Snorra Reykholt, önduðust bæði 1223; Ketill Hermundarson andaðist 1220, og þórðr Böðvarsson sama ár, en Gizur þorvaldsson verðr of úngr til að vera virðíngarmaðr fyrir 1220. þetta er ekki talið hèr til þess, að taka fram galla á hinu ágæta verki Finns biskups, heldr til þess að færa sönnur á mál vort, þar sem hèr hefir verið vikið frá svo merkilegum og ágætum höfundi.

Eptir þetta vitum vèr ekki til að Reykholts máldagi hafi verið rannsakaðr fyr en 1831 eða 1832, að Sveinbjörn Egilsson samdi afskript af honum. þá var máldaginn hjá Steingrími biskupi í Laugarnesi, og þar ritaði Sveinbjörn Egilsson afskript sína, vorum vèr þar og fleiri við, sem þar vorum þá. Sveinbjörn Egilsson hefir skipt köflunum í sex, öldúngis á sama hátt og Árni Magnússon, og er afskript hans vönduð og nákvæm í alla staði; hann hefir og ritað með athugasemdir um handarlag og stafagjörð, og um sum orð máldagans, en þetta er ekki þörf hèr að tína, þareð það er sumt fyllra í athugagreinum Árna, en sumt mun sjást berlega í eptirmyndinni.

Afskript þessi var send hinu norræna fornfræðafèlagi, og eptir henni, samanborinni við útgáfu Finns biskups, er máldaginn prentaðr í Viðbæti við Íslendínga sögur I. B. (1843), bls. 387—392, með athugagreinum, en Finnr Magnússon hefir í formálanum við það bindi (bls. XXXVI—XLI) skýrt frá því sem hann vissi þá gjörst um skrá þessa. Hann hefir að vorri hyggju ljóslega sýnt, að hinn fyrsti kafli máldagans, sem hèr er settr niðr á 1185 (Nr. 68, bls. 279—280), sè ritaðr í tíð þorláks biskups, milli 1179 og 1193. Sömuleiðis hefir hann sèð það rètt, að annar kaflinn mundi vera

ritaðr þegar Snorri tók við Reykholti, en hann setr það niðr á ár 1208 (eða 1209), og fyrir því getr ekki Gizur sá, sem þar er nefndr, verið Gizur Hallsson, sem þá var andaðr, heldr yrði sá að vera einhver annar maðr með því nafni, sem nú væri ókunnugr; en það er sýnt hèr áðr, að rèttara muni vera, að heimfæra þenna kafla máldagans til 1206 um vorið, og að Gizur Hallsson muni einmitt vera sá sem hèr er nefndr. — Um hinn þriðja kaflann er hann samdóma Finni biskupi, að hann muni saminn vera og ritaðr 1224 um haustið, og ætlum vèr það í alla staði sennilegt. — Hinn fjórði kaflinn, um rekana, heldr hann að kunni vera settr við máldagann af Magnúsi biskupi Gizurarsyni. Þetta kemr af því, að hann þekkti ekki stólsmáldagann (A), sem sýnir berlega að þessi kafli muni vera ýngri en frá þeim tímum, sem Magnús biskup Gizurarson ríkti, enda sýnir og stafagjörð þessa kaflans hið sama, ef nákvæmlega er að gætt. — Í sama sinn heldr hann fimta kaflann vera ritaðan, einsog hinn þriðja og fjórða, en hitt mun þó rèttara vera, að þessi kafli sè einnig ýngri, og má telja þar til bæði handarlag og stafagjörð, og svo það, að ef þessi grein um, hverjum kirkjan var helguð, hefði verið þá rituð, mundi hún að öllum líkindum hafa verið tekin í stólsmáldagann og sett þar í upphafi skrárinnar. — Hinn sjötta kaflann heldr hann ýngri en hina, en það er hèr áðr sýnt, að hann sè efalaust eldri en fimti kaflinn; þarí er hann og að öðru leyti samdóma, að kafli þessi muni vera ritaðr á dögum Snorra Sturlusonar, eða fyrir 1241.

---

Til kirkio ligr i rǽkiaholte heimaland meþ ollom landsnytiom |[2] þar fylgia kyr tottogo. griþungr tuevetr .xxx. a. oc hundraþ. |[3] þar ligr til fim hluter. grimsar alrar en þrir huerfa undan. nema |[4] þat es [ec] mun nu telia. þat es hlaupa garþr alr. oc þrir hluter arennar fyr |[5] norþan miþberg. en fiorgongren huerfr fra. þar fylger oc |[6] fiorþongr haorgs hyliar siþan es settungr es af teken oc ostemma |[7] at rauþa vats ose. þar fylgia hestar þrir enge verre an XIIII aurar. |[8] þar huerfr oc til selfor i kior meþ oveþe þeirre es þar fylger at |[9] helfninge oc afretr a hrutafiarþar heþe. oc itoc þau es han a. i faxa |[10] dal. oc geitland meþ scoge. Scogr i saudale niþr fra sclakkagile umb |[11] scala tofst. gengr mark fyr

neþan or steinom þeim es heita klofningar |[12] þeir standa viþ sandalso. ok þar up a fialsbrun. þar fúlger oc scogr |[13] i þuerar liþ at viþa til sels. torfscurþr i steinþorsstaþa land. Salds |[14] sæþe niþr fort.

[II]. Her liggia til tio hundroþ sex alna aura |[15] i bokom oc i messo fotom oc i kirkio skruþe.

([III] oc gvðvæfiar ha'kvll vvirðr. ær ormr b. gaf i d.[1] Gil. s.)

[II] fvr vtan klukkor .ij. |[16] þeir ero ovirþar. Magnus oc hallfriþr gefa til kirkio roþo kross oc lic|[17]neske þau es standa vfer altara. oc buneng a plenario. þat es kirkio |[18] fe umb fram of þat es aþr es talt. kirkio fe fvlgia tuer mercr |[19] vax. oc tottogo. þau liggia lond til kirkio breiþabolstaþr. |[20] oc ravkia land. oc hogende. her fvlgia eɴ kirkiofe siav |[21] kugilde imetfe. Sa es bvr i ravkiaholte skal annaz hafsland |[22] oc tuau kvgilde bufiar meþ. þui fe skal fvlgia kueɴgildr |[23] omage huer missere. oc skal sa haɴ til taka es i ravkia |[24] holte bvr. þesse kirkio fe es ero i bokom oc i messo fotom oc i kirkio |[25] skruþe virðo til sextogo hvndraþa vaþmala i hendr Snorra|[26] þeir Gizoʀ oc þorþr. oc ketill hermundarson. oc bogne prestr.

|[27] Skrin þat es stendr a altara meþ helgom domom gefa þeir Magnus oc |[28] Snorre at helfɴiɴge hvaʀ þeirra. oc es þetta kirkio fe umb fr|[29]am of þat es aþr es talet.

[III]. kirkia a eɴ um fram klukur þęr er þa' |[30] snoʀi ok hallveig[2] leɢia til staðar sa'ngmeyiar .II. ok ij. arna na'tar. |[31] en v[ta]. sa'lmundar na'tr. en .vi[ta] petrs na'tr. ok þar með meso fa't en |[32] betsto smelta crosar .ij. script.

[IV]. þessa reka a kirkia i reykia hollti. Vnðir felli ytra |[33] þriðivngr hvalreka ok halfr viðreki ok lanð halft. Vndir iðra felli þriði|[34]vngr hvalreka ok likt i agoða. sem vndir. ytra felli. þriðivngr|[35] hvarttveggia i agoða. A mvnaðaʀ nesi fiorðvngr hvalreka. |[36] Að kambi fiorðvngr i hvalreka. J byrgisvik fiorðvngr i hvalreka.

[V]. Kirkia su er stendr i reykiahollti er helguð |[37] með

---

1) Árni Magnússon hefir ekki tekið eptir stöfunum „i d", og ekki heldr Finnr biskup. Sveinbjörn Egilsson segir, að stafir þessir sjáist „ekki svo óglöggt".

2) hal'veig, *skinnbl.*

guði Mariv moðvr drottins. ok hinum helga petro postvla. ok envm hælga dionisio biskvpi ok henni helgv Barbare meyio.

[VI]. . . . . . . . . . . . . . ui kalf[a sciɴ].[1]

Snorri St[urlu]. s[on]. VI. kalfa sciɴ.
þorariɴ p[restr] baɴð. s.[2] V. kalf[a skinn].
Vermvnder diacn .VI. kalfa s[kinn].
Yngibiorg snora dottir. xij. ka[lfa skinn].

---

Athugagreinir Árna Magnússonar við Reykholts máldagann eru svo merkilegar, og sýna svo vel nákvæmni hans og glöggskygni í fornum ritum, að engum þeim sem með gaumgæfni rannsakar skrá þessa mun mislíka að þeim er tengt hèr við. þær eru ritaðar á 10 blöðum í 8 blaða broti. Framan á fyrsta blaðinu er ritað með hendi Árna sjálfs fyrirsögnin, en sjálfar athugagreinirnar byrja á öðru blaðinu.

„NOTÆ CRITICÆ,

heyrande til þess gamla Reykholltz maldagans.

þessi Reykholltz kirkiu máldage er, að stöfun, böndum, strikum og punctum, riett ritaður epter pergaments blaðe i litlu folio, tilheyrande Reykholltz kirkiu. Pergaments blað þetta hefur vereð saurblað framan eða aptan af bók, og hefur í fyrstunne á báðum síðum óskrifað vereð. Beggia vegna á röndunum eru kiölgöt, með hverium það hefur í bókenne fast vereð, og sýnest að það muni tvisvar hafa vereð innfest í band, og sín röndin í hvert sinn horft inn í kiölinn. Skriften á blaðenu, sem nú er (ɔ: máldagenn) er auðsýneliga svo sem originall, gjörð í tíð þeirra manna sem þar inne nefnast.

Framan af máldaganum, allt til A[3], er ritað með allra bestu settu skrift, nokkuð í stærra lage og með góðu bleke.

það sem þar næst er, frá A til C[4] (að fráteknu því sem er á milli B og ][5], hvarum strax skal sagt verða), er skrifað með eins gamalli hendi (sem sýnest) en hverge nærre svo góðre eður settre sem hin fyrre er. Blekeð á þessarre skriftenne hefur slæmt vereð, fölt og fyri utan gummi eður klár (sem sýnest) og er því

1) þetta línubrot hefir enginn nema Árni Magnússon í sinni afskript.

2) = Brandsson? sbr. Húsafells máldaga, Nr. 37, bls. 217.

3) þ. e. fyrsti kaflinn sem hèr er kallaðr.

4) þ. e. annar kaflinn hèr.

5) þ. e. innskotsgreinin í öðrum kaflanum.

nú miög máð orðeð, og sumstaðar illt að lesa. Það sem er á mille B og ][1] er ritað með hinne þriðiu hende, þó mjög gamalle og þriðia slags bleke. Er það skrifað ofan yfer línunne, og með sama bleke, sem það með ritað er, boðað inn á mille orðanna í understandande línu, þar sem það hier sett er. Það sem epter kemur allt til C er ritað með þeirre annarre hendenne og vonda blekenu, sem áður er sagt að byriest við A og endest við C.

Það sem epter fylger, frá C til D[2], er ritað með hende ólíkre þeirre sem er á því næst fyrifaranda. Virðest það að vera hin sama hönd og sama blek sem er á því sem hier fyrre stendur á mille B og ][1], og áður er sagt að ritað sie ofan yfer línunne, og inn boðað. Er þesse hönd hverge nærre svo fögur eður sett sem sú fyrsta, þó sæmelig og betre en miðhönden með vonda blekenu. Blekeð á þessarre hende er og gulara en á fyrstu hendenne, þó er það gott blek af sínu slage, og er þesse hönd miög gömul sem áður er sagt, og óefað coæva Snorra og Hallveigu.

Það sem kiemur epter D[3] er ritað með hende, ólíkre öllum hinum, er sú miður sett en hver hinna, og sýnest að vera noekru ýngri, þó er hún að vísu gömul, og nær sú hönd út til endans. Er svo þesse forne máldage ritaður með fiórum höndum, og endast hann með þessum orðum: J byrgisvik fiorðvngr j hvalreka, neðst á annarre síðunne af þessu pergaments blaðe.

Oðrum meigen á blaðenu (á bake skráinnar nú að kalla) efst á síðunni, standa tvennar skrifter í tveimur dálkum hverium út af öðrum. Sá fyrri (vinstri handar) dálkurenn er breiðare enn hinn, ritaður með forgóðri og miög gamalli skrift, sem þó ecki er hin sama sem á fyrsta parti máldagans, þó er af handarformenu auðsieð að hún er eins gömul. Þesse fyrre dálkur innihelldur það sem hier stendur [E][4] kirkia su — Barbare meyio. og eckert meira.

Sá síðare (hægre handar) dálkurenn er miórri en hinn, sem áður er sagt, ritaður með gamalli hendi, eingri af þeim fimm, sem áður eru nefndar. Er hann ecki betur en í meðallagi skrifaður, og hvergi nærre svo vel sem hinn vinstri dálkurenn,

1) þ. e. innskotsgreinin í öðrum kaflanum.
2) þ. e. þriði kaflinn sem hèr er kallaðr.
3) þ. e. rekamáldaginn eða fjórði kaflinn.
4) þ. e. fimti kaflinn eða Dedicatio ecclesiæ.

sýnset annars skriften að vera coæva Snorra Sturlusyne og Ingebiörgu Snorradóttur. þenna dálk þótti ecki verdt að láta skrifa saman við máldagann, með því hann eckert á þar við skylldt, og ecke innchelldur nema hiegóma registur uppá nockur kálfskinn sem sierhver þessarra manna hafa átt í einnehverre massâ[1].

. . . . . . . . . . [2]u i kalf[3]

Er svo þetta pergamentsblað á báðum síðum ritað með sex aðskiljanligum höndum, fimm forgömlum og coævis persónunum, og einni nockru nýrri, þó gamalli.

α) [4]munnu telia]. So stendur í skránne, og ecki öðruvís. meiníngen á að vera: nema þat es [ec] mun nu telia. og er þessum tveim orðum mun nu samanslengt í skriftenne.

β) fiorgongr en]. svo er þetta orð bæðe misskrifað *g* fyrer *þ* í miðiunne, og helldr enn ecki hlutað í sundur síðarst. þó er ecki bileð mille gongr og en. fyllelega so stórt í skránne sem í þessarre minne copiu. les: fiorþongren.

γ) an] stendur í skránne, eins og hier. á að heita eða skiliast: en.

δ) han a]. stendur skírt í skránne, eins og hier. Mun eiga að vera hon, og skiliast: kirkian í Reykhollte.

ε) Eins er þetta fúlger ritað í skránne, með strike uppi yfir fyrra leggnum af *u*.

ζ) Svo er þetta orð vvirðr læselegt í skránne, þegar grant er að gáð, og ecki er það öðruvís. J fyrsta tillite sýnest sem það kynni væigðr að lesast. En það er að vísu ecki so.

η) þetta Gil. ſ er á sama máta í skránne ritað ofan fyrir gaf. stendur gaf innst við röndena, og því hefur skrifarenn orðeð naumt fyrer, og orðeð að setia þetta uppi yfir, með því þetta allt, frá B, átte inn að boðast í under standande línu. Gil. sýnest þetta að vera helldur en til. So er og laung figura í skránne aptan við punctenn, að sönnu nockuð óformleg til að vera ſ. en getur ecki vel annað vereð. nema ef menn villdc ætla, að það være inn-

---

1) þess er getið áðr, að skinn þessi sè án efa gjöf til kirkjunnar, en ekki skinnaregistr þeirra sem nefndir eru.

2) "hier er ólæst orð, mun hafa vereð mannz nafn", athgr. eptir Árna.

3) hèr er ritað allt skinnaregistrið, eins og fyr er sett í enda máldagans að framan, hirði eg því ekki að taka það hèr upp aptr.

4) hèðan frá er ritað með hendi Árna sjálfs.

boðunar merkeð [1], hvað þó ecki sýnest so að vera, því þesse figura er aflaung og stendur rètt í línunne epter Gil. So er og τ öðruvís giört í þeirre hendenne, sem síðar er, á mille C. og D., hver hönd sýnest að vera hin sama sem á þessarre inn boðaðre línu. in summâ: það er nær að lesa þetta Gil. f enn að láta það vera: τil ſ. Ecki helldur sier þesse síðarsta figura lík til að geta vereð *k*. so það kynne skiliast: til kirkiunnar. og mun það so Gilsson skiliast eiga.

ϑ) klukkor ij]. þetta ij. er í skránne, eins og hier, ritað uppi yfir — kor. Er það giört með sömu hendinne, og sama blekenu, sem er á hinne skriftenne, ɔ: því föla klárlausa blekenu. sýnest þetta með vilia giört að setia það so uppi yfir, kynni og þesse numerus í fyrstu óvart gleymzt hafa. — ibidem ovirþar]. þeir bókstafer virþ í þessu orðe eru nú næsta lítt læser orðner. þó er þetta að vísu so sem hier er ritað. þeir stendur hier nógu læselega, fyrer þær eða þer.

ι) annaz]. síðarste bókstafurenn í þessu orðe, sem er *z*, er nú so að seigia ólæs í skránne. getur þó eigi annað vereð, postulante id sensu.

ϰ) kueɴgildr]. af þessu orðe er nú í skránne skírt kue. þá er óskírt ɴ. item *g*. *i* er næsta því ósýnelegt. *l* er skírt og auðsýnelegt. *d* er óskírt. *r* er og óskírt. þó á þetta, óefað, so að lesast.

λ) i hendr Snoʀa]. þetta fyrsta *i*. er nu miög lítt læst í skránne. þó er um það eingenn efe.

μ) hogne]. *h* það fyrsta í nafnenu er nú miög máð í skránne. þó er um það eingan efa að hafa.

ν) aþr es talet]. *e* í þessu síðara es er nú miög máð í skránne. þó griller í það, og á það, án allz efa, so að lesast.

ξ) hal'veig]. eins er þetta ritað í skránne, og hefur skrifarenn óvart epter skileð það eina *l* í fyrstu, og viliað það svo bæta, iafnvel þótt það ecki sie observerað í fyrsta parte máldagans, hvar margfalldlega er *l* fyrir ll".

Að síðustu hefir Árni Magnússon sjálfr og skrifarar hans, Ormr Daðason og Þórðr Þórðarson, ritað það vottorð, „að þetta fyrir framan og ofan skrifað sè rètt."

---

[1]) „Það er að vísu eigi innboðunar merkið, því það stendur skýrt framan við". athgr. A. Magn.

121. 23. August 1224. í Lundúnum.

HEINREKR ENGLAKONÚNGR hinn þriði skipar valdsmanninum yfir höfninni í Járnamóðu (*Yarmouth*) að láta laus kaupför frá Íslandi og öðrum fleiri löndum, og öll fiskiskip, en halda frakkneskum skipum fyrst um sinn.

Mörg merki eru til þess, að verzlun og samgaungur miklar hafi verið milli Íslands og Englands á 11. og 12. öld. Þau helztu merki til þess getum vèr nú helzt rakið í bókmentum, en þó er nokkur vottr um verzlunar-samskipti milli landanna, sem og stendr í eðlilegu sambandi við hitt, ef ekki eru lög eða annað til tálmunar. Þegar í upphafi hinnar kristnu aldar á Íslandi (um 1016) er þess getið, að Guðlaugr, elzti sonr Snorra goða á Helgafelli, hafi farið til Englands og gengið þar í múnkaklaustr (Víga-Styrs saga í Ísl. sög. II, 307). Um sama leyti er þess getið, að enskir klerkar komu til Íslands, og einn þeirra, Hróðólfr biskup, var þar 19 ár (1030—1049) og hèlt þar hið fyrsta klaustr í Bæ í Borgarfirði (sbr. Nr. 122 hèr næst á eptir). Öll hin fornustu íslenzku rit lýsa því, að höfundarnir hafa þekkt enskar fræðibækr og í mörgu haft þær til fyrirmyndar. Á tólftu öld er þess getið, að Þorlákr biskup hinn helgi lærði í Lincoln á Englandi, eptir að hann kom frá París (Þorláks sögur, kap. 4. og 5: Bisk. s. I, 92 og 267), og sama segir um Pál biskup, að hann hafi lært á Englandi (Páls bisk. s. kap. 1: Bisk. s. I, 127). Um hans daga, eða fyrir og eptir 1200, eru ekki mjög fáir vottar um verzlunar-samskipti milli landanna. Einn hinn helzti er lögin um stikumál og um pundara á dögum Páls biskups (Nr. 81—82 að framan), og ýmislegar frásagnir lúta einnig að hinu sama, svosem um helgi Þorláks biskups, þar sem segir að gefizt hafi gjafir til áheita við hann frá Englandi (Þorláks s. hin elzta, kap. 28: Bisk. s. I, 124); og að Auðunn nokkur hafi látið gjöra líkneski hans í Kynn (Lynn?)[1] á Englandi (Jarteinabók Þorláks bisk. hin ýngri, kap. 1: Bisk. s. I, 357; sbr. Laurentius bisk. sögu, kap. 19: Bisk. s. I, 810—811). Þar er varla efi á, að gjafirnar frá Englandi hafi verið frá farmönnum þeim, sem hafa verið í kaupferðum og fiskiferðum til Íslands, og hafa heyrt sögur um helgi Þorláks biskups og áheit við hann; en Auðunn sá sem nefndr er, og lèt gjöra líkneskið, mun án efa hafa verið íslenzkr kaupmaðr eða farmaðr, og hefði hann átt að vera í Lynn í kaupferðum. Sagan um Auðunn hefði átt að vera

1) Kynn getr verið misritað fyrir Lynn, því Kynn er ekki nefndr neinn kaupstaðr á Englandi, en Lynn var um þessar mundir merkr kaupstaðr, og áttu einkum Norðmenn og Danir þar mikla kaupstefnu. Bærinn Lynn er austan til á Englandi, skammt fyrir norðan Járnamóðu, sbr. Fornm. s. x, 158.

frá hinum sama tíma sem eptirfylgjanda brèf, eða skömmu fyr, frá árunum 1200 til 1220.

Brèf það, sem hèr fylgir eptir, sýnir oss, að kaupstaðrinn Járnamóða (*Yarmouth*), austan á Englandi, hefir haft töluverða aðsókn siglíngar og verzlunar á öndverðri þrettándu öld frá ymsum löndum. Það virðist og auðsætt á brèfinu, að þeir sem með skipin fóru hafi verið Íslendíngar, því annars mundi þess varla getið að skipin væri frá því landi. Eptirtektar vert er, að hèr eru nefnd skip frá Fríslandi, af því menn gæti látið sèr detta í hug að það væri eyjan Frísland, sem opt er nefnd í miðaldarritum, og menn hafa verið í vafa um hvort væri afbakað fyrir Ísland, eða hvað það væri. Af því hèr er nefnt Kolni næst á eptir, og þar eptir lönd Danakonúngs, þá er líklegt að þetta Frísland, sem hèr er nefnt, sè á Vestr-Jótlandi.

Hin fornu konúnga brèf á Englandi eru öll samin á Latínu, og er mikið safn af þeim geymt í Turninum (*Tower*) í Lundúnaborg; það byrjar með konúngdæmi Jóhanns konúngs, sem kallaðr var síðan hinn landlausi (1199—1216), og er byrjað að prenta nokkuð af því í þremr stórum söfnum, sem hin enska stjórn hefir látið gefa út á prent af nefnd nokkurri (*Record commission*), sem stendr fyrir útgáfu fornra skjala og rita, er snerta sögu Englands og Skotlands. Skjalasafn það, sem nefndin hefir gefið út, er í þrennu lagi, fyrst eru lof og leyfisbrèf konúnga (*charters*); þarnæst opin brèf (*patent letters*) og í þriðja lagi konúngabrèf eða lokuð brèf (*close letters*). Brèf það sem hèr fylgir er prentað í hinu síðastnefnda safni: Rotuli literatum clausarum Vol. I (1204—1224). London 1833. Fol. bls. 642, sbr. bls. 617, og er þar sama brèf með litlum orðamun, sem hèr þykir ekki þörf að telja.

---

De navibus deliberandis.

Rex Baillivis portus de Jernemuta salutem.

Mandamus vobis quod omnes naves venientes in portu Gernemutensi cum mercandisis de Scottia et Norwegia et Islandia et Frislandia et de Colonia et de terra Regis Dacie et de partibus illis orientalibus sine inpedimento abire permittatis. et similiter naves piscatorias de quacumque terra sint.

Naves vero alias illuc venientes de terra Regis Francorum et de Pictavia arestari faciatis donec aliud inde perceperimus.

Teste me ipso apud Londinum. xxiij. die Augusti anno regni nostri viij.

---

122. [vorið 1226]. í Viðey.

MÁLDAGI staðarins í Viðey, [er þeir settu Magnús biskup og Þorvaldr, Gizurarsynir].

Eptir að kristni var lögtekin á Íslandi leið ekki á laungu þartil fyrsta viðleitni var gjör til að stofna klaustr. Hinar fyrstu stofnanir klaustra eru öldúngis að kalla samtaka á Íslandi og í Noregi, bæði að tímanum til og að upprunanum. Enskir fornir sagnaritarar segja, að Knútr hinn ríki hafi fyrst stofnað klaustr í Hólmi eða Niðarhólmi í Þrándheimi, þegar hann var í Noregi og var tekinn til konúngs á Eyra þíngi 1028, en sú stofnan eyddist í það sinn og náði ekki að vaxa. Á Íslandi varð hið fyrsta klaustr stofnað hèrumbil 1030 í Bæ í Borgarfirði, en stóð ekki heldr nema skamma stund. Hèrumbil 80 árum síðar hófust fyrst klaustr í Noregi (um 1110) í Hólmi eins og fyr, og Mikjáls klaustr í Björgvin; rètt um sama leyti (1106) stofnaði Jón biskup hinn helgi á Hólum fyrst Þíngeyra klaustr, og var það fullkomið 1133 (sbr. bls. 194 að framan). Bæði í Noregi og á Íslandi voru fyrstu tilraunir að stofna klaustr gjörvar af enskum mönnum, en heppnuðust á hvorugum staðnum, en innlendir menn voru fyrir stofnaninni, þegar hún varð varanleg.

Hin fyrsta tilraun að stofna klaustr á Íslandi var gjör í Bæ í Borgarfirði, svo sem þegar var frá sagt. Hróðólfr biskup, frændi Játvarðar Englakonúngs hins helga, kom út til Íslands hèrumbil 1030 og var þar 19 ár; hann bjó að Lundi í Lundareykjadal og í Bæ í Borgarfirði og setti þar klaustr, eða hèlt þar múnklífi með nokkrum öðrum, sem hann vann til þess. Hèrumbil 1049 fór hann utan, og árið eptir varð hann ábóti í Abingdon (Ábótatúni) á Englandi, en hann andaðist skömmu síðar († 1052)[1]. Þegar Hróðólfr biskup fór úr Bæ, voru þar eptir þrír múnkar, og koma þeir við frásögn um helgi Ásólfs hins kristna (Landn. I, 15: Ísl.s. I, 50—51; sbr. Ólafs s. Tryggvas. í Flateyjarb. kap. 222), en síðan hafa menn engar sögur af klaustrinu í Bæ, og mun það þá hafa lagzt niðr.

Þau klaustr, sem fyrst komust á varanlegan fót á Íslandi, voru fyrir norðan: Þíngeyra klaustr (1133) og Múnkaþverár klaustr (1155); þar eptir voru stofnuð klaustr í Austfirðínga fjórðúngi, í Þykkvabæ í Veri (1168) og í Kirkjubæ á Síðu (1186), og samtíða þarmeð í Vestfirðínga fjórðúngi: í Hítardal (1166) og í Flatey (1172), sem síðan var flutt að Helgafelli (1186).

Á öllum þessum tíma komst ekkert klaustr á fót í Sunn-

[1]) Íslendíngab. kap. 8: Ísl.s. I, 13; Húngrvaka kap. 3: Bisk. s. I, 64—65; Landn. I, 15 og í Viðbæti, Ísl.s. I, 50—51, 332. Munch, Det norske Folks Historie II, 597; III, 170, 185—186, 211; Maurer, Die Bekehrung des Norwegischen Stammes I, 597—598; II, 582, 585.

lendínga fjórðúngi, því tilraunir til þess heppnuðust ekki. Magnús biskup Einarsson í Skálholti (1134—1148) keypti til staðarins í Skálaholti nær allar Vestmannaeyjar, og ætlaði að setja þar múnklífi, en honum endist eigi líf til þess[1], og fórst það svo fyrir, en Vestmannaeyjar voru þar eptir undir Skálholts stól, þar til 1280, að Árni biskup Þorláksson gaf þær Mikjálsklaustri í Björgvin; voru þær síðan eign klaustrsins, þartil þær voru teknar undir konúngs vald með öðrum klaustra-eignum eptir siðaskiptin. — Önnur tilraun að stofna klaustr í Sunnlendínga fjórðúngi var sú, að Jón Loptsson í Odda lèt á hinum seinustu árum sínum smíða kirkju og klaustrhús að Keldum á Rángárvöllum, og ætlaði að helga það klaustr Jóni skírara og gánga þar í sjálfr, en hann andaðist fyr en klaustrið yrði sett og menn til ráðnir († 1197). Sæmundr sonr hans hèlt kirkjunni og húsunum við um sína daga, en eptir hann († 1222) var hvorttveggja rifið niðr[2]. Um sama leyti og Jón Loptsson ætlaði að stofna klaustrið á Keldum, er fyrst getið um Jóns klaustr skírara í Björgvin (Berfættubræðr at Jónskirkju).

Það má ráða af brèfi Magnús biskups Gizurarsonar hèr á eptir (Nr. 123), að þeim höfðíngjum Sunnlendínga hefir þótt það nokkur lægíng fyrir fjórðúng sinn, að þar skyldi ekkert klaustr vera; hefir því án efa opt verið talað um þeirra á milli að stofna klaustr þar í fjórðúnginum. Samtíða Jóni Loptssyni í Odda bjó í Stóradal undir Eyjafjöllum Kolskeggr Eiríksson. Hann var vellauðugr maðr og kallaðr hinn auðgi. Systir hans var Þóra, og var hún hjákona Orms á Breiðabólstað í Fljótshlíð, sonar Jóns í Odda. Dóttir Orms og Þóru var Hallveig, er átti Björn Þorvaldsson frá Hruna fyrst, en síðan Snorri Sturluson. Kolskeggr í Dal var barnlaus, og hafði Ormr breiðbælíngr af fè hans sem hann vildi, en Hallveig dóttir Orms var síðan erfíngi hans, og eptir að Björn bóndi hennar var fallinn í bardaganum á Breiðabólstað (17. Juni 1221), stóð hún ein til arfs eptir Kolskegg, en Þorvaldr Gizurarson í Hruna var í fyrirráðum með henni og sonum hennar, Klængi og Ormi. Kolskeggr hinn auðgi andaðist eigi laungu síðar († 1223), en það hafði komið til umræðu milli hans og Þorvalds, að Þorvaldr vildi stofna klaustr, en Kolskeggr hèt að leggja þar fè til. Vorið eptir fór Snorri Sturluson, sem þá var lögsögumaðr, suðr um Heiði, og var í Hruna með Þorvaldi; sagði Þorvaldr honum þá frá fyrirætlun sinni, að stofna klaustrið, og fèkk hann í fylgi með sèr að koma upp klaustrinu, en þarmeð samdist það með þeim, að Gizur son Þorvalds skyldi fá Íngibjargar, dóttur Snorra, og Hallveig Ormsdóttir ráðast til Snorra í Reykjaholt. Það er kunnugt, að þessi ráðagerð varð síðan undirrót til mikillar ógæfu á síðari árum Snorra, og dró hann að nokkru leyti til bana. Eptir að þeir

1) Húngrv. kap. 14: Bisk. s. I, 77. 2) Þorláks bisk. saga hin ýngri kap. 25: Bisk. s. I, 293.

höfðu komið sèr saman Þorvaldr og Snorri, keypti Þorvaldr Viðey (1224), og efnaði þar til klaustrs, en síðan var hann vígðr til kanoka. Eptir því sem annálar skýra frá, og saga Guðmundar biskups hin elzta (Bisk.s. I, 546), var klaustrið í Viðey sett 1226 með fimm kanokum, en eptir sögunni í Sturlúngu árinu fyrir (1225; Sturl. 4, 39: II, 81). Þetta má til sanns færast á þann hátt, að klaustrið hafi verið albyggt 1225, og Þorvaldr ráðizt þángað þá og verið vígðr til kanoka, en máldagi ekki gjör fyrr en 1226, og þá fyrst mátti heita að klaustrið væri sett að fullu.

Ekki verðr þess getið í sögum framanaf, að bygð hafi verið í Viðey, en það verðr vor elzta fregn um bygð í eynni, að búendr þar sömdu við Ásgeir prest Guðmundarson um ítök í eynni fyrir að veiða ekki æðarfugl (Nr. 125 hèr á eptir). Á dögum Þorláks biskups hins helga er sagt að biskup hafi gist þar, og hafi þar þá verið svo mikill músagángr, að þær hafi spillt kornum og ökrum, hefir þar því verið sáðland um þær mundir; en Þorlákr biskup er sagt að hafi kyrsett mýsnar þar í nesi einu á eynni, þar til þeim var hleypt þaðan síðar (Þorláks s. hin ýngri kap. 26: Bisk.s. I, 293). Skömmu fyrir 1200 er þess getið, að kirkja var í eynni, og bjó þar þá Bjarni prestr; þá var þar eggver mikið og akryrkja (Bisk.s. I, 350).

Klaustr það, sem sett var í Viðey, var Augustinaklaustr, eða svartmúnka klaustr, og leiddu múnkarnir í þeim klaustrum reglur sínar frá hinum heilaga kirkjuföður Augustinus († 430)[1]. Búníngr þeirra var svört síðhempa með hvítri kórkápu yfir. Það er kunnugt, að Luther var í fyrstu svartmúnkr, eða af Augustina reglu, og þaðan er komið að lútherskir prestar hafa hempu svarta og hvítan slopp. Klaustrið í Viðey varð síðan eitt hið auðugasta og helzta klaustr á Íslandi, og eru frá því flestar jarðir þær í Kjalarnesþíngi, sem teknar voru undir konúng um og eptir siðaskiptin, og eru enn undir umboði sýslumanns í Gullbríngusýslu.

Það hefir þótt undarlegt, að ekki er getið um ábóta í Viðey fyr en 1247, að vígðr var þángað Arnórr, son Digr-Helga. Finnr biskup hefir haldið, að ábótar hafi verið þar eigi að síðr, þó þeirra sè ekki getið, og nefnir til Arnis ábóta, son Bjarnar hins enska, sem nefndr er í Landnámabók (II, 27: Ísl.s. I, 142), að hann muni hafa verið ábóti í Viðey. Svo er einnig skipað fyrir í þessu brèfi, að ábóti skuli ráða fyrir stað, með umsjá biskupsins í Skálaholti. En eitt af brèfum þeim um Viðey, sem hèr fylgir eptir, og setr máldaga um veiðina í Elliðaám (1235), segir með ljósum orðum, að Styrmir prestr hinn fróði hafi það ár tekið við forráðum í Viðey, og annálar kalla hann prior þegar þeir segja frá andláti hans (1245). Það mun því vafalaust, að Styrmir hafi verið þar fyrir klaustri árin 1235—1245,

1) Augustina múnkareglur eru prentaðar i Langeb. Script. Rer. Dan. V, 629—633.

sem prior, og að enginn ábóti hafi verið þar fyrir klaustrinu um þessi ár; en af því Styrmir tekr við forráðum einmitt það ár, sem Þorvaldr Gizurarson andaðist, þá er líklegt, að Þorvaldr hafi og ráðið fyrir klaustrinu frá því það var stofnað, og til þess hann andaðist, þó hann væri einúngis kanoki. Hefði Arnis verið ábóti í Viðey, þá hefði það átt að vera 1245—1247, en það er óvíst hvort svo hafi verið. Eptir ættartölum lítr út sem Arnis hafi verið eldri en svo, að hann mundi vera kallaðr til ábóta 1245, því hann er í ættum jafnhliða Guðmundi grís († 1210) og fjórmenníngr við hann, en Guðmundr grís var orðinn múnkr þegar hann andaðist, og hefir því verið gamall. Það var einnig venjulegt, að priorar rèði fyrir Augustina klaustrum, og hèt þá svo stundum, sem hlutaðeigandi biskup væri ábóti klaustrsins, og svo var, til dæmis að taka, ávallt á Möðruvöllum í Hörgárdal, að Hólabiskup var sem ábóti klaustrsins, en priorinn stóð fyrir klaustrinu og stjórnaði því. Þetta kann og að hafa svo verið í Viðey, meðan klaustrið var í æsku og lítið um að vera, að Magnús biskup hafi verið sem ábóti klaustrsins í fyrstu, og hafi Þorvaldr ráðið fyrst fyrir stað meðan hann lifði, sem slèttr og rèttr kanoki, og enginn prior eða ábóti, síðan Styrmir sem prior, en eptir dauða Styrmis hafi verið settr ábóti fyrir klaustrið, og svo ávallt síðan. Vèr höfum það þessvegna fyrir satt, að Þorvaldr Gizurarson hafi stjórnað klaustrinu í Viðey frá upphafi þess 1226 til þess hann andaðist 1235, en síðan Styrmir prestr Kárason hinn fróði sem prior frá 1234 til 1245.

Viðeyjar klaustr var svo merkilegr staðr, að vert er að geta hèr í fám orðum þess manns, sem er höfundr að þessari stofnun, sem var svo ágæt á sinni tíð (sbr. bls. 356—358, 372, 393, 425). Þorvaldr Gizurarson var sonr Gizurar Hallssonar lögsögumanns, sem vèr höfum fyr getið (bls. 205, 261, 349—350, 474) og víða er nefndr í sögum. Móðir hans var Álfheiðr, dóttir Þorvarðar hins auðga Guðmundarsonar († 1161. Sturl. 3, 1. 5: I, 114, 205; ísl. Annál.)[1]. Þorvaldr mun vera fæddr hèrumbil 1155, því Gizur Hallsson faðir hans kom út 1152, og hefir þá án efa kvongazt og farið að búa á föðurleifð sinni í Haukadal. Hèrumbil 1180 gekk Þorvaldr að eiga Jóru Klængsdóttur biskups, og unntust þau mikið, en fyrir meinbuga sakir átti að skilja þau; fór þá Þorvaldr utan (1186) og fèkk það leyfi af erkibiskupi, að þau mætti vera saman 10 ár, en skilja þá fortakslaust. Þegar leið að þeim tíma elskaði Þorvaldr hana svo mikið, að hann vissi ekki hvort hann mundi fá af sèr að skilja við hana, eptir því sem hann hafði lofað erkibiskupi, en þau sömu misseri andaðist Jóra († 1196). Þau Þorvaldr og Jóra áttu fimm sonu:

1) á öðrum stað (Sturl. 3, 11: I, 133) er hún talin dóttir Ásgríms Þorvaldssonar, systir Þorvarðar hins auðga († 1186) og bróðurdóttir Guðmundar hins dýra; en þetta getr aldrs vegna varla staðizt, og mun vera farið nafna villt, af því tveir Þorvarðar hafa borið sama auknafn.

Guðmund og Klæng, Björn, Einar og Teit. Um vorið eptir andlát Jóru fór þorvaldr og Jón Sigmundarson vestr í Borgarfjörð, og gistu á þíngvöllum; þar bjó þá Guðmundr grís Ámundason, hann átti Solveigu dóttur Jóns Loptssonar í Odda; dætur þeirra voru tvær og hèt hvortveggja þóra, eptir þóru dóttur Magnús konúngs berfætta, móður Solveigar og Jóns í Odda; höfðu þær áðr í einskonar leik óskað sèr að eiga þá Jón og þorvald, og varð það nú í þessari ferð að þeir beiddu systranna beggja, og voru þær þeim fastnaðar, hlaut þorvaldr þóru hina ýngri, sem hún hafði óskað sèr, en þó er sagt að báðar vildu hann heldr eiga (Sturl. 3, 6: II, 206—208). Börn hans og þóru hinnar ýngri voru þau Halldóra, sem átti Ketill þorláksson lögsögumaðr, Gizur, sem varð jarl Hákonar konúngs, og Kolfinna. þóra lifði lengr en þorvaldr, og var fyrir búi Gizurar sonar síns í Bræðratúngu 1242 og 1243, en síðan er hennar ekki getið, og mun hún hafa andazt ekki laungu síðar.

þorvaldr Gizurarson kemr fyrst fram sem höfðíngi 1186 í eptirmáli eptir Einar þorgilsson á Staðarhóli, móðurbróður Jóru konu hans; þó leitaði hann þá ráða og liðveizlu til Jóns Loptssonar í Odda (Sturl. 3, 38: I, 193). Síðan var hann fastr í fylgi með Kolbeini Tumasyni og Norðlendíngum, móti Oddaverjum og Sturlúngum; þegar Oddaverjum hnignaði sætti hann sig við Sturlúnga, og á seinni árum sínum gekk hann ávallt á milli til sætta, rèði hann seinast sættum á alþíngi 1234, árið áðr en hann andaðist (Sturl. 5, 30: II, 158—159). Frá því á tímum þorláks biskups var hann í fremstu röð meðal höfðíngja á Íslandi, og tók þátt í öllum hinum helztu málum, bæði andlegum og veraldlegum. þorlákr biskup vígði hann til prests, og Magnús bróður hans, er síðan varð biskup í Skálholti, og þorvaldr er talinn meðal hinna helztu, sem voru við andlát hans 1193; hann var við upptekníng á helgum dómi biskups 1198, og gekkst einn með öðrum fyrir að leiða helgi hans í lög og að stofna áheit (Bisk.s. I, 123. 137. o. v.); hann var með í ráðaneyti Páls biskups, þegar Guðmundr Arason var kosinn til biskups á Hólum (Bisk.s. I, 480); hann var og við andlát Páls biskups 1211 (Bisk.s. I, 144), og eptir dauða hans mun hann hafa átt mestan þátt í kosníngi systursonar síns Teits Bessasonar til biskups í Skálaholti; fylgði hann honum síðan utan 1213, en Teitr andaðist áðr hann væri vígðr. Næsta ár kom þorvaldr út, og var þá Magnús bróðir hans kosinn til biskups. það er ekki að efa, að þorvaldr hafi verið í ráðaneyti bróður síns um stjórn andlegra mála á Íslandi, og að báðir hafi sömuleiðis átt þátt í stofnun klaustrsins í Viðey.

Af þeim veraldlegum málum, sem þorvaldr Gizurarson tók þátt í, er þess helzt að geta, að hann var með Páli biskupi og öðrum höfðíngjum í ráðum um að breyta álna málinu á Íslandi og lögleiða stikuna (Bisk.s. I, 135; sbr. hèr að framan Nr. 81, bls. 306), þarmeð ætlum vèr hafi fylgt lög um pundara og um leigufè og löggjald (Nr. 82. 83, bls. 311. 314). það er og ekki

að efa, að hann muni hafa átt þátt í hèraðsskipunum í Árnes þíngi á sinni tíð, svosem fjárlagi og ferjumáldögum (Nr. 84—86, bls. 315—319), og 1215 er þess getið í annálum, að þeir Sæmundr Jónsson í Odda og Þorvaldr hafi lagt lag á varníng Austmanna, eða kaupmanna frá Björgvin, á Eyrarbakka, en þar af mun hafa risið fjandskapr Björgvinarmanna við Oddaverja, sem síðan leiddi svo mart illt af sèr. Er það á þessu að sjá, sem Oddaverjar hafi um þær mundir haft hèraðsforræði í Árnes þíngi, jöfnum höndum við hèraðshöfðíngja Árnesínga, eða meira, þegar þeir leggja lag á varníng kaupmanna út á Eyrarbakka.

Fornir rithöfundar tala ávallt um Þorvald meðal höfðíngja í fremstu röð. Þegar Þorlákr biskup andaðist 1193, sendi hann á banasæng sinni eptir Þorvaldi, „er mannvit ok minni hafði í nægsta lagi, ok jafnan þótti vel til fallinn at hafa ætlan eðr orskurði á um þat, er miklu varðaði" (Þorl. saga hin ýngri kap. 28: Bisk.s. I, 295). Annar segir, að Þorlákr biskup virði mest Pál systurson sinn, sem biskup varð eptir hann, en „annar (sem hann virði mest) var Þorvaldr Gizurarson, er síðan var hinn mesti höfðíngi, ok voru honum flestir hlutir betr gefnir en hinum öðrum, er honum voru samtíða" (Sturl. 3, 32: I, 183).

Þorvaldr var spakr maðr að viti og hægr í lund, en þó þèttr fyrir ef því var að skipta; kemr hann þessvegna helzt fram í klókum og djúpsettum ráðum, meira en í djarflegum framkvæmdum. Nokkur hnyttileg svör eru til eptir hann, sum spakleg og sum meinleg. Það er til dæmis um þau, er hann sagði um þá sonu Páls biskups, Ketil og Lopt, að þeim væri nokkuð ólíkt farið, því Ketill vildi mönnum hvatvitna gott, en Loptr talaði hvatvitna gott (Guðm.s. kap. 51: Bisk.s. I, 488). — Þegar vinátta var sem heitust milli Sighvats Sturlusonar og Þorvalds, og hann gipti Sturlu Sighvatssyni Solveigu, dóttur Sæmundar í Odda, þá mælti Sighvatr: „Þess vil ek biðja þik, Þorvaldr, at vit gætim svá til með sonum okkrum, at þeir haldi vel vináttu með frændsemi". Þá leit Þorvaldr niðr fyrir sig heldr áhyggjusamlega, og mælti; „gætt mun meðan vit lifum báðir". Þetta þóttu síðan hin mestu spakmæli, eptir því sem síðar kom fram, því Þorvaldr var andaðr áðr en Sturla sonr Sighvats fór að Gizuri syni Þorvalds í Apavatnsför (Sturl. 4, 36: II, 78). — Í þriðja sinn var það á alþíngi 1232, að Snorri Sturluson lèt ekki að orðum þeirra Þorvalds og Þórðar bróður síns um að sættast við Kolbein únga, en þegar þeir voru orðnir leiðir á meðalgaungu og gengnir frá, þá sættust þeir Snorri og Kolbeinn allt í einu og Kolbeinn gipti Arnbjörgu systur sína Urækju, syni Snorra, þá sagði Þorvaldr: „undarlegt þykir mèr, er Kolbeinn vill gipta systur sína skilgetna hórkonusyni Snorra, en þat er satt, sem mælt er, at sjálfr veit gjörst hverjum varníngi verja á" (Sturl. 5, 19: II, 142).

Þorvaldr var aldrei lögsögumaðr, þó hann væri einna mestu ráðandi á alþíngi eptir að veldi Oddaverja mínkaði. Þar á

móti var Teitr sonr hans lögsögumaðr þrjú sumr (1219—1221), og síðan aptr um tólf ár (1236—1247) eptir andlát föður síns. Þorvaldr mun hafa búið í Hruna frá því hèrumbil 1182 og til 1225, að hann vígðist til kanoka í Viðey, hefir hann þá verið á sjötugs aldri, en hann andaðist á Egidiusmessu, eða 1. Septbr. 1235, og hefir þá verið áttræðr eða nær því, eins og faðir hans; í konúngs annál er hann þá kallaðr „Þorvaldr prestr kanoki", er það til merkis um að hann hafi verið kanoki í klaustrinu til dauðadags (Sturl. 5, 50: II, 188; ártíðaskrá hin íslenzka í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. I, 597; IV, 145). Gizur jarl sonr hans ætlaði að gánga í Viðeyjar klaustr einsog faðir hans, en hann andaðist fyr en því yrði framgengt († 12. Januar 1268) 59 ára gamall; hann gaf Stað í Reyninesi í Skagafirði til klaustrs áðr hann andaðist, en þar varð þó ekki stofnað klaustr fyr en laungu síðar (1295).

Þessi máldagi Viðeyjar klaustrs er prentaðr hèr eptir máldagabókinni frá Skálholti í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol., bls. 108 (sbr. Nr. 49, bls. 252—255), og er hann ritaðr seinastr í bókinni.

Það virðist oss auðsætt, að máldagi þessi sè vígslumáldagi klaustrsins, og ekki ýngri en svo; þó þar sè gjört ráð fyrir ábóta, sem ekki var settr fyr en síðar, þá má það vera gjört fyrir ókomna tíð, og það er í þesskonar orðatiltækjum, að biskupinn í Skálaholti hefir eptir máldaganum hin verulegu umráð yfir klaustrinu. Þar sem talað er einúngis um stað og staðar fè, þá sýnist það benda til, að klaustrið hafi þá engar útjarðir eða ítök átt, en á annan bóginn sýnir það, sem sagt er um kirkjuna og ölturun, að máldaginn er ekki settr fyr en kirkjan var fullbúin til messusaungs, og nógir menn voru þángað ráðnir til þjónustugjörðar. Máldaginn getr því varla verið eldri en 1226, og trauðlega heldr ýngri, því vèr sjáum á skjölum þeim, sem eptir fylgja, að klaustrið hefir á skömmum tíma auðgazt að jörðum og ítökum.

---

Kirkia sv er stendr j Viðey er helgvð með gvðe Marie. johanne baptista. Petro oc Pavlo. sancto Avgvstino.

Alltare fvr svnnan j kirkiv er helgat stephano. clementi. dionisio. Olavo. Thoma.

Alltare fvr norðan er helgat Martino. nicholao. thorlaco. agathe. lvcie.

en sa er maldage staðarins. at þar skvlv vera þrir messv songs menn hit fæsta. diakn[ar]. ij. oc kanokar sem til verða. messu songr oc tiða holld. oc lysing epter þvi sem regla byðr oc allt kirkiv halld epter þvi sem abote vill at se.

Abote skal fyri stað raða oc reglv monnom. oc ollom staðar feam meðr vmsio biskops þess er j skala hollte er. en þeir menn er fe hafa gefit til staðarens. eða þeirra erfingiar skvlv ecki tilkall eiga oc engi forræðe. skvlv handsøl staðarens oc oll forrað epter þvi fara sem reglan byðr. oc gvðs log standa til. en hverfa eigi j veralldlegar erfðer.

---

## 123. [varið 1226].

Brèf Magnús biskups Gizurarsonar í Skálaholti til bænda og presta í Kjalarnes þíngi, um gjafir til staðarins í Viðey.

Brèf þetta virðist vera ritað um sama leyti, eða rètt á eptir að staðrinn í Viðey hefir verið settr, kirkjan vígð og máldagi saminn; það hefir einnig verið álit sira Jóns Halldórssonar í Hítardal, í Biskupasögum hans, og hefir hann sett það í æfi Magnús biskups Gizurarsonar; en í kirkjusögu Finns biskups hefir nokkur vafníngr komizt á, því í sögunni sjálfri (I, 308) hefir hann sagt frá einsog faðir hans og látið brèfið fylgja, en í skjalaregistrinu við seinasta bindi sögunnar (IV, 381) er þessu brèfi blandað saman við máldagann um osttolla klaustrsins (Nr. 124 hèr næst á eptir) og kallað: Skipan Magnús biskups um osttolla til Viðeyjar klaustrs („Statutum Magni episcopi Schalholtensis de pensione casei ad monasterium Videyense"), en sá máldagi um osttollana er ekki prentaðr í sögu Finns biskups. Þessi villa er komin upphaflega frá brèfabókum, því þar er sú fyrirsögn, að brèf þetta sè um osttolla til Viðeyjar klaustrs. Allir eru þó samdóma um, að árfæra það til 1226.

Þetta brèf Magnús biskups er prentað hèr eptir pappírsbók einni, sem nú er í safni Árna Magnússonar Nr. 238 í 4to. Bók þessi er rituð á 16. öld, á tímabilinu milli 1560 og fram til 1578; er þar fremst safn af brèfum Viðeyjarklaustrs, og í þeim flokki er þetta brèf (bl. 20b — 21); þarnæst eru afskriptir af mörgum jarðakaupabrèfum sira Björns Jónssonar biskups Arasonar; þvínæst af brèfum eptir brèfabók Þorvarðar lögmanns Erlendssonar (Safn til sögu Ísl. II, 96); þá eru dómar nokkrir, og eru sumir þeirra eptir Vigfús Jónsson, sýslumann í Kjalarnes þíngi eða Kjósar sýslu (1565 og þar eptir), og mun bókin upphaflega vera frá honum komin. Á þessari bók eru einnig máldagar nokkurra kirkna fyrir sunnan, og er getið þar um „Hítardals máldagabók" (bl. 112b); þar eru og nokkrar fáeinar rèttarbætr frá 14. og 15. öld, og forsagnir ymsar eða „formulæ juridicæ", um þíngsetníngar og fleira. Árni Magnússon hefir kallað bók þessa Bessastaða-bók („Liber Bessastadensis Nr. 142 A."), því hún hefir líklega

verið þaðan, og eru mörg brèf rituð eptir henni í safni Árna af íslenzkum brèfa-afskriptum. Af þessu brèfi er þar afskript Nr. 1772 í því safni. Önnur forn afskript af brèfi þessu er í brèfabók í fjögra blaða broti, sem sira Markús stiptprófastr Magnússon í Görðum mun hafa átt, og er rituð að mestu fyrir og eptir 1600, hún er alls 388 bls. og hefir öll hin sömu Viðeyjar brèf sem Bessastaða bók, en ekki í sömu röð, einnig máldaga kirkna, suma eptir „Hítardals máldagabók", miklu fleiri en eru á hinni bókinni, eru það máldagar Oddgeirs biskups, Stepháns, Gísla Jónssonar og Odds Einarssonar. Brèf þetta er þar á bls. 120—121, en nokkuð afbakað. Bók þessi er kölluð hèr B í orðamun.

Frá þessari síðari brèfabók, eða Garða-bókinni, sýnast vera komnar afskriptir þeirra feðga, sira Jóns Halldórssonar í Hítardal og Finns biskups; er ein af þeim í handriti D16 í safni Steingríms biskups í stiptsbókhlöðunni á Íslandi, sem er brèfasafn í tveim bindum frá sira Jóni í Hítardal, og er þetta brèf þar í fyrri deildinni, bls. 189. Þar að auki finnst það í æfi Magnús biskups Gizurarsonar í Biskupasögum sira Jóns, sem fyr var getið, og prentað í Finn. Joh. Hist. Eccles. Island. I, 308 í athugagrein, en töluvert afbakað á stöku stöðum. Hèr er fylgt allsendis „Bessastaðabók", nema að stafsetníngunni til, þareð hún er frá þeim tíma sem bókin er rituð á. En af því, að á bók þessari er mikið safn af brèfum Viðeyjar klaustrs, frá fornöld og fram á 16. öld, þá lítr svo út, sem brèfin sè rituð þar annaðhvort eptir frumbrèfunum, sem verið hafa í Viðey, eða eptir eldri brèfabókum klaustrsins.

Af því að brèfið vantar stað, dag og ár, þá kynni menn hugsa, að það væri hèr ekki fullt, og vantaði við endann; svo hafa þeir og haldið feðgar: sira Jón í Hítardal, og Finnr biskup; en þetta ætlum vèr þó ekki vera, heldr mun brèfið aldrei hafa lengra verið, og er það alvenja á Íslandi um þessa tíma, að varla er nokkurt skjal með ártali eða dagsetníng. Að efninu til vantar ekkert, sem menn gæti hugsað sèr að við þyrfti að bæta.

---

[1]Guðs kveðiu ok sina sendir Magnus biskup j Skalahollti ollum bændum ok buþegnum ok prestum j Kialarnes þingsokn. þar með ollum guðs vinum ok sinum.

Mikla þock eigum ver at kunna þeirra hluta allra. er til dyrðar eru guði ok hinni sælu guðs moður Marie, en oss til friðar ok farsælu ef ver kunnum til at gæta. Nu er þat fram

1) „oststolla brèf" fyrirsögn í B, og í „Bessast. bók" frá upphafi, en síðan dregin út. „Brèf Magnúsar biskups um osttolla til Viðeyjarklaustrs" fyrirsögn í D16.

komit a vorum dogum er hinir fyrru goðir menn ok gofgir hofðu til stundat. at nokkurr reglu staðr skylldi settr verða j vorum fiorðungi sem j ollum oðrum fjorðungum vors lands. Nu er staðr hafiðr j Viðey ok gefinn guði ok sælli guðs moður Marie. ok hafa þar nu menn saman sott. þeir er verðugir eru til þess at þiona þar guði ok hallda bænum fyrir heilagri guðs kristni nott ok dag. ok þeim monnum einkanliga[1] er þenna stað styrkia ok styðia til þessa goða raðs með sinum tillogum. En her standa far stoðir[2] undir at svo bunu. fyrir þvi at stundum er skipt kirknanna a milli ok megu þat[3] varliga missa þeir mennirnir er þær varðveita. vilium ver af þvi biðia þeirra tillagna er engan mann megi ur fe hafa. en staðnum j Viðey kæmi til nytta ok mun þat mikil stoð ef saman kemr.

---

## 124. [1226]. á alþingi.

Máldagi settr á alþíngi, um osttoll til Viðeyjar klaustrs af Kjalarnes þingi.

Um vorið 1226 fyrir alþíng ætlum vèr að Magnús biskup Gizurarson hafi sett vígslumáldaga klaustrsins í Viðey (Nr. 122 hèr að framan) og samið umburðarbrèf til búenda í Kjalarnes þíngi um gjafir til klaustrsins (Nr. 123); en á alþíngi um sumarið hefir Snorri Sturluson, sem þá var lögsögumaðr, borið upp í lögrèttu máldaga um ákveðið gjald til klaustrsins af Kjalarnes þíngi, og hefir það þá verið samþykkt í lögrèttu. þess er getið, að máldagi þessi sè gjör að ráði Magnús biskups, en ekki er þar nefndr þorvaldr Gizurarson, enda er þess ekki getið hann hafi verið á alþíngi þetta ár, og mun hann hafa verið þá í Viðey; en að áliðnu sumri kom út Guðmundr Hólabiskup í Hrútafirði, og með honum bróðir Björn, sem kallaðr var Rita-Björn og síðan varð ábóti í Niðarhólmi; höfðu þeir brèf Pètrs erkibiskups, sem tóku embætti af Magnúsi biskupi og stefndu honum utan, ásamt með þorvaldi Gizurarsyni og þeim feðgum: Sighvati og Sturlu syni hans. Af þessari utanstefnu varð þó aldrei neitt, og Pètr erkibiskup andaðist um haustið († 9. Oktbr. 1226), og fór Magnús biskup ekki utan fyr en 1229, eptir nýrri stefnu, en þorvaldr Gizurarson fór aldrei (sbr. bls. 425—426).

Um máldagann sjálfan er þess að geta, að hann mun hafa verið hafðr í lögrèttu meðfram vegna þess, að hann ákvað um

1) einkanlegast, B og hinir. 2) staðir, B og hinir.
3) þvi, B og hinir.

almennt gjald af bændum og búþegnum í hèraði; þó er mart fleira við hann eptirtektar vert, svo sem er það, að hann nær einúngis yfir hèraðið frá Botnsá til Reykjaness, það er sem vèr köllum Kjósar sýslu og Gullbríngusýslu að Reykjanesi, en ekki að Sýslusteinum, sem síðar er talið takmark hennar; vantar því hèr Grindavík og Krísuvík, sem tollrinn nær ekki yfir, og virðist það benda til, að Kjalarnesþíng hafi um þessar mundir verið frá Botnsá til Reykjaness, en Árnes þíng frá Reykjanesi að Þjórsá. Annað er það merkilegt, að tollrinn er einúngis lagðr á það þíng, sem klaustrið er í, en ekki á allan Sunnlendíngafjórðúng. Hið þriðja er, að tollrinn er einúngis að nokkru leyti lagðr á sem skylduskattr, en að nokkru leyti sem fríviljug gjöf, því þeir sem gjalda eru skildir undir bænahald klaustrmanna, en engin sekt lögð við á hinum, sem ekki gjalda.

Um þenna osttoll til Viðeyjar klaustrs eru nokkur brèf síðar gjör, og höfum vèr enn sum af þeim. Hið næsta brèf, sem vèr höfum, er brèf Runólfs ábóta í Viðey, ritað hèrumbil 1280, til „bænda ok búþegna millum Botnsár ok Hafnarfjalla," heimtar hann þar af þeim þetta gjald, og ber fyrir sig „brèf Magnús biskups [ok] herra Gizurar jarls", sem hafi skipað toll þenna, og segir að hann sè „fjórðúngr osts, eða tveir hlutir fjórðúngs smjörs af þeim hverjum bónda, sem þíngfararkaupi á at gegna", og hafi þetta verið „samþykkt af sýslumönnum ok lögmönnum ok öllum lögrèttumönnum á alþíngi". Þetta brèf Runólfs ábóta fer miklu lengra en máldaginn, því bæði ákveðr brèfið fjórðúngsost af hverjum skattbónda, þar sem máldaginn kveður að eins á um „slíkan hleif sem þar er gjörr", það er einn ost af bæ, eptir því sem þar gjörist sem ostar eru búnir til á bæjum; og enn fremr telr brèf ábóta allt annað takmark en máldaginn, því það heimtar gjaldið af bændum í Þverárþíngi, eða nokkrum hluta Borgarfjarðar sýslu: Hvalfjarðarströnd, Akranesi, Melasveit og Leirársveit, allt upp að Andakíl (um Hafnarfjöll[1] sbr. Landn. I, 19: Ísl.s. I, 57). Það er líklegt, að Runólfr ábóti hafi byggt þessar kröfur á því brèfi Gizurar jarls, sem hann nefnir, en það brèf þekkjum vèr nú ekki og mun það vera undir lok liðið. Sama er að segja um brèf Jóns biskups Halldórssonar, sem á að hafa getið þess, að osttollr þessi hafi verið gefinn frá Skálholts kirkju, en þar á móti höfum vèr enn brèf Snorra prests Þorleifssonar klýngis, offieialis, frá 1361, og Goðsvins biskups frá 1443, um þessa sömu tolla; má þar af sjá, að þeir hafa verið goldnir lengi fram eptir.

Af því vèr höfum nú hið elzta skjal fyrir tollum þessum, þá verðum vèr að sæta þessu tækifæri til að leiðrètta það, sem mishermzt hefir um þetta efni hjá sira Jóni Halldórssyni í Hítar-

1) Það er varla trúlegt, að orðið „Hafnarfjalla" væri misritað í hinum gömlu afskriptum af brèfi Runólfs ábóta, fyrir „Hvítskeggshvamms", sem talið er osttolla takmark í máldaga klaustrsins frá 14. öld, í stað „Reykjaness" hèr.

dal og Finni biskupi. Er það helzt, að þeir segja, að biskup hafi lagt þenna osttoll frá Skálholts kirkju til Viðeyjar klaustrs, en máldaginn sjálfr ber ekki annað með sèr, en að tollrinn sè ný álaga, lögboðin á alþíngi, en ekki tekinn frá Skálholts kirkju, þó að hin síðari brèf taki svo til orða, eins og biskupinn hafi lagt hann til klaustrsins. Annað er, að þeir telja takmarkið milli Botnsár og Hafnarfjarðar (í stað Hafnarfjalla), og kemr það frá afbökuðum afskriptum. Enn er þess að geta, að Finnr biskup segir (Hist. Eccl. IV, 83), að tollr þessi hafi verið tíu ostar („decem casei"), þar sem hann var einúngis einn ostr (hleifr), eða fjórðúngs ostr, eptir því sem síðar var ákveðið; mun þetta líklega vera komið af prentvillu og fallið úr orð („decem libræ casei").

Um flesta þá menn, sem eru taldir vottar að máldaga þessum á alþíngi, vitum vèr nokkur deili. Magnús Guðmundarson er Magnús góði, allsherjargoði, sem bjó á Þíngvöllum, bróðir Þóru, sem Þorvaldr Gizurarson átti síðar. Magnús var vígðr til prests og síðan kosinn til biskups eptir nafna sinn, Magnús biskup Gizurarson, í hans lifanda lífi (1236), fór hann þá utan sama ár til biskups vígslu, en Hákon konúngr og kirkjuráðið (kapitulinn) í Niðarósi bægðu honum frá vígslunni og settu Sigvarð, ábóta í Selju, norrænan mann, til biskups í Skálholti. Síðan var Magnús utanlands þar til 1239, að hann kom út aptr til Íslands, og drukknaði árið eptir (20. Septbr. 1240, ísl. Ann.; ártíðaskrá).[1] — Um Ámunda bróður hans vitum vèr ekkert, en nafn hans er ættarnafn, því Guðmundr grís á Þíngvöllum, faðir þeirra, var Ámundason. — Árni Magnússon er án efa Árni óreyða, sem víða er nefndr í Sturlúngu; hann átti Hallberu, dóttur Snorra Sturlusonar, og fèkk með henni Brautarholt og mikið annað fè (Sturl. 4, 22: II, 48), en skildi við hana síðan og keypti Saurbæ á Kjalarnesi og bjó þar. Hann var hinn mesti vin Hákonar konúngs, og var með honum þegar hann var í Noregi (1221—1224), síðan var hann sem konúngs maðr veitandi Gizuri Þorvaldssyni í aðförum við Snorra og fjörráðum við hann. Árni andaðist 23. Novbr. 1250 (ísl. Ann.; ártíðaskrá). — Synir Þórðar Böðvarssonar, móðurbróður Snorra Sturlusonar og þeirra bræðra, voru þeir Þorleifr í Görðum á Akranesi († 1257); Böðvar í Bæ í Borgarfirði († 1264) og Markús á Melum. Þeir eru allir nefndir í Sturlúngu[2], og ætt þeirra talin, en ætt Markús og Melamanna er einkanlega talin í hinni svokölluðu Melabók af Landnámu. — Teitr Þorvaldsson hyggjum vèr sè Teitr

1) sbr. bls. 393 hèr að framan.

2) i registrinu við Sturlúngu eru þeir settir saman i eitt allir fjórir nafnar: a) Böðvar Oddason frá Hvoli; b) Böðvar Þórðarson Skúlasonar († 1187); c) Böðvar Þórðarson Sturlusonar á Staðarstað ( = Staðar-Böðvar) og enn d) Böðvar Þórðarson Böðvarssonar ( = Böðvar í Bæ), en svo eru þeir þarhjá sèrilagi taldir; „Böðvar i Bæ" og „Böðvar at Stað" ( = Staðar-Böð-

sonr Þorvalds Gizurarsonar, sem var lögsögumaðr († 1259; sbr. bls. 393; Safn til s. Ísl. II, 29—30. — Sigurðr Jónsson gæti verið sonr Jóns Loptssonar í Odda (Sturl. 2, 1: I, 49; Þorláks bisk. saga hin ýngri kap. 19: Bisk. s. I, 282). — Styrmir Kárason er Styrmir prestr hinn fróði, sem var lögsögumaðr (Safn til s. Ísl. II, 27—28, 30) og síðan prior í Viðey († 20. Febr. 1245). — Ketill Þorláksson mun vera Ketill prestr í Hítardal, sem síðan var lögsögumaðr; hann átti Halldóru dóttur Þorvalds Gizurarsonar, og mun hafa búið um þetta mund í Skarði hinu ytra á Landi í Rángárþingi († 1273; sbr. Safn til s. Ísl. II, 32—33). — Ormr Koðránsson mun án efa vera sá Ormr prestr Koðránsson, sem annálar telja að hafi andazt 1253; hann mun hafa verið af Gilsbekkínga kyni. — Styrkár Sveinbjarnarson var merkr bóndi í Kjalarness þíngi; hans ætt er talin í Landnámab. V, 14: Ísl. s. I, 320, og var hann kominn af ætt Íngólfs landnámsmanns; sonr hans var Hafrbjörn í Seltjarnarnesi, sem hafði mest bú og bezta hýbýla skipan á Íslandi af bændum á sinni tíð (Árna bisk. s. kap. 26); það er einnig líklegt, að Sveinbjörn Styrkársson af Rosmhvalanesi, sem fèll í bardaganum í Bæ í Borgarfirði 28. April 1237 (Sturl. 6, 3: II, 194), hafi verið annar sonr hans. — Um Jórsala-Björn finnum vèr hvergi getið nema hèr, en af viðrnefnum nokkurra manna á þessum tímum má ráða, að Íslendíngar hafi verið í ferðum til Jórsala og til Miklagarðs, svo sem er Jórsala-Bjarni (1242, Sturl. 6, 36; II, 259) vestan úr Dýrafirði, og Sigurðr Oddsson Grikkr að norðan, líklega úr Eyjafirði (1217, Sturl. 4, 19: II, 37); er það líklegt, að sumir þeirra hafi verið í Jórsalaferðum með Norðmönnum, Pètri steypi og Hreiðari sendimanni 1210 og Hróari konúngsfrænda 1217, sem kallað er Jórsala ferð hin mikla (sbr. Rafns Antiquités Russes II, 353). Pètr steypir andaðist á ferð sinni, og hefir þá einn af Íslendíngum eignazt sverð hans, því 1233 gekk það að gjöfum á Íslandi og var kallað „Steypir" (Sturl. 5, 24: II, 148). — Koðrán Svarthöfðason er talinn með beztu bændum af Nesjum, þar sem sagt er frá bardaganum í Bæ, var hann þá í flokki með Þorleifi í Görðum og var særðr í þeim bardaga (Sturl. 5, 3: II, 194). Árið eptir var hann með Gizuri í bardaganum á Örlygstöðum (Sturl. 6, 17: II, 221) og með Klængi Bjarnarsyni í Reykjaholti þegar hann var veginn 25. Decbr. 1241 (Sturl. 6, 32: II, 244—245).

Máldagi þessi er hèr prentaðr eptir máldagabókinni frá Skálholti í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol., bls. 107 (sbr. Nr. 49, bls. 252—255); upphaf hans og endir er prentað með latínskri útleggíng og athugagreinum í Antiq. Russ. II, 355.

var). — „Markús á Melum" og „Markús Þórðarson" eru aptr á móti aðgreindir, en eru báðir sami maðr.

Sa maldage var giorr a alþinge at raðe Magnus biskop[s]. en Snorre Sturlu son hafðe vppe j logrettv. oc nefnde vatta.

at a meðal Reykianess oc Bozar skal giallda af hverivm bæ. þeim er ostr er giorr. slikan hleif sem þar er giorr. til staðarens j Viðey hvert havst. en þar j mote skvlv þeir menn aller. er þessa minning giora eða giallda til staðarens. skilder vnder bæna halld bræðra oc kennimanna a staðnvm. þat sem til er sett j reglv a hverivm dægrvm. við alla þa menn er staðnvm gera gagn eða gæðe ser til myskunnar oc saluhialpar.

þessir vorv vattar:

Magnvs gvðmvnds son oc Amvnde broðer hans.
Arne Magnvs son.
syner þorðar. þorleifr. Böðvarr oc Markvss.
Teitr þorvalds son[1].
Sigurðr Jons son.
Styrmir karason.
Ketill þorlaks son.
Ormr Koðrans son.
Styrkarr Sveinbiarnar son.
Jorsala Biorn.
Koðran Svarthofða son.

---

## 125. [um 1230].

Bréf um tolla og ítök Gufnesínga í Viðey, sem Snorri Illugason lagði aptr.

Vèr sjáum á þessu brèfi, að þorvaldr Gizurarson hefir látið sèr annt um fyrst og fremst að ná allri Viðey frjálsri og ítakalausri undir klaustrið, og þarnæst að auka eignir þess út í frá. Af því sem í brèfi þessu stendr getum vèr með miklum líkindum rakið eignarmenn Gufuness um lángan tíma, og viðskipti þeirra Gufnesínga og Viðeyínga. Sá Ásgeir prestr Guðmundarson, sem var fóstri Illuga, föður Snorra, sem lagði aptr tollana, mun án efa vera sá, sem talinn er með helztu prestum í Sunnlendínga fjórðúngi 1143 (bls 186 hèr að framan), og eptir því sem ráða er, mun hann hafa andazt um 1180. Hann hefir án efa búið á Gufunesi, að minnsta kosti um hríð, og hafa þá Gufnesíngar líklega veidt æðarfugl, svo að Viðeyíngum hefir þótt skaði

1) Þ'd' s. (eins og væri: Þórðarson), 263.

að; má af því sjá, að þá þegar hefir verið stundað æðarvarp í Viðey. Til þess að kaupa Gufnesínga af sèr, hafa Viðeyíngar fengið Ásgeiri presti ítök í eyna, og sýna þau ítök, að bæði hefir þá verið höfð útigánga fyrir hross á vetrum í eynni, og útræði til hafs á sumrum; en „hlutlaust" mun hèr vera sama og toll-laust, það er, að Gufnesíngrinn þurfti ekki að gjalda fyrir vist sína í Viðey, eða landshlut af afla sínum. Ásgeir prestr hefir einnig átt Lundey, og gripi góða. Á ofanverðri æfi sinni seldi hann Gufunes Illuga fóstrsyni sínum, en eptir hans dag riptuðu erfíngjar hans kaupin, og fengu Gufunes aptr fyrir Lundey og ítökin í Viðey. Gufunes hefir að fornu verið talið fimtán hundruð, og svarar það sèr allvel, að Lundey hafi verið metin í kaupinu til tólf hundraða, og ítökin til þriggja hundraða. Ólafr Þorvarðsson mun þar eptir hafa búið á Gufunesi, og er það ekki ólíklegt, að ekkja hans hafi verið Jórunn hin auðga, sem bjó á Gufunesi um 1214, og andaðist um það leyti og lèt engan erfíngja eptir sig. Um arf hennar deildu þeir Magnús Guðmundarson á Þíngvöllum, sem fyr hefir verið nefndr og síðan var biskupsefni, og Snorri Sturluson, hafði Snorri sigr af því máli og gekk þá mest fram virðíng hans (Sturl. 4, 21: II, 45—46). Hvort Snorri Illugason hafi búið á Gufunesi, vitum vèr ekki.

Um hina aðra, sem í brèfinu eru nefndir, vitum vèr mjög lítið. Leggr prestr mun vera sá sami, sem fyr þjónaði Páli biskupi um sjö vetr (Páls bisk. s. kap. 14: Bisk. s. I, 140), var síðan kanoki, líklega í Viðey, og andaðist 21. Febr. 1238 (ísl. Ann.; sbr. bls. 182 hèr að framan).

Brèf þetta er prentað hèr eptir máldagabókinni frá Skálholti í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol. bls. 107 (sbr. Nr. 49, bls. 252—255), og er það ritað þar með hinum öðrum skrám frá Viðeyjar klaustri.

---

Sva sagði jllhvgi Þ. . . . . son[1] Snorra syni sinvm. at hann keypti at Asgeiri presti Gvðmvndar syni. fostra sinvm. Gvfvnes land. Þa andaðist Asgeirr. oc tokv þav arf epter hann. Olafr Þorvarðs son oc kona hans. oc villdv þav ripta kavpit. oc sættvst a þat þeir Olafr oc jllhvgi. at hann skylldi hafa hvart er hann villdi. Lvndey eða gvllhring þann. er komv til xij hvndrað. en jllhvgi kavs eyna. oc tolla þa með. er Asgeirr atti j Viðey. hests hofn a vetr oc manni veiði a svmar at veiða hlvtlavst j hafi.

Þessa hlvti logðv þeir or Viðey til við Asgeir. at hann skylldi eigi lata [veiða] æðar a Gvfvnesi. en þessa tolla gaf Snorri jllhvgason aptr til Viðeyiar. er hann tok j arf eptir foðvr sinn.

[1] „Þ. s." (skammstafað), hdr.

var þorvalldr Gizvrar son at boði j Görðvm.
sva at hann heyrði.
Leggr prestr. Hamvndr Nicholas son.
Olafr Biarnason. Olafr Svan[s] son.
Jon Jvars son. Olafr.
Jogrimr oc þorlakr son hans. oc mart annarra manna.

---

## 126. [um 1230].

Skrá um lögsögumanna tal á Íslandi, frá alþingis setníng og til lögsögu Snorra Sturlusonar.

Vèr höfum áðr tekið í safn þetta nokkrar þær skrásetníngar, sem verða heimfærðar til vissra tíma eða vissra manna, og eru eiginlega hvorki brèf nè ritgjörðir. þær eru að því leyti mjög merkilegar í sögulegum skilníngi, að þær veita manni fótfestu og hjálpa manni til að rekja viðburðina í rèttri röð.

það getr ekki undrað oss, að menn hafi á Íslandi snemma sett á sig nöfn lögsögumanna og röð þeirra; það er miklu fremr undarlegt, að ekki finnst lögskipað að bóka nafnaröð og embættis ár þeirra manna, sem stóðu fyrir allri lagastjórn á landinu, eins og til að mynda gjört var hjá Rómverjum. þetta virðist þó ekki hafa verið gjört á Íslandi, því þegar Ari prestr fór að rita Íslendíngabók, og fann það, einsog vonlegt var, að hinn vissasti og beinasti þráðr í sögu landsins lægi í lögsögumanna röðinni, þá er ekki að sjá sem hann hafi haft fyrir sèr neinar skrásetníngar um þessi efni, nema farið eptir sögn minnugra manna, og einkum frásögn Markús lögsögumanns Skeggjasonar, sem hafði sína sögu eptir föður sínum og föðurföður; en föðurfaðir hans, Bjarni hinn spaki, mundi sjö lögsögumenn í röð, frá þórarni Ragabróður (950—969) og til þorkels Tjörfasonar (1034—1053). En nú samdi Ari sína bók svo laungu síðar, að tala hans nær til Guðmundar þorgeirssonar (1123—1134), og höfum vèr þarmeð svo áreiðanlega vissu um röð lögsögumanna frá 950 til 1134, sem vèr getum vænzt að fá um sögulega hluti. Eptir daga Ara prests hafa án efa margir ritað lögsögumanna raðir, þó vèr ekki vitum nú af neinni eldri en frá þrettándu öld, og er ein af þeim sú, er hèr fylgir eptir.

þetta lögsögumannatal er tekið eptir alkunnri og nafnfrægri skinnbók, sem er kölluð Uppsala-Edda, af því hún er eign háskólans í Uppsölum í Svíþjóð. Skinnbók þessa flutti Jón Rugmann frá Íslandi til Svíþjóðar, og eignaðist hana síðan ríkiskansellerinn greifi Magnus Gabriel de la Gardie, en hann gaf hana háskólabókhlöðunni í Uppsölum 1669. þessi merkilega skinnbók er 56 blöð (112 blaðsíður) í breiðu og stuttu átta blaða broti

eða minnsta fjögra blaða broti; fyrsta blaðið hefir verið látið autt í upphafi, en á öðru blaði byrjar Snorra-Edda, með þessari fyrirsögn ritaðri með rauðu letri: „bok þessi heitir edda. hana bevir saman setta Snorri Stvrlo son. eptir þeim hætti sem her er skipat" o. s. frv. Kemr þá stuttr formáli og þar eptir Gylfaginníng og Bragaræður, allt til þess á bls. 42, þar sem sagt er frá ferð þórs til Geirrauðargarða, og skýrskotað til þórsdrápu eptir Eilíf Guðrúnarson. þá hefir verið skilið eptir autt það sem eptir var af því kveri eða hepti í bókinni (bls. 42—50), og hefir líklega skrifarinn ætlað að fá sèr þórsdrápu til að rita þar, en ekki fengið, og ritað þessvegna síðan annað á þessi blöð; er fyrst af þessu Skáldatal, eða nöfn ymsra konúnga og annara höfðíngja í Svíþjóð, Noregi, Danmörk og á Englandi, og skálda þeirra, sem hafa ort um þá kvæði. Skáldatal þetta er í mörgum greinum merkilegt, einkum að því leyti, að annað eldra hefir verið í handritum af Heimskrínglu, svo að líkindi eru til, að það sè komið frá Snorra Sturlusyni; en hèr í Uppsala-eddu er það aukið og haldið fram til loka þrettándu aldar. þar eptir fylgir ættartala Sturlúnga (Nr. 127 hèr næst á eptir). Seinast er lögsögumannatal, það er bèr fylgir, og er það á 48. blaðsíðu í skinnbókinni og nær yfir á næstu blaðsíðu, en síðan hefir hálf önnur blaðsíða verið auð. þar næst byrjar Edda aptr, og fylgir þar Skáldskaparmál, hljóðsgreinir og Háttatalskvæði Snorra, til enda skinnbókariunar.

Af því að lögsögumannatal þetta endar á Snorra Sturlusyni, þegar hann var lögsögumaðr í annað sinn (1222—1231), og þareð öll bókin ber þess menjar, að hún eigi kyn sitt að rekja til Snorra, þá er líklegt, að lögsögumannatal þetta eigi sama uppruna, og sè uppbaflega ritað annaðhvort af Snorra sjálfum eða einhverjum hans manna, t. d. Styrmi fróða. þó er Uppsalabók ekki frumrit, beldr er bún rituð 50 árum eða lengr eptir andlát Snorra, og að vorri ætlun um eða rètt fyrir 1300. Bókin virðist hafa verið í Borgarfirði lengi frameptir, og til eru enn afskriptir af ymsu úr henni, sem eru gjörðar í Dölum á seytjándu öld, en hvort Jón Rugmann hafi fengið bana þaðan, eða bún hafi þá verið kominn norðr, er oss nú ókunnugt.

þegar vèr berum saman þetta lögsögumannatal við það, sem Ari prestr hinn fróði befir, og við annála, þá finnum vèr hèr nokkurn mun á nöfnum, og þó enn meiri í áratölunum. En allr þessi munr er þess eðlis, að hann getr verið kominn af því, að frumritið hafi verið óvandað uppkast, og sá sem skrifaði hafi sjálfr verið ófróðr og ekki aðgætinn, því þess ber Uppsalabók víða ljósan vott, þó hún sè vel rituð að stafagjörðinni til. Höfundrinn hefir auðsýnilega farið eptir lögsögumannatali Ara prests; það sèst bezt á því, að hann miðar við fall Ólafs konúngs helga og Haralds Sigurðarsonar, og við útkomu Gizurar biskups, eins og Ari gjörir, og þar af leiðir, að þar sem tölur bans eru aðrar en hjá Ara, þar er afbakað. Í þeim kaflanum, sem lögsögu-

mannatal Ara nær yfir, eru sumstaðar nöfnin afböknð, en eptir það Ari hættir eru nöfnin og nafnaröðin alstaðar rètt, og einúngis villur í áratölunni. þetta getr komið og hefir líklega komið af því, að Snorri, eða sá, sem ritað hefir frumritið, hefir skammstafað nöfnin hinna eldri lögsögumanna, því hann hefir kunnað þau eptir Íslendíngabók, og sett þau framan við til þess röðin yrði fullkomin, en hin síðari nöfnin hefir hann ritað full og skýr, sem ný voru. En tölurnar í þessum kafla eru á líkan hátt misritaðar af þeim, sem hefir ritað Uppsalabók, eins og í fyrra kaflanum, og má leiðrètta það eptir annálum og öðrum rökum, sem skýrt er frá í lögsögumanuatali í Safn. til s. Ísl. II, 1—32.

Lögsögumannatal þetta er prentað áðr eptir Uppsalabók í Brèfi frá Ihre til Lagerbrings („Bref till . . . Sven Lagerbring, rörande den isländska Edda . . . som på kongl. Bibliotheket i Upsala förvaras." Upsala 1772. 44 blss. 8vo) bls. 42, en tölu-vert afbakað; þar eptir er það prentað í Schlözers „Isländische Literatur und Geschichte". Göttingen u. Gotha. 1773. 8vo. bls. 81—82. Hèr er það prentað eptir Uppsalabók, og engu breytt, nema að leyst er úr böndum, en þau eru ekki mikil í skinnbókinni.

---

Vlfliotr het maðr er fvrst sagþi log vpp a islandi at hans raþi var alþingi sett. En hann hafþi eigi laga [vpp]sogv[1] a islandi sva at þat se vitað[2].

En hrafn hæiŋs son hinn fyrsti logsavgo maðr a islandi sagþi log vpp .xx. vetr.

þorarinn raga broþir son oleifs hallta .xx. svm[o]r.

þorkell mani þorsteinsson xıȷ[3] svmor.

þorgeiʀ fra liosa vatni þorkels son xıııȷ[4] svmor. a hans dogvm kom cristni til islanz.

Grimr frá mosfelli svertings son .ij. Svm[o]r.

Skapti þoroddz son goþa ıııȷ[5] svm[o]r ok xx. hann andaþiz a ino sama ari ok olafr konvngr inn helgi fell.

Steinn þorgeirs[6] son .iij. sum[o]r.

þorkell tiorfa son .xx. Svmor.

---

1) gat á blaðinu í skinnb. þar sem þrír fyrstu stafirnir hafa verið.

2) þann. skýrt í skinnb., en ekki „ritað".

3) án efa misritað úr xıı, skinnb. hefir og hvergi púnkt yfir ı, en seinasta ı ætíð lángt (ȷ); xv, Íslb. og Ann.

4) án efa misritað úr xııı; xvij, Íslb. og Ann.

5) án efa misritað úr ıı (vij), sem er í Íslb.

6) afbakað, og á að vera þorgests son; hefir þar líklega verið skammstafað í frumritinu.

Geller bolverks son .ix. svm[o]r.
Gvnnar inn spaki þorgrims son .iij. svmor.
kolbeinn flosa son .ııj[1]. svmor. þat Svmar sem hann tok lavgsavgo fell haraldr konvngr a englandi.
Gellir hafþi logsavgo i annat sinni .iij. Svmor.
Gvnnar i annat sinn .i. Svmar.
Sighvatr .viij. Svmor.
Markvss skegia son tok logsogn þat svmar er Gizvr biskvp hafþi verit einn vetr her a landi ok hafþi logsavgo xx ok iiij. Svmor.
[Gunnar vlfheþins son[2] .ix. svmor.
bergþor hrafns son .vj. Svmor.
Gvnnar[3] þorgeirs son .xij. Svmor.
hrafn vlfheþins son .iiij. Svmor.
finnr hallz son .vij. Svmor.
Gvnnar vlfheþins son .x. Svmor.
Snorri Hvnboga son .xv. Svmor.
Styrkar oddason .x. Svmor.
Gizvr hallz son .ij. SvMor ok xx[4].
hallr gizorar son .ııȷ[5] Svmor.
Styrmir kara son .ıȷ[6]. Svmor.
Snorri Stvrlo son .iiij. Svmor.
Teitr þorvallz son .ij. svmor.
Snorri stvrlo son i annat sinn.

---

## 127. [um 1230].

Skrá um ættartölu Sturlúnga, til Egils Sölmundarsonar í Reykjaholti og Gyðu systur hans í Kalmanstúngu.

Frá alda öðli hefir það legið í landi í Noregi og á Íslandi,

---

1) án efa misritað úr uı (vj), sem er í Íslb.

2) frá [afbakað, og á að vera: Úlfheðinn Gunnarsson, eptir Íslendíngabók; vera kann, að hèr hafi verið nafnið yfir línunni, en föðurnafnið í línunni sjálfri, og ritvillan sè komin þar af.

3) afbakað, og á að vera Guþmundr, eptir Íslendíngabók; líklega hefir nafnið verið skammstafað (G.).

4) í Safni til sögu Íslands (ıı, 26) eru færð rök til, hvers vegna Gizuri sè hèr talin tuttugu og tvö ár í stað tuttugu.

5) án efa misritað, og ætti að vera uıı (vij).

6) án efa misritað úr u (fimm).

að rekja ættir sínar sem lengst fram í aldir, einkum í höfðíngja ættum, og þessi siðr kemr víða fram í öðrum löndum. Fornir höfðíngjar í Noregi töldu ættir sínar til Óðins, og út af því ortu menn kvæði. Þjóðólfr hinn hvinverski orti Ýnglíngatal um Rögnvald konúng heiðumhærra, og taldi þar þrjátigi lángfeðga hans. Eyvindr skáldaspillir orti Háleygjatal um Hákon jarl, og taldi þar lángfeðga hans frá Semíngi, syni Ýngvi-Freys. Á Landnámabók má sjá, að margir af hinum helztu landnámsmönnum hafa talið ættir sínar lángt fram í kyn, og hafa þær ættartölur auðsýnilega gengið manu frá manni. Þetta má sjá af ættartölum Síðumanna, Ölfusínga, Mýramanna, Breiðfirðínga, Reyknesínga, Dýrfirðínga, Höfðaættar í Skagafirði, Esphælínga í Eyjafirði og margra annara. Þegar Ari prestr hinn fróði ritaði Íslendíngabók, telr hann þar ætt sína frá Ýngva Tyrkjakonúngi, sem hann kallar föður Njarðar, föður Ýngvi-Freys. Um hið sama leiti, þegar bókrit hófst á Íslandi, var það alvenja annarstaðar, einkum á Englandi, Þýzkalandi og Frakklandi, að telja ættir þjóðhöfðíngjanna frá Trójumönnum, og tengja það aptr saman við ættartölur í biblíunni. En nú er það víst, að bókrit Íslendínga var í fyrstu lagað að nokkru leyti eptir bókriti Englendínga, og var því eðlilegt, eptir því sem þá stóð á, að menn þættist finna fróðleik til að byggja á í bókum enskra klerka og fræðimanna. Menn fengu þá í ættartölunum einkanlega þrjá kafla til að tengja saman, eptir því sem á þurfti að halda: fyrst ættartölur biblíunnar; þarnæst ættartölur Trójumanna til Óðins, eptir enskum ritum, svosem Saxakronikunni og fleiru þesskyns, og í þriðja lagi fornar ættartölur Norðrlanda frá Óðni og sonum hans, og er ýmist talið frá Skildi, eða Semíngi, eða Nirði og Ýngvi-Frey, en það er með öðrum orðum Skjöldúngatal, eða Háleygjatal eða Ýnglíngatal, sem eru hinar fornu ættaraðir konúnga og jarla í Danmörku, Noregi og Svíþjóð.

Þessar samsteypur af ættatölum komu fyrst fram þegar fór að koma lengra fram á söguöldina, og bóklegr lærdómr fór að blandast meira saman við innlenda forna fræði, sem gekk að sögum mann frá manni. Vèr verðum þess fyrst varir á dögum Snorra Sturlusonar, svo sem til að mynda þar sem Snorri hefir, í formálanum fyrir Eddu, talið þá ættliði, sem áttu að tengja saman Trójumanna ættir við Óðinn, á líkan hátt einsog vèr finnum talið í ættartölum hjá fornum enskum rithöfundum (Snorra Edda I, 22; II, 252; sbr. Saxakroniku við ár 854). Þessi ættartala Sturlúnga, sem hèr fylgir, er ein hin elzta af þesskonar ættartölum, sem með nokkurnveginn áreiðanlegri vissu verðr heimfærð til sama tíma. Þó er það líklegt, að hún sè ekki hin elzta, heldr að hún sè bygð á öðrum eldri, og af því í ætt þessari koma fyrir liðir úr ætt Oddaverja, þá kynni vel að vera, að Sæmundr prestr hinn fróði hafi einna fyrstr samið þessa ættartölu, og rakið til Oddaverja, og hafi Snorri haft hana þaðan. Vèr finnum rök til, að Sæmundr hefir ritað um sköpun jarðarinnar og mannsins sèrílagi,

á líkan hátt og vèr finnum í ritum lærðra manna frá miðölduum í öðrum löndum[1]; því er það ekkert ólíklegt, að hann hafi og ritað ættartölu á líkan hátt, og samtengt við ættbálk sinn, sem var talinn frá Skjöldúngum, og sjáum vèr þar einnig ljósa ástæðu til, að Skjöldúnga sögur hafa haldizt svo lengi við á Íslandi og verið þar ritaðar. Faðir Snorra var fjórmenníngr við Jón Loptsson í Odda, á þenna hátt:

Loðmundr Svartsson í Odda.

| | |
|---|---|
| Sigfús prestr Loðmundarson í Odda. | Grímr Loðmundarson. |
| Sæmundr pr. hinn fróði í Odda. † 1133. | Svertíngr Grímsson. |
| Loptr pr. Sæmuudarson í Odda. | Vigdís Svertíngsdóttir. |
| Jón Loptsson í Odda. † 1197. | Sturla Þórðarson í Hvammi. † 1183. |
| | Snorri Sturluson. |

Þessvegna þurfti ekki að breyta nema seinustu liðunum, til þess að ættartalan kæmi heim eins við Sturlúnga ætt eins og Oddaverja. Frá tímum Snorra finnum vèr í upphafi Sverris sögu ættartölu Sverris konúngs frá Adam, sem er líklega samin annaðhvort af Karli ábóta á Þíngeyrum eða Styrmi presti hinum fróða. Haukr lögmaðr Erlendsson hefir síðan talið ætt sína og konu sinnar á sama hátt sem hèr (um 1290), og sömuleiðis er eptir hann ritað lángfeðgatal konúnga á Norðrlöndum, þar til fram á fjórtándu öld (A. Magn. 415. 281. 738 í 4to). Frá fyrra hluta fjórtándu aldar er til ættartala Sturlúnga, hin sama og þessi, og bætt aptanvið nokkrum liðum (A. Magn. 1 eβ. í Fol.), og seinna

1) „Í upphafi heims sagði Sæmundr prestr, at sól nýsköpuð rynni upp í austri miðju, en túngl fullt á aptni". A. Magn. 624. 4to, bls. 143; — „Hann (Adam) var LX at hæð, eptir sögu Sæmundar, hann var skapaðr eptir líkneskju sjálfs guðs at líkams formi, hafandi ccxl ok átta bein ok ccc ok LX æða". Ágrip veraldarsögu í A. Magn. 764. í 4to., sbr. Æfi Sæmundar eptir Árna Magnússon í útgáfu Árna Magn. nefndarinnar af Sæmundar eddu I, XXVII, athgr. 87. — Árni Magnússon heldr, að slíkt fávíslegt hjal geti ekki hafa verið eptir Sæmundi, og muni vera seinna tilbúið; en vèr finnum ekkert fávíslegt í því, eptir þeirra tíma hugsunarhætti, heldr er það samkvæmt öðru, er vèr finnum í ritum hinna lærðustu manna, t. d. Beda prests o. fl., frá miðöldunum. Beda prestr segir, að í líkama mannsins sè tvö hundruð fjörutíu og eitt bein („omnia corporis ossa sunt quadraginta unum et ducenta"). sbr. Grönl. histor. Mindesm. II, 269. De nativitate infantium. í Opera Bedæ venerabil. Basileæ 1563. I, 471.

á fjórtándu öld eru enn samskonar ættartölur ritaðar í Flateyjarbók (I, 24 í seinustu útgáfu, sbr. Forn. s. Norðrl. II, 13—14; Snorra Edda í Rasks útg. bls. 367—369), og munu þær eiga kyn sitt að rekja til Styrmis prests hins fróða, sem var, einsog vèr vitum, með Snorra í Reykjaholti, þángað til hann varð prior í Viðey 1235.

Þegar vèr berum saman ættartölur þessar, þá finnum vèr allmikinn orðamun í nöfnunum, og það jafnvel svo, að í þessari ættartölu eru nöfnin höfð nokkuð öðruvísi en í sjálfri Snorra-Eddu, og í Flateyjarbók eru þau jafnvel ekki samhljóða í tveim kapítulum, sem eru hvor öðrum hið næsta. Hèr virðist engin nauðsyn að rekja ítarlega þann orðamun á þessum stað, en það virðist helzt að benda til, að ættartölur þessar sè ekki allar frá einum brunni komnar, heldur frá ymsum höfundum, og að menn hafi skrifað þær upp hver um sig eptir því sem menn hafi fundið fyrir sèr, en gefið ekki nákvæman gaum að fá fulla samhljóðan í hverju einstöku nafni, enda getur slík ósamhljóðan komið af því, að einn hefir skrifað eptir öðrum, án þess að þekkja eða gefa gaum að nokkrum samburði eða samstemmu í því sem þeir skrifuðu upp.

Það er eptirtektar vert, að af dætrum Hvamm-Sturlu og Guðnýjar Böðvarsdóttur er hèr einúngis talin Helga, en ekki Vigdís, sem Gellir átti Þorsteinsson að Brjámslæk; þetta bendir til að ættartalan sè rituð ekki seinna en á dögum Snorra; í hinni síðari ættartölunni, í A. Magn. 1 eβ, er bætt við Vigdísi og hinum ýngri liðum frá henni og Helgu og Þórdísi Snorradóttur, til hèrumbil 1310. Þó hèr sè getið Helgu, og barna hennar, þá getr ættartalan eigi að síðr verið rituð um 1230, því 1239 var Egill Sölmundarson orðinn fulltíða maðr og kom þá út með Snorra, en Gyða var gjafvaxta mær 1241 (Sturl. 6, 23. 31: II, 232, 243); Egill mun því vera fæddr um 1220 og Gyða um 1225; en vel mætti það og vera, einkanlega ef Egill Sölmundarson hefði átt Uppsalabók í fyrstu, að seinasta liðnum hefði verið bætt við af þeim, sem ritaði þessa skinnbók.

Ættartalan er hèr prentuð eptir Uppsalabók, bls. 48—49 (sbr. Nr. 126 hèr næst á undan, en hún hefir verið prentuð áðr, og þó ónákvæmlega, í Ihres Bref til Lagerbring (Ups. 1772 8vo), bls. 41; og þar eptir í Schlözers Isländ. Literatur u. Geschichte I, 79—80.

---

Adam
faþir Sechz.
[er var] faþir enos.
foþvr canaans.
foþvr malalie.
foþvr iareth.
foþvr enon.

foþvr Matvsalam.
foþvr lameck.
foþvr noa.
foþvr Japeth.
foþvr Japhans.
foþvr zechims.
foþvr ciprvs.

foþvr cretvs.
foþvr celivs.
foþvr Satvrnvs af crit.
foþvr Jvpiter.
foþvr dardanvs.
foþvr ericonis.
foþvr eroas.
foþvr ilvs.
foþvr laomedon.
foþvr priami havfvþ konvngs i troio favþ[v]r þeirra ectoris.
Mvnon eþa mennon het konvngr i troia. hann atti troan. dottvr priami konvngs.
ok var þeirra son tror er ver kollvm þor.
hann var faþir lorica.
en son hans het hereðei.
hans son vengeþor.
hans son vingener.
hans son meða.
hans son magni.
hans son sesef.
hans son beþviG.
hans son atra.
hans son trinam.
hans son heremeth.
hans son skialldvn en ver kollvm Skiolld.
hans son biaf. þann kollvm ver biar.
hans son Gvþolf.
hans son finn.
hans son frialaf er ver kollvm friþleif.
hann atti þann son er nefndr er oþinn.
Skiolldr var son oþins.
faþir friþleifs.
foþvr friþfroþa.
foþvr herleifs.
foþvr havars handraMa.
foþvr froþa ins frekna.
foþvr vemvndar vitra.
foþvr olofar.
moþ[v]r froþa friþsama.
foþvr friþleifs.
foþvr froþa ins frekna.
foþvr Jngiallz starkaþarfostra.
foþvr hræreks slavngvanbavga.
[foþvr froþa.
foþvr halfdanar.
foþvr hræreks hnoggvandbavga[1].
föþvr harallz hillditannar.
foþvr hræreks.
foþvr þorolfs vaga nefs.
foþvr vemundar orþlokars.
foþvr valgarþz.
foþvr hrafns heimska.
foþvr Jorvndar goþa.
foþvr vlfs avrgoþa.[2]
foþvr Svarz.

[1]) þessir liðir frá [ standa á spáziu í Uppsala-Eddu með tilvísunar merki. Sá viðbætir er með gamalli hendi, ef ekki sömu og á bókinni, en nær ólæsilegr og máðr mjög. Ættartölurnar í þættinum „frá Fornjóti" (Forn. s. Norðrl. II, 13 o. víðar) telja Hrærek slaungvandbauga föður Haralds hilditannar.

[2]) Valgarþr het maþr. sonr Jörundar goþa. Rannves sonar heimska. Valgarþs sonar. Æfarssonar. Vemundar sonar orþlokars. þorolfs sonar

foþvr lavþmvndar.
foþvr Grims.[1]
foþvr Svertings.
foþvr vigdisar.

Moþor sturlo i hvaMi.
foþvr snorra ok Sighvatz ok
þorþar ok helgv
moþor þeirra egils[2] ok gyþo.

128. [1234].

Máldagaskrá um eignir Maríu kirkju og staðar i Viðey á dögum Þorvalds Gizurarsonar.

Á skrá þessari má sjá, að hún er rituð nokkrum árum eptir að Viðeyjar klaustr er sett, en þó ekki mjög laungu síðar, því hèr eru nefndir allir hinir sömu menn sem í hinum elztu skrám klaustrsins, og allir samtíða; vèr ætlum þessvegna, að hún sè rituð á seiuustu árum Þorvalds Gizurarsonar, og lýsir hún því, að klaustrið hefir þá þegar verið búið að safna allmiklum auði. Allar þær eignir og ítök, sem hèr teljast, eru þó í Kjalarnes þíngi, og ekkert þar fyrir utan.

Þeir menn, sem til eru nefndir að gefið hafi klaustrinu, eru flestir kunnugir af hinum öðrum skrám klaustrsins. Magnús Guðmundarson er Magnús hinn góði á Þíngvöllum, mágr Þorvalds Gizurarsonar (sbr. Nr. 99, 124). — Hámundr mun án efa vera Hámundr Nikulásson, sem getið er í annari skrá hèr á undan (Nr. 125), og hefir hann líklega verið bóndi þar í nágrenni við Viðey. — Magnús biskup er Magnús biskup Gizurarson, bróðir Þorvalds († 14. Aug. 1237, sbr. Nr. 117). — Styrkárr Sveinbjarnarson er hinn sami og áðr var getið (Nr. 123).

Skrá þessi er hèr prentuð eptir máldagabókinni frá Skálholti í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol., bls. 106—107 (sbr. Nr. 49, bls. 252—255), er hún þar fremst af öllum hinum elztu Viðeyjar skrám, og ritað við á spázíu: „gamall máldagi".[3]

---

vogonefs. þrandar sonar hins gamla. [Hræreks sonar]. Haralds sonar hilditannar. Hrææreks sonar slaungvanbauga. [Hálfdanar sonar. Fróþa sonar. Hræreks sonar]. Njála c. xxv.

1) Nokkrar ættartölur telja Grím þenna lögsögumann frá Mosfelli (Sturl. 1, 55 athgr. 5), en sá Grímr var Svertingsson og er ætt hans talin i Hauksbók við Landn. v, 13 og í Viðbæti Skarðsárbókar.

2) Helgu Sturludóttur átti Sölmundr austmaðr. Þeirra son var Egill Sölmundarson í Reykjaholti († 1297); Gyðu átti Nikolás Oddsson í Kalmanstúngu; þeirra dóttir var Helga, er átti Þorlákr lögmaðr Narfason á Kolbeinstöðum († 1303); þeirra son Ketill hirðstjóri á Kolbeinstöðum († 1342), hann átti Unu Guttormsdóttur. Frá þeim er komin Kolbeinstaða ætt.

3) Röðin í máldagabókinni er þessi: Nr. 128, 124, 130, 125 og 122.

Mariu kirkia oc staðr j Viðey a Viðey alla frealsa oc itakalavsa.

hon a oc land a Kortolfstoðvm. oc annat a Blackastoðum.[1]

Magnvs Gvðmvndarson gaf til staðar selför j þormoðsdal enn efra. oc alls fiar beit bæði vetr oc svmar.

Staðr a gelldfear afrett j skarðs kinn.

hvn[2] a oc Elliðavatz land hálft. oc allt land at vatzenda. með þeim veiðvm oc gæðvm er þeim hafa fylgt at fornv.

Staðr a oc Klepps land allt. oc laxveiði j Elliða ar at helmingi við Lavgnesinga.

Hamvndr gaf til staðarins holm þann. er liggr j elliða am. niðr fra Vatzenda holmi.

Magnvs biskvp gaf til staðar hinn siavnda lvt hvalreka oc viðreka j Hvassaravns landi.

þorlakr Bergþors son gaf staðnvm hina atiandv vett hveria or hvalreka or Grindavik. mille Rangagiögrs oc Valagnvpa. ef erv iiij vetter oc xx. eða meire hvalr. oc skal reiða allan þvnga. bæði bein ok innan vr.

Styrkarr Sveinbiarnarson gallt staðnvm hvalreka meðal Hravnnes tiarna oc Kolbeins skora. hina fiorðv hveriv vett j hval. hvort sem er meiri eða minni. en sa maðr er byr j Krysv vik skal skylldr at festa hvalinn. sva at eigi taki sør vt. oc gera orð til Viðeyiar fyri þriðiv sol.

---

## 129. [1234].

Brèf frá klerki nokkrum í Noregi til Guðmundar biskups Arasonar á Hólum, um nýja vitran helgrar Maríu meyjar, og hátíð í þá minníng.

Þess var getið áðr (Nr. 117), að Guðmundr biskup Arason var í Noregi nokkur ár, eptir að Sighvatr Sturluson og þeir feðgar ráku hann nauðugan úr landi 1222; síðan kom hann út aptr (1226), og Rita-Björn múnkr með honum; höfðu þeir þá þau brèf erkibiskups með sèr, sem tóku embætti af Magnúsi

---

[1]) það er í síðari máldögum; „á Bleikastöðum" eða „Blikastöðum."

[2]) þann. handr.; það er líklega: „Viðeyjar kirkja", nema það sè ritvilla fyrir „hann" (þ. e. staðr í Viðey).

biskupi í Skálaholti, og stefndu utan honum og nokkrum höfðíngjum öðrum. En enginn þeirra gegndi þessum utanstefnum, og Guðmundr biskup varð að skömmu bragði enn á ný, með öllum skríl þeim sem að honum safnaðist, eins og soppr á meðal höfðíngjanna, sem hver vildi koma af sèr en enginn halda til lángframa; hentu þeir honum svo hver til annars. Sumarið 1227 fór biskup að norðan til alþíngis, en þorði ekki norðr aptr, og hafðist þá við í Borgarfirði og um vetrinn hjá Þórði Sturlusyni í Hvammi í Hvammsveit, en um sumarið eptir fèkk Þórðr komið þeim sættum á, að Sighvatr og Sturla leyfðu biskupi að koma norðr til stóls síns. En þá reis upp nýr mótstöðumaðr biskups, Kolbeinn úngi á Flugumýri, sonr Arnórs Tumasonar, sem áðr hafði rekið biskup af stóli, og leið ekki á laungu þartil hann fór að feta í spor föður síns, með engu minni vægð við biskup. Eptir að biskup hafði verið á Hólum skamma stund, rak Kolbeinn hann í burt og Skagfirðíngar, og var hann þá norðr í sveitum, umkríngdr af flokki allskonar skríls fátæklínga og umhleypínga, sem átu upp fè bænda og gjörðu allskonar óspektir, eins og vant var. Seinast urðu svo mikil brögð að þessu, að biskup setti sjálfr sonu Rafns Sveinbjarnarsonar, sem voru með honum eptir brennu Þorvalds Vatnsfirðíngs, til að gæta þess, að flokksmenn ekki stæli neinu; var þá rannsakaðr hver maðr í flokkinum, og jafnvel biskup sjálfr, og fannst margt ruplað og þjófstolið, sem var skilað aptr eigendum. Á skírdag 1229 var biskup kominn að norðan og ætlaði heim til Hóla. Þá var Kolbeinn úngi með Skagfirðíngum í vegi fyrir honum í Viðvík, og rak burt allt lið hans, en leyfði honum sjálfum heim að Hólum með tveim klerkum, er settir voru honum til þjónustu. Öll fjárstjórn var þá tekin af honum, svo hann mátti engu stólsfè ráða. Þetta hald varaði fram á næsta vor (1230), en þá fór hann vestr til Hrútafjarðar og þaðan til Steingrímsfjarðar, og síðan vestr i Dali, til að hitta vin sinn Þórð Sturluson. Þá fór enn að safnast að honum fjölmenni, svo hann fèkk þá kveðju frá Sturlu Sighvatssyni á Sauðafelli, að hann vildi eigi þola honum slíka yfirreið. Varð hann þá að hverfa aptr, og fór heim til Hóla. Þannig gekk í hvert sinn sem biskup fór í ferðir, bæði norðr og vestr, að til hans safnaðist flokkr af allskonar óþýði, sem óx þángað til bændr þoldu ekki lengr, sundruðu öllum flokkinum og vísuðu biskupi í burtu, eða ráku hann heim að Hólum.

Meðan á þessu stóð var Magnús biskup Gizurarson ekki á Íslandi, því hann hafði farið utan 1228 og verið síðan í Noregi, en 1232 kom hann út með þeim brèfum Sigurðar erkibiskups, að Guðmundr biskup skyldi vera af embætti, og að þeir feðgar Sighvatr og Sturla og Þorvaldr Gizurarson skyldu fara utan og sækja lausn. Guðmundr biskup ætlaði þá enn að fara yfir hèruð, eins og vant var, en komst ekki lengra en í Eyjafjörð, því Eyfirðíngar vildu þá ekki taka við honum. Þá bauð Brandr bóndi á Höfða í Höfðahverfi honum með sèr að vera, og var biskup

þar tvo vetr. Um þær mundir komst nokkur breytíng á samskipti biskups og höfðíngjanna; því árið eptir (1233) sættust þeir Sighvatr og Sturla við biskup, og var ákveðið að Sturla færi utan fyrir föður síns hönd og sína, en árið þar eptir, þegar óvinátta reis milli Sighvats og Kolbeins únga, vildu báðir hafa Guðmund með sèr, og var hann þá sóktr að Höfða og fór til Kolbeins, en síðan heim að Hólum, og var þar að mestu síðan, það sem eptir var æfi hans.

Brèf það, sem hèr fylgir, er ekki til sèrstakt, heldr er það ritað í hinni ýngstu sögu Guðmundar biskups, sem Arngrímr ábóti á þíngeyrum (1350. † 1361) hefir samið, og er á skinnbók einni í bókhlöðu Svíakonúngs í Stokkhólmi, Nr. 5 í arkarbroti. Þessi bók er rituð á Íslandi um 1360, og eru á henni sögur hinna íslenzku biskupa, Guðmundar, Þorláks og Jóns, og saga Játvarðar konúngs hins helga; eru þær nú allar prentaðar, og er bókinni lýst í formála fyrir Biskupasögum I. B., formála, bls. XXIX—XXX, og í Annaler for Nord. Oldkynd. 1852, bls. 7, en brèf þetta, sem hèr fylgir, er ritað á 150—154. dálki í skinnbókinni, og 70—71. kapítula sögunnar (sbr. Bisk. s. II, 150—154).

Brèfið er árfært til 1234, samkvæmt því sem stendr í sögunni. Þegar sagan hefir skýrt frá fundinum í Flatatúngu (1234) og sætt þeirra Sighvats og Kolbeins únga, sem er látin vera Guðmundi að þakka, þá segir svo: „Sagt var, at margir virðuligir menn af Noregi skrifuðu til herra Guðmundar, honum til gleði, á þessum tímum, hvar meðal annara brèfa honum kemr það efni, er hann bað sinn fèlaga, klerkinn, skrifa til sín af Noregi, sem hann fengi sanna vissu af upprisu-birtíng vârrar frú". Af þessu er auðsætt, að sagan hefir viljað heimfæra brèfið til sömu tíma og fundrinn varð í Flatatúngu, sem var 1234. Eptir því sem kemr fram í brèfinu sjálfu, getr varla heldr verið neitt ólíklegt í þessu, enda þótt þar sè talað um, að hann byggi meðal „ómildrar þjóðar", og að hann megi þola miklar mótgjörðir af sínum undirmönnum, sem gæti fremr átt við árin fyrirfarandi heldr en þessa tíma, en þessi orðatiltæki gæti verið einúngis bygð á samræðum við biskup sjálfan, meðan hann var í Noregi, og hugmyndum þeim sem klerkrinn hefir haft síðan um þá æfi, sem biskup ætti. Í fyrra parti brèfsins stendr þakklæti fyrir þann tíma, sem hann hafi verið nálægr biskupi, og bendir það til þess, að hann hafi ekki ritað honum annað brèf fyr en þetta, síðan þeir skildu, sýnist þá reyndar verða tími nokkuð lángr frá því 1226, að Guðmundr biskup var í Noregi og til þess 1234, ef brèfið væri þá fyrst ritað. Enn fremr gæti maðr ímyndað sèr, að klerkr þessi, sem sagan kallar „fèlaga" biskups, hafi verið Rita-Björn múnkr, sem varð ábóti í Niðarhólmi 1232, og væri brèfið ritað hèrumbil 1228—1230; en ekki verðr því þó neitað, að á móti þessu mælir, að söguritarinn hefði líklega vitað, ef Rita-Björn hefði verið höfundr, og getið þess, og svo eru orð brèfsins löguð á þann hátt, eins og útlendr maðr hefði

ritað þau, framar en nokkur Íslendíngr. En hversu sem um þetta er álitið, þá er auðsætt, að brèfið veltr á árunum 1227 til 1234.

Brèf þetta er að öðru leyti merkilegt í því, að það er sýnishorn af þesskonar brèfum, sem menn af klerklegri stètt rituðu sín á milli á þrettándu öld.

---

Virðulegum heꝛa G[uðmundi] med guds miskvnn biskupi at holum a islandi sendir [N. N.[1] sanna kueðiu i upp hafara allrar heilsu.

drottinn guð er aptr gelldr ser huerium þa goda luti er þeir gera naungnum fyrir astriki se yðr ambun oleysilig fyrir allt þat gott er tieðuð mer sem ek nalægr var yðrv faderni.

Ek ueit godi heꝛa at lông duôl fra erfd himin rikis er ydr miok þung bær i harðri utlegd einkannliga saker þess at þer bygguit milli vmilldrar þioðar ok enn helldr striðrar at ganga gautur guðs með sannri hlyðni enn huað sem ydrir under menn gera yðr imot varðueiti himneskr faðir vðuart lif ok sal af allri skriðnan veralldligs uegar

Minniz þer heilagr fader huad vit tauludum af likamligri upprisu sællar guds modur huers ek minnumz i þessu minu brefi skrifandi yðr þat letr er vattar huersu gerzt hefir med vitran hennar vpprisv[2] . . . . . .

Eptir þessa vitran tok munklifi skanogianense at syngia hatiðliga guds modur lof fjortanda[3] kalendas septembris halldandi med sæmd hennar upprisv tid [meir þo[4] í fyrstu sem boðit var i leynilegri kapellu en opinberri soknar kirkiu. nu þeir sem syngia þetta festum[5] hafa þetta [letr] fyrir lectiones í ottu

---

1) *frá* [sva heitandi klerkr, *handr.*

2) skýrslan um vitrun Maríu fyrir systur Elisabeth í klaustrinu Skanogia (*Schönau*) nálægt Trier á Þýzkalandi ár 1152 og 1156, er klerkrinn sendi Guðmundi biskupi með þessu brèfi, er sett í sögu Arngríms ábóta með brèfi þessu, sjá Biskupa s. II, 151—154, en hèr þykir engin þörf á að prenta þá skýrslu. Um vitran systur Elisabetar er sagt frá í Annales Trevirenses. 1671. Fol. II, 57, og í Speculum historiale eptir Vincentius Bellovacensis (Veraldarsaga eptir Vincents frá Beauvais, sem nær til 1254) í 29. bók. 3. kap., sbr. 7, 80., á líkan hátt og hèr, en með færri orðum.

3) orðið er krassað í skinnb., en á spáziu er „fimtanda" með fornri hendi.

4) *frá [þannig AMagn. 398. 4to.;* meðr því, *skinnb.*

5) segir klerkrinn er skrifar til herra Guðmundar biskups, *b. v. í skinnb., og eru það orð höfundar sögunnar.*

saung sem her er norænat en allt annat officium sem mariu Messo fyri.

Nu[1] biðr ek yðuarn sælan biskups dóm at þer minniz min ok minna brœðra i yðrum heilogum bænum felandi oss alla vnder ualld ok verndleika[2] marie drottningar at þer ok ver megim eilifliga niotandi verða himneskrar hirdvistar med gaufugligum fagnadi guðligrar asyndar. in Christo ualete.

---

## 130. [1235].

Máldagi um veiði í Elliða-ám, og dráttu af hendi Gufnesínga, Víkrmanna (Reykvíkínga) og Nesmanna.

Þessi máldagi er hèr prentaðr eptir máldagabókinni frá Skálholti í safni Árna Magnússonar Nr. 263 í Fol., bls. 107 (sbr. Nr. 49 hèr að framan); er hann þar ritaðr með hinum fornu Viðeyjar skrám.

Um veiðina í Elliða-ám hefir þessi máldagi ýmislegt inni að halda, sem sýnir hvernig veiðinni í ánum hefir verið hagað um þessar mundir. Veiði-aðferðin hefir verið sú, að draga á í ársósunum um útfall sjáfar og um fjörur, byggja voggarða og veita af ánum; en háfa og kistur hafa menn ekki haft til veiðanna.

Um þá menn, sem nefndir eru í máldaga þessum, má geta þess, að Þormóðr Svartsson mun að líkindum vera sá Þormóðr á Gufunesi, faðir Svarts, sem nefndr er í sögu Árna biskups kap. 1, og var í nokkrum tengdum við biskup, svo sem sjá má af þessari ættartöflu:




---

¹) liðr, *b. v. skinnb., er það ritvilla fyrir orðið sem eptir kemr* (biðr).
²) *á líklega að vera* verðleika, *nema það sè sama og* vernd.

Annar maðr, sá sem nefndr er í máldaganum, er Styrmir, og er þess áðr getið, að sá er Styrmir prestr Kárason hinn fróði. Af þeim orðatiltækjum, sem hèr standa, sýnist mega ráða, að Styrmir hafi sjálfr samið máldagann. Það er auðsætt af sögu Finns biskups (Hist. Eccles. Island. IV, 83), að hann hefir ekki tekið eptir máldaga þessum, þar sem hann segir frá hinni elztu sögu Viðeyjar klaustrs.

Um tímatalið ber máldaginn ljósan vott, þar sem sagt er að hann sè ritinn „hinn fyrsta vetr í öld", því það er auðsætt, að þar getr ekki verið talað um hundrað ára öld, heldr um túnglöld eða sólaröld; en nú er túnglaldar ár hið fyrsta 1235 (Gyllinital 1), og því mun óefað, að máldaginn sè saminn á því ári. Vèr höfum áðr sèð, að Þorvaldr kanoki Gizurarson andaðist árið fyrir, og fært líkur til að hann muni hafa haft forráð klaustrsins um sína daga, en eptir andlát hans hefir klaustrið verið forráðalaust, og munu þá þeir Magnús biskup og Snorri Sturluson hafa ráðið Styrmi prest þángað, hefir hann þá ráðið fyrir Viðeyjar klaustri sem prior þaðan af og þartil hann andaðist (1245), en biskupinn í Skálholti hefir að nafninu til verið ábóti klaustrsins.

---

Staðr j Viðey oc kirkian j Lavgarnesi eigv elliða ar halfar at veiðe allre. skvlv þeir oc at helminge allt til fa. þa er gert er j ar. oc þa er af erv veittar oc hafa at helminge fiska þa er veiðast. við þa aðra er j eigv.

Tiv verða optast drattarfiorvr a hverri rvmhelgri vikv. oc er þeim sva skipt. at þormoðr Svarts son a ij fjörvr oskerðar oc baðar ar. en [af] þeim viij. er þa erv eptir. þa[1] a staðrinn oc Lavgarnes kirkia halfar. oc þo framarr. at þav eiga iij hlvti veiðar j hinni eystri a. Vikr menn eiga v fjörvr. en Ness menn iij at helminge j hinni vestri a. en fiorðvng j hinni eystri.

Sva er fyrir mælt of drattvna. at þeir er siðastir erv j drattvm skvlv hefia drattv annat svmar eptir. en þeir er fyrstir erv. verða[2] annat svmar j miðivm drattvm. skvlv hefia sitt svmar hverir drattv. Gvfnesingar oc Vikr menn oc Nes menn. skvlv Vikr menn draga eptir Gvfnesinga hond. en Nes menn eptir Vikr manna hond. Eigi skolv þeir. er aðr hafa fiorvr att. lengr[3] draga ar vpp en þangat til sior brestr. þa er fiorvr skiptaz at helgvm. skal af draga fiorv ef neti kemr j vaggarð aðr hei-

1) þo, *hdr.* 2) virða, *hdr.* 3) lengn, *hdr., virðist hafa verið óskýrt í frumritinu.*

lagt se. eða sœr brestr ef meðaldagar erv. þriar skvlv fiorvr liggia of[1] alla nonhelga daga. en tvær of alla aðra.

En þa er sia maldage var ritinn. þa attv vikr menn at hefia drattv. oc var þat hinn fyrsta vetr j olld. þat svmar er Styrmir tok við forraðvm j viðey.

---

## 131. 11. Mai 1237. í Viterbo.

Gregorius páfi hinn níundi bannar Sigurði erkibiskupi í Niðarósi að láta hafa annað brauð og vín til útdeilíngar í sakramentinu, en brauð úr sáðkorni og vín úr vínberjum.

Sigurðr sem kallaðr var tapsi (eða tavsi), líklega af því hann hefir verið fljótmæltr eða þótt flýta sèr einhverntíma í embættisgjörð, var kosinn erkibiskup að Niðarósi 1230 og settist að stóli 1232, en andaðist 6. Marts 1252. Á brèfi þessu sem hèr fylgir má sjá, að hann hefir ritað páfanum, að sumstaðar í hans erkibiskupsdæmi væri lítið um korn, og vín væri varla eða ekki að fá; spyr hann því, hvort ekki sè leyfilegt að búa til oblátur úr hverju því sem til fáist, til að útdeila í sakramentinu, og að hafa öl eða annan drykk í stað víns. En páfinn svarar þessu í brèfi, að þetta megi hvorugt við gángast, því að brauðið eigi að vera úr sáðkorni gjört og vínið af vínberjum, en vel megi veita brauðið eptir einfalda blessun, eins og tíðkist á stöku stöðum.

Brèf þetta ákveðr ekki, hvort það sè Ísland, sem erkibiskup hefir haft fyrir augum í brèfi sínu, en þó gæti það meðfram verið svo, því þess er getið, að þar hafi verið vínekla og kent ráð til að bæta úr henni. Sverrir Noregs konúngr er borinn fyrir því, að hann hafi sagt fyrir, hversu vín skyldi gjöra af krækiberjum, og Jón Grænlendínga biskup er sagt hafi lært af honum og kent þá aðferð Páli biskupi, þegar hann kom til Íslands 1203, svo að Eirekr á Snorrastöðum hafi búið til vín á því sama sumri, og hafi orðið vel, en árið eptir hafi varla verið ber að fá (Páls bisk. s. kap. 9: Bisk. s. I, 135). Þess er einnig getið í annálum, að þetta sama ár (1203) hafi berjavín verið fyrst gjört á Íslandi. Af þessu má ráða, að vínskortr hafi verið ekki mjög sjaldgæfr um þessar mundir bæði í Noregi og á Íslandi, og svo er eins síðan getið um vínskort svo mikinn, að saungr hafi lagzt niðr (Annál. 1326, 1350; sbr. Safn til s. Ísl. I, 3 athgr.), hefir þá verið ymsra bragða leitað til að bæta úr því. Seinast er það leyft, að blanda vínið með vatni til að drýgja það, einsog siðr er í hinum kathólsku löndum (kans. brèf 26. Juli 1808: Lagas. handa Ísl. VII, 203—204).

Þetta brèf er tekið hèr eptir fornbrèfasafni Norðmanna

---

1) ok, *handr.*

(Diplomatar. Norvegicum I, Nr. 16, bls. 14), en þar er það tekið eptir afskript frá Marini skjalaverði af brèfabókum páfanna í Vatikan-safninu í Rómaborg (Gregor. IX. ann. XI. ep. 70), sbr. Raynaldi Annall. Ecclesiast. við ár 1237, § 62.

---

Gregorius episcopus, servus servorum Dei . . .
[Sigurdo archiepiscopo] Nidrosiensi . . . .

Tue fraternitati querenti, an deficienti in quibusdam ecclesiis suffraganeorum tuorum eucharistia propter frumenti penuriam simplex oblata undecumque confecta populo, ut sub quadam decipiatur pietatis specie, ac cerevisia vel potus alius loco vini, cum vix aut nunquam vinum reperiatur in illis partibus, sint tradenda, taliter respondemus, quod neutrum est penitus faciendum, cum in huius modi sacramento visibilis panis de frumento et vini de uvis debeat esse forma in verbo creatoris per sacerdotis ministerium consecrata, quod veritatem carnis et sanguinis non est dubium continere, quamquam dari possit populo panis simpliciter benedictus, prout in quibusdam partibus fieri consuevit.

Datum Viterbii v. Idus Maii, pontificatus nostri anno undecimo.

---

## 132. 11. Mai 1237. í Viterbo.

Gregorius páfi hinn níundi skipar Sigurði erkibiskupi í Niðarósi að taka embætti af Guðmundi biskupi á Hólum, og af nokkrum prestum, ef svo reyndist, að hann hefði vígt þá óreglulega.

Á þessu brèfi má sjá, að Sigurðr erkibiskup í Niðarósi hefir ritað til páfans, að Guðmundr biskup væri orðinn blindr, og hefði vígt andlegrar stèttar menn á þann hátt, að hann hefði lagt hendr yfir þann, sem vígja skyldi, en látið djákna lesa fyrir sig vígsluorðin, sem hann átti sjálfr að segja; og þetta álítr páfinn svo mikla yfirsjón, að hann skipar að taka embætti bæði af biskupinum og þeim sem sè vígðir á þenna hátt, þartil páfinn sjálfr skipi fyrir hversu fara skuli.

Eptir því sem segir í sögu Guðmundar biskups og Sturlúngu, þá var Guðmundr biskup ekki bókskygn 1234, þegar hann fór frá Höfða, en þó ekki blindr með öllu fyr en seinasta vetrinn sem hann lifði. Á þessum árum voru hjá honum tveir klerkar, Þorkell og Helgi, og þessir voru hjá honum þegar hann andað-

ist († 16. Marts 1237); það er að vísu hvergi sagt, að þeir hafi verið djáknar, en það er af öllu líklegt að svo hafi verið, og að hann hafi notað hjálp þeirra á þenna hátt, sem í brèfinu stendr, annaðhvort meðan hann var í Höfða, eða eptir að hann kom að Hólum, þegar hann var hættr að sjá á bók. Má þó þykja undarlegt, að slíkr klerkr, sem menn mætti hugsa að Guðmundr hafi verið, skildi ekki kunna utanað alla biskupsþjónustu við prestavígslu. Sú sök, sem hèr er gefin biskupi, er líklega önnur en sú, sem erkibiskup hefir haft 1232, þegar hann tók af honum embætti, eptir því sem annálar og sögurnar segja; en það er af mörgu auðráðið, að Guðmundr hefir farið eins fram eptir sínum eigin geðþótta í mörgum kirkjusiðum, eins og í öllu öðru, svo að ekki muni hafa verið örðugt að finna honum sakir fyrir afbrigði af hinum fyrisettu reglum kirkjunnar. Guðmundr biskup var andaðr áðr en þetta brèf kom út til Íslands, enda áðr en það var ritað, og vèr höfum engar fregnir um, hversu farið hefir um presta þá, sem hann er hèr sakaðr um að hafa vígt eptir raungum reglum, þó gæti verið, að sagan um sonu Skarðs-Snorra, Narfa og Bárð, og um vígslur þeirra, sem getið er um í Guðmundar biskups sögu að hafi verið gjörvar „eigi at fullum lögum" (Guðm. s. viðb. kap. 26: Bisk. s. I, 596—597), standi í sambandi við það, sem hann er hèr ásakaðr fyrir.

Brèf þetta er prentað hèr, eins og hið næst fyrirfaranda, eptir Diplomat. Norveg. I, Nr. 17, bls. 14 eptir afskript frá Marini (Gregor. IX ann. XI. ep. 73).

---

Gregorius episcopus, servus servorum Dei . . .

[Sigurdo] archiepiscopo Nidrosiensi . . . .

Qvia, sicut ex parte tua fuit propositum coram nobis, venerabilis frater noster [Gudmundus] Holensis episcopus, suffraganeus tuus, privatus penitus lumine oculorum clericos ad ordines sacros promovit, ipso manum imponente, ac diacono legente verba, que idem in oratione facienda dicere tenebatur, mandamus, quatinus, si est ita, dictum episcopum a pontificalis officii et dictos clericos ab ordinum sic receptorum executione suspendas usque ad nostre beneplacitum voluntatis.

Datum Viterbii v. idus Maji, anno undecimo.

---

## 133. 11. Mai 1237. í Viterbo.

Gregorius páfi hinn níundi skipar Sigurði erkibiskupi í Niðarósi að leggja fast að Guðmundi biskupi á Hólum, að sleppa

embætti sínu, og ef hann vili ekki víkja frá, þá að setja honum góðan og greindan mann til styrktar.

Guðmundr biskup Arason varð ekki einúngis opt fyrir hrakníngum af umdæmi sínu, heldr vofði optar en einusinni yfir, að hann yrði settr af embætti af yfirboðurum sínum. Í utanferð sinni 1222 var hann kominn í bezta gengi hjá Guttormi erkibiskupi, þegar kærubrèf kom frá mótstöðumönnum hans „með þrimtigum sakargipta" (Guðm. saga í Bisk. sög. II, 120), og voru sumar þeirra svo þúngar, að erkibiskup þóttist ekki geta leyft honum að halda embætti, nema hann fengi leyfi til þess frá páfanum. Guðmundr biskup sendi þá til Róms prest sinn, Ketil að nafni, sem líklega hefir verið Ketill prestr Íngjaldsson, er opt verðr getið, og var faðir Þorkels, þess sem var hjá biskupi á seinustu árum hans. Prestr fèkk þann úrskurð í páfabrèfi: „ef hann vill víkja, þá víki hann" (*si vult cedere, cedat*), og hefir biskup tekið þetta sem sigr fyrir sig, að hann ætti frjálst að halda stóli sínum ef hann vildi, og hann var ekki sá, sem dytti í hug að leggja niðr embætti sitt meðan annars væri kostr. Við þenna úrskurð fór hann út til Íslands 1226, og lenti þá jafnskjótt aptr í sama þrasinu og fyr, þángað til hann gat ekki verið lengr heima að Hólum. Þá var hann enn sagðr af embætti í annað sinn af Sigurði erkibiskupi 1232, og kom hann þá ekki heim á stól sinn í tvö ár, en hèlzt við norðr í Eyjafirði, hjá Brandi á Höfða, sem fyr er getið. Þá kom hann þó enn heim að Hólum 1234, og hafðist þar við, hefir þá erkibiskup ritað til páfans bæði sèrílagi um afglöpun hans í vígslum, sem getið er í brèfinu næsta á undan, og yfirhöfuð um það, að hann væri ekki maðr til að hafa embættið á hendi, en vildi ekki sleppa því og ekki taka sèr aðstoðarmann, enda vitum vèr og, að Kygri-Björn, sem kosinn var til biskups eptir hann, var í óvild við hann, og svo var um flesta helztu presta fyrir norðan.

Páfinn svarar því, að það megi ekki við gángast, að heilög Hólakirkja skuli hafa lengi svip hjónabandsins einau, og þó um leið allan þúnga ekkjudómsins, þegar biskupinn sè svo hrörlegr, skuli því erkibiskup áminna hann fastara, að víkja frá biskupsdóminum, og ef hann ekki vili, þá skuli erkibiskup setja honum góðan og gætinn mann til styrktarmanns (*coadjutor*). Vèr gátum þess áðr, að Guðmundr biskup var andaðr áðr en þetta brèf var skrifað og hið fyrirfaranda, og er þeirra alls ekki getið í sögum hans.

Brèfið er prentað hèr, eins og tvö hin næstu á undan, eptir Diplom. Norveg. I, Nr. 18, bls. 15, eptir afskript frá Marini skjalaverði af brèfabókum páfanna í Róm (Gregor. IX. ann. XI. epist. 74); sbr. Raynald. Annall. Ecclesiast. við ár 1237, § 67.

Gregorius episcopus, servus servorum Dei . . .

[Sigurdo] archiepiscopo Nidrosiensi . . . .

Porrecta nobis tua petitio continebat, quod venerabilis frater noster [Gudmundus] Holensis episcopus suffraganeus tuus non considerato prudenter, quod tanto periculosior est episcopatus retentio cum quatinus sollicitudini non sufficit pastorali, quanto efficacius per experientiam sue insufficientie didicit onera presulatus, cum privatus omnino lumine oculorum non possit pontificale officium exercere, nichilominus Holensem ecclesiam sub inutilis sponsi nomine detinet occupatam, propter quod eadem ecclesia grave in spiritualibus et temporalibus patitur detrimentum, et commissi populi sibi, cum non sit qui panem sacre scripture frangat esurienti, sunt variis erroribus involuti.

Ne igitur sub umbra matrimonii diu portet viduitatis onera ecclesia memorata, cum sit providendum non tam prelatis in ecclesiis quam ecclesiis in prelatis, mandamus quatinus, si premissis veritas suffragatur, eumdem moneas attentius et inducas, ut anime sue saluti providere consulens cedat episcopatui, cui iam videtur utilitate cessisse. Quod si cedere forte noluerit, non obstante frivole appellationis obiectu, eidem aliquem virum circumspectum et providum coadjutorem studeas deputare.

Contradictores . . . .

Datum Viterbii v. id. Maii, anno undecimo.

---

## 134. 16. Mai 1237. í Viterbo.

Gregorius páfi hinn níundi skipar Sigurði erkibiskupi að sjá um, að prestar í Niðaróss erkibiskupsdæmi kvongist ekki, eins og þeir höfðu gjört þángað til eptir fyrirbornu leyfi frá Nikulási kardinála af Albano; skyldi biskup leggja við kirkjunnar hegníng þeim sem ekki vildi hlýðnast.

Vèr sjáum á brèfi þessu, að Sigurðr erkibiskup hefir ritað til páfans, að prestar í Niðaróss biskupsdæmi, og eigi síðr í öllu erkibiskupsdæminu, hèldi enn þeim vana að kvongast, og þegar hann hefði ávítað þá og bannað slík hjónabönd, þá hefði margir afsakað sig og borið fyrir sig leyfi Hadrians páfa, sem var í Noregi 1154 meðan hann var kardínáli af Albano (sjá Nr. 35 að framan), en þó hefði þeir ekki getað sýnt neitt brèf hans fyrir slíku leyfi. Þessvegna skipar páfinn erkibiskupinum að uppræta slíkan ósið, og

snúa kirkjunnar hegníng á hendr þeim, ef nokkrir væri, sem ekki vildi hlýðnast. Brèf þetta mun eigi síðr hafa átt við á Íslandi en í Noregi, því prestar voru þar án efa lengi fastir við þann vana, sem til skamms tíma hafði þar tíðkazt, að vera eigingiptir og halda fram börnum sínum til arfs, einsog menn af veraldlegri stètt. Laungu síðar en þetta var (1264) er sagt frá ágreiníngi milli Gizurar jarls og Árna prests Þorlákssonar, sem síðan varð biskup, útaf hjónabandi djákna nokkurs, og er þá sagt, að bæði Heinrekr biskup og Brandr biskup Jónsson á Hólum hafi bannað hjónabönd öllum þeim sem vígslur hefði, en Gizur jarl bar fyrir sig „fornan landssið og sjálfs síns dæmi og margra annara manna" (Árna bisk. saga kap. 4), að djáknar og hinir lægri vígslumenn mætti kvongast; má þar af sjá, að þessi lög kirkjunnar gegn kvonfaungum presta muni hafa fyrst við gengizt að fullu á tímum Árna biskups Þorlákssonar og Jörundar biskups.

Brèf þetta er hèr prentað, eins og þrjú hin næstu undanfarandi, eptir Dipl. Norveg. I, Nr. 19, bls. 15—16, en það er þar tekið eptir afskript frá Marini skjalaverði eptir brèfabókum páfanna í Róm (Gregor. IX. ann. XI. epist. 77); sbr. Raynald. Annall. Ecclesiast. við ár 1237, § 67.

---

Gregorius episcopus servus servorum Dei . . .

[Sigurdo] archiepiscopo Nidrosiensi. . . . .

Sicut ex parte tua fuit propositum coram nobis tam in diocesi quam provincia Nidrosiensi abusus detestande consuetudinis inolevit, quod videlicet sacerdotes inibi existentes matrimonia contrahunt et utuntur tanquam laici sic contractis. Et licet tu iuxta officii tui debitum id curaveris artius inhibere, multi tamen pretendentes excusationes frivolas in peccatis, scilicet quod felicis recordationis Hadrianus Papa predecessor noster, tunc episcopus Albanensis, dum in partibus illis legationis officio fungeretur, hoc fieri permisisset, quamquam super hoc nullum ipsius documentum ostendant, perire potius eligunt quam parere, longam super hoc nichilominus consuetudinem allegando. Cum igitur diuturnitas temporis peccatum non minuat, sed augmentet, mandamus quatinus, si est ita, abusum huiusmodi studeas extirpare, et in rebelles, si qui fuerint, censuram ecclesiasticam exercere.

Datum Viterbii XVII. Kal. Junii, anno undecimo.

---

135. [1238]. í Gufudal.

Máldagi Gufudals kirkju, sem bróðir Brandr Jónsson setti, officialis í Skálholts biskupsdæmi.

Máldaga þenna, sem hèr fylgir, hefir Árni Magnússon fundið ritaðan á auðri blaðsíðu aptan í gömlum grallara á skinni, sem Gufudals kirkja átti. Aptan við máldagann er þetta skrifað:

„Þad medkennunz eg Jon prestur Þorleifsson ad eg hefi latid skrifa þenna maldaga sem hier fyri ofan skrifadur stendur eptter gamllri sallttara Bok j gufudal: huer adur greindur maldægi hefur skrifadur verid j tyd Biskup Brandz eñ nu œ ny skrifadur þann 3. dag apriles manadar og anno 1578".

Af þessu má sjá, að máldaginn muni hafa verið ritaðr í saltarabók kirkjunnar þegar á þrettándu öld, og hafi geymzt með því móti, þartil á sextándu öld, að sira Jón Þorleifsson, sem varð prestr í Gufudal 1564, hefir látið skrifa hann upp á ný. Þegar maðr ber saman máldaga þenna við aðra máldaga Gufudals kirkju, má og sjá, að hann er miklu eldri en hinir. Eigi að síðr getr hann þó ekki verið óbreytt frumrit, því sá Brandr biskup, sem hèr er nefndr, getr ekki verið annar en Brandr Jónsson, sem var biskup á Hólum, en eptir hann getr ekki máldaginu verið á þann hátt, að hann sè saminn meðan Brandr var biskup á Hólum, því á þeim tíma var Sigvarðr biskup í Skálholti, og er ekki þess getið, að hann hafi á þeim árum fengið Brandi biskupi umboð sitt, eða að honum hafi verið settr neinn til hjálpar í biskupsdæmi sínu um þann tíma, eða fyr en 1267 (Árna bisk. s. kap. 4: Bisk. s. 1, 683). Máldaginn hlýtr því að vera eldri, og má finna honum stað þegar rakin er æfi Brands biskups.

Brandr Jónsson var sonr Jóns Sigmundarsonar á Svínafelli og seinni konu hans, Halldóru Arnórsdóttur, systur Kolbeins kaldaljóss frá Stað í Reyninesi (Staðar-Kolbeins), en móðir Halldóru og Kolbeins var Guðrún, dóttir Brands biskups Sæmundarsonar á Hólum. Kolbeinn kaldaljós átti Margrètu, dóttur Sæmundar Jónssonar í Odda, og var þeirra son Brandr Kolbeinsson, sem fèll í Haugsnes bardaga 1246. Brandr Jónsson var svo merkr klerkr, að eptir andlát Magnús biskups Gizurarsonar í Skálholti, og þegar Magnús biskupsefni Guðmundarson var utan farinn, var honum fengið biskups umboð í Skálholts biskupsdæmi 1238, og hèlt hann því það ár, og þartil Sigvarðr biskup kom út árið eptir (ísl. Annálar). — Þegar Sigvarðr biskup kom út var Brandr þessvegna orðinn meðal helztu klerka í Skálholts biskupsdæmi, og var vígðr til ábóta í Þykkvabæ í Álptaveri 1247. Hann var þá einn hinn mesti lærdómsmaðr á Íslandi, og hafði almennings álit og almennings lof, bæði fyrir lærdóm sinn og mannkosti. Hann kendi þá ymsum úngum mönnum, og voru þeir helztir af lærisveinum hans: Jörundr Þorsteinsson, sem varð biskup á Hólum, Árni Þorláksson, sem varð biskup í Skálholti, og Runólfr

Sigmundarson, sem varð ábóti í Veri og var ávallt önnur hönd Árna biskups og officialis hans og eptir hann andaðan. Það er sagt, að Árni gjörðist klerkr hjá Brandi í Þykkvabæ, „því hann sá þenna mann mikinn atgervismann í hagleik ok riti, ok hvassan í skilníngi til bóknáms, svâ at um þann hlut var hann formentr flestum mönnum at jöfnu námi" (Árna bisk. s. kap. 2: Bisk. s. I, 681), og þegar hann var vígðr til ábóta er hann kallaðr „ágætr höfðíngi, klerkr góðr, vitr ok vinsæll, ríkr ok góðgjarn", og sagt, að hann hafi einnig haft „mannheill mikla" (Sturl. 7, 47: III, 96). Um lærdóm hans votta enn rit þau, sem til eru eptir hann, svosem er einkum Alexandrs saga, sem hann íslenzkaði fyrir Magnús son Hákonar konúngs: mun hann hafa gjört það í Þykkvabæ eða í Skálholti, því Magnús konúngsson, sem var fæddr 1238, hefir varla fyr farið að girnast latínuþýðíngar. Þegar Sigvarðr biskup fór utan 1250 var Brandr ábóti officialis, og mun hafa verið það þartil 1254, að biskup kom út aptr; er þess getið 1252, þá er Heinrekr Hólabiskup kom út, að Brandr tók í móti honum, og er sagt að hann væri þá „fyrir öllum kennimönnum um alla sýslu Sigvarðar biskups" (Sturl. 7, 61: III, 119), má reyndar skilja það svo, sem hann hafi verið ypparstr allra kennimanna í Skálholts biskupsdæmi, en hitt mun þó víst, að hann hafi verið officialis og því til styrktar er, að vetrinn og vorið 1253 var hann í Skálholti og vestr í Borgarfirði (Sturl. 8, 16—19: III, 161—168), mundi hann ekki hafa lángvistum dvalið þar, ef hann hefði eigi haft á hendi forstöðu biskupsdæmisins. Heinrekr biskup á Hólum fór utan fyrir fullt og allt 1256 og kom ekki út síðan, en eptir andlát hans 1260 sýnist sem allir hafi verið samdóma um að kjósa Brand ábóta til biskups, því auk þess sem hann var afbragð annara manna að lærdómi og mannvirðíngum, þá var hann í vináttu eins við konúng og konúngsflokkinn á Íslandi einsog við biskupana. Hann fór því utan 1262, var vígðr um vetrinn til biskups að Hólum, og kom út um vorið eptir (1263), en hann var ekki biskup lengr en rúmlega árið, því hann andaðist 1264 um sumarið. Það sama ár var vígðr einn af lærisveinum hans, Runólfr Sigmundarson, til ábóta í Þykkvabæ næst eptir hann. Annar lærisveinn hans, Jörundr Þorsteinsson, varð næst honum biskup á Hólum, og hefir hann haldið allra manna lengst biskupsdæmi á Íslandi, annar en Guðbrandr biskup, því hann var biskup á Hólum 46 ár, og rèði einn öllu í Hóla biskupsdæmi um sína daga, mest fyrir kænsku sakir. Þriði lærisveinn Brands biskups og klerkr hans, Árni Þorláksson, varð skömmu síðar biskup í Skálholti. Allir þessir lærisveinar Brands voru samhentir í að auka vald biskupa og klerka, og með þeirra framkvæmd má segja að klerkavaldið hafi fest fullkomnar og fastar rætr, og yfirgnæft hið veraldlega vald á Íslandi. Þegar Brandr biskup var ábóti í Þykkvabæ, eða fyr, átti hann son sem Þorsteinn hèt, hann var á Kálfafelli á Síðu og kallaðr ábótason (Árna bisk. s. kap. 2: Bisk. s. I, 680).

Þegar vèr nú lítum yfir æfi Brands biskups, finnum vèr einúngis tvö tímabil, sem hann hefir haft biskups umboð í Skálholts biskupsdæmi: fyrst 1238 og síðan frá 1250 til 1254. Frá þessum árum ætti því máldaginn að vera, en þareð Brandr er hèr kallaðr biskup, þá hlýtr upphafinu að vera breytt eptir 1264, en þó ekki heldr laungu síðar, því efni máldagans sýnir, að hann muni að öllu efni til óbreyttr vera. Er hann því hèr settr á 1238, að hann getr verið þá saminn, en ekki fyr.

Þegar vèr berum saman máldaga þenna við hina síðari máldaga Gufudals kirkju, þá finnum vèr hèr taldar upptuttugu jarðir, sem kirkjan hefir tíund af, en í hinum síðari máldögum er þess getið einúngis, að þángað liggi tuttugu jarðir, en nöfn þeirra eigi nefnd. Það vottar, að þessi máldaginn er sá, sem hinir byggjast á.

Nöfn bæjanna, sem hèr eru talin, eru öll auðþekkt enn, og eru bæirnir allir í Gufudals hrepp og Múla hrepp. Þó ber á milli um þá bæi, sem nú eru í Gufudals sókn, og eptir máldaganum eiga að gjalda tíundir til kirkjunnar. Nú eru í sókninni eptir Jarðatali Johnsens (bls. 177. 188) tuttugu og þrír bæir, og er þar í talinn staðrinn sjálfr og hjáleigan Hofstaðir, sem hèr er ekki nefnt, af því þar af hafa engar tíundir goldizt. Þeir bæir, sem hèr eru taldar tíundir af, en nú eru ekki í Gufudals sókn, eru Illugastaðir og Skálmarfjörðr, en aptr á móti eru nú í sókninni nefndir þrír bæir, sem hèr eru ekki nefndir í máldaganum, sem eru Gröf, Fjarðarhorn og Seljaland. Ef að Skálmarfjörðr er ekki sami bær og Skálmardalr nú, þá er það gömul eyðijörð. Gröf hefir haft heima tíund, því þar hefir þá verið komið bænhús; Fjarðarhorn hefir líklega þá ekki verið jörð sèr, og Seljaland er hjáleiga frá Klett. Að bæjanöfnum til er engin breytíng, nema ef Skálmarfjörðr skyldi vera sama og Skálmardalr, og að Galtargjá er nú kölluð Galtará. Um örnefnin er þess getanda, að það sem hèr er kallað Mallgil, er í hinum síðari máldögum öllum nefnt Mjallgil og mun það vera rèttara; Geithúslækr er í öllum hinum síðari máldögum kallaðr Geithúsgil. Engar jarðir eru hèr eignaðar kirkjunni, og er það enn staðfestíng uppá það, hversu forn máldaginn er; sama er að segja um ítök þau, sem kirkjunni eru eignuð, svo sem er akrgerði, er sýnir að þá hafi verið þar kornyrkja nokkur; örnefnið Geithúslækr sýnir, að geitfè hafi að fornu verið þar haft; sömuleiðis eru mjólkrtollr og skæðatollr merkilegir. Tíundir þær, sem kirkjunni eru hèr tillagðar, eru eiginlega fátækra-tíundir; hefir þetta gjald haldizt svo lengi, að ákvörðun um það er í kansellí-brèfi 11. Juli 1789 (Lagasafn handa Íslandi V, 646—47), svo það helzt líklega enn í dag.

Máldagi þessi er hèr prentaðr eptir þremr pappírs handritum í brèfasafni Árna Magnússonar: a) afskript Árna Magnússonar sjálfs, sem hann hefir tekið „Ex originali (ut puto) inscripto paginæ gradualis membranei pertinenti ad ecclesiam Gufudal"; er sú afskript eptir frumskrá sira Jóns Þorleifssonar frá 1578, sem fyr var getið; — b) afskript eptir hinni sömu skrá,

sem Árni Magnússon hefir látið gjöra, er hún rituð í Skálholti 27. dag Aprilis 1707 og staðfest með nöfnum og innsiglum fjögra manna, sem voru: Magnús Markússon (skólameistari), Arngrímr Bjarnason, Snorri Jónsson og þórðr þórðarson; — c) afskript nokkru eldri, frá 17du öld, en þó samhljóða, óstaðfest, sem Árni hefir fengið 1710 frá Helgu Eggertsdóttur á Múla í Kollafirði; þar er getið nokkurs þess, sem Wilchins máldagi hefir framar en þessi, og bætt við öðrum máldaga miklu yngra. — Stafsetníngin á þessari máldagaskrá er bersýnilega frá sextándu öld, og hefir sira Jón þorleifsson ekki skeytt um að fylgja hinni fornu stafsetníngu, þegar hann ritaði skrána upp; er henni einnig hèr haldið, eptir því sem afskriptirnar hafa.

---

Jtem er þetta maldagi[1] i Gufudal ad Brandur biskup wigdi wnder[2] suo witt takmark ad tyunder liggia þar til.

fra Jllugastaudum. vr skalmar firdi.

fra quindis firdi. kirkiu boli. Bæ. klett. mula.

kalfa dal. eyri. gallttargia. klaufa staudum. skala nesi.

vr gufudal fremra. af brecku. grou nesi.

midhus[um]. Diupa dal. Barme.

Hallsteinsnesi. af hiollum̄.

Jtem á kirkian j gufudal suo morg jtauk sem hier seigir.

Akurgerdi wnder skalanes hraune.

Skog allan̄ a melanesi: j mille gatna:

Beit j Alltta dalz mula: og lambhaga vr vatne nedra.

og skog med watne enu nedra. og hris aull j mille miallgils[3]: og geithus lækiar:

vetur beit nautum j Brecku land: suo og vorbeit ofan j Brecku land:

Raptuidar haugg j Diupadals skog.

Suo og a kirkian̄ j gufudal mallz miolk af huerium Bæ. j þessu adur greindu takmarki: vm Peturs messu tijma:

og skiædi af Bæ [j þessu[4] aullu takmarki alnar laung.

Suo og a kirkian̄ alla þa tyvnd sem minne er en̄ eyris tyund.

---

[1]) *stafirnir* ald *ólæsilegir í skránni.* [2]) wn *ólæsilegt.*

[3]) *þannig* c *og allir hinir síðari máldagar Gufudals kirkju, en* a *og* b *hafa* mallgil, *og mun það hafa staðið í skránni en vera ritvilla.*

[4]) frá [ ólæsilegt i skránni.

136. 20. April 1241. i Lateran.

Gregorius páfi hinn níundi gefr umboð ábótanum í Tötru, Birni ábóta í Niðarhólmi og Priori prèdikarabræðra í Niðarósi, að fá skýrslur viðvíkjandi helgi Eysteins erkibiskups.

Þetta páfabrèf kemr reyndar ekki að efninu Íslandi við, þó að Eysteinn erkibiskup væri af íslenzkri ætt, sem fyr er talið (bls. 224); en af því að Björn ábóti í Hólmi, einn af þeim sem brèfið er skrifað til, var íslenzkr maðr, og ekki ómerkilegr á sinni tíð, þá munum vèr rekja sögu hans í stuttu máli, einkum þareð sum atriði í henni hafa verið ókunnug hjá oss áðr (sbr. Lange. De norske Klostres Historie. önnur útg. 1856. bls. 203—206; Keyser. Den norske Kirkes Historie under Katholicismen I, 370; Munch. Det norske Folks Historie IV, 982; V, 12—16).

Vèr skulum fyrst geta þess, að klaustrið í Tötru var á ey einni lítilli í Þrándheimi, skammt fyrir norðan Niðarós, var það stofnað 1207 og helgað Maríu guðs móður (*Monasterium sanctæ Mariæ de Tuta insula*). Það var grámúnka klaustr, af reglu Cisterciensium eða hins helga Bernhards. — Klaustrið í Niðarhólmi stóð á hólmanum í ánni Nið, rètt hjá Niðarósi; það var svartmúnkaklaustr af Benedikts reglu (eins og t. d. Þíngeyra klaustr á Íslandi), og var að sögn hið elzta klaustr í Noregi (sbr. bls. 483 hèr að framan). Í því klaustri var Magnús blindi Noregs konúngr tvö ár (Snorri s. Magn. blinda kap. 12; s. af Sigurði, Ínga og Eysteini kap. 2). Áðr en klaustrið var sett í Niðarhólmi var þar gálgi, og þar grýttu Norðmenn höfuð Hákonar jarls (Snorri. Ólafs s. Tryggvas. kap. 56), en eptir siðaskiptin, þegar klaustrið var niðr lagt, var þar kastali, sem kallaðr var Múnkhólmr, og voru þángað fluttir ríkisfángar, og þar sat hinn nafnfrægi Griffenfeldt 18 ár í fángelsi í tíð Kristjáns fimta (1681—1699). — Klaustr Prèdikarabræðra í Niðarósi var stofnað 1220 af dönskum múnk, sem Salomon hèt og hafði verið með Dominikus sjálfum, höfundi Prèdikarareglu, og var líklega hið elzta Prèdikara klaustr á Norðrlöndum.

Björn ábóti í Niðarhólmi var fæddr í Norðrlandi, og var í uppvexti sínum á Hólum, hjá Brandi biskupi Sæmundarsyni og kallaðr „fóstri" hans. Hann hefir verið fæddr hèrumbil 1180, því skömmu eptir dauða Brands biskups er þess getið, að hann væri prestr, og færi þá í þjónustu Páls biskups. Þar sem taldir eru upp í sögu Páls biskups (kap. 14: Bisk. s. I, 140) þeir klerkar, sem þjónuðu honum eða voru kapellánar hans, sèst einnig hvenær Björn hafi verið þar. Páll biskup kom út til stóls síns, sem kunnugt er, um vorið 1195; sá sem talinn er að hafi þjónað honum var þá fyrst Þorkell prestr Hallsson, „góðr kennimaðr ok ráðvandr", sem síðan var kanoki í Veri, og er sagt hann hafi þjónað biskupi „n o k k u r a vetr". Þar eptir þjónaði

honum Leggr prestr um sjö vetr; síðan Björn prestr, sá sem hèr er um að ræða; þá Brandr prestr Dálksson, og seinast Ketill prestr Hermundarson. Nú andaðist Páll biskup 1211, og getum vèr þá með miklum líkindum getið oss til, hvenær Björn hafi komið í þjónustu biskupsins. Þar sem sagt er, að Þorkell prestr Hallsson hafi verið í þjónustu biskups „nokkura vetr," þá hefir hann hlotið að vera það í minnsta lagi þrjú ár, eða 1195—98; Leggr prestr var þá sjö ár (sbr. bls. 497), og verðr það 1198—1205; þá hefði Björn átt að koma til Skálholts, ef tveir hinir seinustu eru þar sitt árið hvor; þá verða í hluta Bjarnar prests árin 1205—1209, eða fjögr ár; vèr finnum einnig önnur rök til, að bann hafi verið um þenna tíma í Skálholti. Þar sem Páls biskups saga nefnir hann, fer hún um hann þessum orðum: „síðan (eptir Legg prest, þjónaði Páli biskupi) norðlenzkr prestr, sá er Björn hèt, lítill maðr vexti en þó vitr ok vel lærðr ok fóstri Brands biskups; hann fór utan síðan". Um vorið 1207 rètt eptir krossmessu (í Mai) fór Björn austr að Skarði á Landi með Herdísi, konu Páls biskups, og nokkrum af börnum biskups til að gæta bús þeirra í Skarði (sbr. bls. 354 hèr að framan). Þegar þau fóru út yfir aptr, var vatnavöxtr í Þjórsá, og voru þau flutt á ferju. Þeir fóru fyrstir yfir ána Björn prestr og Ketill biskupsson, komust þeir yfir ána, en reiðhestr frúarinnar týndist. Í seinustu ferðinni fóru þær á ferjuna Herdís og Halla dóttir hennar og frændkona hennar, og drukknuðu þær allar (Páls b. s. kap. 13: Bisk. s. I, 138—139). Þetta var fjórtán nóttum eptir krossmessu um vorið (17. Mai 1207). Eptir bardagann í Víðinesi (8. Septbr. 1208) sendi Páll biskup „kapellán sinn Björn" til Guðmundar biskups á Hólum, til þess að vinna hann til að fara vægilegar fram móti óvinum sínum, en það tjáði ekki (Páls b. s. kap. 15: Bisk. s. I, 142), því Guðmundr biskup virði einkis orð hans, og þótti Páll biskup sýna sljóleik sinn við kirkjunnar mál og fylgi við böfðíngjana í þessum afskiptum sínum af málunum. Um sumarið 1209 hefir Björn prestr farið frá Skálholti, og vitum vèr síðan ekki um hann um hríð; hefir hann þá líklega farið utan, og gengið í klaustr í Niðarhólmi. Þegar Guðmundr biskup var utan, mun hann hafa endrnýjað fornan kunníngskap, og einkum á þeim tveim árum sem biskup var í Niðarósi (1224 —1226; sbr. bls. 425). Um vorið 1226 var hann sendr til Íslands með Guðmundi biskupi; höfðu þeir brèf Þóris erkibiskups, sem tóku embætti af Magnúsi biskupi í Skálholti, og stefndu honum utan, ásamt bróður hans Þorvaldi Gizurarsyni, Sighvati Sturlusyni og Sturlu syni hans (ísl. Ann. 1226). Þeir Guðmundr biskup og bróðir Björn komu út í Hrútafirði (Sturl. 4, 44: II, 90), og er það enda sennileg getgáta, að Birni muni hafa verið ætlað að stýra Skálholts biskupsdæmi, þegar Magnús biskup færi utan (Munch. Det norske Folks Hist. IV, 875 sbr. bls. 425 hèr að fr.). En utanstefníng erkibiskups var ekki hlýdt að þessu sinni, og hann andaðist hið sama haust

(† 9. Oktbr. 1226), en af bróður Birni er ekki sagt, hvort hann hefir farið þá utan eða nokkru síðar, er þó líklegt hann hafi farið utan samsumars, því annars mundi hann án efa hafa orðið viðriðinn þras Guðmundar biskups við höfðíngjana, sem hófst aptr að skömmu bragði. Bróðir Björn er kallaðr í einum hinum elzta og bezta annál vorum „Rita-Björn múukr", þar sem getið er útkomu hans 1226, en þareð annáll þessi (Konúngs annáll) er þó ekki öldúngis samtíða, þá getum vèr nú ekki sagt með vissu hvort hann hefir þá þegar verið búinn að fá þetta viðrnefni, eða hann hefir fengið það síðar; það er að vísu alllíklegt, að hann hafi snemma verið frægr fyrir klerkdóm sinn, en af því að „rit" er helzt haft um þessar mundir þegar talað er um brèf[1], þá er næst að halda, að Björn hafi hlotið viðrnefni þetta eptir að hann fór að starfa í ráðum og brèfagjörðum fyrst með Hákoni konúngi og síðan með Skúla hertoga, og einkum eptir að tekin voru af honum brèfin hertogans (1240). Þetta viðrnefni er honum annars hvergi gefið, nema í hinum svo nefnda Konúngs annál; Sturla Þórðarson kallar hann í Hákonarsögu einúngis „Björn ábóta".

Þess var áðr getið (Nr. 129) að brèfið til Guðmundar biskups á Hólum um vitrun Maríu meyjar fyrir Elízabet nunnu á Þýzkalandi kynni að hafa verið frá bróður Birni, og vera ritað 1227 eða 1228, en þar var og talið það, sem vitnar í móti að svo hafi verið. Þegar Björn kom frá Íslandi mun hann hafa farið í klaustr sitt í Niðarhólmi, og verið þar síðan um hríð; þá var þar, eptir því sem næst verðr komizt, Ásgautr ábóti. Eptir andlát hans var bróðir Björn vígðr til ábóta í hans stað, og var það ár 1232 (ísl. Annál.). Þá fóru að byrja fyrir alvöru misklíðir þær milli Hákonar konúngs og Skúla jarls, sem enduðu að síðustu með drápi Skúla. Fyrst um sinn er að sjá, sem Björn ábóti hafi verið í vináttu bæði við konúng og jarl, og haft virðíng af þeim báðum, og notað það bæði vel og forsjálega, en klaustr hans lá við Niðarós, þar sem Skúli var optast, og hann var hættulegr nágranni, bæði áleitinn og ákafr, því smásaman varð ábóti svo flæktr í málum með honum, að þeir fèllu svo að segja báðir saman, og ábóti hafði dregið klaustr sitt með sèr svo, að því lá við falli. Í sögu Hákonar konúngs Hákonarsonar er sagt frá nokkru af viðskiptum þessum, þó það sè ekki svo nákvæmt í sumum greinum, sem óskanda væri.

Þess er fyrst getið 1235, að Björn ábóti væri viðriðinn misklíðir Hákonar konúngs og Skúla jarls. Þá um vorið ritaði konúngr jarli brèf, og stefndi honum til fundar við sig í Björgvin þá um sumarið. Jarli var ekki um þessi boð, en bjóst þó þegar fram á sumar kom, og fór af stað með miklu skipaliði, en þegar hann kom út á Sunnmæri lagði hann þar flota sínum í Steinavogi, og beið þar fram á haust, en að síðustu sneri hann

1) *sbr.* „mörg rit út komin ok haldit litt upp". ísl. Annálar 1237.

aptr og varð ekki af fundinum. Konúngr fór sjálfr til þrándheims, en jarl forðaðist fund hans, og ætlaði suðr yfir fjöll til Upplanda. Þá voru sendir menn eptir honum, til að bjóða honum til fundar við konúng í Þrándheimi, og að vera þar ásamt konúngi um vetrinn, en sendimenn áunnu ekkert og máttu snúa aptr. Þá var sendr í annað sinn Björn ábóti og menn með honum, og „ef ábóti hefði komit tveim nóttum síðar, mundi hafa verið brugðit friðinum með jarli og konúngi", en þeir komu á einskonar samníngi milli konúngs og jarls (Hákonar s. Hákonars. kap. 184: Fornm. s. IX, 441—442). Jarli þótti ekki sá samníngr haldinn, svo að jafnskjótt og Björn og fèlagar hans voru farnir aptr ætlaði jarl að byrja ófrið. Þegar konúngr frètti þetta, sendi hann Björn ábóta í annað sinn, og kom hann til Konúngahellu, hèlt þá enn nærri, að jarl hefði byrjað ófriðinn áðr en Björn kom, en hann gat svo jafnað að jarl fèkk þriðjúng af sýslum á Upplöndum og um Víkina, sem konúngr hafði lofað honum, en að sumri komanda skyldu þeir finnast í Björgvin, konúngr og jarl (Hákonar saga Hákonars. kap. 186; Fornm. s. IX, 446). Síðan fór Björn ábóti norðr aptr, og nokkru síðar sendust þeir gisla á, konúngr og jarl, og var Játgeir skáld, íslenzkr maðr, annar af gislum jarlsins.

Vorið 1237 gjörði Hákon konúngr Skúla jarl að hertoga á Eyraþíngi, og var þá vinátta með þeim um hríð, en ekki leið á laungu þar til sótti aptr í fornan fjandskap, og mest af rógi manna. Eptir að þeir konúngr og hertoginn skildu, var Skúli í Þrándheimi, og þá sýnist sem hann hafi unnið Björn ábóta að fullu á sitt mál. Um vetrinn 1239 sendi konúngr boð norðr í Þrándheim til hertogans, að hann skyldi koma til Björgvinar um vorið til móts við hann, og hafa ekki mikið lið, til þess að hlífa alþýðu við útboði. Það er líklegt, að hertoginn hafi hugsað, að þetta mundi vera stofnað til að geta átt alls kosti við sig, fór hann þá að búa mikinn flota, til þess að geta átt nokkuð undir sèr; en af því hann hefir vitað að konúngi mundi mislíka, ef hann frètti liðsafnað, þá sendi hann Björn ábóta austr í Túnsberg til konúngs, til að bera honum söguna svo sem sèr væri helzt í vil. Ábóti sagði, að hertoginn mundi koma á þann hátt sem konúngr hafði gjört ráð fyrir, en kvaðst ekki vita hversu fjölmennr hann mundi verða. Ábóti dvaldist þar lengi, og gátu þar til verið margar orsakir, bæði það, að konúngr hafi haft verulega mætr á ábóta, þarmeð og, að hann hafi viljað reyna fregnir þær sem hann flutti; ábóta mátti og að sínu leyti vera kært að dvelja með konúngi, til þess að geta gjört hertoganum meira gagn. Síðan voru rituð brèf með honum norðr aptr; en þá kom til konúngs einn af höfðíngjum Þrænda, og sagði, að hertoginn hefði útboð af öllum Þrændalögum. Þá var dvalin enn meir ferð ábóta, og rituð önnur brèf en hin fyrri. Konúngr tók nú einnig til að safna liði og búa skip, svo að þegar hertoginn kom um sumarið til

Björgvinar með tuttugu skip, þá frètti hann að konúngs væri von að anstan með fjörntigi skipa. Hertoginn rèði þá af að bíða ekki, og sneri norðr aptr, en þegar konúngr kom vann Sigurðr erkibiskup það á við hann, að hann samþykkti að erkibiskup setti grið um vetrinn og tók til þess umboð konúngs, ritaði hann þegar til hertogans og bað hann eigi brjóta friðinn fyr en þeir fyndist. Það sýnist sem Björn ábóti, Játgeir skáld og Sóni síkr, merkismaðr hertogaus, hafi þá verið í Björgvin, og gengið á milli sem þeir gátu til að friða fyrir hann; vorn þeir síðan sendir til hans með brèfin, en erkibiskup lagði við bann hverjum sem eigi hèldi griðin um vetrinn. Konúngr ritaði brèf til hertogans með Birni ábóta, og bað hann halda þessi grið eða gjöra konúngi orð ef hann vildi öðruvís (Hákon. s. Hákonars. kap. 205: Fornm. s. IX, 473).

Eptir að sendimenn voru norðr farnir, beið Hákon konúngr lengi eptir svörum frá hertoganum, en er þau komu ekki, þótti honum sem vera mundi nokkuð tortryggilegt. Loksins barst honum sú fregn, að Skúli hertogi hefði látið gefa sèr konúngs nafn á Eyra þíngi (6. Novbr. 1239) og skipað sýslur allar fyrir norðan Staði, og sent menn út alla vega til að fánga eða drepa konúngs menn. Fóru þessir menn hertogans fram með mestu grimd og illsku. Hákon konúngr fór þá norðr til Þrándheims, en Skúli fór undan suðr nm fjöll og til Upplanda. Sigurðr erkibiskup bannsetti þá Björn ábóta, bæði fyrir þær sakir er hann kendi honum sjálfum, og fyrir það hann hefði verið í ráðum með hertoganum um hans tiltæki. Ábóta líkaði þetta stórilla, og skaut málum sínum til páfa. Báru þeir þá ráð sín saman hertoginn og ábóti, og varð það úrræði þeirra, að ábóti fèkk fè af hertoganum með því að setja honum að veði staðinn að Hólmi (klaustrsetrið), en ábóti skyldi fara suðr með brèf og erindi hertogans í Danmörk og Þýzkaland og fyrir sjálfan sig á páfagarð, til að fá rèttíng sinna mála. Ábótinn fór af stað úr Niðarósi fyrir jól um vetrinn, og yfir fjöll til Upplanda, og fór þá sem hægast, til þess engan skyldi gruna að hann hefði neitt það meðferðis sem nokkru varðaði. Þegar hann kom til Hamarkaupángs, hitti hann þar Mnnan biskupsson, einn af sýslumönnum konúngs, og lèt allblítt við hann og gerði engan grun á sèr, en Munan lèt ekki blekkjast og tók ábóta og það sem hann fór með, og sendi menn með hann til Björgvinar, var hann þar geymdr hjá drottníngunni dóttur hertogans, þar til konúngr kom norðan aptr, en það var í dimbilviku. Þá lèt hann rannsaka brèf þau er ábóti fór með, bæði til páfans og keisarans og margra höfðíngja úti í löndum, ok segir sagan svo frá, að „varla mundi nokkur maðr trúa, at slíkr höfðíngi skyldi svâ mart vilja segja, satt ok logit, sem Skúli hafði rita látið, ok sum brèfin vorn svo, að ábóti hefði verið lífláts verðr fyrir, en þó gaf konúngr honum grið, þegar hann fèkk brèfin ok vissi öll erindi hans" (Hákonar s. Hákonars. kap. 225: Fornm. s. IX, 498—499). Það er því líklegt, að konúngr hafi vitað að ábóti

hafi ekki verið neinn hvatamaðr að tiltektum hertogans, þó hann fylgði hans málum eða gæti ekki aptrað honum, enda er það og auðsætt, að Skúli hefir frá upphafi talið sig borinn til ríkis jafnt og Hákon konúng eða framar, og á því máli hafa margir verið með honum, bæði í Noregi og á Íslandi. þess verðr og að gæta, að saga Hákonar konúngs er öll rituð framar honum til fylgis en hertoganum. Eptir að konúngr hafði rannsakað brèf ábóta, fór hann af stað austr í Vík og hafði ábóta með sèr; á þeirri ferð varð orusta í Osló (21. April 1240), beið hertogi þar ósigr og flýði norðr um fjall, en skömmu síðar var hann drepinn af konúngsmönnum († 23. eða 24. Mai 1240).

Eptir orustuna í Osló hefir Hákon konúngr leyft Birni ábóta að halda fram ferð sinni til Róms, og án efa unnið hann jafnframt á sitt mál, þegar hann sá að mál hertogans stóð ekki lengr til bóta. þegar ábóti kom til Róms, var Gregorius níundi páfi, og hefir ábóti án efa komizt þar í gengi, því annars mundi honum ekki hafa verið falið á hendr það erindi, sem í brèfi þessu stendr, að rannsaka um helgi Eysteins erkibiskups. Gregorius páfi andaðist á sama ári og brèf þetta er út gefið († 21. August 1241) og var fyrst kosinn til páfa eptir hann Coelestinus hinn fjórði, en andaðist skömmu síðar og var varla mánuð í páfasæti; þar eptir var páfastóllinn auðr meir en hálft annað ár, að Innocentius hinn fjórði var kosinn páfi um sumarið 1243. þann tíma sýnist sem Björn ábóti hafi verið í Róm, og er ekki kyn þó ferðin hafi orðið honum kostnaðarsöm, en hann hefir líklega beðið þess, að geta fengið uppreisn mála sinna, og gagnað konúngs málum jafnframt, og haft þá von, að Hákon konúngr mundi sjá við sig og klaustr sitt, ef honum líkaði erindislokin. Eptir að hinn nýi páfi var kosinn leið ekki á laungu þartil Björn fèkk rètting á málum sínum, sem ráða má á því, að hann ætlaði heim til klaustrs síns; hafði hann jafnframt því að færa brèf frá páfa til konúngsins, sem segir í Hákonar sögu að hafi verið „með blessan ok svâ fögrum orðum, at varla hefir slíkt brèf komit í Noreg af páfa" (Hák. s. Hákonars. kap. 246: Fornm. s. X, 6). Björn kom til Noregs aptr um sumarið 1244, og þorði þó ekki að koma fyrir konúng fyr en hann hafði sagt til sín og afbeðið reiði hans, og látið hann vita að hann hefði góð tíðindi að færa. Konúngr tók boðum hans blíðlega, og bað hann koma til sín; var hann síðan hjá honum um sumarið, og er líklegt, að konúngr hafi þá haft hann við ráð sín um að ná krýníng af páfanum, sem hann fèkk síðar. Um haustið fór konúngr austr í Vík, til að vera þar um vetrinn; en Björn fór norðr og ætlaði til klaustrs síns, hann gisti þá í Selju, sem var nafnfrægt klaustr skammt fyrir norðan Björgvin, og lagðist þar sjúkr og andaðist.

Á þeim lánga tíma, sem Björn ábóti var frá klaustri sínu, var ekki kyn þó ýmislegt færi aflaga, og þegar ábóti var í Róm meðfram til að fá rètting sinna mála móti erkibiskupi, þá er ekki kyn þó erkibiskup hafi ekki borið honum vel söguna, en vèr höfum

nú ekki aðrar frásagnir en þær, sem frá þeirri hlið eru komnar. Þegar Björn ábóti fór til Róms, hefir hann annaðhvort haft með sèr gripavörð (*sacrista*)[1] klaustrsins, sem geymdi innsigli þess, eða hann hefir boðað hann til Róms síðan, þegar dvöl hans varð þar lengri en hann varði, og tók múnkrinn með sèr innsigli klaustrsins, sem var undir geymslu hans. Þegar kostnaðr þeirra í Róm varð meiri en í fyrstu gat orðið búizt við, þá fór ábóti að taka lán uppá klaustrið, og gaf okrkörlum skuldabrèf, sem hann setti fyrir innsigli klaustrsins. Þessi skuldabrèf voru alls til 500 marka (þ. e. hæst svosem 5000 rd. virði), og má þar af ráða, að klaustrið hefir ekki verið ríkt um þær mundir, að þessi skuld hafði nær komið því á knè. Sigurðr erkibiskup, sem hafði áðr verið kórsbróðir í Niðarósi, hefir líklega ekki haft neinar mætr á klaustrinu í Hólmi, þar með voru þeir og sinn af hverjum flokki, hann og Björn ábóti, því erkibiskup var í konúngs flokki, en ábóti af hertogans, og fyrir því hafði erkibiskup bannfært hann, en allir veraldlegir höfuðsmenn úr flokki hertogans og trúnaðarmenn hans voru drepnir af konúngsmönnum (Árnfinnr Þjófsson, Játgeir skáld o. fl.). Þegar nú dvaldist heimkoma ábótans tók erkibiskup fyrir sig að skoða klaustrið, því biskupar höfðu þesskonar vald yfir Benedikts-klaustrum í biskupsdæmi sínu; þóttist hann þá finna, að ábótinn, og bróðir sá sem með honum var, hefði yfirgefið reglu sína og gjörzt strokumenn og frávillíngar, en þeir sem eptir sæti væri ekki betri, því þeir væri ekki múnkar nema að klæðnaðinum til, kynni ekki reglu sína, væri berir afbrotamenn gegn klaustrlegum siðum, og sumir þjófar og hlaupamenn; vildi hann því reka þá alla burt og slá sinni hendi yfir klaustrið. Múnkar kunnu þessu illa, og prior þeirra, sem stjórnaði klaustrinu í fjærveru ábóta, skaut máli þeirra til páfa; gat því erkibiskup ekki að hafzt meðan á því stóð. Nú leysti priorinn aptr nokkrar af eignum klaustrsins, og reytti sèr saman fè til að komast til Róms, til að ná í ábóta, en þegar þar kom var ábóti burtu, og höfðu þeir farizt á mis, en þegar priorinn kom heim aptr frètti hann lát ábótans, að hann hafði andazt í Selju, svo sem áðr er sagt (1244).

Nú kusu Hólmsmúnkar sèr ábóta á ný, og þareð þeir frèttu til skuldabrèfa klaustrsins hjá okrkörlum í Lundúnum[2], þá fóru þeir að hugsa fyrir að leysa þau; var nú priorinn sendr af stað

---

[1]) Sakrista eða gripavörðr hafði undir sinni geymslu hin helgu ker og gripi klaustranna.

[2]) Á þessum tímum voru okrkarlar á Ítalíu, sem höfðu fèlaga sína í ymsum löndum, svosem á Þýzkalandi, Frakklandi og Englandi. Þeir voru kallaðir Caorsiní, eptir sumra ætlun af bæ nokkrum á Ítalíu, sem hèt Caorsa. Orsökin til þess, að skuldabrèf Hólmsklaustrs komu til Lundúna, hefir verið sú, að frá Englandi var mest verzlan við Noreg um þessar mundir, og hefir þótt hægast að ná þaðan skuldunum.

og múnkr með honum, og höfðu með sèr 300 marka og brèf frá Hákoni konúngi til múnks nokkurs í Albans klaustri á Englandi, sem hèt Mattheus og kallaðr Parísarklerkr *(Parisiensis)*; hann var í vináttu við konúng, af því hann hefir verið í kaupferðum fyrir klaustr sitt til Noregs, og kynnzt þar konúngi og öðrum mönnum í viðskiptum; beiddi konúngr að hann skyldi skyldi hjálpa þeim Hólmsmúnkum í nauðsyn þeirra; þetta heppnaðist, og greiddist vel þeirra ferð. En eigi að síðr vildi erkibiskup taka undir sig klaustrið og eignir þess, og reka múnkana burt, með því þeir væri ekki múnkar, sagði hann, nema að nafninu. Múnkar tóku þá til bragðs að færa erkibiskupi gjafir, og unnu með því nokkurn frest, en þá bar svo við að Vilhjálmr kardínáli kom til Noregs (1247), til að krýna Hákon konúng, bar ábóti þeirra þá mál þetta undir kardínála, en hann kvaðst ekki svo kunnugr reglu þeirra, að hann gæti skipað fyrir hversu til ætti að haga í klaustrinu, og rèði þeim til að leita páfans úrskurðar og kvaðst mundu rita með þeim. Nú fóru þeir ábóti og prior á páfagarð, og höfðu með sèr brèf kardínálans og Hákonar konúngs, leyfði páfinn þeim þá að kjósa sèr mann til að kenna þeim klaustr-reglurnar og koma þeim á, en þeir kusu bróður Mattheus frá Albans klaustri, sem áðr var nefndr. Þá var ritað brèf frá páfa til ábótans í því klaustri, að senda Mattheus til Noregs og fór hann þángað um sumarið 1248 og lauk vel sínu erindi, svo að lag komst á bæði í Hólms klaustri og í öðrum fleiri klaustrum í Noregi, en Mattheus skrifaði síðan annál, og hefir þar sagt frá þessari sögu einsog hann hafði heyrt (Mattheus Parisiensis, ed. Wats, London 1686. Fol. bls. 655—656; sbr. Langeb. Script. rer. Dan. IV, 415, not. b). Mattheus þessi varð múnkr 1217 en andaðist 1259. Þegar hann var í Noregi 1248 var hann milligaungumaðr milli Hákonar Noregs konúngs og Hlöðvis Frakka konúngs um krossför til Jórsalalands, hjálpaði hann Hákoni konúngi til að draga sig út úr með samferð við Frakka, og til að fá leyfisbrèf af Frakkakonúngi að mega leggja í hafnir á Frakklandi og fá þar nauðsynjar sínar á ferðinni ef svo bæri undir. Þegar skip það lá í Björgvin, sem Mattheus var á, varð þar bæjarbruninn mikli, sem getið er um í sögum vorum og annálum; þá lá Mattheus úti á skipi sínu og hafði brotnað fyrir þeim mastr í skipinu; en Hákon konúngr gaf þeim annað betra mastr í skip sitt, en það sem brotnað hafði, og þar að auki miklar gjafir aðrar (Matth. Par. bls. 654, 644).

Af því sem þegar er sagt er það auðráðið, að ekki hafi í þetta sinn neitt orðið af rannsókn þeirri um helgi Eysteins erkibiskups, sem hèr er skipuð, því Björn ábóti hefir verið í Róm um vorið 1241, þegar brèf þetta var útgefið, og hann kom ekki til Noregs fyr en 1244 og andaðist þá sama haust. Síðan hefir mál þetta legið í dái, þar til Klemens páfi hinn fjórði skipaði enn á ný, að biskupinn í Björgvin og ábótarnir í Tötru og í Niðarhólmi skyldi rannsaka um helgi hans (26. Septbr. 1268).

Um afdrif þeirrar rannsóknar er ókunnugt, og ekki vita menn til, að Eysteinn erkibiskup hafi verið settr í helgra manna röð í Róm, en hann var dýrkaðr ávallt í Noregi sem helgr maðr, og skrín hans var í Niðarósi fram yfir siðaskiptin.

Páfabref þetta er prentað hèr eptir brèfasafni Norðmanna: Diplomatarium Norvegicum I, Nr. 23, bls. 18—19, og er það prentað þar eptir afskript frá skjalaverði páfans Marini, sem er samin eptir brèfabókum í Róm (Gregor. IX. ann. XV. epist. 32).

---

Gregorius episcopus, servus servorum Dei . . . . . . . . . abbati Tautrensi, Cisterciensis, et [Beroni] Holmensi sancti Benedicti, Nidrosiensis diocesis, et fratrum Predicatorum Nidrosien. ordinum prioribus.

Ut corda fidelium in sui amorem rex celestis accendat, et incredulos convertat ad fidem, sanctos suos miraculis magnificat gloriosis, devotiores enim fideles ipsi redduntur altissimo, dum vident electos ipsius post exitum huius vite felicem virtutibus corruscare, ac reliqui eum sequi desiderant, cum se sequentibus eterna premia largiatur.

Sane dignas domino referimus gratias, quod sicut venerabiles fratres [Sigurdus] Nidrosiensis archiepiscopus et eius suffraganei, ac carissimus in Christo filius noster [Haquinus] Norwagie rex illustris suis nobis litteris intimarunt, recolende memorie Augustinum, Nidrosiensem archiepiscopum, cum pie vixisset in hoc seculo, viam salutis docendo verbis pariter et exemplis tandem presentis vite cursu feliciter consumato, multis miraculis Omnipotens decoravit. Unde, cum non deceat eum apud homines sine veneratione relinqui, quem merita et miracula sanctum ostendunt, nobis humiliter supplicarunt, ut ipsum ascribere sanctorum cathalogo curaremus.

Quia vero nobis non constitit de predictis, discretioni vestre, de qua plenam in domino fiduciam gerimus, per apostolica scripta mandamus, quatinus de vita et miraculis ipsius diligenter ac sollicite inquirentes, que inveneritis nobis per vestras litteras fideliter intimetis.

Quod si non omnes . . . .

Datum Laterani .xii. kal. Maii, anno XV.

---

## 137. [um 1245].

Skipan Sæmundar Ormssonar um almenníngs fjörur í Hornafirði, meðferð rekahvala og viðrlög.

Ætt Freysgyðlínga, er komin var af Þórði Freysgoða og sonum hans: Brennu-Flosa og hans bræðrum, var um lángan tíma hin helzta í Austfirðínga fjórðúngi. Freysgyðlíngar töldu ætt sína til hersa í Sogni: Heyjángrs-Bjarnar, Bjarnar bunu, Veðrar-Gríms, og fram til Eylaugs hersis, en á aðra hlið til hinna frægu herkonúnga: Hjaldrs, Vatnars og Vikars, er var sonr Haralds konúngs á Ögðum. Þetta var forn ættbálkr og merkilegr, því tveir synir Bjarnar bunu, Ketill flatnefr og Hrappr, fóru vestr um haf og voru í Suðreyjum, en synir þeirra fóru til Íslands, og voru hinir frægustu meðal landnámsmanna, svo að Landnámabók segir, að frá þeim sè „flestallt stórmenni komit á Íslandi." Þegar Ketill flatnefr og þeir bræðr fóru vestr um haf, var einn þeirra eptir (Helgi); sonarson hans Björn var hersir í Sogni, eins og forfeðr hans, og hafði ríki sitt í Sogni utanverðum, þar sem heitir Heyjángr, og er lítill fjörðr, sem gengr í norðr úr Sogni. Synir Heyjángrs-Bjarnar fóru allir til Íslands, og er sagt frá þeim í Landnámabók. Til yfirlits fylgir hèr ættartala þess kynþáttar Freysgyðlínga, sem hèr er nefndr (sbr. Landnámab. 1, 10; 4, 10; Ísl. s. I, 39. 264—265; Viðbæt. Skarðsár-bókar: Ísl. s. I, 326—328; Sturl. 2, 4: I, 51):

Haraldr Egðakonúngr

Vikarr konúngr — Eylaugr hersir í Sogni

Vatnarr konúngr — Þorgerðr

Hjaldr ——— Hervör

Veðrar-Grímr hersir í Sogni

Björn buna hersir í Sogni

| | | |
|---|---|---|
| Ketill flatnefr | Helgi | Hrappr |
| Helgi bjólan, *landnm.*<br>Björn austræni, *ln.*<br>Auðr djúpauðga, *ln.* | Helgi | Þórðr skeggi, *ln.*<br>Örlygr, *ln.* |
| Þórunn hyrna<br>(⌄Helgi h. magri, *ln.*).<br>Jórunn mannvitsbrekka<br>(son: Ketill fíflski, *ln.*). | Heyjángrs-Björn<br>hersir í Sogni. | |

En ætt Freysgyðlínga frá Heyjángrs-Birni er talin á þenna hátt til þeirra Orms Svínfellíngs og sona hans:




Börn Jóns Sigmundarsonar voru sem sjá má af þessari töflu:

Jón Sigmundarson († 1212).
⌣ 1) þóra Guðmundard. gríss (hin eldri) † 1203.

Ormr Jónsson Svínfellíngr ⌣ Álfheiðr Njálsdóttir úr Skógum.
† 1241.
(systr: Steinunn og Solveig)

Sæmundr Ormsson } † 1252
Guðmundr Ormsson }
Ormr Ormsson † 1270.

2) Halldóra Arnórsdóttir (sbr. bls. 519).

Brandr biskup Jónsson á Hólum † 1264.

3) Þórarinn Jónsson (laungetinn) † 1239.

Oddr Þórarinsson † 1255.
Þorvarðr Þórarinsson † 1296.

Ormr Jónsson Svínfellíngr var goðorðsmaðr eptir föður sinn, og var ágætr maðr; hann var „vinsælastr af öllum óvígðum höfðíngjum á Íslandi í þann tíma, því hann leiddi hjá sèr allan þeirra hernað og óvild þá er þeir vöfðust í, en hèlt hlut sínum óskerðum fyrir öllum þeim" (Sturl. 7, 48: III, 98). Á alþíngi 1241 fèkk hann þann sjúkdóm, að hann komst ekki austr heim til sín, og lá í Skálholti um sumarið og andaðist 5. Septbr. um haustið. Ormr Svínfellíngr hefir ekki verið meir en rúmlega fertugr maðr þegar hann andaðist. Eptir hann tók Sæmundr sonr hans við goðorði, og gjörðist ofsamaðr mikill „ok þótti líklegr til höfðíngja" (Sturl. 7, 47: III, 95); hann átti Ingunni, dóttur Sturlu Sighvatssonar (1248—49), og var síðan í vináttu og fylgi við Þórð kakala. Guðmundr var sjö vetra þegar faðir hans andaðist, og fór að fóstri til Ögmundar Helgasonar í Kirkjubæ, sem átti Steinunni systur þeirra. Ormr var fæddr á sama ári sem faðir hans andaðist. Eptir andlát Orms Svínfellíngs urðu fljótt deilur með þeim mágum, Sæmundi Ormssyni og Ögmundi Helgasyni í Kirkjubæ, og gat Brandr ábóti Jónsson í Þykkvabæ, frændi þeirra, ekki gengið í milli þeirra til hlítar. Frá viðreign þeirra er sagt í Sturlúngu (7, 49—58) og endaði með því, að Ögmundr lèt drepa þá báða bræðr Ormssonu (13. April 1252), en síðan stökk Ögmundr úr hèraði og út undir Eyjafjöll. Þegar Ormr bróðir þeirra óx upp, tók hann við goðorði, og gekk hann síðastr af höfðíngjum á hendr Noregs konúngi (1264). Síðan fór hann utan (1268) og var utan tvö ár. Þá ætlaði hann út aptr, og hafði konúngr fengið honum og Rafni Oddssyni allt land til forráða, en hann drukknaði þá um haustið með fleirum mönnum[1] í Herðluveri í Noregi (1270). Eptir það komu mest völd í hendr Þorvarði Þórarinssyni í þeim hluta lands.

Sú skipan Sæmundar Ormssonar, sem hèr fylgir eptir, er samin á tímabilinu 1242—1251, en hèr er hún árfærð til 1245, og er það að ágizkun; hún er ein af hinum fáu hèraðaskipunum eða samþyktum hinna fornu goða, sem vèr nú höfum, og er hún í því tilliti mjög merkileg; hún er einnig vel og skipulega samin, og sýnir menn, sem voru vanir að setja sèr sjálfir lög.

1) Þar sem stendr í útgáfu AM. nefndarinnar af annálum (við ár 1270): „cum sonum sínum" á að lesa: „cum sociis suis" þ. e. með skipverjum sínum.

Skrá þessi er að nokkru leyti prentuð hèr eptir fornu skinnblaði, sem er í safni Árna Magnússonar meðal íslenzkra frumbrèfa Fasc. LXV, Nr. 1; það sýnist vera frumritað uppkast, og hefir verið öðrumegin á skinnblaði í arkarbroti, sem hefir verið klippt af nærri helmíngr að endilaungu, en öðrumegin hefir verið rituð Latína andlegs efnis með samtíða hendi eða enn eldri. Vinstramegin er breið spázía, og er rituð þar á ein klausa og vísað inní. Nú er klipptr nær því þriðjúngr neðan af blaðinu, svo það er nú ekki orðið stærra en stórt átta blaða brot, en það sem eptir var og nú er til hefir Arni Magnússon eignazt frá Oddi lögmanni Sigurðssyni, svo sem hann skýrir frá á þessa leið: „þetta blad var lïmt utan ä spialldit ä lögbok Einars Jsleifssonar[1] ä Reykium i Mosfellz sveit. Bokin var i läni hia Haldani Jonssyni lögrettumanni ä Reykium i Olvesi. og þar tok Oddur Sigurdsson þetta blad af spialldinu. Relatio bædi Odds og Haldanar. Er mitt". — En lögbók Einars á Reykjum er sú, sem nú er í safni Árna Nr. 345 í Fol., og er hún rituð á seinna hluta 16du aldar, en innbundin einhverntíma á 17du öld. — Meðan skinnblaðið var heilt hefir það líklega verið í Skálholti, því þar hefir verið tekin afskript af því, og rituð á kálfskinn og staðfest af Vigfúsi presti Árnasyni og þremr öðrum prestum í Skálholti 5. August 1631, votta þeir að hafa „sied og yferlesed gamallt skrif j fornu Kalfskinns kvere[2], svo latande ord fyrir ord sem hier fyrir framan skrifad stendr". Þeirra transscript er enn í skjalasafni biskupsins á Íslandi meðal Skálholts brèfa Fasc. III, Nr. 15. En eptir því transscripto hefir Árni Magnússon látið rita afskript á pappír, sem er alls 10 blöð í 8 blaða broti; þar er á bls. 2—4 skrá þessi heil, eu í stöku orðum með breyttri stafsetníng (einkum *ij* fyrir *í* og *ur* í endíngum fyrir *r*), bl. 4—5 staðfestíngin frá 1631, bl. 5—6 staðfesting þessarar afskriptar rituð í Skálholti 17. Martii 1710, hafa þeir sett þar undir nöfn og innsigli: Árni Magnússon, Jón Halldórsson, prófastr og prestr að Hítardal, Arngrímr Bjarnason, ráðsmaðr í Skálholti, Vigfús Jóhannsson heyrari í Skálholts skóla og Þórðr Þórðarson, skrifari Árna. Hin blöðin eru öll auð. Eptir þessari afskript er hèr prentaðr allr síðari hlutinn, eptir að skinnblaðið þrýtr, en hún er því orðrètt (en ekki öldúngis stafrètt) samhljóða það sem það nær.

---

[1]) „Stærden ä bokinni sambydr þessu (— contuli —) og mvn þessi relation ad visu sönn vera". athgr. Árna Magn.

[2]) prestarnir segjast hèr rita eptir „kveri", og ef það er annað en ónákvæmt orðatiltæki, þá ætti þeirra afskript að vera tekin ekki eptir þessu blaði, meðan það var heilt, heldr eptir gamalli afskript þess á kálfskinns kveri, sem nú er ekki til.

Þetta er scipan Sømundar Ormssvnar ꝩm allmening i hornafirðe at land oc fiorvr scolv helga þritvgt faꝩðmvm af ꝩt at meðal fløðvm þaðan fra er ofarst fløðer.

með þvi at recalld liggr noccot i þesso tacmarce. þa scal sa einn þat eiga er land a hvart svm þat er meirr æða miðr.

með þvi at recalld er[1] við þetta tac marc fyr ꝩtan scal þat ꝩera almenningr. Sva sem sagt man ꝩera:

ꜳt sa maðr ær annan leirna reca a þar er hvalr er kominn scal eiga af honum ꝩskiptvm enn fimta lvt.

þaðan af scal honom scipta at iamnaðe með þeim maꝩnnvm er erv i hornafirðe scal hverr bonde sa er þing farar kaꝩpe gegnir hvart scm hann er[1] landeigande æða leiglendingr til telia alla þa menn er þeir gefa matgiof fyrir Sva oc þa menn er þeir føra fram at ollv sva at þeir erv til þess scylldir. ef þeir erv ꝩeirra heima menn. [Sva oc þa menn er þeir veita fyr gvðs Sacir tolf manaði[2]. Oc hafa iamicit af hver maðr at ꝩetta tale. þeirra Manna er til erv talðer i þesv tacmarci en tivnda lvt scal gefa af i fyrstv af ꝩ sciptv fatøcum maꝩnnvm scolv hrepstiorar raða hverer þat scolo hafa. þeir scolv oc scipta ollvm hval oc með eið ef þeir verða eigi a sattir ella

tvitvgr hvalr oc meire er til þessa nemð[r][3] en eigi ef minne er.

hvar sem hann kemr i hornafirðe æða i scarðsfirðe scal þesse almenningr vera oc ecce ꝩndan scilit nema þat er i fyrstv er ritat.

festa scal hval ef ma oc ef festan hval recr i brot Sva at[4] festar stvfr er efter þa scal hann fara epter þvi sem log segia.

Með þvi at hval ma eigi festa oc rece hann i brott þaðan oc feste hann annars staðar i hornafirðe æða scarðz firðe. þa scal eige sciptaz eign a ef af er scorinn fimtvngr æða mere þot hann reci ꝩr almenninge. en sciptaz ef minna er af scorit. með þvi at menn greinir a hversv micit af er scorit þa scolv .v. nabvar þess staðar er af var scorit fyrr með eið bera oc scal þat hapa.

1) þetta orð er ritað yfir línunni með sömu hendi.

2) frá [ á spázíu vinstramegin, með tilvísunarmerki og sömu hendi.

3) rifið dálitið af blaðinu í röndinni.

4) yfir línunni með sömu hendi.

Nv rekr hann pt or horna firði p festan þa scal sa eiga er fiorv a. hvar sem kemr. ef recr tiotoge vetta eða meira. þa er þat[1] almenningr at einni fløðe. Scylder scolv þeir menn scip til at fa er eiga. en þeir scolo scipta með ser beinom at iafnaðe epter þvi sem scip ero roen til. Sa maðr er recalld finnr scal scyldr at segia a næsta bæ heima monnom. Með þvi at hann præker scal hann giallda mork hrepstiorom vera oc af hlvt sinna heimamanna ef hann er bvande.

Sa bonde scal scera cross er fvrst er sagt. scal hann bera hverr fra ser. þar til er hann hefer faret allt þetta tacmarc. fara skal cross nøtr oc daga ef eigi talma pfør veðr eða vatna vexter. Til scal hverr bvande cominn aðr ij dægr se liþin fra þvi er hann spyrr. æða fa mann fyrir sek ella vera af hlvt sinna heima manna.

Með þvi at necqverr seinkar crossfør nauðsynia lаſt scal hann giallda morc hrepstiorvm oc vera af hlvt sinna heima manna.

Gialldage a viðrlogom þessom j biarnanese .v. dag þann er næst er epter þat vica er fra liðin. þvi er hvalr fannz. þriar merkr scal varða halldit. søcia i heraþs dome þa er vica er fra liþen gialdaganum. fara ella sem onnur fiarheimta.

Allir buendr þeir er lond atto i hornafirðe handsoloðo sømvndar scipon a þesso male við samðycce[2] allrar alðyðo[2].

---

## 138. i Februar 1246. á Stað i Reyninesi.

Brèf Brands Kolbeinssonar á Stað í Reyninesi til Gizurar Þorvaldssonar, um samband þeirra móti Þórði kakala Sighvatssyni, og um athafnir hans.

Það er kunnugt, að tilraun Sturlu Sighvatssonar að leggja undir sig allt Ísland endaði með falli hans og þeirra feðga á Örlygsstöðum í Skagafirði (21. August 1238). Kolbeinn úngi, son Arnórs Tumasonar (Nr. 96), höfðíngi Skagfirðínga, og Gizur Þorvaldsson, höfðíngi Sunnlendínga fyrir utan Þjórsá, lögðu þá

---

[1]) hèr þrýtr skinnblaðið, og er það sem eptir fylgir prentað eptir afskript Árna Magnússonar o. fl. frá 1710.

[2]) þann. afskriptin frá 1710.

undir sig eignir og goðorð þeirra feðga, það sem þeir náðu. Kolbeinn tók undir sig það sem þeir höfðu í Eyjafirði og háði þar skuldadóm eptir Sighvat, en þegar hann kom frá þeim skuldadómi fèkk hann það mein sem síðan leiddi hann til bana. Kolbeinn var þá mestr höfðíngi fyrir norðan land, og eptir að Snorri Sturluson var dauðr (1241) og Úrækja Snorrason rekinn utan eptir fundinn við Hvítárbrú (1242), var hann mestr höfðíngi á Íslandi. Milli hans og Gizurar Þorvaldssonar hèlzt samband það, sem lengi hafði áðr verið milli Haukdæla og Ásbirnínga í Skagafirði; höfðu þeir nú yfirráð yfir öllu landi frá Eyjafirði að norðan og að Þjórsá að austan. En þetta sama sumar (1242) kom út Þórðr kakali, son Sighvats, í Eyjafirði og smaug úr snörum Kolbeins við annan mann, svo að hann gat komizt til Steinvarar á Keldum, systur sinnar, en síðan gekk hann beint gegnum greipar á Hjalta biskupssyni, fulltrúa Gizurar, og vestr til vina sinna; hóf hann þá flokka á ný á móti Kolbeini, með styrk Vestfirðínga, en gat þó aldrei unnið þann bug á, að Kolbeinn vildi sleppa við hann föðurleifð hans í Eyjafirði. Mitt í þessum viðskiptum andaðist Kolbeinn 35 ára gamall († 22. Juli 1245), og fyrir andlát sitt gjörði hann þá ráðstöfun, að sent var vestr til Þórðar, og voru honum þá boðnar sættir og gefnar upp við hann allar sveitir fyrir norðan Yxnadalsheiði og öll hans föðurleifð, en Brandr Kolbeinsson, frændi Kolbeins únga (bls. 519), fèkk öll hèruð vestan Yxnadalsheiðar og til Hrútafjarðar, það er Skagafjörð allan og alla Húnavatns sýslu, og var þá enn ítrekað samband þeirra Gizurar Þorvaldssonar. Það er líklegt, að Brandr prestr Jónsson, frændi þeirra, sem síðan var biskup, hafi átt mikinn þátt í þessari sætt, og einkum í sátta boðunum við Þórð kakala, því Brandr prestr var við staddr andlát Kolbeins únga. Þá fór Þórðr kakali norðr, og settist á Grund í Eyjafirði, en Brandr Kolbeinsson bjó á Stað í Reyninesi. Um haustið 1245 byrjuðu fylgðarmenn Brands, sem áðr höfðu verið með Kolbeini únga, að flimta og fara með danzagjörð til spotts við Þórð kakala og hans menn, og þó Brandr bannaði þeim, þá dugði það ekki, en Þórðr var ekki sá, sem þyldi slíkt til lengdar, og með millisveim vondra manna var fullkominn fjandskapr og tortryggni komin á milli þeirra Brands og Þórðar á miðjum vetri, en á föstunni (seinast í Februar 1246) sendi Brandr tvo menn sína, Gegni Illhugason og Hámund Þórðarson með eptirfylgjanda brèf til Gizurar Þorvaldssonar, sem lýsir bezt hversu Brandr leit á viðskipti þeirra. Það er og eptirtektar vert, að Gizur er hèr talinn fylgjandi konúngs máli um tilkall eptir Snorra í Borgarfirði, og að Brandr þykist vilja veita að því máli. En Gizur brá ekki skjótt við eptir þetta brèf, þó Brandr beiddi hann styrks, og varð Þórðr fljótari til og fór á hendr Brandi snemma um vorið með flokk, varð þá Haugsness bardagi og hafði Þórðr sigr, en Brandr Kolbeinsson flýði og var drepinn á flóttanum á Róðugrund (19. April 1246). Þessi orusta var svo snörp, „at engi hefir slík

orðit á Íslandi, bæði at fjölmenni ok mannfalli" (Sturl. 7, 42: III, 85). þar fèllu nær fjórutíu manna úr flokki þórðar, en sjötíu af Brandi. Eptir þenna bardaga hafði þórðr vald á öllu því ríki, sem Kolbeinn hafði áðr, allt suðr að Borgarfirði. þegar kom fram á sumarið safnaði Gizur liði og fór norðr í Skagafjörð, lá þá við bardaga enn á ný, en þá sættust þeir Gizur og þórðr á það, að þeir skyldi báðir fara utan, og skyldi Hákon konúngr gjöra út um mál þeirra við þá menn er hann vildi við hafa. Sú sætt færði Ísland einu feti nær frelsistjóni sínu, og var undarlegt að Íslendíngar skyldi ekki sjá það þegar, að konúngr mundi hafa sömu aðferð og refrinn, sem tjaldarnir fengu til að skipta fángi með sèr. Í þetta sinn hafði þórðr reyndar einskonar sigr í gjörð konúngs, að þegar hann kom út um vorið 1247 var hann „skipaðr yfir allt land til forráða" (Sturl. 7, 46: III, 93); hefir því konúngr sætt þessu færi til að eigna sèr yfirráð þar er hann engin átti, og stuðzt í því við tillögur Vilhjálms kardínála, sem var í Noregi um sama mund (sbr. Nr. 139), en að fám árum liðnum komst þórðr að þeirri raun, að hann var kominn í netið, og þótti konúngi þá Gizur betra verkfæri til að þjóna vilja sínum.

Brèf þetta er prentað hèr eptir hinni ágætu skinnbók af Sturlúngu í safni Árna Magnússonar Nr. 122 A í Fol., bls. 181—182 (sbr. Nr. 87 D og 96 A), en það er prentað áðr, og ekki allskostar rètt, í útgáfunni af Sturlúngu 7, 40: III, 80—81.

---

Gizuri þ[or]v[alldz] s[yni] sendir brandr af stað Q[ueðiu] G[uð]z ok sína. fullkomna vinœttu.

slikt it sama er mitt skaplyn̄di vm samband við þik fræn̄di sem ifyrra sumar ræddu vit ok fyrir þvi at ecki min̄kar nauðsyn huarra tueggiu at ver halldimz saman sem bezt.

kyrt mœ kalla vm hagi þorðar allt til faustu igan̄gz. þa giôrðiz marga uega um leitan bæði vm hand saul œ laun̄dum i skaga firði í heraði voru ok heitaz til ok kallat sætta rof ef eigi er uppi lœ́tið. Miðk leita ok þorðar menn sina vini vnðan oss at heimta með þvi liku sem þa verðr hellz við komiz.

Leitað hefir ok verit at semia aðra sætt en aðr var giðr við oss þat er orð tak þorðar at engar megi heilar sættir verða nema hann hafi allan norðlendinga fiorðung under ser at for rœði hann þickiz nv ok allan borgar fiðrð eiga ok kallar þorleif vr gaurðum auruggan vin sinn.

Nv giðr sua uel fræn̄di reyn slika menn sanri raun. þat uilldu ver ok at þu tækir alla kosti af borgar firði eptir boði konvngs þviat oss þikkir þar allgott at at ueita.

Sann spurt höfum ver at þorðr sendi bréf Siguarði biskupi at leyfa ser kirkiu gongu. ok vi mönnum með honum ok þat með at hann skylldi hallda yðr fra mœlum við oss skagfirþinga ok hann hafi þvi heitið. En þat vitu ver at biskup sendi bref steinmoði presti að leiða hann i kirkiu ok sua giörði hann.

vel treystum ver heraðz monnum uel flestum vist ef þu synir þik þar hia oss.

Tregt ueitir oss helldr at fœ giorðar menn þickir uañt ok mikit i at gañga.

Nv at sua komnu aullu þa viliu ver at þer sækit norðr hingat[1] œ vœrn fund sem þv mœtt verða fyrst við lœtinn rœð fyrir at gera ok ecki treystaz menn sambandi nema þu komir brœlla til þvi at ver megvm fyrir aungan mun fyrir sakir hœska heraðs bygðarinnar yðuarn fund sækia.

---

## 139. 16. August 1247. í Björgvin.

Vilhjálmr kardínáli, biskup af Sabina, sendiboði postulegs sætis til Noregs og Svíþjóðar, skipar fyrir um yms atriði viðvíkjandi málefnum kirkjunnar i Noregi.

Þess hefir áðr verið getið, að Hákon konúngr Hákonarson, sem var laungetinn sonr Hákonar konúngs Sverrissonar, var af sumum ekki talinn framar til ríkis borinn en Skúli jarl, frændi hans, og það mun hafa verið margra manna dómr, að rèttast væri þeir skipti með sèr ríkinu að helmíngi. Hákon konúngr kostaði þessvegna kapps um, sem vonlegt var, að gjöra rèttindi sín svo óyggjandi sem mögulegt var, og til þess var á þeim tímum enginn annar vegr, en að leita andlegu stèttarinnar, erkibiskups og páfa. Móðir konúngs varð að bera járn, til að sanna faðerni hans (1218). Síðan var leitað til páfa, að veita leyfi til að konúngr yrði krýndr, því kirkjunnar lög bönnuðu að nokkur sá, sem ekki væri fæddr í löglegu hjónabandi, mætti taka nokkra vígslu, nema því að eins, að hann hefði til þess leyfisbrèf, en krýníng konúnga var einnig kölluð konúngsvígsla, og var ekki framkvæmd nema af hinum æðstu kirkjunnar embættismönnum: erkibiskupum, kardínalbiskupum eða jafnvel af yfirbiskupinum sjálfum, páfanum, þegar mest átti við að hafa. Þessvegna var það sjálfsagt, að enginn gæti veitt leyfisbrèf til slíkrar vígslu nema páfinn. Konúngr leitaði fyrst sjálfr til páf-

1) þngat (þangat), *skb.*

ans um að verða krýndr, en þar var ekki auðhlaupið að, því páfarnir höfðu lært að hagnýta sèr slíkar bænir konúnga og höfðingja. Hið fyrsta svar var, að erkibiskupinum í Lundi í Danmörku og biskupinum í Skörum í Svíþjóð var falið á hendr að rannsaka um málaefni konúngs, og einkum um faðerni hans, og að skýra páfanum frá hvers þeir yrði vísari. það er líklegt, að páfinn hafi í fyrstu valið útlenda menn, til þess að draga málið, og undir því yfirskyni, að þá yrði rannsóknin hlutdrægnislausari. Konúngr gat að sínu leyti eins óskað, að innlendum mönnum yrði falin á hendr rannsóknin, og sendi því mann til Róms, til að mæla á móti að erkibiskupinum í Lundi væri fengið þetta erindi, þareð hann væri sinn mótstöðumaðr. Í brèfi 13. Febr. 1229 (Dipl. Norv. I, 11) lætr páfinn, sem hann hafi sannfærzt af mótmælum konúngs, og þareð sú fullgilda ástæða var komin til þar ofaná, að báðir hinir tilnefndu fyrri rannsóknarmenn voru dauðir, þá felr hann nú þóri erkibiskupi í Niðarósi og Árna biskupi í Björgvin að fullgjöra rannsóknina. En þessu varð ekki heldr framgengt, því þórir erkibiskup andaðist árið eptir, og Árni biskup þóttist ekki einnsaman bær um að fullgjöra málið, beiddi því konúngr enn á ný, að menn yrði settir til þess með Árna biskupi. Eptir þessari beiðni skipaði páfinn með brèfi 9. Septbr. 1231, að Áskell biskup í Stafángri og ábótinn af Cistertia-klaustri Stanley á Englandi skyldi vera með Björgvinar biskupi í rannsókninni (Dipl. Norv. I, 12). þessir rannsóknarmenn gjörðu ekkert og lá málið í salti nær því um tíu ár. Hákon konúngr hafði nú unnið Sigurð erkibiskup að fullu og öllu sèr til fylgis, og eptir að Skúli hertogi var fallinn hefir konúngr án efa fundið, að betra væri að fara ekki beina veginn eins og áðr, heldr í krókum, og nota sèr erkibiskupinn, en erkibiskup hugsaði sèr að sínu leyti að ná nýrri staðfestíng hjá konúngi á hinum fornu rèttindum Niðaróss kirkju, sem Eysteinn erkibiskup vann af Magnúsi Erlíngssyni þegar hann var krýndr (sjá Nr. 39 hèr að framan). Erkibiskupinn og biskupar skrifuðu því til páfans konúngs vegna, og í brèfi 8. Juli 1241 skipar hann enn ábótanum af Mikjálsklaustri í Björgvin og Prèdikara prior í Noregi, að rannsaka og senda skýrslu til páfastólsins um konúng og erfðarètt hans. þessi rannsókn fór þó eins og hinar fyrri, og þegar konúngr fèkk ljósa vitneskju um, að erkibiskup og klerkastèttin hafði í hyggju að nota sèr krýnínguna til að auka vald sitt fram úr hófi (Hákonar saga kap. 247), tók hann á ný sitt fyrra ráð og sendi tvo menn til páfa með erindi sín; fèkk hann þá loks það svar í brèfi 30. Oktbr. 1246, að páfinn mundi senda Vilhjálm kardinal-biskup af Sabina til Noregs og Svíþjóðar, og biðr konúng taka honum vel (Dipl. Norv. I, 30), en nokkrum dögum síðar (3. Novbr. 1246) skrifar páfinn brèf til „erkibiskupa, biskupa, ábóta, priora, dekana, erkidjákna, prófasta og annara kirkjunnar forstöðumanna nefndra og ónefndra, og allrar klerkastèttarinnar, einnig til tiginna manna:

jarla, lendra manna og allrar alþýðu í Noregi og Svíþjóð," um að taka „glaðlega og auðmjúklega" móti þessum sendiboða, einsog öðrum „sælunnar engli" (Dipl. Norv. I, 31); og sama dag skipar hann Vilhjálm kardínála sem postulegan sendiboða til Noregs og Svíþjóðar, til þess að krýna Hákon konúng í páfans umboði, eptir að hafa ráðgazt þar um við biskupa og höfðíngja ríkisins (Dipl. Norv. I, 32). Nú var ekki heldr lengr talað um rannsóknir um faðerni konúngs eða erfðarètt, því nokkrum dögum síðar, í brèfi 8. Novbr. 1246, leysir páfinn Hákon konúng af öllum annmörkum getnaðar hans, og lýsir hann hæfan til konúnglegrar tignar, og skilgetna[1] erfíngja hans eptir hann (Dipl. Norv. I, 38); er það ljóst til að sýna, af hverjum rökum hinar fyrri rannsóknir hafa verið skipaðar. Mattheus frá París segir, að Laurentius ábóti, enskr maðr, sendiboði Hákonar konúngs 1246, hafi borgað páfanum 30,000 merkr silfrs fyrir lausnarbrèfið og krýníngarleyfið (Matth. Paris. við ár 1251. ed. Wats, bls. 703).

Vilhjálmr kardínáli hafði verið um mörg ár erindsreki páfans í Líflandi og Prusslandi, til að standa þar fyrir kristniboði og koma á reglulegri kirkjustjórn; hann var því reyndr og æfðr embættismaðr kirkjunnar, og ekki ókunnugr Norðrlöndum, því hann hafði enda einusinni komið norðr yfir Eystrasalt og stigið á land á Gotlandi. Honum var því falið á hendr, um leið og hann skyldi krýna Hákon konúng, að skipa fyrir um andleg málefni í páfans umboði bæði í Noregi og Svíþjóð. Hann fór fyrst til Englands og var þar um vorið 1247; segir bróðir Mattheus frá París svo frá, að hann hafi dregið saman á Englandi 4000 merkr silfrs. Menn rèðu honum þar frá að ferðast til Noregs, því menn sögðu að fólk þar væri illa siðað, og svo fátækt, að hann fengi þar ekki ætan mat, nè annan drykk en blöndu, en hann lèt ekki þetta aptra sèr, heldr bjó hann sig frá Lynn með mestu viðhöfn og kostnaði, og lenti í Noregi nærri Björgvin 17. Juni. Hákon konúngr hafði hinn mesta viðrbúnað, og hafði safnað til sín öllu stórmenni í ríki sínu, og tók vegsamlega á móti kardínálnum. Áðr en konúngr var vígðr undir kórónu var reynt til á ymsa vegu að fá hann til að auka rèttindi kirkjunnar, á sama hátt og erkibiskup hafði áðr farið á leit, en konúngr vissi nú betr en fyr hvernig vegrinn lá, og vísaði öllum slíkum tilmælum aptr einarðlega, en lèt pýngjuna klíngja undir eyra kardínálnum, og hann skildi það svo vel, að hann gjörði síðan allt hvað konúngr óskaði. Krýníngin fór fram eptir ósk konúngsins á Ólafsmessu dag (29. Juli), með mikilli viðhöfn, svo sem sagt er frá í sögu Hákonar konúngs (kap. 253—254: Fornm. s. X, 14—17), og stóð sú hátíð í

[1]) Hákon konúngr hafði sjálfr (1240) látið gefa konúngs nafn Hákoni syni sínum, sem kallaðr var Hákon konúngr úngi, og var elzti sonr hans skilgetinn, en gengið framhjá Sigurði syni sínum óskilgetnum, sem var þó eldri og fæddr áðr en konúngr kvongaðist.

8 daga (29. Juli til 7. August). Eptir það stóð ráðstefna og umræður um landsmál andleg og veraldleg frá 8. til 17. August, og eru sum af aðalatriðunum í ályktunum þessa þíngs auglýst í tveim brèfum kardínálans, frá 16. og 17. August, sem enn eru til. Eptir þetta bjóst kardínállinn til brottferðar og var leystr með gjöfum úr garði; þar að auki fèkk hann af konúngi 15000 merkr sterlínga, og frá klerkastèttinni í Noregi 500 merkr handa fèhirzlu páfans. Kardínállinn lagði leið sína austr með landi, og austr til Svíþjóðar, var hann þar um vetrinn eptir og fram á næsta sumar, og kom að næsta hausti til Rómaborgar, en hann andaðist 1251, og var kallaðr heilagr maðr.

Það var að vonum, að svo slúnginn maðr og fastheldinn við uppátæki sín, sem Hákon konúngr var, mundi ekki spara að nota sèr kardínálann til að koma fram málum sínum á Íslandi. Í öllum sínum lymskubrögðum móti Íslendíngum og þjóðfrelsi þeirra hafði hann aldrei beitt neinu ráði sem sýndist meinlausara en þetta, og þó kann vera að það hafi gjört meira að verkum en vèr höfum nú sögur af. Hákon konúngr hefir án efa sèð um, að atkvæði kardínálans yrði kunnugt á Íslandi, og gjört sem sterklegast, og það hefir án efa meðal andlegu stèttarinnar verið tekið sem boðorð páfans, er menn væri skyldir að fylgja, sljófgað mótstöðu höfðíngjanna og í augum alþýðu hafið upp málstað þeirra, sem fylgdu konúngi og hans vilja móti rèttindum landsmanna, því svo hafði magnazt klerkavaldið á Íslandi um hin seinustu fimmtíu ár, að síðan Snorra Sturluson leið hafði enginn leikmanna vit eða þrek til að segja líkt og Jón Loptsson fyrrum: að páfinn í Róm eða hans kardínáli mundu hvorki vita betr nè vilja en hinir fornu Íslendíngar, sem unnu þjóðfrelsi sínu og höfðu bæði vilja og góða greind á að gæta þess. Um haustið eptir Haugsness fund (1246) höfðu þeir Gizur Þorvaldsson og Þórðr kakali Sighvatsson farið báðir á fund Hákonar konúngs, og það sjálfkrafa, eptir því sem er að sjá, til þess að festa mál sín á hans dóm. Konúngr hèlt þeim báðum við hirð sína um vetrinn, og hafði stefnu um mál þeirra, en sagði engan úrskurð. Þó höfðu þeir ekki vit á að sættast sjálfir, og jafna svo mál sín og lands síns, að konúngr þyrfti ekki að fjalla um þau. Um vorið eptir var vígðr Heinrekr biskup Kársson til Hóla, norrænn maðr og einn af traustustu verkfærum Hákonar konúngs bæði í Noregi og á Íslandi, þó hann væri þar ekki nema fimm ár af þeim þrettán, sem hann var biskup. Þar er enginn efi á, að Sigurðr erkibiskup hefir valið þenna mann konúngi til vilja og til að fylla flokk hans, og skotið honum inn á Íslendínga. Heinrekr biskup var við krýnínguna í Björgvin, og fann konúngr þá tíma kominn til að segja úrskurð um mál þeirra Gizurar og Þórðar, og höfðu þeir þar við mest atkvæði kardínállinn og Heinrekr biskup. Konúngr dró fram hluta Gizurar það sem hann gat, því þeir áttu betr saman en Sturlúngar og hann; eigi að síðr vann þó Heinrekr það á, að Þórðr hafði sigr í þetta

sinn; enda er það og auðsætt, að biskup, sem átti að fara nýr og ókunnugr til stóls síns, muni hafa gjört allt hvað hann gat til að koma sèr við Þórð, sem átti þá alls ráð fyrir norðan land, og reyndar á öllu Íslandi, þar sem Gizur átti einkis ráð nema fyrir sunnan, eptir að hann hafði mist vald sitt í Skagafirði eptir Haugsness bardaga. Í sögu Hákonar konúngs (kap. 257: Fornm. s. X, 23) er sagt frá málalokum á þann hátt: „þá fór sú skipan til Íslands með ráði kardínála, at sú þjóð, er þar bygði, þjónaði til Hákonar konúngs, því at hann kallaði þat úsannligt, at þat land þjónaði eigi undir einhvern konúng, sem öll önnur í veröldinni. Þá var sendr út Þórðr kakali með Heinreki biskupi; skyldu þeir flytja þat eyrendi við landsfólkit, at allir játtaðist undir ríki Hákonar konúngs, ok slíkar skattgjafir, sem þeim semdi . . . Gizur Þorvaldsson var eptir í Noregi". En í Sturlúnga sögu (7, 46: III, 93) er sagt frá á þann hátt, að „Hákon konúngr lèt þá Gizur ok Þórð kæra mál sín svâ at kardínállinn var við, ok lèt tjá honum alla málavöxtu þeirra". Kardínálnum þótti Þórðr hafa orðið fyrir skakkanum og „vildi hann þat eitt heyra, at Þórðr færi þá til Íslands en Gizur væri þar eptir, kvað þat ok ráð, at einn maðr væri skipaðr yfir landit, ef friðr skyldi vera. Þá var ok vígðr Heinrekr biskup til Íslands, til Hólastaðar, ok dró hann mjök fram lut Þórðar við kardínálinn ok svâ við konúnginn . . . . Um sumarit Ólafsmessu var Hákon konúngr vígðr undir kórónu . . . . Þá var þat ráðit, at Þórðr skyldi út, ok var hann þá skipaðr yfir allt land til forráða, en Gizur var þá eptir, ok þótti honum þat allþúngt, var honum þá skipuð sýsla norðr í Þrándheimi. Þorgils frændi Þórðar var þá eptir hjá konúngi, svâ sem í nokkurri gislíngu fyrir Þórð til trúnaðar við konúng". Hvorug þessi frásögn gefr neina átyllu til að halda, að kardínállinn hafi ritað neitt brèf til Íslands (Munch IV. 1, 277), þar á móti gæti menn skilið svo Hákonar sögu, sem konúngr hefði sent til Íslands brèf um það, að heimta umráð yfir landinu, og að Þórðr kakali hafi tekið við því umboði konúngs brèflegu, að hann skyldi ráða yfir landi og heimta skattgjald af landsmönnum; en eptir frásögnum Sturlúngu er ekki að sjá sem Þórðr hafi birt nein brèf, eða farið fram á við landsmenn um neinn skatt handa konúngi, svo að líklegast er að allt hafi verið í munnlegum samníngum þeirra á milli; en þau brèf sem hann hefir haft frá konúngi, hafi þau nokkur verið, hefir hann ekki haft til annars, en til að sýna þau í læmíngi, þar sem honum hefir þótt hlýða, til að auka vald og álit sjálfs sín; og þarmeð sjáum vèr ástæðuna til, að hinn fasti njósnari konúngs, Heinrekr biskup, bar honum að skömmu bragði þann vitnisburð, að hann reyndi að koma landinu undir sig sjálfan, en ekki undir konúng, og fyrir þá sök stefndi konúngr Þórði utan með brèfi 1249, og gegndi hann því og fór utan árið eptir; er það því auðsætt, að Þórði hefir þótt það eina ráð um þessar mundir, að halda vináttu við Hákon konúng, og reyna með því móti að hleypa fram af sèr

snörunni, sem komin var um háls honum, en honum tókst það ekki. En þó kardínállinn hafi ekki skrifað brèf til Íslendínga, er það allíklegt, að hann hafi látið sèr um munn fara, að Ísland hefði eiginlega enga stjórn, af því þar væri enginn konúngr yfir, og þessvegna væri slíkr ófriðr í landi; en hann gætti ekki þess, að sá stóð nærri honum sem efldi og æsti allan þann ófrið, sem var Hákon konúngr sjálfr. Það er ekki að efa, að Heinrekr biskup muni ekki hafa sparað að brýna fyrir Íslendíngum orð kardínálans, og það, að öll sæla landsmanna væri undir því komin, að þeir felldi sig til hlýðni við Hákon konúng og gyldi honum skatt.

Af brèfum þeim, sem Vilhjálmr kardínáli gaf út í Noregi, eru þau tvö merkilegust sem fyr var getið, og þó þau snerti ekki Ísland sèrílagi, þá sýnist sem þau hafi snemma komið þángað í útleggíngum og ágripum. En svo að samanhengi brèfanna verði mönnum ljóst, þá tökum vèr hèr fyrst frumbrèfin á Latínu, þar næst með hverju brèfi útleggíngar þess, og að síðustu ágripin. Eptir því sem sagt er frá í sögu Hákonar konúngs, þar sem talið er upp nokkuð af boðorðum kardínálans (Hákonar s. kap. 255: Fornm. s. x, 21—22), þá höfum vèr þó ekki brèf hans um það, sem einna merkilegast var, er hann, sem sagan segir, „fyrirbauð járnburð, ok sagði, at þat bar cigi kristnum mönnum at særa guð til nokkurs vitnisburðar um mál manna", en í þess stað innleiddi hann vitnaleiðslur. Þó að járnburðr hafi aldrei verið mjög tíðkanlegr á Íslandi, og sè ekki nefndr í kristinrètti hinum forna (1123), þá var hann þó leyfileg sönnun eptir Grágás í stöku tilfellum (Jón Árnason og Jón Eiríksson í Inddedn. til den Isl. Retterg. 1762, 4to. bls. 180—181; Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 177—179) og þess finnst getið á stöku stöðum, að slíkar skýrslur hafi verið framdar á Íslandi allt fram undir þessa tíma, en aldrei síðan. Svo gæti og hafa verið um sum önnur boðorð kardínálans, að þau hafi verið birt og höfð fyrir lög á Íslandi eptir því sem mönnum hefir þótt við eiga, en ekki framar, og til þess mun það miða, að Skálholts annáll hinn forni telr „boðorða breytni" á Íslandi árið 1248, því þá gátu brèf kardínálans um aftekníng járnburðar verið birt og að nokkru leyti lögtekin á Íslandi á alþíngi um sumarið.

Vèr skulum fyrst skoða brèfið frá 16. August 1247, og er þar í fyrstu grein talað um kirkna ráðin svo sem þau voru í Noregi; þessi grein átti ekkert skylt við ástandið á Íslandi, því bændr höfðu þar enn ráð yfir flestum kirkjum og kirknaeignum, nema í Austfirðínga fjórðúngi, og vèr verðum ekki varir við, að hinir norrænu biskupar, sem um þetta mund voru á Íslandi, hafi gjört neinar tilraunir til að koma því á, sem kardínállinn telr „skyldu" kirkjunnar, að enginn leikmaðr hefði ráð yfir hennar gózi. — Um hið annað atriði, kosníng biskupanna, var á Íslandi engin eiginleg föst regla, því Íslendíngar höfðu áðr kosið sjálfir og erkibiskup staðfest, en af því að þar voru engir kórsbræðr

(*capitula*) við biskupsstólana tók nú erkibiskup kosníng undir kapítulann í Niðarósi í hvert einstakt skipti, og það sýnist um þetta mund, sem Íslendíngar hafi ekkert atkvæði haft og þó engin mótmæli hafið, en síðan kom atkvæði þeirra framar til greina, þegar tímar liðu, og kusu þeir þá biskupsefni á samkomum eða á alþíngi, líkt eins og í fornöld hafði verið. — Um hið þriðja atriði, fyrir hverjum mál skuli sækja, kemr ekki vottr fram að sinni á Íslandi, en í tíð Árna biskups Þorlákssonar er skrásett um þessa grein. Hin fimta greinin sýnist líklegust til að hafa verið notuð af fylgismönnum konúngs á Íslandi, og hin sjötta gat átt allstaðar við, sömuleiðis og hin sjöunda. Á brèfinu öllu samanteknu er auðsætt, að það muni ekki útgefið með neinu tilliti til Íslands, en efni þess er svo lagað, að það gat gefið átyllur til að byggja á því og styrkja þar með vald klerkanna og konúngsins; þetta sýna ágrip þau, sem til eru og hèr fylgja á eptir brèfinu.

---

A.

Brèf þetta er á Latínu til í tveim afskriptum með hendi Árna Magnússonar; hefir hann ritað aðra þeirra meðan hann var hjá Bartholin, á ýngri árum sínum, og er hún í því safni sem Bartholin hefir eptirlátið sèr og nú er í bókhlöðu háskólans í Kaupmannahöfn, Barthol. IV [E], bls. 370—372; hefir Árni ritað það eptir gamalli brèfabók á skinni, sem hafði verið við biskupsstólinn í Björgvin, en síðan kom í bókasafn háskólans í Kaupmannahöfn og brann þar 1728. Á þessari bók hafa verið flest brèf frá þrettándu öld og fyrra hluta fjórtándu aldar, til 1340. Eptir þessari afskript Árna er brèfið prentað í Norges gamle Love I, 450—451. Önnur afskript með hendi Árna er í pappírs-afskriptum í safni hans, Nr. 15, og vita menn ekki hvaðan sú er tekin, en hún er að mestu hinni samhljóða; eptir henni er brèfið prentað í Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 568—569, og í Thorkelins Diplomatar. Arna-Magnæan. II, 28—29. Þormóðr Torfason hefir ekki haft brèf þetta á Latínu, en hefir snúið því úr Norrænu og er það prentað í hans Histor. Norveg. IV, 252—253.

---

Privilegium Wilhelmi Sabinensis.

Willelmus miseratione divina Sabinensis Episcopus, Apostolicæ sedis legatus, Universis Christi fidelibus præsentes literas inspecturis, Salutem in nomine Jesu Christi.

Cum in Norwegia legationis officio fungeremur, propter verbum Dei et coronationem regis, convocatis Archiepiscopo et suffraganeis ejus, qvi vocari poterant, et aliis prælatis et clericis, nec non baronibus regni, multas habuimus prædicationes publicas et colloqvia multa cum rege et omnibus Supradictis, et de multis Capitulis tractatum fuit inter nos, et etiam disputatum.

1. Consideratis autem omnibus, invenimus Ecclesiam Regni Norwegiæ in plena, qvieta et pacificâ libertate jurisdictionis omnium causarum spiritualium, inter qvoscumqve qvestio verteretur, et omnium clericorum, sive spiritualiter sive temporaliter, ex delicto vel qvasi, ex contractu vel qvasi, contra ipsos qvestio moveretur.

Similiter jus patronatus in omnibus Ecclesiis et capellis invenimus prædictam ecclesiam Norwegiæ liberè et integrè ac pacifice possidere, exceptis tribus capellis, de qvibus qvestio erat inter Reginam Norwegiæ et Episcopum Stawangrensem;

super qvibus coram nobis sic transactum et concordatum fuit, ut Regina in vita sua, et filii ejus post eam, habeant jus patronatus in eis; sed nùllatenus transeat ad nepotes, sed ad Episcopum et Ecclesiam Stawangrensem integrè et liberè revertatur, qvia et, tempore transactionis, erat Ecclesia et Episcopus Stawangrensis in ejus possessione liberâ et qvietâ;

2. Electiones qvoqve Episcoporum et omnium prælatorum liberè invenimus fieri, nullis reqvisitis laicis, sed per solos clericos, ad qvos jus eligendi, secundum jura canonica, pertinebat;

3. Unde super hiis omnibus in prædicatione publicâ monuimus universum populum, coram Rege vel Archiepiscopo et Episcopis, ac aliis prælatis regni; qvod si qvis haberet aliqvid agere contra Archiepiscopum, recursum haberet ad dominum Papam vel ejus legatum; si autem contra Episcopum, Archiepiscopo conqveratur; si vero contra clericum, adeat dyocesanum ipsius. Si vero Layco moveatur qvestio de spirituali causa, apud dyocesanum episcopum conqveratur.

Cæterum si de causa temporali fuerit contra laicum qvestio, sive laycus sive clericus conqveratur, apud dominum Regem, vel ejus judices suam justiciam proseqvatur.

4. Preterea si qvis, contempto judice et judicio, ut supra dictum est, alterius possessionem rei immobilis sev juris,

propria auctoritate et voluntate attemptaverit ingredi violenter, noverit se excommunicationis vinculo innodatum.

5. Jtem excommunicamus[1] ibidem singulos et universos, qvi contra Regem et Regnum Norwegiæ insurgere, vel pacem regni attemptaverint perturbare.

6. Jtem excommunicamus[1], qvicumqve Sanctimonialem interpellaverit de fornicationis peccato.

7. Super istis autem excommunicationibus et aliis, qvas in Regno Norwegiæ fecimus, dyocesanis perpetuo committimus vices nostras; statuentes, ut qvicumqve inciderit in eas, vel in aliqvam earundem, et voluerit converti ad dominum, et satisfacere de peccato, dyocesanus ejus ipsi juxta ecclesiæ formam beneficium absolutionis impendat.

Datum Bergis xvij. kal. Septembris, Pontificatus Domini Jnnocentii papæ qvarti anno qvinto.

---

## B.

Af hinu undanfaranda brèfi er til útleggíng, sem líklega er samin í Noregi, og er nú til á þrem bókum. Hin bezta þeirra er með hendi Árna Magnússonar, rituð með fljótaskript, eptir skinnbók, sem virðist hafa verið frá fyrra hluta fjórtándu aldar, og var í hinu forna bókasafni Kaupmannahafnar háskóla, sem brann 1728; þessi afskript er í hinu fyrnefnda safni Bartholins III [D], bls. 813—815. — Önnur afskript nokkuð afbökuð að málinu til er á skinnbók í safni Árna Magnússonar Nr. 65. 4to., bls. 157—158. Sú bók hefir verið í Noregi, og var seinast í eign Þormóðar Torfasonar, áðr en Árni fèkk hana af ekkju hans. Þar er á brot af Gulaþíngsbók Magnús konúngs, þar eptir rèttarbætr, frá 1280 til 1318, síðan Bjarkeyjarrèttr og Farmanna lög, en seinast Kristinrèttr Jóns erkibiskups; en á undan kristinrèttinum er þetta brèf Vilhjálms kardínála og ein rèttarbót Hákonar konúngs háleggs, rituð á tveim blöðum með annari hendi, sem sýnist vera yngst þeirra sem á bókinni eru, en þó eigi yngri en 1350. Eptir þessari bók er brèfið prentað í Norges gamle Love I, 451—452. — Hin þriðja afskript

---

1) *Árni hefir gjört orðið að:* excommunicavimus, *en útleggíngin er með hinu.*

er á skinnbók, sem inniheldr Bjarkeyjarrètt fyrir Niðarós kaupstað, og er nú í hinu mikla bókasafni konúngs í Kaupmannahöfn: Gamle kongel. Saml. Nr. 3262 í 4to, en sú bók er rituð 1576.

---

Wiliallmur med guds miskun biskup af Sabina legate pafvans af Rom sendir ollum guds vinum þeim sem þetta bref sia edur hðyra. q[ueðiu] g[uds] oc vars herra Jhesu christi.

þa er ver vorum i Norighi i Legata starve af pafvans vegnat af rom til þess at predica guds ordh, sva oc saker þerss at konghurinn skildi krunast þa letom ver saman kalla Erkibiskupinn oc alla liodbiskupa i landeno oc sva alla adra formenn heilagrar kirkiu oc merkilegasta klerka oc barruna alla þa sem i varo rikinu er saman mattho kallast oc hafdum ver marghar predicaner opinberligha oc sva morgh samtol med konghinum oc ollum fyrnemdum monnum oc var tala var i millim bede um þa luti sem heillaghre kirkiu vardade oc sva kongdominum

1. sidan ver hafdum skodat oc hðyrtt alla þa luti sem oss bar til at gera þa funnum ver heilagha kirkiu i Norighi vera i fullum nadom oc ollom oc allt sitt frialse hafva i ollum þeim lutum sem henne bar til at hafva bede af lerdoms veghnat oc sva af krununnar veghnat

oc sva funnum ver heilagha kirkiu hafva oc eigha alla sina skylldu þa sem henne bar til at hafva oc eigha fra fornu oc nyiu fullkomligha oc frialsligha a malghalaust firer hveirium manne utan þriar Capellur vauru þer at drottninghin af Norighi oc biskupinn i stafanghre hafdu sva gortt sin i millim

at drottninghin skildi eigha þer Capellur medan hennar lif vere oc sva hennar synir eftir hena, en med engho mote skildu hennar barnna born eighnast þer Capellur utan þer skildu aftur falla eftir þeirra dagha undir biskups stolenn i Stafvangre, þvi at biskups stollenn i Stafvanghre hafde át þer Capellur adur en drotninghin kðmest ath.

2. Sva oc um kostningh biskupanna oc allra annarra formanna heilaghrar kirkiu funnum ver at þeir varo frialser um sik sva at enghir leikmanna lutado ser þar i, utan þeir einir

saman klerkanner hafdu ser þar kostningh er kiosa skildu ser þar formenn efter loghum heilaghrar kirkiu,

3. þar med letom ver predica openberligha oc mintum ver konghinn a oc krununa Erkibiskupinn oc alla adra liodhbiskupa oc alla adra formenn heilaghrar kirkiu baruna oc allan almughan i landeno at hver sem kera villde mote Erkibiskupe þa skilde hann fara til pavans oc kera sik þar ellighur firer hans legata, En ef nokor vildi kera i mote biskupi þä skildi han kera sik firer Erkibiskupi hans En ef nokur vilde kera ä prest þa skilde han kera sik firer biskupi hans, Hefði oc nokor Leikmadur at kera andalight malefnni þa skilldi han kera firer biskupi hans,

En hver sem hefde veralleght mallefnni hvart sem han vere helldur prestur edur leikmadur þa skildi han kera firer kongi ellighur firer þeim domara sem konghur heifvir til skipat at gera rett manna i millim,

4. En hver sem firersmaar domaran oc vil eighi domen standa oc heldur annarra manna eighur mote loghum oc rettendum oc vil engan retth standa þa skal han vita sik falla i ban bede guds oc manna

5. sva oc seitium ver i ban alla þa er up risa i mote konghe sinum oc vilia gera ofridh i landeno,

6. Jtem alla þa setium ver i ban er Nunnur vilia taka naudghar,

7. Um þessar bans pinur oc allar adrar þer er ver budum i Norighi þa fam ver valld vart biskupum þeirra er i þvilik storfelli oc stormeli kunnu i falla at þeir meghi lőysa þa af ef þeir vilia betra sik oc bőta vidur gud oc men,

Datum Berghis xvij kal. Septembris, Pontificatus Domini Innocencii pape qvarti anno qvinto.

---

C.

Ágrip af hinu undanfaranda brèfi Vilhjálms kardínála eru til í nokkrum fornum íslenzkum handritum, og sýnir málið á þeim, að þau muni þó vera tekin eptir öðrum eldri. þessi ágrip eru :

1. Eptir Skinnastaðabók, Nr. 136 í 4to. í safni Árna Magnússonar, bls. 285—286. Skinnbók þessari og efni hennar er lýst hèr að framan, bls. 67—68, og er hún frá hèrumbil 1480. Eiginlega er ágrip þetta hið sama einsog síðari hlutinn af statútu Jóns

erkibiskups frá 1280, svo sem hún er í hinu styttra formi (Norges gaml. Love III, 240—241), og þar við bætt skipunum, sem eru áþekkar greinum í statútu Gyrðs biskups 1359 (Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 113). Það er auðsætt, að þetta ágrip er að nokkru leyti byggt á því brèfi kardínálans, sem hèr er á undan, en ekki hinu eptirfaranda (Nr. 140); eru þó hèr mörg atriði önnur, og hafa verið enn fleiri, því niðrlagið vantar. Sturla Þórðarson getr þess einnig, að kardínállinn hafi gjört „margar skipanir aðrar", sem ekki eru taldar í sögunni (Hákonar s. Hákonars. kap. 255: Fornm. s. X, 22) og ekkert af þessum atriðum er þar talið.

2. Eptir skinnbók frá hèrumbil 1550—1570[1], í safni Árna Magnússonar Nr. 45 í 8vo. Þar er fremst brot af Jónsbók, sem nær aptr í 6. kap. í þíngfararbálki. Þar næst fylgir ágrip af Rèttarbót Vilhjálms kardínála um eignir kirkna (Nr. 140 hèr á eptir). Þá er ágrip það, sem hèr er prentað, af Rèttarbót kardínálans um uppreisn móti konúngi, ágáng á fasteignir manna, o. s. frv., bls. 18—19. Þar eptir fylgir brot af frumvarpinu til gamla sáttmála, og brot af sáttmálanum við Hákon konúng hálegg frá 1302. Þá koma brot af forsögnum (*formulæ juridicæ*) og þar eptir fjöldi af rèttarbótum, er ýngst þeirra hin fyrnefnda staðfestíng Kristjáns annars frá 1507 á rèttarbótum Hákonar konúngs. Víða vantar í þessa bók. Það ágrip, sem hèr fylgir eptir, hefir ekki verið áðr prentað á Íslenzku, en dönsk útleggíng af því er prentuð aptan við hina dönsku Jónsbók (Khavn. 1763. 8vo), bls. 403.

3. eptir Hvanneyrarbókinni (AMagn. Nr. 186. 4to), sem lýst er hèr að framan Nr. 38, bls. 218—220; er þetta ágrip þar sem kapítuli í Kristinrètti Árna biskups, á bls. 58—59 í skinnbókinni, en það er prentað eptir henni í Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 235 athgr. c.

---

## 1.

Vm [skipanir Vilhialms kardinala][2].

Þa er vilhialmr kardinalis var sendr til noregis med herra pafans [bode] ok legata valldi gerdi hann þær skipanir. at hver sem at med afli gengi jnn j anars manz fasta eign eda rettindi af

[1] Það er án efa prentvilla sem stendr í Norg. gamle Love I, 461, að þessi bók sè frá fimtándu öld, því þar stendr rèttarbót Kristjáns annars um staðfestíng rèttarbóta Hákonar konúngs (bls. 23—25 í skinnbókinni).

[2] fyrirsögn rauð, og einúngis fyrsta orðið. Upphafsstafr rauðr.

sialfs sins valldi ok vilia af sialfv verkinv er hann gerdi se hann med bansetningar banne bvndinn.

Þat fylgir ok til þess at eigi skvlv rans menn af flærd sinni ok rangindvm þarfindi taka ef þessir hlutir eru klerkanna eign eda kirkna eda þeirra valld. þa skal ransokin dæmaz af kirkiunnar domara.

Jtem hefir Jnnocencius pafvi skipat at almenniligv þingi. at þeir menn sem gera þeirra skipanir eða venivr sem helldr mega kallaz ouenivr er j mot ganga frelsi heilagrar kirkiu. þa falla þeir j bann fvlkomlega ok bansetning af sialfs sins verki.

Svo ok þeir sem þa skipan rita eda eptir þeim dæma. ok sua þeir sem slikvm domvm lysa eða birta almenniliga eda eptir þeim logum eda setningvm bref eda bodskap eru dæmdir til minkvnar frelsis heilagrar kirkiv eda valldz biskupsins.

Sua eru þeir ok bansettir sem navdgan klerk draga til leikmanna doms at dæma kirkivnar goz eda þeirra þeim ecki epptir spvrdvm ok j moti mælindvm.

Sua ok þeir sem med valldi ok kvgan lata leysa sig af banni ok forbodi.

sua bansetium ver alla þa sem dirfaz vpp at risa j moti herra konunginvm ok noregs riki eda rvgla med verki eda radi frid rikissins.

Jtem furbiodvm ver at klerkar eda leikmenn hlavpi jnn j nvnnv setur ok klaustr at logligri sok ok skynsamligri. hvat er klerkar þa skvlv missa sitt embætti. En leikmenn skal forboda ok bansetia ef þeir vilia eigi af lata.

Eigi skulv fleiri takaz j klavstr jnn en þeir megi an vesolld lifa af gozi klavstvrsins.

Þat furbiodvm ver ok sterkliga at nock[u]r klavstra madr brodir eda systir hafi ser eginligt goz. helldr se ollvm allir hlvtir sameiginligir ok fai formadr klavstursins hverivm sem þarf epter þvi sem þa er stadurin rikur.

En ef nockur finz hafa eiginligt. þa er andaz þa skal sa eigi hafa kristina manna gropt.

Prestar allir er kirkiu hallda skulv jafnan œ þeim sitia ok jnnan soknar vera ok hvergi logvistvm bvrt vtan fvlla navdzsyn.

Er ok ollvngis fvr bodit at fara[1] . . . . . .

1) niðrlagið vantar í skinnbókina.

## 2.

R[ettar] B[ot] vilhialms [Cardinala].[1]

Þessar skipaniʀ baud og setti [Vilh]ialmur Cardinalis med ʀadi og vilia Hakonar kongs.

at sa skylldi bansettur ver[da sem] dirfdizt at ʀisa vpp j moti Herra [kongin]um og Noregs ʀiki eda ruglar med verk[um eda] radi frid: ʀikisins.

Og þat einginn [madur sky]lldi jnnganga med afli edur ofʀiki j [annars] manz fasta eign edur ʀettindi

og eigi skylldi fleiri menn jnn takazt j klaustrin eñ þat þeir mættu an vesalldar lifa af [kl]austursinz Gozi.

Og þat einginn klaustra madur brodir eda Systiʀ hafi sier [ne]itt eiginlegtt godz helldr skylldi aull[um] alliʀ hlutiʀ j klaustrino sameiginligir vera:

Og formadur klaustursins fai sier huorium sem þarf eptir þui sem þa er stadurinn ʀikur til.

Eñ ef nockur finzt hafa eiginlegtt þa er hann andazt þa skal sa ei hafa kristinna manna groptt.[2]

## 3.

Capitulum wm helgi[3].

Þa er vilhialmur cardinalis var sendr til noregs med herra pauans bode ok legata uallde þa giorde hann þær skipaner. at huerr sem med afle geingur jnn j anars manz fasta eign edur rettinde. af sialf[s] sins uallde ok uilia. af þui sialfu verkinv er hann giorde. se hann med bannsettningar bandi bundinn.

þat fyllger ok til þess at eigi skvle ransoknare[4] af flærd sinne ok rangindvm þarfinde taka. Ef þessir hlutir ero kirkna eign edur klerka edur þeirra uolld. þa skal ransoknin dæmazt af kirkiunar domara.

---

[1]) fyrirsögn með rauðu letri og upphafsstafr rauðr. Þar sem rotið er í jaðrinum blaðsins er sett hèr í [].

[2]) ekki hafa hèr verið ritaðar fleiri greinir, en næst á eptir er frumvarp „gamla sáttmála" Íslendínga við Hákon konúng og Magnús son hans.

[3]) fyrirsögn rauð. Upphafsstafr rauðr og dregið í grænt. Á spáziu litið þ. [4]) *þann. skb.*; ransmenn, *aðrir.*

## 140. 17. August 1247. í Björgvin.

Vilhjálmr kardínáli, biskup af Sabina, sendiboði postulegs sætis til Noregs og Svíþjóðar, skipar fyrir um helgidaga leyfi og um meðferð á kirkna eignum og tíundum.

Þetta brèf Vilhjálms kardínála er í upphafi einúngis stílað til Noregs, einsog hið fyrirfaranda, en hefir síðan verið að nokkru leyti leidt í lög á Íslandi. Hèr er fyrst prentað frumbrèfið á Latínu (A); þar næst útleggíng þess á Norrænu, eins og það var birt í Noregi með brèfi Hákonar konúngs (B); þá fylgir önnur útleggíng þess, eins og hún er í íslenzkum handritum (C); síðan greinir þær, sem lögleiddar eru með berum orðum á Íslandi í Kristinrètti Árna biskups og í rèttarbót Hákonar konúngs (D); og loksins ágrip þau, sem finnast í íslenzkum handritum, blönduð með öðrum skipunum, sem eignaðar eru Vilhjálmi kardínála (E).

---

### A.

Brèf kardínálans á Latínu er nú einúngis til á einu skinnblaði, sem er í hinu Norska frumbrèfasafni Árna Magnússonar, Fasc. XXII, Nr. 5b. Þetta blað er í aflaungu fjögra blaða broti, ritað í tveim dálkum á blaðsíðunni, með krókóttum stöfum, líkt og vant er að vera í norskum handritum. Það er því líklegt, að blað þetta sè ritað í Noregi á fyrra hluta fjórtándu aldar, og ekki seinna en 1350. Á fremri blaðsíðunni er fyrri dálkrinn auðr að ofanverðu, svosem sex lína bil; þá byrjar þetta brèf kardínálans, og fyllir það mestan hluta fyrri blaðsíðunnar, en neðarlega á síðara dálki byrjar önnur skrá á Latínu, sem er sáttargjörð milli Auðfinns biskups í Björgvin og prófastsins við postula-kirkjuna í Björgvin, sira Finns Halldórssonar, rituð í Túnsbergi 16. August (XVII. kal. Septbr.) 1320 (prent. í Suhms Hist. af Danm. XII, 340—342, eptir afskript Langebeks, líklega eptir sama skinnblaðinu sem hèr er prentað eptir). — Blað þetta hefir í fyrstu verið í ágætri fornri skinnbók, sem nú er í safni Árna Magnússonar Nr. 322 í Fol. að nokkrum hluta, en sumt er nú Nr. 114 A. og 733 í 4to í safninu. Bók þessi virðist hafa verið norðan af Hálogalandi í fyrstu, eða jafnvel frá Íslandi að nokkru leyti, en á fyrra hluta sextándu aldar átti hana Hans Símonarson, kórsbróðir í Niðarósi, og eptir andlát hans eignaðist Jón lögmaðr Símonarson á Ögðum bókina 1550, svosem hann

vottar þar sjálfr (bl. 19). þessi Jón lögmaðr var sendr til Íslands með Pètri Hvítfeld 1553 (M. Ketilss. Forordn. I, 323) og andaðist 29. Juli 1575 á 63. ári (P. Claussøn Norriges Beskriv. Khavn. 1727. 8vo. bls. 91).

Eptir skinnblaðinu er brèf þetta prentað áðr í Norg. gamle Love. I, 453. Eptir sama blaði sýnist og vera rituð afskript, með hendi Árna Magnússonar, sem er í hinum Norsku brèfa-afskriptum í safni hans Nr. 16, og þar eptir er það prentað í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. I, 568 og í Thorkelins Dipl. Arnamagn. II, 30—31.

---

Willelmus miseracione diuina sabinensis Episcopus apostolice sedis legatus. Omnibus presentes literas inspecturis. salutem in nomine Jesu christi.

1. In partibus Norwegie officio legacionis fungentes inter alias miserias regni que multe sunt. quoniam terra tribulacionis et angustie est constituta in nouissimis habitatis[1] partibus aquilonis iuxta id quod scriptum est.

homo natus de muliere breve vivens tempus repletur multis miseriis[2].

Intelleximus ibi gemitum populi qui mirabiliter artatur secundum quendam librum extra ordinarium in wlgari eorum scriptum in diebus festiuis ab omni opere temporali eciam vrgentibus necessitatibus abstinere.

Cum igitur sicut nos ipsi vidimus et corporali experiencia distemperanciam terre illius probauimus manifeste a dimidio mense Junii vsque fere ad exitum Augusti pluuie in partibus illis fuerint ita quod nec arari poterant nec seminari comode exceptis quatuor forte vel quinque diebus nec tamen continuis instancia populi conuicti Et ideo de consensu prelatorum statuimus et stabilimus vt de cetero non obstante consuetudine vel verbis supradicti libri impune possint capere alecia quandocumque piscacionis illius obtulerit se facultas.

---

1) *leiðrètt úr:* habitantes, *sem skinnblaðið og afskriptirnar hafa*; habitati *leiðrètting í* F. Joh. Hist. Eccl. I, 568.

2) Jobs b. 14, 1.

Fena autem colligere et anonas atque legumina eis liceat diebus festiuis. si tamen per alios dies propter intemperiem temporis operari fuerit impeditum. Jta tamen quod si de huius [modi] intemperie vertatur in dubium vtrum talis fuerit propter quam debuerit quod supradictum est concedi. Nec ne. hoc dyocesani iudicio terminetur.

2. Jntelleximus preterea quod vacantibus ecclesiis episcopi quandoque earum redditus in proprios vsus conuertunt quod omnino fieri prohibemus. sed ponatur ibi per Episcopum yconomus seu procurator qui fructus colligat in vtilitatem succedencium ministrorum vel ecclesie conuertendos.

Quartam autem decimarum que ad vtilitatem ecclesie singulariter pertinet integre precipimus conseruari Jta quod nec episcopi, nec procuratores prædicti, racione procuracionis sue vel accipere vel diminuere audeant vllo modo.

3. Jntelleximus preterea quod aliqui episcoporum possessiones ecclesiarum accipiunt et sibi appropriant in preiudicium ecclesiarum et scandalum plurimorum. Quod omnino fieri in virtute obediencie prohibemus. Et si alicubi factum est precipimus eisdem ecclesiis restitui cum fructibus deductis expensis perceptis. et si forte ecclesia cuius possessio fuerat ad nichilum redacta est vel destructa ita quod restaurari non potest. inter vicinas ecclesias que pauperiores sunt predicte possessiones dyocesani iudicio diuidantur.

4. Et hec omnia auctoritate legacionis qua fungimur apostolica. precipimus et statuimus in perpetuum obseruari.

Datum Bergis XVI kal. septembris pontificatus domini Jnnocencii pape quarti. Anno quinto.

---

## B.

Skömmu eptir að brèf kardínálans var út gefið hefir Hákon konúngr látið auglýsa það á Norrænu, og er þetta hans brèf enn til í ymsum handritum; eru sum þeirra rituð að líkindum í Noregi, en sum á Íslandi, jafnvel þó brèfið hafi án efa aldrei verið sent til Íslands, þareð konúngr hafði þá enn ekkert löggjafar vald á landinu.

Hið elzta og bezta handrit, sem það er hèr prentað eptir, er skinnbókin Nr. 309 í Fol. í safni Árna Magnússonar, rituð með ágætri hendi og norskri stafsetníngu ár 1325, svo sem þar er ritað á bls. 113: „Completus fuit liber iste. Anno domini ꟿ°. ccc° vicesimo quinto in translacione beati Cuthberti confessoris atque pontificis. Deo laus Amen". Bók þessi er alls 200 blss. eða 100 blöð, og hefir fylgt lögmannsdæminu í Eiðsifjaþíngi í Noregi, svo sem sjá má á því sem þar er ritað. Á bls. 123—124 er ritað þetta brèf Hákonar konúngs, sem hèr fylgir eptir; er það prentað áðr í Thorkelins Diplomat. Arnamagn. II, 31—32, og síðan Norg. gaml. Love I, 454—456 eptir þessari hinni sömu bók. Með sama hætti og í þessari bók er brèfið ritað í annari skinnbók, varla ýngri en frá miðri fjórtándu öld, í safni Árna Magnússonar Nr. 57 í 4to. (cod. Milzovianus), bls. 79. Og enn fremr er það ritað í skinnbók Nr. 31 í 8vo. í safni Árna Magnússonar, bls. 185—187, sem virðist vera rituð á síðara hluta fjórtándu aldar, eða hèrumbil 1370 (í Norg. gamle Love er hún sett ýmislega á tímabilinu milli 1325—1400: I, 338. 454; II, 183. 453; III, 3. 86. 138). Af báðum þessum skinnbókum, 57 og 31, eru mismunargreinir tilfærðar í útgáfunni í Norges gamle Love, og þykir því ekki nauðsyn að geta þeirra hèr.

---

Bref Hakonar kongs vm rettar boter vilialms cardínalis[1].

Hakon með guðs miskun Noregs konongr son hakonar[2] konongs. sænðr lærðom lænðom ok buþæghnum ok ollum þæim sæm þetta bref sia eða høyra. queðiu guðs ok sina.

Ver vilium yðr kunnikt gera at þæssar Rettarbøter gaf herra viliamer biskup[3] legate pauans fyrir sakir vars bønastaðar ok almenneleghrar þurftar æftir þvi sæm bref hans vattar er þer meghor nu høyra.

Uilialmer með guðs miskun Sabinensis biskup[3] ok [legate][4] paueleghs setes. Sænðr ollum monnum. þæim sæm þetta bref

---

1) fyrirsögn með rauðu. Upphafsstafr rauðr og dregið í blátt.

2) ꟿ' (Magnus) *í línunni*, h. *uppyfir*, hakonar *á spázíu.*

3) bēp, *skinnb.*

4) með hendi Árna yfir línunni.

sia eða hóyra . j . Noregs konongs Riki. hæilsu ok hammengghio. j. namne iesu christi.[1]

1.[2] þa er ver skilðum ok sam openberlegar ok Marghfalleghar nauðir ok nauðsynir folksens . j. Noreghe þa jattaðom ver ok lðyfðum æfter bónastað gauuarleghs herra Hakonar konongs ok annar[a][3] goðra manna. þæssa luti at taka skal silð a hælghum daghum sæm a sóknom. j. lóyui huar sæm hon genger a lanð. hóy ok korne ok alzkonar saðe skal biargha með samæ hætte huat dæghi sæm er ef nauðsyn kræfuer. En biskup[4] skal nauðsynir meta skynsamlegha.

2. Sua ok ef nokor kirkia verðær persona laus eða prestlaus. þa skal biskup æigi taka skylðir hennar eða tiunðir hennar eða annur fongh til sin snua ok þat fyrir bioðom ver fyrir huarn mun. En Raðærs menn eða róktar skal hann fyrir sætiæ þann sæm loghlegha ok tryghlegha gæte ok gǫymi þæim til handa er til kan koma eða sealfre kirkiuni til nythsæmðar. hin . iiij. luter er kirkiunni er æinkaðær. þa skal hann fyrir henne huærghi skerðæ huert sæm her til hefuer veret. huarke till væiðzslu vphalðs ser eða annara luta.

3. Enghi biskup[4] skal ok dirfuæzt at lægghiæ vnðir sik eða sin stað æighnir eða oðoll annara kirkna ok þar[5] sæm þat[6] kann geraszt eðą gort hefir veret þa skulu æighninnar after ganga til kirknana ok þat alt upgialðazt er þær hefuer af veret tæikit fyrir vttan þat er biskup hefuer laght til vmbota æighninni.[7] kann ok kirkiañ niðær at falla þa skulu æighnir þær sæm hon atte læggiazt after [til] þæiræ kirkna sæm nestar ero. ok þo fatókær at vphalðe með biskups Raðe ok annara goðra manna.

4. En alla þæssa luti skipaðom ver af þui valðe sæm guð ok var herræ pauen gaf oss ok biðium ver ok bioðom at huar maðær hafue ok halðe alla þessi luti æfter vare skipan vm alðær ok æfue vhrighðilegha. En sa er ðirfuizt þæsso mote at gangha þa er sa sanlegha . j. olyðni viðær. pauæn ok oss.

---

1) ihū xp̄i., *skb.*

2) tölurnar standa á spáziu i skb. og með indversku lagi.

3) seinasti stafr með hendi Árna Magn. yfir línunni.

4) bc̄p, *skinnb.* 5) þr̄ (*eins og væri* þeir), *skinnb.*

6) þt̄ (*eins og væri* þui at), *skinnb.* 7) æighnir, *skinnb.*; æigninni, 31.

Var þetta bref gort ok gefuet .j. biarghwin fimtan nattom fyrir egidii mðsso. a .v. are paua ðomes vars herra pauans Jnnocencij hins .iiij. paua.

---

C.

Útleggíngar af þessu brèfi Vilhjálms kardínála eru í mörgum íslenzkum handritum bæði á skinni og á pappír, frá því á fjórtándu öld og þaðan af. Hèr skal einúngis geta þeirra, sem eru á skinnbókum, og er þó prentað hèr eptir einni þeirra, því sá orðamunr sem hinar hafa er ekki í neinu sèrlegu merkilegr. En þessar bækr eru:

1) Hin ágæta skinnbók frá 1363, Nr. 350 í Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 241—242, og er prentað hèr eptir henni. Bók þessari er lýst hèr að framan, bls. 444—446. Eptir þessari bók, eða samkvæmt henni, er brèf kardínálans ritað í skinnbókinni Nr. 138 í 4to í safni Árna, bls. 281—282; hún er rituð um eða nálægt 1500 (en ekki um 1400, sem Finnr biskup hèlt), og er hennar getið hèr áðr, bls. 446. Eptir henni er brèfið prentað í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. I, 257—259. — 2) Skinnbók í hinu konúnglega bókasafni í Kaupmannahöfn: Gamle kongel. Saml. Nr. 3269a í 4to, bls. 204—205. Þessi bók er frá síðara hluta fjórtándu aldar. — 3) skinnbók í sama safni: Nye kongel. Saml. Nr. 1642 í 4to, bls. 16—17; sú bók virðist vera rituð í Noregi á fyrra hluta fjórtándu aldar, og er kölluð Túnsbergsbók (*codex Tunsbergensis*), af því hún hefir fylgt lögmannsdæminu í Túnsbergi. — 4) Skálholtsbókin hin ýngri, svo kölluð, frá hèrumbil 1400, Nr. 354 í Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 33—34; þeirri bók er lýst hèr áðr, bls. 450—451. — 5) Skinnbók Nr. 175 A. í 4to í safni Árna, bls. 67—68, rituð hèrumbil um 1400; henni er og lýst hèr að framan, bls. 448. — 6) Skinnbók Nr. 158 A. í 4to. í sama safni, bls. 119—120, rituð á fyrra hluta fimtándu aldar, um 1420 og þar eptir; henni er lýst hèr að framan, á bls. 140—142. — 7) Hvanneyrarbókin Nr. 186 í 4to í sama safni, bls. 64—66, rituð seint á fimtándu öld, um 1480; henni er lýst fyr, á bls. 219 og 455. Eptir þessari bók hefir Finnr biskup tekið orðamun á nokkrum stöðum. — 8) Skinnbók í sama safni, Nr. 136 í 4to, bls. 292, og er þar brot, því síðari hluti brèfs-

ins er tapaðr: hún er rituð um sama leiti og hin fyrirfarandi, um 1480, og er henni lýst hèr áðr, bls. 67—68. 460. — 9) Skinnbók í sama safni Nr. 456 í 12mo, bls. 47—48, einnig rituð um 1480, svosem fyr er getið, þar sem henni er lýst hèr að framan, á bls. 457—458. — 10) Skinnbók Nr. 160 í 4to. í sama safni, bls. 249—251; hún virðist einnig vera rituð um sama leiti (um 1480). — 11) Skinnbók í sama safni Nr. 151 í 4to, bls. 279, rituð um 1490; þar er á Jónsbók, kristinrèttr Árna biskups, rèttarbætr o. fl. — 12) Skinnbók í sama safni Nr. 55 í 8vo, bls. 44—45, þar eru á ymsar lagagreinir, rèttarbætr og forsagnir, og er hún rituð um 1570. — 13) Skinnbók í sama safni Nr. 458 í 12mo, bls. 36—37, og er hún rituð seint á 16du öld, hèrumbil 1570; bæklíngr þessi er nú 88 blöð (176 blss.), og er ritað þar á mikið safn af rèttarbótum og öðrum lögum, dómar nokkrir og forsagnir margar (*formulæ juridicæ*). — 14) Skinnbók í handritasafni Thotts í hinu konúnglega bókasafni Nr. 596 í 8vo, bls. 22—23; sú bók er rituð seint á sextándu öld, hèrumbil 1580. —

Dönsk útleggíng af brèfi þessu, hèrumbil á þá leið sem það er hèr, er prentað í lagasafni handa Noregi: Gamle kgl. Forordn. og Privilegier for Norge af Hans Paus. Kh. 1751. 4to. II, 169—170, og í hinni dönsku útleggíngu Jónsbókar: Den islandske Lov Jonsbogen. Kh. 1763. 8vo. bls. 400—401.

---

Rettar Botar bref uilhialms kardinala.[1]

Uilhialmr sabinensis biskup. legatus. ok kardinali pauafligs sætis. sender ollum monnum. þeim sem þetta bref sea edr heyra inoregs konungs Riki. heilsu ok hamingiu i nafni iesu christi.

1. þa er ver skildum ok sám opinberligar naudir. ok naudsyniar folksins i noregi. þa iatadum. uer ok leyfdum. epter bønar stad. Gøfugs herra Hakonar konungs ok annaʀa godra manna. þersa luti.

Silld skal taka i leyfi. huart sem hon gengr at ꝏ helgum døgum edr syknum. Hey[i] ok korni. ok allzkonar sádi skal

1) fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr rauðr og dregið i grænt.

biarga med sama hætti huat degi sem er. ef naudsyn krefr. En biskup skal naudsyniar miskunnsamliga meta.

2. sua ok ef nǫckur kirkia verdr personulaus. edr prestlaus. þa skal biskup æigi taka skyllder hennar edr tiunder. edr onnur fǫng til sín snua. ok þat fur biodum vęr huerium manni. Eñ Rads menn ok Ræktar skal hann fur setia. þann er gięti ok geymi truliga þeim til handa er til kann at koma. edr sialfri kirkiunni til handa. Hinn iiij$^{da}$ lut tíundar sem kirkiunni er einkadr. þa skal fur henne huergi skerda. huarki til ueitzlu upphalldz ser edr annarra luta. huat sem her til hefir uerit.

3. Engi biskup skal ok dirfa sik þers. at leggia undir sik edr sinn stað [odul edr eignir kirknanna. Ok þar[1] sem þat kann geraz. eda hefir gert uerit. þa skulo eignir kirknanna til þeirra aptr ganga.[2] ok þat allt upp gialldaz er þar hefir uerit af tekit fur utan þat er biskup hefir lagt til. husa[3] umbota eignarinnar[4]

kann ok kirkia nidr at falla. þa skulo eignir þær sem kirkian atti. leggiaz til þeirra kirkna sem næstar ero. ok fatękaztar at upphalldi eptir biskups Radi. ok annarra godra manna.

4.[5] Eñ alla þersa luti. skipadum ver af þui ualldi sem Gud. ok herra pauinn gaf oss. ok vilium ver ok bioðum at huerr madr. hafi ok halldi alla þersa luti. eptir várri skipan vm alldr ok æfi obrigdiligha.

Eñ sa sem dirfiz þersu í moti at ganga þa er [sa][6] sannliga i uhlydni uid herra pauann ok oss.

þetta bref uar gert ok gefit i biðrguin. [xv. nattum fyrir[7] Egidius [messo][6] ꝏ v$^{ta}$. ari paua doms vars herra pauans innocentij quarti.

---

[1]) *frá* [eignir kirknanna. edur þat fra annari til annarar. eda odvl. og hvar, 7 (A. M. 186. 4).

[2]) héðan frá vantar i 8 (A. M. 136. 4).

[3]) sl. 2. 4. 6. 9. 10. 11. 12. 13. 14; hennar, 7.

[4]) og þo med þui mote at hann siae henne adra nytsamliga hluti, b. v. 7.

[5]) því sem eptir fylgir er sleppt í 6. 12. 13. 14.

[6]) bætt við yfir línunni með hendi Árna.

[7]) þannig 2. 3. 9. 11; XI nottum fyrir, 1. 4. 5. 10; XI nottum eptir, 7.

D.

Hinn fyrsta vott til þess, að þau leyfi, sem veitt eru í brèfi Vilhjálms kardínála, hafi verið lögleidd á Íslandi, finnum vèr í Kristinrètti Árna biskups, sem var lögtekinn í Skálholts biskupsdæmi 1275. Vèr getum ráðið þar af, að engin af skipunum kardínálans muni hafa verið birt á Íslandi áðr, eða samþykt svo sem í laga skyni, nema það hafi verið sú um járnburð, því annars mundi Árni biskup ekki hafa tekið greiniruar sèrílagi með tilgreindu nafni kardínálans, heldr sett efni þeirra í lögin þar sem það átti helzt við. Til merkis um, hversu biskupinn fór með skipanir kardínálans að öðru leyti, er það, að hvergi finnast í kristinrètti hans þær greinir úr þessu sama brèfi, sem takmarka vald biskupanna yfir kirknafè; miklu framar er það tekið þar fram, að biskup hafi hið fyllsta forræði fyrir kirkjum öllum og þeirra gózi.

Sú grein um helgidaga veiði, sem stendr í Jónsbók, í Rekab. kap. 10, er ekki tekin úr skipunum Vilhjálms kardínála, heldr er hún bygð á Kristinrètti Þorláks og Ketils k. 17 (Grágás útg. Vilh. Finsen I, 25).

Í rèttarbót Hákonar konúngs Magnússonar 14. Juni 1314 § 8 (Lagasafn Ísl. I, 28) er skipað að setja í lögbók á Íslandi þá tvo kapítula, sem standa í rèttarbótum Vilhjálms kardínála, einmitt hina sömu, sem eru í Kristinrètti Árna biskups. Þartil mun þó ekki vera sú orsök, að Hákon konúngr hafi viljað vefengja lagagildi kristinrèttarins, það sem hann náði (Magnús Stephensens Dissert. de legibus Island. bls. 48), heldr það, að Kristinrèttr Árna biskups var ekki um þetta mund löggildr í Hóla biskupsdæmi[1], en konúngr hefir viljað láta þessar leyfisgreinir gilda um allt land, og draga þær til veraldlegs rèttar, eins og Hákon konúngr Hákonarson, þegar hann boðaði sjálfr leyfisbrèfið í Noregi fyrir alþýðu, en lèt ekki boða það af erkibiskupi. Þess vegna eignaði konúngr sèr einnig sektir þær, er lagðar voru við helgidaga veiðar (Rb. 14. Juni 1314 § 27).

Það leiðir beint af því sem hèr er sagt, að greinirnar úr brèfi Vilhjálms kardínála, þær sem snerta helgidaga leyfi, eru helzt í tveim flokkum handrita, annaðhvort sem greinir í Kristinrètti Árna biskups, eða fylgjandi rèttarbót Hákonar konúngs 14. Juni 1314; í sumum handritum finnast þær einnig stakar sèrílagi. Hèr eru

1) Kristinrèttr Árna biskups var skipaðr fyrir Hóla biskupsdæmi í brèfi Magnús konúngs Eirikssonar 19. Oktbr. 1354, Lagas. Ísl. I, 33—34.

þær prentaðar eptir tveimr af hinum elztu og beztu handrítum, sínu af hvorum flokki, en orðamunr er svo lítill, að hann er ekki talinn hèr.

1. Í Kristinrètti Árna biskups eru þessar greinir í flestum handritum kap. 27 og 28, og svo er í útgáfu Thorkelins (bls. 174—178); í öðrum eru þær 19. og 20. kap., svosem í AMagn. Nr. 343 Fol. bls. 23 (frá hèrumbil 1330). Handrit af Kristinrètti eru svo mörg, að seint verðr að telja; en hèr er prentað eptir Staðarfells bók, sem er Nr. 346 í Fol. í safni Árna Magnússonar, og hefir verið lýst hèr áðr (bls. 99—100); má þess að eins geta, að bók þessi sýnist vera með sömu hendi og Resenius-bók (*codex Resenianus*) af Guðmundar sögu Hóla biskups, sem hefir verið talin rituð seinast á þrettándu öld (Bisk. s. I, í formála, bls. LIII—LIV). Þessi bók er þó nokkru ýngri, því hún hefir ýngsta rèttarbót Hákonar konúngs frá 1314, verðr hún því að vera rituð á tímabilinu milli 1315 og 1330, en alls ekki síðar. Þær greinir, sem hèr eru prentaðar, eru á bls. 21 í skinnbókinni.

2. með rèttarbót Hákonar konúngs eru greinir þessar ritaðar í ágætri skinnbók, sem Brynjólfr biskup Sveinsson í Skálholti hefir átt og gefið Friðreki konúngi hinum þriðja; sú bók er nú í konúngsins stóru bókhlöðu: Gamle kongel. Saml. Nr. 3270 í 4to, og mun vera rituð hèrumbil 1320—1330. Á þessari bók er fyrst Kristinrèttr Árna biskups, og eru greinir þessar þar á sínum stað. Þarnæst er Jónsbók (bls. 44—201) og þarnæst þrjár rèttarbætr íslenzkar, sem er Eiríks konúngs frá 1294, og tvær Hákonar konúngs háleggs frá 1304 og frá 1314; henni fylgja hèr þessar leyfisgreinir Vilhjálms kardínála (bls. 212), og er líklegt þær sè ritaðar eptir þeirri afskript sem fylgt hefir rèttarbótinni, fyrst þær eru hèr skrifaðar í annað sinn í bókinni. Eptir þær fylgir brèf Innocentius páfa til Sigurðar erkibiskups (Nr. 141 hèr á eptir); þar eptir kapítulinn um bygging á konúngsjörðum (nú landslb. k. 2), sem er skipaðr inn í lögbókina með rèttarb. 2. Juli 1294 § 50. Seinast í bókinni er Hirðskrá (bls. 217—256) og vantar sjálft niðrlagið, því tvö blöð aptan af bókinni hafa verið skorin úr. Eptir þessari ágætu skinnbók eru greinirnar hèr prentaðar, og má sjá að þeim ber ekki mikið á milli og Kristinrètti Árna biskups. Sèrstakar eru greinir þessar í tveim skinnbókum frá seinustu árum fimtándu aldar, og er það Skinnastaða bók Nr. 136 í 4to, bls. 215,

og Landeyjabókin Nr. 148 í 4to, bls. 207; en í hvorugri þessara er orðamunr að neinu marki.

Í sögu Hákonar konúngs Hákonarsonar hefir Sturla þórðarson ritað stutt ágrip af þessu leyfi Vilhjálms kardínála meðal annara rèttarbóta hans á þessa leið: „þá kærðu ok bændr, at þeir gyldi fyrir, ef þeir byrgi faungum sínum á helgum dögum, eða tæki fiska, ef guð gæfi þeim. Kardínálinn gjörði þá skipan þar á, at menn skyldi bjarga heyvi sínu ok korni ok fiskja síld, ef guð gæfi þeim, utan hinar stærstu bátíðir" (Hákonar s. Hákonars. kap. 255: Fornms. X, 22).

Dönsk útleggíng af greinum þessum er prentuð í hinni dönsku útleggíng Jónsbókar (Kh. 1763. 8vo), bls. 354—355.

---

I.

leyfe vilhialms kardinala.[1]

þetta leyfe gaf vilhialmr kardenale. þa er hann kom i noreg eN siþan staðfesti innocentius pafi[2].

Ef uirka daga ma eigi uinna fyrir sakir ueðrattu. þa skal maðr ileyfe healpa heye sinu oc kórne. oc øðrum buføngum. oc aullo alldine[3] secta laust a helgum døgum.

EN um helga daga. gørum vêr þa grein aa at þat leyfe scal hafa sem nauðsyn stendr til. oc nytsemð er i. oc þo hinar stêrstv hatiðer undan teknar.

enn leyfi vilhialms kardinala.[4]

Fyrir sakir nauðsynea lanzins oc fatêctar. oc ymislegrar veðrattu. oc at menn healpi þui betr enum fatéka. þa iatum ver af Guðs halfu. oc lofum korn at skera. oc allz kostar at biarga. oc Sva heyfe til kuelldz a øllum nonhelgum døgum. utan olafs Messo aptan fyrra oc Mariv Messo aptan huarn tueggia.

1) fyrirsögn með rauðu. XXVII á spáziu með hendi Árna, sem þetta sè 27. kap. í Kristinr. Árna. Upphafsstafr grænn, dregið í rautt.

2) ꝑ., *skb.*

3) andvirki, A. M. Nr. 42 B. 8vo. p. 44.

4) fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr grænn, dregið í rautt. Á spáziu talan XXVIII með hendi Árna, svosem þetta sè 28. kap. í kristinrètti Árna biskups.

Sva oc ef menn fa ueðrattu alaugardaginn til roðrar. þa se lofat at fiskia til kuelldz.

En ef maðr hefir gert heyhlass eða uiðar hlass fyrir helge. þa scal heim reiða oc inn bera hey þo at heilact se. oc sva ønnur hlauss þau sem aueg ero komin reiða heim oc inn bera. sem uêta ma granda oc stulð mege ottaz. En siofar flote huerr stande kyrr þar sem hann er kominn at helge.[1]

## 2.

leyfi kardinala.[2]

þetta leyfi gaf vilhialmr kardinali þa er hann kom i noreg eñ siðan staðfesti jnnocencius pavi.

Ef virkia daga ma eigi vinna fyrir sakir veðrattu þa skal maðr i leyfi hialpa heyvi sinu ok korni ok ǫðrum bufǫngum ok ǫllu alldini sekta laust a helgum daugum.

eñ vm helga daga gerum ver þa grein á. at þat leyfi skal hafa sem nauðsyn stendr til ok nyt semð er j. ok þo vndan taka hinar hæstu Guðs hatiðir.

leyfi.[3]

Fyrir sakir nauðsynia landzins ok fatæktar ok ymisligrar veðrattu ok at menn hialpi þvi betr hinum fatæka. þa iatum vér af Guðs hálfu ok lofum korn at skera ok allzkostar at biarga ok sva heyvi til kvelldz a ǫllum non helgum dǫgum. nema Olafs Messo aptan fyʀa. [ok] Mario Messo aptan hvarntveggia.

Sva ok ef menn fá veðrattu a laugar dagin til vt roðrar þa se lofat at fiskia til kvelldz.

Ef maðr hefir giǫrt heylass eða viðar lass. fyrir helgi. þa skal hann heim reiða ok inn bera þo at heilagt se. Sua skulu ok aunnur lauss aull þau sem á veg eru komin fyrir helgina heim reiða ok þau ein inn bera sem væta ma spilla eða stulð ma[4] at óttazt. Eñ siovar flutningr allr standi kyʀ þar sem hann er kominn at helginni.

---

1) kuelldi, A. M. 135. 4to.

2) fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr grænn og dregið rautt í.

3) fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr rauðr og dregið i blátt.

4) *þannig hin;* vm , *skb.*

E.

Ágrip af þessu leyfisbrèfi Vilhjálms kardínála finnst í nokkrum íslenzkum handritum, sem þó eru af þeim hinum ýngri. það er merkilegt, að þeim ber saman við ágrip það, sem Sturla lögmaðr þórðarson hefir sett í Hákonar sögu, en bæta síðan við einni grein, sem Sturla hefir ekki, og sem hvergi finnst annarstaðar í brèfum kardínálans, eða þeim skipunum sem honum eru eignaðar. Frásögn Sturlu er þannig: „þá kærðu bændr mjök um þat, at biskupar tæki tíundir af kirkjum, ok aukaði með veizlur sínar eða tóku sjálfir til sín. Kardínáli sagði þat, at kirkjur skyldi frjálslega halda tíundum sínum ok öðrum tekjum, svâ sem biskupar sínum. — þat kærðu ok lærðir menn, at biskupar tóku veizlur eða lausnir af prestum, þótt þeir kvæmi eigi í fylkit. Kardínálinn sagði, at þat var bæði móti guðs lögum ok heilagrar kirkju, ok sagði, at þeir skyldi engar lausnir taka ef þeir kvæmi eigi til, nema þeir væri sjúkir, eða færi eptir boði konúngs eðr til erkibiskups" (Hákonar s. Hákonars. kap. 255: Fornm. s. X, 21—22); og er þetta nær því orðrètt eins og þau ágrip sem hèr standa, að frátekinni seinustu greininni.

Ágrip þessi eru prentuð hèr eptir þrem handritum á skinni í safni Árna Magnússonar, sem eru:

1. Nr. 456 í 12mo, bls. 186—187, rituð um 1480; henni er lýst hèr að framan, bls. 457—458.

2. Hvanneyrar bókin Nr. 186 í 4to, bls. 60—61; hún er rituð um sama bil (um 1480) og er henni lýst áðr (bls. 219). Eptir henni er prentað í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. I, 234, athgr. b, og dönsk útleggíng aptanvið: Den islandske Lov Jonsbogen, bls. 402. — Líkast Hvanneyrar bók er ágrip þetta í skinnbókarbrotinu Nr. 688 C í 4to í safni Árna, frá hèrumbil 1480, bls. 3 (sbr. bls. 453 að framan).

3. Nr. 45 í 8vo, bls. 17—18; sú bók er rituð síðar en hinar fyrnefndu, og mun varla vera eldri en frá hèrumbil 1570, (sbr. bls. 551 að framan). Á kveri þessu er brot af Jónsbók, sem nær fram í 6. kap. í þíngfararbálki; þar eptir vantar mikið úr bókinni og byrjar aptr snemma í eptirfylgjanda ágripi af Brèfi Vilhjálms kardínála um kirkna eignir (bls. 17—18); þar eptir fylgir annað brèf kardínálans um ágáng á fasteignir (Nr. 139 hèr að framan). Eptir þetta er brot af frumvarpi gamla sáttmála (1262), og af endurnýjan sáttmálans við Hákon konúng Magnússon (1302). Síðan eru forsagnir ymsar, og fjöldi konúngsbrèfa og rèttarbóta,

er nýjust þeirra réttarbót Kristjáns (annars) 1507, um staðfestíng á réttarbótum Hákonar konúngs Magnússonar. Alls er kver þetta nú 48 blöð (96 blaðsíður).

## 1.

skipan cardi[nalis].[1]

þa er uilhialmur cardinales kom til noregs. ok millum anara hluta kiærdu bændr miog um ath biskupar toku tiundir af kirkium ok joku med ueizlur sinar eda toku sialfir til sin. En cardinales sagdi þat uandliga upp ok kuad kirkiurnar frialsliga hallda skylldu eignum sinum. tiundum ok audrum tekivm. suo sem biskupar sinum.

þa kiærdu lærdir menn at biskupar tæki ueizlur eda lausnir af prestum þo at þeir kiæmi eigi j fylkit. Cardinales sagdi at þat uæri j moti guds logum ok manna ok heilagri kirkiu. ok sagdi at þeir skylldu aunguar taka ef þeir færi eigi. nema þuiat eins at þeir uæri sinkir. eda færi eptir konungs bodi til hans. eda til erkibiskups.

Ohæft taldi hann uera at taka fe at erfdum nema fyrr se adur golldnar allar logligar skulldir suo sem abbacuc spamadr mælti. Wpp lykr þu munn þinn suo sem solltinn ok etur þu oheimillt j fylsnum. þenna sullt sagdi hann þat merkia er erfingi tekr til erfdar fyrr en hann leysir af hendi allar logligar skulldir hins dauda.

## 2.

leyfe[2]

þa er uilialmur chardinales kom til noregs. og millvm anara hlvta kærdv bændvr miok vm at biskvpar tokv[3] tivnder. af kirkivm og jokv med veizlur[4] sinar. eda tokv sialfir til sin. En cardinalis sagdi þat vandlega vpp. og kvad kirkiurnar[5] fria[l]slega hallda skylldv eignvm sinvm. tivndum. og odrvm tekium. so sem biskup sinvm.

---

1) fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr rauðr og dregið grænt í.

2) fyrirsögn með rauðu letri og upphafsstafr.

3) take, *handr.* 4) veiskur, *handr.* 5) *frá* [kirkivr þat, *handr.*

þa kærdv lærdir menn at biskupar tæke veislvr eda lavsnir af prestvm þo at þeir kæme ecki j fylkit. cardinalis sagdi at þat vere bædj j mote. Guds logvm og manna. og heilagrar kirkiv. og sagdj at þeir skylldv avngua taka ef þeir fære eigi. nema þuiat eins at þeir vere siuker[1]. eda fare epter bode kongs til hans. eda til erkibiskups.

Ohæft taldi[2] hann[3] vera. at taka fe. at erfdvm. nema fyr se adur golldnar allar loglegar skvllder. so sem abbacvch spamadur mælte. vpp lykur þv mvnn þinn. so sem solltinn. og etur þv oheimilt j fylsnum þenna sulltt sagdi hann þat merkia. er erfinge tekur fyr til erfdar en hann leysir af hendi allar loglegar skulldir hins andada.

## 3.

. . . . . . . . [4][tiun]dir af kirkium ok joku med v[eizlur sinar ed]a toku sialfir til sin: Eñ cardinalis sagdi þat vandlega vpp ok kuad kirkiunar frialsliga hallda skylldo eignum sinum tíundum ok audrum tekium Suo sem Biskupar sinum.

þꝏ kiærdu ok lærdir menn at Biskupar [tæki] veislur eda lausniʀ af prestum þo [at] þeir kiæmi ei j fylkit. Kardinalis sagdi at þat væri j moti guds logum ok manna [ok] heilagri kirkiu ok sagdi þeir skylldi aungvar taka ef þeir færi eigi: Nema þuiat eins at þeir væri siukiʀ eda færi eptir kongs Brefi til hans eda til Ercibiskups:

Ohæftt taladi hann vera at taka fie at Erfdum nema golldnar sie adur allaʀ loglegar skulldiʀ so sem abacuc spamadur mælltti. vpp lykur þu munn þinn sem solltinn og etur so oheimilltt i fylsnum. þenna sulltt sagdi hann [þat mer]kia eʀ erfingi tekr [til erfdar fyr en] hann leysir af hendi allar lauglígar [skulldir] hins dauda.

---

[1]) sekir, *handritin.* [2]) teldi, *handritin.*

[3]) tvítekið i handritinu.

[4]) fúin rönd af blaðinu. Uppbafið, svo sem ein lína eða tvær, hefir verið á fyrirfaranda blaði, sem er týnt.

## 141. 7. Septembr. 1249. í Leonsborg.

INNOCENTIUS páfi hinn fjórði staðfestir skipanir Vilhjálms kardínála um helgidaga leyfi og um tekjur kirkna.

Þó að Vilhjálmr kardínáli hefði erindisbrèf frá páfanum, og myndugleika af hans hendi til að skipa fyrir um kirkjunnar málefni, hefir hann þó álitið nauðsynlegt að útvega staðfestíng páfans uppá ráðstafanir sínar, og er sú staðfestíng útgefin í þessu brèfi; er staðfestíngin að nokkru leyti í almennum orðatiltækjum, en að nokkru leyti um tiltekin atriði í skipunum kardínálans. Þar sem talað er hèr sèrstaklega um helgra daga leyfi, og einúngis eru undanteknar „hæstu hátíðir", þá sýnist það sem takmörkun á því, sem kardínállinn hafði sett, þar sem hann tók undan einúngis Ólafsmessu fyrri og tvær Maríumessur. Í kristinrètti Jóns erkibiskups kap. 30 (Norg. gamle Love II, 362) eru taldir upp tuttugu hinir hæstu hátíðisdagar, og í Kristinrètti Árna biskups sextán (Kristinr. Árna b. kap. 26), sem sè fremstir að helgihaldi, og því er kallað, að þeir mestu helgidagar sè „í sextán daga haldi".

Staðfestíngarbrèf Innocentius páfa er nú ekki til á Latínu, svo kunnugt sè, en útleggíng þess er til í fornum bókum, sem sumar virðast vera ritaðar í Noregi, en sumar á Íslandi; er prentað hèr sitt af hvorjum flokki, og kallað A og B. Ártal á brèfi þessu er sett hèr 1249, því allar afskriptir hafa „sjöunda ár" páfadóms Innocentii, en hann kom á páfastól seint í Juni 1243, byrjar því hans sjöunda ár í Juni 1249. Þetta ártal brèfsins telr og Finnr biskup og Paus, en Thorkelin (Dipl. Arnamagn. II, 34) hefir fyrstr sett ár 1248 og eptir honum Suhm (Hist. af Danm. X, 116), en síðan er það komið í lagasafn Norðmanna og sögurit.

---

### A.

Þær afskriptir brèfsins, sem virðast vera ritaðar í Noregi, eru elztar, og eru þær þessar: 1) í skinnbókinni Nr. 309 í Fol. í safni Árna Magnússonar, bls. 115—116, sem hèr er prentað eptir; þessi bók er rituð 1325 og er henni stuttlega lýst hèr fyr (bls. 557); eptir henni eða afskript hennar er brèfið prentað í Thorkel. Diplom. Arna-Magn. II, 34—36; og í Norg. g. Love I, 456—458; — 2) skinnbók, sem áðr hefir verið í bókasafni háskólans í Kaupmannahöfn og brunnið þar 1728; hana hefir Árni Magnússon skrifað upp í bók fyrir Bartholin, og er sú afskript enn til í bókasafni háskólans: Bartholiniana III [D], bls. 815—817; í þessari skinnbók virðist sem brèfið

muni hafa skrifað verið á fjórtándu öld, og er ritsháttr þar blandaðr, svo ekki er hægt að segja, hvort bókin muni hafa verið rituð í Noregi eða á Íslandi. — 3) skinnbók í konúngsins mikla bókasafni: Gamle kongelige Saml. Nr. 3262 í 4to, rituð í Noregi 1576 með skýrri hendi og bjöguðu máli; þar eru rituð Gulaþíngslög, og margar rèttarbætr, og seinast brèf Vilhjálms kardínála um rèttindi kirkjunnar í Noregi (Nr. 139 hèr fyrir framan) og þetta páfabrèf.

---

stadfestu bref innocencij papa vm helgar halld.[1]

JNnocencius paue þionn alra guðs þiona sænðir sinum wyrðuleghom brððrom. S[igurði]. Erkibiskupi ok hans lioðbiskupum. Qvæðiu Guðs ok sina. pauælegha blæðzsan.

Almateghær guð herra hæims himins ok jarðær hefuer með sinni hæilaghre forssio os vmfram værðlæikæ. sit lenn j. hændær fenget hær a jorðriki ok skipat ifuer allæn lyð kristinnæ mannæ at haua giæymð ok forsio firir salom þeirræ ok firir at sia með uare stunð ok starfe at þæir[2] mætte sæm minsz glðymæ guðs eðær. j. mote hans uiliæ gera með sinum afgiærðum.

1.[3] En var vyrðuleghær broðær viliamær sabinensis biskup. Legate pauæleghs settærs er ver sænðom till yðar þa uarð han þæs viss æfter þni sæm firir hanom uar kiært. At allær lyðær. j. Noreghs. konongs. riki. hafðu optlegha nauð ok skaða af þui at loghbogh þæiræ byðær freklegha at halðæ allæ hælghæ dagha. at ængi likn eða linan gerðiz a huær nauðsyn sæm at hænði kunni at koma ok þæt rðynði han ok sa sialfuer þa er hann uar .j. yðru lanðe staððær. Ok af þui at allær lyðær bað at han skulði nokora likn eða lausn a gera vm hælghæ ðagha halð þa lðyfði hann ok staðfæsti með [yð]vare samþykt at ef uyrkæ ðagha mætte æigi vinnæ sakir uanðrar veðratto. þa

---

1) fyrirsögn rauð á spáziu. Upphafsstafr blár og dregið i rautt.

2) þæira, *skb., og púnktað undir seinasta staf.*

3) tölurnar 1—6 eru á spáziu í skinnbókinni með hinni fornu hendi og indverskum tölustöfum.

skuldu þæir. j. guðs lðyfi ok hæilaghre kirkiu. silð at taka hðy sinu at hialpa. ok kornne ahælghum daghum ok aðrum bufanghum sæktælaust ok allu alðene. þo at logh eða lanðz uæniæ hafe her till mote uerit.

2. Han gerði ok nauðzlegha skipan ok haghlegha bæðe vm kirkiu tiunðir ok um hænnar æigur Rentor eða skylðir. bioðande ok firirbioðanðe af pauælegho ualðe er uer fenghom hanom at skipa sua. at lyðenom uære gaghn. j. biodanðe Rettynði ok firirbioðanðe Ranghynði þau er han fann. j. lanðeno æfter þui sæm jnuyrðilegha uatta hans bref er hann gerði þær vm. ok gaf þioð alre till þurfta ok hugganar.

Ok nu með þui at uer uilium ok æighum at varkynna ok værðulegha likn at uæitæ nauðum ok nauðzsynum alra kristinna manna ok sua at skipa með faðurleghre astsæmd. at skaðalaus se hueruitna hæilogh kirkiæ ok hænnær rettær vskærðær.

3. styrkium uer með pauælegho ualde alt þæt sæm hann gerði ok gaf. lðyfði eða lofaðe með skylðuleghom boðorðom ok sky[nsa]mleghom[1] ok staðfæstom vm allæ þa luti með vorn vars brefs obrigðilegha.

4. En vm hælghæðagha lðyui þa gerom ver þa græin a. at þæt lðyui skall halða ok hafa ef nauðsyn stænðær till ok nytsymð er .j. Ok þo hinar hæstar hatiðar vnðan taka.

5. En nu[2] firirbioðom ver huærium manne at briotæ þættæ hans lðyui ok skipan eða mote ganghæ fifleghre ofðirf[ð][3]. varo staðfæstinghar brefe. En ef nokkor ðirfisz þæt at gera með sinu ofsuese ok ofbælði. þa viti þæt víst at han skall stormælom firir suara ok guðz ræiði ok hæilaghræ postola petærs ok palls. ok alra hæilaghræ mannæ a sik taka.

War þætta bref gort ok gefet .j. líons borgh. Mariu mðsso æftan. a. vij. Are vars paua ðoms.

---

1) *stafirnir* nsa *eru settir inn með hendi Árna Magnússonar.*

2) á spáziu með sömu hendi, og tilvísan.

3) ð *bætt við yfir línunni, með hendi Árna Magnússonar.*

## B.

Hinar íslenzku afskriptir af brèfi Innocentius páfa eru í mörgum handritum, og teljum vèr hèr einkanlega þær, sem eru á skinnbókum: 1) Skinnbók í hinu konúnglega bókasafni í Kaupmannahöfn: Gamle kongel. Saml. Nr. 3269a í 4to, bls. 205—206. Þessi skinnbók er með sömu hendi, eða mjög líkri, og skinnbókin í Stokkhólmi, sem hinar íslenzku biskupasögur eru á, er hún því rituð nálægt 1360 (sbr. Bisk. s. I, formál. bls. XXX). Fremst í bókinni eru 11 blöð, sem hafa verið sett framanvið og rituð um 1660, en hin rètta gamla bók byrjar á bls. 23, og er þar á rituð Jónsbók (bls. 24—163); þar eptir fjórar rèttarbætr, og er ýngst þeirra hin svonefnda Herjólfs rèttarbót Hákonar konúngs (1318). Eptir þetta kemr Kristinrèttr Árna biskups með ymsum greinum úr kirkjulögum (bls. 174—204). Að síðustu er brèf Vilhjálms kardínála um helgidaga leyfi (sjá hèr næst á undan, Nr. 140 C) og hið eptirfylgjanda staðfestíngarbrèf Innocentii páfa (bls. 205—206), og er það seinast í bókinni og er prentað hèr eptir henni. — 2) Skinnbók í sama safni: Gamle kongel. Saml. Nr. 3269b í 4to; sú bók er rituð í sama mund og hin fyrri, og er alls 66 blöð (132 bls.). Þar er á fyrst Jónsbók, og vantar eitt blað framanaf; síðan eru rèttarbætr allmargar, og er ýngst þeirra brèf Magnús konúngs Eiríkssonar um kaupmanna skuldir (1330); þá er páfabrèf þetta er hèr fylgir (bls. 129—130); þá eru enn fáeinar lagagreinir, rèttarbætr og forsagnir, og er þarmeð hin forna hönd á enda, en með nokkru nýjari hendi (frá hèrumbil 1430), er ritaðr á seinasta blaðinu (bls. 132) hinn gamli sáttmáli Íslendínga við Hákon konúng. — 3) Hin fyrnefnda ágæta skinnbók Brynjólfs biskups í sama safni: Gamle kongel. Saml. Nr. 3270 í 4to, bls. 212—214, sem virðist vera rituð hèrumbil 1320—30 (sbr. Nr. 140 D, bls. 563 hèr að framan). — 4) Skinnbókin frá 1363, sem sumir hafa kallað Skarðsbók, í safni Árna Magnússonar Nr. 350 í Fol., bls. 242—243, og er bók þeirri lýst hèr áðr (bls. 444—446); eptir henni hefir verið rituð skinnbókin Nr. 138 í 4to í sama safni, hèrumbil 1500 (sbr. bls. 446. 559) og er þetta brèf þar á bls. 282, en eptir þessari bók er það prentað með latínskri útleggíng í Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. I, 259—261. — 5) Skálholtsbókin hin ýngri, frá hèrumbil 1400, í safni Árna Nr. 354 í Fol., bls. 34—35, og er henni áðr lýst (bls. 450—451). —

6) Skinnbók í sama safni Nr. 175 A í 4to, bls. 68—70, og er hún einnig rituð hèrumbil 1400; henni er og áðr lýst (bls. 448). — 7) Skinnbók í sama safni Nr. 160 í 4to, bls. 251—252, og virðist sú bók rituð vera hèrumbil 1480 (sbr. bls. 560 að framan).

Í „Norges gamle Love" I, 456—458 er prentaðr orðamunr eptir nokkrum af þessum skinnbókum, og slegið saman norrænum afskriptum og íslenzkum; er þar og orðamunr úr tveimr öðrum skinnbókum, annari í Lundi og annari í Stokkhólmi. Dönsk útleggíng er hjá Paus II, 170—171.

---

bref Jnnocencij pafa.[1]

JNnocencius pafui þion[2] allra guðs þiona. sendir sinvm virðulighum brędrum. Sigurði j niðarosi erkibiskupi ok aullum hans lioð byskupum. Q[veðiu] Guðs ok sína pafualigha blezan.

Almattugr guð herra heima ok himins hefuer meðr sini heilaghri forsio umfram uara uerðleika lien sitt i hendr feingit her a jarðriki ok skipat yfuir allan lyð kristinna manna.

1. En uarr uirðuligr broðir villhelmus sabínensis biskup legate pafualighs sętis er uer sendum til yðar. þa uarð hann þers uíss epter þui sem fyrir honum uar kęrtt at lyðr allr j noreghs konungs riki hafði optligha nauð ok skaða af þui at laugh bok þeirra byðr sua frekligha at hallda helga dagha at einghi skilldi likn eðr linan a uera huer nauðsyn sem at hendi kynni koma ok reyndi hann ok sá a sialfr þa er hann uar j yðru landi staddr. En af þui at lyðr allr bað hann at hann skylldi naukkura likn eðr lausn a gera. vm helgra daga halld þa leyfði hann ok staðfesti með yðarri[3] samþykt. at ef uirka dagha mętti eighi uinna saker uondrar ueðrattu þa skylldi þo j guðs leyfui ok heillagrar kirkio silld taka heyue sínu hialpa ok korne ok auðrum bv favngum ok ollu alldini sectalaust a helgum daugum þo at log ok lanzins uenia hafui her til moti staðit.

2. Han gerði ok nauðsynligha skipan ok hagliga bęði um kirkiu tiundir ok hennar eignir rentur ok skylldir bioðandi af pafualigho valldi er uer fengum honum at skipa þat er lyðnum ueri gagn j bioðandi rettendi en fyrir bioðandi rangendi þau

[1]) fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr rauðr ok dregið grænt í.
[2]) þjóna, *b. v. skinnbókin.* [3]) staðfesti, *b. v. skb., og er ritvilla.*

er hann fann j landinu eptir þui sem bref hans uatta þar vm er hann gerði ok gaf allri þioð til þurfta ok hugganar.

3. Ok nu með þui at uer uilium ok eighum at uarkynna ok uerðuligha likn ueita nauðum ok nauðsynium allra kristinna manna ok skipa meðr favðrlighri æstsemd at skaðalaus se hveruetna heilog kirkia ok hennar rettr vskaðr. þa styrkium uer meðr pæfualighu valldi allt þat sem hann gerði ok gaf lofvaði ok leyfði [meðr] skylldugum ok skynsamlighum [boðorðum] ok staðfestum alla þa hluti meðr uorn uars brefs vbrigðiligha.

4. En vm helgra dagha leyfui gerum uer þersa grein æ at þat leyfui skal hallda ok hafua er nauðsyn stendr til ok nyzemd er j at hafa ok þo hinar hęstv bætiðir vndan taka.

5. En nv fyrir bioðvm uer at briota þetta hans bref leyfui ok skipan eðr j moti at standa meðr mikla ofdirf[ð] vorv staðfestinghar brefui. En ef naukkurr dirfuiz þetta at gera meðr sinu ofsvęsi ok ofbelldi þa uiti hann uist at hann skal stormęlvm sęta ok guðz reiði ok hinna helgv postula petrs ok pals ok allra heilagra manna æ sik taka.

En þetta bref var gertt ok gefuit j le[o]ns borgh mario messu aptan hinn siðara æ siðnda æri vars pafua doms.

---

## 142. [um 1250]. á Helgafelli.

Skrá um landamerki staðarins á helgafelli, móts við Hlíð og Saura og fleiri jarðir, einnig um ítök staðarins og nokkurra annara jarða.

Eitthvert hið elzta skjal um Helgafells klaustr er prentað hèr áðr í safni þessu (Nr. 69, bls. 280—282); þar eru og nefndir ábótar þeir, sem fyrstir voru á Helgafelli, og þar á meðal Hallkell Magnússon, sem var þar ábóti um árabilið 1226 til 1244. Landamerkjaskrá sú, sem hèr fylgir eptir, ber það með sèr, að hún sè að nokkru leyti samin á hans dögum, en í þeirri mynd, sem hún er nú til í, er hún þó nokkru ýngri, og þó ekki miklu; er hún því hèr árfærð til hèrumbil 1250.

Skrá þessi er prentuð hèr eptir þrem handritum, sem eru öll í safni Árna Magnússonar, og eru þau: *a*) safn nokkurt af afskriptum af fornum skjölum úr Snæfellsnessýslu, sem hefir verið í dómabók Gísla lögmanns Þórðarsonar. Gísli var sonr Þórðar lögmanns Guðmundarsonar, og var lögmaðr sunnan og austan á Íslandi 1606—1613 (Safn til sögu Ísl. II, 129); hann

hafði þá um leið Stapa umboð, sem kallað var, og var að mestu leyti hinar fyrri Helgafells klaustrs jarðir, sem teknar voru undir konúng eptir siðaskiptin; þar með hefir hann og haft Snæfells sýslu, eins og þá var venja, að lögmenn höfðu sýslur og umboð að lèni, þartil það var bannað með konúngsbrèfi 15. Febr. 1737. Gísli fèkk Stapa umboð hjá Herluf Daa höfuðsmanni 1606, og konúnglega staðfestíng fyrir því 14. April 1607. Í dómabók hans voru hèraðsdómar í Snæfells sýslu um árin 1606 til 1614, og önnur brèf og gjörníngar frá sömu árum, er allt snerti Snæfells sýslu og Stapa umboð, sömuleiðis reikníngar og úttektir. Að síðustu voru í bókinni á 23 blaðsíðum yms skjöl, máldagar og landamerkjabrèf, sem Gísli hefir látið skrifa, og hefir Árni Magnússon skilið það frá bókinni, sem hann fèkk frá Þórði Pètrssyni á Hólmi, svo það er nú í safni hans Nr. 264 í 4to. Er þar rituð framanvið skýrsla um, hvernig á blöðunum standi, og hafa þeir staðfest þá skýrslu í Skálholti 26. Marts 1712: Þorleifr Arason, Gísli Bjarnason, Þorgils Sigurðsson og Páll Hákonarson; votta þeir og, að blöð þessi sè rituð með sömu hendi og sè víða í dómabókinni, og muni því vera þá hèrumbil hundrað ára gömul. Fremst á kverinu fyrir framan skjölin er þetta ritað: „Anno Domini 1606 hef eg Gijsle Þordarsson med audrum dugande monnum þennañ landamerkur mäldaga saman lesid og uppskrifa lated epter þeirri gamallre og miaug spialladre Bok sem frä Helgafelle er komeũ og mier war med Stapa afhendt. og það næsta gengid sem læst og welskyrtt verid hefur. sem hier Epter fylgier". Þetta mun lúta að öllum þeim skjölum, sem á kverinu standa, og sýnir að það er ritað ár 1606. Skrá þessi er þar rituð á bls. 13—15.

b) Önnur bók með afskriptum af fornum skjölum, sem mest hafa snert jarðir Helgafells klaustrs, eða Stapa umboðs jarðir og ymsar aðrar í Snæfellsness sýslu; hún er nú í safni Árna Magnússonar Nr. 252 í 4to, og er skrá þessi þar rituð á bls. 31—34, en bókin er alls 74 bls. Að nokkru leyti eru hèr sömu brèfin sem í hinu fyrra kverinu (*a*), en hèr eru þar að auki mörg fleiri brèf, eða ágrip af þeim, svosem um kaup ymsra jarða undir Helgafells klaustr o. fl. — Hið yngsta skjal, sem þar er, hefir verið gefið út 16. December 1649, svo bókin er síðar rituð, en þó varla eptir 1660. Í upphafi hennar stendr þessi titill: „Nokkrar máldaga copiur samanskrifadar eptir maldagabok Helgafells klösturs wm Jtök Nöckra Jarda sem liggia J Arnarstapa vmbode a Snæfellz Nese". Bók þessi hefir líklega verið skrifuð upphaflega handa einhverjum af umboðsmönnum Mattías Guðmundssonar, sem var sýslumaðr í Snæfells sýslu og umboðsmaðr fyrir Stapa umboði († 1671), og hefir hún svo farið ymsra á milli. 1687 átti hana Ögmundr Sigurðsson, sem hafði verið einn af umboðsmönnum Mattías sýslumanns; er það ritað aptast í bókinni, að bróðir hans Skapti Sigurðsson andaðist í Bjarnarhöfn 18. Oktbr. 1687 á 65. ári, og eptirlèt 8 börn, en Ögmundr andað-

ist, sem þar segir; 71 árs gamall í Juni 1690. Líklega hefir bókin síðan komizt í eigu Magnús lögmanns Jónssonar, og 5. Juni 1702 hefir tengdasonr hans Gísli Jónsson, sem þá bjó á Reykhólum (sbr. Safn til sögu Ísl. II, 141) talið sig eiganda hennar, en frá honum fèkk Árni Magnússon hana. Hann hefir síðan látið skrifa upp hèðan hvert brèf sèrílagi, sem á bókinni er, og er afskript af þessari skrá í safni hans af íslenzkum brèfa-afskriptum Nr. 1608. Orðamunr er hèr sumstaðar kominn af raungum lestri eða misskilníngi (t. d. „fagrastapa" fyrir „fuglstapa", o. fl.), og er öllu þesskonar sleppt, en það eitt tekið sem sýnist vera aðgæzlu vert.

c) Afskript af staðfestíng Jóns biskups (Halldórssonar) í Skálholti uppá þenna máldaga, sem hefir verið þar orðrètt ritaðr með staðfestíngunni. Þetta brèf Jóns biskups er gefið út í Skálholti tveim nóttum fyrir Ambrosius messu (2. April eða 5. Decbr.) 1332[1]. Sú afskript hefir verið rituð fyrir Árna Magnússon, eptir skrá frá Helgafelli með nýrri hendi („ex paginâ Helgafellensi recenti manu exaratâ"), sem Árni sjálfr vottar, og er afskript sú á fimm blaðsíðum í 8 bl. broti, en þar aptauvið er vottorð ritað, að þeir Asmus (!) Ásmundsson, Árni Narfason og Halldór Jónsson hafi sèð „gamla máldagabók á Helgafelli, svo látandi orð fyrir orð" sem í afskriptinni stendr; hafa þeir ætlað þar undir að rita nöfn sín, en það hefir aldrei orðið.

---

þessi[2] eru landamerki j milli helgafells ok hliðar lands. ok saura lands.

at desia garðr ræðr.

þaðan sionhending j foglstapa þann er stendr a holltinu[3] austr fra garðinum.

or foglstapa j molldflag firir sunnan til við taklæk.

or molldflagi j hafaholt. er stendr firir norðan lækinn.

þaðan i steina þa er standa firir norðan veginn[4] j fitia holltinu.

sunnan or desia garðinum sionhending j laxa.

þa ræðr laxa við hliðarmenn upp j hraundal.

þaðan ræðr a su er fellr firir austan hraun allt til eystra hrauns.

---

1) í brèfinu hefir staðið af ritvillu 1232.

2) Þessi fyrirsögn er í *b:* „Landamerke a millum Helgafellz og krijngum liggiandi jarda".

3) í holltinu, *b*. 4) *þann. c;* veigen̄, *sama, 1608;* veiiginn, *b;* voginn, *a.*

þa varðar lækr er fellr or kautlum enum syðrum.
or kautlum sionhending norðr i borgir a halsbrun.
af halsbrun sionheuding i iotunsfell.
þaðan sionhending firir sunnan borgir [til hvanna botna[1].
þaðan varðar hvanna þar til er hon fellr i a þa er norðan[2] af fialli fellr. en su a gætir til sinnar uppsprettu.
þa sionhending i fialltinda[3].

Staðrinn a einn veiði i laxa enne iðri.[4] ok sva i taklæk til mots við saura menn ok hliðar menn.

Meðr saura landi er manaðar beit i hliðar land. viij. kum ok. Lxxx. asauðar. ok [skal sitia at upp um selia brun. ok[5] um vatzdal til gotu þeirrar er upp liggr i hals. ok kross engi i hliðar landi.

þessi eru ummerki [um kross engi[6] i drapuhliðar iorð neðan fra reiðgotum i milli þrongva lækiar ok bligshollts ok upp i þverlæk. ok þaðan i vorðu þa er stendr a hollti.

Engi a staðrinn at helgafelli i hliðar landi. með ummerkium. ræðr hollts ende firir utan. þaðan sionhending i dy hit mikla.

[7]J millum helgafells ok grisahvals. at grisahvals land tekr ofan til markhollts. ok þar sionhending or holltinu i ana i millum. Fiska veiði eigu grisahvals menn at helmingi firir landi sinu við hliðar menn. Grisa hvall a veiði i enni ytri a firir þvi landi at helmingi við backa menn.

Eigi skulu backa menn hafa fleira fe en. xij. kyr. griðung ok Lxxx asauðar. hafa selfor i [gautstaða grof[8]. ok beita i annat hvart mal inn yfir a i sviðning. meðan þeir eru i seli. vera i seli til olafs messo fyrri. Backa menn eiga þriggia stoðhrossa haga[9] i græna blið.

þessi merki sagði barðr kollason ok steinn hafþorsson. hallbiorn þoralfsson ok þoroddr þorarinsson. þetta var giort um daga hallkels abota.

---

1) *frá* [ i Hvannár botna, *b. c.* 2) norðr, *b.*
3) fugltinda, *b*; fialla tinda, *c.* 4) = innri, *b. c.*
5) *frá* [ skulu Sǫra menn sitia at um daga. upp (um v.), *b.*
6) *frá* [ i krossnes eingi, *b.*
7) Landamerki ä mille Grijsaholz og Helgafellz, *fyrirs. í b.*
8) *frá* [ gautstaði, *b.* 9) beit, *b.*

J millum grisahvals ok selialands helgfellinga ræðr steinn hinn mikli. ok þaðan sionhending til anna a tveggia vega[1].

J millum helgafells ok backa lands ræðr laxa[2] allt ut i sio. ok upp þar til er grimsa fellr i laxa. þa grimsa þaðan fra til lækiar oss þess er fellr or molldgili. [þvi er[3] marksins gætir. or gilinu i hofða þann er stendr næstr grims skarði.

J millum helgafells ok hofstaða ræðr sionhending or prestfalli [i norðan[4] a skaurðu holum. ok i annan stað ræðr reiðgata fra prestfalli ofan[5] til hofstaða gagnvart fiarðar botni. vaðill i hofstaða vogi[6] ræðr merkium millum helgafells ok hofstaða allt sem fiarar lengst ut.

J millum helgafells ok ogrs lands ræðr kellda su er fellr i miofafiarðar[7] botn. firir austan. or kelldu botni sionhending i vorðu þa er stendr a skaurðu holum. or vorðu i saurhola.

[8]J millum Augrs ok grunnasunds ness ræðr hagagarðr norðan[9] fra sæ upp til miofafiarðar. en miofa fiorðr[10] ræðr millum helgafells ok grunnasunds ness. [j fiarðar osinum ut ræðr þat diup er mest er ut[11] til skers þess er þar liggr firir. [en þat a halft hvarr[12].

---

## 143. [um 1250]. á þingeyrum.

Skrá um reka, sem Kár prestr Geirmundarson seldi, og þíngeyra klaustr eignaðist síðan að helmíngi.

Frumrit þessarar skrár er á skinnblaði í Nr. 279 a. í 4to í safni Árna Magnússonar, sem getið er áðr (Nr. 80, bls.

1) vegu, c; sionhendijng j arnar Baadar i . . . . (eyða), b.

2) nú Bakka-á (Staðarbakka-á). 3) frá [ þar til, b.

4) nordur, c. 5) frá [ vantar i b.

6) botni, b.

7) „hier af siest, ad Miofe fiordur er þad, sem nu er kallad Nessvogur". A. Magn. á lausu blaði.

8) Landamerke a mille Grunnasundznesz og øgurs, fyrirsögn í b.

9) nordur, b. 10) miofe fiordur, c.

11) frá [ Enn þat diup sem mest er j firðinum rædur wt ad Osum, b.

12) frá [ en þat [eiga, b. v. A. M.] halft hvarer, c; Eiga þad hällftt huorer, b.

304—305), og er hún ritnð þar á bls. 15, næst á eptir rekaþætti úr Grágás, sem er á blöðunum þar á undan. Þó er höndin á þessu töluvert ýngri en á rekaþætti, og er það varla ritað hèr fyr en á fjórtándu öld, og á þann hátt, sem það væri ritað eptir fornri skrá, og verið hætt í miðju kafi. Öðrumegin á sama blaðinu er skrá um kristfè í Vatnsdal, sem gaf Karl hinn auðgi (hèrumbil 1300); en þessar skrár eru svo stuttar, að þær fylla ekki meira en þriðjúng ofan af blaðinu, því þessi skrá er rúmar tólf línur, og er allr neðri hlutinn af blaðinu skorinn burt; þó er að sjá, sem skrár þessar hafi aldrei lengri verið en þær eru nú. Árni Magnússon hefir látið skrifa upp rekaþáttinn og tvær hinar nefndu skrár sem allra nákvæmlegast eptir skinnbókinni, og er þessi skrá þar á bls. 15 í því kveri (A. Magn. Nr. 279 b. í 4to). Önnur afskript af þessari skrá, með hendi Árna Magnússonar sjálfs, er í hinu íslenzka afskriptasafni Árna Nr. 501.

Um þá menn, sem í skránni eru nefndir, er ekki kunnugt, að því fráteknu, sem Kár múnkr Geirmundarson og Eyjólfr sonr hans eru nefndir í sögum vorum, því báðir þeir voru merkir menn á sínum dögum. Kár múnkr er nefndr Geirmundarson í sögu Rafns Sveinbjarnarsonar kap. 19 (Bisk. s. I, 674. 675); hann átti Arnleifu, dóttur Jóns Húnrauðarsonar, af hinu svo nefnda Húnrauðlínga kyni, sem var komið frá Ævari gamla landnámsmanni í Lángadal og taldi ætt sína til Haralds konúngs gullskeggs í Sogni (Landn. 3, 5: Ísl. s. I, 185—186). Snemma á þrettándu öld voru Húnrauðlíngar í mesta blóma í Húnavatnsþíngi, og voru þá mjög fjölmennir, því Sturlúnga saga segir þeir hafi verið í hverju húsi um þann tíma (Sturl. 4, 20: II, 38). Kár hefir átt miklar eignir í vestrhluta hèraðsins, sem sjá má af skrá þessari, því hún telr einúngis reka sem hann hefir átt á jörðum í Hrútafirði, Miðfirði og á Vatnsnesi, og er það ekki lítið á svo litlu svæði. Kár mun hafa selt eignir sínar og ráðstafað þeim þegar hann gekk í klaustr, og hefir það verið fyrir 1213, því þá er hann kallaðr múnkr, og hefir hann án efa verið í klaustri á Þíngeyrum, og verið þá gamall (sbr. Nr. 97, bls. 370). Hann hefir verið mikill vinr Rafns Sveinbjarnarsonar á Eyri í Arnarfirði (Rafnseyri), því eptir dauða hans sendi Þorvaldr Vatnsfirðíngr boð til Kárs, að gánga um sættir við frændr Rafns; fór þá Kár vestr og gekkst fyrir sættafundi á Þíngeyri, en Þórðr Sturluson gjörði um málið (Rafnss. kap. 19; Sturl. 4, 18: II, 35). Eyjólfr, son Kárs múnks og Arnleifar, var hinn hraustasti maðr, og er víða nefndr í Sturlúngu og í sögum Guðmundar biskups, því hann sýndi biskupi hina traustustu og tryggustu fylgð til dauðadags, og fèll í Grímsey í liði biskups 1222. Eyjólfr Kársson bjó fyrst á Breiðabólstað í Vatnsdal, en síðan fór hann vestr í fjörðu, og var með sonum Rafns Sveinbjarnarsonar á Eyri, og átti Herdísi systur þeirra.

Bjuggu þau fyrst á Stokkum á Rauðasandi, en síðan keypti hann Flatey á Breiðafirði, og bjó þar meðan hann lifði.

---

Þerssa reka eiga þeir brandr jonsson ok geirmundr lytings son.

a backa i hru|tafirdi. hual halfan uid landmenn.

a karastodum fiordung uid landmenn.

J skardi | helming i hual uið land menn.

ad sauda dals a helming i hual uid land menn. |

a bergstodum helming i hual. ok sex uætter. j odrum hluta.

ad stopum huarum | tuegium. fiordung i hual.

a illuga stodum niu vætter j hual tuitogum ok | leingra.

a midri sidu til gnystada þridiung i hual.

J aruik. helming i hual. |

at tiorn siettungr.

a flatnefs stodum helmíngr.

J saurbæ helmingr. |

J uik attungr i hual.

at uallða læk. attungr.

at osum þrir hluter | i hual ok. vi uætter.

Ok fyri þessum londum ollum eiga þeir þetta [i][1] huolum | uid land menn sem[2] nu er talið. Ok uardueizlo skotmannz h[luta nema hann[3] | komi til sialfr.

En reka þessa selldi kaʀ prestr ok munkr [Geirmundarson[4] | faðir eiolfs. er fell i Grims ey.

Þessa reka alla halfa a n[u þingey]|ra[5] klaustr ok[6] . . .

---

1) fúnað úr blaðinu. 2) tvískrifað á skinnblaðinu.

3) *frá [ dottið úr blaðinu af fúa. Árni hefir getað lesið:* . . . a nema hann.

4) *frá [ dottið úr af fúa; Árni hefir getað lesið* . . . . undars., *en hefir fyllt ekki rètt í eyðuna og lesið:* Guðmundarson.

5) það sem er i [ ] er nú dottið úr blaðinu af fúa.

6) meira hefir hèr aldrei ritað verið, en skorið er neðan af blaðinu allt upp undir þessa línu.

## 144. 25. Februar 1253. i Perugia.

Innocentius páfi hinn fjórði staðfestir skipanir fyrirrennara sinna um erkibiskupsdæmi í Niðarósi, og um, hver biskupsdæmi þar undir skuli heyra.

Sigurðr tapsi, erkibiskup í Niðarósi, andaðist 6. Marts 1252, og hafði setið 21 ár að stóli. Eptir hann var þá sama vor kosinn til erkibiskups Sörli, kórsbróðir í Hamri, og ferðaðist til Róms, fèkk hann staðfestíng af páfanum og var vígðr um vetrinn eptir, líklega sama dag eða rètt áðr en þetta eptirfylgjanda páfabrèf er útgefið, en það er sjálft hèrumbil í sama formi eins og hin fyrirfarandi, frá Anastasius fjórða 30. Novbr. 1159 (Nr. 35, bls. 204 að framan), og Innocentius þriðja 13. Februar 1206 (Nr. 93, bls. 342). Ártalið, sem í brèfinu stendr, er talið 1252, og kemr það af, að Innocentius páfi fylgði hinu florentinska tímatali, og taldi byrjun hvers árs frá 25. Marts (sbr. bls. 344).

Þetta páfabrèf er prentað hèr eptir brèfasafni Norðmanna: Diplomat. Norveg. III, Nr. 3, bls. 3—6, en þar er það prentað eptir afskript Árna Magnússonar af frumbrèfinu, sem hefir verið fyrrum í skjalasafni hins konúnglega danska kansellíis. Þar með er hèr saman borin önnur afskript í safni Árna (B), sem sýnist vera tekin eptir frumritinu. Brèfið er einnig prentað eptir afskript Árna í Thorkelins Dipl. Arnamagn. II, 41—44; og ágrip eptir því í Grönl. Histor. Mindesmærk. III, 89—90.

---

Jnnocencius episcopus servus servorum dei, venerabili fratri [Serloni] Nidrosiensium archiepiscopo ejusque successoribus canonice substituendis in perpetuum.

Licet omnibus discipulis eadem ligandi et solvendi sit concessa potestas. licet unum præceptum ad omnes idemque perveuerit prædicandi evangelium omni creaturæ, velut quædam tamen inter eos habita est discretio dignitatis, et dominicarum ovium curam, quæ omnibus æqualiter imminebat, unus singulariter suscepit habendam, dicente ad eum domino: „Petre, amas me? pasce oves meas". Qui etiam inter omnes apostolos principatus nomen obtinuit et de fratrum confirmatione singulare a domino præceptum accepit, ut in hoc securæ posteritati daretur intelligi, quoniam quamvis multos ad regimen ecclesiæ contingeret ordinari, unus tamen solummodo su-

premæ dignitatis locum fastigiumque teneret, et unus omnibus et potestate gubernandi et judicandi onere præsideret. Unde et secundum hanc formam in ecclesia distinctio servata est dignitatum. Et sicut in humano corpore pro varietate officiorum diversa ordinata sunt membra, ita in structura ecclesiæ ad diversa ministeria exhibenda diversæ personæ in diversis sunt ordinibus constitutæ. Aliis enim ad singularum ecclesiarum, aliis autem ad singularum urbium dispositionem ac regimen ordinatis, constituti sunt in singulis provinciis alii, quorum prima inter fratres sententia habeatur, et ad quorum examen subjectarum personarum questiones et negotia referantur; super omnes autem Romanus pontifex, tanquam Noe in archa, primum locum noscitur obtinere, qui ex collato sibi desuper in apostolorum principe privilegio de universorum causis judicat et dispouit, et per universum orbem ecclesiæ filios in christianæ fidei firmitate non desinit confirmare, talem se curans jugiter exhibere, qui vocem dominicam mereatur audisse, qua dicitur: „Et tu aliquando conversus confirma fratres tuos". Hoc nimirum post beatum Petrum illi apostolici[1] viri, qui per successiones temporum ad gerendam curam sedis apostolicæ surrexerunt, indesinenti curaverunt studio adimplere, et per universum orbem[2] nunc per se nunc per legatos suos corrigenda corrigere et statuenda statuere summopere studuerunt. Quorum quoque vestigia subsecutus felicis memoriæ Evgenius papa antecessor noster, de corrigendis hiis quæ in regno Norwegiæ correctionem videbantur exposcere, et verbo ibi fidei seminando iuxta sui officii debitum sollicitus extitit. Et quod per se ipsum, universalis ecclesiæ cura obsistente, non potuit, per legatum suum Nicolaum, tunc scilicet Albanensem episcopum, qui postea in Romanum pontificem est assumptus, executioni mandavit. Qui ad partes illas accedens, sicut a suo patrefamilias acceperat in mandatis, talentum sibi creditum largitus est ad usuram, et tanquam fidelis servus et prudens multiplicatum inde fructum studuit reportare. Inter cetera vero, quæ ad laudem illic nominis dei et ministerii sui commendationem

1) *þann. leiðrètt eptir* B, *sem hefir* apostoloci; *í hinum prentuðu er rángt* apostoli.

2) þetta orð er fellt óvart úr í hinum prentuðu, en stendr í B.

implevit, juxta quod predictus prædecessor noster ei præceperat, palleum bonæ memoriæ Johanni antecessori tuo indulsit. Et ne de cetero provinciæ Norwegiæ metropolitani possit cura deesse, commissam[1] gubernationi[2] suæ urbem Nidrosiensem eiusdem provinciæ perpctuam metropolim ordinavit, et ei Aslohensem, Hamarcipiensem[3], Bargensem, Stavangriensem, insulas Orcades, insulas Fareie, Siterhaie, et Islasdcnses[4] et Grenelandiæ episcopatus, tanquam suæ metropoli perpetuis temporibus constituit subiacere, et eorum[5] episcopos sicut metropolitanis suis tam sibi quam suis successoribus obedire. Ne igitur ad violentiam constitutionis ipsius ulli umquam liceat aspirare, nos felicis recordationis Alexandri et Gregorii, prædccessorum nostrorum, Romanorum pontificum vestigiis inhærentes, eandem constitutionem auctoritate apostolica confirmamus, et præsentis scripti privilegio communimus, statuentes ut Nidrosiensis civitas perpetuis temporibus supradictarum urbium metropolis habeatur, et earum episcopi tam tibi quam tuis successoribus sicut suo metropolitano obediant et de manu vestra consecrationis gratiam sortiantur. successores autem tui ad Romanum pontificem tantum percepturi donum consecrationis accedant, et ei solummodo et Romanæ ecclesiæ subiecti semper existant.

Porro concesso tibi palleo, pontificalis scilicet officii plenitudine, infra ecclesiam tantum ad sacra missarum solemnia per universam provinciam tuam hiis solummodo dicbus uti fraternitas tua debebit, qui inferius leguntur inscripti. videlicet:

nativitate domini,

epiphania, coena domini,

resurrectione, ascensione,

pentecoste,

jn solennitatibus beatæ dei genitricis semperque virginis Mariæ.

natalitio bcatorum apostolorum Petri et Pauli,

---

1) commissionem, *B.*

2) *leiðrètt eptir hinum fyrri páfabrèfum frá* ***1154*** *og* ***1206****;* gubernationis, ***B*** *og hinir prentuðu.*

3) *þ.* e. Hamarcopiensem, *í Hamarkaupángi.*

4) *þann.* ***B****; þ. e.* Islandenses; Islasdensem, *afbakað, Thorkel. og Diplom. Norv.;* Isladensem, *afbakað, Grönl. Hist. Mind.*

5) *Thorkel.;* earum, ***B****, Dipl. Norv.*

jnventione et exaltatione sanctæ crucis,
nativitate beati Johannis baptistæ,
festo beati Johannis evangelistæ,
commemoratione omnium sanctorum,
jn consecrationibus ecclesiarum vel episcoporum,
benedictionibus abbatum,
ordinationibus presbyterorum,
jn die consecrationis ecclesiæ tuæ,
ac festis sanctæ trinitatis,
et sancti Olaui,
et anniversario tuæ consecrationis die.

Studeat ergo tua fraternitas plenitudine tantæ dignitati[s] suscepta ita strenue cuncta peragere, quatinus morum tuorum ornamenta eidem valeant convenire. Sit vita tua subditis in exemplum, ut per eam cognoscant quid debeant appetere, quid cogantur vitare. Esto discretione præcipuus, cogitatione mundus, actione purus, discretus in silentio, utilis in verbo. Curæ tibi sit magis prodesse hominibus quam præesse. Non in te potestatem ordinis set æqualitatem oportet pensare conditionis. Stude ne vita doctrinam destituat, nec rursum vitæ doctrina contradicat. Memento quia est ars artium regimen animarum. Super omnia studium tibi sit apostolicæ sedis decreta firmiter observare, et tamquam matri ac dominæ tuæ ei humiliter obedire. Ecce frater in Christo carissime, inter multa alia hæc sunt pallei, hæc sacerdotii, quæ omnia facile Christo adiuvante adimplere poteris, si virtutum omnium magistram caritatem et humilitatem habueris, et quod foris habere ostenderis, intus habebis.

Decernimus ergo, ut nulli omnino hominum liceat eandem ecclesiam temere perturbare, aut ejus possessiones auferre vel ablatas retinere, minuere, seu quibuslibet vexationibus fatigare. Sed omnia integra conserventur, eorum pro quorum gubernatione ac sustentatione concessa sunt, usibus omnimodis profutura; salva in omnibus apostolicæ sedis auctoritate. Si qua igitur in futurum ecclesiastica secularisve persona, hanc nostræ constitutionis paginam sciens, contra eam temere venire tentaverit, secundo tertiove commonita, nisi reatum suum congrua satisfactione correxerit, potestatis honorisque sui careat digni-

tate, reamque se divino iudicio existere de perpetrata iniquitate cognoscat, et a sacratissimo corpore ac sanguine dei et domini redemptoris nostri Jesu Christi aliena fiat atque in extremo examine districtæ subiaceat ultioni. cunctis autem eidem loco sua iura servantibus sit pax domini nostri Jesu Christi, quatinus et hic fructum bonæ actionis percipiant, et apud districtum iudicem præmia æternæ pacis inveniant. Amen. Amen. Amen.

Ego[1] Jnnocentius catholicæ ecclesiæ episcopus.

Ego Rainaldus Ostiensis et Velletrensis episcopus.

Ego Jacobus Portuensis et sanctæ Rufinæ episcopus.

Ego Stephanus Prænestinus episcopus.

Ego Stephanus sanctæ Mariæ trans Tiberim tit. Calixti presbyter cardinalis.

Ego frater Johannes miseratione divina tit. sancti Laurentii in Lucina presbyter cardinalis.

Ego Octavianus sanctæ Mariæ in via lata diaconus cardinalis.

Ego Petrus sancti Georgii ad velum aureum diaconus cardinalis.

Ego Willelmus sancti Eustachii diaconus cardinalis.

Ego Ottobonus sancti Adriani diaconus cardinalis.

Datum Perusii per manum Gvillelmi magistri scholarum Parmensis, sanctæ Romanæ ecclesiæ vice cancellarii .v. Kal. Martii indictione xi. jncarnationis dominicæ anno m. cc. lij pontificatus vero domini Jnnocentii papæ iiij anno decimo.

Efst i rönd brèfsins: Renouetur ad instar r. Jac. p.

---

## 145. 10. Marts 1255. í Neapel.

Alexander páfi hinn fjórði staðfestir ályktun lýðbiskupa erkibiskupsins í Niðarósi, að þeir skuli greiða af hverju biskupsdæmi nokkurt ákveðið gjald til styrks við erkibiskupsefni, þegar hann færi til Róms að sækja pallium og vígslu (subsidium pallii).

Sörli erkibiskup sat ekki lengi að stóli í Niðarósi, því hann andaðist um vorið (1. Mai) 1254; en um vetrinn eptir á jóla-

1) útundan nafni páfans er dregið upp i afskriptinni B innsigli hans.

föstu (7. Decbr. 1254) andaðist Innocentius páfi hinn fjórði í Neapel, og í sama mánuði var kosinn til páfa Alexander hinn fjórði.

Eptir Sörla erkibiskup var kosinn Einar smjörbakr, kórsbróðir í Niðarósi, sonr Gunnars grjónbaks, lögmanns í Þrændalögum. Einar var þá í París, og voru sendir tveir til hans af kórsbræðrum, að segja honum kosnínginn, og að Hákon konúngr vildi hann yrði erkibiskup, en þó höfðu þeir ekki leitað konúngs atkvæðis í því máli (Hákonar s. Hákonars. kap. 282: Fornm.s. X, 58). Einar hefir þá verið roskinn að aldri, því hann hafði þá fyrir fjórtán árum gefið syni Hákonar konúngs, Hákoni únga, konúngs nafn á Eyra þíngi. Einar erkibiskupsefni fór þegar til Róms, og þaðan til Neapels, til að hitta Alexander páfa, og var vígðr fyrst í Marts 1255.

Á brèfi páfans, því sem hèr fylgir, má sjá, að lýðbiskupar Niðaróss kirkju hafa haft fund með sèr, og ákveðið þar, að þeir skyldi allir greiða víst ákveðið gjald til að lètta kostnað erkibiskups síns, þegar hann þyrfti að fara til Róms að sækja vígslu og leysa pallium; og þess er einnig getið, að fyrirennari páfans, Gregorius, hafi staðfest þessa ályktun biskupanna. Um þenna biskupafund og ályktun þeirra er annars ekkert kunnugt, og ekki er heldr kunnugt það páfabrèf, sem er skýrskotað til um staðfestínguna. Hafi það verið Gregorius hinn níundi, sem hefir staðfest ályktunina, sem líklegast er, þá hefði hún átt að vera einhverntíma frá árunum 1227—1241, meðan hann var páfi, eða rèttara að segja, annaðhvort útaf vígslu Þóris erkibiskups (1227), eða Sigurðar (1230—31). Ekki vitum vèr heldr, hvort biskuparnir í Noregi hafi einir tekið þátt í þessari ályktun, eða og að biskuparnir af Íslandi o. fl. hafi verið þar með, og gat það verið, að Magnús Gizurarson Skálholts biskup hefði verið á þessu þíngi, þegar hann var utan eptir andlát Þóris erkibiskups (1230—1232); en það er grunr á, að hinir íslenzku biskupar hafi ekki tekið þátt í þessari samþykt, og verið lengi lausir við þetta gjald, því þess er fyrst getið á tíð Vínalda erkibiskups (1386—1402), að heimtað hafi verið slíkt gjald af biskupunum á Íslandi (Finn. Joh. Hist. Eccl. Island. I, 454, sbr. IV, 213). Gjald þetta var kallað *subsidium pallii*.

*Pallium* var í fornöld einskonar feldr, sem tíðkaðist meðal Grikkja, líkt eins og Rómverjar höfðu *toga*. Eptir að kristnir menn fóru að fjölga í vestrlöndum, er þess getið, að þeir hafi einkum gengið með *pallium*, en heiðíngjar með *toga*. Síðan var pallium kallað tignarkápa keisaranna, sem þeir báru þegar þeir voru í fullum skrúða. Þess er einkum getið um Karlamagnús keisara, að hann hafi haft *pallium*, þegar hann bar keisaralegan skrúða. En af því að það var aðalhugmyndin á miðöldunum, að hið andlega vald og hið veraldlega væri hvort um sig sett jafnt í mannlegu fèlagi — því þar af reis það stríð milli

þeirra, að hvort vildi vera öðru meira — þá leiddi það einsog af sjálfu sèr, að hinir æðstu foríngjar hins andlega valds tóku sèr hin sömu einkenni tignar sinnar, eða önnur þvílík, eins og hinir æðstu höfðíngjar veraldlegir, og páfinn í Róm, sem varð smásaman einvaldr kirkjunnar í vestrlöndum, eignaði sèr það vald, að veita hinum yppurstu höfuðsmönnum í kirkjunni, erkibiskupunum, hið sýnilega merki þessarar tignar, og þetta varð hið svo nefnda *pallium*. Fyrst framan eptir var það úr líni, en síðan var það gjört úr ull. Á Agnesarmessu (21. Januar) á hverju ári voru færð tvö lömb, hvít og vel þvegin, frá Agnesar klaustri, og lögð á altarið í kirkjunni, þegar súnginn var sálmrinn *Agnus Dei* („þú guðs lamb" o. s. frv.). Síðan voru þessi lömb fengin kórsbræðrum við Laterankirkju, en þeir fengu þau aptr í hendr subdjáknum, til að sjá um gæzlu þeirra. Ullin af þessum lömbum var klippt og blönduð við aðra hvíta ull, og þar úr voru unnin *pallia* handa öllum erkibiskupum; þegar þau voru unnin, færðu subdjáknar þau til Pètrskirkju, tóku þá kórsbræðr við, og lögðu þau undir háaltari yfir líkama postulanna Páls og Pètrs, og því var svo að orði kveðið að þau væri „tekin af líkama heilags Pètrs postula" (*de corpore Beati Petri sumpta*); síðan voru þau geymd, til þess þau voru lögð yfir hlutaðeigendr, þegar þeir voru vígðir. *Pallia* voru þá ekki nema hvít bönd eða borðar, þriggja álna lángir og þriggja fíngra breiðir, með rönd utan með og fjórum krossum á, tveimr purpuralitum og tveimr svörtum; voru þessir borðar lagðir á herðar hinum vígða, svo þeir náðu niðr á brjóstið, til að tákna það, að hinn góði hirðir leggi lambið sèr á herðar og beri það úr allri hættu (Ceremoniale Romanum.; Ruinart. De pallio archiepiscopali.; sbr. Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 451 athgr.). Fyrir *pallia* galzt til páfastólsins ærið fè, svo dæmi finnast til að fyrir það voru goldin 30,000 gyllina.

Páfabrèf þetta er hèr prentað eptir brèfasafni Norðmanna (Diplom. Norveg. I, Nr. 52, bls. 39—40), en þar er það tekið eptir afskript frá skjalaverði páfans Marini, eptir brèfabókum páfanna í Róm (Alex. IV. ann. 1. ep. 215).

---

Alexander episcopus, servus servorum Dei . . . .

Enaro[1] archiepiscopo Nidrosiensi . . .

Sicut fraternitas tua nobis exposuit, suffraganei Nidrosiensis ecclesie attendentes sollicite tenuitatem reddituum archiepiscopatus Nidrosiensis et magnos sumptus, quos propter itineris longitudinem subire oportet eos, qui pro tempore

1) *í brèfabókinni eða afskriptinni er misritað nafnið:* Gnaro.

ad ipsius ecclesie regimen eliguntur veniendo ad sedem apostolicam pro consecrationis obtinendo munere, capitulorum suorum accedente consensu, comuniter statuerunt, ut quilibet suffraganeorum ipsorum solvat Nidrosiensi archiepiscopo in subsidium huiusmodi sumptuum certam pecunie quantitatem.

Nos igitur tuis supplicationibus inclinati statutum huiusmodi ad instar felicis recordationis G[regorii] pape predecessoris nostri auctoritate apostolica confirmamus, et presentis scripti patrocinio communimus.

Nulli ergo . . .

Datum Neapoli VI. Idus Martii. anno .i.

---

## 146. 12. Marts 1255. í Neapel.

Alexander páfi hinn fjórði tilkynnir lýðbiskupum Niðaróss kirkju, að hann hafi staðfest kosníng Einars erkibiskups, og skipar þeim að heyra og hlýða honum sem yfirboðara sínum.

Þetta páfabrèf er prentað hèr eptir brèfasafni Norðmanna (Dipl. Norv. I, Nr. 53, bls. 40—41), en þar er það tekið eptir afskript frá skjalaverði páfans Marini af brèfabókum páfanna í Róm (Alex. IV. ann. I. ep. 216).

Sama dag hafa verið rituð tilkynníngarbrèf sama efnis til erkibiskups og kórsbræðra í Niðarósi, annað til klerka í Niðaróss biskupsdæmi og í bænum sjálfum Niðarósi, þriðja til alþýðu í Niðaróss biskupsdæmi og í bænum sjálfum, fjórða til Hákonar konúngs og fimta til biskupanna, þetta sem hèr fylgir; hefir samhljóða brèf án efa verið ritað til sèrhvers biskups, sem var lýðbiskup Niðaróss erkibiskupsdæmis, og þess vegna sitt til hvors biskups á Íslandi, Sigurðar Þèttmarssonar að Skálholti og Heinreks Kárssonar að Hólum.

---

Alexander episcopus, servus servorum Dei . . .
suffraganeis ecclesiæ Nidrosiensis[1] . . .

Ecclesia Nidrosiensis pastoris solatio destituta, canonici ejusdem ecclesiæ de futuri substitutione pontificis tractaturi, prout

1) *í brèfunum til biskupanna á Íslandi hefir án efa staðið:* episcopo Schalholtensi (Holensi) . . . .

moris est, convenientes in unum, spiritus sancti gratia invocata venerabilem fratrem nostrum Enarum[1] archiepiscopum tunc ecclesie predicte canonicum in suum archiepiscopum et pastorem unanimiter et concorditer elegerunt, nobis humiliter supplicantes, ut cum rectis dis . . . . ni . . . de . . dif . . . afferri electionem huiusmodi confirmare de benignitate solita curaremus.

Nos igitur presentatam nobis eamdem facientes examinari prout convenit diligenter, ac ipsam, quam invenimus de persona idonea canonice celebratam, de fratrum nostrorum consilio confirmantes ipsum eidem ecclesie prefecimus in archiepiscopum et pastorem, plenam sibi administrationem tam in spiritualibus quam in temporalibus concedentes, spe nobis proposita, quod cum idem sit litterarum scientia preditus ac morum nobilitate preclarus, auctore illo qui dans virtutes premia tribuit et gratiam gratie superaddit, predictam ecclesiam per diligentie sue studium grata in utrisque suscipiet incrementa.

Ipsum itaque, impenso sibi a nobis consecrationis munere, ad eandem ecclesiam cum plenitudine nostre gratie transmittentes, fraternitatem vestram rogamus et hortamur attente, quatinus prefatum archiepiscopum recipientes benigne ac honeste tractantes, ei tamquam metropolitano vestro plene ac humiliter intendatis et exhibeatis obedientiam et reverentiam debitam et devotam, eius salubria monita et mandata suscipiendo devote ac inviolabiliter observando.

Alioquin sententiam, quam idem rite tulerit in rebelles, ratam habebimus et faciemus auctore domino, usque ad satisfactionem condignam inviolabiliter observari.

Datum Neapoli .iiii. Id. Martii, anno .i.

---

## 147. [i Septbr. 1257]. á Hvanneyri.

Máldagi kirkjunnar á Hvanneyri í Andakíl, sem settr var með ráði Sigvarðar Þèttmarssonar, biskups í Skálholti.

Þess hefir verið áðr getið, að eptir andlát Magnús biskups Gizurarsonar í Skálholti og Guðmundar biskups Arasonar á Hól-

[1]) *brèfabókin eða afskriptin hjá Marini:* Gnarum.

um voru ónýttar báðar biskups-kosníngar Íslendínga, og tveir norrænir biskupar sendir til Íslands af Sigurði erkibiskupi og kapitulanum eða kórsbræðrum í Niðarósi (sbr. bls. 426—427 að framan)[1].

Sigvarðr biskup þèttmarsson, ábóti í Selju, hlaut Skálholts biskupsdæmi og kom út 1239, tók hann þá við biskupsdæmi sínu af Brandi presti Jónssyni, sem hafði stjórnað því síðan Magnús biskup andaðist (bls. 519) og var síðan á Íslandi samfleytt þartil 1250. það ár fór hann utan, og fèkk líklega Brandi presti, sem þá var orðinn ábóti í þykkvabæ í Veri, biskups-umboð sitt. þá var hann í Noregi árin 1250—1254, kom út um vorið 1254 og var síðan á Íslandi til dauðadags († 1268). Seinustu árin æfi sinnar var hann mjög brumr, og var Jörundi biskupi á Hólum falin á hendr umsjón Skálholts biskupsdæmis 1267, en hann setti Árna prest þorláksson, sem síðan varð biskup, honum til styrktar seinasta árið sem hann lifði. Máldagar þeir, sem eignaðir eru Sigvarði biskupi, verða því að vera samdir á tímabilunum 1240—1249 eða 1254—1265. Sigvarðr biskup var ekki í miklum metum á Íslandi, eptir því sem hinir fyrri biskupar voru, og var hann þó fastari þar á landi en Hóla biskupar landar hans, sem voru samtíða honum. Finnr biskup segir, að þeir hafi allir verið framar stjúpfeðr en sannir feðr heilagrar kirkju; Sigvarðr þótti smámunasamr, bverflyndr og fèsínkr. Til merkis um, að hann muni ekki hafa verið í mikilli virðíng, er það, að þegar hann var nefndr til gjörðar í málum þórðar kakala 1242, með Steinvöru Sighvatsdóttur á Keldum, þá var því við bætt, að ef þeim kæmi ekki saman skyldi Steinvör gjöra ein um málið (Sturl. 7, 8: III, 19). það er og til merkis um, að hann muni ekki hafa verið mjög ástsæll á Íslandi, að ártíð hans er ekki sett í annál svo sem annara merkra manna. Son átti hann einn, sem Tómas hèt, og var hann fulltíða maðr 1257; hann var í Rángár þíngi (Sturl. 9, 49: III, 278). Eptir aldri hans lítr svo út, sem hann hafi verið fæddr í Noregi áðr en Sigvarðr biskup fór til Íslands. Á Íslandi var boðorðum um einlífi klerka sterklega framfylgt um og eptir hans daga, eptir skipun páfanna, svo að enginn vígðr maðr, hversu lága vígslu sem hann hefði, skyldi mega kvongast. þó eru enn dæmi til um hans daga, að vígðir menn voru kvongaðir, sem Árni biskup neyddi síðan til að afsverja konur sínar, svosem var Egill Sölmundar-

1) Finnr biskup segir, að Hákon konúngr hafi sett hina norrænu biskupa til Íslands (Hist. Eccl. Isl. I, 104. 313 athgr. c), og má það til sanns færast að því leyti, að konúngr mun hafa verið bæði hvatamaðr þess, að norrænir biskupar voru sendir, og svo ráðið hverir sendir væri, en sjálfr hafði hann ekki vald til að skipa biskupa, heldr heyrði það erkibiskupi og kórsbræðrum hvers biskupsdæmis eptir kirkjulögunum.

son í Reykjaholti og fleiri aðrir (Árna bisk. s. kap. 12: Bisk. s. I, 695—696; sbr. Nr. 151 hèr á eptir).

það er reyndar ekki víst, hvenær Sigvarðr biskup muni hafa verið með að setja þenna máldaga Hvanneyrar kirkju, sem hèr fylgir eptir, en það höfum vèr fregnir um, að hann var á Hvanneyri um haustið 1257, og þessvegna er það sennilega ályktað, að máldaginn muni þá vera saminn. þess er getið, að þetta haust eptir höfuðdag varð sætt milli þeirra þorgils skarða og annara höfðíngja; komu þeir þorgils skarði og Sturla þórðarson að kvöldi 10. Septbr. að Dalsmynni í Norðrárdal, og gistu þar um nóttina, en um morguninn eptir (11. Septbr.) skildu þeir, og reið þorgils út á Hvanneyri. þar var þá fyrir Sigvarðr biskup, og tók hann vel við þorgilsi, því þorgils var hinn fastasti fylgismaðr Hákonar konúngs af öllum höfðíngjum á Íslandi meðan hann lifði; vildi biskup hafa hann einkum til að rètta hluta sinn við þórð Andrèsson og Oddaverja (Sturl. 9, 48: III, 276—277). þeir biskup og þorgils voru ekki saman nema nokkurn tíma dags, því þorgils reið um kveldið út á Kalastaði; þar af má ráða, að biskup muni þá hafa verið á umferð sinni um biskupsdæmið og farið upp eptir hèraði, en ekki átt samleið við þorgils. Af þessum ástæðum, sem hèr voru nefndar, er máldagi þessi heimfærðr hèr til Septembermánaðar 1257, því þá vitum vèr með vissu, að Sigvarðr biskup hefir verið á Hvanneyri 11. Septembr., og líklega dagana fyrir og eptir.

það er mjög óvíst, hver sá Snorri muni vera, sem hèr er nefndr, en væri það svo, að það væri Snorri Markússon frá Melum, sem síðan var lögmaðr († 1313), þá er auðsætt, að máldagi þessi getr alls ekki verið eldri en hèr er sett, því þá yrði menn að hugsa sèr, að Snorri hefði búið á Hvanneyri meðan faðir hans lifði og hèlt Melum, en síðan fluzt þángað eptir hann; en vera má og, að þessi Snorri sè annar maðr, sem vèr þekkjum ekki, og er það líklegast, vegna þess að svo er að sjá, sem þessi Snorri bóndi á Hvanneyri hafi verið kominn til aldrs, og átt þann son, sem hafi verið svo vaxinn, að gjöra mátti ráð fyrir hann mundi búa á Hvanneyri eptir föður sinn, en Snorri Markússon yrði of úngr til þess þetta gæti heimfærzt til hans, því hann mun líklega varla vera fæddr fyr en um 1230. það er kunnugt, að Snorri Markússon átti Helgu, dóttur Ketils prests þorlákssonar á Kolbeinstöðum og Halldóru, systur Gizurar jarls (Safn til s. Ísl. II, 32—33). Ketill prestr var lögsögumaðr 1259—1262 og andaðist 1273.

Að efninu til er þess helzt getanda um þenna máldaga Hvanneyrar kirkju, að Túnga er hèr talin einasta fasteign kirkjunnar, og kölluð 12 hundruð; það er líklega hin sama jörð, sem Árni Magnússon telr í jarðabók sinni til 10 hundraða, og segir vera einn hluta úr Hvanneyrar landi. Kirkjan á Hvanneyri hefir síðan eignazt fleiri jarðir, og komu þær undir kirkjuna 1420 uppí reikníng hennar, því þá galt Auðunn Salomonsson

fimm 12 hundraða jarðir, eða 60 hundraða í fasteign, til kirkjunnar, fyrir 45 hundruð, sem Gunnar bóndi móðurfaðir hans átti að gjalda henni í portions reikníng (sbr. Safn til s. Ísl. II, 174 athgr.). — Arnarhólmr, sem hèr er talinn kirkjunni í þessum máldaga, er ekki talinn í hinum síðari, lítr því svo út, sem sú eign hafi gengið undan.

Hin seinasta grein máldagans er ýngri en aðalmáldaginn, svo sem ljóslega má sjá, og gæti verið að henni sè bætt við á dögum Árna biskups Þorlákssonar; þá mun máldagi Sigvarðar biskups hafa verið ritaðr í máldagabók í Skálholti, eða í safn af stólsmáldögum, sem síðan hefir geymzt þar að nokkru leyti fram á daga Odds biskups, og eru það leifar af þeim, sem koma fram í afskriptum þeim er vèr nú höfum; en þareð þessi viðbætir máldagans verðr þó ekki með vissu eignaðr neinum, er hann hèr látinn fylgja aðalmáldaganum.

Hèr er prentað eptir máldagabókinni D12 í handritasafni Steingríms biskups í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, sem er rituð 1601 og er lýst hèr áðr fyr í safni þessu (Nr. 24, bls. 167—168). Máldagi þessi er þar ritaðr í hinum elzta kafla, á 73. blaði í bókinni.

---

Hvann eyre.

Mariu kirkia oc petrs postola oc tomas erche biskops oc marteins biskops. sv er stendr a hvann eyre a land j tungu. xij hundraþa land. oc þar halft[1] þriðia kugillde. oc halft kirkio hollt.

skog þann oc .v. hundraþ j kirkiv skrvðe.

þar liggia thil tiunder allar fyrir neðan forssa breckur.

Lyse tollr af ǫllum þeim bø[i]um er þangat er groptr. nema af eindriðastoðum.

prestr skal þar hafa iiij merkr kavps oc borðhalld sem bvandi meðan snorri byr eða son hans.

selfor j jndriðastaða land.

kirkian a her vmfram messv fot oc kalek. kluckur fiorar. þrenn alltara klæði oc silci hokul. tiolld vm alla kirciu.

oc arnar holm.

þetta er samit með raði sigvarðar biskups.

[Nu hefir siðan fengit verit thil kirkiu kelldna engi ok klocka ok halft kugilldi. ok eru nu full iij. ok torfskurðr j asgarðs land[2].

1) tvítekið í handritinu.

2) frá [ er ýngra en aðalmáldaginn, og gæti verið frá dögum Árna biskups Þorlákssonar.

## 148. 26. August [1258]. í Ási.

Máldagi kirkjunnar í Ási í Hálsasveit (Stóra-Ási), sem Sigvarðr biskup í Skálholti setti.

Um árið, sem þessi máldagi muni vera saminn á, verðr ekki sagt með fullri vissu. Vèr getum einúngis með vissu sagt, að Sigvarðr biskup hefir verið í Borgarfirði haustið 1257, og ekki ólíklegt hann hafi þá verið að byrja umferð vestr eptir hèruðum, en hann átti að fara yfir einn fjórðúng biskupsdæmis síns á ári. Það er því sennilegt, að Áss kirkju máldagi sè saminn annaðhvort sama ár eða árið eptir og Hvanneyrar máldagi hèr næst á undan, en líklegra er að telja árið eptir, sökum þess, að Ás mátti telja með Vestfirðínga fjórðúngi, meðan hann var samtengdr við Gilsbakka. Um daginn vottar máldaginn sjálfr, og þarf ekki að leiða um það getgátur.

Að efninu máldagans til er ekkert sèrlegt athugavert, nema það, að Ás kirkja er hèr samtengd Gilsbakka, eins og þegar var sagt, en ekki Reykholti, einsog á seinni tímum hefir verið, ef að bóndi vildi ekki hafa heimilisprest. Þetta var ekki torvelt í fornöld, því þá voru á Gilsbakka tveir prestar og djákn (Wilch. máld.). Þetta stóð svo fram eptir öllum öldum, að prestr að Gilsbakka skyldi sýngja að Ási á tilteknum helgum dögum, allt þar til á dögum Odds biskups Einarssonar, ár 1605, að kvartað var yfir því á leiðarþíngi á Sandatorfu í Borgarfirði, að örðugt væri að vitja prests að Gilsbakka vestr yfir Hvítá (Jón pr. Halldórsson í Biskupasögum). Þá gjörði Oddr biskup þá breytíng, að hann lagði Ás til Húsafells, og voru þessar báðar kirkjur sameinaðar með Kalmanstúngu til eins kalls, þartil konúngsbr. 21. August 1812 leyfði að leggja niðr Húsafell, lagði sóknina undir Ás, og gjörði þar þriðjúngar kirkju frá Reykholti (Lagas. Ísl. VII, 435—437), en Kalmanstúnga var þá lögð til Gilsbakka.

Hèr er sagt í máldaganum, að kirkjan eigi þriðjúng í heimalandi; það er því líklegt, að jörðin í Ási hafi upphaflega verið 60 hundraða, og að jarðabækurnar teli einúngis bændahlutann, þar sem þær telja dýrleika jarðarinnar 40 hundruð.

Um þá helga daga, sem hèr eru nefndir, skulum vèr geta þess, af því nokkur vafi leikr á um suma þeirra eptir daglegu máli manna á vorum tímum, að ymbrudagar eru allar sæluvikur, sem eru fjórar á ári og standa í almanaki; efsta vika er seinasta vika í föstu, sama og dymbilvika; páskavika er vikan eptir páska, en ekki fyrir páska, eins og sumir nú kalla; hin helga vika er vikan fyrir hvítasunnu (*hebdomada sacra* eða *septimana sancta*).

Máldagi þessi er hèr prentaðr eptir hinni sömu máldagabókinni frá Skálholti, sem opt hefir verið nefnd, og kölluð D12, í safni Steingríms biskups í stiptisbókhlöðunni í Reykjavík, bl. 118b —119 (sbr. Nr. 24 hèr að framan). Í niðrlagi mál-

dagans er upphaf á framtölu á gripum kirkjunnar, og sýnist sem það muni vera upphaf á viðbæti frá öðrum biskupi, sem vèr nú ekki vitum hvort verið hafi Árni biskup þorláksson eða aðrir; þessvegna fylgir það hèr aðal-máldaganum. Í Wilchins máldaga er tekinn orðrètt þessi máldagi Sigvarðar biskups, og hnýtt þar við lítilli grein, rètt viðlíka og hèr sýnist hafa verið til ætlað; þar af sjáum vèr augljóslega, að margir máldagar eða flestir í Vilchinsbók eru eldri en frá hans tímum, svo að hann hefir að mestu leyti látið safna í sína bók máldögum kirkna, sem ymsir fyrirrennarar hans hafa samið, og bætt að eins við suma þeirra, eða breytt þeim þar sem þurfa þótti.

---

as.

Kirkia j ase er helgvð gvðe almatkvm oc mariv drottningv andresi postvla oc blasio biskvpe oc ollvm gvðs helgvm monnvm.

þriðivngr j heima lande [liggr] þar til kirkiv oc heimamanna tivnd oc .vij. kvgillde oc tivnd af .vij. bøivm. af avgastoðvm. fra gilivm oc kollslæk. halse[1] oc vatne. af sigmvndarstoðvm oc refstoðvm. af þessum bøivm ollvm er oc at giallda .vi. alner til kirkiv a hveriv are oc halfer lyse tollar. en halfer til gilsbacka kirkiv.

þar er skyllt at syngia hvern helgan dag fra gilsbacka. oc alla ymbrv daga. jola tiðer. oc hina efstv vikv. paska vikv alla. [ok] hina helgv vikv. en bonde sa er þar byr skal giallda iiij merkr kavps preste. þeim er þangat syngr oc fæða annat hvart mann eða hest með honvm þegar vetr kemr.

Heimilis prestr skal þar vera. ef bonde sa vill er þar byr. eða eigi hann þriðivng j bve kirkiv hlvta.

þenna maldaga setti Sigvarðr biskvp þa er hann vigðe kirkivna .ij. nottvm epter Bartolomevs messo oc skyllt at hallda af ollvm þeim bøivm sem vnder liggia. fyrer vtan navðsyniar.

[Kirkian a innan sik. et cet[2].

---

1) *leiðr.;* halle, *handr.*

2) Hèr hefir byrjað ný grein, líklega úr öðrum máldaga; niðrlagsgreinin í Wilchins máldaga hefir upphaf svipað þessu.

## 149. [1258]. á Ökrum.

Máldagi Akra kirkju á Mýrum, sem Sigvarðr biskup í Skálholti hefir samið.

þessi máldagi er hèr árfærðr til sama tíma, eins og máldagar Sigvarðar biskups úr Borgarfirði, þareð líklegt er, að Sigvarðr biskup hafi farið smásaman vestr eptir á umferð sinni, og að máldagar hans, þeir sem nú eru til, sè samdir allir um sama mund. þó nafn biskupsins sè hèr skammstafað, er ekki efi á að máldaginn sè eptir hann, einsog sira Jón Halldórsson og Finnr biskup hafa sagt.

Að efninu til má geta þess, að Akra kirkju eru hèr eignaðir hálfir Hafrstaðir. Í Wilchins máldaga er hið sama, og Krossholts kirkju er eignað Hafrstaða land. Gísla máldagi eignar Akra kirkju hálfa Hafrstaði, en telr Krossholts kirkju enga jörð. Í jarðabókunum er ekki getið um neina bygða jörð Hafrstaði, nema í Kolbeinstaða hrepp, og eru þeir taldir þar kirkjujörð frá Krossholti; en Árni Magnússon segir, að á Lángavatnsdal sè nokkrar eyðijarðir, sem hafi eyðzt í Svartadauða (1401—3), og síðan er sagt að þær sè eignaðar ymsum kirkjum, og meðal þeirra nefnir hann Hafrstaði (Johnsen. Jarðatal bls. 129 athgr. 10). það virðist því, sem þeir Hafrstaðir, er Akra kirkja átti hálfa og bèr eru nefndir, hafi verið Hafrstaðir á Lángavatnsdal.

Eiríkstaðir eru nú taldir eyðihjáleiga með Ökrum, en Ísleifarstaðir eru síðan kallaðir Ísleifarhús, og nú Ísleifstaðir, og taldir bygð hjáleiga frá Ökrum. Hvalseyjar hafa verið bygðar þegar þessi máldagi var saminn, en á síðari tímum hafa þær verið taldar óbyggilegar vegna vatnsleysis og fjarlægðar.

Eptir máldaga þessum þótti lengi vera vafasamt um rèttindi Akra kirkju og Krossholts, þartil Stephán biskup Jónsson skar úr því með brèfi 1502, hverir bæir skyldi heyra til hvorri kirkjunni. þareptir fèll Krossholts kirkja niðr, og lá niðri um hríð; skipti þá Gísli biskup Jónsson með brèfi 1560 sóknarbæjum milli Akra og Hítarness, en með brèfi 27. Decbr. 1565 skipuðu þeir Páll Stígsson höfuðsmaðr og Gísli biskup að byggja upp aptr litla kirkju í Krossholti, og lögðu þángað tilnefnda sóknarbæi (Lagas. Ísl. I, 90—92).

Máldaginn er prentaðr hèr eptir hinni fyrnefndu máldagabók frá Skálholti í safni Steingríms biskups í stiptisbókhlöðunni í Reykjavík, D12, bl. 69—70 (sbr. Nr. 24 að framan).

---

a okrum.

Marie kirkia oc petrs oc clementis er at a'krvm.

hvn a halft land heima oc .vj. kyr. oc .cc. frið oc hafrstaðe halfa.

tiolld vm alla kirkiv. klvckvr .vj. alltara clæðe .ij. oc mvnnlog.

her skal vera heimilis prestr oc svngit[1] tolf manaða tiðer oc j skvtils ey[2] songr. oc hafa .iiij. merkr thil þessa alls saman.

prestr at a'krvm skal hafa heytolla af .vj. bø[i]vm. hann skal oc annaz navðsyniar allar fyrir svnnan calba lǫc. oc ef navðsyn krefr allt thil hitar ar.

Bondi sa er þar byr at a'krvm skal hafa tivnd allra heimamanna oc af eireks stoðvm oc isleifar stoðvm oc ' or hvalseyivm.

Her skal grafa alla heima menn oc fatæka menn þa sem hingat er hægra at færa en j krosshollt. af .ıx. bø[i]vm fyrir svnnan hitar a. þeim sem vnder krossholltz kirkiv liggia. skal færa lik til akra oc grafa þar. iafnan er ei er vel fært til krossholltz. skal oc þriðivngr leggiaz til acra þeirra lvnnenda sem fylgir likum af þeim bø[i]vm hvert sem færð erv.

Her skal grafa af eiriks stoðvm oc jsleifar stoðvm. oc or huals eyium. oc þaðan lysi toll. oc or vogi oc or skvtils ey.

Herra S[igvarðr] biskvp hefir samit þenna[3] maldaga þa er hann vigði kirkivna at ǫcrvm.

---

## 150. [1259]. á Skarði.

Máldagi Skarðs kirkju á Skarðströnd, [sem Sigvarðr biskup í Skálholti setti].

Máldagi þessi er prentaðr hèr eptir máldagabókinni frá Skálholti, í safni Steingríms biskups í stiptsbókhlöðunni í Reykjavík, D12, bl. 106 (sbr. Nr. 24 að framan).

Fyrir Skarðs kirkju eru til allmargir fornir máldagar, en þegar þeir eru bornir saman er auðsætt að þessi er hinn elzti; þó mun hann ekki vera svo forn, að hann verði heimfærðr til tíma Magnús biskups Gizurarsonar, og er hann því hèr eignaðr

---

1) sung̅, *D12.* 2) Skötils ey, *D12.* 3) þetta, *D12.*

Sigvarði biskupi, að hann er eldri en sá, sem eignaðr er Árna biskupi Þorlákssyni, en hann er árfærðr til 1259 vegna þess vèr vitum með vissu, að Sigvarðr biskup fór um Borgarfjörð að sunnan 1257, og teljum þá líklegt hann hafi farið vestr um og verið í Breiðafirði 1259.

Um það mund, sem þessi máldagi ætti að vera saminn, bjó á Skarði Snorri prestr Narfason, sem kallaðr var Skarðs-Snorri. Hann var sonr Narfa Snorra sonar lögsögumanns Húnbogasonar (Safn til sögu Ísl. II, 25). Þeir lángfeðgar bjuggu allir á Skarði. Skarðs-Snorri prestr andaðist 1260.

---

Skarð.

Kirkia at Skarði a land halft. geirmundar staði halfa. fiorv[1] halfa. Svina sker halft. avrfiris eyiar[2] halfar. olafs ey halfa. Rvfeyiar[3] allar oc rvfeyiar holm. norðr sker. Sigriðar holmi. Kongvrs ey. lang ey. Svarfaðar klett. half[an]. breckv halfa a enni með reka.

Kyr .xv. xxx. asavðar. griðvngr. hross. .ij. skip sexært. þritvgr notr kophelldr.

Kaleka .ij. mikla. ij. messv klæði með pellz hǫklvm. oc onnvr tvenn með hoklvm grǫnvm oc blam. oc ein feminnst með lereptz hǫkli. pellz kantara kapa oc onnvr af fuztani[4]. sloppa .ij. fiogr alltara [klæði] af pelli oc .ij. af fuztani. ij. af silki. biarn fell. tiolld forn umhuerfis kirkiu. steinklæði. glerglvgga. ij. kerti stikur .iij. mvnnlogar .ij. litlar. oc hin þriðia nockrv mest. vatn karl felitill. gloða ker. klockvr .x. með biollvm. marivskript. einn smelltan kross oc nockvrs (!) af tre. las oc kistv. merki ·.ij. oc nær tolf manaða tiðir j bokvm oc svmar fvllari.

fontr[5] oc klæði með. stola .ij. bakstr jarn tvenn felitil.

Þar liggr til kirkiv tivnd oc osttollr oc lysi tollr af vi. bøivm oc .xx. með heima bœ. en j davgvrðar nesi skal heima lysi tollr.

---

1) þ. e. Frakkanes fjara, þar var hrognkelsa veiði og sölvatekja.

2) avrfyris eyiar, *D12.* 3) Raufeyiar, *D12. hèr.*

4) fuztanz, *D12.* 5) poñtur, *D12.*

## 151. [um 1260].

Alexander páfi [hinn fjórði] skipar erkibiskupinum í Niðarósi og hans lýðbiskupum, að hafa sem bezta tilsjón um siðferði hinnar andlegu stéttar, og einkum að gæta þess, að prestar haldi ekki frillur.

Brèf þetta er prentað hèr eptir afskript, sem er í hinu mikla safni af afskriptum fornbrèfa, sem kallað er Langebeks Diplomatarium í hinu konúnglega leyndarskjalasafni, og er. þar árfært til „circa 1180".

Vafi sá, sem á er um hvenær brèf þetta sè út gefið, er sprottinn af því, að það vantar bæði ár og dag, og líklega töluvert af niðrlaginu, hafa menn svo ekki annað en nafn páfans til að álykta af, hvenær brèfið sè útgefið, og veltr það á þeim tveimr páfum: Alexander þriðja og Alexander fjórða.

Alexander páfi hinn þriði var í postullegu sæti frá því 1159 og til 1181; honum er brèfið eignað í Langebeks safni, sem áðr var getið, og hjá Suhm, í Historie af Danmark VII, 601, og viðrkennir hann. þó, að brèfið geti eins vel verið frá Alexander páfa hinum fjórða, sem það er hèr eignað, og sem ríkti frá 1254 til 1261.

Ástæðurnar til þess, að brèfið er hèr eignað Alexander hinum fjórða, en ekki hinum eldra Alexander, eru þær helztar, að til eru brèfasöfn Alexanders þriðja, og þar á meðal til erkibiskups í Uppsölum, þar sem talað er um ymsa galla í kristnum rètti, sem lagfæríngar þurfi, svo sem um: að leikmenn megi ekki ráða andlegum eignum; að þeir megi ekki sitja í dómum yfir mönnum af andlegri stètt; að járnburðr og einvígi sè bönnuð, o. fl. (Mansi Collect. Conciliorum XXI, 933; Liljegren, Diplomat. Svec. I, 76), en þetta brèf er þar ekki á meðal, og engin þau brèf, sem tala um hjákonur presta. — Önnur ástæða er sú, að á tíma Alexanders hins þriðja var bann móti hjónabandi klerka ekki komið í fullt gildi í Niðaróss erkibiskupsdæmi, en þá fyrst varð það altíðkað að klerkar hefði frillur, þegar það var orðið almennt að enginn vígðr maðr mætti kvongast. Frilluhald klerka var fyrst komið svo uppúr á dögum Alexanders fjórða, að það var orðið til hneykslis, og var þá farið að banna það í ályktunum á kirkjuþíngum og í biskupa-statútum í ymsum löndum, svosem á Þýzkalandi á þíngi í Kolni 1260 (Mansi XXIII, 1012 o. s. frv.); í Frakklandi á þíngi í Cognac (Concilium Copriniacense), sem haldið var 1260 eða 1262 (Mansi XXIII, 869); á Englandi í statútum Egidius biskups í Salisborg 1256 (Mansi XXIII, 907 —908). Síðan kemr þetta atriði fram í ályktunum á mörgum kirkjuþíngum. Á Íslandi sèrílagi finnum vèr að vísu, að Þorlákr biskup hinn helgi hèlt því fram, að prestar skyldi halda einlífi, og hèlt það einnig sjálfr, en margir prestar voru eptir það eiginkonur, og seinast Magnús biskup Gizurarson. Árni biskup Þor-

láksson fylgði því harðara fram, en nokkurntíma áðr hafði verið, að enginn vígðr maðr mætti vera eiginkvæntr, hversu lága vígslu sem hefði, og eptir hans daga koma fram í statútum á Íslandi bönn á móti því, að prestar hafi frillur, helzt á fjórtándu öld. Allt bendir því til, að þesskonar bönn frá páfanum muni varla hafa komið til Íslands, eða til Niðaróss erkibiskupsdæmis, fyr en hjónabönd presta voru allskostar niðr lögð, og hitt orðið alvenja, að prestar hefði frillur við hönd sèr, sem þeir kölluðu meðhjálpir sínar, og þetta hefir varla verið orðið almennt fyr en um 1260.

Þess er að geta, að þar sem nefndir eru fremst í brèfinu prelátar, sem sè „exempti" (undan skildir) eða „non exempti" (eigi undan skildir), þá þýðir hið fyrra þá ábóta, sem voru undan þegnir valdi biskupa og voru beinlínis undirgefnir páfanum, en hinir síðartöldu eru þeir, sem voru undir valdi biskupanna. Á Íslandi voru engir af hinum fyrnefnda flokki, það menn vita til.

---

Alexander episcopus, servus servorum Dei, venerabilibus fratribus Archiepiscopo Nidrosiensi eiusque suffraganeis, nec non dilectis filiis Abbatibus aliisque Ecclesiarum prælatis, ordinariam in subditos obtinentibus potestatem per Nidrosiensem provinciam constitutis, tam exemptis quam non exemptis, Salutem et apostolicam benedictionem.

Si vere [ut] dicimur pastores ovium Christi sumus non inpavido ferre possumus terribiliter intonantia nostris sensibus contra pastoralis curæ negligentiam sacrarum oracula scripturarum, quæ detrimenta Dominici gregis in præsidentium desidiam retorquentes minaciter inclamant pereuntium sanguinem de Præpositorum manibus exigendum, quis nostrum non contremiscat et paveat, dicente ad pastores gregis sui Domino per prophetam: „vos dispersistis gregem meum, ejecistis et non visitastis eos, ecce ego visitabo super vos vestrorum malitiam studiorum", pavet utique ad hos increpationis interminationisque divinæ sermones, idem ipse Propheta dum dicit: „A facie Domini et a facie sanctorum verborum ejus conturbatum est cor meum in medio mei. Contremuerunt omnia ossa mea". O formidulosa speculatorum, quos populo suo dispensatio divina præposuit, et periculosa conditio, si præsumtorie res agatur, si eo modo in sollicitudine commissa non militent, quo summus præcepit Imperator, si sibi et universo gregi, cui

Deus eos custodes et episcopos constituit, non attendant, hiis præcipue horrendum erit illud humanorum operum finale judicium omnibus in commune tremendum, in quo etsi unusquisque proprii de corporis actionibus districto sit subjiciendus examini, ut recipiat prout gessit, nobis tamen, quibus populi cura commissa est, non sufficiet innocentia sine cumulo justitiæ subditorum, quam negligentis ministri pigritiam persequens austerus injunctæ severitatis exactor delicta plebis inpinget relatui prælatorum; si enim qui de unico talento sibi credito sacri foenoris non reportabit augmentum tanquam inutilis servus et piger, justæ dampnationis periculum sustinebit, quam durum putatis judicium fiet illi, qui commissum sibi pluralem numerum viventium talentorum non solum integrum neglexerit reddere conditori, verum etiam in illa districtione probabitur dampnum Domino suo in bonis, quæ ab ipso multiplicanda susceperat, intulisse; præterea fratres et filii, qui fasces pontificalis officii et ecclesiastici ministerii subeundo defixistis, pro animabus creditis apud extraneum manus vestras festinare quæsumus, liberati ab illo, qui supremus est actor et judex, nullum nobis de allegationis nitore præsidium relicturus, discurrite; nec cessetis, ne fiant animæ vestræ pro illis, quos in custodiam sub tanto vadimonio suscepistis; excitet vos summi Pastoris amor, qui vos pascendis rationabilibus ovibus dedicavit; exterreat corda vestra et torporis sompnum; depellat ab oculis metus periculi eis procul dubio, qui supra greges suos vigiles non observant excubias imminentis. Sed ecce lethalis incuriæ sopor pastoralis curæ vigilantiam, quod gementes dicimus, oppressisse videtur in plurimis, prout testatur nimia de plerisque regionibus clamans christiani populi corruptela, quæ cum deberet sacerdotalis antidoti curari medelis, invalescit, proh dolor! potius ex malorum contagio, quod procedit a clero, ita ut alicubi verum sit quod prophetica querela testatur: „Factus est", inquiens, „sic populus sicut sacerdos"; malitia namque dierum labentium, quæ cum tempore corrupit, et mores dante quam plurimis ex impunitatis audacia semper in deteriora proclivem in frænis licentiæ libertatem, nonnulli clerici præcipiti lubricæ voluptatis arbitrio laxas committentes habenas, post carnis suæ concupiscentias habuerunt, et relegata penè penitus à

conversatione vitæ suæ clericalis munditiæ honestate, tenent in conspectu etiam populi concubinas, in quibus impudicæ frontis irreverentia induentes foedas manus et foetidas, quas sordidis libidinosæ coinquinationis foetibus immerserunt, non erubescunt in suum periculum et ruinam populi sacris misteriis immiscere, à qvibus ob publici concubinatus insaniam, quæ nullà potest tergiversatione celari, secundum acta Canonum tam quoad se, quam quoad alios sunt suspensi, et ne quis talium missas audire præsumat, arcius in eorum contemptum canonicæ auctoritatis constitutio interdicit. Per tales maximè nomen Domini blasphematur in terris, per tales derogatur sacramentis fidei orthodoxæ, quum vasa Domini pollutis eorum contactibus profanantur; per tales perit erga religionem catholica devotio reverentiæ Christianæ; per tales decipitur populus in divinis, et ecclesiastica substantia dissipatur; hinc detrabitur verbo Dei, dum immundis talium labiis nunciatur; hinc hæretici mussitant et insultant, hinc tiranni sæviunt, hinc perfidi persequuntur, hinc grassantur audacius in Christi patrimonio sacrilegi exactores; à quibus, proh pudor! ob hujusmodi carnes putridas, quas disciplinalis mucro non resecat, sicut debet, sincerum Catholicæ matris corpus in ostentum ducitur et contemptum. Profecto patres, quod hujusmodi filios sub dissimulationis continentia fovent, inpunè etiam sicut Heli sacerdote sit boni forsitan in se ipsos merito pro consimilis negligentiæ malo repentina pari iuteritus ruina dejiceret de sella retrorsum Ecclesiæ, quos principes, qui zelo Finies ardenter non feriuntur, in tales sine causa videntur portare gladium, putatisque ad vindictam malorum laudemve bonorum desuper acceperunt.

Nos igitur cupientes tantum malum de medio Ecclesiæ tantumque scandalum ab oculis fidelium removere, universitatem vestram rogamus, monemus et hortamur, attente vobis per Apostolica scripta in virtute obedientiæ injungentes, ac vos singulos sub ostentatione tam judicii singularis, quo quisque citatur ad Deum de corpore mortis hujus, quam judicii generalis, in quo universi stabimus ante tribunal æterni judicis, obsecrantes quatinus in vobismet ipsis . . . . . . .

152. [1262]. á alþingi.

Sáttmáli af hendi Norðlendínga og Sunnlendínga, um skattgjald til Hákonar konúngs og Magnús konúngs Hákonarsonar.

Þó að opt hafi verið ritað um þá viðburði, sem ollu því, að Íslendíngar gengu á vald Hákoni Noregs konúngi og Magnúsi syni hans, þá eru mörg atriði enn óljós í þeim efnum. Þetta verðr ekki bætt hèr að fullu, því það er mikið efni og margbrotið, en hèr verðr að geta fárra greina, sem þarf til að skilja hversu á standi sáttmálanum milli Noregs konúngs og Íslendínga.

Í viðskiptum þeim, sem urðu milli konúngs og Íslendínga, áðr þeir gengu honum alls kostar á hönd, verðr maðr að aðgreina þrjú atriði. Hið fyrsta er: uppgjöf goðorðanna í hönd konúngi; annað er skattgjaldsheitið, eða gamli sáttmáli; hið þriðja er þegngildi, sem játað var nokkrum árum síðar.

Frá því á dögum Þorláks biskups hins helga bar á því meira eða minna, að erkibiskupar í Niðarósi reyndu til að ná sem mestum ráðum, bæði yfir andlegrar og veraldlegrar stèttar mönnum á Íslandi. Af því að *Gizur* biskup hafði á sinni tíð verið bæði sem konúngr og biskup yfir Íslandi, þá bjó hann undir það hið mikla vald, sem biskuparnir, og einkum Skálholts biskup, höfðu í stjórn landsins með hinum veraldlegu höfðíngjum, goðorðsmönnuuum. En eigi að síðr hèldu þó goðorðsmenn svo miklu af valdi sínu, að þeir gátu ráðið landslögum og fasteignum, svo lengi sem þeir hèldu sjálfsforræði í landstjórninni, og þeir rèðu kosníngum presta og biskupa laungu eptir að veraldlegir höfðíngjar mistu þessi umráð í Noregi.

Þess var fyr getið (Nr. 96, bls. 355), að Þórir erkibiskup hinn eldri byrjaði á því fyrstr (1211) að stefna utan goðorðsmönnum af Íslandi, til að skipa um mál þeirra, en þeir gegndu ekki utanstefnum hans. Þá vildi svo til um sama mund, að deila nokkur milli Norðmanna og Oddaverja gaf Skúla jarli tilefni til að endrnýja fornar tilraunir til að koma Íslandi undir vald Noregs konúngs, sem ekki hafði verið reynt síðan á dögum Ólafs konúngs hins helga. Um sumarið 1215 lögðu þeir Sæmundr Jónsson í Odda og Þorvaldr Gizurarson í Hruna lag á varníng Austmanna, eða norrænna kaupmanna á Eyrarbakka. Þetta var að öllu löglegt og samkvæmt landsvenju, en hvort sem hefir verið, að kaupmenn hafa verið orðnir þessu óvanir, eða þeir hafa þókzt verða hart úti, þá varð þetta mjög óvinsælt í Björgvin, þar sem hinir norrænu kaupmenn áttu heima, og um sumarið eptir settust Björgvinarmenn svo að Páli, syni Sæmundar í Odda, að honum þótti sèr þar ekki vært, og fór í burt þaðan skyndilega, en á þeirri ferð drukknaði hann. Sæmundr í Odda varð af þessu svo reiðr, og kendi Björgvinarmönnum að þeir hefði valdið dauða sonar síns, að hann fór að kaup-

mönnum á Eyrum sumarið eptir (1217) með fimm hundruð manna, og tók fyrir þeim þrjú hundruð hundraða vaðmála[1]. Næsta sumar þar eptir (1218) jókst enn mjög fjandskapr milli Oddaverja og Norðmanna, því Oddaverjar tóku upp vopn fyrir Norðmönnum á Eyrarbakka, en Norðmenn börðust við Oddaverja í Vestmannaeyjum og felldu þar Orm Jónsson, bróður Sæmundar, saklausan og son hans með honum, en lètu þó tvo af sínum mönnum. Í hefnd fyrir þetta lèt Björn Þorvaldsson frá Hruna, tengdasonr Orms, draga einn Norðmann úr kirkju í Miðfirði og drepa (1219). En þó athöfn þessi væri ill á báðar síður, mundi þetta þó hafa jafnazt af sjálfu sèr, ef það hefði ekki gefið Noregs höfðíngjum tilefni til að festa það ráð með sèr, að leitast við að ná yfirráðum yfir Íslandi, og orðið undirrót lángrar ógæfu fyrir land og lýð, eptir að landsmenn höfðu mist sjálfsforræði sitt og fornt frelsi.

Sama ár sem Sæmundr í Odda gjörði atförina að Norðmönnum á Eyrarbakka, kom Hákon konúngr Hákonarson til ríkis í Noregi; hann var þá úngr að aldri (fæddr 1204) og hafði Skúli jarl frændi hans mesta forgaungu fyrir stjórn ríkisins. Hann var þá á bezta aldri (fæddr 1189). Þegar jarl heyrði sögurnar af Íslandi, um viðreign Íslendínga við Norðmenn, tók hann óvægr málstað sinna landa, og af því maðrinn var bæði stórlyndr og ákafr, þá þótti honum ekki annað liggja fyrir, en að gjöra út skipaher til Íslands. Snorri Sturluson var þá í Noregi, og í miklum metum hjá jarli; tók hann þátt í með mörgum öðrum að aptra herferð jarls út til Íslands, og tókst það með því, að þeir fengu konúng til að biðja jarl að láta af herbúnaði til þessarar ferðar, en jarlinn „talaði þá í fyrsta sinni um, að Snorri skyldi koma landinu undir konúng" (Hák.s. Hákonars. kap. 59; Fornm.s. IX, 294—296); gjörði Snorri sig líklegan til þess, og taldi sig og bræðr sína mega sèr einna mest á landinu, þegar Sæmund í Odda liði, en kvað bræðr sína mundu fylgja sínum ráðum (Sturl. 4, 25: II, 55). Úr þessu varð einskonar samníngr milli Snorra og þeirra konúngs og jarls, svo að þeir gáfu Snorra lends manns nafn, en Snorri skyldi fylgja konúngsmálum og senda son sinn Jón murta til Noregs, til Skúla jarls, í einskonar gislíng. Þessi samníngr lýsir því, sem síðar kom fram hjá Snorra, að hann var deigr þegar á átti að reyna og vildi þá beita klókindum; hugði hann sèr að afstýra ófriði og styrjöldum, og vinna jafnframt sjálfr sóma og metorð, sem ekkert kostaði. Eigi verðr það þó sèð, að Snorri hafi gefið upp goðorð sitt eða eignir við þá konúng og jarl, og aldrei var þessi samníngr fyrir borinn þegar konúngr síðan taldi sèr eignir Snorra. Snorri kom til Íslands um sumarið (1220), og höfðu menn þar pata af því sem fram hafði farið, en þó var því helzt

1) ef metin er ein alin vaðmála á 3 mörk, sem er nærri núveranda verðlagi á hafnarvaðmálum, yrði það til 21,600 rd. sem upptækt var gjört.

snúið svo, sem hann ætlaði að fylgja máli kaupmanna hinna norrænu móti Oddaverjum og Haukdælum, og var honum tekið þegar bæði með spotti fyrir lofkvæði hans til Skúla jarls, og með hótunum fyrir hitt, ef hann vildi fylgja að því, að ekki næðist sæmdir fyrir víg Orms breiðbælíngs; honum mun því ekki hafa litizt árennilegt að hefja þá boðan, að menn skyldi játast að fyrra bragði á hendr Noregs höfðíngjum, enda bar aldrei síðan á, að Snorri fylgði slíku fram, en Jón son sinn sendi hann utan samsumars.

Eptir þetta varð ekki vart við, að konúngr eða jarl leitaðist við að ná yfirráðum á Íslandi, eða að þeir seildist eptir að hefna sín á Snorra fyrir undanbrögð hans. Erkibiskupar stefndu höfðíngjum utan við og við, en engir þeirra gegndu þeim stefnum heldr en fyr; hið sama var um utanstefníngar konúngs og jarls 1230, en um haustið 1233 fór utan Sturla Sighvatsson og gekk til Róms, og þegar hann kom að suunan haustið eptir (1234), var hann með Hákoni konúngi um vetrinn. Hákon konúngr fann, að Sturla var sá maðr sem ekki bilaði áræði, og ekki skorti drottnunargirnd, en auðsætt er, að hann hefir þá verið hættr að vænta neins af Snorra. Sturla Sighvatsson gekk nú að þeim samníngi við Hákon konúng, að hann skyldi koma einvaldi á Ísland, og „eiga slíkra sæmda von af konúngi, ef hann kæmi þessu fram, sem honum þætti verðugt". Konúngr lagði þá og fyrir Sturlu þann feril, að gjöra ekki mikið að manndrápum, „en bað hann taka menn og færa utan, eðr fá ríki þeirra með nokkuru móti" (Hák.s. Hákonars. kap. 180: Fornm.s. IX, 435). Þetta var samkvæmt aðferð Hákonar konúngs í Noregi, en það var reyndar yfirdrep eitt, því þó hann léti ekki sjálfr drepa þá menn, sem komu á vald hans, þá drápu þjónar hans og útsendarar marga menn, og það vildi einhvernveginn svo til, að fyrir því urðu allir hans helztu mótstöðumenn, en þeir sem vígin unnu voru hans vildarmenn meiri eptir en áðr. Þessi mildi hans í orði var því ekki annað en yfirbragð, og ráð til að ginna þá í gildrur hans, sem ekki þorðu að fara í berhögg. Þegar Sturla kom út um vorið eptir (1235) fékk hann skjótt föður sinn og bræðr á sitt mál, en Snorri varð þeim þá ekki fylgjandi, og sýnist svo, sem hann hafi þá ekki viljað hverfa að því ráði sem konúngr vildi; en þó Sturla væri ákafamaðr og sæist ekki fyrir, þá er þó auðsætt, að allr ójöfnuður hans og flokkadrættir, manndráp og tjón bæði hans og annara höfðíngja, var kveykt af kolum Hákonar kouúngs, og fyrir hans tilstilli. Sturla fann sér það til við Snorra, að hann skyldi bæta óspektir Úrækju sonar síns, sem hann hafði gjört meðan Sturla var utan, en Snorri var þá sem fyr linr þegar að skildi herða, og vildi ekki hefja flokka móti frændum sínum, þó hann mætti vita að þeir mundi ekki hlífast við hans hluta. Sturla rak þá Snorra af bústað sínum í Reykjaholti og rak síðan Úrækju utan, þar eptir réðist haun á Þorleif í Görðum, en

jafnframt því komu út um vorið 1237 utanstefnubrèf frá konúngi og erkibiskupi til höfðíngja á Íslandi. Þá fóru þeir utan Snorri og frændr hans, Ólafr hvítaskáld og Þórðr kakali, Þorleifr í Görðum og Þórarinn Jónsson, en Sturla sneri þá í móti Kolbeini únga og Gizuri Þorvaldssyni, og áttu þeir ekki lengi saman, þar til Sturla og þeir feðgar fjórir fèllu á Örlygsstöðum (21. August 1238). Þessi tíðindi frèttust til Noregs þá um haustið, og var þá lokið þeim sigri, sem Sturla átti að vinna, en konúngr fèkk þá aðra styrktarmenn ekki minni, þar sem því varð til leiðar komið, að setja norræna klerka á báða biskupsstólana á Íslandi, og ónýta kosníng Íslendínga, og það rètt við hliðina á Snorra, eða jafnvel með samþykki hans (sbr. bls. 427). Þenna vetr voru þeir Snorri og fèlagar hans með Skúla hertoga, en um vorið eptir (1239) sendi Hákon konúngr boð, að þeir skyldi ekki fara til Íslands fyr en hann segði fyrir með hverjum erindum þeir skyldi fara. Þetta ráð ónýtti Snorri fyrir honum, því hann fèkk orlof af hertoga og skip til Íslandsferðar og aktaði ekki bannsbrèf konúngs, hefir hann þá líklega treyst vinfengi hertogans, og þókzt fremur eiðbundinn honum en konúnginum, en þó báru menn á móti því, þeir er til vissu, að Snorri hefði gjörzt jarl hertogans leynilega, svo sem einn af helztu trúnaðarmönnum jarls sagði að verið hefði.

Eptir því sem af sögunum verðr frekast sèð, hefir Snorri þá enn hvorki afsalað sèr goðorð sitt eða eignir, hvorki til konúngs eða Skúla hertoga. Hákon konúngr átti því engan rètt á að slá sinni hendi yfir góz hans, enda er aldrei sögð nein sennileg ástæða til, hversvegna hann hafi gjört það. Konúngr lèt svo, sem útsiglíng Snorra og þeirra fèlaga í banni hans hefði verið dauðasök fyrir þá alla, og hann gekkst síðar við því, að hann væri sjálfr banamaðr Snorra, en það leynir sèr ekki, að hin sanna ástæða hlýtr að hafa verið sú, að hann vænti sèr framar mótstöðu af Snorra en styrks til að koma vilja sínum fram, og því vildi hann Snorra sem fyrst feigan. Þar sem konúngr eignaði sèr góz Snorra og goðorð, og aðrir tóku við því til lèns og meðferðar eptir konúngs skipun, þá lýsir þetta einúngis vaxanda yfirgángi konúngsins og eigingirni þeirra, sem ekki spurðu að hvernig eignir og völd voru fengin, ef þeim yrði náð. Frá þeim tíma að hinir norrænu biskupar komu til Íslands eru þess mörg sýnileg merki, að konúngr gekk í miklu meiri berhögg við Íslendínga en fyr, með ymsu móti. Þaðan af fór hann að leitast við að ná einstöku höfðíngjum eða sonum þeirra á sinn fund, fá fylgi þeirra sínum tilgángi til framkvæmda, lokka þá eða laða til að afsala sèr goðorð sín, skipa hèruð til forráða, þó hann ætti ekkert þar yfir að segja, senda til Íslands brèf og sendimenn til höfðíngja, til að siga þeim þar á sem hann vildi, setja hvern til njósnar við annan, bæði höfðíngja og sendimenn, og ýmislegt annað, sem miðaði allt til þess að rjúfa frið og samheldi landsmanna, þreyta þá á óeyrðum og koma þeirri sann-

færíngu inn hjá þeim, að þeir þyldi eigi lengr sjálfsforræði sitt, og væri hollara að gánga Noregskonúngi á hönd, með svo góðum kostum sem auðið væri að fá. Stefna tímans og aldarháttr, og hugsunarháttr manna um þessar mundir, sem allr hallaðist að ófrelsi og hjátrú, var einnig konúngi til mikillar styrktar.

Um vorið 1240 stefndi Hákon konúngr þíng í Björgvin, og lèt þar gefa konúngs nafn Hákoni syni sínum. Þar sóru eiða lendir menn og bændr úr öllum Gulaþíngslögum, og „af Orkneyjum, Hjaltlandi og Íslandi" (Hák.s. Hákonars. kap. 225: Fornmannas. IX, 500). Það sem sagt er þar um eiða frá Íslandi er nokkuð vafasamt, því það stendr ekki í sumum hinum helztu handritum, enda var sú eiðataka í öllu þýðíngarlaus, þó hún hefði nokkur verið; en í sjálfu sèr er ekkert ósennilegt í, að konúngr hefði fengið einhverja, svo sem Árna öreyðu, vin sinn, sem þá var með honum, eða aðra slíka, til að sverja eiða sem íslenzka bændr, og styrkja með því þá hugsun meðal alþýðu í Noregi, að Ísland væri þegar orðið skattland, eins og Orkneyjar og Hjaltland, hafa svo síðan þetta fyrir rök, til að byggja á tilkall sitt í annað sinn. Hið sama vor sendi hann Eyvind bratt og Árna öreyðu út til Íslands, með brèf til höfðíngja, og var þeim brèfum ekki mjög uppi haldið í fyrstu, en sumarið eptir kom það upp er undir bjó. Þá höfðu þeir Kolbeinn úngi og Gizur Þorvaldsson fund með sèr á Kili (fjöllunum milli Norðrlands og Suðrlands) og rèðu þar ráðum sinum, en þegar Gizur kom af þeim fundi, stefndi hann að sèr mönnum, og hafði þar upp brèf konúngs, þau er þeir Eyvindr og Árni höfðu út haft, var það þar á, að Gizur skyldi láta Snorra fara utan, hvort honum væri ljúft eða leitt, „eðr drepa hann at öðrum kosti, fyrir þat er hann hafði farit út í banni konúngs; kallaði konúngr Snorra landráðamann við sik" (Sturl. 6, 31: II, 241—242). Gizur kvaðst með engu móti vilja „brjóta konúngs brèf" (!), og bjóst til að taka Snorra, en kvaðst þó vita að hann mundi eigi ónauðugr utan fara. Fór þá Gizur í Reykjaholt með flokkinn, og kom þar Snorra á óvart, tóku þeir hús á honum, en er nærri lá að hann mundi undan reka, gat Gizur ginnt heimaprest Snorra til að segja til hans, og var hann þá drepinn af mönnum Gizurar en þó í návist hans (nóttina eptir 22. Septbr. 1241). Kolbeinn úngi hóf þá jafnskjótt annan flokk og fór vestr, svo sem ráðið var; og urðu nú þau umskipti, að þeir Kolbeinn og Gizur rèðu nú að kalla öllu landi frá Þjórsá að austan og til Fnjóskadals að norðan. Órækja, sonr Snorra, hóf flokk til að hefna föður síns, en Sigvarðr biskup fylgði Gizuri, og varð sú sætt, að biskup skyldi gjöra um málin óskoruð, fór Órækja síðan í Reykjaholt, og tók handsöl að arfi eptir Snorra, má þá sjá, að engum af erfíngjum Snorra datt þá enn í hug að konúngr ætti þar nokkurt tilkall til. En um vorið kom Kolbeinn norðan með flokk sinn, og varð þá fundr hans og Gizurar og Órækju við Hvítárbrú. Þar sveik Gizur Órækju og tók hann

og neyddi til að játa þeim kostum, að selja sjálfdæmi um allt málið og fara utan um sumarið og vera þó í varðhaldi þángað til. Um sumarið að Ólafsmessu sagði Kolbeinn úngi upp gjörð í málum þeirra Gizurar og Úrækju, og dæmdi Úrækju arf Snorra, en hann skyldi gjalda fyrir atfarir og víg Reykjaholt hálft, Stafaholt hálft, Bessastaði hálfa og goðorð þau er Snorri hafði átt, þarmeð skyldi hann og fara utan og vera þar þrjá vetr (Sturl. 6, 36: II, 258—259). Þetta varð endir á veldi Úrækju, því hann fór utan um haustið og var í Noregi þaðan af meðan hann lifði († 1245). Gizur fór þá einnig utan hið sama haust, og var utan tvo vetr (1242—1244), en í annan stað kom þá út Þórðr kakali Sighvatsson, og hóf flokka móti Kolbeini únga, sem þá var mestr höfðíngi fyrir norðan og vestan land; en þegar hæst stóð þeirra viðreign, andaðist Kolbeinn, og gaf áðr upp við Þórð alla föðurleifð hans og goðorð í Eyjafirði (sbr. bls. 538). Nú hófst ríki Þórðar kakala, og eptir að hann hafði fellt Brand Kolbeinsson í Haugsnes bardaga (1246), vann hann hið sama ríki og Kolbeinn hafði fyr haft; vantaði þá ekki annað til, að friðr hefði getað orðið á Íslandi, en að þeir hefði getað sætzt sjálfir Þórðr og Gizur Þorvaldsson, en í stað þess kom þeim saman um að leggja mál sín í gjörð Hákonar konúngs. Til þessa var ein aðalástæða eignir og goðorð Snorra Sturlusonar, því um þetta mund sjást fyrst merki þess, að konúngr taldist hafa umráð yfir Borgarfirði. Hinn fyrsti vottr þess er í brèfi Brands Kolbeinssonar til Gizurar, sem er ritað í Febr. 1246 (Nr. 138), og er alllíklegt að konúngr hafi fyrst tekið upp á þessu þegar Úrækja var dauðr, eða að Gizur sjálfr hafi sèr til styrktar fengið lènsbrèf af konúngi fyrir Borgarfirði, en síðar (1252) fór konúngr að telja sèr allan arf Snorra og allar lendur þær sem hann hefði átt á deyjanda degi, nema stað í Reykjaholti (Sturl. 8, 8: III, 137); verðr þó ekki annað sèð, en að þetta hafi verið fullkomið rán frá löglegum erfíngjum Snorra. En af því Gizur hafði nú í höndum brèf konúngs, og þóttist viss um liðveizlu hans, var hann fúsastr til að leggja mál sín í hans gjörð, og Þórðr sá sèr ekki annan kost en játa því, þegar nokkuð af því sem á milli bar var að sækja svo að segja í greipar konúngi sjálfum. Þeir fóru því utan báðir um haustið 1246, Þórðr kakali og Gizur Þorvaldsson, til að fá gjörð Hákonar konúngs á málum sínum.

Meðan þetta mál stóð yfir var Hákon konúngr búinn að fá samþykki páfans til að hann yrði krýndr, og Vilhjálmr kardínáli var sendr til Noregs þess erindis. Það er áðr sýnt, hversu Hákon konúngr notaði sèr atkvæði kardínálans, sem var svo margkeyptr, að hann var öldúngis á konúngs valdi, til að ná yfirráðum yfir Íslandi (bls. 543—545). Fyrir þá sök dirfðist hann að skipa Þórð kakala „yfir allt land til forráða" um sumarið 1247 (Sturl. 7, 46: III, 93), og Gizur varð að láta sèr þetta lynda og vera haldinn í einskonar útlegð um fimm ár, en

þórðr tók við því valdi sem konúngr fèkk honum, því hèðanaf fóru höfðíngjar að keppast hver við annan, að vinna hylli konúngs og ná umboði hans, en það gátu þeir því að eins, að hver þeirra yrði öðrum ötulli að fylgja konúngs máli og efla vald hans og atkvæði á landinu. Hver sem ekki gjörði það, var stefndr utan, svikinn eða drepinn. þegar þórðr fór til Íslands, lèt hann eptir þorgils skarða frænda sinn í einskonar gislíng hjá konúngi, en þegar hann kom út, tók hann undir sig eignir og ríki Snorra Sturlusonar, og var þannig orðin viðrkennd skipun konúngs á þessu; á sama hátt tók hann ríki af þorleifi í Görðum (Akrnesínga goðorð), og var það látið heita fyrir þá sök, að þorleifr fór út með Snorra í banni konúngs 1239 (Hák.s. Hákonars. kap. 257: Fornm.s. X, 24). En þórðr kom þessu svo fyrir, að þorleifr hèlt valdi sínu sem áðr, og var vinr hans. þórðr fór og um alla sveit Gizurar, og lagði þar gjald á menn (1248); fór þá smásaman að bera minna á yfirráðum konúngs en á valdi þórðar, og eptir tvö ár var þórði stefnt utan aptr, en hann fór ekki fyr en á þriðja ári (1250), þar á móti fór Heinrekr biskup utan sumarið áðr (1249), og bar þórði þann vott, að hann legði alla stund á að leggja land allt undir sjálfan sig, en ekki undir konúng, mundi því þurfa enn skjótra og öflugra úrræða, ef duga skyldi. þórðr skipaði hèruðum áðr hann fór utan (1250), og fèkk þorleifi í Görðum Borgarfjörð, Eyjúlfi ofsa Skagafjörð (og Húnavatnsþíng), Hrana Koðránssyni Eyjafjörð, má þar af sjá, að hann eignaði sèr sjálfum þessi hèruð, en hann var í vináttu og trúnaði við Síðumenn (Sæmund Ormsson) og Vestfirðínga (Nikulás Oddsson, Sturlu þórðarson og Rafn Oddsson), svo ríki hans var yfir mestan hluta lands, að fráteknum meginhluta Sunnlendínga fjórðúngs, og þíngeyjar þíngi og Múla þíngi.

þegar konúngr sá, að honum fleyttist að gjöra skipanir á goðorðum Snorra í Borgarfirði, og hann hafði með sömu aðferð fengið einskonar umráð yfir goðorði þorleifs í Görðum, lá það opið fyrir honum, að til þess að fá umráð yfir landinu þurfti hann að ná uppgjöf goðorðanna af þeirra hendi sem áttu. þegar það var fengið gat hann fyrst vænt að fá skattgjald af landsmönnum, því þá var hann sjálfr orðinn einskonar allsherjargoði yfir landinu, og gat því samið við bændr um gjöld þeirra, eins og hinir fyrri höfðíngjar gjörðu. Til að koma þessu fram bar það nú vel í veiðar, að um haustið 1250 komu margir íslenzkir höfðíngjar til Noregs og voru þar um vetrinn. þá voru saman komnir í Noregi báðir biskuparnir, Sigvarðr í Skálholti og Heinrekr á Hólum, þórðr kakali Sighvatsson, Gizur þorvaldsson, þeir Oddaverjar Philippus Sæmundarson og Haraldr bróðir hans, Finnbjörn Helgason úr Reykjadal í þíngeyjar þíngi, Jón Sturluson, þorgils skarði Böðvarsson. þá um vetrinn og um vorið voru miklir sveitardrættir og margar stefnur, því allir Íslendíngar vildu þá út fara, en konúngr vildi þeim helzt fararleyfi

veita, sem mest vildu hans máli fylgja og hann treysti bezt. þá gáfu þeir bræðr Oddaverjar upp mannaforráð sitt í hendr konúngi, en þeir Gizur og þorgils skarði voru þá sendir til Íslands og Heinrekr biskup með þeim, „voru þeim skipuð ríki þau á Íslandi, sem konúngr hafði þá heimildum á tekið, skyldu þeir og flytja konúngs mál við aðra landsmenn". þórði kakala og Jóni Sturlusyni var haldið eptir í Noregi (Hákonars. kap. 273: Fornmannas. x, 45). Skömmu síðar drukknuðu þeir bræðr Oddaverjar, og hafa frændr þeirra síðan haldið afsölu þeirra á mannaforræðinu marklausa, en þeir konúngs sendimenn urðu aptrreka og urðu að vera í þrándheimi vetrinn eptir. þá gaf Finnbjörn Helgason upp goðorð sitt í Reykjadal, og tók það í lèn af konúngi; fóru þeir nú út um vorið: Heinrekr biskup, Gizur, þorgils skarði og Finnbjörn, og voru nú allir bundnir í sáttmála sín á milli, til að fylgja konúngs máli og veita hver öðrum. Gizuri var þá fenginn Norðlendínga fjórðúngr mestallr, frá Hrútafjarðará og í Eyjafjörð, en Finnbirni þar fyrir norðan, að Jökulsá í Axarfirði, þorgilsi skarða Borgarfjörðr. þar á móti var þórðr kakali neyddr til að taka sýslu af konúngi norðr í Gaulardal, en hann sendi Kolbein grön til Íslands, til að leggja undir ráð við vini sína, og munu þau ráð ekki hafa verið vinveitt Gizuri. þessar ráðstafanir konúngs bera enn vott um gjörræði hans og banaráð við þjóðfrelsi Íslendínga, svo það má með sanni segja, að hann var hin rètta undirrót flestra þeirra ódáða og illvirkja, sem framin voru á Íslandi um þessar mundir, en hinir lèðust honum til verkfæris, þó þeir gengi stundum feti framar en hann kann að hafa lagt undir.

þegar þeir komu út til Íslands um sumarið 1252, sem sendir voru, tók Gizur mannaforráð sitt í Árnes þíngi sem áðr, fór síðan norðr og hafði þar fundi við alþýðu, gengu Norðlendíngar honum á hönd, og einkum Skagfirðíngar, því hin forna vinátta milli hans og Kolbeins únga var mönnum minnistæð. En vinir þórðar kakala og fylgismenn, einkum Eyjólfr ofsi, sem þórðr hafði sett yfir hèraðið, tóku sig saman um aðför að Gizuri, og varð þá Flugumýrarbrenna (21.—22. Oktbr. 1253), sem hafði nær riðið Gizuri að fullu. Um forráð Finnbjarnar Helgasonar urðu engar deilur, því hann var áðr rèttr stjórnandi hèraðs síns, en hann varð ekki lánggæðr, því hann fèll í bardaganum á þveráreyrum 1255. Í Borgarfirði var sú mótstaða við þorgils skarða, sem lýsir fullkomnu ósamþykki landsmanna á ráðstöfunum konúngs, og voru þeir helzt forgaungumenn að því Rafn Oddsson, Sturla þórðarson og þorleifr þórðarson í Görðum; þessi var undirrót til þess, að Sturla þórðarson var í óþokka við Hákon konúng og Magnús son hans. Um fund þann, sem þorgils stefndi undir Höfðahólum, er greinileg skýrsla í Sturlúnga sögu (Sturl. 8, 9: III, 138—139); þar var þorleifr í Görðum helztr til ansvara, og vildi skjóta til atkvæða Rafns og Sturlu: „vitum vèr", sagði þorleifr, „at þèr er skipat

hèrað þetta af konúngi, ok þat er eyrindi hans í dag, en margir mæla þat, at hann eigi ekkì í. — . . . . Þat studdu margir með Þorleifi, þótti konúngr ekki makligr at hafa nokkur forræði á fè Snorra Sturlusonar" (Sturl. sst.). Eigi að síðr hèlt þó Þorgils yfirráðum yfir Borgarfirði um hríð, þar til Rafn og Sturla hröktu hann á brott og norðr til Hóla, og var þá sem við var að búast, að Heinrekr biskup skoraði á alla menn til liðveizlu við Þorgils, en forboðaði Sturlu og Rafn. Á sættafundi þeirra um vetrinn eptir við Heinrek biskup, neituðu þeir „að gefa upp Borgarfjörð, eða önnur ríki sem Þórðr hafði þeim skipað, kölluðust eigi konúngs skipun vilja hafa á hèruðum" (Sturl. 8, 17: III, 162), og ekki náði Þorgils síðan því hèraði að staðaldri.

Ekki var Heinrekr biskup lengi ánægðr með framkvæmdir Gizurar í konúngs málum, og var það brátt að hann sagði að enginn væri falskari en Gizur, eða fullkomnari til að rjúfa alla þá hluti, er konúngi væri til sæmdar og hann hafði heitið. Þá tók konúngr upp á því, sem hann hèlt síðan nokkur ár, að senda út einn eða fleiri sendimenn til Íslands, til að njósna um hvað fram færi, og setti hann stundum einn þeirra öðrum til höfuðs. Sumarið 1254 sendi hann út Sigvarð biskup, og átti að flytja mál hans á þíngi, en Sigurðr silkiauga var settr biskupi til höfuðs, til að vita hversu einarðlega hann færi með erindum konúngs. Þá var stefnt utan Gizuri Þorvaldssyni og ymsum öðrum, og fór Gizur nauðugr, því hann hefir líklega viljað heldr eltast við brennumenn, en biskupar báðir herðu að honum; fèkk Gizur þá Oddi Þórarinssyni Skagafjörð, en Þóri tott Árnes þíng (Hák.s. Hákonars. kap. 282: Fornm.s. X, 59—60); þó varð þessi ráðstöfun ekki lánggæð, því Oddr var í ósætt við Heinrek biskup, og um vetrinn eptir fóru þeir að honum Rafn Oddsson og Eyjólfr ofsi, og var hann drepinn í Geldíngaholti (14. Januar 1255); var þá engin forstaða fyrir Skagafirði um sinn, þartil Þorgils skarði tók þar við umráðum nokkru síðar.

Þenna vetr (1254—1255) voru þeir báðir í Björgvin, Þórðr kakali og Gizur Þorvaldsson, var Þórðr þó í meira gengi, og var hjá konúngi, en Gizur var í bænum. Um sumarið eptir vildi konúngr ekki eiga undir Þórði nè Gizuri, og veitti hann þeim nú sýslur í Noregi, Gizuri í Þrándheimi, en Þórði suðr í Skíðunni, en til Íslands sendi hann nú Ívar Englason, trúnaðarmann sinn mikinn, og átti hann að flytja erindi hans með biskupum báðum. Ívar var í Skálholti um vetrinn eptir (1255—1256), og þótti honum Sigvarðr biskup linr í liðveizlunni, en um vorið eptir fór hann norðr, og stefndi þíng við bændr, fèkk hann því þá á leið komið, með tilstyrk og fortölum Heinreks biskups og Þorgils skarða, að allir Skagfirðíngar og Eyfirðíngar, og mestr hluti bænda í Norðlendínga fjórðúngi, játuðu að gjalda skatt, þvílíkan sem þeim semdi við Ívar. En fyrir sunnan og vestan gat Ívar ekkert á unnið, og kendi hann það helzt vin-

um Gizurar, en þó nokkuð Þórðar vinum, og fór hann utan um sumarið (Hák.s. Hákonars. kap. 283. 287: Fornm.s. X, 60 —61, 70). Ívar Englason var einn hinn heldri af konúngsmönnum, og var hann sendr árið eptir með dóttur Hákonar konúngs suðr á Spán, og fór þaðan út í Jórsalaheim og andaðist á þeirri ferð (1258).

Um sumarið 1256 voru þeir með Hákoni konúngi í herferð til Hallands báðir sýslumenn hans, Þórðr kakali og Gizur. Þórðr var röskr hermaðr og sýndi góða framgaungu, svo að konúngr vildi veita honum sæmdir fyrir. Þórðr var vinsæll maðr í sýslu sinni, og hafði opt vinaboð, því hann var stórlyndr og drykkjumaðr mikill. Um haustið sat hann við drykk eitt kvöld með mönnum sínum, þegar honum barst brèf konúngs, kvaðst hann þar hafa fengið orlof til Íslands, og að konúngr vildi gjöra hann þar mestan mann; varð hann svo glaðr við þetta, að hann sagði engan hlut þann til bera, að sèr þætti betri, og sagðist ekki mundu af Íslandi fara, ef sèr yrði auðið að koma þángað. Drukku menn þá og voru kátir, en stundu síðar sveif að Þórði, svo að honum var fylgt til hvílu, og lá hann síðan skamma stund þar til hann andaðist (11. Oktbr. 1256; Sturl. 9, 54: III, 286; ártíðaskrá í Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 597). Eptir dauða Þórðar fèllu eignir hans og goðorð að rèttum lögum undir Steinvöru systur hans á Keldum, en konúngr hafði hèr sömu aðferð og fyr, að hann kastaði á það allt sinni eign, og sinnti alls ekki lögum og rètti.

Nú var Þorgils skarði hinn helzti á Íslandi af konúngsmönnum, og skipaði konúngr honum Eyjafjörð og sveitirnar þar fyrir norðan, sem Finnbjörn hafði haft, en Þorgils gjörði allt hvað konúngr skipaði, og tókst á hendr stjórn á ránsfè hans. Um sveitir Finnbjarnar urðu engin mótmæli, en um Eyjafjörð og eignir Þórðar í því hèraði lèt Steinvör ekki rèttindi sín, og fèkk hún Þorvarði Þórarinssyni mági sínum heimildir sínar í hendr. Þorvarðr bjó á Hofi í Vopnafirði; hann var þá helztr goðorðsmaðr í Múla þíngi, kominn af Freysgyðlíngum (bls. 534); hann var einnig um þessar mundir hinn mesti mótstöðumaðr konúngs, eins og Austfirðíngar flestir, og því var óblítt milli þeirra Odds bróður hans, sem áðr var nefndr og fylgdi Gizuri Þorvaldssyni, en Þorvarðr var óþýðr maðr og óvinsæll, og vildu Eyfirðíngar heldr þjóna undir Þorgils skarða þó hann hefði lakari heimildir fyrir valdi sínu. Þetta var orsök fjandskapar þeirra Þorvarðar og Þorgils skarða, og stafaði enn sem fyr af ásælni konúngs og rángindum, en það lyktaði svo, að Þorvarðr veitti Þorgilsi atför um nótt á Hrafnagili og var hann þar drepinn (21. Januar 1258).

Nú var þá ekki eptir nema Gizur Þorvaldsson einn af þeim íslenzkum höfðíngjum, sem Hákon konúngr hafði beitt fyrir ok sitt, enda var hann konúngi hinn líkasti og hinn kærasti af þeim öllum, lèt konúngr það opt heyrast að þeir voru frændr,

og sýndi honum allmikinn sóma, þó honum þætti hann dauflega fylgja málum sínum á Íslandi. Nú lèt Gizur, sem hæglega mundi mega koma yfirráðum konúngs fram á öllu landi, og skattgjaldi með, ef þar kæmi til sá maðr sem hefði tign svo mikla, að landsmenn þættist sæmdir af að þjóna honum. Það lítr svo út, sem Gizur hafi einnig skuldbundið sig til að greiða konúngi sjálfr mikið gjald, svo framarlega sem honum tækist ekki að koma því fram sem hann hefði heitið. Þetta allt vann svo á konúng, að hann gaf Gizuri jarlsnafn um sumarið 1258, og sýndi honum marga aðra sæmd. Konúngr skipaði honum þá Sunnlendínga fjórðúng, Norðlendínga fjórðúng og allan Borgarfjörð, og má sjá þar af, að konúngr hefir nú eignað sèr goðorð Gizurar sjálfs, goðorð Snorra og Þorleifs í Görðum, goðorð Þórðar kakala og þau sem hann hafði unnið eptir Brand Kolbeinsson, goðorð Finnbjarnar Helgasonar og goðorð Oddaverja.

Síðan fór Gizur jarl til Íslands, en konúngr sendi með honum Þóralda hvíta, hirðmann sinn, til þess að njósna um hversu jarlinum færist að reka konúngs erindi; þar að auki sendi hann ymsa aðra trúnaðarmenn sína á öðrum skipum, og áttu allir að bera njósnir um jarl, hversu hann færi að og hverju hann kæmi til leiðar. Þegar Gizur kom út, gjörði hann sem mest úr þeim sóma, sem konúngr hafði veitt honum, og það án þess hann hefði neinu í móti heitið, hvorki peníngum nè skattgjaldi af landinu; hann sagði einnig, að hver sem gengi sèr á hönd, hirðmenn eða skutilsveinar, skyldi sömu nafnbætr hafa í Noregi af Hákoni konúngi, sem þeir fengi af jarli; gengust margir upp við þetta, og gjörðust jarli handgengnir og sóru honum eið en Hákoni konúngi trúnað, urðu þrjátigir manna hirðmenn hans og gestir um haustið að allra heilagra messu. Brátt frèttu þeir það, að þetta var fals sem jarl hafði sagt þeim af orðum konúngs, en þó hèldu þeir samt sem áðr trúnað sinn (Hák.s. Hákonars. kap. 297: Fornm.s. X, 93—94: Sturl. 9, 54; 10, 20: III, 286. 308). Um vorið eptir (1259) keypti Gizur jarl Stað í Reyninesi fyrir hundrað hundraða, og reisti þar bú, og gáfu bændr þángað stórfè um vorið, en um sumarið eptir á alþíngi gengu þeir honum á hönd Sturla Þórðarson og Sighvatr Böðvarsson frændi hans, bróðir Þorgils skarða, goðar í Þórnes þíngi, en hann styrkti þá aptr til að gjöra Þorvarð Þórarinsson sekan fyrir víg Þorgils skarða, og lofaði þeim liðveizlu til hefnda. Rafn Oddsson, aðalgoðinu í Þorskafjarðar þíngi, kom ekki á alþíng, en Þórðr Andrèsson, sem mest var fyrir Oddaverjum, var fjölmennr á þíngi, og laut ekki jarli; má þar af ráða, að Oddaverjar hafa ekki viðrkennt þá uppgjöf goðorðsins, sem þeir Philippus Sæmundarson og Haraldr bróðir hans höfðu handsalað konúngi um sumarið 1251, þó að konúngr og jarl teldi þá uppgjöf gilda. Eptir þíng 1259 um sumarið sýndi Þórðr Andrèsson sig í fjörráðum við jarl, fór jarlinn fyrir það herferð um haustið austr yfir Þjórsá með átta hundruð manna, og gjörði

Rángvellíngum mikinn skaða, en þórðr flýði upp á þórsmörk. þá fóru menn í milli, og komust á sættir, en um vorið eptir fór jarl að norðan og austr yfir ár og var fundr stefndr að þíngskálum, og sóru Rángæíngar þar trúnaðareiða Hákoni konúngi og Gizuri jarli, var þá Loptr Hálfdanarson frá Keldum fyrir Rángvellíngum, systurson þórðar kakala, og Björn Sæmundarson (Sturl. 10, 9: III, 297). þessari eiðatöku mega menn ekki blanda saman við hina, sem fram fór á alþíngi 1263, þegar Oddaverjar sóru skattgjaldið Hákoni konúngi og Magnúsi. Sturla þórðarson var í fyrstu í miklum kærleikum við Gizur jarl, og um haustið 1259 gjörði jarl hann lendan mann sinn og hèt honum Borgarfirði, en þegar konúngr rauf þetta heit, kendi Sturla jarlinum um, og snerist til fjandskapar við hann. Sighvatr Böðvarsson fèkk engar sæmdir af jarli, og þóttist því einnig hafa verið ginntr til að gjörast honum handgenginn; fór hann síðan utan með Hallvarði gullskó (1262) og var með Hákoni konúngi fyrir vestan haf, komst hann í mikla kærleika við konúng og tregaði mjög fráfall hans; var Sighvatr síðan nokkur ár utanlands og andaðist í Noregi á bezta aldri (1266).

Nú voru óunnin goðorðin þau hin yztu, á báðum landsjöðrum, Rafns Oddssonar og hans manna í þorskafjarðar þíngi, og í öllum Austfirðínga fjórðúngi, en þar voru tveir höfðíngjar helztir: Ormr Ormsson á Síðunni, eða í Skaptafells þíngi, og þorvarðr þórarinsson í Múla þíngi. Rafn Oddsson hafði lengst af verið fjandmaðr Gizurar jarls, og höfðu beitzt brögðum, var því Rafn ekki fús að gánga á hönd jarli. En þegar konúngs menn urðu þess varir, sem voru settir jarli til höfuðs, og konúngi þótti ekki jarl sýna þá framgaungu, sem hann hafði lofað, þá var farið að leggja allt kapp á að vinna Rafn og hefja hann á móts við jarlinn. þess vegna braut konúngr loforð jarls um Borgarfjörð til Sturlu þórðarsonar, og veitti Rafni hèraðið, hefir þá Rafn líklega gefið upp goðorð sitt við Hallvarð gullskó 1261. Ormr Ormsson (sbr. bls. 531) sýnist muni hafa gefið upp goðorð sitt á alþíngi 1264, þegar hann gekk undir skattgjaldslögin. þorvarðr þórarinsson varð nokkru fyrri til að gánga á hönd, og vann föðurbróðir hans Brandr biskup Jónsson það á við hann, að ná loforði hans um það. Brandr hafði alla tíð verið fylgisamr konúngsmönnum, því hann hefir án efa sèð, að sigr konúngsvaldsins mundi leiða með sèr fullkominn sigr klerkavaldsins, hann var þessvegna ætíð kær konúngum, og eptir að Heinrekr biskup var andaðr (1260) var hann kosinn til biskups á Hólum af erkibiskupi og kórsbræðrum í Niðarósi, en Hákon konúngr og Magnús samþykktu (Hák.s. Hákonars. kap. 315: Fornm.s. X, 118, sbr. bls. 520 að framan). Hann kom út til stóls síns 1263, sama sumar og Oddaverjar gengu undir skattgjald, og um haustið um allraheilagra messu skeið fèkk hann þorvarð bróðurson sinn til að sverja sèr þann eið, að fara á konúngs fund að sumri (1264), og svo gjörði hann, að hann fór þá

utan með Hallvarði gullskó og gekk þá á vald Magnúsi konúngi Hákonarsyni og gaf allt sitt ríki í hans vald, var það þá talið afbrot hans, að hann hefði drepið tvo hirðmenn Hákonar konúngs, Berg og Þorgils skarða (Magnús s. lagabæt. kap. 3: Fornm.s. X, 157). Vorið eptir fór Þorvarðr aptr út til Íslands, og var þar nokkra vetr. Þá fóru þeir utan báðir höfðíngjar Austfirðínga, hann og Ormr Ormsson (1268), og var Þorvarðr síðan í Noregi þartil 1271, að hann var sendr út með lögbókina Járnsíðu, og var hann þá fylgismaðr að því, að konúngi var játað þegngildi um sumarið á alþíngi. Þorvarðr var síðan með helztu höfðíngjum á Íslandi, og hafði yfirstjórn landsins með Rafni Oddssyni og þar með sýslu konúngs í Múlaþíngi meðan hann lifði, en hann andaðist í Noregi 1296.

Það er ekki að efa, að Hákon konúngr hafi þegar frá upphafi ætlað sèr að heimta skatt af Íslendíngum, þegar þeir væri gengnir honum á hönd, en hann sýndi klókindi í því, að hann lèt ekki þá hugsun í ljósi fyr en hann sá fram á, að hann mundi geta smásaman náð yfirráðum yfir landinu. Meðan hann átti við Snorra og Sturlu Sighvatsson fer ekkert orð af því, að hann ætlaði að hefja neinar skattheimtur, en eptir fall Snorra er fyrst farið að geta um þetta. Um vorið 1245 vildi Þorgils skarði fara út til Íslands, en fèkk ekki, „því at í þann tíma hèlt Hákon konúngr mörgum ríkra manna sonum í Noregi, því at hann hafði mjök í hug at fá skatt af Íslandi" (Sturl. 8, 3: III, 129). Þessi farbönn, bæði á skipum og mönnum, voru af þeim ráðstöfunum, sem Hákon konúngr iðkaði einna mest, og hafa þau án efa styrkt málstað hans að því leyti, að þar af hafa margir getað dregið þá ástæðu, að þessi bönn leiddi einúngis af því, að menn gjörði ekki eptir vilja konúngs, en þegar það yrði gjört þá yrði öllum slíkum bönnum lokið og allar samgaungur frjálsar milli landanna. Bönn þessi og verkanir þeirra lýsa einnig því, að samgaungur Íslendínga hafa um þessar mundir verið nær eingaungu við Noreg, því hefði ekki svo verið, þá hefði bönn konúngs orðið framar Noregi til skaða en Íslandi, af því Íslendíngar hefði þá hætt að fara til Noregs og farið til annara landa, enda má það og undra oss nú, að þeir skyldi ekki gjöra það, og hefir það verið hið nákomna þjóðlega samband, sem var milli Noregsmanna og Íslendínga, er hefir valdið þessu.

Þegar Þórðr kakali fór út til Íslands og Heinrekr biskup 1247, var það lagt fyrir þá, að þeir skyldi „flytja þar eyrindi við landsfólkit, at allir játaðist undir ríki Hákonar konúngs, ok slíkar skattgjafir sem þeim um semdi" (Hák.s. Hákonars. kap. 257: Fornm.s. X, 23—24). En Þórðr mun hafa skjótt sèð, að þetta var ekki auðunnið mál, og er engin frásögn um að hann hafi hreyft því. Þessvegna gat Heinrekr biskup sagt, að Þórðr sinnti ekki konúngs málum, því hann hafði vald konúngs einúngis til að styðja sitt eigið vald, og heimti gjöld af bændum fyrir sig, en ekki í konúngs sjóð. Gizur Þorvaldsson

var ekki seinn að nota sèr þetta, og smeygja sèr í vináttu við Heinrek biskup, svo að nú var það ráð tekið, að kalla Þórð frá, en senda Gizur sem oddvita þessa erindis (1252), en það fór allt á sömu leið eða enn ver, svo að það hefir orðið konúngi ljóst, að hann yrði að senda trúnaðarmenn sína frá Noregi, ef þetta ætti að fá framgáng, því Íslendíngar hefði það aldrei fram. Hinn fyrsti sendiboði hans um þetta mál, Ívar Englason, gat áunnið það eptir heilt ár, að þorri bænda fyrir norðan játuðu slíkum skatti, sem þeim semdi við Ívar, svo sem fyr var getið; var þetta hinn fyrsti ádráttr um skattinn, en þó öldúngis óákveðinn, og þóttist Ívar hafa farið erindisleysu (1256), og kendi það mest vinum Gizurar, en þó að nokkru leyti vinum Þórðar kakala.

Nú stóð við þetta, þar til Hákon konúngr gaf Gizuri Þorvaldssyni jarlsnafn (1258); þá hèt Gizur því í móti: „at friða Ísland, ok láta alla bændr gjalda konúngi skatta, sem hann hafði áðr beidt" (Hák.s. Hákonars. kap. 297: Fornm.s. X, 93—94; sbr. Sturl. 10, 20: III, 108). En þegar til Íslands kom, sótti í sama sjó og fyr. Gizur jarl gjörði mest að hefja sjálfan sig og sitt vald, og gekk einúngis fram í því, að láta sverja konúngi og sjálfum sèr trúnaðareiða, en loforðunum um skattinn hèlt hann fyrir sjálfan sig, og lèt ekki uppi við neinn mann. Þegar konúngr frètti þetta um haustið 1259, sendi hann út snemma um vorið eptir (1260) tvo menn sína, Ívar Arnljótarson og Pál línseymu, með brèf sín, og skipaði þeim beint að fara á alþíng og birta þar brèfin, og leita samþykkis landsmanna; en í brèfunum var kveðið á, hversu mikinn skatt hann vildi hafa. Nú var konúngr því orðinn það frekari en fyr, að hann vogaði sèr að senda brèf sitt beint til alþíngis, og að bera upp ákveðna upphæð skattsins, sem aldrei hafði verið fyr gjört, en ekki vitum vèr nú hver sú upphæð hefir verið, og er þó líklegt hún hafi verið meiri en síðan varð. Þegar sendimenn konúngs komu á alþíng, var þar fyrir Gizur jarl og aðrir formenn, var þar flutt brèf konúngs, og mælti jarl konúngs erindi, en þó með öðrum hætti en á brèfunum stóð; urðu þar skjótt mótmæli móti skattinum og helzt af Sunnlendíngum, vinum jarls, og af Oddaverjum, og hafði málið engan framgáng, en þeir Ívar og Páll fóru utan um haustið, og sögðu konúngi erindislok sín, og að Sunnlendíngar mundu eigi hafa neitað svo djarflega skattinum, ef þeir hefði ekki vitað að það væri eptir vilja jarls (Hák.s. Hákonars. kap. 303: Fornm.s. X, 100).

Um vorið 1261 kom út Ásgrímr, son Þorsteins Jónssonar frá Hvammi í Vatnsdal, einn af fyrirmönnum í Flugumýrar brennu og bróðir Eyjólfs ofsa. Ásgrímr hafði nú brèf Einars erkibiskups fyrir Grenjaðarstað, og má þar af ráða, að erkibiskup hefir þá verið farinn að eigna sèr umráð yfir þeim kirkjum, sem auðugastar voru á landinu og konúngar hafa síðar veitt, eptir siðaskiptin. Ásgrímr hefir einnig verið settr til hèraðsstjóra í

Reykjadal. Skip þetta kom í Hvítá, og var stýrimaðr fyrir því Hallvarðr gullskór, hirðmaðr Hákonar konúngs, og garðsbóndi í Björgvin; garðr hans Gullskórinn var alkendr í Björgvin um lángan aldr, og er á norðrhorni bryggjunnar í Björgvin og Dreggjar almennings (Norske Saml. I, 257); til var einnig kaupfar Gullskórinn, sem getið er um að kom út til Íslands í Dýrafjörð ár 1300. Þegar Hallvarðr kom á land, fór hann norðr í Skagafjörð að finna Gizur jarl og talaði djarflega fyrir honum, síðan fór hann suðr aptr og settist að í Reykjaholti í Borgarfirði; þar hjó þá Egill Sölmundarson (bls. 504. 506). Konúngr hafði nú tekið það ráð, að leita mest vináttu þeirra, sem fremstir voru mótstöðumenn Gizurar jarls; þessvegna var loforð jarls við Sturlu Þórðarson ónýtt gjört, og Borgarfjörðr veittr Rafni Oddssyni; sá þá jarl að svo gæti farið, að liðveizlu sinnar þyrfti ekki, og fór því að hafa hitann í haldinu og skerast í meir en fyr. Um haustið fundust þeir Hallvarðr, og sóru þá nokkrir bændr konúngi trúnaðareiða, þeir er áðr höfðu staðið fast í móti. Um vetrinn eptir átti jarl fund við bændr fyrir norðan, og kom nú fyrst upp hið sanna um það, er hann hafði konúngi heitið. Bændr lofuðu þá að skjóta saman fè, til að „leysa þat gjald[1], er á var kallat", hètu sumir tveim hundruðum, sumir einu hundraði, sumir tólf aurum, sumir mun minna, og má af þessu ráða, svo sem fyr var sagt, að jarl muni hafa lofað konúngi gjaldi miklu frá sjálfum sèr, ef ekki gengi um skattinn, og hafi hann nú ætlað að drepa sig úr dróma með fè þessu, eða bændr að leysa hann úr læðíngi með samskotunum. En þá er Hallvarðr spurði þetta, sagði hann að það væri á móti konúngs vilja að bændr væri píndir til svo mikilla fègjalda, sagði, að konúngr vildi einúngis hafa hlýðni af bændum og slíkan skatt af landi, sem þeim yrði sízt afarkostr í að gjalda, og hèt þó þar í móti hlynnindum og rèttarbótum. Jarl hefir án efa ritað brèf vestr, og stúngið upp á þeim samskotum sem lofað var fyrir norðan, en Hallvarðr gat komið því til leiðar við Rafn Oddsson og Vestfirðínga, að þeir hètu allir að koma til Þórness þíngs um vorið (1262), og sverja konúngi þar land og þegna, með þeim hlynnindum sem Hallvarðr hèt þeim af konúngs hendi; var þetta ritað norðr til jarls og neitað öllum þeim álögum, sem hann hafði samið um þar nyrðra, gengu menn þá aptr af fjárheitum sínum, og varð þeirri ætlun jarls eigi framgengt. Þá stefndi jarl Hegranes þíng, og lèt þar nokkra menn sverja konúngi land. Um vorið ætlaði Hallvarðr til Þórnes þíngs, þar sem hann átti von á Rafni Oddssyni og Vestfirðíngum, en Rafn kom ekki þángað, hvort sem hann hefir vitað fyrir, að menn mundu ekki gángast þar undir skattgjald þegar samkoma yrði, eða hann hefir viljað draga málið og leitast við að smeygja sèr úr því. Þegar Hallvarðr heyrði að Rafn kom ekki á Þórnes þíng, fór hann ekki þángað, og

1) þannig á að lesa, en ekki „*vald*", sem í Sturlúngu er prentað.

varð það ályktun á því þíngi, at skjóta öllu málinu til alþíngis. Þegar leið fram að alþíngi drógu höfðíngjar fyrir vestan saman fjölmenni mikið, og sendu menn austr á Rángárvöllu til að fá Hálfdanarsonu og Andréssonu til að ríða til alþíngis með allan sinn afla; Þorvarðr Þórarinsson hafði og heitið að koma með Austfirðíngum. Gizur jarl kom fyrstr að norðan, og með honum Ásgrímr Þorsteinsson og aðrir sveitarhöfðíngjar, hafði jarl tólf hundruð manna á þíngi. Hallvarðr gullskór var snemma á þíngi og Rafn Oddsson, en Oddaverjar komu eigi, né Austfirðíngar, en Vestfirðíngar staðnæmdust á Þverár þíngstað í Borgarfirði, og biðu þar frètta af alþíngi. Er það líklegast, ef Oddaverjar og Austfirðíngar hefði komið til þíngs, að þá hefði skatti ekki verið játað í þetta sinn, hvað sem síðar hefði orðið. Hallvarðr gekk þá fast að Gizuri jarli, og sagði honum að flokkar væri safnaðir fyrir vestan heiðar, og hefði allir heitið að gánga undir skatt og ætluðu að ríða til þíngs og flytja þar konúngs mál, ef þau hefði eigi framgáng að öðrum kosti. Þegar jarlinn heyrði þetta, átti hann tal við vini sína og ráðagjörðir, og eptir það gekk hann fram og flutti mál konúngs við Norðlendínga og Sunnlendínga, bað þá með góðum orðum, en kallaði fjörráð við sig ef eigi væri undir játazt. Var þá samþykkt erindi jarls, og síðan skipuð lögrètta, og sóru tólf bændr af Norðlendínga fjórðúngi, og nokkrir (líklega sex) bændr úr Sunnlendínga fjórðúngi fyrir utan Þjórsá „Hákoni konúngi land ok þegna ok æfinligan skatt, með slíkum skildaga, sem brèf þat vottar, sem þar var eptir gjört". Þrír bændr sóru þar úr hverju þíngi, og eru þessir nefndir úr Norðlendínga fjórðúngi:

Úr Þíngeyjar þíngi:
Ásgrímr Þorsteinsson af Grenjaðarstöðum,
Hallr kvistr,
Guðríkr.

Úr Eyjafirði (Vaðla þíngi):
Hallr af Möðruvöllum,
Þorvarðr úr Saurbæ,
Guðmundr frá Hrafnagili.

Úr Skagafirði (Hegranes þíngi):
Geir auðgi Þorvaldsson af Silfrastöðum,
Kálfr Brandsson af Hafsteinstöðum,
Þorgeir Brandsson.

Úr Húnavatns þíngi:
Bjarni af Auðkúlustöðum,
Sigurðr úr Hvammi í Vatnsdal,
Illugi Gunnarsson.

Bændr úr Sunnlendínga fjórðúngi eru ekki nafngreindir. — Þegar riðið var af þíngi fór jarl austr í Laugardal, en Rafn Oddsson og Hallvarðr og Sigvarðr biskup riðu vestr til Borgarfjarðar, og fundu Vestfirðínga á Þverár þíngi, gengu þeir þá

„undir þvílíka eiða sem aðrir menn", og sóru þar þessir af hèraðshöfðíngjum:

Rafn Oddsson úr Stafaholti,
Sighvatr Böðvarsson af Stað á Snæfellsnesi,
Sturla þórðarson af Staðarhóli,
Einar þorvaldsson úr Vatnsfirði,
Vigfús Gunnsteinsson frá Sauðafelli.

þrír bændr sóru með hverjum þeirra, og verða það tuttugu alls úr Vestfirðínga fjórðúngi; þar að auki sóru þrír úr Borgarfirði. þessir bændr eru ekki nafngreindir, er voru teknir til eiða að vestan og úr Borgarfirði[1]. Eptir þetta fór Hallvarðr gullskór utan um haustið (1262), og með honum Sighvatr Böðvarsson og Sturla sonr Rafns Oddssonar.

Að vísu hafði nú þannig mestr hluti lands játað konúngi skatt, með þeim samníngi sem þeim kom ásamt um, en þó var samníngr þessi enn þá endrnýjaðr á alþíngi næsta ár eptir (1263), og gengu þá Oddaverjar að honum með sama hætti og aðrir, en á öðru ári eptir (1264) var honum játað af Ormi Ormssyni fyrir hönd Síðumanna, og líklega þorvarðar þórarinssonar og Austfirðínga; þá höfðu allir formenn á Íslandi játað skattinum, og því er svo talið, að Íslendíngar hafi gengið á konúngs vald 1264.

En þótt konúngr hefði þannig með ymsu móti náð undir sig öllum goðorðum á landinu, og unnið menn til að játa árlegu skattgjaldi, þá vantaði þó enn eitt stig til þess, að Íslendíngar væri fullkomlega þegnar konúngs. þetta stig var hið svo kallaða þegngildi, eða bætr til konúngs fyrir manndráp, þar sem áðr var einúngis goldið til frænda hins vegna. þessi lagabreytíng varð nokkrum árum síðar á alþíngi (1271), þegar sá hluti af Járnsíðu var lögtekinn, sem þar um greinir.

Sáttmáli sá, eða „brèf", sem Íslendíngar gjörðu við Hákon konúng og Magnús konúng son hans, hefir verið almennt kallaðr hinn gamli sáttmáli, af því það var hinn elzti samníngr, sem Íslendíngar gjörðu við Noregs konúnga þegar þeir gengu þeim á hönd. þessi samníngr er enn til í handritum í þrennu lagi, svo sem hèr fylgir eptir, frá árunum 1262, 1263 og 1264; sá sáttmálinn, sem gjör var við Eirík konúng Magnússon og Hákon hertoga bróður hans á alþíngi 1281, er nú ekki til svo menn viti, en hinn næsti á eptir skýrskotar til hans, og sýnir það að hann hafi áðr til verið. þá er hinn þriði frá 1302, við

1) Um eiðatökurnar er greinilegast sagt í Hák.s. Hákonars. kap. 311: Fornm.s. x, 112—114; og nærri orðrètt samhljóða því í Sturl. 10, 26: III, 318—320; þó sýnist frásögnin um eiðatöku af Vestfirðingum vera líklegri í Sturl. 10, 11: III, 299, að þar er sagt að tólf menn hafi svarið úr Vestfirðinga fjórðúngi, eins og að norðan; en af því sagan er á hinum stöðunum svo ítarlega sögð, þá er ekki ráðlegt að víkja frá henni.

Hákon konúng Magnússon (hálegg), og er hann til enn. Hinn fjórði er frá 1319, og er hann einnig til í handritum.

Hinn gamli sáttmáli hefir híngaðtil verið helzt kunnugr í því formi, sem hann hefir verið saminn 1263 og 1264 (Nr. 153 og 156 hèr á eptir), en eptir handritunum er ljóst að aðgreina eins og hèr er gjört. Er hèr fyrst tekinn sáttmálinn svo sem hann var í fyrstu samþykktr á alþíngi 1262; ber hann það sjálfr með sèr í upphafinu, að hann er einmitt það skjal sem þá var samið, og samþykkt af Norðlendíngum og nokkrum hluta Sunnlendínga, eða „bændum fyrir norðan land og sunnan", og áðr en Vestfirðíngar lögðu á samþykki sitt; staðfestir þetta því fullkomlega það sem sögurnar segja. Þó er auðsætt, að þetta form sáttmálans hefir fyrnzt fyrir hinum, sem síðar voru ritaðir, og þau handrit sem nú eru til af þessu elzta formi sáttmálans eru bæði ný og sum nokkuð afbökuð. Eigi að síðr þykir mèr rèttast að prenta þær afskriptir, sem eg hefi fundið, eins og þær eru, og eiðstafinn með, og fylgja þær í röð með merkjunum A—D, en hèr er skipt í greinir með tölum, til þess að hægra sè að bera saman atriðin og skýrskota til þeirra.

---

A.

Þessi afskript sáttmálans er prentuð hèr eptir skinnbókar kveri Nr. 45 í 8vo. í safni Árna Magnússonar, sem fyr er nefnt, hèrumbil frá 1550—1570 (bls. 551). Þar er þetta brot af sáttmálanum á bls. 19—20, en síðan vantar í blað, eitt eða fleiri, og tekr þá við aptari hlutinn af sáttmálanum frá 1302. Eptir þessu kveri er prentað í Norges gl. Love I, 461—462, og er þess þar gætt að vísu, að vantar í handritið, og gizkað á að vanti „tvö blöð", en samt eru bæði brotin sett saman svo sem þau hefði verið í einu skjali, en þetta er með öllu óvíst, og engin ástæða til að halda, að svo hafi verið. Menn geta einúngis ímyndað sèr, að sáttmálarnir hefði verið ritaðir hver eptir annan í röð, en hitt gat eins vel verið, að þar hefði verið annað á milli, eins og opt má sjá í slíkum brèfasöfnum, einmitt þar sem þessir sáttmálar hittast. Hèr er ekki heldr neinn formáli, eða nokkurt annað merki til að sáttmálarnir sè ritaðir eptir transscripto, sem hafi haldið safn af þeim. Í útgáfu þessari er einnig slengt saman eiðnum við brèfið sjálft. Þetta sambland í útgáfunni hefir stórlega villt próf. Munch í sögu hans um þetta atriði (Norske Folks Hist. IV. 1, 367—369), og hefir hann byggt á því ymsar getgátur og breytíngar, sem ekki

eiga sèr neinn stað. — Hèr er aptr á móti eiðrinn látinn fylgja sèrstaklega, og brotinu af sáttmálanum frá 1302 sleppt á þessum stað, sem það á ekki við, og flutt til þess árs, þar sem það á heima.

---

Sattmali hakonar konungs og islendinga.[1]

þat var sam mæli bænda fyrir nordan land og sunan.

1. at þeir jatudu [æfinlegañ skatt herra N. konungi land og þegna med suordum Eidi[2] .xx. alnir huer sꝏ madr. sem þingfarar kaupi ꝏ at gegna. þetta fie skulu saman færa hreppstiorar og til skips og fꝏ j hendr konungs vmbodz manni og vera þꝏ vʀ ꝏ byrgd vm þat fie.

2. Hier j mot skal konungr lata oss nꝏ fridi og jslendskum laugum.

3. Skulu .vj. skip ganga af Noreigi til Jslandz .ij. sumr enu næstu. eñ þaðan j fra sem konungi og hinum beztum Bændum landzins þikiʀ hentazt landino.

4. Erfdir skulu vpp gefazt fyrir Jslendskum monnum j noregi. huorsu leiñgi sem þær hafa stadit þegar rettir koma arfar til. eda þeirra lauglegir vmbodz menn.

5. Landaurar skulo vpp gefazt.

6. Slikañ rett skulu jslendskir menn hafa j noregi sem þꝏ er þeir hafa bestañ haftt og þier hafit sialfir bodit j ydrum bref[u]m og at hallda fridi yfir oss so sem Gud gefr ydr framaztt afl til.

7. Jarlinn vilium vier yfir oss hafa medan hann helldr trunad vid ydr eñ frid vid oss.

8. skulu vier og voriʀ arfar hallda med ydur allañ trunad medan þier og ydriʀ arfar hallda vid oss þessa Sattar gjord. Eñ lausar[3] ef hun ryfst at beztu man[n]a yfir syn.

---

1) Fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr rauðr. Efst á blaðsiðum ofanmáls í skinnbókinni er ritað með rauðu letri „Riettar Bætur".

2) *frá* [ *er líklega afbakað í röðinni, og á að vera*: með sv. eiði herra N. [Hákoni] konúngi land ok þegna ok æfinlegan skatt .xx. alnir *o. s. frv.*

3) *þannig; án efa rèttara:* lauser (lausir).

[1]Til þess legg eg haund a helga Bok og þui skyt eg til Guðz at eg suer hakoni konungi og Magnuse land og þegna og æfinlegan skatt med slikri[2] . . . . . . . . . . .

B.

Þessi afskript er prentuð hèr eptir dómabók einni, sem nú er í eigu Herra assessors Jóns Pèturssonar í Reykjavík. Sú bók er í fjögra blaða broti, og hefir verið rituð vestr í Dýrafirði á fyrra hluta seytjándu aldar, er sumt í henni með hendi Jóns Gizurarsonar á Núpi, sem var hinn mesti fjölritamaðr á sinni tíð (Safn til sögu Ísl. I, 646—647). Skrá þessi kemr þar fyrir á þann hátt, að fyrst er ritaðr sáttmálinn frá 1319, og kallaðr „gamli sáttmáli", með ártalinu 1261; er því auðsætt, að ritarinn hefir ekki þekkt að aðgreina sáttmálana hvern frá öðrum. En rètt á eptir afskript sáttmálans fylgir þessi sem hèr stendr, svo sem ný grein ártalslaus.

Afskript þessi er í öllum greinum eins og hin næst undanfarandi að efninu til, svo að auðsætt er, að þær eru báðar frá einni uppsprettu runnar; þó er eitt merkilegt atriði sem á milli ber, og það er, að skattrinn er hèr settr á t t a á l n i r, þar sem í hinni fyrstu afskriptinni er ritað t u t t u g u á l n i r. Ef þetta væri ekki ritvilla, þá gæti menn hugsað sèr, að þessi breytíng hefði verið gjör á Þverár þíngi, og að Vestfirðíngar hefði ekki viljað samþykkja hærri skatt en átta álnir, væri svo þessi afskript komin frá því skjali, sem samið hefði verið á Þverár þíngi; en hefði svo verið, þá er það aptr undarlegt, að upphafið sáttmálans („bænda fyrir norðan land og sunnan") skuli standa óbreytt. Annað er það athuga vert, að í samníngunum frá 1263 og 1264 er ekkert ákveðið um skattinn, hversu hár hann skuli vera, og ekki heldr í Járnsíðu, en í Jónsbók er hann fyrst ákveðinn til tuttugu álna með þíngfarar kaupi, einsog í afskriptinni hèr á undan (A), og skyldi konúngr taka tíu álnir, sem hètu skattr, en sýslumaðr tíu, sem hètu þíngfarar kaup (Jónsb. Konúngs þegnsk. kap. 1). Þetta kynni helzt að vera svo til komið, að menn hafi greint á um upphæð skattsins í fyrstu, og hafi síðan komið sèr saman um að láta upp-

[1]) milli sáttmálans sjálfs og eiðs þessa er ekki meiri aðgreining í skinnbókinni, en í milli greinanna í sáttmálanum sjálfum.

[2]) vantar við, neðst á bls. 20 í skinnbókarkverinu.

hæðina standa óákveðna, hafi þetta svo staðið um daga Magnús konúngs, en hann hafi komið því á, að hinum hærra skattinum hafi verið játað í Jónsbók og gjört að almennum lögum. Um þetta atriði getum vèr ekki að svo stöddu sagt með neinni vissu, og að vísu væri það einnig undarlegt, ef ekki hefði verið alstaðar jafnhár skattr goldinn á landinu um nokkur ár, svo sem næst lægi að halda, ef svo hefði verið sem hèr er ráð fyrir gjört.

---

þad er sammæle bænda fyrir nordan land og sunnan.

1. ad þeir jata æfinligum skatt herra |—o—| konge, og magnuse konge land og þegña, med suördum eijdum viij alnir huor sa madr er þijngfarar kaupe a ad giegna. þetta fie skulu til samans færa hreppstiorar og til skips flytia, og fä i hendur vmbodsmönnum kongs, og vera þa vr abyrgd vm̄ þad fie.

2. Hier a motj skal kongur lata oss nä frijdi og jslendskum lögum.

3. Skulu vj skip[1] . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . eñ þadan í fra sem konge og hinum bestum landz bændum þikir landinu henttast vera.

4. Erfdir skulu vppgiefast fyrir jslendskum mönnum i Noreige huorsu leinge sem þær standa. þegar rietter Erfingiar koma til eda vmbodz menn þeirra.

5. Landaurar skulu vpp giefast.

6. slijkañ riett skulu jslendskir menn hafa i noreige, sem þa er þeir hafa best haft. og þier hafid sialfir bodid a ydar briefum, og ad halda frijdi yfir oss, sem gud giefur oss[2] framast afl til.

7. Jarlinn vilium vier yfir oss hafa a meðañ hann helldur tru vid ydur.

8. medan þier og ydrir arfar og Eftirkomendur halldid vid oss þessa sættargjörd, þa skulum vier og vorir arfar hallda allañ trunad vid ydur þa stund, en lausir ef hun rijfst ad bestu manna yfir sijn.

---

1) ein lína fúin ofan af blaðinu. það sem vantar, sjá skrána A.

2) *þannig; en á að vera* yðr.

Til þess legg eg hönd a helga bok, og þvi skit eg til guds, ad eg suer häkonj kongi og magnuse konge land og þegñа, og æfiñligañ skatt med slijkri skipañ sem nu erum vier asattir ordnir, og maldaga bref vortt vottar.

gud se mer so hollur sem eg satt seige, gramur ef eg lijgur. vale.

---

C.

þessi afskript er nú til í tveim nýjum handritum, er annað þeirra í safni Stepháns Eiríkssonar í bókhlöðu háskólans í Kaupmannahöfn[1] Nr. 1, bls. 63, og skrifað snemma á 18. öld; annað er í safni Árna Magnússonar Nr. 62 í 8vo., og er pappírshandrit, ritað á 17. öld, eru þar á dómar og ýmislegt annað þesskyns frá fyrri og síðari öldum.

það er auðsætt á málinu, sem á þessu skjali er, að það er ekki orðrétt ritað eptir hinu forna, heldr er því breytt eptir því máli sem tíðkaðist á sextándu öld; þetta sýnir orðfærið allt í brèfinu, en þó einkum það, að landstjórinn er kallaðr hèr „höfuðsmaðr" (§ 7); landaurar eru kallaðir „tollr" (§ 5); sáttmáli konúngs er kallaðr „handfesta" (§ 8), o. fl. þess konar. Þó verðr ekki sèð, að þessi orðabreytíng sýni neinn eiginlegan misskilníng á orðum eða þýðíngum þeirra, eins og t. d. síðan kemr fram í hinum dönsku útleggíngum, einúngis er þess getanda, að hèr er sagt, að Noregs konúngr skuli „upp hèðan" vera konúngr yfir Íslandi, og er það öldúngis rángt, því Íslendíngar höfðu það sem fasta reglu framanaf, að hylla hvern konúng sèr í lagi, og leita þar í tryggíngar fyrir að sáttmálinn yrði haldinn. það er eitt eptirtektar vert, að skattrinn er settr hèr til átta álna vaðmáls, þar sem hitt handritið, er setr skattinn til átta álna, tekr ekki til í hverjum aurum hann skuli gjaldast.

Stafsetníng á þessari skrá er frá þeim tíma, sem handritin eru rituð á, og þótti hèr engin nauðsyn að fylgja henni.

---

[1] Stephán var sonr sira Eiríks Bjarnasonar, sem var seinast prestr á Staðarbakka. Stephán var útskrifaðr úr Bessastaða skóla 1828, síðan skrifari hjá Steingrími biskupi 1828—1830, stúdent við háskólann í Kaupmannahöfn 1831; las hann síðan lögfræði, og hafði einkanlega safnað miklu til íslenzkrar lögfræði, gaf hann það til safns Árna Magnússonar fyrir andlát sitt, um vorið 1837.

Játun skatts ok þegnskylldu af hendi Íslendinga til Noregs konúngs[1].

Íslands innbyggjarar fyrir sunnan ok norðan á Íslandi [gjörum kunnigt[2];

1. at vèr höfum játað fyri oss ok vora eptirkomendr, at gefa rèttum Noregs konúngi, hverr bóndi sem svà er megandi sem [lög vísa[3] at skatt skuli gjalda, viij álnir vaðmáls. En Noregs konúngr skal upp hèðan vera vor konúngr með eptirfylgjandi skilmála.

2. Skal konúngr halda oss Íslands innbyggjara við lög ok lands rètt.

3. Konúngr skal láta vj skip af Noregi í næstkomandi ij ár til Íslands, en þaðan í frá sem þörf gjörist.

4. Arfar skulu upp gefast í Noregi rèttum erfíngjum, hvað lengi sem staðit hafa.

5. Íslenzkir skulu engan toll gefa í Noregi, þó at nokkurr sigli[4] þángað.

6. Skulu Íslendíngar hafa svâ góðan rètt ok álit í Noregi, sem þá er beztan höfðu þeir.

Í sama máta skulu þeir njóta friðar ok vera styrktir af konúngi til laga ok rèttar.

7. Viljum vèr hafa jarl fyrir höfuðsmann.

8. Svâ lengi sem konúngr ok hans eptirkomendr halda trúskap við oss, svâ viljum vèr halda vora trú ok eiða[5] óraskanlega, sem vèr viljum hèr eptir sverja konúngunum[6] af Noregi; en sè svà, konúngr haldi ekki sína handfestu við oss, þá viljum vèr vera lausir við vârn sáttmála at beztu manna yfirsýn.

---

D.

Í hinu stóra konúnglega bókasafni (Nye kongel. Saml. Nr. 1265 í Fol.) er brot af Jónsbók á pappír, sem nær aptr í Lands-

1) Handfestíng og sáttmáli Íslendínga 1269 er svâ hljóðandi, *fyrirsögn* í AMagn. Nr. 62. Svo.

2) *frá* [ gjöra vitanlegt einum ok sèrhverjum, 62.

3) *frá* [ lögin útvísa, 62.

4) vili sigla, 62.

5) eið, 62. 6) kónginum, 62.

leigubálk tæplega miðjan, og hefir þessi bók verið rituð á síðari hluta seytjándu aldar. Þar eru hèr og hvar á spázíum lagagreinir úr íslenzkum og norskum lögum til samanburðar, einnig ágrip úr dómum og statútum og rèttarbótum. Þar sem er um konúngs erfðir í Kristindómsbálki, er ritaðr aptan við erfðahyllíngar eiðr sá, sem Íslendíngar sóru í Kópavogi 1662, og til samanburðar við þetta „eiðr landsins 1649" (til Friðreks konúngs þriðja, þegar hann kom til ríkis); en á spázíu er ritaðr eiðstafr sá, sem heyrir gamla sáttmála í hans elztu mynd, eins og hèr stendr í hinu undanfaranda (A og B), og kallaðr þar „þegna eiðr gamall". Þessvegna er eiðstafr þessi prentaðr hèr til samanburðar, og svo að sjá megi, hversu gamli sáttmáli og eiðstafir þeir sem honum fylgðu hafi verið kunnugir um allt land, og gengið manna á milli í handritum í ymsum myndum.

Eiðstafr þessi er prentaðr áðr eptir þessu handriti í Nýjum Fèlagsritum VIII, 13 athgr.

---

Þegna eiðr gamall.

Til þess legg ek hönd á helga bók, ok því skýt ek til guðs, at ek sver Hákoni konúngi ok Magnúsi lönd ok þegna, ok æfinlegan skatt, með slíkri skipan sem nú erum vèr ásáttir ok máldaga brèf þar um gjört vâttar.

Guð sè mèr hollr sem ek satt segi, en gramr ef ek lýg.

---

## 153. [1263]. á alþingi.

Endrnýjan sáttmálans af hendi Íslendínga við Hákon konúng Hákonarson og Magnús konúng son hans, um skattgjald og landsrèttindi, svo sem samþykkt var af Oddaverjum og öllum almúga á Íslandi.

Hallvarðr gullskór fór utan um sumarið 1262, og fèkk mikla þökk af Hákoni konúngi fyrir framkvæmd sína í skattgjaldsmálinu. Þó hafa þeir án efa sèð, sem var, að mikið vantaði á að skattr væri samþykktr um allt land, þareð vantaði samþykki

Oddaverja. sem voru bæði frændmargir og ríkir, og enn þar að auki samþykki allra Austfirðínga, sem höfðu ávallt híngaðtil verið eindregnir mótstöðumenn konúngsflokksins. Hallvarðr hefir án efa sagt konúngi, að almennt samþykki fengist ekki fyrir skattinum, nema nokkur breytíng og meiri tilslökun yrði af konúngs hálfu. Vèr höfum enga frásögn um Hallvarð, frá því hann fór utan 1262 og til þess sagt er að hann hafi komið utan af Íslandi um sumarið 1264, og sagt þá þær frèttir, að menn hafi verið þá búnir að frètta þar andlát Hákonar konúngs, sem varð á jólaföstu 1263, og að skattgjald væri þá samþykkt um allt land (Magnús saga lagab. kap. 3: Fornm.s. x, 157). Það er því víst, að Hallvarðr var á Íslandi 1261, og það er líklegt hann hafi verið sendr þángað 1263, til að leiða skattmálið til lykta, og verið svo á Íslandi um vetrinn (1263—1264) og þartil um sumarið eptir; hefir hann þá án efa haft umboð konúnga til að jafna þau atriði, sem honum var kunnugt að mest bar á milli, og hefir það helzt verið þrennt: upphæð skattsins, utanstefnur, og forgángsrèttr höfðíngja ættanna til hinna æðstu embætta af veraldlegri stètt á landinu, eptir að konúngs vald var komið á. Um þessi atriði hefir Hallvarðr gullskór og þeir konúngsmenn samið við allan þíngheim á alþíngi um sumarið 1263, en þó einkum við Oddaverja, því annálar segja, að Oddaverjar hafi í þetta sinn játað Noregs konúngum (Hákoni og Magnúsi) skatti fyrir austan Þjórsá um Sunnlendínga fjórðúng; eru þeir einkum tilteknir, af því þeir unnust til að játa skattinum á þessu sumri. Austfirðíngar munu þá enn ekki hafa verið á þíngi.

Oddaverja ætt, sem uppi var um þetta leyti, var ein hin fjölmennasta sem þá var á Íslandi, því hún hafði liðið minni mannskaða í vígum en Sturlúngar og Haukdælir, af því að Oddaverjar höfðu að mestu leyti sneydt sig hjá herferðum og bardögum. Oddaverjar voru náskyldir konúnga ættinni í Noregi, því Loptr prestr, son Sæmundar hins fróða (bls. 503), hafði átt Þóru, dóttur Magnús berbeins Noregs konúngs. Þeirra son var Jón Loptsson í Odda (bls. 224), sem var mestr höfðíngi á Íslandi um sína daga. Svo var og Sæmundr sonr hans kallaðr „göfgastr maðr á öllu Íslandi" (Páls bisk. saga kap. 9: Bisk.s. I, 135), og var vald Oddaverja þá í mestum blóma þegar Sigurðr Ormsson á Svínafelli varð að láta virðíngu sína fyrir Sæmundi (1200; Sturl. 3, 45: I, 201). En eptir að Sæmundr sat hjá málum Lopts biskupssonar frænda síns, og Haukdælir voru seztir að stóli í Skálholti (Magnús biskup Gizurarson), þá var yfirvaldi Oddaverja lokið, við það sem fyr hafði verið, en þó voru þeir bæði göfugir og fjölmennir; voru það synir og sonarsynir Sæmundar Jónssonar, sem voru höfuð ættarinnar á þessari tíð, svo sem sjá má af töflu þessari (sbr. Sturl. 3, 21: I, 226; Guðmundar bisk. saga hin elzta, kap. 51: Bisk.s. I, 487).

SÆMUNDR JÓNSSON Í ODDA († 1222)[1].

A. . . . . . . . systir þorgríms alikarls.
1. Margrèt Sæmundard. ⌣ Kolbeinn kaldaljós († 1246).
2. Páll Sæmundarson († 1216 í Noregi).

B. Valgerðr á Keldum (Keldna Valgerðr) Jónsdóttir Loðmundarsonar.
3. Solveig Sæmundard. († 1244) ⌣ Sturla Sighvatsson († 1237).

C. Íngvildr Eindriðadóttir:
4. Vilhjálmr Sæmundarson í Odda, líklega sá Vilhjálmr prestr Sæmundarson, sem andaðist 1273 (Annálar; Árna bisk.s. kap. 11: Bisk.s. I, 695).
5. Haraldr Sæmundarson í Odda, sem afsalaði Hákoni konúngi goðorð sitt († 1251).
6. Philippus Sæmundarson á Stórólfshvoli, sem var með að afsala Hákoni konúngi goðorð sitt, ásamt Haraldi bróður sínum († 1251).
7. Andreas Sæmundarson á Eyvindarmúla, og síðan Ytra Skarði.

D. þorbjörg, rángæsk kona.
8. Hálfdan Sæmundarson á Keldum († 1265) ⌣ Steinvör Sighvatsdóttir Sturlusonar.
9. Björn Sæmundarson í Gunnarsholti († 1285).
10. Helga Sæmundardóttir ⌣ Kolbeinn úngi Arnórsson († 1245).

þeir Oddaverjar sem voru á lífi sumarið 1263, og líklega hafa þá gengið að sáttmálanum á alþíngi, voru alls tíu, sem voru:

1. Hálfdan Sæmundarson (8).
2. Björn Sæmundarson (9).
3. þórðr Andrèsson á Völlum († 1264).
4. Eyjólfr Andrèsson í Skarði.
5. Brandr Andrèsson í Skógum († 1273).
6. Magnús Agnar Andrèsson.
7. Sæmundr Haraldsson í Odda.
8. Loptr Hálfdanarson († 1312).
9. Sighvatr Hálfdanarson.
10. Sturla Hálfdanarson.

Af sonum Sæmundar Jónssonar voru þá tveir hinir ýngstu á lífi, Hálfdan og Björn; Vilhjálmr var prestr, og átti því ekki þátt í eiðatökunni. — Synir Andreas Sæmundarsonar (7) voru mestir forgángsmenn Oddaverja um þenna tíma, og var þórðr

---

[1]) Í „Íslenzkum annálum" (útg. AMagn. nefndar.) stendr í textanum „Sigmundr", sem er rángt.

þeirra helztr, hann bjó á Völlum á Rángárvöllum; systir þeirra Ásta Andresdóttir átti Klæng Teitsson í Bræðratúngu, bróðurson Gizurar jarls; voru þó Andrèssynir hinir mestu óvinir jarls og endaði með því, að jarl sveik þórð og lèt drepa hann í þrándarholti um haustið eptir (27. Septbr. 1264); var hann sá annar maðr en Sturla Sighvatsson, sem jarli var umhugað um að misti lífið (Sturl. 10, 25: III, 318). — Sæmundr Haraldsson fylgði þeim bræðrum Andrèssonum, frændum sínum; hann og Björn Sæmundarson föðurbróðir hans áttu Odda um þessar mundir, og seldu hann skömmu síðar. — Synir Hálfdanar Sæmundarsonar og Steinvarar Sighvatsdóttur, systur þórðar kakala, urðu síðan höfuðmenn fyrir ætt Oddaverja; móðir þeirra og þeir keyptu Odda skömmu síðar en þetta var, af Birni Sæmundarsyni og Sæmundi Haraldssyni, en þeir mistu þessa eign fyrir dómi erkibiskups 1273.

þegar vèr berum saman sáttmálann, eins og hann er hèr, við hinn fyrirfaranda, er auðsætt, að allar þær breytíngar sem þar eru í miða til að gjöra sambandið frjálsara fyrir Íslendínga, skattgjaldið óákveðið að upphæð, skuldbindíngar konúngs sterkari og lögbundnari, höfðíngjavaldið á Íslandi fastara og óháðara vilja konúngsins, uppsagnarrètt Íslendínga á sambandinu ljósari en áðr var, eptir sáttmála þeim sem saminn var árið fyrir. það getr varla verið efa undirorpið, að þessar breytíngar sè gjörðar af Oddaverjum og samþykktar af konúngs hendi til að vinna þá, og þó einstakt atriði í samníngnum sè oss vafasamt, mest vegna þess, að engar afskriptir þær sem vèr nú þekkjum af sáttmála þessum eru mjög gamlar, þá er þetta atriði þó ekki þess eðlis, að vèr getum fyrir þá sök tortryggt samnínginn í neinu verulegu, því það atriðið, sem er vafasamt, er þó í sjálfu sèr svo eðlilegt, eptir hugsunarhætti manna á þeim tímum, að það hlaut að koma fram í skilmálunum, og þá einkum af hendi hinnar stærstu höfðíngja ættar á Íslandi, sem Oddaverjar voru. Vèr sjáum og, að eptir þetta hefir samníngnum ekki verið breytt, svo að Síðumenn hafa samþykkt hann eins og hann er hèr settr, og það er að eins sýnilegt á eiðstaf þeim sem hèr fylgir, að þessi er hinn fyrri, og samþykktr á meðan Hákon konúngr var á lífi.

Nú skulum vèr skoða nokkuð gjör hinar einstöku greinir, og jafna þeim saman við sáttmálann frá 1262 hèr næst á undan (Nr. 152); sjáum vèr þá fyrst að upphafinu er breytt, og fyrsta grein orðuð öðruvísi. þessar breytíngar sýna, að Íslendíngar hafa ekki viljað að sáttmálinn næði lengra en um æfi þess konúngs sem þá var uppi, en þeir hafa ætlazt til að hver nýr konúngr semdi við sig. þetta staðfestist einnig á þeirri endrnýjun sáttmálans, sem enn er til, frá 1302, og á brèfinu til ríkisráðsins 1319, þar sem þeir neita að hylla konúng fyr en þeir fái kröfum sínum fullnægt. — það atriði, að hèr er nefndr „Hákon konúngr hinn kórónaði", hefir nú á vorum tímum vakið tortryggni hjá norskum sagnariturum, af því þeir þykjast aldrei

hafa fundið Hákon konúng gamla kallaðan „Hákon hinn krýndaða"; hafa þeir því ályktað svo, að „gamli sáttmáli". sem vèr svo köllum, sè ekki eldri en frá tíma Hákonar Magnússonar (háleggs), og hann einn sè venjulega kallaðr Hákon hinn krýndaði. En þessi tortryggni er ekki á rökum bygð. Væri samníngr þessi við Hákon Magnússon, yrði hann að vera frá fyrstu árum konúngsins, og fleiri samkyns gæti ekki verið til frá hans tíma; en vèr höfum einmitt þann sáttmála við Hákon konúng Magnússon frá 1302 (Lagasafn Ísl. I, 23—24), sem ljóslega ættfærir sig, einkum í þeim orðum hans: að menn vili „hafa ok halda þá lögbók, sem hinn **signaði Magnús konúngr** sendi út, sem vèr sórum **næst**". Með þessum orðum sýnir sú skrá, að hún er hin **næsta** eptir þá eiðatöku, sem fram fór þegar Eiríkr konúngr kom til ríkis, eptir dauða Magnús konúngs lagabætis og lögtekníng Jónsbókar; hún kveðr einnig skýrt á um leið, að hún sè sáttmáli Íslendínga við Hákon Noregs konúng hinn krýndaða. Þegar nú til er sáttmálinn við Hákon Magnússon, höfum vèr engan stað fyrir þessa skrá sem hèr fylgir, nema þann sem hún hefir hèr fengið, og hún verðr ekki tortrygð nafnsins vegna, svo framarlega sem það verðr sannað, að Hákon gamli Hákonarson hafi verið kallaðr „hinn krýndaði" einsog Hákon Magnússon. En það er óyggjanda að svo hefir verið, því allir Noregs konúngar hver eptir annan, frá Hákoni Hákonarsyni til Hákonar Magnússonar, voru bæði krýndir og kallaðir hver um sig „hinn krýndaði", og skal eg tilfæra hèr fáein dæmi af mörgum:

1. Hákon konúngr hinn gamli Hákonarson: „gerði hinn virðulegi herra Hakon konongr **hinn koronaðe** þa miskunn ok skipan", Járnsíða Mannh. kap. 2 (Árna Magn. útg. bls. 19; Norg. gaml. Love I, 261); hið sama er í fjölda handrita af Landslagabók Magnús konúngs lagabætis, Mannh. kap. 2: „Hakon konungr hinn koronaði„, eða: „Hakon konungr sunarsun Sverris konungs, hinn koronaði" (Norg. g. Love II, 49 athgr. 1). — „Þessor einkamal varo tekin með raðe Hakonar konongs **hins koronaða**, sunar sunar Sverris konungs, með asia Magnus konongs sunar hans". Járnsíða Mannh. kap. 7 (AMagn. útg. bls. 23; Norg. g. Love I, 266); „sun Sverris konongs het Hakon konongr hinn goðe; hans sun var Hakon konongr hinn koronaðe; Magnus konongr hans sun en koronaðe" (Norg. g. Lov. I, 393). — „18. Decbr. (**rèttara**: 15. Decbr.) 1263: ob. Hakonar konongs ens koronaða". Ártíðaskráin forna í Finn. Joh. Hist. Eccles. I, 598. — „Á öðru ári eptir fráfall virðuligs herra Hákonar Noregs konúngs hins krýndaða". Alþíngis samþykkt um knífaburð 1265 (Jónsb. viðbæt. XV).

2. Magnús konúngr lagabætir Hákonarson: „í rèttarbótum vars herra Magnus konungs hins koronaða". Landslagab. Óðalsbálk. kap. 2. (Norg. g. Lov. II, 93). — „Eirikr konongr ok Hakon hertogi synir Magnus konongs hins koronaða". rèttarb. 1290, Norg. g. Lov. III, 17; sbr. rèttarbætr 1291. 1293.

1298. sst. bls. 19, 20, 33 og brèf 31. Juli 1289, Diplomat. Norveg. V, 18. — „Hakon hertogi son Magnus konungs hins koronaða". 1292. 1296. 1297. AMagn. fornbrèfasafn úr Noregi Fasc. 27, 1ª. 4. 7; — „Hakon . . . Noregs konungr son Magnus konungs hins koronaða". 1300. sama safn Fasc. 29, 12 og 13.

3. Eiríkr konúngr Magnússon: „Eirikr Noregs konungr hinn koronsði". Rettarb. 1280 um prófasta, Norg. g. Love III, 3; Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 414; Jónsb. viðb. VIII; sbr. Rèttarb. 1282 í Norg. g. Love III, 12.

4. Hákon konúngr Magnússon: „Hákon konungr hinn koronaði". 1302. Norg. g. Love III, 42. 45 athgr. 2; 1313. Norg. g. Lov. III, 102 athgr. 21. Að öðru leyti þarf ekki um hann að færa til fleiri dæmi, þareð öllum kemr saman um að hann sè almennt svo kallaðr.

Hèr er því fullkomin sönnun fyrir, að nafn konúngs er öldúngis rètt hèr í skránni, og samkvæmt því sem það væri ritað 1263 á dögum Hákonar konúngs.

Þegar vèr berum saman hinar einstöku greinir sáttmálans, þá finnum vèr sömu rök til að þessi afskript hans sè í öllu verulegu óbreytt og rètt, og eru breytíngar þær, sem á milli bera og sáttmálans frá 1262, svo einkennilegar og svo líkindalegar, að þær staðfesta þetta enn framar.

1. grein er í þessum sáttmála ólík hinum fyrra í því, að skattrinn er nefndr hèr en ekki ákveðinn (til tuttugu álna, eða átta álna); ætla eg að það sè með vilja gjört, af því ekki hafi verið komin enn á föst upphæð skattsins á öllu landi, heldr verið goldið ýmist tuttugu álnir (í skatt og þíngfararkaup til samans, eða tíu álnir í skatt einúngis), ýmist átta álnir (og tíu að auki í þíngfararkaup), og hafi því þótt rèttast að láta einúngis skattgjalds-játuninа standa, en ákveða ekki upphæð skattsins. Sú er hèr önnur breytíng, að hèr er ekki í greininni játað landi og þegnum og æfinlegum skatti, heldr einúngis að þeir vili gjalda konúngi skatt, og slíkt þíngfararkaup sem lögbók vottar, og er þá þar þegar bætt við því skilyrði, sem er ítrekað síðar, að þau heit sè haldin, sem móti skattinum var lofað. Þessi breytíng er beinlínis í þá stefnu, að gjöra samnínginn nokkru lausari, binda hann við konúng, og þó því að eins að hann hèldi skilmálana, en ef hann hèldi þá ekki: að hafa þá frjálsar hendr til að vera lausir ef þeir vildi, en hafa í öllum greinum frelsi til, þegar konúnga skipti yrði, að hylla hinn nýja konúng því að eins, að hann vildi gánga að skilmálum þessum. Þetta kemr fram við öll konúnga skipti fram til 1319, og jafnvel síðar, eptir því sem vèr höfum sögur af, svo að gamli sáttmáli er einn hinn elzti af þesskonar samníngum milli konúnga og þjóða, sem menn kölluðu síðan á Norðrlöndum handfestur (sbr. Nr. 152. C, § 8).

2. grein um utanstefnur er hèr ný, og stendr ekki í sáttmálanum frá 1262; eigi að síðr var það eðlilegt, að menn vildi

verja sig utanstefnum þeim, sem komnar voru í einskonar vana hjá Hákoni konúngi og erkibiskupum í Noregi á hans tímum, því menn gátu hugsað sèr, að ef svo mikil brögð voru að þessu meðan landsmenn hèldu sjálfsforræði sínu, þá mundi það því heldr verða þegar konúngr fengi meiri yfirráð. þessar utanstefnur, sem hèr er um að ræða, eru ekki þær, sem voru ætlaðar í landsins erindum eða konúngs, heldr þær sem voru í hegníngar skyni, eða til að draga menn úr landi, svo sem sýnir niðrlag greinarinnar. þessvegna er það rángt, að blanda saman þeim utanstefnum og hinum, því vèr verðum ekki varir við slíkar hegníngarstefnur síðan að sáttmálinn var saminn.

3. grein, sem áskilr að „lögmenn ok sýslumenn" skuli vera íslenzkir, af þeirra ættum, sem „að fornu" hafa goðorðin upp gefið, er einnig ný, og er ekki í hinum fyrra sáttmálanum. þessi grein hefir verið mörgum vafasöm, bæði vegna þess, að „lögmenn" og „sýslumenn" voru þá ókunnir á Íslandi, og voru einúngis kunnugir í Noregi, og svo vegna þess, að goðorðin gátu varla heitið upp gefin „at fornu", þareð svo skammt var liðið frá því, sem þau hin fyrstu voru upp gefin, eptir því sem vèr höfum skýrslur af, og sum voru ekki uppgefin enn. þetta hefir gjört, að nokkrir hafa haldið að allr „gamli sáttmáli", sem vèr köllum, geti ekki verið eldri en frá tíð Hákonar Magnússonar (1300—1319). — það er nú auðsætt, að röksemdir þessar móti greininni eru fremr bygðar á orðunum, en á þeirri reglu sem greinin setr, því ekkert gat verið eðlilegra í sjálfu sèr, en að höfðíngjar á Íslandi, sem svo lengi höfðu ráðið mestu í allri landstjórn, vildi halda þessum ráðum í ættum sínum, líkt og þeir höfðu áðr áskilið sèr og ættmönnum sínum umráð yfir eignum kirkna sinna, þegar þeir lögðu þær til guðs þakka. það mætti lángtum framar virðast undarlegt, ef þetta skilyrði hefði vantað í sáttmálann. Einkanlega var þessa skilyrðis að vænta af Oddaverjum, sem ekki höfðu þá nein yfirráð nema í sínu hèraði, og voru þar að auki margir í óvináttu við Gizur jarl. Að vísu kynni vera, að „lögmenn" væri ritvilla í afskriptum vorum fyrir „lögsögumenn", og gæti það því heldr verið, sem engin af afskriptum vorum er mjög forn, en þó væri það eins líklegt, að einhver af svo mörgum afskriptum hefði haldið orðinu, ef það hefði staðið upphaflega. Sömuleiðis gæti menn hugsað sèr, að orðunum „at fornu" væri síðar skotið inn, en þar er hinu sama að mæta, að þau standa í öllum handritunum, og geta menn því varla tortryggt þau, en eg hefi áðr[1] skilið þau svo, sem þau væri þannig sett af því sáttmálinn mætti eiga í vændum að gilda um lángan aldr, og þegar lengra fór að líða frá og konúnga skipti urðu, þá átti vel við að orða svo í sáttmála við hvern konúng, að þeir skyldi lögmenn vera og sýslumenn, sem væri

[1]) Um landsrèttindi Íslands móti J. E. Larsen, Ný Fèlagsr. XVI, 8. athgr. (*Om Islands statsretlige Forhold*, bls. 8).

af ættum hinna fornu goða. En hvað sem um þetta er, þá er órækr vottr þess í sáttmálanum frá 1302, að þessi grein hafi verið í þeim elzta sáttmálanum sem gildr var álitinn, því þar stendr svo, að Íslendíngar vili ná því í móti skattinum, að efnt sè það, „er heitið var móti skattinum í fyrstu af konúngsins hálfu; en þat eru þau heit", segja þeir, „at íslenzkir sè sýslumenn ok lögmenn á landi voru" o. s. frv. (Ísl. Lagas. I, 24). Þetta sýnir ljóslega, að á tímum Hákonar konúngs Magnússonar hafa menn haft þessa grein í gamla sáttmála, og álitið hana vafalausa og samþykkta af Hákoni konúngi gamla; hins er ekki getið í sáttmálanum frá 1302, hvort greininni skyldi fylgja það, sem hèr segir, að embætti lögmanna og sýslumanna skyldu gánga í ættir hinna fornu goðorðsmanna. Þessvegna er ekki efi á, að slík grein hefir í sáttmálanum verið, sem hèr stendr, frá upphafi, og allt hvað kynlegt er í orðatiltækjum gæti verið komið þar af, að greinin væri samin í Noregi, frá Hákoni konúngi sjálfum eða fyrir hans tilstilli, og Íslendíngar hafi ekki hirt að breyta henni. Þá yrði orðatiltækin um lögmenn og sýslumenn öldúngis eðlileg, og uppgjöf goðorðanna „at fornu" gæti verið sett með vilja, til þess að gjöra gildi uppsagnarinnar sem mest, enda er það og víst, að konúngr þóttist fyr hafa umráð goðorðanna, en hann hafði þau að lögum.

4. grein, um siglíng til landsins, er hèr að skipatölunni til hins sama efnis og í sáttmálanum frá 1262, en takmark áratölunnar er hèr tekið úr, og sex skip sett sem föst árleg skipatala. Það er auðskilið, að konúngi muni ekki með þessari grein vera lagt á herðar að senda sex skipsfarma til útbýtíngar, heldr til verzlunar, einsog bæði fyr og síðar var venja, að konúngar gjörðu út verzlunarskip eins og kaupmenn, og höfðu ymsa menn í fèlagi við sig, til að sjá um verzlun þeirra og stjórna henni. Þetta gekkst við frá því í fornöld og það lángt niðr eptir öldum, og vitum vèr mörg dæmi til þess. Svo var Ólafr konúngr hinn helgi í kaupferðafèlagi við ymsa Íslendínga, og þess er einkum getið um Hall í Haukadal, að hann græddi fè sitt með því móti (Form. fyrir konúngasögum). Hákon konúngr Hákonarson hafði mörg skip í förum, sem sjá má af enskum konúngabrèfum frá hans tímum (Rotuli literarum clausarum o. fl. söfn, sjá Nr. 121 bls. 482 hèr að framan), og hefir án efa grædt stórfè á verzlun, svo sem ráða má af því, hversu miklu hann eyddi í mútur til páfa og Vilhjálms kardínála (bls. 542. 543). Þessari verzlun hefir líklega síðan verið fram haldið um hríð, en þó hefir hún farið smásaman mínkandi, sem sýnir sig á að verzlunarskip annara voru skylduð til að flytja konúngsgóz af Íslandi (brèf 1409. Safn til sögu Ísl. II, 169—170). Þar eptir fór konúngs verzlanin aptr vaxandi, og Friðrekr konúngr annar hafði á Íslandi afarmikla verzlun á sinni tíð og græddi þar á stórfè (Hannes Finnsson. Um brennisteins nám og kaupverzlan í Lærd. lista fèl.rit. II. B.). Eptir því sem á stóð á þeim tímum, sem sátt-

málinn var saminn, var það þess vegna hægt fyrir Hákon konúng að sjá svo um, að sex skip í hið minnsta kæmi til Íslands á ári hverju, því hann hefir líklega haft fleiri skip en svo í kaupferðum til Íslands árlega. En þar að auki er það og ekki að efa, að með skilmála þessum er ekki frá bægt annara manna skipum, útlendum nè innlendum. Þessi grein í sáttmálanum hefir því líklega á sinni tíð þótt einhver hin heppilegasta. Menn hafa þókzt mundu sameina verzlunarábata konúngs og landsmanna, komast hjá farbönnum úr Noregi, vera vissir um svo mikinn vöruflutníng til landsins, sem nauðsyn þess krefði, og þar að auki frjálsir að hafa að öðru leyti svo mikla verzlan við aðra, sem byðist. Þetta leit og vel út, en á því var sá galli, sem leiddi til landsins kúgunar og eyðileggíngar, að landsmenn fóru að reiða sig á aðra, og ætluðu að taka á sig náðir og eiga góða daga, í stað þess að vera ötulir og árvakrir, treysta sjálfum sèr og framfylgja sjálfir gagni sínu. Þeir gáfu konúngi undir fótinn, að hann einn hefði einkarèttindi til að verzla við þá, og lögðu með því grundvöllinn til einokunar landsins.

5. grein er óbreytt hin sama sem fjórða grein í sáttmálanum frá 1262. Sá rèttr, sem hèr er veittr, er miklu meir Íslendíngum í vil en þær ákvarðanir, sem settar eru í hinum gamla samníngi við Ólaf helga (Nr. 21, bls. 65), því eptir honum skyldi geyma arf Íslendínga í Noregi þrjá vetr, en yrði lengri bið erfíngja mun arfrinn hafa verið tekinn til konúngs fjárhirzlu. Eptir því sem hèr er sett gat arfr aldrei tapast að lögum, eða fallið til konúngs fjárhirzlu, hversu lengi sem arfr stóð, þegar sá sem heimti gat sannað erfðarètt sinn, eða umboð frá löglegum erfíngja.

6. grein er óbreytt hin sama sem fimmta grein í sáttmálanum 1262. Um landaura gjaldið er greinilegust frásaga Ara prests hins fróða í Íslendíngabók (kap. 1: Íslend. s. I, 5), eptir Þorkeli Gellissyni föðurbróður hans. Hann segir, að gjald þetta hafi fyrst komið upp á dögum Haralds konúngs hárfagra, þegar menn þustu svo til Íslands úr Noregi, að Haraldr konúngr óttaðist að til landauðnar mundi horfa. „Þá sættust þeir á þat, at hverr maðr skyldi gjalda konúngi fimm aura, sá er eigi væri frá því skiliðr" og færi af Noregi til Íslands. Síðan galzt þetta gjald stundum meira og stundum minna, þartil Ólafr konúngr hinn helgi setti svo, að hver maðr skyldi gjalda konúngi hálfa mörk, nema konur, eða þeir er konúngr tæki undan. Þessu ber saman við skrána „um rètt Íslendínga í Noregi" frá 1083 (bls. 65 § 3), sem segir, að hver frjáls karlmaðr skuli gjalda hálfa mörk silfrs, helmínginn í vaðmálum og helmínginn í feldum, en það verðr nú 16 dalir, ef talið er í vegnu silfri; hefir því vaðmál og feldir átt að vera 1 rd. 32 sk. hver alin, til þess að jafngilda, og er það hátt verð við það sem nú er, svo ekki er kyn þó vaðmálsverzlun Íslendínga hafi þá verið í miklum blóma.

7. og 8. grein eru hèrumbil samsvarandi 6. grein og 2. grein í hinum fyrra sáttmálanum. Það sem helzt er eptirtektar vert, er það, að hèr er skýrskotað til brèfa Hákonar konúngs, sem hafi einkum tekið það fram, að menn skyldi ná íslenzkum lögum og friði, „eptir því sem lögbók vottar". Af hinum fyrra sáttmálanum er svo að ráða, sem það hafi einnig staðið í brèfum konúngs, að Íslendíngar skyldi hafa þann rètt í Noregi, sem þeir hafi beztan haft (§ 7). Þessi rèttr Íslendínga í Noregi var hölds rèttr, eða sá rèttr sem fullkomnum óðalsbændum var skilinn að lögum[1].

9. og 10. grein er sömuleiðis samsvarandi 7. og 8. grein í hinum fyrra sáttmálanum.

Eiðstafrinn sjálfr er hèr orðaðr nokkuð öðruvísi en við hinn fyrra sáttmálann, og er það til marks um að hann eigi hèr við upphaflega, en sè ekki settr hèr af þeim sem afskriptirnar hafi samið, að hann er eins í öllum þeim afskriptum sem hèr eru tilfærðar, en öðruvísi í öllum hinum, sem hèr eru áðr settar við 1262. Þar á móti fylgir enginn eiðstafr þeim flokki öllum, sem hèr er árfærðr til 1264.

Afskriptirnar af þessum sáttmála standa hèr í röð eptir aldri handritanna, merktar A—D, hver með eiðstaf sínum, og hefir engin þeirra verið prentuð áðr eða hagnýtt við útgáfur.

---

## A.

Þessi afskript er prentuð hèr eptir fornri skinnbók í safni Árna Magnússonar Nr. 137 í 4to; hefir Árni fengið hana frá Katrínu, dóttur Torfa prófasts Jónssonar í Gaulverjabæ, einhverntíma á árunum 1704—1708. Á skinnbók þessari eru rèttarbætr nokkrar, og sýnist sem engin þeirra sè ýngri en Herjólfs rèttarbót, sem svo er kölluð, frá 1318. Meðal þessara rèttarbóta er sáttmáli Íslendínga við Hákon konúng Magnússon, frá 1302 (bls. 6—7). Eptir rèttarbætrnar koma nokkrar af hinum venjulegu forsögnum (*formulæ juridicæ*), þar eptir Jónsbók öll (bls. 24—164) og síðan Kristinrèttr Árna biskups. Aptast í bókinni, á næstu blaðsíðu hinni seinustu, er rituð þessi afskript af gamla sáttmála, sem hèr fylgir eptir, og þar með eiðstafrinn án að-

1) „Sá er höldr, er hann hefir óðul at erfðum tekit bæði eptir föður og móður, þau er hans foreldrar hafa átt áðr fyrir þeim, ok eigi annara manna óðul i at telja, þau er með kaupi eru at komin eða úterfðum" (Gulaþingsl. Magnús konúngs. Landslb. kap. 64. — Um hölds rèttindi í norrænum lögum, sjá bls. 65 athgr. 2.

greiníngar; er þetta ritað með nokkru nýjari hendi en skinnbókin sjálf, en hún virðist vera rituð hèrumbil um 1400.

---

J nafne faud[u]r ok sonar ok h[e]ilax anda

var þetta jad ok samþygt med[1] ollvm allmvga a jslandi a alþingi med lofa take.

at ver biodvm hakone konvngi hinvm koronada vora þionvstv vndir þa grein laganna er samþygt [er] j mille konvng domsins ok þegnana þeirra er landit byggia.

1. er sv hin fursta grein at vier vilivm giallda konvnge skatt ok þing farar kavp slikan[2] sem laugbok vottar ok alla þegn skylldv svo framt sem halldjn er vit oss þav heit sem j motti skattinvm var jad.

2. wtan stefningar vilivm ver avngvar hafa utan þeir menn sem dæmdir verda af vorvm monnvm a alþinge j burt af landinv.

3. Jtem at islenskir se logmenn [ok syslumenn] a landi voro af [þeirre ætt[3] sem at fornv hafa godordin upp gefit.

4. Jtem at .vi. hafskip gange a hveriv ari til landzins forfalla lavst.

5. Erfdir skvlv ok vppgefaz fyri jslenskvm monnvm j norige huersv leingi sem stadit hefvr þegar [rettir arfar[4] koma til edvr þeirra vmbods menn.

6. land avrar skvlv vpp gefaz.

7. slikan riett skvlv hafa[5] jslenskir menn j norige sem þeir hafa bestan haft.

8. jtem at konvngr lati oss na jslendzkum logvm ok fride eptir þvi sem laug bok vottar ok hann hefvr bodit j sinvm brefvm.

9. Jall villivm vier hafa yfir oss med[an] hann helldvr trvnað vit yðvr en frid vit oss.

10. hallda skvlvm ver ok vorir arfar allan trvnad uit yðvr

---

1) *þannig í handr.; rèttara er án efa* af, *sem hinir hafa.*

2) *þannig, en á eflaust að vera* slikt, *sem C hefir.*

3) *þannig frá [, en á eflaust að vera:* þeirra ættum.

4) *frá [ leiðrètt eptir öðrum;* rettar erfðir, *handr.*

5) *leiðrètt;* hier, *handr.*

med[an] þier ok ydrir arfar hallda uit oss þessa sætar giord en lavser ef rofin uerdvr af ydari alfv[1] at best[r]a mana yfir syn.

---

til þess legg ek haund a helga bok ok þvi skyt ek til guds at ek sver herra hakoni konungi ok magnusi konvngi land ok þegna ok ævinligan skatt med slikre skipan ok maldaga sem nv ervm ver asattir ordnir ok maldaga bref [vt visar[2].

g[ud] s[e] o[ss] h[ollr].

---

## B.

Þessi afskript er prentuð eptir skinnbókinni Nr. 148 í 4to í safni Árna Magnússonar, bls. 213—214; er henni lýst áðr (bls. 154—158) og þar tiltekið, að hún muni vera rituð seint á fimtándu öld (hérumbil 1480). Í þessu handriti er sáttmálinn saman við réttarbætr Noregs konúnga, svo sem skýrt er frá í hinni fyrnefndu lýsíng bókarinnar.

---

Samþyckt.[3]

J Nafne faudvr ok sonar. ok anda heilags.

Var þetta jad ok samþyckt af aullvm almvga a jslande a alþinge med lofva take.

at vier biodvm hakone konvngi hinvm koronada vora þionustv. vnder þa grein laganna er samþyckt er medal konvngdomsins ok þegnanna þeirra er landit byggia.

1. Er sv fysta grein at vier vilivm giallda konvngi skatt ok þingfarar kavp slikañ[4] sem lavgbok vottar ok alla þegnskylldv. suo framt sem halldin er vid oss þav heit sem j moti skattinvm var iad.

2. J fystu at vtan stefningar vilium vier avngvar hafva. vtan þeir menn sem dæmder verda af vorvm monnvm ã alþinge burt af landinv.

---

1) *þannig leiðr.;* alfi, *handr.*

2) *frá* [ *hefir liklega verið upphaflega:* vottar, *eins og B hefir.*

3) fyrirsögn með rauðu letri og upphafsstafr rauðr.

4) *þannig handr., en á að vera:* slikt, *eins og C hefir hèr næst á eptir.*

3. Jtem at islendzker sie lavgmenn ok syslv menn ꝏ landi vorv. af þeirra ætt sem at fornu hafua godordin vpp gefit.

4. Jtem at sex hafskip gangi ꝏ hueriv ꝏre til landzins forfalla laust.

5. Erfder skulv vpp gefazt fyrir islendzkum monnum j noregi. huersv leingi sem stadit hafa. þegar ʀetter arfvar koma til edr þeirra vmboðz menn.

6. Land aurar skulu vpp gefazt.

7. Jtem slikañ ʀett skulu hafa islendzker menn j noregi. sem þeir hafva beztañ haft.

8. Jtem at konungr lati oss nꝏ jslendzkum laugum og fride epter þui sem laugbok vor vottar. ok hann hefer bodet j sinvm brefum sem gud gefur honum framazt afl til.

9. Jtem jarl vilivm vier hafua yfir oss. medañ hann helldr trvnad vid ydr. eñ frid vid oss.

10. Hallda skulum vier ok vorer arfar allañ trvnad vid ydr. ꝏ medañ þier ok ydrer arfvar. hallda vid oss þessa sættar giord. Eñ lavser ef Rofin verdr af ydvari halfv at beztu manna yfir syn.

---

eidur[1].

Tjl þess legg ek haund ꝏ helga bok. ok þui skyt eg til gudz. at eg suer herra hacone konungi og magnvsi konungi laund ok þegna. og æfvinligañ skatt. med slikre skipan ok maldaga sem nu ervm vier ꝏ sꝏttir vordnir. ok skildaga bref vort vottar. gud sie mier hollvr.

---

## C.

Þessi afskript sáttmálans er prentuð eptir skinnbók einni í safni Árna Magnússonar, Nr. 161 í 4to. Sú bók hefir í fyrstu verið eign Páls Stígssonar, höfuðsmanns á Íslandi, og líklega rituð fyrir hann á árunum 1561—1565, hefir hún verið svo vel vönduð sem kostr var á, og Páll hefir haft mætur á henni, því hann tilgreindi hana í erfðaskrá sinni sèrílagi, og tileinkaði hana bróður sínum Hinrik Krag, sem síðar var höfuðsmaðr.

Fremst á bók þessari er registr á Dönsku yfir Jónsbók, eptir bálkum og kapítulum, er það síðar samið en bókin sjálf og

1) fyrirsögn með rauðu letri, upphafsstafr rauðr.

sett framan við (bls. 3—10); en fremst á bókinni, sem hún hefir upphaflega verið, er skrá um tíund og skiptitíund. Þar eptir fylgja ymsar forsagnir, og síðan sáttmálinn, sá sem hèr eptir fylgir, með eiðstaf, er hann á bls. 20—21 í skinnbókinni; þar næst kaupstefnu form (22—25), forsagnir um hversu nefna skal lögþíngismenn, um að setja hèraðs þíng og segja þeim upp o. fl..

Eptir þetta safn af forsögnum fylgir Jónsbók (bls. 35—241), Rèttarbætur og dómar ymsir, Búalög, og þar á eptir Kristinrèttr Árna biskups með ymsum greinum úr kirkjulögunum; þar á eptir er samþykt presta um kirkjueignir, sem sýnist vera samin á prestastefnu í Skálholti; í skrá þessari er rituð sættargjörð Eiríks konúngs og Árna biskups um staðamál (1297), og svosem til staðfestíngar, en hvorki er þar ritað ártal nè nöfn þeirra, sem skrána hafa samið. Þessi Skálholts-samþykkt er seinast í bókinni.

---

Samþyktar brief vm skatt af islandi[1].

J nafne faud[u]r og sonar og anda heilags.

uar þetta iatad og samþyckt af aullum almuga a islande med lofatake ꝏ alþinge

ad uier biodum hakone kongi hinum koronada vora þionuztu under þa grein laganna er samþyckt er a medal kongdomsins og þegnanna er landit byggia.

1. Er su en fyrsta grein ad uier uilium giallda kongi skatt og þingfarar kaup slikt sem̄ logbok uottar og alla þegnskylldu suo framt sem halldin̄ ero uid oss þau heit sem j mote skattenum uoru iatud.

2. Vtan stefningar uilium uier aunguar hafa. utan þeir menn sem dæmdir uerda af uorum landzmonnum a alþingi j burt af landinu.

3. Jtem ath Jslendzkir sieu logmenn og syslumenn a lande uoru af þeirra ættum sem adr hafa ad fornu godordin̄ upp giefit.

4. Jtem ad vj hafskip gange ꝏ hueriu are til landzins forfallalaust.

5. Erfder skulu uppgiefazt fyrir jslendzkum monnum j noregi huersu leingi sem stadit hafa þegar rietter arfar koma til edr þeirra umbodz menn.

1) fyrirsögn með rauðu og upphafsstafr.

6. landaurar skulu upp giefazt.

7. Slikañ riett skulu islendzkir menn hafa j norege sem þeir hafa haft bestañ.

8. Jtem ad kongr late oss jslendzkum logum na og fride eptir þui sem logbok uottar og hann hefir bodit j sinum briefum suo sem Gud giefr honum fremzt afl til.

9. Jarlinn uilium uier haf[a] yfir oss a medan hann hefir og helldr trunad vidur ydr. eñ frid uid oss.

10. Hallda skulum uier og uorer arfar allañ trunad uidr ydr medañ þier og ydrer arfar hallda uid oss allañ trunad og sattargiord þessa. Eñ lauser ef rofiñ uerdr af yduare hende og alfu med bestu manna rade og yfer syn.

Hier efter er eidr Jslendinga[1].

Thil þess leggur eg hond a helga bok og þui skyt eg til Gudz ad eg suer herra hakone kongi og Magnuse konge land og þegna og æfinligan skatt med slikre skipan og maldaga sem nu erum uier asatter ordner og skildaga briefit uort ut uisar.

Gud sie mier suo hollr.

---

## D.

Þessi afskript er prentuð eptir pappírshandriti í safni Magnús Stephensens á bókhlöðu háskólans, Nr. 13, bls. 2—4. Það er bók í 4. bl. broti, skrifuð 1715 með ágætlega góðri hendi, og hefir inni að halda „Rèttarbætur Noregs konúnga" frá 1262 til 1448. Fremst á bókinni er „gamli sáttmáli", sá sem hèr er árfærðr til 1264 (Nr. 156), ritaðr eptir skinnbók frá lokum fimtándu aldar. Þarnæst þessi, sem hèr fylgir, með svo látandi fyrirsögn: „sami sattmali epter annare membrana skrifadre laust fyrir Reformationem"; en á undan eiðstafnum er þessi fyrirsögn: „Eidur jslendinga epter Chartis Jons Magnussonar, en hann skrifadi eptir hendi fodur sins Magnusar Jons sonar. fadur Assessor Arna Magnussonar".

---

J nafni fod[u]r ok sonar ok heilags anda.

var þetta jatad ok samþykt af ollum almuga a jslandi med lofataki.

[1]) fyrirsögn og upphafsstafr með rauðu.

Ver biodum virdulegum[1] herra hœkoni konungi hinum korunada vora þionustu vnder þa grein laganna sem samþykt er millum konungdomsins ok þegnanna er landit byggia.

1. j fyrstu grein at ver vilium giallda konungi skatt ok þingfarar kaup sem logbok vottar ok alla þegnskylldu suo framt sem halldit er vit oss þat moti var jatad skattinum.

2. J fystu at vtan stefníngar skylldu ver önguar hafa vtan þeir menn sem dœmder verda af vorum monnum œ alþingi burt af landinu.

3. Jtem at jslendskir se logmenn ok syslumenn her œ landinu af þeirra ætt sem at fornu hafa godordin vppgiefit.

4. Jtem at vj hafskip gangi œ hueriu œri til landzins forfallalaust.

5. Erfdir skulu vppgefazt fyrir jslendskum monnum j noregi. huersu leingi sem stadit hafa þegar Rettir œrfar koma til edr þeirra vmbods menn.

6. landaurar skulu ok vppgefazst.

7. Jtem skulu slikan Rett jslendskir menn hafa j noregi sem þeir hafa bezstan haft.

8. Jtem at konungr lœti oss nœ fridi [ok] jslendskum logum eptir þui sem logbok vor vottar ok hann hefir bodit j sinum brefum sem gud gefur honum framazt vit til.

9. Jtem jall vilium ver hafa yfir oss medan hann helldr truna[d] vid ydr en frid vid oss.

10. hallda skulu ver ok vorer arfar allan trunad vid ydr medan þer ok ydrer œrfar halldit trunad vid oss ok þessar sættar gerdir en lauser ef Rofiñ verdr af ydari hendi. at bezstu manna yfer syn.

---

Til þess legg eg hönd a hẹlga bok, ok þuí skyt eg til gudz at eg sver herra hakoni konungi og Magnuse konunge lond og þegna og æfenlegañ skatt med slikre skipan og maldaga sem nu erum vier asatter ordner og skildaga bref vort utuísar.

Gud sie mier hollur.

---

1) v'dulegⁿ, *handr.*

E.

Þessi afskript er prentuð eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar, Nr. 176 í 4to, bls. 6—7. Sú skinnbók hefir verið rituð á sextándu öld og hefir haft safn af ymsum lögum, andlegum og veraldlegum, en hefir verið orðin töluvert sködduð þegar Árni Magnússon fèkk hana. Nú eru þar: 1) forsagnir nokkrar um fjárkröfur og stefnur í skuldamálum, bls. 1—2; — þar næst 2) greinir, sem eiga skylt við Kristinrètt, og eru sumar prentaðar í viðbæti við Kristinrètt Árna biskups, bls. 2—6; — 3) Gamli sáttmáli með eiðstaf, sem hèr fylgir eptir; — 4) greinir úr rèttarbótum og úr Jónsbók, bls. 7—8; — 5) fjórar rèttarbætr Eireks konúngs og Hákonar konúngs Magnússonar, bls. 9—13; — 6) Forsögn til ræðu, hversu setja skuli alþíng og segja því slitið, bls. 14—17. — þar á eptir kemr 7) Kristinrèttr Árna biskups (bls. 18—56) með nokkrum viðbætisgreinum, sem þar eiga skylt við. Seinast er statuta Eilífs erkibiskups frá 1320, og brot framanaf Rèttarbót Kristjáns fyrsta, sem kölluð er „Lánga rèttarbót", frá 1450 (bls. 61—62).

---

Sœttmali almuga vm skatt.[1]

I nafni faud[u]r z sonar z anda heilags.

Var þetta jœd z samþyckt af avllvm almvga œ islande œ alþinge med lofua take.

Ad vier biodum hakone konge hinvm koronada vora holla þionustv. vnder þa grein laganna er samþykt er medal kongdomsins og þegnanna þeirra sem landit byggia.

1. Er su fysta grein. at vier vilium giallda konge skatt og þingfarar kaup slikañ sem laugbok vottar. og alla þegnskylldu. suo framt sem haldin ero vid oss þav heit sem j mote skattinvm var iœd.

2. J fystv at vtanstefningar vilium vier avngvar hafva. vtan þeir menn sem dæmder verda af vorvm monnum œ alþinge j burt af landino.

3. Jtem at islendzker sie lavgmenn og syslv menn œ

[1]) fyrirsögn og upphafsstafr rautt hvorttveggja.

lande uorv af þeirra ætt sem ath fornv hafva godordin vpp gefit.

4. Jtem ad sex hafskip gangi œ hveriv œre til landzins forfalla lavst.

5. Erfder skulv vpp gefazt fyri islendzkvm monnum j noregi huersu lenge sem stadit hafa [þegar rettir ar]fv[ar] koma til edr þeirra vmbodzmenn.

6. Landaurar [skulu og upp g]efazt.

7. [Jtem] slikañ Rett skulu hafua islendzker menn j norege [sem þeir] hafua beztañ haft.

8. Jtem at kongr lati oss nœ islendzkum lavgum og fride. epter þui sem lavgbok vor vottar og hann hefver bodit j sinvm brefvm. sem gud gefur honum framazt afl til.

9. Jtem iarl vilium vier hafua yfuir oss. medañ hann helldr trvnad vid ydr. eñ frid vid oss.

10. Hallda skulum vier og voRir arfvar allañ trunad vid ydur. medan þier og ydrer arfuar hallda uid oss þessa sættargiord. Eñ lauser ef Rofin verdur af yduare halfu. at beztv manna yfver syn.

---

eidstafur um þegnskylldu[1].

Tjl þess legg eg haund œ helga bók. og þui skyt eg til gudz at eg suerr herra hakone konge og magnuse konge launđ og þegna. og æfuiñligañ skatt med slikre skipan og maldaga sem nu ervm vier œ sœtter vordner og skildaga bref uort vottar.

Gud sie mier hollvr.

---

## F.

Sú afskript af gamla sáttmála, sem hèr fylgir, er tekin eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar nr. 170 A. í 4 bl. broti. Þessi skinnbók er í ýngra lagi, því hún er rituð á sextándu öld, og eptir 1565, sem ráða má af því, að hún hefir staðfestíng Stóradóms (opið brèf 13. April 1565) seinast. Í upphafi skinnbókarinnar er brot aptan af Jónsbók, og hefir hún líklega verið hèr öll. Þar eptir fylgja rèttarbætr og samþykktir, sem vant er að

[1]) fyrirsögn rauð, mjög máð. Upphafsstafr rauðr.

fylgi lögbókum (bls. 1—3). Þá kemr eiðr sá, sem fylgir gamla sáttmála í þessum flokki (bls. 4), en því næst koma nokkrar greinir, sem optast eru vanar að fylgja Kristinrètti, síðan greinir úr nokkrum rèttarbótum, og þar á eptir gamli sáttmáli sjálfr (bls. 9—10), sá sem hèr fylgir eptir. Eptir gamla sáttmála koma fyrst forsagnir ymsar, þvínæst Píníngsdómr um verzlun og alþíngissamþykkt um vinnufólk, þá nokkrir kaflar úr Hirðskrá, síðan rèttarbætr Magnús lagabætis og Hákonar háleggs, þar á eptir Píníngsdómr um tíundir, og að síðustu staðfestíng Stóradóms, sem fyr var getið. Þó að gamli sáttmáli og eiðrinn, sem fylgir honum, sè hèr sinn í hverju lagi, virðist ekki efunarmál að þeir hafi verið saman í fyrstu, og að það sè tilviljan ein, að þeir eru aðskildir í handritinu, eða ritaðir sinn í hvorju lagi.

---

Vm samþyckt og iatan[1].

I Nafne faud[u]r og sonar og anda heilags.

Var þat jäd ok samþyckt af ollvm almuga a islande med lofa take.

Vier biodum virduligum herra. Herra Hakone konge hinum koronada uora þionustu. under þa grein laganna sem samþyckt er millum kongs og þegna er landit byggia.

1. J fystv grein at uier uilium giallda konge skatt og þingfarar kaup sem logbok uottar. og alla þegnskylldu. suo framt sem halldit eʀ uid oss þat sem j mote uar jatad skattinum.

2. J fystu [utan]stefnur skylldv menn onguar hafa. utañ þeir menn sem dæmder uerda af uorum monnum a alþinge burt af landino.

3. Jtem at islendzker menn sieu laugmenn og sijslumenn hier a landino af þeirre[2] ætt sem at fornu hafa godordin vpp gefit.

4. Jtem at .vij.[3] hafskip gangi a hueriu are til landzins forfalla laust.

5. Erfder skulo upp gefazt jslendzkum monnum j Norege

---

[1]) fyrirsögn og upphafsstafr með rauðu.

[2]) rètt. þeirra.

[3]) rètt. án efa vj.

huersu leingi sem stadit hafa, þegar retter arfar koma til. eda þeirra umbodz menn.

6. landaurar skulo ok upp gefazt.

7. Jtem slikañ rett skulu jslendzker menn hafa j Noregi sem þeir hafa beztañ haft.

8. Jtem ath kongr late oss nꝏ fride og islenzkum laugum epter þui sem laugbok uottar. ok hann hefir bodit j sinvm briefum sem gud gefur honum fremzt uit til.

9. Jtem iall uilium uier hafa yfer oss medañ hann helldur trvuad med ydur eñ frid vid oss.

10. Hallda skulu uier og uoꝛer arfar allañ trunad med ydr. medañ þier og ydrer arfar halldit trunad uid oss. og þessa Sættar giord. eñ lauser ef odru uijs uerdr af yduare hendi eda halfv. at beztu manna yfer syn.

Eidur vid kong[1].

Tjl þess legg eg haund ꝏ helga bok. og þui skyt eg til guds at eg suer Hakone konge og Magnuse konge laund og þegna og æfiñligañ skatt med slikri skipan og maldaga sem nv erum uier ꝏsatter ordner. og sꝏttmꝏls brief uort uottar.

Gud sie mier hollur ef eg satt seige.

Gramur ef eg lyg.

## G.

Í konúngsins mikla bókasafni er handrit á pappír, ritað á árunum 1733 til 1736 eptir öðrum fornari handritum, með hendi Jóns Ólafssonar frá Grunnavík og Jóns þorkelssonar (*Thorchilii*), sem var einusinni skólameistari í Skálholti og var síðan frægr fyrir það hann gaf allt sitt fè til barnaskóla í Kjalarness þíngi. Handrit þetta heyrir til hins forna handritasafns (*Gamle kongelige Samling* Nr. 3267. í 4to) og er þar fyrst sáttargjörð Magnús konúngs lagabætis og Jóns erkibiskups á Norrænu og Latínu, með hendi Jóns Ólafssonar (bls. 1—24). — þar næst er brèf Ólafs konúngs Hákonarsonar um taxta iðnaðarmanna í Björgvin, eptir frumriti á skinni, en vantar aptan af. — þar næst

[1]) fyrirsögn og upphafsstafr með rauðu.

er gamli sáttmáli, sem hèr eptir fylgir, og eiðstafrinn með. — Þá er hin lánga rèttarbót Kristjáns konúngs fyrsta, með hendi Jóns Ólafssonar frá Grunnavík, eptir transskripti Jóns biskups Arasonar 1543 (A. Magn. Nr. 187. 4to). — Því næst er heitbrèf Eyfirðínga 1477, með hendi Jóns Þorkelssonar rektors, og að síðustu er brèf Ögmundar biskups Pálssonar um ferna stórbrotamenn. — Þó að afskriptin af gamla sáttmála sè ekki mjög merkverð í sjálfri sèr, þá er hún vottr þess, að Íslendíngar hafa skrifað upp gamla sáttmála eptir ymsum handritum, eins eptir að hann var prentaðr aptr og aptr með útgáfum Jónsbókar; er það þó sýnilegt á þessari afskript, að frumrit það, sem hún hefir verið tekin eptir, hefir ekki verið fornt.

---

Sätt jslendinga vid Hakon kong hinn koronada.

J nafne fodurs og sonar og heilagz anda

Var þetta jatad og samþickt af ollum almuga ä jslandi ä alþijngi med truskapar undirholdningu,

ad vier biodum Hakoni kongi hinum koronada vora þionustu. undir þá grein lagana er samþikt er, medal kongdomsins og þegnanna þeirra er landid biggia.

1. Er su firsta grein, ad vier vilium kongi skatt giallda og þingfararkaup slijkan sem logbök vottar og alla þegnskilldu so framt sem hallden eru vid oss þau heit sem i moti skattinum voru jatud.

2. J firstu utanstefningar vilium vier ongvar hafa, utan þeir menn sem dæmdir verda af vorum monnum ä alþijngi edur burt af landinu.

3[1]. Jtem ad jslenskir menn sie logmenn og sijslumenn ä landi voru af þeirra ætt sem ad fornu hafa godordin uppgefid.

4. Jtem ad sex hafskip gangi ä hveriu äri til landzins forfallalaust.

5. Erfdir skulu uppgefast[2] firir jslenskum monnum j noreigi hversu leingi sem stadid hafa þegar riettir arfar koma til edur þeirra umbodzmenn.

---

[1]) Þær greinir, sem hèr hafa tölurnar 3—9, eru i handritunum með tölunum 2—8, en greinaskiptingin er eins. Við greinirnar 1 og 10 standa engar tölur.

[2]) utanmáls með tilvísun, en litur þó út til að vera með annari hendi.

6. Landaurar skulu uppgefast.

7. Jtem slijkan riett skulu jslenskir menn i Noreigi hafa, sem þeir hafa bestan haft.

8. jtem ad kongur lati oss nä jslenskum logum og fridi eptir sem logbok vor vottar og hann sialfur hefur bodid i sijnum briefum, sem gud gefur honum framast krapt og näd til.

9. jtem jarl vilium vier hafa yfir oss medan hann helldur trunad vid ydur enn frid vid oss.

10. hallda skulum vier og vorir arfar allan trünad vid ydur, medan þier og ydrer arfar hallda vid oss þessa sättmäls giord enn laus er ef rofin verdur af ydvari älfu ad bestu manna yfirsíon.

---

Eidstafurinn.

Til þess legg eg hond a helga bok og þvi skyt eg til gudz ad eg sver Häkoni kongi og Magnusi kongi lond og þegna og æfinligan skatt med slijkri skipan og maldaga sem nu erum vier äsättir ordnir, og sättmalz brief vort vottar.

Gud sie mier hollur ef eg satt seigi
gramur ef eg lijg.

---

## 154. [1263 eða fyr].

Réttarbót Hákonar konúngs Hákonarsonar um áverka á saklausum mönnum og um rannsóknir.

Þess verðr snemma vart, að greinir úr andlegum og veraldlegum lögum annara landa eru ritaðar og settar á Íslenzku í laga-handritum Íslendínga. Það er sýnilegt af þeim handritum, sem enn eru til, að sumir menn á Íslandi hafa safnað sèr lögum og lagagreinum, sem þeim hafa þótt fróðlegar og merkilegar. Þessi söfn hafa smásaman aukizt og verið optastnær samtengd lögbókunum, Kristinrètti eða Jónsbók. Einkanlega hafa þeir, sem söfnuðu andlegu lögunum, verið ákafir að rita allskonar greinir úr kirkjulögum, ályktanir ymsra kirkjuþínga, o. s. frv., en hinir, sem söfnuðu veraldlegu lögunum, tóku norskar rèttarbætur og aðrar lagagreinir í söfn sín. Eptir því sem nú söfn þessi hafa aukizt og blandazt, eptir því hafa þau með ymsu móti valdið misskilníngi. Það er mjög líklegt, að þeir, sem í fyrstu rituðu, hafi ekki haft annað fyrir augum, en að heyja sèr lagafróðleik, sem þeim þótti í einhverri grein

fýsilegr; en þegar fram liðu stundir, og aðrir eignuðust söfn þeirra, þá fór smásaman að læðast inn sá misskilníngr, að það væri allt löggilt á Íslandi sem í þessum söfnum væri ritað, og söfnin jukust og blönduðust æ því meir sem lengra leið fram. Fyrst framanaf og fram á fjórtándu öld ber lítið á þessu, því þá var þess gætt, að gjöra fullkominn greinarmun á þeim lögum, sem íslenzk voru og hinum, sem norræn voru eða útlend; þá voru þær rèttarbætur, sem voru lög á Íslandi, ritaðar í lögbækrnar, en engar aðrar. En þegar kom lengra fram á fjórtándu öld, fer blendíngr að koma í ljós, á fimtándu öld nokkru meiri, og á sextándu öld þessa mestr, fyrst eptir Möðruvalla rèttarbót og síðan eptir siðaskiptin, og þau lög sem þeim fylgðu. Í því efni er vert að taka eptir safni því af rèttarbótum m. fl., sem Jón lögmaðr Jónsson hefir látið fylgja Jónsbók þeirri sem hann lèt prenta (1578. 1580. 1582), og er þó þar farið skemmra útí að taka norskar rèttarbætr með lögbókinni, heldr en í flestum lögbókarhandritum frá þeim tímum.

Eitt hið ljósasta dæmi uppá, hvernig farið hefir með lagagreinir í hinum íslenzku lagasöfnum er þetta, sem vèr höfum kallað hèr „rèttarbót Hákonar konúngs Hákonarsonar um áverka á saklausum mönnum og um rannsóknir". Þessi „rèttarbót" er smásaman orðin til úr tveim hlutum: fyrst úr einni af rèttarbótum Hákonar konúngs Hákonarsonar, og þar næst úr grein í lögum hans eða eldri lögum norrænum; en síðan er hún í handritunum eignuð ymsum af þeim fjórum lángfeðgum: Hákoni Sverrissyni, Hákoni Hákonarsyni, Magnúsi Hákonarsyni og Hákoni Magnússyni (hálegg).

Þegar vèr rannsökum rèttarbót þessa, einsog hún kemr nú fram í handritunum, verðum vèr að virða fyrir oss þessa tvo hluta hennar hvorn sèrílagi:

I. Um áverka á saklausum manni. Þessi kaflinn er ein af þeim rèttarbótum, sem í flestum fornum handritum er eignuð Hákoni konúngi Hákonarsyni (gamla). Það er einkennilegt, einsog flestum er kunnugt, að rèttarbætr Noregs konúnga eptir Magnús konúng Hákonarson (lagabæti) byrja allar hver um sig á nafni konúngs, og enda á að skýra frá stað og degi m. m., en þær rèttarbætr, sem eru frá tíð Magnús konúngs og Hákonar konúngs föður hans, eru einúngis taldar í röð að efni til, en ekki hver um sig tilfærð orðrètt með stað og degi. Skrá sú, sem telr rèttarbætr Hákonar konúngs, er rituð aptanvið hinar elztu og beztu skinnbækr af hinum norrænu lögum frá fyrra hluta fjórtándu aldar, sem Magnús lagabætir sonr hans gaf, og þarmeð fylgir önnur skrá, sem telr rèttarbætr Magnús konúngs sjálfs. Þessar skrár fylgja landslögunum, til dæmis að taka:

Borgarþíngs eða Skíðuþíngs lögum[1] í skinnbók í

[1]) Í upphafi bókarinnar stendr: „Þat er upphaf laga varra Skíðuþíngsmanna"; sumir hafa kallað þetta Gulaþíngslög, og má það að

A. Magn. safni nr. 302 í arkarbr. (1280—1300), nr. 305 í arkarbr. (um 1300) og nr. 63 í 4to (frá hèrumbil 1350);

Eiðsifja lögum í skinnbók í A. Magn. safni nr. 309 í arkarbr. (1325), og nr. 68 í 4to (frá hèrumbil 1340).

Frostaþíngs lögum í skinnbók í A. Magn. safni nr. 69 í 4to (frá hèrumbil 1330).

Gulaþíngs lögum í skinnbók í A. Magn. safni nr. 304 í arkarbr. (frá hèrumbil 1300), nr. 65 í 4to (frá 1300 til 1350) og nr. 307 í arkarbr. (frá hèrumbil 1350).

Skráin sú, sem telr rèttarbætr Hákonar konúngs, sex að tölu, er í öllum þessum handritum hèrumbil orðrètt samhljóða, og er prentuð eptir þeim[1], en í íslenzkum lagahandritum finnst aldrei nema ein og hin sama (hin önnur í röðinni), og sýnir það, að hún er í upphafi valin með vilja af þeim, sem hefir fyrst tekið hana í safn sitt á Íslandi. Það sem sýnist einkum hafa vakið eptirtekt Íslendínga á grein þessari er sú aðalregla, sem þar er sett og hægt er að festa í minni, að „enginn skal annars gjalda". Þessi regla hefir þótt merkileg, því Sturla Þórðarson fer þeim orðum um hana, sem honum hafi þótt hún einna merkust í löggjöf Hákonar konúngs. Hann segir svo:

„Hákon konúngr lèt í mörgu bæta lög ok landsrètt í Noregi; hann lèt setja bókina, er nú er kölluð hin nýju lög; af tók hann öll manndráp ok fóthögg; engi skyldi sá þrífast í landinu, er tæki annars manns eiginkonu; ættvíg öll lèt hann af taka, sva at engi skyldi gjalda annars tilverka, nema bæta þeim er lög segði"[2].

Það er ekki efunarmál, að þessi orð, at „engi skyldi gjalda annars tilverka" eru tekin eptir orðunum: „Engi skal annars gjalda", og hefir sú grein orðið minnistæð lagaregla, viðlíka og aðrar áþekkar lagagreinir, sem hafa fest sig í minni alþýðu[3]. En til þess að sýna, hvernig grein þessi stendr af sèr í rèttarbóta-skrá Hákonar konúngs, skulum vèr láta skrána fylgja hèr, svo sem hún er eptir hinu elzta handritinu, sem Þorgeir Hákonarson hefir ritað, og er hún þannig látandi:

---

nokkru leyti til sanns færast; aldr bókarinnar er af sumum settr nokkru síðar en hèr er gjört (1300—1325); sá sem ritaði hét Þorgeir Hákonarson (Thorgerus Haqvini).

[1]) Norges gamle Love, II, 174—175.

[2]) „bæta at þeim hluta, sem lög segði á hann", segir í Fornm. s. Greinin er tekin hèr eptir Hákonar sögu í Flateyjarbók kap. 287 (III, 232) sbr. Fornm. s. X, 152.

[3]) einsog t. a. m.: 1) með lögum skal land byggja en eigi með ólögum eyða; 2) dóms er hver verðr fyrir sína athöfn; 3) eitt vitni sem ekkert, tvö sem tíu; 4) enginn á sök á sönnu; 5) enginn skal öðrum selja fals eða flærð; 6) garðr er granna sættir.

[1]þessar Rettarbðtr gaf Hakon konongr sun hako|nar konongs sunar[2] suærris konongs. allum noregs | monnom[3] þæim[4] sem j rettom skilum ero við guð | oc sanre lyðni oc þægnskyldu oc æptir læte ero við rettan | noregs konong oc hans riki oc raðo nóyti styrkia oc staðfæsta með | hol[l]re þionosto innan landz oc vttan at vskaddre i allu konong | domsens sómd oc rettom malæfnum þeirra loghleghra kononga er | æftir hann koma.

Fyrst at vpphafe at þær sem aðr gek | j sakar óyri .xl. marka moll.[5] vi alnar vaðmals j ǿyri huern | at vfældri[6] sæcktenne þa fældi han þa sækt till þriðiungs | sua at þær[7] skulu uppi uera. viij. ærtoghar oc .xiij. Merkr. | Sylfrs slikar sem falla af konongs stæðia. En þær sem aðr | varo .xij.[8] merkr vfældar .vi. alna ǿyris.[9] þær skulu nu | vera .v. Merkr Sylfrs. Sua fello oc till þriðiungs aðrar sæktir. |

þa aðra at engi skall annars gialda. En þæir menn er a | aðrum vinna. [en þæim er[10] raða eða gera vandræðe þeir ero | vbota menn firir gort[11] lande oc lausum ǿyri. iamuæl oðals | iorðum oc kome aldri j land after.

þa hina þriðiu at | þeir menn er hoggua hond eða foot af manne at vilia sinum | ero oc vbota menn [nema konongr late ræfsa till landræin|sanar. eða þætt væiti j vapna skiptum. þa fare æftir | konongs skipan[12].

þa hina fiorðo at ef menn laupa brot | með æignum

---

[1]) engin fyrirsögn. Upphafsstafr dökkgrænbrúnn, dregið í rautt. Hinir stafirnir í orðinu upphafsstafir, ritaðir með bleki og borið rautt í. A. Magn. Nr. 302 Fol., bls. 166—167.

[2]) tvítekið í skinnbókinni; sonar son, 69.

[3]) æiðziua þings monnom, 309. Frosto þings monnum, 69. (Gulaþings-Borgarþings-).

[4]) tvitekið i skinnbókinni.

[5]) = mál. [6]) = úfelldri. [7]) = þar. [8]) á að vera XV.

[9]) = aura. [10]) [eða, 69. [11]) fe ok friði, b. v. 69.

[12]) [nema þat verði í vapnaskipti. eða konongr láti refsa til landreinsanar eða hans umboðsmenn eptir konongs skipan, NgL. II, 175, og sýnist það fara betr. Sturla hefir haft þessa grein fyrir sèr, þar sem hann segir í Hákonarsögu: „af tók hann öll manndráp ok fóthögg".

konom manna eða fe þiofstolno sua miklu sem | i laghum er mælt þa .ero þeir vbota menn[1].

Þa hina .v. at þo at | alt þæt er veghande atte bæðe[2] j lande oc i lausum œy|ri felle aðr vndir konong vttan oðals iarðer þa skal konongr | taka æighi mæira þægngildi en .viij. ærtoghar oc xiii Merkr | af fe eða æignum[3] nema han gere niðings verk eða ueghe | skemdar vigh. oc ef æign er j þægngildi græidd. þa skulu | arfar æigha lausn a innan .x. vættra ef þeirra oðall er.

Þa | hina VI. at han tok af. at nokor konongs maðr[4] læggi almen|nelegha tolla a menn eða væizlur. Byðr nokor konongs vm|boðs manne till væizlu eða gerer honom aðra kurtæisi. raðe huær sialfr. firir sinu.

Það má sjá á einni gamalli bók af Frostuþíngslögum Magnús konúngs, sem sýnist vera rituð hèrumbil 1320, eða að minnsta kosti á fyrra hluta fjórtándu aldar (A. Magn. nr. 71 í 4to), að menn hafa snemma farið að vaða reyk í rèttarbótunum og kljúfa þær í sundr og blanda þeim á ymsa vegu. Í handriti þessu, sem nú var getið, eru nokkrar rèttarbætr ritaðar með Frostuþíngslögum, og þar með skrá um rèttarbætr Magnús konúngs lagabætis. Í þeirri skrá standa fremstar tvær fyrstu greinirnar úr rèttarbótaskrá Hákonar konúngs, sem hèr er á undan, um sakareyri og um áverka („Enginn skal annars gjalda" o. s. frv.), eins og þessar greinir heyri til rèttarbóta Magnús konúngs, en þar á móti vantar þar alla rèttarbótaskrá Hákonar konúngs og fyrstu greinina af rèttarbótaskrá Magnús konúngs, eins og hún á að vera að rèttu lagi (sbr. Norg. gamle Love II, 174 athgr. 29 og bls. 176 athgr. 13). Þessi tilbreytíng eða villa í skinnbókinni hefir að öðru leyti enga þýðíng í sjálfu sèr, og þessvegna er óþarft að fara fleirum orðum um hana.

II. Um rannsóknir. Nákvæmar lagareglur um það efni koma fyrir í Grágás í Rannsókna þætti[5], en þær reglur, sem eiga sýnilega skylt við það, sem hèr er fyrir skipað, koma fyrst fram í

---

[1]) sbr. þessi orð í Hákonarsögu: „engi skyldi sá þrífast í landinu, er tæki annars manns eiginkonu".

[2]) tvítek. í mbr.

[3]) veganda, b. v. 69.

[4]) umboðsmaðr, 69.

[5]) Grágás útg. Vilh. Finsens kap. 230. II, 166, útg. A. M. nefndarinnar í Vígslóða kap. 118. II, 193.

Járnsíðu og í Jónsbók[1], og er líkt orðað þar, eins og í Noregs lögum[2]. En allra næst fer greinin, eptir því sem hún er orðuð hèr, því sem stendr í Bjarkeyjar rètti hinum nýjara í Noregi, eða bæjalögum Magnús konúngs, í þjófabálki 8. kap.[3].

Eptir að þessar tvær greinir, sem nefndar eru, voru runnar saman og gjörðar að einni rèttarbót, hafa þær optastnær gengið undir nafni Hákonar Magnússonar (háleggs), en ekki undir nafni Hákonar Hákonarsonar, sem færi næst hinu rètta. Í þeim handritum, sem vèr nú þekkjum, getum vèr rakið þetta fram til þess hèrumbil 1340, eða rúmlega fram á miðja fjórtándu öld, og eru öll þessi handrit íslenzk, en eitt íslenzkt handrit þar að auki, og það eitt á meðal hinna ýngstu, eignar rèttarbót þessa Hákoni konúngi Sverrissyni. Vèr skulum hèr telja upp helztu handritin í stuttu máli eptir aldri, og getum vèr þess þó um leið, að rèttarbót þessi finnst í miklu fleiri handritum bæði á skinni og á pappír, þó vèr ekki teljum þau hèr ítarlegar.

þessi handrit hafa skrána svosem rèttarbót Hákonar konúngs Magnússonar:

1. Nr. 3269 *b* í 4to frá hèrumbil 1340, skinnbók í konúngsins stóru bókhlöðu (*Gamle kongel. Samling*).
2. Nr. 350 í Fol. frá 1363 í safni Árna Magnússonar og afskript hennar 138. 4to í sama safni.
3. Nr. 132 í 4to frá hèrumbil 1430 í sama safni.
4. Nr. 157 *b* í 4to frá hèrumbil 1460 sömuleiðis.
5. Nr. 135 í 4to frá hèrumbil 1480 sömuleiðis.
6. Nr. 456 í 12mo frá hèrumbil sama tíma, sömuleiðis.
7. Nr. 175 *c* í 4to frá hèrumbil sama tíma, sömuleiðis.
8. Nr. 128 í 4to frá hèrumbil 1490, sömuleiðis.
9. Nr. 37 í 8vo frá hèrumbil 1490 til 1500, sömuleiðis.
10. Nr. 1924 í 4to frá hèrumbil 1540 í konúngsins stóru bókhlöðu (*Nye kgl. Samling*).
11. Nr. 40 í 8vo frá hèrumbil 1560 í safni Árna Magnússonar.
12. Nr. 161 í 4to frá hèrumbil 1561—1565, sömuleiðis.
13. Nr. 170 *a* í 4to frá því 1563 og næstu ár eptir, sömuleiðis.
14. Nr. 345 í Fol. frá hèrumbil 1570, sömuleiðis.

---

[1]) Járnsíða Þjófab. kap. 5: „eigu hinir at gánga í skyrtum einum ok lausgyrðir" (útg. A. M. bls. 132; NgL. I, 299). — Jónsbók Þjófab. kap. 6: „þá eiga þeir at gánga í ullskyrtum (!) einum ok lausgyrðir inn (! um)", sbr. Magn. Stephens. Dissert. bls. 79—80.

[2]) Gulaþíngs lög hin fyrri kap. 255: „þá eigu hinir inn at gánga í skyrtum einum ok lausgyrðir" (NgL. I, 83); Bjarkeyjar rèttr eða bæjalögin hin nýjari, þjófab. kap. 8: „þeir skulu gánga inn lindalausir" o. s. frv. (NgL. II, 271).

[3]) NgL. II, 271.

15. Nr. 45 í 8vo. frá hèrumbil 1570 sömuleiðis.
16. Nr. 147 í 4to frá hèrumbil 1580, sömuleiðis.
17. Nr. 55 í 8vo frá hèrumbil 1581, sömuleiðis.
18. Nr. 2099 í 4to frá hèrumbil 1581, í safni Thotts í konúngs bókhlöðu.
19. Nr. 94 í 4to frá hèrumbil 1600 i safni Árna Magnússonar.
20. Nr. *C* 8 í 4to frá 1608 (1548?) í konúngs bókhlöðunni í Stokkhólmi.

þetta hið sama handrit hefir á öðrum stað þessa skrá, og eignar hana þar Hákoni konúngi Sverrissyni.

Vèr látum hèr prenta skrána einúngis eptir tveim hinum elztu af handritunum og af Stokkhólms-bókinni, og merkjum þessar afskriptir A, B og C.

---

## A.

þetta handrit er, eins og fyr var getið, skinnbók frá 1310 eða þarumbil í bókhlöðu konúngs í Kaupmannahöfn, og er þar merkt Nr. 3269*b* í 4to í hinu forna handritasafni (*Gamle kongelige Samling*). Skinnbók þessi er rituð í tveim dálkum með allsnoturri hendi, og er þar fremst Jónsbók, en vantar þó upphafið framanaf brèfi Magnús konúngs. Eptir lögbókina, sem tekr yfir 117 blaðsíður, koma rèttarbætr, og er fremst rèttarbót Eireks konúngs frá 1294, en fellt úr formálinn og niðurlagið (staðr og dagr). Næst því er greinin um byggíng konúngsjarða, sem er skipuð í bókina með rèttarbót Eiríks konúngs er þegar var nefnd (§ 50)[1]. þar eptir fylgja fimm rèttarbætr Hákonar konúngs Magnússonar, og eru sumar af þeim ekki íslenzkar, þó þær sè hèr settar með íslenzkum. þá koma þrjár rèttarbætr Magnús konúngs Eiríkssonar, sem eru allar til Íslands. því næst er brèf Innocentius páfa hins fjórða til Sigurðar erkibiskups, ritað í Leonsborg 7. Septbr. 1249, sem prentað er hèr áðr (bls. 573). þá er rèttarbót Eiríks konúngs Magnússonar ein, um sakarábera o. fl., og þar eptir úr rèttarbót Hákonar konúngs Magnússonar (1313) um fjársóknir, en eptir henni fylgir þessi: „Engi skal annars gjalda" o. s. frv., og sýnist þar af auðsætt, að ritarinn hefir eignað hana þessum konúngi. Hún er einna seinast í skinnbókinni, á bls. 131, og er þar á eptir ekki annað en tvær forsagnir um ættleiðíng og ættleiðíngar lýsíng á alþíngi; en nokkru síðar (um 1430) hefir önnur hönd ritað „gamla sáttmála" aptast

---

[1]) Lovsaml. for Island I, 22.

í bókinni á auða blaðsíðu (bls. 132). Eptir því sem ráða má af þessari lýsíng handritsins má sjá, að sá sem ritað hefir bókina hefir ekki farið grannt í valið á því, sem hann hefir tekið í handrit sitt, og tekið eins norskar rèttarbætr sem íslenzkar.

---

[1]Hakon konungr z̃c.
at einghi skal annars giallda.

Enn þeir sem a oðrum uinna. eñ þeim er gera eða raða uaddræði[2]. þeir eru obota menn ok hafa fyrir gert fee ok friði landi ok lausu[m] eyri iafn uel oðals iorðum sínum ok komi alldri siðan.

Jtem[3]. Nu ef maðr er stollinn fee sinu þa skal hann beiða rann soknar ef hann uill. þann mann sem honum er mestr grvnr a at fee hans hafi stolit. enn hinn lati ranzsokn uppi uera. enn ef hañn syniar þa er hann sannr at sok. Enn sa er rannz saks beiðiz skal hafa með ser tua h[usf][4]asta menn enn eigi fleiri. þeir skulu ganga i[nn lin]da[4] lausir ok lata rannsaka sik aðr þeir ganga inn. Hinn skal segia til iartegna aðr enn hann gangi [inn]. a þui er stolit er. ok ef hann hittir fee sitt. i örk manz. tausku eða byrðu. eða luktum keraulldum. þa skal hann standa fyrir settar eiði ok nefndar uitni at eigi kom þar at hans uilia eða uitund. Enn ef hann hittir utan las eða loku. ok þo i hans husi. halldi upp seettar eiði ok fangar uitni. eñ þessir eiðar falli til flogvra marka.

---

## B.

Þessi afskript er tekin eptir hinni merkilegu skinnbók frá Bæ á Rauðasandi, og síðan frá Skarði á Skarðströnd, sem kölluð hefir verið Skarðsbók (*Codex Scardensis*); hún er nú í safni Árna Magnússonar Nr. 350 í arkarbroti, og er henni lýst hèr fyr í safni þessu (bls. 444—446). Sá sem hefir ritað þessa bók, hefir tekið svo að kalla holt og bolt það sem hann hefir fundið af

---

[1]) fyrirsögn og upphafsstafr máð. [2]) = vandræði.

[3]) nær orðrètt í Bjarkeyjarrètti hinum nýjara (*Nyere Bylov*), Þjófabálk. 8, NgL. II, 271.

[4]) gat á blaðinu.

veraldlegum og andlegum lögum, en ekki hugað að því, hvort þau væri norsk eða íslenzk, því ritari þessi hefir ekki verið þar eptir glöggr að skarpleika og greind, einsog hann hefir verið prýðilegr skrifari og kappsamr safnari og auðugr að skjölum; það er og merkilegt við handrit þetta, að það er fornt og ritað 1363. Meðal rèttarbóta þeirra, sem fylgja eptir Jónsbók í þessu handriti er þessi hin sjötta í röðinni, og eignuð Hákoni Magnússyni, sem auðsætt er á því, að hún er sett hin þriðja í röðinni meðal rèttarbóta hans, sem eru hèr alls þrettán að tölu, og er hún á 147—148 bls. í skinnbókinni.

---

R'. B'. H'. K'.[1]

Hakon með guðs miskunn Noregs konungr. zcetera.

Engi skal annars giallda.

Eñ þeir sem ꜳ oðrum uinna. eñ þeir eiga saker við. eðr ʀaða uandræði. þeir ero obota menn. ok hafa fur gert fe ok friði landi ok lausum eyri. iafnual oðals iörðum sínum. ok komi alldri i land aptr siðan.

Ef maðr er stolinn fe sínu þa skal hann beiða ʀannsoknar. ef hann uill. þann mann. sem honum er mestr grunr ꜳ at fe hans hafi stolit. en hinn skal uppi lata rannsokn. En ef hann syniar. þa er hann sannr at sꜵk. Eñ sa er ʀannsaks beiðir skal hafa með ser ij. hussfasta menn. en æigi fleiri. þeir skulo ganga inn linda lausir. ok lata rannsaka sik aðr eñ þeir ganga inn. ok segia til iartegna ꜳ þui sem stolit er. aðr en hann gangi inn. Ok ef hann hittir fe sitt i örk manz. eðr töskum. j hirðzlum. eðr luktum kerulldum. þa skal hann standa fur settar eiði. ok nefndar uitni. at æigi kom þar at hans uilia eða uitand. ef hann er æigi aðr at þyfsku kendr. Eñ ef hann hittir fe sitt utan las eðr loku. ok þo i hans husi. þá halldi vpp settar eiði. ok se þat fanga uattar. en þersir eiðar falla til iiij. marka.

Datum. zcetera.

---

[1]) fyrirsögnin skammstöfuð með rauðum stöfum: „Rettarbot Hakonar konungs". Upphafsstafr rauðr og dregið í grænt.

## C.

Í hinu konúnglega bókasafni í Stokkhólmi er skinnbók í litlu broti, sem er rètt á við 16 blaða brot. Bók þessi er 240 blöð, og er rituð í heilum línum en ekki í dálkum; upphafsstafir og fyrirsagnir eru með rauðu. Um aldr bókarinnar er nokkuð óvíst, því sú skýrsla, sem um það er rituð seinast í bókinni (bl. 238*b*), er óskilmerkileg; þar stendr svo, ritað með rauðu letri: „var þessi laugbok bæði vppbyriuð ꝏ hollte. og suo endut j sama stað þañ 10. (?) Maij. Það var fimttudagur fyrir heilagrar þrenningar dag a þui Aare eftter lausnarans fæding M. V. og VIII. Huer sem eignazt sier eða les. vorkynni vontt penna far og lased gleraugna verck. lese j malit og lagfæri þad misskrifad er. sem jeg veitt margtt og mikid er. Gud gefi sier til dyrdar. monnum til nytsemdar. þeim til godrar samuitsku sem laugunum ꝏ ad styra. amen". Bæði ártal og mánaðardagr verðr að vera eitthvað villt, því í ártalinu verðr að skjóta inn hundruðum eða tugum, ef menn vilja ná ártali, sem lætr að líkindum. Í útgáfu norsku laganna (Norg. gamle Love III, 129) hefir aldr bókarinnar verið settr hèrumbil 1608 (einsog stæði M. Vjc. og VIII), en þetta virðist reyndar vera nokkuð seint. Það eitt getum vèr sagt með vissu, að bókin er rituð eptir 1542, því hún hefir brèf Kristjáns þriðja frá því ári, og mætti þessvegna heimfæra hana eins vel eða betur til 1548 (eins og þar stæði M. V.[c. XL.] og VIII. Um mánaðardaginn er eitthvað villt, því 10. Mai getr aldrei orðið fimtudagr fyrir þrenníngar dag (*Trinitatis*). Árið 1608 ber fimtudaginn fyrir þrenníngarhátíð (*Trinitatis*) uppá 29. Mai, og 10. Mai er þá laugardagr fyrir uppstigníngardag, en vorið 1548 er 10. Mai uppstigníngardagr. — Fremst í bókinni er ritað nafn eiganda, sem einusinni hefir verið, og heitið Sölvi Oddsson, en ekki vitum vèr nú deili á honum. Á sama blaði sèst, að Jón Eggertsson frá Ökrum í Skagafirði, nafnkendr maðr á sinni tíð, sem flýði til Svíþjóðar útúr málaþrasi (Árbækr Espólíns) hefir gefið bókina sænskum manni, sem hèt Sparfvenfeldt, 14. Marts 1682, og frá Sparfvenfeldt hefir hún komizt í bókasafn Svíakonúngs.

Þetta er innihald skinnbókarinnar: fremst er Jónsbók, og er skotið þar inn í Kristindómsrètt nokkru úr „hirðmannalögum" (hirðskrá), og nokkrum öðrum greinum, sem vant er að fylgi Kristinrètti. Lögbókin er á bl. 1—194. — Eptir það fylgir safn af rèttarbótum, fyrst Magnús kouúngs Hákonarsonar, þá Eiríks

konúngs Magnússonar og síðan Hákonar konúngs Magnússonar, bæði íslenzkar og norrænar. Hin þriðja í röðinni er þessi, sem hèr fylgir: „Engi skal annars gjalda" o. s. frv. (bl. 201) og sýnir sú röð, að rèttarbótin er hèr eignuð Hákoni Magnússyni. Eptir fjórtán rèttarbætr, sem hèr eru eignaðar honum, fylgir rèttarbóta-skrá Hákonar Hákonarsonar, sem fyr er sett (bls. 649) og er eignuð hèr Hákoni Sverrissyni; hana látum vèr fylgja hèr til samanburðar og er hún á bl. 211 *b*—212 í skinnbókinni. Þá kemr næst rèttarbót Hákonar konúngs Magnússonar ýngra um mál Pètrs Hálfdanarsonar, sem prentuð er fremst í rèttarbótunum aptanvið Jónsbók, og er útgefin 10. Juni 1375. Þar á eptir fylgja rèttarbætr Magnús konúngs Eiríkssonar og blendíngr annara rèttarbóta, þartil kemr lánga rèttarbót Kristjáns fyrsta. Eptir hana kemr alþíngis samþykkt um knífaburð, og síðan aptr flokkr af rèttarbótum; er þar ýngst rèttarbót Kristjáns þriðja um bann móti verzlun við utanríkis menn, gefin í Kaupmannahöfn á jóladaginn 1542, en seinast allra er brèf Kristjáns prinz (hins annars), sem skipar að tilskipanir Hákonar konúngs Magnússonar skuli vera gildar á Íslandi (Möðruvalla rèttarbót 1507, stundum kölluð „Rèttarspillir") með staðfestíng Þorvarðar lögmanns Erlendssonar. Hèr er, einsog fyr segir, fyrst prentuð rèttarbótin, sem er eignuð Hákoni Magnússyni, og síðan rèttarbótaskráin sem hèr er eignuð Hákoni Sverrissyni. Rèttarbótin er þannig látandi:

ef vnnid er a saklausum monnum. 7.[1]

Hakon med Gudz myskun.

Einginn skal annars giallda.

Eñ þeir sem a audrum vinna. eñ þeir eiga sakir vid. Eda rada vandrædi. þat er obotamal. ok hafi fyrigiortt fie og fridi landi og lausum eyre. og Jafnuel odal jordum sijnum. og komi alldri sijdan j land apttur.

Ran[sokn].[2]

Ef madur er stolinn fie sijnu. þa skal hann beidazt Ransoknar. ef hann vill þann mann er honum er mestur

---

[1]) Fyrirsögn með rauðu. Upphafsstafrinn grænn, dregið í gult og rautt. Talan 7 sýnir, að þetta er sjöunda í röðinni í skinnbókinni (bl. 201).

[2]) með rauðum stöfum utanmáls, skorið utanaf.

grunur œ. ad fie hans stolid hafi. Eñ hinn skal vpplœta ransokn. Eñ ef hann syniar. þœ er hann sannur ad sauk. Eñ sœ er ransaks beidizt. skal hafa med sier. ij. husfasta menn. eñ eigi fleire. þeir skulu ganga inn lindalauser. og lata ransaka sig œdur eñ þeir gangi inn. og seigi til Jarteiknna œ þui sem stolid er. adur en hann gangi inn. og ef hann hitter fie sitt. J aurck mannz eda tauskum. J lucktum hirdslum eda kieroldum. þœ skal hann standa fyrir sjöttar eidi og nefndar vitni. ad eigi kom þad þar ad hans vilia. eda vitund. ef hann er eigi œdur ad þyfsku kiendur. Eñ ef hitter fie sitt fyrir vtan lœs eda loku. og þo J hans huse. þœ haldi vppi siottar eidi. og sie þad fanga vottar. Eñ þesse eidur fellur til iiij marcka.

En rèttarbótaskráin er þannig rituð í þessari skinnbók:

Riettar bot Hakonar kongs sonar Suerris kongs. vm linun œ sakgialldi og annad. 19. cap.[1]

þessar riettarbætur gaf Hakon kongur son Sueris kongs aullum Noregs monnum. þeim er J riettum skilum eru. og sannre hlydni. og þegnskylldu. og eptter lœter eru. vid riettañ Noregs kong. og hans rijki og rœduneyti styrckia med hollre þionustu Jnnañ landz og vtañ. ad oskaddre J aullu kongdomsins sæmd og riettum malefnum. þeirra lauglegra konga er eptter hann koma.

J fyrstu ad vpphafi. þar sem œdur gieck J sakeyrir xl. marcka mœl vj alner vadmals J eyrir þann huerñ. ad ospilltre sektinne. þœ fellde hann þœ sektt til þridiungs. Suo ad þa skyldi þar vppi viij aurttugar. og xiij merckur slijktt sem fiell œ kongs stedia. þar sem adur voru XV. merckur. felldur vj alna aura. þar skulu vera .v. merckur. Suo fiellu œdur til þridiungs sekttir.

þœ adra. ad eingin skal annars giallda. Eñ þeir œ audrum vinna edur giora. edur rœda vandrædi. þeir eru obota menn. og fyri giortt fie og fridi landi og lausum eyre Jafnuel Odals Jordum. og komi alldre J land apttur.

þœ hina .iij. þeir menn er hauggua haund eda fot af

[1]) Fyrirsögn með rauðu letri, upphafsstafr lifrauðr og dregið í hárautt.

manne. nema þeir lꝏti refsa til landhreinsunar edur þad verdi J vopna vidskipttum. þꝏ fare eptter kongs skipan.

Þꝏ hina fiordu. ad þeir menn sem hlaupa burtt med eiginn konur manna. Edur fie þiofstolnu. suo mycklu sem J lögum er mæltt. þꝏ eru þeir obota menn.

Þa hina fimttu. Ad þo allt sem vegandi ætte J landi og lausum eyrer fielle ꝏdur vnder kong. vtan Jarder. þꝏ skal kongur nu eigi meira þegngilldi lꝏta taka eñ viij aurtuga og xiij merckur af fie eda eignum. nema hann veigi skiemdar vijg eda giore nijdings verck. Og ef eign er J þegngilldi greidd. þa skulu arfar leysa innan x vetra ef þad er þeirra odal.

Þa hina vj. Ad hann tok af. ad nockur kongs madur leggi almennilega tolla edur veislur ꝏ frostaþings menn. Bydur nockur kongs vmbods manne til veislu edur giorer honum adra kurteise. rꝏdi sialfur fyrir sijnu.

---

## 155. [1263 og fyr].

Skrá úr lögum Hákonar konúngs Hákonarsonar, um leigufè og um vitafè.

Þessi skrá finust í íslenzkum lagasöfnum í ymsum myndum. Þar sem hún kemr fyrst fyrir, eptir því sem vèr höfum fundið, sem er í tveim skinnbókum frá hèrumbil 1490 í safni Árna Magnússonar Nr. 128 í 4to og Nr. 37 í 8vo, er hún með Jónsbók og hefir greinirnar um vitafè sèrílagi, en í öðru lagi greinirnar um þokkabót og öfundarbót. — Í nokkrum öðrum handritum gengr hún með rèttarbótum Eiríks konúngs Magnússonar, og svo er til dæmis að taka í skinnbók frá sextándu öld í safni Árna Nr. 345 í arkarbroti, bls. 165—166, að þar er rèttarbót um framfærslu skyldu við foreldra og börn o. s. frv., og þar aptanvið er hnýtt þessari skrá, sem hèr fylgir, öldúngis eins og hún væri aptari partr af hinni sömu rèttarbót Eiríks konúngs; en í nýju pappírshandriti í safni Árna, Nr. 215 B. í 4to., bls. 1, sem er ritað 1683, er skrá þessi kölluð „Rèttarbót Eiríks konúngs". — Brèfabókin Nr. 238 í 4to í safni Árna, sem er merkileg bók og ein með elztu pappírshandritum (hèrumbil frá 1579) hefir greinirnar um vitafè, og kallar þær R. B. H. K. (= Rèttarbót Hákonar konúngs), sem líklega á að vera Hákon Magnússon (háleggr), en ekki Hákon Hákonarson.

Eigi að síðr heimfærum vèr hèr skrá þessa heldr til Hákonar konúngs Hákonarsonar heldr en til Eiríks eða Hákonar háleggs, vegna þess að skráin, eptir því sem hún er orðuð, hefir

einna helzt rót sína í hinum eldri lögum, þó hin ýngri sýnist að eiga nokkurn þátt í henni.

Þau lagaorð, sem hèr koma fyrir, öfundarbót, þokkabót, vitafè, virðast vera komin inn úr norsku lögunum í fyrstu, þó þau hafi síðan orðið mjög tíðkanleg á Íslandi. Öfundarbót er talin sex aurar silfrs, eins og hèr, í hinni norsku landslagabók Magnús konúngs lagabætis VII, 17 (Norg. gl. Love II, 115), og í Jónsbók er talað um „rètt eðr öfundarbót" í þjófabálki (16. kap.) og í Farmannalögum segir: „þat er allt fullrèttis skaði, er menn meta til hálfrar merkr, en ef minni er, þá er öfundarbót" (Jónsb. Farmannal. 25. kap.). — Um þokkabót stendr í hinum eldra Bjarkeyjarrètti: „hálf mörk, þat er þokkabót hin mesta, eyrir hin minnsta" (31. kap.; NgL. I, 310). — Um vitafè er til tekið í hinum eldri Frostaþíngslögum, Gulaþíngslögum og Bjarkeyjarrètti. Í Frostaþíngslögum X, 19—24 (NgL. I, 221—222) er svo ákveðið: „þat er vitafè, er fest er fyrir váttum. — þat er annat vitafè, er maðr játar fyrir váttum. — þat er it þriðja vitafè, er menn festast höndum saman, og sè sex menn af hvarstveggja hendi. — Allt þat, er dómr dæmir manni, þat er vitafè", o. s. frv., og sama er hèrumbil orðrètt í hinum eldra Bjarkeyjarrètti (NgL. I, 332). En í Gulaþíngslögum fornu stendr svo (49. kap., NgL. I, 26): „Sá skal lán ábyrgjast, er þiggr, ok koma heilu heim, en ef hann vill eigi, þá skal sækja sem vitafè; en þat er allt vitafè er vottar vitu", og þar við bæta landslög Magnús konúngs (í Kaupabálki 19. kap. — NgL. II, 161): „ok allt þat er dómr dæmir manni, svâ og ef lögmaðr segir fè á hendr manni með löglegum lagaúrskurði at gjalda öðrum manni". Eptir Gulaþíngslögum hinum eldri tekr Járnsíða þenna stað orðrètt (Kaupab. 16. kap.), en hefir ekki viðauka þann, sem í nýjari lögunum stendr. Í Jónsbók er víða nefnt vitafè, og farið um líkum orðum sem í hinum norsku lögum (t. d. Jónsb. Kaupab. 21. kap.; Landsleigub. 5. 13. 15. 23. og 47. kap.), og í útskýríng sinni yfir 21. kap. í Kaupabálki hefir Björn á Skarðsá safnað því sem bókin hefir um vitafè (A. Magn. Nr. 215 A. í 4to., bls. 184—185) með þessum orðum:

Þessar sóknir skulu sækjast eptir fjársóknum sem vitafè:

Í fyrstu ef maðr vill sækja landskuld af landsdrottni ef ei er haldið við hann um jarðar byggíng, sæki sem vitafè.[1]

Ef ei kemr aptr hey eðr korn innan hálfs mánaðar, sæki sem vitafè.[2]

Ef maðr verðr sekr um fènaðar ábyrgð.[3]

---

[1]) Jónsb. Landslb. 5. kap. [2]) Jónsb. Landslb. 15. kap.

[3]) Jónsbók Landslb. 23. kap.

Ef treðst undir í görðum eður vindugum. sæki sem vitafè.[1]

það sem ómarkað kom í hans land. þá vitni eru til borin að lögum. sæki sem vitafè.[2]

[3] það er vitafè sem játað er fyrir vottum. og játa að halda það sem þeir dæma. er þeir nefna til. eður þeirra löglegur rettari nefnir dóm yfir.

það er og vitafè er xij menn dæma einn mann sem þrjót ef hann vill ei undir liggia löglega til krafðr.

Ef maðr rýfr nefndan dóm lögsamdan. það er og vitafè.

það er enn vitafè: úrskurðað fè
dæmt fè
lánsfè
veðfè og allt það fè sem vottar vita.

það er og vitafè ef maðr ryfr lögmanns úrskurð.

þetta fè skal allt með heimstefnu sækja.

Skráin er prentuð hèr eptir skinnbókinni í bókasafni Svíakonúngs í Stokkhólmi C 8., bl. 235, og er þessari bók áðr lýst í hinu undanfaranda (bls. 655—656):

Sa s[em drepur lei]gu f[ie].[4]

Ef madur drepur leigufie og leynir. þa er hann þiofur. ef sa gefur þiof sauk a sem a.

Sex aurar aufundar bot. Eñ ij. aurar þockabot.

huersu [.....]sie v[ita fie].[5]

1. þad er vita fie ad Jatad er fyrir vottum. edur handfest fyrir vottum.

2.[6] þad er vita fie. er menn taka haundum samañ. og leggia vnder dom fyrir vottum. ad hallda þad er þeir dæma.

---

1) Jónsb. Landslb. 23. kap. 2) Jónsb. Landslb. 47.

3) Þetta sem eptir kemr er hið næsta tekið úr skránni sem hèr fylgir eptir, en ekki úr Jónsbók, þó nokkuð líkt standi í Jónsb. Kaupab. 21. kap.

4) Fyrirsögn með rauðu letri utanmáls í tveim línum. Upphafsstafur rauður. Skorið utan af rönd blaðsins.

5) Fyrirsögn með rauðu letri í tveim línum utanmáls. þar er og skorið af ytri rönd blaðsins.

6) talan með rauðu letri utanmáls.

huort sem þeir nefna menn til. edur þeirra lauglegur domare nefner dom yfir.

3.[1] þad er vita fie ef xij menn dæma einn mann sem þriot. ef hann vill eigi vnder laug leggia. sig lauglega til krafdur. þa skal med heimstefnu sækia.

4.[2] þad er vita fie. ef madur ryfur[3] laugsamdañ dom.

þad er vita fie. vrskurdat fie.
dæmtt fie.
lans fie.
og þad fie sem vottar vita.

þad er vita fie ef [madur] ryfur laugmannz vrskurd.

---

## 156. [1264]. á alþingi.

Gamli sáttmáli af hendi Íslendínga við Magnús konúng Hákonarson, um skattgjald og um landsrèttindi Íslands.

Um þessa síðustu endurnýjun sáttmálans frá 1262 er svo sagt í hinum forna Konúngs-annál, sem er ritaðr af samtíða manni: (1264). „A þessv svmri svarði Ormr Ormsson Noregs konvngvm skatt a alþingi firir Siðvmenn, ok þa hofðv allir formenn a Islandi samþyct vm skatt við Noregs konvnga". Vèr höfum því samtíða vitnisburð um, að á alþíngi 1264 hafi verið seinasti samníngr um skattgjald til Noregs konúngs við þá Hákon konúng og Magnús son hans, með þeim skilyrðum um landsrèttindi Íslands, sem þeir gengust undir að halda.

Hèr hefir áðr verið skýrt frá því nákvæmlega (Nr. 152, bls. 602—619), hvernig hinn fyrsti sáttmáli um skattgjaldið varð til um sumarið 1262, fyrst á alþíngi af hendi Norðlendínga og Sunnlendínga, og síðan á Þverárþíngi af hendi Vestfirðínga. Með þessum samníngi voru allir höfðíngjar gengnir á konúngs vald, frá Þjórsá að sunnan til Lánganess að austan, það var allr Norðlendínga fjórðúngr og Vestfirðínga fjórðúngr, og það af Sunnlendínga fjórðúngi, sem var fyrir vestan Þjórsá; allr þessi hluti lands var undir yfirráðum þeirra Gizurar jarls og Rafns Oddssonar.

Eptir að Hallvarðr gullskór, sendiboði Hákonar konúngs, hafði afrekað þetta, fór hann utan um haustið 1262. Þá er

---

[1–2]) tölurnar með rauðu letri utanmáls.

[3]) ofanmáls á bls. 235 b og 236 stendur með rauðu letri: Riettar Bætur.

ekki getið um ferðir hans fyr en um haustið 1264, að sagt er hann hafi komið utan af Íslandi. Það er því harðla líklegt, að hann hafi verið á Íslandi bæði sumrin 1263 og 1264, og jafnvel vetrinn þar á milli[1], þó ekki hafi farið sögur af honum, eða af viðskiptum hans við landsmenn. Sumarið 1263 á alþíngi gengu Oddaverjar að sáttmálanum um skattgjaldið, og er það sýnt hèr áðr (Nr. 153, bls. 625—634) hverjar breytíngar þá hafi orðið á skilmálunum. Nú voru þá takmörk sáttmálans flutt lengra austr, líklega að Jökulsá á Sólheimasandi, svo að nú var bætt við Rángár þíngi, en þá voru eptir Skaptafells þíng og Múla þíng. Þar voru þeir tveir höfðíngjar: Ormr Ormsson á Svínafelli, af ætt Freygyðlínga[2], og Þorvarðr Þórarinsson frændi hans; mun hann um þetta mund hafa búið á Hofi í Vopnafirði.

Sumarið 1263 munu Austfirðíngar ekki hafa verið á alþíngi, og það er auðsætt, að þeir hafa verið harðla tregir til að gánga undir skattgjöld til konúngs; varð þessvegna ekkert af því í þetta sinn. En þá um sumarið kom út Brandr biskup Jónsson til Hóla, hálfbróðir föður Þorvarðar Þórarinssonar; hann hafði áðr verið ábóti í Veri (Þykkvabæ í Álptaveri), og fylgt jafnan konúngs málum. Hann boðaði þá til sín að Hólum Þorvarð frænda sinn, og hittust þeir um allra heilagra messu skeið, töluðust þeir þá við, og kom biskup því svo fyrir með fortölum sínum, að Þorvarðr lofaði honum að hann skyldi fara utan um sumarið eptir, og á fund konúngs, til þess að semja við hann, og til þess að tryggja betr loforð þetta tók biskup eið af Þorvarði. Vèr getum hugsað oss, að Brandr biskup hafi samið svo í Noregi við konúngana, að Þorvarði skyldi verða gefnar upp sakir allar, ef hann gengi til handa; en hann átti miklar sakir óbættar, síðan hann var forgaungumaðr að drápi Þorgils skarða (1258), hirðmanns Hákonar konúngs og hans hins öruggasta þjóns,[3] og mundi fyrir laungu hafa verið drepinn, ef Hákon konúngr hefði náð til hans.

Þetta sama haust fór Hákon konúngr herferð sína vestr um haf, til Orkneyja, og andaðist í þeirri för á jólaföstunni 1263, sem áðr er sagt. Á þessum vetri andaðist einnig Brandr biskup á Hólum, og stýrði þá Árni prestr Þorláksson biskupsdæminu, sá er síðan varð biskup í Skálholti og kallaðr Staða-Árni fyrir deilur þær, sem hann átti við bændr til þess að ná öllum kirkna fjám undan þeirra höndum og undir hið andlega vald, sitt og klerkanna. Um sumarið eptir (1264) var Ormr Ormsson á alþíngi, höfðíngi Síðumanna eða Skaptfellínga; hann var þá 23 ára gamall (fæddur 1241); gekk hann þá að sáttmála þeim, sem saminn hafði verið og samþykktr af Oddaverjum hið fyrra sumarið, og sór eið að skattgjaldinu, einsog sagt er hèr í upphafi eptir Konúngs-

[1]) sbr. bls. 626.

[2]) ætt Orms er talin hèr að framan á bls. 533—534.

[3]) sjá bls. 611. 614.

annál. Ekki er þess getið, að Þorvarðr Þórarinsson hafi verið þetta sumar á alþíngi, og er þá annaðhvort, að Ormr Ormsson hefir samið um skattgjaldið af hendi hans og allra Austfirðínga, eða að loforð Þorvarðar til Brands biskups haustið fyrir hefir þótt nægileg skuldbindíng af hans hendi þar til hann fyndi konúng. En hitt er líklegast, að Þorvarðr hafi verið á alþíngi þetta sumar, og gengið þá að sáttmálanum við Noregs konúng fyrir sína hönd og Austfirðínga, ásamt Ormi, og má færa því til sönnunar, að hann fór þá til Noregs um sumarið með Hallvarði gullskó. Frá þessu segir Sturla Þórðarson í sögu Magnús konúngs lagabætis (Fornm. s. X, 156—157) á þessa leið: „Magnús konúngr sat í Björgyn um sumarit (1264). Þetta sumar kom af Íslandi Hallvarðr gullskór; hann sagði þau tíðindi, at allir Íslendíngar höfðu þá vikizt undir hlýðni við Magnús konúng, ok þá var spurt andlát Hákonar konúngs á Íslandi, er hann fór utan. Þar var þá með honum Þorvarðr Þórarinsson, ok gekk hann á vald Magnús konúngs, ok gaf allt sitt ríki í hans vald, fyrir þá hluti er hann hafði brotið við konúngdóminn í aftöku Þorgils skarða ok Bergs,[1] hirðmanna Hákonar konúngs. Hafa síðan Íslendíngar aldrigi í móti mælt að hlýða boði og banni Magnús konúngs; gengu þeir ok með meiri blíðu undir hann, en Hákon konúng föður hans".

Um vorið 1265 fór Þorvarðr Þórarinsson aptr út til Íslands og mun þá hafa haft sín fornu goðorð í lèn af konúngi; var hann síðan um kyrt nokkur ár, þar til þeir fóru báðir utan frændr, hann og Ormr Ormsson, um haustið 1268. Voru þeir í Noregi tvo vetr, en um vorið 1270 gjörðist Ormr handgenginn maðr konúngs og Rafn Oddsson, sem hafði farið utan um haustið áðr og verið í Noregi um vetrinn. Þá um leið var þeim Rafni og Ormi fengið allt Ísland til forráða, eptir að Gizur jarl var dauðr († 12. Janúar 1268), og fór Rafn út um vorið, en Ormr varð eptir og var í Noregi það sumar, en um haustið (26. Septembr.) drukknaði hann með skipshöfn sinni í Herðluveri við Hörðaland, og segja sumir hann hafi þá verið á ferð til Íslands; hann vantaði þá einn vetr á þrítugan. Þorvarðr Þórarinsson var um þetta mund í Noregi, og mun hafa verið með Sturlu Þórðarsyni að búa til Járnsíðu, voru þeir sendir með hana út til Íslands 1271. Þá var Þorvarðr á Íslandi það sumar og vetrinn eptir, en um sumarið 1272 fóru þeir utan allir: Árni biskup Þorláksson, Rafn Oddsson og Þorvarðr. Þeir voru þá einir eptir af hinum fornu fríveldishöfðíngjum: Rafn og Þorvarðr og Sturla Þórðarson, en hann hafði þá lögmannsdæmi á hendi og hafði gefið sig frá landstjórnar-umsvifum, og mun hafa sýslað mest um rit-

[1]) Bergr Ámundason, félagi Þorgils skarða, var drepinn ásamt honum á Hrafnagili 21. Januar 1258 (Sturl. 9, 51—52: III, 280—284). Þeir Þorgils og Bergr urðu báðir hirðmenn Hákonar konúngs 1245 um vorið (Sturl. 8, 4: III, 131).

störf sín um þessar mundir. Magnús konúngr tók því það ráð um vorið eptir (1273), að hann „lèt Þorvarð og Rafn sverja hvorn öðrum trúnaðareiða og fèlagskap í Björgyn, að hjáveranda Jóni erkibiskupi og mörgum öðrum mætum mönnum, og fèkk þeim allt Ísland til stjórnar undir hans valdi."[1] — Af þessu má ráða, að frá því Gizur jarl andaðist hefir ekki verið settr jarl á Íslandi um þessi ár. Þeir Rafn og Þorvarðr fóru út til Íslands samsumars, og kom Þorvarðr út í Austfjörðum; var hann þar þá um kyrt nokkur ár, þar til um sumarið 1276, að hann tók sýslu „fyrir sunnan heiðar", og sat fyrst í Odda og síðan á Keldum[2] á Rángárvöllum, sýnist svo, sem hann hafi þá haft Árnes þíng og Rángár þíng til yfirsóknar, og líklega Múla þíng að auki, en hann settist að á höfuðbólum Oddaverja, sem eðlilegt var, því Solveig kona hans var dóttir Hálfdanar Sæmundarsonar á Keldum og Steinvarar Sighvatsdóttur Sturlusonar[3]; af þessu má einnig ráða það, að þeir Rafn hafi skipt svo hèruðum með sèr, að Þorvarðr hafi haft Sunnlendínga fjórðúng og Austfirðínga, en Rafn Vestfirðínga fjórðúng og Norðlendínga. En Þorvarðr hafði ekki lengi haft ríki fyrir sunnan, áðr en honum lenti saman við Árna biskup; þótti honum biskup og Rafn hafa borið sig ofrliða á alþíngi þá um sumarið (1276),[4] og ritaði konúngi, að ríki Árna biskups væri svo mikið á landinu, að konúngs menn helði eigi í fullu trè. Biskup ritaði aptr af sinni hendi konúngi árið eptir (1277), og sagði „Rafn Oddsson bezt tilfallinn af íslenzkum mönnum til að ráða einn fyrir öllu landi", en hann rèði til, alþýðu vegna, að hafa valdsmenn heldr fleiri, og kvað það mundu kostnaðarminna; en sjálfr kvaðst hann koma vel skapi við nær alla handgengna menn, nema Þorvarð, og þó engi sakferli væri þeirra í millum væri sèr þess von af honum einum, að hann mundi afflytja sig við konúng, en hann bað konúng eigi trúa sögum hans fyr en prófaðar væri.[5]

Þetta sumar (1277) fóru þeir utan Rafn og Þorvarðr og Sturla lögmaðr Þórðarson, á einu skipi allir; þeir brutu skip sitt við Færeyjar og voru þar um vetrinn, en komu um vorið til Noregs[6]; fór þá Sturla lögmaðr jafnskjótt til Íslands aptr, en þeir Rafn og Þorvarðr voru eptir í Noregi og sátu þar það ár, en vorið eptir (1279) fóru þeir báðir út til Íslands og var Rafn gjör merkismaðr konúngs og herraðr. Um Þorvarð er þess ekki getið, að hann hafi fengið nafnbót í þetta sinn[7], en þó virðist líklegt að svo hafi verið, því þegar hann fór utan aptr 1281, er hann í annálum kallaðr herra, mun hann því hafa

[1]) Hóla Annálar 1273. [2]) Árna bisk. s. kap. 18.

[3]) Sturl 7, 51: III, 105; sbr. bls. 627. [4]) Árna bisk. s. kap. 19.

[5]) Árna bisk. s. kap. 20.

[6]) Árna bisk. s. kap. 20; sbr. Annál. 1277.

[7]) Það sem segir í Árbókum Espólins (I, 6 sbr. Saml. til Norg. Hist. I, 194), að Þorvarðr og Loðinn af Bakka hafi verið settir lögmenn á Ís-

haldið sýslu eins og áðr, en hitt virðist líklegt, að Rafn hafi verið settr einn yfir allt land þá um leið (1279), og haldið því valdi síðan um hríð. Það ráðum vèr af því, að Rafn er einn fyrir svörum á alþíngi 1281, þegar umræðan var um lögtekníng nýrrar lögbókar (Jónsbókar), en Þorvarðar er hvergi við getið, nema að hann fór utan þetta sumar. Sama er að segja í þrætunni við Árna biskup um staðamál 1284 á alþíngi, að þar er Rafn Oddsson einn til svara af hendi leikmanna, og fleiri rök má enn telja til hins sama. Svo er til dæmis að taka, að um vorið 1285 skipar Rafn sýslu í Árnes þíngi (Árna bisk. s. kap. 51) og árið eptir (1286), þegar brèf Eiríks konúngs komu til Íslands um útboð til Noregs, og Auðunn hestakorn var gjör jarl yfir Íslandi[1], þá var Rafn enn einn til svara, og er þess getið, að hann tók þessu máli fálega og átti mestan þátt í að það eyddist, hversu sem Árni biskup mælti fram með því, til að þóknast konúngs vilja og leiða hann yfir á sitt mál, en Þorvarðar er hvergi við getið, að hann hefði afskipti um þessi mál. Frá því 1281 hafði hann ekki heldr Árnes þíng til umráða, heldr hafði þar sýslu Ásgrímr Þorsteinsson og Eyjólfr son hans, en svo er að sjá, sem Þorvarðr hafi þó búið um þetta skeið ávallt fyrir sunnan, og 1289 um haustið er þess getið, að hann bjó í Arnarbæli (í Ölfusi). Um þær mundir sýnist hafa verið komin á góð vinátta milli hans og Árna biskups[2]. Vetrinn 1287—1288 er þess enn getið, að Þorvarðr væri utan, og kæmi út um vorið, en ekki er þess getið, að hann hefði þá nein völd á hendi. Eptir að Rafn

landi 1278, og komið út með lögsögn 1279, er rángt, eins og sýnt er i Safni til sögu Íslands II, 4 athgr.

[1]) Um jarlsdæmi á Íslandi hefir verið töluverðr vafi, munu flestir hafa verið á því máli lengi, að þar hafi enginn jarl verið nema Gizur Þorvaldsson. Það virðist þó vera efalaust, sem beztu annálar segja, að Auðunn Hugleiksson (hestakorn) hafi fengið jarlsnafn yfir Íslandi 1286, og líklega haldið því nafni meðan Eiríkr Magnússon var konúngr, eða til 1299, þegar Auðunn fèll í stórmæli sín og var fángaðr. — Í sögu Árna biskups (12. kap.) og í máldaga Auðunnar biskups á Sjáfarborg er enn nefndr Kolbeinn jarl. Það getr varla annar verið en Kolbeinn Bjarnason Auðkýlíngr, sonr Bjarna bónda á Auðkúlustöðum, er var einn af þeim, sem sóru skatt Noregskonúngi 1262 (bls. 617). Þess er getið í annálum, að Kolbeinn kom út til Íslands 1301 og var þá herraðr, en hann var drepinn 1309. Sá sem vó hann hèt Karlamagnús Magnússon Andrèssonar, án efa af Oddaverja ætt og sonr Magnús Agnars Andrèssonar (bls. 627), en ári seinna hefndi Þórðr Kolbeinsson föður síns og drap Karlamagnús. Eptir Kolbein er enginn jarl nefndr, því 1308 var sú nafnbót af tekin (NgL. III, 74). En hvort Kolbeinn hafi verið jarl öll þessi ár, frá því 1301 að hann kom út og til dauðadags 1309, þarum vantar allar skýrslur.

[2]) Árna bisk. s. kap. 72.

Oddsson var fallinn frá († 22. Novembr. 1289) er þess getið, að þá um vorið eptir (1290) voru Erlendi sterka, föður Hauks lögmanns, veittir Vestfirðir, og 1293 var Norðlendínga fjórðúngr veittr Pètri Guðleikssyni af Eiði í Norðfirði[1]. Þar af má ráða, að um nokkra hríð hafi nú Íslandi verið skipt niðr í sýslur, eða lèn, en enginn forstjóri settr yfir allt land, á sama hátt einsog Rafn Oddsson sýnist hafa verið. Hafi Auðunn Hugleiksson haft jarlsdæmi yfir Íslandi á hendi um þessar mundir, þá er þetta mjög skiljanlegt, og eins hitt, að farið var að veita Norðmönnum sýslur á Íslandi, eptir að Rafn Oddsson var fallinn frá. Þar sem annálar segja 1293, að leikmenn hafi tekið það ár nokkrar kirkjueignir á Íslandi, að ráði eða eptir skipan Þorvarðar Þórarinssonar, þá bendir þetta til, að hann hafi fengið völd meiri eptir dauða Rafns Oddssonar, en hver þau hafi verið vitum vèr nú ekki, vegna þess að síðari hluti Árna biskups sögu er tapaðr, sem mun hafa að líkindum skýrt frá þessu. Þorvarðr var þá og orðinn gamall maðr, en þó hraustr, og var nú einn eptir lifandi af hinum fyrri höfðíngjum. Þess er getið, að hann færi enn einusinni utan um sumarið 1295, en hann kom ekki aptr úr þeirri ferð og andaðist í Noregi árið eptir. Herra Þorvarðr Þórarinsson átti tvö börn, svo getið sè, Odd og Solveigu[2]; Oddr var heitinn eptir bróður hans, sem drepinn var í Geldíngaholti 1255[3], en Solveig eptir Solveigu Sæmundardóttur frá Odda, sem átti Sturla Sighvatsson. Oddr Þorvarðsson kemr við brèf, sem gjört var í Noregi um vorið 1300, hann var þá kominn til metorða og var herraðr, en hann lifði skamma stund eptir föður sinn og hefir ekki orðið gamall maðr. Hann kom út til Íslands frá Noregi þá um sumarið, en hann andaðist 1. Marts vetrinn eptir.[4] Jón Espólín nefnir í Árbókum sínum annan son Þorvarðar Þórarinssonar, sem hafi heitið Þórarinn og verið einnig herraðr, er það svo til komið, að í hinni fornu íslenzku ártíðaskrá stendr við 30. Decbr.: „Þórarinn þ. s." (Finn. Joh. Hist. Eccl. I. 598 sbr. Langeb. Scrr. Rerr. Dann. II, 502 o. s. frv.), og hafa útgefendrnir sagt, að þetta gæti átt að þýða Þórarinn Þ(orvarðar)son, bróður Odds og son Þorvarðar Þórarinssonar; en af því þessa Þórarins er ekki getið þar sem nefnd eru syskin hans (Árna bisk. saga kap. 26) og hvergi annars, þá er þetta mjög hæpin getgáta, því Þórarinn var ekki sjaldgæft nafn, og gæti eins vel verið t. d. Þórarinn Þorkelsson af Seldæla ætt (Sturl. I, 52), faðir Tómasar prests í Selárdal, sem er kallaðr „góðr maðr og göfugr" og átti Höllu, dóttur Þórðar Sturlusonar (1243. Sturl. 7, 12: III, 27). Það sýnist vera efalaust, að þau börn Þorvarðar, sem nafngreind eru, sè börn hans og Solveigar

[1]) P. A. Munch. Det norske Folks Historie. IV. 2, 297.

[2]) Árna bisk. s. kap. 26.

[3]) Sturl. 9, 20: III, 217—221.

[4]) Necrologium Islandicum aptast í Finn. Joh. Hist. Eccl. Isl. I, 595.

Hálfdanardóttur. Arngrímr prestr hinn lærði segir svo frá [1], að Magnús konúngr hafi gipt honum Ragnhildi (Rangnilld er hún kölluð hjá Arngrími, Norðmenn kalla hana Ragndid [2], þ. e. Ragnheiði eða Randíði) ekkju Brynjólfs Jónssonar á Hvoli í Sogni, lends manns í Noregi, og sýnist sem Arngrímr heimfæri þetta til ársins 1279 [3]. Ef að þetta væri rètt, þá er líklegt að Solveig kona Þorvarðar hafi andazt áðr en hann fór utan 1277, og Brynjólfr á Hvoli meðan hann var utan (1278), og hafi hann svo átt ekkjuna 1279, áðr hann fór út til Íslands, en um börn þeirra er hvergi getið.

Þau kennimerki, sem hèr eru sett til aðgreiníngar á sáttmálunum frá 1262, 1263 og 1264, eru í stuttu máli talin áðr (bls. 628 og 634), og eru reyndar augljós í sjálfum sèr. Sú skrá, sem hèr er árfærð til 1262, lýsir því sjálf, að hún getur ekki verið önnur en sú, sem Norðlendíngar og Sunnlendíngar samþykktu á alþíngi 1262, og Vestfirðíngar gengu þar eptir að á Þverár þíngi skömmu síðar; þetta sannar einnig eiðrinn, sem fylgir þessari skrá, og hvergi getur átt við nema við hana eina. Þá eru sáttmála-skrárnar frá 1263 og 1264; um þær mætti segja, að þær sè hvortveggja eins, og verði því ekki aðgreindar, en þar eru þó ljós aðgreiníngarmerki þegar rètt er að gáð, því í sáttmálanum sjálfum eru miklar breytíngar komnar á 1263, hjá því sem var í hinum frá árinu á undan, og ber þessu öldúngis saman við sögurnar um, hvernig sáttmálinn er orðinn til; þetta styrkist enn fremur við eiðinn, sem sáttmálanum fylgir, því hann getr einúngis átt við sáttmála þann, sem saminn var og samþykktr á alþíngi 1263, með því hann gildir bæði Hákon konúng og Magnús konúng son hans. Sturla Þórðarson segir með ljósum orðum, að andlát Hákonar konúngs hafi verið frètt til Íslands um sumarið 1264, áðr en Hallvarðr gullskór fór utan, og þareð hann bætir því við, að menn hafi gengið fúslegar á hönd Magnúsi konúngi en Hákoni konúngi föður hans, þá virðist mega ráða þar af með líkindum, að fregnin um lát Hákonar konúngs hafi verið komin til Íslands áðr en alþíngi væri slitið, eða sáttmálinn samþykktr; en af þessu leiðir aptr, að eiðr sá, sem fylgir sáttmálanum frá 1263, til beggja konúnganna, getr ekki átt við sáttmálann eins og hann var svarinn 1264, svo að þar sem sá eiðr fylgir hlýtr sáttmálinn að vera frá 1263, því frá

[1]) Supplementum historiæ Norvegicæ, sent Krag sagnaritara konúngs 1597 (afskr. í handritum Bartholins xxv, bls. 217).

[2]) Saml. til det norske Folks Sprog og Historie II, 194 athgr. 3.

[3]) Þannig gjörir og Espólín (Árb. I, 6) en það er svo að sjá sem hann hafi haldið að Brynjólfr Jónsson hafi verið Íslendíngr. Brynjólfr á Hvoli var einn meðal helztu trúnaðarmanna Hákonar konúngs Hákonarsonar og fylgdi honum vestr um haf og var viðstaddr andlát hans. Það er óvíst hvenær Brynjólfr andaðist, en hann var á lífi 1277 (P. A. Munch. Det Norske Folks Hist. IV. I, 477).

1262 getr hann ekki verið, sökum þess hann er orðaðr öðruvísi. það getr ekki heldr verið tilviljan ein, að sum handritin hafa sáttmálann með eiðstaf, en sum án eiðstafs, heldur hlýtr eiðstafrinn að hafa fylgt í hinum elztu handritum samníngnum frá 1263, hvort sem nokkur eiðstafr hefir fylgt samníngnum frá 1264 eða ekki; enda er ekki líklegt, að skrifararnir hafi fellt úr eiðstafinn, þegar þeir rituðu sáttmálann, ef eiðstafr hefði fylgt frá upphafi því sem skrifað var eptir, þar sem svo margar afskriptir eru til, og það frá ýmsum tímum, einsog áðr er sýnt. En að samníngurinn frá 1264 sè sá rètti „gamli sáttmáli" frá þessu ári, og sá síðasti af þeim þremr, það sannast meðal annars af því, að hann finnst að öllu verulegu óbreyttr í flestum handritum, og Jón lögmaðr Jónsson hefir einmitt valið hann (en ekki hina) til að prenta með Jónsbók (1578), en síðan hefir hann fylgt bókinni í öllum útgáfum. — Þó að í upphafinu standi nafn Hákonar konúngs, þar sem að rèttu lagi ætti að standa nafn Magnús konúngs, þá sannar það ekki annað, en að óþarfi hafi þótt að breyta neinu í sáttmálanum, frá því sem hann var samþykktr árið fyrir, og hefir eiðatakan verið svosem framhald af þeirri, sem þá fór fram. Magnús konúngr átti hvort sem var hlut í hyllíngunni 1263.

Til yfirlits yfir handritin, sem hafa gamla sáttmála þann sem hèr er árfærðr til 1264, skal eg telja hèr þau, sem eg hefi haft fyrir mèr og eru eldri en 1700.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| A. Magn. handrita safn | Nr. | 175 A. | 4to. | frá hèrumbil | 1400. |
| B: Gamle kgl. Saml. | — | 3269 B. | - | - — | 1430. |
| C: A. Magn. | — | 157 B. | - | - — | 1460. |
| D: A. Magn. | — | 456 | 12mo. | - — | 1480. |
| E: A. Magn. | — | 151 | 4to. | - — | 1490. |
| F: A. Magn. | — | 168 B. | - | - — | 1490. |
| G: A. Magn. | — | 128 | - | - — | 1490. |
| H: Thotts safn. | — | 2101 | - | - — | 1490. |
| I: A. Magn. | — | 135 | - | - — | 1500. |
| K: Magn. Stephens. | — | 13 | - | eptir skinnbók | 1500. |
| L: A. Magn. | — | 129 | - | frá hèrumbil | 1550. |
| M: A. Magn. | — | 458 | 12mo. | - — | 1570. |
| N: Holsteins safn. | — | " | 4to. | - — | 1570. |
| O: De la Gardies safn. | — | 9 | - | - — | 1570. |
| P: A. Magn. | — | 147 | - | - — | 1580. |
| Q: Thotts safn. | — | 2100 | - | - — | 1580. |
| R: Thotts safn. | — | 2099 | - | - — | 1581. |
| S: Gamle kgl. Saml. | — | 3274 A. | - | - — | 1620. |
| T: Nye kgl. Saml. | — | 341. | 8vo. | - — | 1656. |

þessi texti gamla sáttmála hefir áðr verið víða prentaðr, bæði á frummálinu og á öðrum málum í útleggíngum. Á frummálinu hefir hann verið fyrst prentaðr aptan við lögbókina (Jónsbók) í útgáfum þeim, sem prentaðar hafa verið á Hólum (og í Núpufelli) 1578, 1580 og 1582 „eptir bón og forlagi heiðarlegs manns Jóns Jónssonar lögmanns" (titilblað í útgáfunni frá 1578), og kallaðr þar „Gamli sattmali a millum Noregs kongs og Is-

lendinga". Eptir þessu er hann prentaðr upp aptr í útgáfum Jónsbókar 1707 og 1709, bls. 472—474. — Þessu næst er „gamli sáttmáli" prentaðr í safni Norðmanna af fornum Noregs lögum *(Norges gamle Love)*, sem þeir hafa gefið út Rud. Keyser og P. A. Munch, og kallaðr þar „*Islændernes Overeenskomst med Kong Hakon Hakonssön* 1262", en þar er blandað saman þremr skrám frá ymsum tímum (Norg. gl. Love I, 460—462), einsog hèr hefir áðr verið drepið á (bls. 619—620): fyrst er sáttmálinn frá 1264, merktr A., en árfærðr til 1262; þar næst er sá hinn rètti sáttmáli frá 1262 (hèr Nr. 162, bls. 620—621) með eiðstaf sem vantar niðrlagið, og hafa útgefendrnir skilið svo sem þetta sè sami sáttmálinn og hinn, nema með breyttu orðfæri, og hafa því merkt hann B, þar sem hinn er A (NgL. I, 461); í þriðja lagi hafa þeir sett aptari hlutann af sáttmálanum frá 1302 þar saman við, eins og hann væri síðari hluti sáttmálans frá 1262 og vantaði einúngis nokkuð í. Þetta er nú hèr leiðrètt og sá rètti sáttmáli frá 1302 er síðan prentaðr bæði í NgL. III, 145 og í Lovsaml. for Island I, 23—24. — Enn er sáttmálinn prentaðr og kallaðr „*Den ældste Forenings Akt mellem Island og Norge*" i Lovsaml. for Isl. I, 11, en rángt árfærðr til 1262, einsog í útgáfu Norðmanna; þeirra útgáfu er aptr fylgt í Þjóðólfi I, 69 (20. Juni 1849), en útgáfunni í íslenzka lagasafninu er fylgt í Safni til sögu Íslands I, 632-633 og í útgáfunni af Jónsbók 1858, bls. 243—244.

Danskar útleggíngar af gamla sáttmála eru prentaðar, fyrst aptan við dönsku Jónsbók (*den islandske Lov Jonsbogen.* Khavn 1763. 8vo. bls. 376—378), og er sú mjög ófullkomin; þar næst í kennslubók einni eptir A. F. Krieger (*Grundlag for Forelæsninger over den danske Privatrets almindelige Deel.* Khavn 1849—50, bls. 120—121). Sú útleggíng sem P. A. Munch hefir í Noregs sögu sinni (*Det norske Folks Historie* IV. 1, 367—369) má í sumum greinum heldr kallast nýr sáttmáli eptir hann, heldr en útleggíng á sáttmála Íslendínga.

Latínsk útleggíng er fyrst í Íslands sögu eptir Arngrím prest hinn lærða (*Crymogæa*), bls. 107; þá í Noregs sögu Þormóðar Torfasonar (Torfæi Hist. Norveg. IV, 334) og enn í Kirkjusögu Finns biskups (Finn. Joh. Hist. Eccles. Island. I, 381—382).

---

## A.

Þessi afskript er prentuð eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar Nr. 175 A. í fjögra blaða broti, bls. 37, og er henni áðr stuttlega lýst (bls. 448). Höndin er gömul, og mun það láta nærri, sem Norðmenn hafa getið til, að bók þessi mundi vera rituð í byrjun fimtándu aldar, eða hèrumbil 1400. Bókin er nú ekki alls

meiri en 74 blaðsíður, og er brot af Kristinrètti Árna biskups fremst (bls. 2—36), en þar næst kemr þessi afskript gamla sáttmála, sem hèr er prentað eptir, og sýnist þó, sem hún sè ritað nokkru síðar en bókin. Í Norges gamle Love (I, 460) er sá texti sáttmálans, sem kallaðr er A, prentaðr eptir þessari sömu skinnbók; svo er og einnig sá texti eptir henni tekinn, sem er prentaðr í hinu íslenzka Lagasafni. Greinatalan og niðrskiptíngin er sett eptir því, sem hèr er skipað niðr áðr í hinum fyrri sáttmálum.

---

J nafne fodr ok sonar ok heilags anda

uar þetta játad ok samþyckt af ollum almuga á jslande med lofa take.

Uier biodum uirduligum herra hakone konunge hinum koronada uora þionustu undir þa grein laganna sem samþykt er mille konung domsins ok þegnanna er landit bygia.

1. J fystu grein at uer uilium giallda konunge skatt ok þíng farar kaup sem logbok uottar ok alla þegnskylldu suo framt sem halldit er uid oss þat mote uar jatat skattinum.

2. J fystu at utan stefningar skylldum uier au[n]guar hafa utan þeir menn sem dæmder uerda af uorum monnum a alþinge burt af landenu.

3. Jtem at jslendzkir se logmenn ok syslumenn hier a landenu af þeirra ætt sem at fornu hafa godordin upp gefit.

4. Jtem at sex hafskip gangi til landzins a hueriu are forfalla laust.

5. Erfder skulu upp gefazt fyrir jslendskum monnum j norege huersu leinge sem stadit hafa þegar er retter arfar koma til edr þeirra umbodsmadr.

6. landaurar skulu ok upp gefazt.

7. Jtem skulu slikan rett jslendzkir menn hafa j noregi sem þeir hafa beztan haft.

8. Jtem at konungr late oss na fridi ok jslenskum logum epter þui sem logbok uor uottar ok hann hefir bodit j sinum brefum sem gud gefur honum framazt uit til.

9. Jtem jall uilium uær hafa yfir oss medan hann helldr trunad uid ydr en frid uid oss.

10. halldа skulum uier ok uorir arfar allan trunad uid

ydr medan þier ok .ydrer arfar halldit trunad uid oss ok þessar sattar giorder fyrr skrifadar eñ lauser ef rofin uerdr af yduare alfu at beztu manna yfir syn.

[et cetera.[1]

B.

Sú skinnbók, sem hèr er prentað eptir, og er í bókhlöðu konúngs *Gamle kongelige Saml.* Nr. 3269 B í 4to., er rituð um árabilið 1340 til 1360, með góðri gamalli hendi, og er sett í tveim dálkum á blaðsíðu. Bókinni er lýst hèr áðr á bls. 572 og 652, og er ekki nauðsyn að fara hèr fleirum orðum um hana, en eg skal geta þess að eins, að „gamli sáttmáli" er ritaðr aptast í bókinni (bls. 132) með töluvert nýjari hendi en bókin sjálf, mun láta nærri að sú hönd sè frá hèrumbil 1430. Greinaskiptíng og greinatala er einsog áðr sett eptir því, sem annars er í öllum afskriptum sáttmálans.

J nafne favdur og sonar og heilags anda.

var þetta jatad og samþyckt af avllvm almvga ꝍ jslandi med lofa take.

Viær biodvm virdvligvm herra hakone konvnge[2] hínvm koronada vora þionvstv vnder þa grein laganna sem samþyckt er millvm konvngdomsins og þegnaña er landit byggia

1. J fystv grein ath vær vilivm giallda konvngi skatt og þíng farar kavp sem lavg bok vottar og alla þegn skylldv so framt sem halldit er vid oss þat mote var iattat skattinvm.

2. J fystv ath vtan ferda stefningar skylldvm viær avngvar hafa vtan þeir menn sem dæmder verda af vorvm monnvm ꝍ́ alþingi bvrt af landinv.

3. Jtem ath jslendzker sie lavg menn og syslv men hier a landinv af þeirra ætt sem ath fornv hafa god ordin vpp gefit.

4. Jtem ath sex haf skip gangi til landzsins ꝍ hveriv are for falla lavst

5. erfder skvlv vpp gefazt fyrir Jslendzkvm monnvm J

[1]) [anno m. ijc. Lxiij. segir í NgL. I, 461 athgr. 16 að standi i skinnbók frá hérumbil 1600. C 4 í Stokkh. — Það er marklítið.

[2]) konvng er alstaðar bundið, og má þess vegna lesa á tvo vegu: konung eða kong.

norege hversv leingi sem stadit hafa þegar rætter arfar koma til edr þeirra vmbodz madr.

6. landavrar skvlv og vpp gefazt.

7. Jtem skvlv slikan rett jslendzker menn hafa j noregi. sem þeir hafa beztan haftt.

8. Jtem ath konvngr late oss na fridi og Jslendzkum lavgvm efter þvi sem lavgbok vor vottar og hann hefur bodit J sinvm brefvm sem gvd gefur honum framazt vit til.

9. Jtem jall vilivm vær hafa yfir oss medan hann helldur trvnad vid ydur eñ frid vid oss.

10. hallda skulum uíær og vorir arfar allan trvnad vid ydur medan þier og ydrir arfar halldit trvnad vid oss og þessar sattar giorder fyrer skrifadar en lavser[1] ef rofin verdur af ydvare alfv ath beztv manna yfer syn.

et cetera.

---

## C.

Þessi afskript er prentuð eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar, sem er merkt Nr. 157 B í 4to, og er rituð hèrumbil 1460. Skinnbók þessi hefir upphaflega haft Jónsbók, Kristinrètt Árna biskups og rèttarbætr, en síðan hefir verið skotið inní blöðum sumstaðar (á sextándu öld), og ritað þar á sumt hvað til fyllíngar. Nú er bókin hlutuð sundur í tvennt (A og B) og er hinn fyrri hlutinn 172 blaðsíður, eða 86 blöð, en hinn síðari 47 blöð, eða 94 blaðsíður, það er alls 133 blöð, en upphaflega 132 blöð. Svo er að sjá, sem fyrsta blaðsíða í bókinni hafi í fyrstu verið auð, eins og opt finnst í íslenzkum skinnbókum, og ætluð fyrir saurblað, en á annari blaðsíðu er dregin upp mynd af konúngi, sitjandi í hásæti, með öxi í hægri hendi en knött í vinstri, og dreka undir fótum; mun þetta eiga að vera mynd Ólafs konúngs helga, sem bæði Noregsmenn og Íslendíngar kölluðu löggjafa sinn á síðari hluta miðaldanna, en mynd þessi virðist hafa verið í bókinni frá upphafi. Aptr á móti hefir blað verið sett inn eptir fyrsta blaðið á sextándu öld, hèrumbil 1570, og ritaðr þar á síðari hluti Stóradóms, en fyrri hluti hans er ritaðr á fyrstu blaðsíðuna, sem auð var upphaflega. Á blað-

[1]) lavsar, skinnb.

inu, sem inn er skotið, hafa verið *lectiones*, eða sem menn kölluðu ræðíngar, á Latínu, með fornu letri, og hafa þær verið á blaðinu þegar því var skotið inn. — Á þriðja blaði byrjar Jónsbók, og nær til bls. 159, er það 77 blöð; þar er texti lögbókarinnar ritaðr í dálkum, og í upphafsstöfum eru víða myndir, sem lúta að efni laganna á þeim stöðum sem þær finnast. Í textanum eru víða settar inn rèttarbætr, og utanmáls eru einnig hèr og hvar ritaðar rèttarbætr og lagagreinir með nýjari hendi, sem virðist vera frá sextándu öld. — Eptir lögbókina fylgja þær þrjár rèttarbætr, sem eru elztar á meðal hinna íslenzku, sem er Eiríks konúngs 1294 og Hákonar konúngs tvær, frá 1305 og 1314 (bls. 159—170). — Þá skiptir um rithönd í bókinni, og tekr þar við önnur samtíða hönd, sem hefir ritað á einu blaði bókarinnar (bls. 171—172) ymsar forsagnir, svo sem um lögboðuíng ómaga, stefnur, kröfur og eiða, og er þar á enda hin fyrri deild skinnbókar þessarar, sem nú er merkt 157 A. í safni Árna Magnússonar. Á nöfnum, sem rituð eru hèr og hvar neðanmáls, og á öðrum skýrteinum, má sjá, að bók þessi hefir verið lengi á Seltjarnarnesi, og hefir verið eigandi hennar Jón Snjólfsson, sonr sira Snjólfs Einarssonar, sem var prestr í Seltjarnarnes þíngum 1660—1667; Jón lèt bókina uppí skuld til sira Einars Jónssonar (bls. 115 neðanmáls), og hefir sá sira Einar líklega verið kapellán, því nafn hans er ekki í prestatali. Síðan átti bókina Jón Ólafsson í Vík á Seltjarnarnesi (Reykjavík), en þar á eptir hefir hún komizt suðr í Voga, þángað til Árni Magnússon keypti hana af Nikulási í Vogum 1710 fyrir hálfan dal spesie (hálfa spesíu). — Hin önnur deild skinnbókarinnar, sem nú er kölluð 157 B, byrjar með Kristinrètti Árna biskups, og er hann ritaðr með sömu hendi og Jónsbók í hinni fyrri deildinni. Hann endar hèr með 32. kap. í útgáfu Thorkelíns (bls. 200), en á eptir fylgir okr-kapítuli (skinnb. bls. 44—46). — Á bls. 10—14 er ritaðr utanmáls alþíngisdómr um prófasts gjaftoll 1579 í ágripi með hendi frá þeim tíma. — Eptir það skiptir um hönd í bókinni, og tekr við sú, sem hefir ritað þrjú seinustu blöðin í fyrri deild bókarinnar (157 A, bls. 170—172). Þessi hönd hefir ritað allan síðara hlutann (bls. 46—94), og er þar fyrst rèttarbætr allmargar og nokkrar skrár lagalegs efnis; er fremst af þeim rèttarbót Magnús konúngs Eiríkssonar 1320 um kærur Norðlendínga, en síðan ymsar aðrar, án þess fylgt sè neinni tímaröð. Eptir þessa rèttarbót Magnús konúngs fylgja þrjár rèttarbætr Hákonar konúngs

háleggs, og hin fjórða sú, sem byrjar með orðunum: „Enginn skal annars gialda", og er hèr áðr færð á rèttan stað, til Hákonar konúngs Hákonarsonar (sjá bls. 646—658). Eptir þessa rèttarbót fylgir hèr rèttarbót Eiríks konúngs 1280 um sakarábera (bls. 49—51 í skinnbókinni), sem er ekki til Íslands, en hefir komizt inn í lagasöfn íslenzk og útgáfur lögbókar að nokkrum hluta; þá er rèttarbót Hákonar háleggs um hæitíngar, sem einnig er norsk að uppruna sínum, en komin síðan inn í íslenzk lagasöfn og lögbókar útgáfur. Næst henni kemr Gamli sáttmáli Íslendínga, sá er hèr fylgir (bls. 53 í skinnbókinni), og síðan enn nokkrar rèttarbætr Eiríks konúngs, Hákonar háleggs og Magnús Eiríkssonar, þó ekki í rèttri röð, en síðust þeirra er rèttarbót Hákonar háleggs: „þenna hátt hæfir sýslumönnum" o. s. frv. (bls. 61—64, sbr. Norges gamle Love III, 82—85). Þar eptir fylgir „Nöfn landa og fylkja, sem heyra undir konúngs fèhirzlu í Noregi" (bls. 64), og mun sú skrá vera hèrumbil frá 1350. — Á síðara hlutanum í skinnbók þessari er fyrst „Saktal úr lögbók Íslendínga" (bls. 64—84), þar á eptir kapítulinn „um byggíng konúngs jarða", sem skipaðr er í bók með rèttarbót Eiríks konúngs frá 1294 (bls. 84). Seinast eru Búalög (bls. 85—94) og er þarvið tengd grein: „um manneldi á fè manna", sem fylgir búalögum, og er þetta seinast í bókinni.

---

J [1] nafne faudr ok sonar ok heilax anda.

var tiad ok samþyckt af aullum almuga. ꝏ islande. ꝏ alþinge med lofa take.

ad uier biodum uirdulegum herra hakone konunge hinum koronada uora þionustu under þa grein laganna. er samþyckt er j millum konungdomsins ok þegnanna. þeirra er landit byggia.

1. Er su fyrsta grein ad uier uilium giallda konunge uorum skatt ok þingfarar kaup. slíkan sem laugbok uottar ok alla þegnskylldu suo framt sem halldin eru uid oss þau heit sem j mote skattinum uar iatad.

2. J fyrstu. at utan stefnur uilium uier aunguar hafa. utan þeir menn sem dæmder uerda af worum monnum af íslande a alþinge brutt af landinu.

---

[1]) upphafsstafr rauðr. Engin fyrirsögn.

3. Jtem ad islenzkir menn. sieu laugmenn ok syslu menn ꝏ islande. af þeirra ættum sem godordin hafa upp gefit ad fornu.

4. Jtem at hafskip. VI. gange ꝏ hueriu are. til landzenz forfalla laust.

5. Arfar skulu upp gefaz fyrir islenzkum monnum j norege huersv leinge sem stadit hafa þegar rietter arfar koma til eda þeirra umbods menn.

6. landaurar sku[lu] uppgefaz.

7. Jtem slikan riett skulu hafa islendzker men j norege sem þeir hafa beztan haft hier.

8. Jtem[1] at konungr late oss na íslenzkum laugum. ok fride epter þui sem laugbok. uottar. ok hann hefur bodit j sinum briefum. sem gud gefur honum framaz afl til.

9. Jarl uilium [ver] ok hafa. yfer oss medan hann helldr trunad vid ydur eñ frid uid oss.

10. hallda skulum uier ok uorer arfar allañ trunad uid ydr. medan þier ok ydrer arfar hallda uid oss. þessar sattar giorder. eñ lauser ef rofit er af ydare heñde. at beztra manna yfer syn.

---

## D.

Þessi afskript er prentuð eptir skinnbók í Árna Magnússonar safni, Nr. 456 í tólf blaða broti, sem rituð er hèrumbil 1480, og er henni lýst áðr (bls. 457—458). Þar er þess getið, að skinnbókin hefir þrjá kafla, er sá fyrsti þeirra ágrip af Jónsbókinni og safn af rèttarbótum, og er þessi „Gamli sáttmáli", sem hèr fylgir, einna seinastr í þeim kafla (bls. 82—83). Greinaskiptíngin og tölurnar við hverja grein er sett eptir því, sem áðr er gjört. — Í pappírshandriti einu, sem eg á og ritað er með hendi sira Jóns Erlendssonar í Villíngabolti (1632—1672), líklega fyrir Brynjólf biskup Sveinsson, er fylgt þessari skinnbók, nema að því leyti, að þar er lítill orðamunr, sem hèr er talinn og merktr J. E.

---

[1]) í skinnbókinni er hèr ritað: þn̄ (einsog ætti að vera: þann).

Sam[þykt] [1].

I nafni fodur og sonar og heilags anda.

var jad og samþykt af ollum almuga ä islandi ā alþingi med lófa taki.

at uær biodum uirduligvm herra hakone konungi hinum koronada uora þionuztu undir þa grein laganna er samþyckt er medal kongdomsins og þegnana þeirra er landit byggia.

1. Er su fyrsta grein ath vær vilium giallda kouungi skatt og þingfarar kaup slikan [2] sem logbok vottar og alla þegnskylldu suo framt sem halldin ero uid oss þau heit sem j mot skattinum uar jatad.

2. J fyrstv at utanstefnur uilium uær aunguar hafa utan þeir sem dæmdir verda af uorum monnum ä jslande ā alþingi burt af landinu.

3. Jtem at jslendzkir se logmenn og hirdstiorar og suo syslumenn ä landi voru af þeirra ætt sem at fornu hafa godordin upp gefit.

4. Jtem at .uj. hafskip gangi ä hueriu äri til landzins forfalla laust.

5. Arfar skulu upp gefazt fyri jslendzkum monnum j norigi hversv leingi sem stadit hafa þegar retter arfar koma til edur þeirra umbods menn.

6. Landaurar skulu upp gefazt.

7. Jtem slikan rett skulu hafa íslendzker menn j norigi sem þeir hafa beztan haft.

8. Jtem at konungr lati oss na islendzkum laugum og fridi eptir þui sem laugbok uor uottar og hann hefir bodit [3] j. sinum brefvm sem gud gefur honum afl til.

9. Jarl uilium uær og hafa yfir oss medan hann helldur trunad uid ydur en frid vid oss.

10. Hallda skulvm uær og uorir arfar allan trvnad uid ydur. medan þier og ydrir arfar hallda uid oss þessa sattar giord . en uær lausir ef rofin uerdr af yduari hendi at beztra manna yfir syn.

---

[1]) Fyrirsögn með rauðu letri. Upphafsstafr grænn. — Bref, fyrirsögn i *J. E.*

[2]) rétt. slíkt.

[3]) i skinnbókinni ritað «bodt», sem má reyndar lesa bæði boðat og boðit, en hèr er fylgt því sem venjulegast er, og svo les J. E. einnig.

## E.

Skinnbók sú, sem hèr er prentað eptir, er í safni Árna Magnússonar Nr. 151 í 4to. Bók þessi er nefnd stuttlega áðr, á bls. 560; hún er í breiðu átta blaða broti og er rituð snm um miðja fimtándu öld (hèrumbil 1450), en sumt í henni sýnist vera með ýngri hendi, hèrumbil 1490. Fyrstu blaðsíðurnar (1—3) hafa uppbaflega verið auðar, en síðan hefir verið ritað þar á, og ekki laungu síðar á fimtándu öld, hèraðsþíngs setníng og hèraðsþíngs uppsögn. Þar næst kemr aðalkafli bókarinnar, sem er Jónsbók (lögbókin) og nær frá bls. 4 til bls. 216. Það er einkennilegt við þessa bók, að þar er ekki kristindómsbálkr, og tekr við konúngs þegnskylda beint á eptir þíngfararbálki (bls. 19 í skinnbókinni). Það er og einkennilegt hèr, að kapítulinn um byggíng konúngsjarða er hèr annar kapítuli í landsleigubálki, og að hèr er kapítuli um kaldakol (bls. 108) sem ekki er í hinni prentuðu. Að öðru leyti eru rèttarbætr í textanum, stundum ómerktar, eða án þeirra skammstafana, sem vant er að einkenna þær með. Aptan við þjófabálk er hèr kapítuli um dóma um líf og limalát, og þar eptir allra seinast farmanna lög (201—216). Eptir Jónsbók fylgir Kristinrèttr Árna biskups (fyrirsögn: „Her befr upp hinn nyjara kristinrètt"), og tekr frá bls. 216 til 256; þar eptir fylgja nokkrar greinir, sem vanalega eru með Kristinrètti, og er bin seinasta þeirra um okr: „Það er okr" o. s. frv., og enda þær á bls. 259, er þar á enda elzta höndin, sem hèr er miðuð við 1450. — Þá fylgir þar næst annar kafli, sem er nokkur blöð (bls. 259—264), er þar fremst ritað, með hendi frá hèrumbil 1490, rèttarbót Hákonar konúngs frá 1306 eða þarumbil, um fèlagsgjörð bjóna, og þar á eptir alþíngis samþykkt 1404 um vinnufólk, með sömu hendi að sýnist vera, en þar á eptir er ýmislegt ritað með bendi frá sextándu öld. — Á þriðja kafla, sem er nokkur blöð, sýnist vera hönd frá hèrumbil 1470; þar eru á ymsar forsagnir, svo sem til sættar milli manna, eiða, stefnu og fjárkröfu; þar næst er kapítulinn um byggíng konúngsjarða og um bókar-eið o. fl. — Á fjórða kafla kemr enn fram sú bin fyrri hönd, sem hèr er tíðfærð til 1490, og er rituð með þeirri hönd bin svokallaða Herjólfs rèttarbót 1318 (bls. 276), þar næst reglugjörðin um ljóstollagjald: „Eindagi á ljóstollum" o. s. frv. (bls. 277), og eptir það Gamli sáttmáli, sá er hèr fylgir eptir (bls. 278). Á næstu blaðsíðu er

brèf Vilhjálms kardínála 1247 um helgidaga leyfi (bls. 279, sbr. hèr fyrir framan bls. 560), og er sú skrá seinast í bókinni, því á seinustu blaðsíðu (280) er ekki ritað annað en ómerkr hègómi. — Að öðru leyti er það um bók þessa að segja, að hún er komin austan úr Fljótsdalshèraði, því seinast á seytjándu öld hefir hún verið í eigu sira Bjarna Einarssonar, sem var prestr undir Ási í Fellum (1683—1729), af honum fèkk hana Jón biskup Vídalín, en Árni Magnússon af Jóni biskupi 1706, og hefir hún síðan verið í safni hans. Þar sem hèr er sett greinatala, þá er það til þess að gjöra mönnum hægra fyrir að bera saman við sáttmálann eptir öðrum handritum, sem hèr eru hagnýtt.

---

J nafni favdr. og sonar og anda heilax.

var jád og samþykt af avllvm . almvga ꜵ jslandi ꜵ alþingi med lofa taki

at ver biodvm virdvligvm herra hakoni konvngi hinvm koronada vora þionvzstv. vnder þꜵ grein laganna er samþykt var medal kongdomsens og þegnanna . þeirra er landid byggia.

1. Er sv fysta grein . at vier vilivm giallda konvngi skatt og þingfarar kavp efter þvi sem lavgbok vottar og alla þegnskylldv. svo framt sem halldin erv vid oss þav heit sem i moti skattinvm var iad.

2. J fystv at vtan stefnvr vilivm vier avngvar hafa . vtan þeir sem dęmder verda af vorvm monnvm ꜵ islandi ꜵ alþingi. j bvrt af landid.

3. Jtem at islenzdskir sie lavgmenn og syslvmenn ꜵ landi vorv . af þeirra ętt sem at fornv hafa godordin vpp giefit.

4.[1] Jtem sakir navdsynia landzins og fatęktar folksins er landid bygia villdvm vier eiga at nꜵ þvilikvm skipa gangi hingat j landit og þeim gotzsvm hladin . sem landenv erv nyttilig og almvganvm þarflig og hier kvnna ekki at fazst. epter þui sem iatat var þessvm ꜵrlega skipa gangi forfalla lavst.

---

[1]) Þessi grein er breytt í skinnbókinni, og löguð eptir sáttmálanum frá 1302.

5. arfar skvlv vpp gefazst fyrir jislendzkvm monnvm j noregi hversv leingi sem stadid hafa þegar retter arfar koma til edr þeirra vmbodsmenn.

6. landavrar skvlv vpp gefazst.

7. slikan Riett skvlv hafa islendzskir [menn] j noregi [sem þeir hafa[1] beztan haft.

8. Jtem at konvngr [lati] oss nœ islendzkvm lavgvm og fride efter þvi sem lavgbok vor vottar og hann hefir bodid i sinvm brefvm . sem gvd gefr honvm framazt avfl til.

9. jall vilivm ver og hafa yfer oss medan hann helldr trvnad med ydr . eñ frid vid oss.

10. hallda vilivm vier og vorer arfar allañ trvn[a]d vit ydvr medan þier og ydrer arfar halldit vid oss þessa sęttar giord . eñ lavs er ef rofin verdur af ydari hendi . at bezstv manna yfir syn[2].

---

## F.

Hèr er prentað eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar Nr. 168 B. í 4to. þessi skinnbók er nú í tveim deildum, og eru merktar A og B, en hafa báðar verið upphaflega ein bók. Aðalkaflar bókarinnar hafa verið Jónsbók og Kristinrèttr Árna biskups, og hefir Árni Magnússon kallað þessa bók „gott gamalt exemplar". Hann fèkk bókina frá Andrèsi Gíslasyni í Aðalvík, en áðr hafði átt hana Jón bóndi Ólafsson á Slèttu í Jökulfjörðum, sem bjó á Hesteyri 1710, og hafði bókin verið í eigu hans um 40 ár. það var munnmælasögn, að Ormr lögmaðr Sturluson hefði ritað þessa bók, en sá Ormr lögmaðr lifði, einsog kunnugt er, um miðja sextándu öld, þar sem höndin á þessari bók ber með sèr, að hún

[1]) tvítekið í skinnb.

[2]) hèr er bætt við sem niðrlagi greininni úr alþingis-samþykkt 1265:

Jtem þær konvr sem osæm[d]ar erv af lavsvm monnvm . skvlv eigi gefa fie ne peninga til frelsis þeim er þær osæmdi til osæmdar sinvm avrfvm.

Líklegt er, að þetta sé svo til komið, að þar hafi vantað blað eitt eða fleiri í forna skinnbók, sem ritað hefir verið eptir, og hafi ekki skrifarinn tekið eptir því.

sè ekki minna en 200 árum eldri. Thorkelin vottar, að stafsetníngin sè svipuð einsog á skinnbókinni Nr. 350 Fol. í safni Árna, sem er rituð 1363. Það væri því sennilegra, að tilhæfi til þessarar munnmæla-sagnar væri, að Ormr lögmaðr Snorrason hefði ritað bókina, því hann var uppi hèrumbil 1360 (lögmaðr 1359—1368 og 1374—1375, sjá Safn til sögu Íslands II, 63 og 69), og hafi bókin síðan komizt vestr í fjörðu, líklegast með Bjarna Narfasyni snemma á sextándu öld.

Fyrri partr bókar þessarar (168 A) hefir nú 62 blöð eða 124 blaðsíður, og er þar á rituð Jónsbók (bls. 1—117), sem er meðal hinna merkilegustu, en vantar í einstaka blöð á nokkrum stöðum. Þar eru engar rèttarbætr í texta, en skotið inn kapítulum um bygging á konúngsjörðum (landslb. 2), um kaldakol (landslb. 8), um tveggja missera vinnumenn (við kaupab. 25) og um búreisnarfè (á sama st.), einnig um þíng um líf og limalát (seinast í þjófabálki). Eptir Jónsbók fylgja rèttarbætr þær þrjár, sem vant er að skjóta inn í textann á ymsum stöðum (frá 1294, 1305 og 1314), en engin þeirra er hèr heil, vegna þess þar eru týnd blöð úr skinnbókinni, verðr því ekki með vissu sagt, hvort þar hafi fylgt fleiri rèttarbætr eða eigi, en svo virðist sem það hafi þó ekki verið.

Síðari partr bókarinnar (168 B) heldr einúngis 15 blöð, og eru ellefu af þeim með fornu hendinni, en fjögr með nýjari höndum, sín tvö með hvorri, hèrumbil frá 1490. Þau blöðin, sem eru með elztu hendinni, hafa Kristinrètt Árna biskups, heilan að framan, en síðan í brotum, af því blöð eru týnd úr bókinni, og seinast vantar síðara hlutann allan, frá því í 28. kap. (Thorkelíns útg. bls. 176). Thorkelín hefir haft fyrir sèr þetta handrit við sína útgáfu, og kallar það stundum 54, en í formálanum stendr 1686, og er það prentvilla fyrir 168 B. — Seinustu blöðin fjögr í þessu hepti, sem fyr var getið um, eru í nokkru stærra broti; tvö af þeim eru rituð með stórfeldri hendi, hèrumbil 1490, og er þar á: 1, Gamli sáttmáli, sem hèr fylgir eptir (bls. 23—24); — 2, statúta Magnús biskups Eyjólfssonar í Skálholti 1479 (bls. 24—25); — 3, rèttarbót Magnús konúngs Eiríkssonar (1332?) um hlýðni við kirkjuna og hennar formenn, með rèttarbót Hákonar konúngs Magnússonar: „þenna hátt hæfir sýslumönnum" o. s. frv., og vantar aptanaf (bls. 25—26). Á seinustu blaðsíðunni í þessum kafla stendr nafnið Bjarni Narfason (bls. 26 neðanmáls); það nafn er

ritað með sömu hendi og þessi tvö blöð (bls. 23—26), og gæti átt við um Bjarna son Narfa ábóta Ívarssonar á Helgafelli (1512 og þar eptir). Þessi Bjarni[1] átti Sigríði, dóttur Bjarnar Guðnasonar í Ögri, og var mikilhæfr maðr (sbr. Espól. Árb. III, 53). Höndin líkist nokkuð múnkaletri, og má þar af ráða, að hann hafi lært hjá föður sínum á Helgafelli, því Narfi ábóti var kallaðr góðr klerkr og hèlt skóla við klaustr sitt. — Hin síðustu tvö blöðin (bls. 27—30) eru rituð með smærri hendi og fallegri stafagjörð, einnig hèrumbil 1490; þar er rituð arftöku-rèttarbót Hákonar konúngs (1313), sem ekki er útgefin til Íslands í fyrstu, og þareptir ymsar forsagnir um kröfur, stefnur, kyrsetníng og fleira, og sýnist svo, sem þessar forsagnir hafi verið seinastar í bókinni.

---

J nafne faud[u]r ok sonar ok anda heilagx.

var þetta jatad ok samþygt af aullum almuga a jslandi med lofa takj.

Vær biodum uirdulignm herra hakone konungi hinum korunada vora þionuzstu undir þa grein laganna sem [sam]þygt er mille konungdomsins ok[2] þegña er landit byggia.

1. J fystu grein at vær uilium giallda konungi skatt og[3] þing farar kaup sem logbok vottar og alla þeng[4] skylldu so framt sem halldit er uid oss[5] þat er j moti var jatad skatinum.

2. J fyrstu at vtan stefningar vilium vær aunguar hafa utan þeir menn sem dæmder verda af uorum monnum a alþinge burt af landinu.

3. Jtem[6] at jslenskir se log menn og syslu menn hier ꝏ landinu af þeirra ættum sem godordin hafa upp gefit.

4. Jtem at VI. hafskip gangi til landzins ꝏ hueriu ari forfalla laust.

5. Erfder skulu upp gefazt fyrir jslenskum monnum j noregi. huerssu leinge sem stadit hefir þegar retter erfingiar koma til edr þeirra vmbods menn.

---

[1]) í kirkjusögu Finns biskups (IV, 74) er hann kallaðr Björn á einum stað, en á öðrum (IV, 357) rèttilega Bjarni.

[2-4]) þannig í skinnbókinni (ok-og-þeng).

[5]) Þt, b. v. skb. (einsog væri: því at)

[6]) Þr m, b. v. í skb. og dregið strik í.

6. Landaurar skulu upp gefazt.

7. Jtem skulu islensker menn hafa jnoregi slikan Rett sem þeir hafa beztañ haft.

8. Jtem at konungr late oss nꝏ fride ok jslenskum logum epter þui logbok uor wottar ok[1] hann hefir gefit og[2] bodit j sinum brefum sem gud gefur honum framazt vit til.

9. Jtem jarl uilium ver hafa yfer [oss] medan hann[3] helldr trunadi uid ydr. Eñ frid uid oss.

10. Hallda skulu vær ok worer arfar allan trunad uid ydr medan þier ok ydrer arfar halldit trwnad wit oss ok þessar sættar giorder. Eñ laust ef Rofnar uerda af yduare alfu at beztu manna yfer syn.

---

## G.

Hèr er prentað eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar Nr. 128 í 4to. Árni Magnússon hafði fengið þessa bók frá sira Jóni Jónssyni í Garpsdal 1705, og gaf henni þann vitnisburð, að hún væri „eigi rètt gömul". Þó er hún rituð á síðara hluta fimtándu aldar, og líklega hèrumbil 1490, en sumt er ritað síðar, fram undir 1600. Alls er bókin nú 234 blaðsíður eða 117 blöð, og hefir fyrsta blaðsíða verið auð frá upphafi, en á annari blaðsíðu byrjar Jónsbók, og tekur yfir bls. 2—142. Á næstu blaðsíðunum eru nokkrar smágreinir lagalegs efnis, svosem um vitafè, alþíngis samþykktin um melrakkaveiðar og fleira (bls. 142—144). Þar á eptir kemr flokkr mikill af rèttarbótum Norvegs konúnga, frá 13. og 14. öld, eru sumar þeirra til Íslands, en allflestar þær, sem upphaflega hafa verið norskar, en teknar síðar í hin íslenzku lagasöfn. Í þessum flokki er rèttarbót Hákonar konúngs Hákonarsonar um óbótamenn og um rannsóknir (sbr. bls. 651), og er hún hèr á meðal rèttarbóta Hákonar konúngs Magnússonar (bls. 157—158). Í þessum flokki er einnig alþíngis-samþykkt um vinnufólk, sem var samtekin á alþíngi ár 1404, og er hún hèr rituð á tveim stöðum

---

[1-2]) þannig ýmist ok eða og með fullum stöfum. [3]) tvískrifað í hdr.

(bls. 145 og 165) en á bls. 164 er ritaðr Gamli sáttmáli, sá er hèr fylgir eptir.

Eptir þetta fylgir kafli í skinnbókinni, bls. 165—172, og eru þar á þeim blöðum ritaðar allmargar forsagnir, sem vant er að fylgi lögbókum, svosem um kröfur og stefnur, griðsetníngar, þíngsetníng og þíngs uppsögn, og fleira, seinast er þar rituð lögfesta til jarðar með nýjari hendi (hèrumbil 1570) og úrskurðr Þórðar lögmanns Guðmundarsonar 1587.

Þá er hinn þriði kafli í bókinni, sem hefir nokkuð úr Hirðskrá, úr Járnsíðu upphafið, og Kristinrètt Árna biskups (bls. 191—218), auk þess sem þar er merkilegr þáttr um tíundargjaldið, með lagaskipunum þeim, sem um það hljóða í Kristinrètti Árna biskups (bls. 174—175. 182—185), og annar þáttr um „lag á peníngum", sem einnig er merkilegr (bls. 175—182. 185—187). Það sem er þar á eptir er flest ritað með nýjari höndum, en þó fyrir 1600 eptir því sem er að sjá. Elzt er „áminníng til dómara" (bls. 220), sem sýnist vera rituð um eða nálægt 1500, en með annari hendi, seint á sextándu öld, er ritað: 1) alþíngis samþykkt um ljóstoll, hin elzta; 2) Dómr Stepháns biskups um heytolla 1510; 3) Dómr Nikulásar sýslumanns Björnssonar um skaðræði á hesti (1577?); en mest rúm í þessum kafla tekr „innihald kapítula lögbókar" (bls. 221—229) og „tíundar tal" (bls. 230—231), sem er seinast ritað í bók þessari. — Um miðkafla bókarinnar (bls. 159—188) eru ritaðir málshættir eða spakmæli hèr og hvar, og seinast gáta (bls. 233), en í fyrsta kaflanum (bls. 69 neðanmáls) er ritað rúnastafrof og villuletr. Sum blöðin, einkum í seinasta hluta bókarinnar, eru uppskafníngr úr fornum latínugrallara.

Að lyktum er vert að geta þess um skinnbókina, að fyrst og seinast í henni stendr eiganda nafn „Andres Magnússon"; það gæti verið sá hinn sami, sem var heimamaðr í Skálholti á dögum Marteins biskups, og var sendr af staðnum til að njósna um ferðir Jóns biskups þegar hann gjörði heimreiðina í Skálholt og tjaldaði á Fornastöðli; sá hinn sami Andrès hefir ort kvæði um ferð Jóns biskups, sem enn er til og prentað í Biskupasögum (II, 478—484), en síðan var hann lögrèttumaðr og bjó í Ölfusi (Espól. Árb. IV, 32). Það er til líkinda um, að þessi Andrès sè hinn sami, að hinar nýjustu skrár, sem á bókinni eru ritaðar, eru að sunnan, svosem dómr Nikulás Björnssonar, sem var sýslumaðr í Rángárvalla sýslu og Árness sýslu († 1600), en þó bókin væri komin

vestr í Gilsfjörð hundrað árum síðar getum vèr ekki furðað oss á, þegar vèr vitum hvernig bækur og handrit hafa á stundum flækzt hèraða á milli á Íslandi.

---

[1]J Nafne fodur og sonar og heilags anda.

var jatad og samþygtt af ollum almvga á jslandi . á alþingi med lofa take so felldur giorningr.

at vier biodum og jatvm virdvlegum herra Hakone kongi hinum koronada vora þionostv . vndir þa grein lagana sem samþygt er medal kongdomsens og þegnana . þeirra er landit bygia.

1. Er sv hin fyrsta grein . at vier vilivm giallda kongi skatt og þingfarar kavp . slikan sem logbok vottar . og alla þegna skylldu . so framt sem halldin ero vit oss þav heit . sem j mote skattenum var jatad og lofad.

2. Jtem j fyrstv at vtan ferdir vilivm vier öngar hafa . vtan þær sem dæmdar verda af vorvm monnum á jslandi á alþingi burtt af landinv.

3. Jtem at Jslendzkir sev laugmenn og syslv menn á landj vorv. af þeirra ætt sem at fornv hafa godordin vpp gefit.

4. Jtem at . vj hafskip gangi á hveriv are til landzens forfalla lavst.

5. Arfar skulu upp gefazt fyrir jslend[z]kvm monnum j noregj. hversv leingi sem stadit hafa . þegar retter arfar koma til . eda þeirra vmbodz menn.

6. Landavrar skulv vpp gefazt.

7. Slikan rett skulv hafa jslendzker menn j noregi . sem þeir hafa bestan haftt.

8. Jtem at kongr late oss na jslend[z]kvm logvm ok fride . eptir þui sem lavgbok vottar . og hann hefur bodit j sínvm brefvm epter þvi sem gud gefur honum framazt afll til.

9. Jalla vilivm vier hafa og yfer oss setia . medan þeir halda trvnad vit oss og ydur.

---

[1]) eyða fyrir fyrirsögn og upphafsstaf. Lítill upphafsstafr utanmáls.

.10. Svo vilium vier . þetta hallda . med ydur . oc̄ medan þier og ydrer arfar hallda vit oss . þessa sattar giord. En vier med ollv lavser. ef rofin er. eda rofin verdur af ydvare hendj. at bestv mana vitne og yfer syn.

valete . Finitvm est.

---

H.

Í handritasafni greifa Otto Thotts, Nr. 2101 í 4 bl. broti, sem er í konúngs-bókhlöðuuni í Kaupmannahöfn, er skinnbók í litlu fjögra blaða broti, rituð seint á fimtándu öld, eða hèrumbil 1490. Upphafsstafir eru þar með ymsum litum, og málið sjálft ritað í heilum línum, en ekki í dálkum. Bókin er alls 252 blaðsíður, eða 126 blöð.

Hèr og hvar eru pappírsblöð heil og sumstaðar límt á og skrifað inní á 17du öld; má það sjá, að bókin hefir verið í Steingrímsfirði um 1660, og hefir þá átt hana Ögmundr nokkur Bjarnason. — Á skinnbók þessari er fyrst rituð Jónsbók, með innskotnum rèttarbótum, líkt og vant er að finna í flestum handritum þessarar lögbókar. Þar næst eru sextán rèttarbætr, sumar heilar en kaflar úr sumum, eru elztar frá Magnúsi Hákonarsyni (lagabæti) og sonum hans, en þó ekki í tímaröð. Þær eru allar hinar venjulegu, nema sú hin önnur í röðinni, sem er eignuð Hákoni Magnússyni (hálegg) og er um kristindómsrètt, alþíngisnefnu og ómaga, og er sagt hún sè gjör í Túnsbergi á Jónsvökudag á sjötta ári ríkis Hákonar konúngs (24. Juni 1305), og „send með Jóni lögmanni á VI. ári ríkis vors herra"; ætti hún því samsumars að vera send út til Íslands með Jóni lögmanni Einarssyni, en hann andaðist á næsta ári eptir (1306). Rèttarbót þessi er prentuð aptan við Lögsögumannatal í Safni til sögu Íslands II, 166—168, og er niðrlag hennar og það sem eptir fylgir ritað á pappírsblöðum á seytjándu öld. Yngst af rèttarbótunum er brèf Kristjánskonúngs annars um staðfestíng rèttarbóta Hákonar konúngs, en allra seinast í röðinni er rèttarbótin „um forkaupsrètt konúngs", sem prentuð finnst í öllum útgáfum Jónsbóka. — Næst eptir rèttarbætrnar fylgir „Gamli sáttmáli", þannig sem hann er hèr prentaðr (bls. 240), þar á eptir Píníngsdómr hinn fyrri (1489) um tíundir o. fl., og seinast alþíngis samþykkt um vinnufólk (1404). Aptast í bókinni er brot af registri lögbókar, rituðu hèrumbil um árið 1600, og vantar þar framan af til þess í mannhelgi, en hitt er þar heilt,

sem eptir er. Greinatala er hèr í þessu handriti sett við, og látum vèr hana halda sèr, en af því hún er ekki allskostar samhljóða þeirri, sem hèr er allstaðar fylgt, þá er þessi sett í svigum, svo hver einn geti fylgt henni, og borið saman þessa afskript við hinar.

---

Gamli sättmali a millum Norex kongs
og Jslendinga[1].

J nafne fodur og sonar og anda heilax.

var jatad og samþyckt af ollum almwganum a Jslande med löfa take

ad vær biodum virduglegum herra Hakoni kongi hinum köronada vora þiönustu vnder þa grein lagana er samþyckt er medal kongdomsins og þegnanna þeirra er landid biggia.

(1). 1. Er sw firsta grein ad vier vilium giallda kongi skatt og þyngfararkaup, slykañ sem logbok vottar, og alla þegnskylldu so framt sem halldiñ er vid oss þau heit . sem i möt skattinum var jatad.

(2). J firstu ad utañ stefnur vilium vier öngvar hafa, utañ þeir sem dæmdir verda af vorum monnum a Jslandi a alþynge burt af landinu.

(3). 2. Jtem Jslendsker sieu logmenn og so syslumenn a lande voru, af þeirra ætt sem ad fornu hafa Godordiñ uppgiefid.

(4). 3. Jtem ad VI hafskip gange a huoriu äri til landsins forfallalaust.

(5). 4. Arfar skulu uppgiefast i Noregi firir Jslendskum monnum, huorsu leingi sem stadid hafa, þegar riettir arfar koma til edur þeirra umbodzmenn.

(6). Landaurar skulu þeim og uppgiefast.

(7). 5. Jtem slykañ riett skulu hafa Jslendskir menn i Noregi sem þeir hafa bestañ haft.

---

[1]) „sa gamle sättmäle mille Noregs kongs og Jslendijnga hveriu jätad var i möte skattinum". Þannig er ritað í registri bókarinnar aptast, sem ritað er 1600 eða þarumbil.

(8). 6. Jtem ad kongur läti oss na Jslendskum lögum og fride, epter þui sem vor logbök vottar, og hann hefur bodid í synum Briefum, sem Gud giefi honum afl til.

(9). 7. Jarl vilium vier og hafa yfir oss, medan hann helldur trunad vid ydur [og frid vid oss

10. Hallda vilium vier og vorir arfar allan trunad vid ydur[1], medan þier og ydrir arfar hallda vid oss þessa sättargiord. eru vær lauser ef rofiñ verdur af ydvari hendi ad bestra manna yfirsyn.

---

I.

Þessi afskript gamla sáttmála er prentuð eptir lögbók Snjólfs Rafnssonar, sem var sýslumaðr austr í Múlaþíngi um 1500, og er sú skinnbók venjulega kölluð Arnarbælis bók, af því hún var um hríð í Arnarbæli í Dala sýslu. Henni er lýst allgreinilega hèr áðr, við tíundarlög Gizurar biskups frá 1096 (bls. 128—133) og get eg vísað hèr til þeirrar lýsíngar. Þar er þess getið, að bók þessi er í safni Árna Magnússonar Nr. 135 í 4to, og að hún virðist vera rituð að mestum hluta hèrumbil 1380. Þessi hinn forni kafli nær frá bls. 8 í bókinni til bls. 210, en nokkur blöð bæði fyrir framan og aptan þenna elzta kafla eru rituð með nokkru nýjari hendi, frá fimtándu öld; það eru bls. 4—7 og 211—213. Á þessum kaflanum er smá hönd og skýr, eigi mjög bundin, og ritar í tveim dálkum með 37 línum á blaðsíðu, þar sem elzti kaflinn hefir ekki nema 27 línur á blaðsíðu. Í þessum kafla eru ritaðar rèttarbætr, forsagnir (*formulæ*) til stefnu, eiðstafs og fl. og seinast gamli sáttmáli, svo sem hann er hèr prentaðr (bls. 213 í skinnbókinni); höndin á honum sýnist vera ekki ýngri en frá 1500, en gæti verið nokkru eldri. Enn eru kaflar í þessari bók, sem eru síðar ritaðir, en sem ekki er þörf að lýsa hèr ítarlegar, þareð þeir koma ekki þessu máli við. Greinatalan stendr ekki í skinnbókinni, en henni er bætt hèr við eptir sömu reglu sem fylgt hefir verið hèr áðr í niðrskipun gamla sáttmála.

---

[1]) orðin frá [ eru fallin úr í handritinu.

Samþykkt[1].

J Nafni fodr og sonar og heilags anda.

var þetta jatad og samþykt af ollum almuga a Jslandi . med lofa taki.

ver biodum virdulegum herra hakoni konungi hinum korunada vora þionustu vnder þa grein laganna sem samþykt er millum kongdomsins og þegnanna er landit byggia.

1. J fyrstu grein at ver vilium giallda kongi skatt og þingfarar kaup sem logbok vottar og alla þegnskylldu svo framt sem halldit er vid oss þat moti var jatat skattinum.

2. J fystu at vtan stefningar skyldu ver önguar hafa . vtan þeir menn sem dæmdir verda . af vorum monnum a alþingi burt af landinu.

3. Jtem at Jslendskir se logmenn og syslumenn her a landinu af þeirra ætt sem at fornu hafa godordin vpp gefit.

4. Jtem at vj hafskip gangi a hueriu ari til landzins forfalla laust.

5. Erfdir skulu vpp gefazt fur jslendskum monnum j noregi huersu leingi sem stadit hafa þegar Rettir arfar koma til edr þeirra vmbods menn.

6. Land aurar skulu og vpp gefazst.

7. Jtem skulu slikan Rett jslendskir menn hafa j noregi sem þeir hafa bezstan haft.

8. Jtem at kongr lati os na fridi [ok] jslendzskum logum eptir þui sem logbok vor vottar og hann hefir bodit j sinum brefum sem gud gefur honum framazt vit til.

9. Jtem jall vilium ver hafa yfir oss medan hann helldr truna[d] vid ydr en frid vid oss.

10. hallda skulu ver og vorir arfar allan trunad vid ydr medan þer og ydrir arfar halldit trunad vid oss og þessar sættar gerdir . en lausir ef Rofinn verdr af ydari hendi . at bezstu manna yfir syn

sed libera svo læt ek vera[2].

---

[1]) í skinnbókinni með rauðum stöfum skammstafað: samþ'.

[2]) Þannig í skinnbókinni frá [. —Meiníngin er óljós, kann þó vera að hún sè sú, að skrifarinn vili vera laus og hætti þar, og ekki er neitt þar fyrir aptan í skinnbókinni með þessari hendi.

## K.

Meðal þeirra handrita, sem smásaman hafa bætzt við safn Árna Magnússonar, kveðr einna mest að því, sem komið er frá Magnúsi Stephensen í Viðey; þau handrit eru einkum lagalegs efnis, og eru alls að tölu 78. Meðal þessara handrita er Nr. 13 bindi í fjögra blaða broti með safni af rèttarbótum, ritað með ágætri settletrs hendi 1715, sem titilblað bókarinnar sýnir, er svo hljóðar:

„Rettarbætur Noregs konunga, utgefnar fra þvi er Jsland var Hakone konunge jatað og svarið a Auxarar þinge Anno Christi MCCLXII, og til þess er andaðist Christophor konungur af Bayren Anno Christi MCCCCXLviij þann 5. Januarij. — Að framan eru skrifaðar tvær Rettarbætur Wilhialms cardinala gefnar Noregs Rike MCCXlvij.

Samanlesnar og ritaðar i þessa Bok epter þeim exemplaribus sem best hafa tilfeingest. Anno Christi MDCCXV".

Fremst á þessari bók er gamli sáttmáli, sem hèr fylgir, og er þetta fyrir framan ritað með sömu hendi sem á bókinni er: „Gamle Sattmäle a mille Noregs konungs og Jslendinga. Epter membrana, sem skrifuð mune nær 1500 eðr litlu fyrr". Þar á eptir kemr „sami sattmali eptir annari membrana, skrifaðre laust fyrir Reformationem" (bls. 2—4), og fylgir honum „Eiður Íslendinga epter Chartis Jons Magnussonar[1], en hann skrifaði eptir hendi föður sins Magnus Jonssonar, favður Assessor Arna Magnussonar". Eptir sáttmálana koma fyrst rèttarbætr Vilhjálms kardinala um helgidaga vinnu og um tíundir, því næst lagagreinir úr Járnsíðu, og rèttarbótaskrá Hákonar konúngs, og er það allt talið með rèttarbótum hans (bls. 13—22). Þar eptir er rèttarbótaskrá Magnús konúngs Hákonarsonar, og sættargjörð hans við Jón erkibiskup, fyrst á Latínu og síðan á Norrænu m. fl. (bls. 23—128). Síðan er safn af rèttarbótum Eiríks konúngs og annara konúnga eptir hann, og seinast (bls. 380) rèttarbót frá „Christoffer Danmarkis Norgis Suergis konning palatz greffue paa Rijnn hertog vdi bremen [*Beijeren*]", gefin út í „Hamborsund" (rètt: Hornborusundi í Noregi) á Margretarmessu (= 13. Juli) 1442. Þessi

[1]) Þ. e. Jón bróðir Árna Magnússonar.

rèttarbót bannar öll rán og reyfaraskap í Noregs ríki, en ekki hefir hún verið talin gild á Íslandi.

Eptir rèttarbótasafnið fylgir yfirlit yfir rèttarbætrnar í safni þessu, með ártali og stuttu innihaldi efnisins, því næst „Index rerum et verborum" og seinast áraröð Noregs konúnga eptir Hákon gamla Hákonarson, samin af Árna Magnússyni og tekin eptir hans eiginhandar riti. Þessa kafla bókarinnar hefir Magnús Stephensen látið rita, og eru þar að auki athugagreinir eptir hann utanmáls víða í bókinni, því hann hefir haft hana mjög sèr við hönd þegar hann átti við rèttarbætrnar.

---

Gamle sattmäle a mille Noregs konungs
og Jslendinga.

I nafni fǫður ok sonar ok anda heilagx.

war med þessu jatad ok samþyckt skattgialldi afh Jslandi vnder noreges kruno afh almuganum med lofa taki a alþingi eñ aungu audru:

Vier biodum virduligum herra hakone konungi hinum koronada uora þionuzsto vnder þa grein laganna sem samþyckt er mille konungdomsins ok þegnanna er landit byggia.

1. J fysto grein ath vier uilium giallda konungi skatt ok þingfarar kaup sem logbok vottar ok alla þegnskylldu suo framt sem halldit er uit oss þat a moti war jatad skattinum.

2. J fijsto ath vtan stefníngar skylldum uier aunguar hafa vtan þeir menn sem dæmdir uerda af uorum monnum a alþingi burt af landinu.

3. Jtem ath jslendzkir se laugmenn ok syslumenn hier a landinu af þeirra ætt sem ath fornu hafa godordin uppgefit.

4. Jtem ath sex hafskip gangi a hueriu are til landzins forfallalaust.

5. Erfdir skulu uppgefazst fyrir Jslendzkum monnum j noRegi huerso lengi sem stadit hafa þegar rietter arfar koma til edr þeirra umbods menn.

6. Landaurar skulu ok vppgefazst.

7. Jtem skulu jslendzkir menn slikan riett hafa i noregi sem þeir hafa adr beztañ haft.

8. Jtem ath konungr lati oss na fridi ok islendzkum

laugum epter þui sem laugbok uor uottar ok hann hefir boðit i sínum brefum sem gud gefur honum framazst uit til.

9. Jtem Jarll uilium uier hafa yfir oss medan hann helldr trunad uit ydr eñ frid uit oss.

10. hallda skulum uier ok uorer arfar allan trunad uit ydr medan þier ok ydrer arfar hallda trunad uit oss ok þessar fyrskrifadar sættargerdir. Eñ lauser ef rofin uerdr af yduare halfu ath bezstu manna yfersyn..

---

## L.

Hèr er gamli sáttmáli prentaðr eptir skinnbók Nr. 129 í 4to í safni Árna Magnússonar. þessi bók er ekki forn, og varla fyr rituð en hèrumbil 1570, en hún er rituð eptir fornum bókum, og þessvegna hefir Árna Magnússyni þótt allmikið til hennar koma. Um sögu hennar vita menn ekki glöggvara en það, að hún er komin vestan af Barðaströnd, halda menn að hún hafi þar verið í eigu Einars Gunnlaugssonar á Rekstöðum, sem var uppi um aldamótin 1700, en faðir þessa Einars var Gunnlaugr prestr að Stað á Reykjanesi, sonr Snorra bónda á Varmalæk, Ásgeirssonar prests að Lundi, Hákonarsonar, Björgólfssonar, þorkels sonar vellíngs frá Fitjum í Skoradal. Bók þessi gæti því hæglega verið komin sunnan úr Borgarfirði í fyrstu. Ari þorkelsson í Haga, sýslumaðr í Barðastrandar sýslu (1695—1707) átti bók þessa um tíma, hjá honum fèkk hana Jón biskup Vídalín, en Árni Magnússon síðan frá biskupinum. Bók þessi er heil og ósködduð, og er 304 bls. alls eða 152 blöð, að stærð sem í litlu fjögra blaða broti, en hálf hin seinasta blaðsíðan er auð, og sýnir það að ekkert muni vanta.

Hèr er fyrst rituð Jónsbók (bls. 1—281), og er það einkennilegt, að hèr eru engar rèttarbætr settar inn í lögbókina að framanverðu, fyr en kemr fram í Mannhelgi, en þegar lengra kemr fram í lögbókina eru fleygaðar inn rèttarbóta greinir, sumar með venjulegu einkenni, en sumar einkennislaust, en aldrei eru aðrar rèttarbætr fleygaðar inn en þær, sem vant er að fara svo með. Á þessu má ráða, að Árni Magnússon hefir rèttilega getið þess, að bók þessi sè af fornum rótum runnin. það er eitt merki

þartil, að í Mannhelgi 27. kap. standa óhögguð þau orð, sem upphaflega hafa staðið í bókinni: „ekki skal at skáldskaparmáli ráða", og voru tekin úr með rèttarbót Eiríks konúngs Magnússonar 2. Juli 1294 § 43[1]. Fleiri rök mundi mega finna, ef nákvæmlega væri leitað, til þess, að handrit þetta muni eiga kyn sitt að rekja til hins upphaflega texta Jónsbókar á sumum stöðum.

Eptir lögbókina koma nokkrar rèttarbætr, og er fyrst rèttarbót Magnús konúngs Hákonarsonar um óbótamál, en þar næst tvær rèttarbætr Eiríks konúngs frá 1280, önnur um sakarábera og önnur um presta sem hafa prófastsdæmi o. s. frv. Þessum rèttarbótum fylgir vísa með samtíða hendi (frá hèrumbil 1750), og er hún svo einkennileg, að hún er setjandi í lýsíngu bókarinnar; hún er þannig (bls. 286):

Sáttmóðugur svaraði mèr
og sitt tók mál að herða:
að lögbók mundi á landi hèr
að litlum notum verða.

Undir vísu þessari er nafn skammstafað I. M. S. (Jón Magnússon?), og þar neðanundir tveir þríhyrníngar bundnir saman í hnút.

Á næstu blaðsíðu koma enn rèttarbætr, og er einskonar fyrirsögn fyrir þeim: „Riettarbætur lögteknar". Þetta er eptirtektar vert orðatiltæki, því það mun líklega eiga að tákna, að sá sem ritað hefir hafi vitað, að þær þrjár rèttarbætr, sem áðr voru komnar og næstar eru lögbókinni, hafi verið ekki lögteknar, og þetta er rètt, að engin þeirra hefir verið samþykkt á alþíngi svo menn viti, enda þótt hin fyrsta þeirra, rèttarbót Magnús konúngs um óbótamál, sè prentuð aptan við Jónsbók í öllum útgáfum hennar. — Þær rèttarbætr, sem eptir fylgja, og kallaðar eru „lögteknar", eru þessar:

1, rèttarbót Eiríks konúngs 2. Juli 1294 (Lagas. I, 17—22).
2, rèttarbót Hákonar konúngs 14. Juni 1314 (sst. I, 27—31).
3, „Herjólfs brèf" eða rèttarbót Hákonar konúngs um arf ætt-

[1]) Lagasafn handa Íslandi I, 21. Rèttarbót þessi er gefin á Svithunsmessu, og er líklega rèttara að heimfæra hana til þeirrar Svithúnsmessu sem er 2. Juli, heldr en til hinnar, sem er 15. Juli, eins og gert er í Lagasafninu (sbr. Safn til sögu Íslands II, 46).

leiðíngs, 28. Marts 1318, sem er prentuð með Jónsbók í öllum útgáfum (Nr. IV, sbr. NgL. III, 128).

4, „Hákonar brèf" um skuldalúkníng til norrænna manna á Íslandi („þeir af vorum mönnum sem sigla til Íslands" o. s. frv.), 23. Juni 1305 (sbr. Lagas. handa Íslandi I, 24—26).

5, „Annað Hakonar brèf", um arfatöku, það eru nokkrar greinir (1—4. 6. 8) úr rèttarbót Hákonar konúngs frá 2. Mai 1313 (Ngl. III, 99—101), sem hefir vakið svo miklar þrætur á Íslandi, og hefir verið kölluð þar ýmist „arftöku-rèttarbót", eða „Möðruvalla rèttarbót", eða „rèttarspillir". — þareð „rèttarbót" þessi fylgir í flokki þeirra rèttarbóta, sem taldar eru „lögteknar", þá lítr líklega út sem ritari bókarinnar hafi talið þær greinir úr henni löggildar, sem hann hefir tekið, en þó er þetta ekki allskostar víst, því vera kann að greinir þessar sè komnar með af einskonar tilviljun einúngis; en allr þessi rèttarbóta-kafli er á bls. 287—303 í skinnbókinni.

Seinast í bókinni er gamli sáttmáli, þannig orðaðr sem hèr fylgir, að öðru leyti en því, að greinaskiptíngin er hèr sett og tölur við, einsog í hinum öðrum afskriptum sáttmálans.

---

Samþycktar brief Jslendinga.

J Nafni födur og sonar og anda heilags.

var med þessu iatad og samþyckt skattgialld af Jslandi vndir noregs krunu af almuganum med lofa taki a alþijngi en önguö öðru.

Vær biodum virdulegum herra Hakoni konungi hinum koronada vora þionustu vnder þa grein logmanna[1] sem samþyckt er milli konungdomsinz og þegnanna er landit byggia.

1. J fyrstu grein ad vier vilium giallda konungi skatt og þingfarar kaup sem logbok vottar og alla þegnskylldu suo framt sem halldit er vid oss þat a mote var iatad skattinum.

2. J fyrstu ad vtan stefningar skylldum vier aungnar hafa vtan þeir menn sem dæmdir verda af vorum monnum a alþingi burt af landinu.

3. Jtem ad jslendskir sie lǫgmenn og syslu menn hier

---

[1]) þannig í skinnb., á sjálfsagt að vera: laganna.

a landinu af þeirra ætt sem at fornu hafa godordin vppgiefid.

4. Jtem ad sex hafskip gangi a hueriu ari til landsinz forfalla laust.

5. Erfdir skulu vpgefast fyrir Jslendskum monnum j noregi huersu leingi sem stadit hafa þegar rietter arfar koma til eda þeirra vmbodz menn.

6. Landaurar skulu og vppgefast.

7. Jtem skulu og Jslendskir menn slijkan riett hafa j noregi sem þeir hafa adur bestan haft.

8. Jtem ad kongur late oss na fridi og Jslendskum lǫgum epter þui sem logbok vor vottar og hann hefur bodit j sijnum brefum sem Gud gefur honum framast vit til.

9. Jtem jarl vilium vier hafa yfir oss medan hann helldur trunadi vid ydur en̄ frid vid oss.

10. Hallda skulum vier og vorir arfaʀ allan̄ trunad vid ydur, medan þier og ydrer arfar hallda trunadi vid oss og þessar fyr skrifadar sættar giorder en̄ lauser ef rofin verdur af yduarri alfu ad bestu manna yfersyn.

---

## M.

Þessi afskript gamla sáttmála er tekin eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar, sem er merkt Nr. 458 í 12 blaða broti. Sú skinnbók er komin til Árna frá Halldóri Einarssyni hèrumbil 1704, en Halldór þessi var sýslumaðr í Þíngeyjar sýslu nokkur ár og andaðist í stóru bólu 1707. Hann var fróðleiksmaðr og hefir ritað meðal annars „um Íslands fyrstu bygging og hversu hèr hófust lög"[1]. — Skinnbókin er rituð hèrumbil 1570, svo sem áðr er getið, þar sem stuttlega er minnzt á bók þessa (bls. 560) og hefir 88 blöð; á henni er harðla mjög blandað safn af rèttarbótum og lagagreinum, samþykktum og dómum, forsögnum, tíundar-reikníngum og fleira. Fremst af öllu er reikníngr yfir ómaga framfæri, sem er fróðlegr að því leyti, að menn sjá þar hvað ætlað hefir

---

[1]) sbr. Halfd. Einarss. Sciagr. Hist. Liter. Island. bls. 183. 194. — Skýrsla um handritasafn hins ísl. Bókmentafèlags bls. 25. 91. 92.

verið með ómögum til framfæris á sextándu öld. — Næst því er reikníngr, sem telr fátækra tíund af hálfu hundraði, sem er alin vöru, og það fram til fjörutíu hundraða, sem verðr tólf álnir vöru; þessi reikníngr er á bls. 2—5, og eru þær blaðsíður uppskafníngr, sem líklegt er að ritað hafi verið á upphaflega forsagnir til að setja þíng, einsog finnst í handritum ekki allfáum, og optastnær fremst í þeim; en að svo hafi og hèr verið má ráða af því, að næst uppskafníngsblöðunum (bls. 2—5) er síðari hlutinn af forsögn til þíngs-uppsagnar. — Næst eptir þetta er fyrst Stóridómr frá 1564 (bls. 7—14) og þar á eptir nokkuð úr Píníngsdómi hinum síðara, frá 1490, um tíundir (bls. 14—15). Eptir það koma ymsar lagagreinir, þar til kemr statúta Vilhjálms kardínála frá 1247 (bls. 36—37, sbr. bls. 560 hèr að framan). Næst á eptir kemr alþíngis-samþykkt um vinnuhjú, sem víða finnst í handritum vorum, og prentuð er (Nr. XVI) í útgáfum Jónsbókar. Víða hvar er alþíngis-samþykkt þessi árfærð til 1400, en hèr til 1404 (bls. 37—38); það er einnig eptirtektar vert, að fyrirsögn fyrir þessari alþíngis-samþykkt er með rauðu letri og orðuð þannig: „sattmali er gior var [við] H(akon) konung"; sýnir það, að annar maðr en sá, sem ritaði sjálfa textana, hefir ritað upphafsstafi og fyrirsagnir á eptir með litum, sem menn kölluðu að lýsa bókina, og að sá maðr hefir ekki gáð betr að efninu en svo, að hann hefir hugsað að hèr stæði gamli sáttmáli.

Eptir alþíngis-samþykktina um vinnuhjú eru ritaðar forsagnir nokkrar og um bókareið (bls. 38—40), en þar á eptir fylgir mikill flokkr af rèttarbótum (bls. 41—68) ymsra konúnga, frá Magnúsi Hákonarsyni til Magnús Eiríkssonar, en í engri rèttri röð; seinast er um forkaupsrètt konúngs (með Jónsbók Nr. XIII).

Eptir þenna flokk af rèttarbótum kemr gamli sáttmáli, sá er hèr fylgir eptir, og er hann í skinnbókinni á bls. 68—70; næst á eptir kemr í bókinni alþíngis-samþykkt um knífaburð (bls. 70), en þar næst á eptir er brèf Kristjáns konúngs þriðja 1551, um skilgetníng prestabarna (prentað með Jónsbók aptast). Eptir þetta eru ritaðar nokkrar lagagreinir úr þjófabálki og um rannsóknir (bls. 71—76), og þar næst tvö konúngabrèf, annað Kristjáns hins fyrsta (1480) um bændakirkjur, og hitt Kristjáns hins þriðja um bann mót vetrarlegu útlendra á Íslandi. Eptir nokkrar greinir lagalegs efnis og forsögn um lögboðníng ómaga koma enn þær þrjár rèttarbætr (1305. 1294. 1314) sem vant er að fleyga inn í Jónsbók (bls.

80—98), en eptir það koma enn lagagreinir og forsagnir (bls. 98—113).

Í seinasta kafla bókar þessarar er fyrst saktal lögbókar (bls. 114—151, þar á eptir koma Rípar-artikular á Íslenzku (bls. 151—167), síðan „Koldings Recess" í 4 greinum (bls. 167—172. Þá kemr enn tíundar reikníngr til fátækra tíundar af hálfu hundraði til tuttugu hundraða (bls. 172—173), því næst fjárlag eptir Kaupabálki í Jónsbók (bls. 174—176), og að endíngu tvær línur á sömu blaðsíðu, sem byrja svo: „Sex álna lángt (trè) er borðlægt" o. s. frv., en þar með endar bókin neðst á blaðsíðu, svo ekki verður sèð hvort hún hafi nokkurn tíma stærri verið, þó líklegast sè að týnzt hafi aptan af henni áðr en hún kom í eigu Árna Magnússonar.

Gamli sáttmáli er prentaðr hèr með sömu tilhögun í greinaskiptum og greinatölu, eins og hèr að undanförnu hefir verið sett.

---

Samþyckt logmannana a alþingie almugans og logRiettunar[1].

I Nafne faud[u]r. og sonar og anda heilags.

War jatad og samþyckt. af aullum almuganum a Jslandi med lofa take.

at. vær biodum virdulegum herra. Hakone konge hinum koronada vora þionustu undir þa grein lagana. er samþyckt er. medal kongsens og þegnana. þeirra er landit byggia.

1. ER su fyrsta Grein at vær vilium giallda kongi skatt og þingfarar kaup. slikan[2] sem logbok uottar. og alla þegnskylldu. suo framt sem hallden eru vid oss. þav heit. sem j mote skattenum var jatad.

2. J fyrstu at utan stefnur vilium vær aunguar hafa utan þeir sem dæmdir uerda af vorum maunum a jslandi a alþingi burtt af landinu.

3. Jtem. Jslenskir sieu log menn. og suo syslu menn a landi voru. af þeirra ætt sem at fornu hafa Godordin upp Gefit.

---

[1]) fyrirsögn og upphafsstafr rautt. Strik rauð hèr og hvar, eitt eða tvö, niðr í gegnum línuna.

[2]) rètt: slikt.

4. Jtem. At vi hafskip gange til landzens forfallalavst.

5. Arfar skulu upp Gefast j noregi fyrir Jslendzkum monnum huersu leinge sem stadit hafa. þegar Rietter arfar koma til edur þeirra um bodz menn.

6. Landavrar skulu þeim og upp gefast.

7. Jtem. Slikan Riett skulu hafa Jslenskir menn j noregi sem þeir hafa bestan haftt.

8. Jtem. At kongr lati oss na jslenskum logum og fridi efter þui sem vor logbook uottar. og hann hefur bodit j sinum brefum sem Gvd gefr honum afl til.

9. Jall uiliu vær hafa yfir oss medan hann helldur trvnad vid ydur [en frid vid oss.

10. Hallda skulu vær og vorer arfar allan trvnad vid ydur[1]. medan þier og ydrer arfar hallda uid oss þessa sattar giord. ero uær lausir. ef rofen uerdur af ydar hendi at bestra manna yfer syn.

---

## N.

Í bókhlöðu Holsteins greifa að Hleiðruborg *(Ledreborg)* á Sjálandi eru til tvö handrit af Jónsbók á skinni, annað þeirra er í arkarbroti og er ritað með mikilli viðhöfn, en mun þó varla vera eldra en frá 17. öld (1681 heldr en 1581) og sýnist munu vera komið frá Skálholti; hin bókin er í minnsta fjögra blaða broti, eða í breiðu átta blaða broti, og hefir fyrirsagnir með rauðu letri og upphafsstöfum með ymsum litum. Bók þessi er án efa rituð á sextándu öld, og á einu auðu blaði, sem er í bókinni milli Farmannalaga og Þjófabálks, stendr skrifað með sömu hendi eða samtíða bókinni: „Hallur Magnusson á mig". Þessi Hallr Magnússon hefir að líkindum verið sá, sem var bóndi í Skagafirði og hefir ort Hugardómsdrápu og fleiri kvæði († hèrumbil 1587), getr verið hann hafi sjálfr ritað bók þessa og átt hana síðan. Á sama blaði stendr nafnið Bjarni Hallsson, og að hann hafi fengið bókina frá föður sínum 25. Febr. 1689; hefir þessi Bjarni líklega verið sömu ættar, svo að bókin hefir gengið að erfðum í ætt-

[1]) frá [er fyllt eptir öðrum handritum. Þar hefir líklega verið hlaupið yfir línu; þannig er og í öllum hinum eldri útgáfum Jónsbókar: 1578. (1580). 1582. 1707 og 1709.

inni um all-lángan tíma, yfir hundrað ár eða lengr. Í texta lögbókarinnar fylgir skinnbók þessi að mestu leyti sama flokki sem útgáfan frá 1709, en víkr þó frá í sumum stöðum og hefir þar afbreytíngar sem eru allmerkilegar, seinast í þjófabálki er 24. kapítuli „um vægðarmál", sem ekki er í útgáfunni, og fylgir þar vísa, sem telr alla bálka lögbókarinnar í röð, og er sett saman til minnis þeim, sem hafa um hönd lögbókina; hún finnst víða rituð, og sýnir bók þessi að hún muni vera ort á sextándu öld, og getr verið hún sè einmitt eptir Hall Magnússon; hún er þannig:

þíngfar, kristni[1], þegngjöld manns,
þar næst giptíng, erfðakrans,
framfær, brigði, leiga lands,
lög um reka, kaupa fans,
þá eru farmenn þjófum hjá, og þar skal stans.

þess má geta, að víða eru dregnar upp myndir af mönnum og dýrum og ymsum ófreskjum, og eru þær utanmáls hèr og hvar í bókinni.

Eptir lögbókinni fylgja ymsar forsagnir fyrir eiðum og sættum, sem ekki eru í útgáfum Jónsbókar, og alþíngis-samþykktin um melrakkaveiðar, en af rèttarbótum þeim, sem í útgáfunum eru, hefir þessi bók einúngis þrjár: Magnús konúngs um óbótamál (XI í útg.), Hákonar konúngs um arf ættleiðíngs (IV í útg.) og rèttarbót hins sama konúngs um gjafir til dómenda (IX í útg.). Röðin á þessu sýnist vera að handa hófi, því næst á eptir alþíngis-samþykktinni um melrakkaveiðar, og á undan hinni síðartöldu rèttarbót, er ritaðr gamli sáttmáli Íslendínga við Noregs konúng (XIV í útg.) þannig orðaðr sem hèr fylgir; þó er hèr ekki fylgt stafsetníng skinnbókarinnar, og greinaskiptíng er eptir því sem haft hefir verið í hinum undanfarandi, einnig er tölunum bætt við, því þær hefir skinnbókin ekki.

---

I nafni föður ok sonar ok anda heilags.
var jáð˙ ok samþykkt[2] af öllum almúga á alþingi í Íslandi með lófataki.

---

[1]) gipting, skinnb. — „kristni" þ. e. Kristindómsbálkr. Konúngserfðir eru hèr ekki taldar.

[2]) samþyktur, skinnb.

at vær bjóðum virðuligum herra Hákoni konúngi enum kórónaða vora þjónustu, undir þá grein laganna, er samþykkt var meðal konúngs ok þegna þeirra er landit byggja:

1. Er þat fyrsta grein, at vær viljum gjalda konúngi vorum skatt ok þíugfararkaup, slíkan[1] sem lögbók vottar, ok alla þegnskyldu, svo framt sem haldin er[u] við oss þau heit, sem á móti skattinum var jáð:

2. Í fyrstu, at utanstefnur allar skulu af leggjast, utan þær sem dæmdar verða af vorum mönnum í Íslandi á alþingi í burt af landinu.

3. Item at íslenzkir sè lögmenn ok sýslumenn á landi voru, af þeirra ætt, sem at fornu hafa goðorðin upp gefit.

4. Item at VI skip gángi hvert ár hingat til lands torfallalaust.

5. Arfar skulu upp gefast fyrir íslenzkum mönnum í Noregi, hversu lengi sem staðit hafa, þegar rèttir arfar koma til, eðr þeirra umboðsmenn.

6. Landaurar skulu ok upp gefast.

7. Slíkan rètt skulu íslenzkir menn hafa í Noregi, sem þeir hafa beztan haft.

8. Item at konúngr láti oss ná vorum lögum ok friði, eptir því sem lögbók vor vottar og Guð gefr honum fremst efni til, sem hann hefir boðit í sínum brèfum.

9. Jarl viljum vær ok hafa, svo lengi sem hann heldr trúnað við yðr en frið með oss.

10. Halda viljum vèr ok vorir arfar allan trúnað við yðr, meðan þèr ok yðrir arfar halda trúnað við oss.

Þessi sátt er laus af oss ef rofin verðr af yðvarri hendi at beztra manna yfirsýn.

---

## O.

Í handritasafni háskólans í Uppsölum í Svíþjóð er geymd skinnbók ein í fjögra blaða broti, 178 blöð alls að stærð, sem hefir komizt í eign bókasafnsins (1669) með öðrum handritum íslenzkum, merkilegum og sjaldgæfum, að gjöf eptir greifa Magnus

[1] rètt. slikt.

Gabriel de la Gardie, sem var einn hinn ypparsti ríkishöfðíngi í Svíþjóð í tíð Kristínar drottníngar. Skinnbókin er nú Nr. 9 í safni þessu. Magnús greifi hafði fengið handritin eptir Stephanius, prófessor í Sór, nafnfrægan á sinni tíð fyrir lærdóm sinn og rit í fornum norrænum fræðum, og einkum fyrir útgáfu af Danmerkr sögu eptir Saxa; en Stephanius hefir án efa fengið bók þessa frá einhverjum af vinum sínum á Íslandi, annaðhvort frá Brynjólfi biskupi (einsog skinnbókina af Grettlu) eða öðrum, því um þær mundir fíktust margir lærðir menn í Danmörk og annarstaðar eptir íslenzkum handritum, og Íslendíngar voru ekki fastir á þeim; þeir lètu skrifa upp það sem þeir vildu eiga, á pappírsbækr, og rifu síðan skinnbækrnar í sundr, eða gáfu þær þeim sem vildu.

Skinnbók þessi er ekki forn, en hún her mörg merki þess, að hún hefir verið vel vönduð í fyrstu. Um uppruna hennar má ráða af því, að hún hefir á næst seinasta blaði (177) ættartölu sira Sigurðar Jónssonar á Grenjaðarstöðum, sonar Jóns biskups Arasonar, mun það því ekki að efa, að bók þessi muni vera rituð fyrir hann eða að hans forlagi, að vorri ætlun hèrumbil 1570, og þar á eptir, en hann andaðist 1595. Við ættartöluna er bætt þremr liðum (Þuríðr — Árni — Þorleifr); þar af má sjá, að bókin hefir komizt að Stóradal í Eyjafirði, annaðhvort að sira Sigurði lifanda eða eptir hann, því Þuríðr dóttir hans átti Magnús bónda Árnason í Stóradal, Pètrssonar, Loptssonar[1]; þeirra son var Árni Magnússon á Grýtubakka, sem átti Sigríði Árnadóttur frá Hlíðarenda, Gíslasonar; sonr Árna og Sigríðar var Þorleifr, sem bjó á Ey (Pètrsey) í Mýrdal[2]. Á öðrum stað í bókinni (bl. 175) er ritað „fríbrèf Torfa Arasonar", sem Kristján konúngr hinn fyrsti gaf um haustið 1450; það er ritað með nýjari hendi, en hitt í bókinni, hèrumbil frá 1600; þar eru taldir fimm liðir frá Torfa: Málfríðr — Jón — Torfi — Málfríðr — Elín, og er það einnig kunnug ættkvísl, því Elín þessi var gipt Pètri í Vík á Svalbarðsströnd, Magnússyni, Árna sonar frá Stóradal, sem fyr var nefndr[3].

Þess er annars helzt að geta, að á fyrstu blöðum bókar þessarar (1—11) eru forsagnir fyrir þínga setníngum bæði í hèraði og á alþíngi m. fl. — Þar eptir fylgir Jónsbók (12—115),

[1]) Biskupa sögur II, 389. 413.

[2]) Biskupa sögur II, 390.

[3]) Biskupa sögur II, 393.

og fylgir texti hennar útgáfunum að mestu, en er þó á stöku stöðum betri en þær. Réttarbætr eru fleygaðar inn á venjulegan hátt. Næst eptir Jónsbók fylgja nokkrar greinir um eiðatökur, og um útþýðíng eiðs, og þar er inn settr gamli sáttmáli, þannig orðaðr sem hèr fylgir (bl. 115 b), nema að stafsetníngu er ekki haldið, og að greinaskipan er sett með tölum, eins og í hinum fyrirfarandi afskriptum sáttmálans. — Eptir þetta kemr í bókinni mikill flokkr af rèttarbótum (bl. 116—139), sumar íslenzkar og sumar ekki; þar er tekið með brèf Vilhjálms kardínála um helgidaga leyfi og alþíngis-samþykktin um vinnufólk, en seinast í þeim flokki er tilskipun Margrètar drottníngar um vígsbætr eptir fátæka menn. — Þar á eptir er allmikill flokkr af ymsum forsögnum í málaferlum, registr yfir Jónsbók (bl. 144—166), biskupatal á Hólum til Guðbrands biskups, dómar nokkrir, ættartala Sigurðar prests á Grenjaðarstöðum, sem áðr var getið, og annað fleira.

---

Gamli sáttmáli.

Í nafni föður ok sonar ok anda heilags.

Var iatað ok samþykkt af öllum almúganum á Íslandi með lófataki.

at vær bjóðum virðulegum herra Hákoni konúngi hinum kórónaða vora þjónustu, undir þá grein laganna er samþykkt er meðal konúngdómsins ok þegnanna. þeirra er landit byggja.

1. er sú fyrsta grein, at ver viljum gjalda konúngi skatt ok þíngfararkaup, slíkan[1] sem lögbók vottar, ok alla þegnskyldu, svo framt sem haldin eru við oss þau heit, sem í mót skattinum var játað.

2. Í fyrstu at utanstefnur skylldu ver engar hafa, utan þeir sem dæmdir verða af vorum mönnum á alþíngi út af landinu.

3. Jtem íslenzkir sè lögmenn ok svo sýslumenn á landi voru, af þeirra ætt sem at fornu hafa goðorðin upp gefit.

4. Jtem at vj hafskip gángi á hverju ári til landsins forfallaust.

5. Erfðir skulu ok upp gefast í Noregi fyrir íslenzkum mönnum, hversu lengi sem staðit hafa, þegar rèttir arfar koma til eðr þeirra umboðsmenn.

[1]) rètt. slikt.

6. Landaurar skulu þeim ok upp gefast.

7. Jtem slíkan rètt skulu hafa íslenzkir menn í Noregi, sem þeir hafa beztan haft.

8. Jtem at konúngr láti oss ná íslenzkum lögum ok friði, eptir því sem vor lögbók vottar ok hann hefir boðit í sinum brefum, sem guð gefr honum framast vit til.

9. Jarl viljum ver ok hafa yfir oss, meðan hann heldr trú við yðr en frið við oss.

10. Halda skulu svo vorir arfar allan trúnað við yðr, meðan þer ok yðrir arfar haldið trúnað við oss ok þessar sættargjörðir. en laus er ef rofin verðr af yðvari hendi með beztu manna yfirsýn.

---

## P.

Sú afskript af gamla sáttmála, sem hèr fylgir, er prentuð eptir skinnbók í safni Árna Magnússonar, Nr. 147 í 4to, sem er komin frá Bjarna bónda Sigurðssyni á Heynesi á Akranesi, og kölluð þessvegna Heynes-bók. Þessi bók er í fyrstu rituð hèrumbil 1490, og hefir þar verið rituð Jónsbók með nokkrum rèttarbótum á eptir, og svo Kristinrèttr Árna biskups; en snemma hefir verið farið illa með bókina, svo að þegar á sextándu öld hefir verið týnt úr Jónsbók nokkrir kapítular úr Mannhelgi, og hefir þar verið skotið inn blöðum, og þetta ritað þar á, sem týnt hefir verið, og þá um leið sýnist hafa verið bætt inn töluverðu af rèttarbótum, gamla sáttmála og stóradómi. Þessi kaflinn er að nokkru leyti ritaðr á uppskafning, svo að tekið hefir verið stykki úr eldri skinnbók, skafið af letrið og skrifað svo ofaní. Þessi uppskafníngs kafli er bls. 185—220 í bókinni, en á næstu blaðsíðu þar á eptir (221—222) má lesa kafla úr Ragnars sögu loðbrókar; þannig má og rekja Ragnars sögu víðar, t. d. á bls. 188 og 189—192, svo að varla mun efamál, að Ragnars saga hafi verið rituð í fyrstu á þessum uppskafníngsblöðum. Ekki sýnist skinnbók sú hafa verið eldri en hèrumbil frá 1450, en það sem ofanyfir er ritað sýnist muni vera hèrumbil frá 1580. Auk þessa finnst enn ritað nokkuð í bókinni hèrumbil 1600 og 1650.

Í þeim hluta skinnbókar þessarar, sem elztr er, og Jónsbók

hefir verið rituð í, eru rèttarbætr ekki nema á sumum stöðum fleygaðar inn í lögbókina, en þar sem hún hættir eru tvær rèttarbætr tengdar við, sem eru fyrst rèttarbót Eiríks konúngs 2. Juli 1291 og önnur Hákonar konúngs 14. Juni 1314, og eru þær tvær hinar sömu, sem vant er að fleyga inn í lögbókina (bls. 177—184). Eptir þær tekr við annar kafli bókarinnar, sem hèr er talinn muni vera ritaðr um 1580, og er þar mikill flokkr af rèttarbótum og nokkrar alþíngis-samþykktir, en engar aðrar en þær, sem vant er að taka í þesskonar söfn. Þó má þess geta, að hèr er hin svonefnda lánga rèttarbót Kristjáns konúngs fyrsta (bls. 209—213) og Möðruvalla rèttarbót Kristjáns annars frá 1507, árfærð hèr til 1541, eins og sumstaðar finnst annarstaðar (bls. 205), en „gamli sáttmáli", sem hèr fylgir á eptir, er ritaðr á bls. 213—214 í skinnbókinni, og þar á eptir Stóridómr (bls. 214—218). En seinast í bókinni (bls. 223—266) er Kristinrèttr Árna biskups, og er hann með elztu hendinni, sömu og þeirri, sem hefir ritað mesta hlutann Jónsbókar.

---

Brief vm skatt af islandi[1].

I nafni faodur og sonar og anda heilags.

var þetta iꝏtad og samþicgt af ollum almvga ꝏ islandi med lofataki ꝏ alþijnge

ad uier biodum̄ hꝏkoni kongi korvnada vora þionustu vn̄dir þꝏ grein laganna er samþicgt er milli kongdomsins og þegna er landid byggia

1. er Sw hin firsta grein, ad uier uilium giallda skatt og þijngfarar kaup kongi slijgt sem logbook vottar og alla þegnskilldu so fram̄t sem halldinn er vid oss þavg heijt sem moti skattinum var iꝏtad

2. utanstefnur[2] vilium̄ vier ongvar hafa vtan þeir menn sem̄ dæm̄dir verda af vorvm̄ landsmonnum ꝏ alþijngi burt af landinv.

3. item[2] islendskir sie logmenn og sijslumenn ꝏ landi uorv af þeirra ættvm̄ er ad fornu hafa godordin̄ haft.

---

[1]) fyrirsögn og upphafsstafr rauðr.

[2]) upphöfin með rauðu.

4. item[1] vi hafskip gangi ꝏ hvoriv ꝏri til landsins forfalla lavst

5. eifdir fyrir[1] islendskum monnum skulv vppgiefast i noregi huorsv leingi sem stadid hafa þegar riettir arfar koma til edur þeirra um̄bods menn

6. landavrar skulv og vppgiefast

7. Jslendingar[1] skulv slijkan riett hafa i noregi sem þeir hafa bestan haft

8. item[1] kongur lꝏti oss nꝏ islendskum logum og friði eftir þvi sem logbok vottar og hann hefur bodid ꝏdur i sinvm briefvm̄ so sem Gvd giefur honum afla til

9. iarl[1] vilium vier hafa ifir oss medan̄ hann helldur trwnadi vid idvr En̄ frid vid oss

10. hallda skulvm vier og vorir arfar allan trwnad vid idur og idra medan̄ þier og idrir arfar hallda trwnad vid oss og sꝏttargiord þessa En̄ Javs med ollv ef rofin verdur af idar hen̄di.

---

## Q.

þessi afskript sáttmálans er prentuð eptir skinnbók í Thotts handritasafni í hinni konúnglegu bókhlöðu, Nr. 2100 í 4to. þessi bók hefir 69 blöð, eða 138 blaðsíður, og er í allstóru fjögra blaða broti, rituð í tveim dálkum á blaðsíðu með skýrri og góðri hendi, að líkindum seint á sextándu öld, og á að gizka hèrumbil 1580. þar er fyrst á rituð Jónsbók, og tekr hún yfir 57½ blað (bls. 1—115). Bókinni er skipt í bálka og kapítula, og er fyrirsögn fyrir hverjum með rauðu letri, og upphafsstafir með ymsum litum, en í upphafi hvers bálks eru upphafsstafirnir stærri en annarstaðar og lýstir með fleiri litum og meiri viðhöfn, sumstaðar með myndum í. Sumstaðar eru og lausar myndir neðanmáls eða utanmáls í bókinni (t. d. bls. 70. 79. 102. 103. 118. 126 og víðar). Í texta lögbókarinnar er skotið inn klausum úr rèttarbótum Eiríks konúngs og Hákonar háleggs, á sama hátt og venjulegt er. Næst á eptir lögbókinni fylgir yfirlit yfir hana (bls. 116—127)

---

[1]) upphöfin með rauðu.

eptir bálkum og kapítulum. Seinast (bls. 128—138) er safn af rèttarbótum, og er fyrst í þeirri röð rèttarbót Hákonar konúngs Magnússonar ýngra um arf eptir Gunnar Andrèsson (1371), sem er prentuð með lögbókum íslenzkum; þvínæst eru rèttarbætr nokkrar Hákonar konúngs Magnússonar hins eldra, sumar norrænar og sumar íslenzkar, sem vanalega fylgja íslenzkum lögbókum. Seinast í rèttarbóta röðinni er rèttarbót Magnús konúngs Eiríkssonar um sýslu veitíngar á Íslandi, og þar eptir um forkaupsrètt konúngs („um kaup á vöru", bls. 135). Næst þar á eptir fylgir „gamli sáttmáli", sá sem hèr er prentaðr. Eptir bann koma tvær alþíngis-samþykktir: „um hnífaburð" og „um vinnufólk". Þar næst er brèf Kristjáns þriðja um skilgetníng prestabarna á Íslandi, útgefið 1551 (sanct. Galli dag eða 16. Oktbr.), og er þar af augljóst, að bókin er rituð ekki fyr en á síðara hluta sextándu aldar. Seinast í bókinni er kafli úr rèttarbót Hákonar konúngs háleggs, sem skipar í bók helgidaga leyfi Vilhjálms kardínála, og skýrir frá leyfinu (bls. 137), og þar næst á eptir að lyktum á seinustu blaðsíðunni rèttarbót Hákonar konúngs „um sókn á kristinsdóms rètt og nefndar menn" (prent. í Safni til sögu Íslands II, 166—167); á eptir þessari rèttarbót er auðr hálfr dálkr í skinnbókinni, og má þar af sjá, að þar hefir aldrei meira ritað verið.

---

Gamle Sattmale ꝏ mille Norex kongs og Islendinga.

I nafne faudur og sonar og anda heilax var iatad og samþyckt af ollum almuga ꝏ islandi med lofa taki.

ad vier biodum virdilegum herra hꝏkoni kongi hinum koronada vora þionustu vnder þa grein laganna er samþyckt er medal kongdomsins og þegnana þeirra er landit byggia.

1. Er su fyrsta Grein ad vier vilium Giallda kongi vorum skatt og þijngfarar kaup slijkan sem logbok vottar og alla þa þegnskylldu suo fram̄t sem halldiñ er[u] vid oss þau heit sem i moti skattinum var jatad.

2. i fyrstu ad vier vilium onguar vtan stefnur hafa vtan þeir sem dæmdir verda af vorum monum ꝏ islandi ꝏ alþijngí Burt af landinu.

3. Jtem ad islendsker sieu logmenn og sijslu menn œ landi voru af þeirra ætt sem adur hafa Godordiñ haftt.

4. Jtem ad VI hafskip Gangi œ huoriu Ari: hingad thil landsins forfallalaust

5. arfar skulu vpp gefast i noregi fyrir islendskum monnum huorsu leingi sem stadit hafa þegar rietter arfar koma thil edur þeira vmbodzmenn

6. Landaurar skulu og vppgefast þeim.

7. Item slijkan riett skulu hafa islendsker menn i noregi sem þeir hafa Bestan haft.

8. Item ad kongur lati oss nœ islendskum logum og fridi epttir þui sem logbok vottar og hann hefur bodit i sijnum Brefum Sem Gud gefur honum afl[1] thil.

9. Jarl vilium vier og hafa yfir oss medañ hann helldur trunad vid ydur [en frid vid oss

10. hallda vilium ver og vorir arfar trunad vid ydur[2] medan þier og ydrer arfar hallda vid oss þessa sattar Giord erum vier lauser ef rofiñ verdur af yduaRi Hendi ad Bestu mana yfer syn.

---

## R.

Þessi afskript gamla sáttmála, sem hèr fylgir, er prentuð eptir skinnbók í handritasafni því, sem Otto Thott greifi hefir átt, og nú er í konúngsins stóru bókhlöðu Nr. 2099 í 4to (Thott). Sú bók er í minnsta fjögra blaða broti eða breiðu átta blaða broti, rituð ár 1581, og hefir 450 blaðsíður eða 225 blöð, vantar þó að minnsta kosti eitt blað að aptan. Saurblaðið fremst í bók þessari er skinnblað úr bók, sem er eldri en bókin sjálf, og er það efri helmingr blaðs, skorinn yfir þvert, en þar er ritað á brot úr Stjórn, sem grípr inn í I. Samuelsbók 20. kap. (í útgáfu Ungers kap. 240, bls. 471—472); en bók sú, sem blað þetta er úr, er rituð á fimtándu öld að líkindum, og heldr snemma, og hefir verið með settri og góðri hönd.

---

[1]) alf, misritað í skinnbókinni.

[2]) frá [er fellt úr í skinnbókinni.

Sjálf skinnbókin hefir inni að halda: 1, Jónsbók, bls. 1—347, byrjar á brèfi Magnús konúngs. Textinn er í heilum línum með skiptíngum í bálka og kapítula, og fyrirsögnum ofanmáls. Í fyrstu munu allar fyrirsagnir og upphafsstafir hafa verið órituð, en ætlaðar eyður fyrir; sumstaðar hafa þá stafirnir verið dregnir upp síðar, með litum eða bleki, og sumstaðar fyrirsagnir með rauðu bleki, en nú er það máð og víðast standa eyðurnar opnar fyrir upphafsstöfum og fyrirsögnum. Rèttarbætr eru stykkjaðar í sundr og felldar inn í bókina, einsog í flestum handritum Jónsbókar, en það er sjaldgæfara, að hèr eru engar konúngserfðir, og er fellt úr í Kristindómsbálki frá því í þriðja kapítula og til enda hins áttunda. Við enda lögbókarinnar, neðst á bls. 347, stendr þetta:

„Nu er vor logbok komin a enda
hia gudi munum vier aller j himiRiki lenda.
Endud fyrsta dag Junii M. D. Lxxxi.

2, Rèttarbætr: Næst eptir lögbókina fylgja rèttarbætr Eiríks konúngs og Hákonar háleggs, þær þrjár sem vanar eru að vera í lögbókinni. Þær eru hèr limaðar sundr í greinir, eptir bálka og kapítula röð í bókinni. Því næst kemr rèttarbót Eiríks konúngs frá 1294: „Meður handsaulum skal jarðir byggja", o. s. frv., og er hún hèr í heild sinni þar sem hún var áðr í greinum. Þar eptir koma fjórtán rèttarbætr í röð, og er seinast í þeirri röð brèf Kristjerns konúngs (Kristjáns fyrsta 1463): Um forboð móti að kaupa við útlenda áðr sekkjagjöld sè greidd, og um þá sem ekki vilja heyra stefnur eða dóma. Þessi kafli bókarinnar gengr frá bls. 348 til bls. 407.

3, Alþíngis samþykktin um vinnufólk (1404), árfærð hèr til 1400 (bls. 407—409).

4, Appelleranar brèf, orðað sem almenn fyrirsögn eða formular; þar eptir fylgir kapítulinn „þessum málum má eigi appellera", sem vanr er að standa í Kristinrètti (Thorkel. 218—220) bls. 409—412.

5, Gamli sáttmáli, sem hèr er prentaðr á eptir (bls. 412—414).

6, Forsagnir ymsar, fjórtán alls; er fyrst um fjárkröfu og heimstefna um skuld, seinast um lögboðníng ómaga (bls. 414-422).

7, Um bætr fyrir handarhögg eptir Gulaþíngslögum, fyrir útstúngið auga, og fyrir afhögg fíngra (bls. 422).

8, Registr lögbókar (bls. 423—448).

Af tveimur blöðum seinast í bókinni er hið fyrra ennþá heilt, en af hinu síðara rönd með kjölnum, svo að sjást endar af línunum, og má þar af ráða hvað þar hefir ritað verið. Á fyrra blaðinu er rituð Bæn dómara, og framan af forsögn fyrir þíngsetníng hèraðsþíngs, en á síðara blaðinu hefir verið síðari hlutinn, og hefir hann tekið yfir alla fyrri blaðsíðuna og hèrumbil þrjá hluta af hinni síðari. Þar mun bókin líkast til hafa verið á enda, og aldrei stærri.

Í skinnbók þessari er mikið skrifað á uppskafníng, og er það allt Latína, sem er undir niðri og út er skafið. Að framanverðu er það blöð úr latínskri bók, sem hefir verið prentuð á bókfell, með ýmislega litum upphafsstöfum. Þegar lengst aptur eptir dregr er það eins Latína sem undir er, en það virðist vera skrifað en ekki prentað. Hvorttveggja hefir verið andlegs efnis, og lítr helzt út sem það sè úr orðubókum eðr þvílíku frá páfa-öldinni. — Nöfn eigenda bókarinnar hittast þar rituð hèr og hvar, og sýnast munu vera frá seytjándu og átjándu öld, en ekki eldri; þessi nöfn eru: Andries Jonzson (bls. 293); Jon Andriesson á fjórum eða fimm stöðum (bls. 422 o. víðar); Jon Jonsson (bls. 122 og víðar); Anna Eyjólfsdóttir (bls. 267); Guðmundur Halldo[rsson], bls. 448. Neðanmáls á seinustu blaðsíðu (450) er ritað „Mr. Jon Arnason", og sýnist vera frá átjándu öld; líkast til það sè nafn Jóns Árnasonar, sem var sýslumaðr í Snæfellsness sýslu (1754—1777). Hann var merkr fræðimaðr, og hefir ritað um þínga skipan og dóma á Íslandi í fornöld: „*Historisk Indledning til den gamle og nye islandske Rettergang*", en Jón Eiríksson bætti um og lèt prenta (Kbhavn 1762. 4to ). Jón sýslumaðr er kunnugr af rímum Árna Böðvarssonar á Ökrum, því þær voru flestar honum helgaðar. Þegar hann var stúdent við háskólann í Kaupmannahöfn (1750—1754) var hann skrifari hjá Otto Manderup Rantzau, greifa, er þá var stiptamtmaðr yfir Íslandi; Jón mun þá hafa átt þessa skinnbók og gefið hana Otto Thott, en eptir Thott komst bókin í konúngsins stóru bókhlöðu með safni hans.

Greinaskipuninni er hèr hagað eins og í hinum fyrri, og tölurnar settar við eptir sömu reglu, til þess að hægra verði að bera afskriptirnar saman.

---

J[1] nafni foð[u]r og sonar og anda heilags

var með þessu iatað og samþyckt skattgialldi af Jslandi vndir noregs krunu af almuganum með lófataki a alþingi en ðnguo auðru.

Vær bioðum virðiligum herra hakoni kongi hinum koronaða vora þionnstu vndir þa grein laganna sem samþyckt er milli kongdomsins og þegnanna er landit byggia.

1. J fyrstu grein. at vier vilium giallda kongi skatt og þingfarar kaup sem lȯgbok vottar og alla þegnskylldu suo framt sem halldit er við oss þat a moti var iatað skattinum.

2. J fyrstu at vtañ stefningar skylldum vier onguar hafa vtañ þeir Menn sem dæmdir verða af vorum Monnum a alþingi burt af landinu.

3. Jtem, at islendsker sie lȯgMenn og syslu Menn hier a landinu af þeirra ætt sem at fornu hafa goðorðiñ vppgefit.

4. Jtem, at uj hafskip gangi a huoriu ari til landsins forfalla laust.

5. Erfðir skulu vppgefast fyri jslendskum Monnum j noregi huerssu leingi sem staðit hafa þegar rietter arfar koma til eða þeirra vmboðz Menn.

6. landaurar skulu og vppgefast.

7. Jtem, skulu jslendskir Menn hafa slijkañ riett j noregi sem þeir hafa aðr bestañ haft.

8. Jtem, at kongr lati oss na friði og jslendskum logum eptir þui sem lȯgbok vor vottar og hann hefur bodit j sijnum brefum sem guð gefr honum framast vit til.

9. Jtem, jarl vilium vier hafa yfir oss meðan hann helldr trunaði við yðr eñ frið við oss.

10. Hallda skulu vier og vorer arfar allañ trunað við yður meðan þier og yðrer arfar hallda trunað við oss og þessar fyrskrifaðar sættar giorðir. Eñ lausar ef rofiñ verður af yðari alfu at bestu manna yfir syn.

---

## S.

Sú bók, sem Gamli sáttmáli er hèr prentaðr eptir, er rituð á pappír með mikilli viðhöfn og ágætlega góðri settaskriptar hendi

[1]) Eyða fyrir fyrirsögn og upphafsstaf.

í tíð Gísla lögmanns Hákonarsonar, líklega hèrumbil 1620. Á fremsta saurblaði stendr, að Magnús Arason (á Reykhólum) fái bókina Magnúsi Björnssyni (síðar lögmanni 1639—1661) „til eignar og þakklætismerkis Anno 1626". En ofar á sama blaði er ritað, að Magnús Arason hafi fyrst gefið hana sínum „únga elskulega syni Jóni Magnússyni . . . er hans dygðarlega móðir gaf mèr áður". það má hèraf sjá, að Magnús Arason hefir fyrst fengið bókina, þá líklega nýskrifaða, að gjöf frá konu sinni, sem var, einsog kunnugt er, þórunn Jónsdóttir frá Galtalæk, kölluð þórunn hin ríka[1]. það er því líklegast, að bókin sè rituð á Suðrlandi. Framan á titilblaðinu eru myndir dregnar upp, og neðst nafndráttr Kristjáns konúngs fjórða. Aptan á titilblaðinu er dreginn upp krýndr maðr með öxi í vinstri og Ólafssteina[2] í hægri hendi, hann treðr undir fótum dreka krýndan með manns-

[1]) Um Þórunni sjá Biskupa sögur II, 399—400.

[2]) Það sem hèr eru kallaðir Ólafssteinar eru einkennilega myndaðir steinar, sem fylgdu líkneski Ólafs konúngs helga, og voru dregnir upp a myndum hans. Þeir eru þrír, ef þeir eru allir, og eru myndaðir kringlóttir, einsog bollar, með mjög þykkum börmum og kringlótt laut eða kúpa innaní. Neðsti steinninn er stærstur, og er ætlazt til, að þegar miðsteinninn er látinn ofaná hann, þá falli botninn á honum ofaní kúpuna á neðsta steininum. Þessi miðsteinninn er nokkru minni, en öldúngis eins í laginu og hinn neðsti, og með viðlíka kúpu að ofan. Þar ofaní á að falla þriði steinninn, og er hann minnstr og efstr, og þó kúpa í honum að ofan, einsog hinum. Steinar þessir eru líklega víða til enn á Íslandi, ef þeim væri gaumur gefinn, því þeir hafa líklega verið alstaðar þar sem kirkja var helguð Ólafi konúngi. Þeir hafa verið klappaðir úr hraungrjóti. Sumstaðar er einn af þeim eptir, og svo var á Þíngvöllum fyrir skemmstu (í Juni 1873), að á kirkjugarðsveggnum stóð Ólafssteinn, sem leit út fyrir að hafa verið hinn neðsti af þeim þremr, og var það munnmæli, að þetta væri hlautbolli og væri úr heiðni. Í elztu útgáfu Jónsbókar, 1578, er trèskorin mynd prentuð aptan á titilblaðinu, og hefir neðst í horninu ártal 1539. Þetta á að vera mynd Ólafs konúngs helga, og má sjá þar hvernig hann heldur upp hægri hendi, og hefir steinana þrjá liggjandi í lófanum, hvern ofan á öðrum. Menn vita einnig hvernig á þessum steinum stendur. Þeir eru gjörðir í minningu einnar af jarteiknum Ólafs konúngs, þegar brauð urðu einusinni að steinum hjá einum greifa í Danmörku, sem ekki vildi tigna Ólafsmessu dag, og skipaði vinnukonu sinni að baka brauð á þessum degi, en hún var frá Noregi og hèlt fast við helgi Ólafs konúngs. Þessvegna mun það og vera eflaust, að steinarnir sè lagaðir eins og brauðhleifar hafa verið að fornu, með

höfði. þetta á efalaust að vera mynd Ólafs konúngs helga, þó þar standi ofanmáls „Magnuſ kgs" og er lögnð mest eptir þeirri, sem er framanvið elztu útgáfu Jónsbókar. Í axarblaðinu er hvítur kross. Fyrir framan hvern bálk í bókinni og sumstaðar í stöfunum eru dregnar upp manna myndir og dýra, merkilega vel; stafirnir fyrir hverjum bálki stórir, og dregið í gull; fyrirsagnir og upphafsstafir fyrir kapitulum gyllt eða blátt, rautt eða grænt.

Í lögbók þessari eru ritaðar tvær greinir, sem eru almenns efnis, og eru merkilegar að því leyti, að þær sýna hvernig sumir af hinum lögfróðu mönnum á Íslandi, og líklega margir fleiri um aldamótin 1600, hugsuðu sèr að lög landsins hefði myndazt í fornöld, og hvern skilníng þeir lögðu í það, sem þeir kalla „íslenzk lög". Fyrir þessa skuld þykir vert að láta hèr fylgja greinir þessar. það sem skakkt er í þeim er svo þreifanlegt, að það þarf engra skýrínga við hjá íslenzkum lesendum.

I. Aptanvið lögbókina er rituð þessi grein:

„Um vor(r)ar laugbokar samþykt. þa Island var kristnað og islendskir jatuðu hlyðni og þegnskylldu Norigs kgi. þa villdu allir hneig[j]ast til þeirra kristilegra laga sem í Norigi gengu[1]. sendu þvi sina laugbok Magnusi kongi með Joni laugmanni en Magnus kgr let samansetia hana af öllum lögbokum i Noregi og það af þeim takandi sem honum þotti bezt henta fyrir þetta land með vitrustu manna raði og let skra þessa bok. og for siðan sialfr til Gaularþings og let þar upp lesa bokina með þeirri riettarbot fyrer þijngmonnum at þessi Bok skylldi ganga vm alltt Noregs velldi vm alldr og æfi að oskaddaðri kongsins tign með þvi skilorði, að ef nokrir Noregs kongar sem hier eptter verða og koma munu eptter riettum Kongs Erfdum villdu vm þessa Bok bæta. þa skylldi þat skie og uerða Guði til dyrðar og lofs en þeirra þegnum og vnder satum er Löndin og Rijkin byggia til friðar og spektar og æfinligs gagns og goða. et cet. Uar þessi Bok staðfest og Laugtekin a nefndu Gaularþijngi a Jonsvauku dag. Arum

þykkum röndum og bolla í miðju. Frasagan um þessa jarteikn Ólafs konúngs er prentuð í sögu hans (til dæm. í Fornm. s. V, 139—140. Flateyjarb. II, 381; og hennar er getið í Geisla, 32. og 33. erindi).

[1]) sá sem ritaði þetta sýnist ekki hafa vitað neitt um Grágás eða Járnsíðu, og lætr Íslendínga vera nýkristnaða hèrumbil 1280. Hann lætr Jónsbók vera samhljóða hinni norsku lögbók Magnús konúngs, og kallar Gulaþing: Gaularþíng (!). sbr. Norg. gamle Love II, 178.

epttir Guðs hingatburð. M. tvö hundrut Lxx og uij[1]. a ellefta Are Rijkis Magnusar Kongs Hakonar sonar hins koronaða. Giefi Almatugr Guð að þessi Bok komi oss til nytta og þarfinda og vorum Eptirkomendum til Eilijfra Giæða Salnanna vegña. Amen."

II. Önnur greinin er rituð með rauðu letri, og stendr í rèttarbót Hákonar konúngs um erfðir og að pútur beri eigi vitni, sem er brot úr rèttarbót Hákonar 1313[2] (fol. C61 b — C62 = 161—162 í skinnbókinni); hún er þannig látandi:

„þessi riettarbot hefur alldrei verit vtgiefinn hijngat i landit. og er ekki helldr biuijsanlig. huerniñ kañ hun að ganga i almenniligu erfðatali. þar þessi erfð raskar vorum erfðum og vort erfðatal hlijtr þa að uijkia fyrir henni ef hun skal raða og fyrir sitia. Eñ vier vitum að landzlagabokin með voru almenniligu Erfðatali er laugtekiñ eñ ekki þessi erfð eðr riettarbot. Þui hlytr hun að vijkia fyrir landzlaga bokinne og vorum almenniligum Erfdum og ongua makt hafa og kañ alldrei hier laugtekiñ að verða með suoddan moti. Þui til hefur matt bera að nockur lauguitrijngr hafi matt forðum eiga þesskonar mal og staðit til slijkra Erfða og dreigit þetta Laugmal eðr þessa Erfð af norskum eðr fareyskum laugum sier til gagns og til styrckingar sijns mals. og giortt sier af Hakonar Riettarbot etc., og viliat suo hafa suarfblat henni og Jnnsmeigia j vortt almenniligtt Erfðatal. að hun skyllde hier suo fyrir laug ganga. Eg[3] hefi borit þat fram fyrir kong. að þessi riettarbót væri hier ecki laugtekin og þa var skipat til íslendskra laga. Sumstaðar er skrifat við hennar niðrlag. að hun skuli ganga vm allt Noreg etc. — Uier höfum mest oll onnur laug eñ nu[4] i Norige ganga eðr þær Zelaphehad dætr og þeir Jsraels synir hofdu, suo sem þar stendr. Num. xxxvi. etc."

Eptir lögbókina eru ritaðar fyrst margar rèttarbætr Noregs konúnga, en þó ekki í neinni rèttri röð. Rèttarbótin frá 1313, sem nýlega var nefnd, er hin níunda í röðinni, en alls eru þær tvær og tuttugu, og er að tímanum til elzt rèttarbót Magnús

[1]) Jónsbók var eins og kunnugt er lögtekin á Öxarár þíngi 1281, á næsta ári eptir andlát Magnús konúngs.

[2]) Rèttarbót Hákonar konúngs Magnússonar (háleggs) 1313 §§ 1 og 4 i Norg. gl. Love III, 100—101.

[3]) Það er líklega Gísli lögmaðr Hákonarson.

[4]) Þetta er því ritað eptir að komu út Norsku-lög Kristjáns fjórða (1604).

konúngs Hákonarsonar um óbótamál, en ýngst Hákonar konúngs Magnússonar ýngra 10. Juni 1375, um mál Pèturs Hálfdanarsonar, sem er hèr fremst á meðal rèttarbótanna, einsog í útgáfum Jónsbókar. — Næst eptir þenna flokk rèttarbóta kemr brèf Kristjáns (annars), um að rèttarbætr Hákonar háleggs skuli vera gildar á Íslandi, útgefið á Akrshúsi 1507, en hèr talin gefin út ár m. d. xl og eitt (1541!). Utanmáls við það brèf er þetta ritað: „Skrifat eptir vors naðigasta herra kongsins[1](!) brefi, með hans hangandi innsigli, huert Þoruarðr Erllendsson laugmaðr með fleirum goðum monnum sa og yfirlas svo hlioðandi orð eptir orð sem her skrifað stendr". Brèf þetta er alkunnugt undir nafninu „Möðruvalla rèttarbót" eða öðru nafni „Rèttarspillir".

Eptir rèttarbætrnar fylgir næst „Gamli sáttmáli millum Noregs konúngs og Íslendínga", sá sem hèr fylgir eptir, og er ritaðr á blaði C72 (172) í bókinni. — Næst á eptir kemr brèfið frá Íslendíngum til ríkisráðsins í Noregi 1319[2]. — Þar á eptir er alþíngis-samþykktin um knífaburð: „á öðru ári eptir fráfall Hákonar konúngs hins kórónaða" (1265). — Þá er næst alþíngis-samþykkt um vinnufólk (1404), og þar utanmáls „gamall alþíngis-dómr" um þá sem ei vilja vinna.

Í hinum síðasta flokki bókarinnar er Kirkju-ordinantia Kristjáns þriðja (1539) á Íslenzku, og þar seinast biskupa eiðr og „epilogus" (fol. C75—CC5 = 175—205). Eptir ordinantiuna koma Ríparartíkular (1542); þar eptir Recess Kristjáns konúngs þriðja (1547) og hjúskapar-ordinantia Friðriks konúngs annars (1582), og svo Stóri-dómr (1564) með staðfestíng Friðriks konúngs hins annars (1565) á fol. CC47b—48 (247b—248).

Seinast í bókinni er „Auxarár þíngsetníng", það er ræða sú, sem Gísli lögmaðr Hákonarson (1614—1630) var vanr að flytja, þegar hann setti alþíng, og sömuleiðis sú sem hann sagði upp alþíngi með.

---

[1] Kristján var, eins og kunnugt er, ekki orðinn konúngr þegar hann gaf út brèfið, en hann var ríkisstjóri í Noregi.

[2] Þetta brèf er prentað í Lovsaml. for Island I, 32—33, en með þeirri villu, að þar stendr í upphafinu „voru og virðulegu ríkisráði" í staðinn fyrir „vitru og virðulegu", sem auðsýnilega er hið rètta og stendr í flestum handritum. Útlegging Arngríms og Þormóðar sýnir einnig, að þeir hafi lesið á þann veg („prudenti" o. s. frv.). Þó það sè reyndar í augum uppi þegar að er gætt, hvað hið rètta hljóti að vera, þá skal nota tækifærið til að leiðrètta orðið.

þar með endar bókin, og er hún alls 250 (CC50) blöð; hún er, sem áðr var getið, í bókhlöðu konúngs, merkt Gamle kongelige Samling Nr. 3274 a. í 4to.

---

Gamli satmali a millum Noregs kongs og Islendinga[1].

J Nafni faudur og sonar og anda heilags.

Uar jatað og samþyckt af aullum Almuganum a Jslandi med lofataki.

ad vær biodum Uirdugligum Herra Hakoni kongi hinum koronada vora þionustu vnder þa grein laganna er samþycktt er medal kongdomsins og þegnanna þeirra er landit byggia.

1. Er su hin fyrsta grein. at vier vilium giallda kongi skatt og þingfarar kaup slikan[2]· sem laugbok vottar og alla þegnskylldu suo framt sem halldinn er vid oss· þau heit sem J mot skattinum var jatad.

2. J fyrstu ad vtañstefñur vilium vær onguar hafa vtan þær sem dæmdar verda af vorum monnum hier a Jslandi a Alþijngi burtt af Landinu.

3. Jtem Jslendskir sieu Laugmenn og suo Syslumenn a Landi voru af þeirra ætt sem ad forñu hafa Godordin vppgiefit.

4. Jtem ad vi. Hafskip gangi a hueriu are til Landsins forfallalaust.

5. Arfar skulu vppgiefast j Norige fyrir Jslendskum monnum huerssu leingi sem stadit hafa þegar Rietter arfar koma til edur þeirra vmbodzmenn.

6. Landaurar skulu þeim ok vppgiefast.

7. Jtem slijkañ riett skulu hafa Jslendskir menn j Norige sem þeir hafa bestan haft.

8. Jtem ad Kongur late oss na Jslendskum laugum og fride eptter þui sem vor Laugbok vottar og hann hefur bodit i sijnum brefum sem Gud giefi honum abl til.

9. Jarl vilium vier og hafa yfer oss a medan hann

---

[1]) fyrirsögn rauð. Upphafsstafr dreginn upp með myndum með bleki. Ofanmáls með rauðu: „Sattmali N[oregs] Kongs og Jslendinga".

[2]) þannig handr.; rètt. slíkt.

helldur trunad vid ydur [en frid vid oss. Hallda skulu vær og vorir arfar allan trunad vid ydr[1] medan þier og ydrer arfar hallda vid oss þessa sattargiord.

10. Eru vær lauser ef rofiñ verdur af yduari hendi, ad bestra manna yfirsyn.

---

## T.

Hèr er Gamli sáttmáli prentaðr eptir skinnbók í hinu konúnglega bókasafni. Nye kongelige Samling Nr. 341. 8⁰. þessi skinnbók er rituð fyrir Hannes Björnsson í Snóksdal, merkan mann á sinni tíð, á árunum 1656 til 1658. Texti lögbókarinnar sýnist vera hèr lagaðr eptir hinni prentuðu útgáfu; sömuleiðis eru rèttarbætrnar hèr hinar sömu, og í sömu röð, einsog í útgáfunni; sáttmálinn er hèr seinastr í röðinni. Í þessari afskript er fellt úr í 9. grein öldúngis hið sama eins og í þeirri, sem hèr er næst á undan og í öllum prentuðu útgáfunum hinum fyrri; þetta er vottr um, að eptir að búið var að prenta lögbókina þá hafi menn skrifað hana upp eptir hinum prentuðu, en sjaldan eptir handritum.

---

Gamle sattmali millum noregz kongz og islandz.[2]

J Nafne faudur og sonar og anda heilagz.

var iatad og samþickt af ollum almuganum a islandi med lofa take

ad vær biodum virdulegum herra Hakoni kongi hinum koronada vora þionustu vndir þa grein laganna er samþickt er medal þegnanna og kongdomsinz þeirra er landit biggia.

1. Er su fyrsta grein ad vier vilium giallda kongi skatt og þungfarar (l) kaup slijkan (l) sem logbok vottar og alla þegn skylldu so framt sem haldiñ er[u] vid oz þau heit sem i moti skattinum var iatad.

---

¹) þetta frá [er fallið úr hèr í handritinu, og er það öldúngis eins og í eldri útgáfum Jónsbókar. Það er bersýnilega fellt úr af misgáningi.

²) fyrirsögn rauð. Upphafsstafr rauðr og dregið í grænt og blek.

2. J fyrstu ad vtan stefnur vilium vier onguar hafa vtan þeir sem dæmdir verda af vorum [monnum] a islandi a alþingi i burtt af landinv

3. Jtem ad islendskir sie logmenn a landi voru af þeirra ætt sem godordin ad fornu hafa vpp gefit.

4. Jtem vj hafskip gangi a huoriu arj til landsiñz forfalla laust.

5. arfar skulu vppgiefast i noreigi islendskum manni huorsu leingi sem stadit hafa þegar riettir arfar koma til edur þeirra vm̃bodz menn

6. 'land aurar skulu þeim og vppgiefast

7. Slijkan rjett skulu islendskir menn hafa i noregi sem þeir hafa bestañ haft.

8. Ad kongr lati oz na izlendskum logum og fridi eptir þui sem logbok vottar og hann hefur bodit i sijnum brefum sem gud gefr honum afl til

9. Jarl vilium vier og hafa a medan hann helldur trunad vid ydur [en frið við oss. Halda skulu vær ok vorir arfar allan trunað við yðr[1] medañ þier og ydrir arfar hallda vid oz þeza sattar giord.

10. erv vær lausir ef rofiñ verdur af yduarj hendi ad bestu manna yfer sijn.

---

[1]) fra [er fellt úr i handritinu, eins og í útgáfum Jónsbókar hinum eldri.

# Viðbætir.

1. 1192. Rómaborg.

Skrá páfagarðs í Rómaborg um biskupsdæmi þau, sem heyrðu undir erkibiskup í Niðarósi, og áttu að gjalda til páfastólsins.

Codex censualis (perg. in fol.) í skjalasafni páfans, merktr á kjölnum Cenci Camerari Divers. 18. fol. 5 og 44. Dipl. Norveg. VIII, 5—6.

Incipit liber censuum Romane ecclesie a Cencio Camerario compositus secundum antiquorum patrum regesta et memorialia diuersa. Anno incarnationis dominice m. c. xc. ij. pontificatus Celestini pape. iij. anno secundo.

Norwagia.

In archiepiscopatu Nidrosiensi.
In episcopatu Bergensi.
In episcopatu Stanuengrensi[1].
In episcopatu Hamarensi.
In episcopatu Asloensi.
In episcopatu Horchadensi[2].
In episcopatu Sudereiensi alias Manensi.
Ecclesia sancti Columbi de insula Hy. ii. Bisancios annuatim.

[1]) þ. e. Stavangrensi, nl. í Stafángri.
[2]) þ. e. Orcadensi, nl. í Orkneyjum.

In episcopatu Scalotensi in Islandia.
In episcopatu Holensi in Islandia.
In episcopatu Pharensi in Grotlandia[1].
In episcopatu Gardensi in Grotlandia[2].

Nota quod singule domus Norwagie singulos dant denarios monete ipsius terre.

---

## 2. 1198. Rouen.

Reikníngr um gjaldgreiðslu til Engla konúngs svo sem hertoga af Norðmandi fyrir selda íslenzka ull og íslenzkt skip.

Í Rúðuborg (*Rouen*), þar sem var aðsetr hinna fornu Rúðujarla og hertoganna af Norðmandi, eru enn til fornar reikníngabækr, um tekjur þær, sem hertogarnir fengu af ymsum hlutum og hlunnindum. Eptir að Vilhjálmr bastarðr vann England (1066) hélt hann jafnframt hertogadæminu í Norðmandi, og eru til enn reikningsbækr þær, sem haldnar voru í Rúðuborg yfir tekjur hertoganna. Þessar bækr eru á skinni, og hafa síðan verið prentaðar í Lundúnum með enskum útskýríngum: Magni Rotuli scaccarii Normanniæ sub regibus Angliæ. ed. Thomas Stapleton. 1840 og þar eptir, í 8 bl. broti. Hèr er tekið ágrip úr reikníngnum fyrir 1198 (Stapleton II (1844). XXII, 306), sem sýnir, að þá hefir að minnsta kosti eitt íslenzkt skip verið í Rúðuborg og farmr þess, að minnsta kosti að nokkru leyti, verið íslenzk ull. Af því sem hèr stendr, að hvorttveggja hafi verið selt, og andvirðið goldið í sjóð hertogans eða konúngsins yfir Englandi, virðist mega ráða, að þar hafi verið gjört upptækt hvorttveggja, skip og vörur.

---

Matthias Grossus Major Rothomagensis.
Radolfus Groinnetus.
Radolfus de Kailli receperunt pro se et tota com-

---

[1]) þ. e. á Færeyjum; eptir orðunum stendr þar: í færeyska biskupsdæminu á Grotlandi (nl. Grænlandi).

[2]) þ. e. í Garða biskupsdæmi á Grotlandi (nl. Grænlandi).

